# ÍSLENDINGA SAGA

EPTIR

BOGA TH. MELSTEÐ

GEFIN ÚT

AF

HINU ÍSLENSKA BÓKMENTAFJELAGI

ANNAÐ BINDI



KAUPMANNAHÖFN

PRENTUÐ HJÁ S. L. MÖLLER

1910

# Formáli.

Hver sá, sem vill rita rækilega um söguöld vora, mun finna til þess, hvílíkum erfiðleikum það er bundið, af því að það vantar samtíða heimildarit um hana. Sögurnar, sem segja af þeim tíma, voru ritaðar nálega tveimur öldum síðar, og urðu sagnaritarnir þá að fara mest eptir arfsögn þjóðarinnar og ýmsum sögnum. Eins og eðlilegt er, eru því margar missagnir í sögunum, og margt í þeim mjög óáreiðanlegt um einstök atriði, eins og missagnirnar í sögunum sjálfum og í einstökum handritum af sömu sögunni sýna ljóslega; en atburðir þeir, sem skýrt er frá í hinum sannsögulegu sögum vorum, hafa venjulega átt sjer stað. Um einstök atvik og atriði er aptur á móti venjulega mjög vont að fá áreiðanlega vissu.

Jeg hef getið um margar missagnir, bæði í meginmálinu og neðanmáls, svo að lesendurnir gætu sjeð þær, en mjög opt hef jeg þó orðið að sleppa þeim, því að bók þessi hefði annars orðið altof löng. Af sömu ástæðum hef jeg sjaldan getið um skiptar skoðanir vísindamanna á ýmsum einstökum atriðum, nema í fyrsta kaflanum um elstu stjórnarskipun landsins. Þar varð varla hjá því komist í jafnítarlegri sögu sem þessari, því að skoðanir þeirra manna, Konrads Maurers og Vilhjálms Finsens, sem mest og best hafa ritað um það efni, voru mjög sundurleitar; en á frásögn þeirra hafa ýmsir menn, sem ritað hafa

um stjórnarskipun landsins í fornöld, aðallega bygt frásögu sína. Það voru því miklar og sjerstakar ástæður að geta um þær.

Bindi þetta hefur komið út í fjórum heptum, og hafa þau verið prentuð jafnóðum og jeg hef ritað þau. En af því leiðir að jeg mundi nú hafa komist sumstaðar öðru vísi að orði. en raun er á orðin. Jeg skal t. a. m. benda hjer á fyrirsögnina fyrir þessu bindi, orðið „þjóðveldi“, sem jeg hef notað um tímann frá 930 til 1264, eins og venja hefur verið nú um hálfa öld. Það orð á í raun rjettri eigi vel við, af því að Ísland var á þeim tíma mörg smá ríki, „goðorð“, en þjóðveldi er ungt orð, sem hefur verið búið til um annað stjórnarskipulag en það, sem var með forfeðrum vorum í fornöld. Höfðingjarnir, einkanlega goðarnir, en ekki þjóðin, rjeðu mestu, enda eru goðorðin í fornöld kölluð ríki, en Ísland alt var aldrei nefnt því nafni, heldur „land“ eða „Ísland“. Hins vegar má altaf breyta þessu, ef hið forna stjórnarskipulag kann að verða ljósara fyrir mönnum við það, eða ef það kann að geta komið í veg fyrir það, að menn blandi saman nútíðarskipulagi þjóðveldis við hið forna stjórnarskipulag á Íslandi og tengi við það hugmyndir og hugtök, sem voru eigi til í þá daga. Þess ber að gæta, að rjettarskoðanir manna breytast mjög mikið eins og annað í mannlífinu, þá er um langan tíma er að ræða. Einnig er það rjettast að nota sömu nöfnin sem Íslendingar sjálfir notuðu á þeim tímum, þá er það er hægt.

Þótt bók þessi sje vísindaleg, hef jeg reynt að gera hana svo úr garði, að hver greindur alþýðumaður geti auðveldlega lesið hana. En sökum þess hef jeg stundum skýrt ítarlegar ýms atriði, en jeg hefði annars gert, ef bókin væri ætluð vísindamönnum einum, en eigi almenningi líka. Fyrir því hef jeg t. a. m. skýrt frá útbreiðslu kristninnar norður eptir löndum áður en hún kom til Íslands, því að um það er ekkert rit til á íslensku.

Rjettritunin á bindi þessu er eigi að öllu leyti samkvæm og veldur því tvent, ósamkvæmni sú, sem er almenn í rjettritun landsmanna, og að bindið er prentað á löngum tíma. Jeg bið góða menn að virða slíkt á betri veg.

Vinur minn, prófessor Finnur Jónsson, hefur lesið aðra prófórk á bindi þessu og gefið mjer margar góðar bendingar. Jeg þakka honum kærlega fyrir hvorttveggja.

Kaupmannahöfn, 17. júní 1910.

*Bogi Th. Melsteð.*

—

# Efnisskrá

# Inngangur.

Öll saga Íslendinga skiptist í tvo höfuðhluti:

Hinn fyrri hefst, þá er menn tóku að byggja landið og settu þjóðveldi á stofn, og endar þá er það leið undir lok á árunum 1262—1264. Þá var Ísland sjálfstætt ríki.

Hinn síðari hluti sögu vorrar nær yfir allan þann tíma, sem liðinn er síðan landsmenn gengu undir Noregskonung.

Báðir þessir hlutir, eða aðalkaflar, skiptast aptur í tímabil.

Landnámsöldin er inngangur að fyrri hlutanum, Sturlungaöldin að hinum síðari. Landnámsmenn komu til landsins úr ýmsum áttum. Á milli þeirra var ekkert samband, en sameiginlegt mál, sama þjóðerni, samskonar endurminningar og sama trú að því er flesta þeirra snerti, tengdi þá saman. Þeir námu allir eitt og hið sama land, úti í reginhafi, langt fjarri öllum öðrum löndum. Náttúran sjálf benti þeim því á og innri nauðsyn bauð þeim að bindast fjelagsskap, stofna ríki og gerast ein þjóð. Með þessu hefst þjóðarsaga Íslendinga.

En sagan skiptist einnig í ytri og innri sögu. Hin ytri saga skýrir aðallega frá hinum ytri viðburðum, ófriði og deilum. Meginþátturinn í henni er venjulega um deilur og vopnaviðskipti við aðrar þjóðir. Íslendingar eiga á þjóðveldistímanum nálega enga ytri sögu í eiginlegum skilningi, af því að þeir áttu mjög lítið í deilum við aðrar þjóðir. Fjarlægð landsins hindraði það. Úthafið var varnargarður þess. Ytri saga vor er því aðallega um þá viðburði, sem

gerast í landinu sjálfu, um stofnun ríkis og um breytingar á stjórnarskipun þess, um trúarskiptin og um innbyrðis deilur og endalok þjóðveldisins. Hin innri saga lýsir löggjöfinni, fyrirkomulagi þjóðfjelagsins og hag þjóðarinnar í öllum greinum.

Hjer verður fyrst skýrt frá hinni ytri sögu þjóðveldisins, og til þess að hafa glöggara yfirlit yfir hana, er henni skipt í tímabil. Fyrst er söguöldin frá 930 til 1030. Þá myndast og festist stjórnarskipun landsins eptir Úlfljótslögum. Þau eru endurbætt optar en einu sinni, og stjórnarskipunin kemst í það horf, sem hún hjelt lengi síðan. Heiðinni trú er hafnað og kristin trú er í lög tekin. Fjör og lífsþróttur ólgar í æðum landsmanna. Margir merkir og ágætir menn eru uppi. Mikið af sögu þjóðarinnar er um einstaka menn og ættir. Hún er sundurlaus í mörgum þáttum, sem renna stundum saman á alþingi. Á þessum tíma gerast flestir þeir atburðir, sem Íslendinga sögur segja frá, og því er tímabil þetta kallað söguöld.

Næsta tímabilið er hjer nefnt friðaröld. Það nær frá 1030 til 1118, og hefst þá er ný kynslóð er komin á legg eptir að kristni var lögtekin. Vopnaglamrið hættir og sögunum fækkar, en almennur friður rennur upp í landinu. Þá er mikið unnið í þarfir friðarins og kristinnar trúar, sem engar sögur fara af. Kirkjur eru reistar, landsmenn fræddir um kristna trú, biskupsstólar settir og skólum komið á fót handa kennimönnum. Hinir mestu skörungar landsins eru þá meðal kennimanna. Þeir eru þjóðlegir og margir þeirra höfðingjar. Saga landsins verður nú fremur ein heild en áður, og biskuparnir eru riðnir við flesta atburði.

Hinn sami norræni frægðarandi lifir ávalt. Hin besta skemtun manna eru forn kvæði og sögur, sem maður sagði manni. Mikill fróðleikur, skáldskapur og lög, sögur, sagnir og ættartölur lifir á vörum þjóðarinnar. En nú hafa íslenskir kennimenn lært að rita og kent þá list frá sjer. Landsmenn taka því að rita upp lögin (1117—1118) og að setja saman þær sögur og ættartölur, sem þeir gátu yfir komist. Þá hefst það tímabil, sem nefnt hefur verið ritöld

(frá 1118 til 1200), sökum þess að ritstörf manna einkenna þann tíma mest, og bókagerðin, sem þá hófst á Íslandi, er svo merkileg. Landsmenn eru duglegir og hagur þeirra er enn venjulega í blóma. Í lok 12. aldar fer þó hið upphaflega jafnvægi á milli höfðingjanna að færast nokkuð úr lagi, af því að goðorðin ganga að erfðum og þau má selja og afhenda eptir vild, svo að sami maðurinn getur eignast mörg goðorð. Nokkrum höfðingjum tekst því í lok aldarinnar að ná undir sig tveimur eða þremur goðorðum, og þá er kemur fram á 13. öldina fer ójöfnuðurinn vaxandi. Á þennan hátt hverfur jafnvægið, og völdin, sem voru áður aðallega í höndum hjer um bil 50 manna, komast í hendur fárra manna, og þeir leggjast í deilur út af þeim. Jafnframt þessu spillist siðferði manna og erkibiskupinn í Niðarósi lætur þá svo til sín taka um kirkjumál á Íslandi, að alvarlegar deilur hefjast á milli kennimanna og leikmanna eptir 1200.

Við ófriðinn vex fjandskapur meðal manna. Höfðingjarnir verða blindir af metorðagirnd, heipt og hatri. Þeir hlýða engum innlendum dómi, en fótum troða landslögin. Þeir verja kröptum sínum til þess að fullnægja valdafýst sinni og yfirvinna mótstöðumenn sína, landa sína, en um velferð og framtíð landsins skeyta þeir þá eigi. Noregskonungur sætir nú lagi og beitir þeim hverjum á móti öðrum, uns hann nær yfirráðum yfir landinu.

Framan af 13. öld blómgast bókmentirnar. Friðsemdarmennirnir halda áfram ritstörfum sínum, og ritstörf eru þá orðin ýmsum landsmönnum eiginleg. En ófriðurinn dregur úr þeim, þá er álíður, hnekkir þeim eins og atvinnuvegum landsins og öðru nýtu og góðu í landinu. Þó eru ritin, sem samin eru á þessum tíma, hið merkasta, sem gert er. En samt er tímabil þetta, frá 1200 til 1264, eigi kent við þau, heldur við Sturlunga, eina af þeim fjórum ættum, sem mestu ræður og einna mestan þátt á í ófriðnum, og kallað Sturlungaöld. Hinar skaðvænu róstur og deilur einkenna miklu meira þennan tíma en bókmentirnar.

og hafa enn stærri afleiðingar í för með sjer fyrir landsmenn. Vegna þeirra missa þeir sjálfsforræði sitt.

Innri saga Íslendinga skiptist eigi á sama hátt í tímabil sem hin ytri. Innri sögu þjóðveldisins er haganlegast að lýsa í einni heild. Ef henni væri skipt í fjögur tímabil, yrði ómögulegt að komast hjá ýmsum endurtekningum. Henni verður því lýst í einu lagi, þá er ytri sögunni er lokið.

Saga Íslendinga á þjóðveldistímanum er að ýmsu leyti mjög merkileg, eigi að eins fyrir oss sjálfa, heldur og fyrir aðrar germanskar þjóðir. Stofnun ríkis á Íslandi má heita einstakur viðburður í sögu germanskra þjóða. Hvernig það atvikaðist er yfirleitt allvel kunnugt, en menn vita eigi greinilega, hvernig önnur þjóðfjelög á miðöldunum mynduðust, því að það gerist áður en sannar sögur byrja.

Landnámsmennirnir höfðu allmikla reynslu að byggja á, bæði úr Noregi og vestan um haf. Þar höfðu margir Norðmenn dvalið alllengi, kynst keltneskum þjóðum og staðið í stórræðum. Þar höfðu þeir sett nýlendur á stofn og fengið reynslu og þekkingu, sem eflaust hefur komið sumum þeim mönnum, sem fóru þaðan til Íslands, að einhverjum notum. En dæmi Þórólfs Mostrarskeggs og Úlfljóts sýnir hins vegar best, hve stjórnvitrir þeir menn voru og hvaða reynslu þeir höfðu, sem komu beint frá Noregi, og hve vel þeir kunnu að laga forna reynslu, fornan sið og stjórnvenjur eptir nýjum ástæðum. Hið nýja ríki, sem Úlfljótur og allir landsmenn settu á stofn, stóð í rúmar þrjár aldir, þrátt fyrir það þótt enginn yfirstjórnandi væri skipaður í því til þess að gæta laganna, hafa framkvæmdarvald á hendi og halda landsmönnum innan vjebanda laganna. Þetta sýnir best, hve stjórnarlögum landsmanna var vel fyrir komið og hve mikla virðingu þeir báru fyrir lögum og landsrjetti, þar sem hver átti að gæta rjettar síns sjálfur, og hið persónulega frelsi var svo mikið. Þeir brutu að vísu opt lög hver á öðrum, en þeir viku um langan aldur eigi frá þeim grundvelli, sem stjórnfrelsi þeirra hvíldi á, frá jafnvægi því, sem var á milli goðanna, þeirra höfðingja, sem höfðu landsstjórnina aðal-

lega á hendi. Ef ójöfnuður einhvers og yfirgangur keyrði fram úr öllu hófi, þá risu menn upp og skárust í leikinn. Ef einhver vildi fyrirgjöra frelsi landsins eða misbjóða því, sem mönnum var helgast og kærast, þá gátu menn fengið svo mikinn viðbjóð á slíkum mönnum, að þeir vildu eigi við þá eiga, og eigi selja þeim lífsnauðsynjar.

Hið íslenska þjóðfjelag er lítið, svo fáment og fátækt, að það er eitt hið minsta þjóðfjelag, sem til er á jörðunni. Í fornöld var það líka fáment og fátækt, þótt það að vísu væri að tiltölu miklu ríkara og fjölmennara í samanburði við önnur skyld þjóðfjelög og ríki en það er nú á dögum, því að öðrum þjóðum hefur farið margfalt meira fram á síðari öldum en Íslendingum. En íslenska þjóðfjelagið var þó nógu stórt til þess að blómgast, lifa sínu eigin lífi, varðveita fornan norrænan anda og fá heimsþýðingu í sögu miðaldanna. Það var af því að þetta litla þjóðfjelag átti þá að tiltölu mjög marga ágæta menn, menn af göfgu kyni, sem höfðu staðið í stórræðum og höfðu lífsskoðun dugandi manna. Þeir voru vanir að stjórna og að vinna, og höfðu löngun til að láta til sín taka og láta nýt verk liggja eptir sig. Það voru menn, sem hugsuðu um frægð og frama, og höfðu vit og hugsun, þrek og þrótt til þess að inna andleg stórvirki af höndum, sem hafa verið þeim og allri íslensku þjóðinni til sóma. Þeir hjeldu jafnt uppi frægðarverkum feðra sinna sem virðingu sjálfs sín. Þeir lifðu eigi í aðgjörðarleysi og ómensku, en sóttu mannfundi og leituðu sjer frama og þekkingar í öðrum löndum. Líf þeirra var sögurikt, sjóndeildarhringur þeirra víður, því að þeir höfðu ávalt athafnir og afrek annara þjóða til samanburðar við sín eigin. Það, sem þeir sáu fegurst og nytsamast hjá öðrum þjóðum, ritlistina, tóku þeir í þjónustu sína til þess að halda uppi virðingu og frægð forfeðra sinna, eigin sögu sinni. Sómatilfinningin var svo rík, að margur góður drengur kaus heldur að láta lífið, en lifa við smán og bera bleyðiorð. Þeir vildu vera menn og voru það.

# Fyrsta tímabil. Söguöldin.

## 930—1030.

### I. Stjórnarskipunin.

### Úlfljótslög; upphaf alþingis.

Fáir viðburðir í sögu Íslendinga eru svo merkir og þýðingarmiklir sem setning Úlfljótslaga, því að þá eignuðust landsmenn fyrst sameiginleg lög, og með þeim var sett ríki á stofn á Íslandi. Það náði yfir alt landið, og var óháð öðrum ríkjum eða útlendum höfðingjum. Með Úlfljótslögum var alþingi sett á stofn og frá þeim tíma „höfðu allir menn ein lög hér á landi“, eins og segir í nokkrum fornritum vorum.[1])

En því miður skýra fornrit vor að eins stuttlega frá Úlfljótslögum og stofnun alþingis. Þetta gerðist hjer um bil tveim öldum áður en menn tóku að rita sögur hjer á landi, svo eðlilegt var að þá hefði gleymst, hvernig það atvikaðist að Úlfljótur fór til Noregs að semja lög handa landsmönnum, hvort hann sjálfur átti upptökin að því eða aðrir, hvort lög hans voru samþykt mótmælalaust eða með breytingum o. s. frv. Engar nákvæmar frásagnir af þessu og setningu alþingis eru nú kunnar. Einnig er það eðlilegt að Úlfljótslög gleymdust og að mönnum sje lítið kunnugt um efni þeirra og innihald. Þau voru aldrei rituð upp, og það var eins og sams

[1]) Hksb. 268 95; Flat. I. 249; Þórðar s. hr. 93; Mb., Ísl. I, 334.

konar kraptur væri í þeim fólginn sem í frækorni, er mikið og fagurt trje vex upp af. Upp af Úlfljótslögum óx öll hin merka þjóðveldislöggjöf Íslendinga, en þau runnu sjálf saman við löggjöfina, svo að eigi varð hægt að greina þau frá henni. Íslendingar gerðu mikið á meðan þeir voru sjálfstæð þjóð til þess að halda uppi lagaþekkingu í landinu: en það var hin þágildandi löggjöf. Úlfljótslögin — eða það, sem var eptir af þeim — með öllum áorðnum breytingum og nýjum lögum, er þeir ljetu segja upp á alþingi og námu þar og í heimahúsum af lögfróðum mönnum og varðveittu, þangað til þeir rituðu þau upp á 12. öld.

Viðburðirnir eru einnig misjafnlega vel lagaðir til þess að festast í minni manna. Hreystiverk, frægar ferðir og aðrir atburðir, sem urpu einhverri frægð á einstaka menn, geymdust best, enda lögðu menn í þá daga langmesta stund á að halda uppi afreksverkum einstakra manna, bæði sínum og ættmanna sinna og annara. Að fara utan og semja lög handa landinu og fá landsmenn til þess að samþykkja þau, var eins víðfrægt verk eins og að berjast „einn við átta, en við ellifo tysvar". Þess vegna var verki Úlfljóts haldið uppi eins og bardaga Egils Skallagrímssonar, en sá er munurinn, að sagt er nákvæmlega frá Vermalandsferð Egils og öllum atvikum við bardaga hans, en af ferð Úlfljóts segir ekki nje atvikum, þá er alþingi var sett. Mönnum þótti engin skemtun að slíku í samanburði við sögu af hreystiverkum. Það þurfti einnig meiri og um fram alt annan andlegan þroska og áhuga, þekkingu og umhugsun til þess að skýra frá lögum og fyrirkomulagi þjóðfjelags, en vígum og hreystiverkum: fyrir því gat frásögn um innihald laga, sem úr gildi voru gengin, eigi gengið eins auðveldlega á meðal manna eins og sögur af frægðarverkum.

Ari hinn fróði Þorgilsson skýrir í Íslendingabók stuttlega frá Úlfljótslögum og upphafi alþingis. Enn fremur er skýrt frá því í tveimur Landnámuhandritum, Hauksbók og Melabók hinni yngri,[1] Þorsteins þætti uxafóts og Þórðar

[1] Ldn. 7 257—59; Hksb. 268 95—6 sbr. Hksb. bls. 503; Ísl. I, 334—36.

sögu hreðu.[1]) og er þar farið svo líkum orðum um þetta, að telja má líklegt að frásögnin í þessum fjórum ritum eigi uppruna sinn að rekja til einnar heimildar. Konrad Maurer, sem hefur ritað ítarlegast og best um heimildir þessar,[2]) ætlar að þær eigi allar ásamt frásögn Ara hins fróða uppruna sinn að telja til Íslendingabókar hinnar eldri eptir Ara, en það er þó heldur ólíklegt. Hin eldri bók Ara er nú fyrir löngu týnd, svo eigi er hægt að leiða fullnaðarrök að þessu; en eptir því, sem Ari segir sjálfur í formálanum fyrir Íslendingabók hinni yngri, hefur eldri bókin ekki verið ítarlegri um sögu og löggjöf Íslands en hin yngri, heldur þvert á móti. Aptur á móti voru ættartölur og konungaæfir í eldri bókinni. Þeim slepti Ari úr, er hann ritaði yngri bókina upp eptir hinni eldri, en hann jók því við, er honum varð síðan kunnara um ýms atriði í sögu Íslendinga.

Auk þessara heimildarrita geta flestir hinir elstu annálar vorir um stofnun alþingis eða um Úlfljótslög, en á þeim er í raun rjettri ekkert að græða í þessu atriði.

Frásögn Ara hins fróða er áreiðanlegust, það sem hún nær,[3]) en hin frásögnin getur eigi verið rjett að öllu leyti. Bæði er þar blandað saman Úlfljótslögum og skiptingu landsins í fjórðunga, og svo er þar einnig sagt að menn hafi verið „valdir til at geyma hofanna at viti ok réttlæti“, en það getur eigi verið rjett.[4]) Hof og goðorð voru eigi tekin af eigendum þeirra, þá er alþingi var sett eða landinu skipt í fjórðunga, en það hefði orðið að gera, ef þetta væri rjett, og fá þau í hendur hinum vitrustu og bestu mönnum, ef þeir höfðu þau eigi áður. Hins vegar getur verið, að í sumum hlutum landsins hafi verið svo margir goðar og svo mörg hof, að velja hafi orðið á milli þeirra, og ákveða, hverjir goðar skyldu verða hluttakandi í stjórn og löggjöf

---

[1]) Flat. I, 201/249; Þórðar s. hr. 1/93 4. [2]) Die Quellenzeugnisse über das erste Landrecht und über die Ordnung der Bezirksverfassung des isländischen Freistaates. München 1869. [3]) Sbr. V. Finsen, Den opr. Ordning af den isl. Frist. Institutioner bls. 31 o. ef. [4]) Sbr. Maurer, Die Entstehung d. Isländ. Staats bls. 165; Upphaf allsherjarríkis á Íslandi bls. 149.

landsins, og hvaða hof skyldu verða höfuðhof. Það liggur í hlutarins eðli, að þeir hafa þá einkum orðið fyrir kjöri, sem mest áttu undir sjer og höfðu fylgi flestra manna, og að hof þeirra, er kjörnir voru, urðu höfuðhof. Einnig er rangt í sömu grein, þar sem sagt er að goðarnir skyldu „stýra sakferli“. Það gerðu þeir ekki og er þarna blandað málum við það, er átti sjer stað löngu síðar, þá er landið var komið undir konung.[1])

Þá er Ísland var víða bygt orðið, fólksfjöldinn óx og viðskiptin ukust, tóku landsmenn að sakna þess, að þeir áttu engin sameiginleg lög til þess að fara eptir. Hinum vitrustu mönnum varð það þá ljóst, að svo búið mátti eigi standa til lengdar, ef alt skyldi fara með feldu. Landsmenn urðu að eignast sameiginleg lög og dóma til þess að dæma, hvað lög væri um mál manna. Hvort landsmenn hafa rætt þetta málefni alment á milli sín, er nú eigi kunnugt, því að af því segir alls ekkert. Hins vegar er það líklegt, og sumt bendir á að svo hafi verið. Þá er komið var með hin nýju lög til landsins, voru menn fljótir að samþykkja þau; þeim var tekið eins og gesti, sem allir áttu von á og töldu sjálfsagt að taka vel við. Einn af hinum helstu landnámsmönnum fór til Noregs til þess að taka saman landslög handa mönnum. Hann hjet Úlfljótur og átti heima austur í Lóni.[2]) Hann hafði þá verið í kringum 20 ár hjer á landi, svo að hann hefur verið töluvert kunnugur landinu og kunnur á meðal landnámsmanna. Hann mun hafa farið af Hörðalandi til Íslands, því að þaðan var hann ættaður. Ari hinn fróði segir að hann hafi verið „maþr austrœnn“, en það þýðir eigi annað en norrænn, norskur eða frá Noregi.[3]) Hins

[1]) Sbr. V. Finsen, Islandsk Retshistorie, § 29. A. M. Access. nr 6.
[2]) Sjá að framan I, 110, 188; Íslb. 2 5, sbr. Ldn. 16 219. [3]) Íslb. 2 5. Norðmenn eru í sögunum opt kallaðir Austmenn á Íslandi, í mótsetningu við Vestmenn frá Írlandi eða vestan um haf. Austrænn viður í Grag. I, 130 er norskur viður. Menn hafa stundum misskilið þessi orð Ara á ýmsan hátt t. a. m. í Austra 1892, 2. ári, nr. 34, bls. 135, þar sem sagt er að austrænn muni benda á að Úlfljótur hafi verið sænskur eða gautskur að föðurætt.

vegar getur það eigi þýtt, að hann hafi þá komið fyrst til Íslands frá Norvegi, er hann kom út með lögin, og eigi lýtur það heldur að því, að hann hafi verið nýkominn til landsins, er hann fór að semja lögin. Faðir Úlfljóts er eigi nafngreindur, en móðir hans var Þóra, dóttir Hörðakára,[1]) eða Ketils Hörðakára Áslákssonar, og er sagt að sú ætt sje komin frá fylkiskonungum.[2]) Móðurbróðir Úlfljóts var Þorleifur hinn spaki Hörðakárason, sem var mestur lagamaður í Noregi á þeim tímum og spekingur að viti. Sumir hafa ætlað, að Þorleifur hinn spaki hafi eigi verið til nema í ímyndun manna,[3]) en eigi er gild ástæða til þess að ætla svo. Sá Þorleifur hinn spaki, sem nefndur er á dögum þeirra Hákonar Hlaðajarls, Ólafs Tryggvasonar og Eiríks jarls, var dóttursonur hans.[4]) Aptur á móti hefur ein ósönn sögusögn festst órjettilega við Þorleif hinn spaka Hörðakárason og gert hann að samtíðarmanni Hálfdanar svarta. Sögusögn sú segir, að hann gæfi konungi ráð, er dugði, til þess að hann skyldi dreyma og að hann þýddi síðan draum konungs.[5]) En líklega hefur sögusögn þessi myndast, þá er fram liðu stundir og menn sáu hve afspringur Hálfdanar svarta var mikill, og þá hefur hún verið heimfærð upp á Þorleif hinn spaka, vegna þess að hann var kunnur fyrir speki sína. Menn gættu eigi rjetts tímatals, þá er þeir bjuggu slíkt til, og höfðu líka lítil tæki til þess. Þorleifur hinn spaki hefur verið nafnkunnur maður og margir landnámsmenn, einkum þeir, sem voru af Hörðalandi, hafa að líkindum þekt hann eða heyrt hans getið. Ef landsmenn hafa rætt löggjafarmál sitt áður, en Úlfljótur fór utan, og skorað á hann að fara eða jafnvel kosið hann til fararinnar, mun þeim, sem til þektu, hafa þótt hann eiga hauk í horni við lagasamninguna, þar sem Þorleifur hinn spaki var. Lík-

[1]) Sbr. Íslb. 2/5; Hkr. I, 54/363; Fms. II, 143/287. [2]) Hksb. 268/95; Ldn. 7/257; Flat. I, 201/249; Þórðar s. hr. 1/93. [3]) Munch, Hist. I, 408, 566, 715; II, 62; Maurer, Isl. 50 og V. Finsen, Den opr. Ordn. af Frist. Instit. 36, virðist jafnvel vera á skoðun Munchs; sbr. einnig Guðbr. Vigfússon, Corpus poëticum boreale II, 497. [4]) Hkr. I, 8/240; Fms. II, 172/58; III, 264/25—6; Hallfr. 6/97—9, 11/112—13; sbr. Finnur Jónsson, Arkiv VI, 146—47. [5]) Hkr. I, 7/94.

lega hefur Úlfljótur sjálfur einnig verið kunnur fyrir lagafróðleik og hyggindi, áður en hann fór utan. Hann var þá orðinn aldraður maður. Í Hauksbók segir að hann hafi þá verið „60 að aldri“, í Þorsteins þætti uxafóts „nær 60“ og í Melabók „nær hálfsextugr at aldri“. Eptir því hefur hann verið milli þritugs og tertugs, þá er hann flutti til Íslands.

Þá er Úlfljótur kom til Noregs, hefur hann farið á fund Þorleifs hins spaka móðurbróður síns og leitað ráða hjá honum. Úlfljóti sjálfum eða þeim báðum hefur þótt rjettast að taka þau lög til fyrirmyndar, sem flestir landnámsmenn þektu af eigin reynd, en það voru Gulaþingslög. Úr þeim fylkjum, þar sem þau giltu, voru miklu fleiri landnámsmenn en úr öðrum fylkjum í Noregi, þar sem önnur lög voru. Ari fróði segir að lög þau, sem Úlfljótur hafði út hingað úr Noregi, „vǫro flest sett at þuí, sem þá vǫro Golaþings log, eþa róþ Þorleifs ens spaca, Hǫrþacára sonar, vǫro til, huar viþ scylldi auca eþa af nema eþa annan veg setia“.[1])

Þótt þess sje getið í Noregskonunga sögum, að Hákon konungur Aðalsteinsfóstri (um 935—961) hafi sett Gulaþingslög með ráði Þorleifs spaka,[2]) hefur hann þó eigi gert það fyrstur manna. Það þarf varla að efa, að þau hafi verið til áður. En Hákon konungur mun hafa breytt þeim og endurbætt þau, og stækkað umdæmi Gulaþingslaga.[3]) Aðalatriðið í frásögn Ara hins fróða er því að öllum líkindum alveg rjett. Gulaþingslög, eins og þau voru síðast á dögum Haralds hárfagra, hafa verið notuð til fyrirmyndar, þá er Úlfljótslög voru sett saman. Nú eru þau eigi til, heldur önnur Gulaþingslög miklu yngri. Efnið í þeim er

---

[1]) Íslb. 2 5. [2]) Ágr. 5 382; Hkr. I 11 182; Ól. s. s. 10,9; sbr. Hertzberg, Den ældste norske Proces bls. 117. [3]) Sbr. að framan I. 43; K. Maurer, Die Entstehungszeit d. älteren Gulathingslög, bls. 9; Graagaas (í Ersch u. Grubers Encyklopädie) bls. 18; De nordgermanske Retskilders Historie bls. 13. Maurer ætlar að Gulaþingslög sjeu eldri en frá dögum Hákonar konungs. Það er eigi ólíklegt að Þorleifur hinn spaki, sem var í ráðum með Hákoni konungi, hafi átt upptökin að sumum þeim breytingum, sem þá voru gerðar á Gulaþingslögum, og að hann hafi fyrst fundið að þau þurftu að ýmsu leyti breytinga við, þá er hann íhugaði þau ásamt Úlfljóti.

mestmegnis frá fyrri hluta 12. aldar, og þau hafa verið rituð upp snemma á 13. öld.[1]) Það er því ómögulegt að vita, hvað í Úlfljótslögum hefur verið tekið úr Gulaþingslögum, þar sem bæði þessi lög eru týnd, og ómögulegt er að bera þau saman.

Hins vegar er það augljóst, að Úlfljótslög hafa að ýmsu leyti verið alt öðru vísi en Gulaþingslög. Ástæðurnar voru aðrar í Noregi en á Íslandi. Annars vegar var gamalt þjóðfjelag með stjórnarskipun og löggjöf, sem hafði myndast smátt og smátt á mörgum öldum og var sniðin eptir landsháttum, gömlum venjum, hag og sögu þjóðarinnar. Hins vegar var nýbygt land, þar sem alt var í fæðingunni. Landnámsmenn höfðu komið þangað hver fyrir sig með fjölskyldu sína. Þeir höfðu slitið hinn gamla þjóðfjelagsskap í Noregi, er þeir fóru að stofna nýtt þjóðfjelag í nýju landi. Þeir urðu auðvitað að laga hið nýja þjóðfjelag eptir þeim ástæðum, þörfum og kröfum, sem þar voru fyrir hendi, og gat þá stundum verið margs að gæta, því að menn höfðu flutt til Íslands úr öllum lögumdæmum Noregs og einnig vestan um haf. Landnámsmennirnir urðu að búa til ýmislegt nýtt og setja það á stofn. Í Noregi voru t. a. m. konungar, jarlar og hersar og margt það, sem þess konar stjórnarskipun var samfara. Á Íslandi áttu engir konungar, jarlar nje hersar að vera, en þar var sett þingaskipun á stofn, sem var bæði víðtækari og fullkomnari en þingaskipunin í Noregi. Jafnvel þótt miðað sje við fyrirkomulag það, sem átti sjer stað í Noregi áður en Haraldur hárfagri braut landið undir sig, var þó stjórnarskipulagið á Íslandi í ýmsum merkum greinum öðru vísi en í Noregi. Þetta var eðlileg afleiðing af því að hjer var um nýtt land, nýja bygð og nýtt þjóðfjelag að ræða. Náttúran var þar öðru vísi en í Noregi. Alt það, sem landnámsmennirnir fluttu með sjer frá Noregi eða vestan um haf, urðu þeir að laga eptir landsháttum og öðrum ástæðum á Íslandi og fella saman við

[1]) Fr. Brandt, Norsk Retshistorie I, 25—26; Maurer, De nordgerm. Retskilders Historie bls. 26—27; A. Taranger, Den norske Rets Historie I. Christjania 1898. Bls. 43.

hvorttveggja. Hinar gömlu skoðanir á lögum og landsrjetti, sem landnámsmennirnir höfðu fengið að erfðum í Noregi, urðu þeir að færa í nýjan búning. Þeir urðu að gefa sýslunum, stofnunum og rjettarverkum í hinu nýja þjóðfjelagi ný nöfn til þess að það gæti átt alveg við hugsunarhátt manna og aðrar ástæður hjer á landi. Þeir urðu að klæða rjettarfarið í nýjan hjúp. Þetta hefur Ara fróða verið allljóst. Fyrir því segir hann, að „flest“ í Úlfljótslögum hafi verið sett annaðhvort að því, sem þá voru Gulaþingslög, eða ráð Þorleifs hins spaka, Hörðakárasonar, voru til, hvar við skyldi auka eða af nema eða annan veg setja. Nokkuð af Gulaþingslögum mátti nota óbreytt: það var um það, sem var eins eða gat verið eins á Íslandi og í Noregi. Aptur á móti var annað í Gulaþingslögum, sem átti alls eigi við á Íslandi, af því að ástæður þær, sem gerðu slík lagaákvæði nauðsynleg í Noregi, voru eigi til á Íslandi: slíkt feldi Úlfljótur burtu. Sum ákvæði var að eins hægt að nota með því að breyta þeim: þau voru um það, sem til var bæði á Íslandi og í Noregi, en þó á sinn hátt í hvoru landi. Um það setti Úlfljótur lög „á annan veg“, en var í Gulaþingi. Þá er hið þriðja, sem Ari telur fyrst og að líkindum hefur verið merkast í löggjafarstarfi þeirra Úlfljóts, en það eru hinir svonefndu „viðaukar“ við Gulaþingslög. Á Íslandi var þörf á ýmsum lagaákvæðum, sem voru eigi til í Gulaþingslögum. Fyrir því jók Úlfljótur við þau, eða með öðrum orðum, hann bjó til ný lagaákvæði um það, sem nýtt var í hinu nýja þjóðfjelagi, er lögum hans skyldi hlíta, en hafði eigi verið til í hinu gamla þjóðfjelagi. Um það setti hann ný lög.

Alt löggjafarstarf Úlfljóts tók auðvitað töluverðan tíma. Hann varð bæði að kynna sjer vel Gulaþingslög og íhuga ítarlega, hvernig löggjöf, þingum og dómum yrði haganlegast fyrir komið á Íslandi. Síðan varð hann að setja saman lög um það og annað fleira, sem nauðsynlegt var fyrir landsmenn, þá er þeir settu þjóðfjelag á stofn. Einnig varð hann að læra jafnóðum þau lög, sem hann setti saman, eða setja þau svo vel á sig, að hann myndi þau, er hann kæmi aptur

til Íslands, því að ekkert af þeim var ritað. Að þessu starfi var Úlfljótur þrjá vetur í Noregi.[1]) En þá er því var lokið, fór hann heim aptur með lög sín í huganum, og segir Ari fróði, að Ísland væri þá víða bygt orðið. Í Konungsannál og Skálholtsannál segir að Úlfljótur kæmi 927 með lög til Íslands.[2]) Það er að vísu næsta þýðingarlítið, hvað annálaritarar vorir, sem voru uppi um 1300, segja um þetta atriði, því að þeir gátu eigi vitað neitt um það með vissu; samt er það mjög líklegt að Úlfljótur hafi einmitt komið út þetta ár með lögin, því að það fellur vel við frásögn Ara hins fróða um að Hrafn Hængsson tæki við lögsögu 60 vetrum eptir dráp Eadmundar konungs, eða arið 930.[3]) En þetta ártal er mjög merkilegt í sögu landsins, eigi að eins af því, að þá var alþingi komið á stofn og lögsögumaður valinn í fyrsta sinni, heldur og af því, að það er hið fyrsta ártal í sögu þjóðarinnar, sem ætla má um að sje alveg áreiðanlegt, eins og lögsögumannatal og tímatal Ara hins fróða sýnir. Það getur þó leikið á tveimur eða þremur árum (926—928), hve nær Úlfljótur kom út, en sje svo sem líklegast er, að hann hafi komið með lögin til landsins 927, þá hefur hann farið utan árið 924 til þess að setja þau saman.

Auk löggjafarstarfs Úlfljóts í Noregi þurfti einnig allmikinn undirbúning innanlands undir stofnun alþingis. Fyrst og fremst þurfti að velja stað handa þinginu og fá menn til þess að koma saman af öllu landinu, til þess að samþykkja lögin og setja alþingi á stofn. Sá maður, sem tókst á hendur að velja þingstaðinn, hjet Grímur geitskör,[4]) og er sagt, að hann væri fóstbróðir Úlfljóts. Hann kannaði alt Ísland „at ráði“ Úlfljóts, áður en alþingi var sett, til þess að vanda valið sem best. Eptir orðum Ara hins fróða að dæma, mun

---

[1]) Hksb. 268/95; Flat. I 201/249; Ldn. 334. [2]) Ann. IV. V; sbr. einnig yngri annála. Ann. VIII, IX. Ann. X segir það væri 928, en þá er ekkert að marka. [3]) Íslb. 3/6. [4]) Í handritum að Íslendingabók (sbr. Ísl. I, 365) stendur „geitscor“ og hefur Grímur því optast verið nefndur geitskór, en það hefur verið skýrt svo, að Grímur hafi verið brattgengur sem geit og fengið auknefni sitt af því. Geitskör = geitarhár, er líklega rjettara.

Úlfljótur hafa beðið Grím um að kanna landið, en eigi er neitt kunnugt um það, hvort hann hefur gert það áður en hann fór utan til þess að semja lögin, eða þá er hann kom heim aptur. Líklega hefur Úlfljóti verið svo ljóst um ætlunarverk sitt, áður en hann lagði af stað, að hann hefur þá verið ráðinn í að setja eitt alsherjar þing á stofn handa öllu landinu með lögum þeim, sem hann ætlaði sjer að semja og setja. Ef svo hefur verið, hefur hann getað lagt undir við fóstbróður sinn, áður en hann fór, að kanna landið á meðan, en annars eigi. En Grímur geitskör hefur auðsjáanlega kannað Ísland annaðhvort á meðan Úlfljótur var erlendis, eða þegar eptir heimkomu hans. Ísland er svo stórt og svo seinfarið um það alt, þótt um bygðirnar einar sje að ræða, að Grímur hefur tæplega haft nægan tíma til að kanna landið vel á einu sumri. Ef hann hefur fyrst byrjað á því, þá er Úlfljótur kom heim aptur, hefur hann tæplega haft tíma til þess, nema því að eins að Úlfljótur hafi komið út eigi síðar en snemma sumars 927; og þó hefur tíminn þá verið naumur, því að eigi er sennilegt, að þingstaðurinn hafi verið ákveðinn síðar en 928. Hins vegar bendir þóknun sú á, sem landsmenn fengu Grími fyrir könnun landsins, að hann hafi eigi gert það fyr en löggjafarmálið var komið svo langt á leið, að landsmenn voru gengnir í það. En það er óvíst hvort landsmenn hafa gert það fyr, en Úlfljótur kom út með lögin.

Það er því ómögulegt að segja með vissu, hvaða ár Grímur geitskör kannaði landið, enda skiptir það minstu. Hitt var þýðingarmeira að hann kannaði landið rækilega og valdi staðinn svo vel og heppilega að varla var hægt að gjöra það betur.

Þá er þingstaðurinn var ákveðinn, hefur orðið að senda boð út um alt land og stefna landsmönnum saman á hann hið næsta sumar, til þess að setja alþingi á stofn og samþykkja lög Úlfljóts. Síðar en 929 hefur það eigi verið, og hefur þá alt orðið að gerast á einu sumri, Úlfljótur að segja upp lög sín og landsmenn að samþykkja þau og læra, en í byrjun næsta þings var Hrafn Hængsson kosinn

lögsögumaður. Það kemur því heldur betur heim við tímann, að Grímur geitskör hafi kannað landið á meðan Úlfljótur dvaldi erlendis og að hann hafi verið búinn að sjá út þingstaðinn, er Úlfljótur kom heim. Á þann hátt hefur bæði hann haft nægan tíma til þess að kanna landið, og Úlfljótur til þess að boða landsmönnum á þing og segja upp lög sín, fá þau samþykt og kenna þau landsmönnum (927—929).

Grímur geitskör kaus stað handa alþingi á völlum nokkrum í Bláskógum,[1]) fyrir norðan Ölfossvatn; það var síðan kent við alþingi og kallað Þingvallavatn og vellirnir Þingvöllur eða venjulega Þingvellir. Þar mætast nú vegir að sunnan og austan, norðan og vestan, og var þegar auðsætt að staður þessi lá betur við fyrir flesta landsmenn en nokkur annar staður á landinu í þá daga. En auk þess ber staður þessi af flestum öðrum að mikilfengri og fjölbreyttri fegurð og tign. Þar eru grænir vellir til þess að heyja alþingi á, og hamrar og berg víða í kring um þá handa þeim að stíga upp á, er þurftu að tala til þingheimsins. Þar er og hin mikilfenga Almannagjá eins og bakhjarl eða varnarveggur fyrir alt þingið og samræðusalur handa öllum þeim, sem vildu ráða ráðum sínum eða mæla vinarmálum í einrúmi.

Um þetta leyti hafði maður nokkur, er átti land í Bláskógum og hjet Þórir kroppinskeggi orðið sekur um morð þræls eða leysingja, er Kolur hjet. Hann faust myrtur í gjá þeirri, sem við hann er kend og Kolsgjá var kölluð. Land Þóris var gert upptækt, og varð alsherjarfje, líklega af því að þræll eða leysingi átti hlut að máli annars vegar. Landsmenn lögðu það þá til alþingisneytslu, og hefur það líklega gerst er þeir settu alþingi á stofn; fyr gat það eigi verið. Almenningur átti síðan rjett að höggva þar við í

[1]) Sbr. að framan I, 219. Bláskógar munu hafa tekið nafn af því, að þeir hafa verið dökkir eða bláir að sjá úr fjarlægð. Af Lyngdalsheiði hef jeg optar en einu sinni, er jeg hef komið sunnan úr Grímsnesi, tekið eptir slíkum blæ yfir Þingvallasveitinni, einkum dalnum á milli gjánna, en það fer nokkuð eptir því, hvernig birtan er.

skógum til eldiviðar og annara þarfa um þingtímann, og á heiðum áttu þingmenn haga handa hestum sínum.[1])

*Öxará* rann þá út í Þingvallavatn fyrir vestan Almannagjá, skamt frá Skálabrekku, og sjest farvegurinn þar enn í dag. En litlu eptir að alþingi var sett, veittu landsmenn Öxará niður í Almannagjá; myndar áin þar fagran foss og fellur um stund eptir gjánni, en brýst síðan út úr henni og rennur um Þingvöll út í vatnið.[2]) Við þetta fríkkaði Þingvöllur enn meir, en þó að fegurðartilfinningin kunni að hafa ráðið hjer miklu um, mun þetta þó einnig hafa verið gert til þess að nægilegt vatn væri til við hendina á sjálfum þingstaðnum.

Þá er landsmönnum hafði verið boðað á þing við Ölfossvatn, komu þeir þar saman, og þá var, eins og Ari fróði segir, „*alþingi sett at ráþi Úlfliótz oc allra lanzmanna, þar es nú es*“.[3])

Af þessum orðum sjest glögt, að allir landsmenn hafa unnið að setningu alþingis og að það mál hefur hlotið að verða þjóðmál jafnskjótt og Úlfljótur kom út með lögin, ef það hefur eigi verið orðið það áður. Þá er þingið var sett, var því gefið nafn, að líkindum eptir tillögu Úlfljóts, og kallað *alþingi*, af því að það var þing allra landsmanna.

Aðalstarf hins fyrsta alþingis hefur verið að hlýða á lög Úlfljóts og samþykkja þau. Úlfljótur hefur orðið að skýra þingheimi frá þeim og hafa þau yfir, *segja þau upp*, svo að menn gætu íhugað þau og lagt samþykki sitt á þau og gert þau með því að landslögum. Hvernig gekk að samþykkja þau, segir ekki, en líklega hefur það gengið greitt. Eigi heldur er það kunnugt, hvort Úlfljótur hefur

---

[1]) Íslb. 3/6. [2]) Sturl. I. 12/203. Þessa er einnig getið í einu ómerku handriti af Landnámu, Skarðsárbók, A. M. 111 fol., Ldn. 12/312 nm. Um farveginn sjá Árbók fornleifafjelagsins 1881, bls 22—23. Hve nær Öxará var veitt niður á Þingvöll, er ókunnugt; en búið var að því um 945, þá er Sámur sótti Hrafnkel Freysgoða og einnig að gera brú á Öxará, ef marka má orð sögunnar um Þingvöll. Hrafnk.[2] 4/108. Ánni virðist því hafa verið veitt þegar eptir stofnun alþingis. [3]) Íslb. 3/5.

getað sagt upp öll lög sín á hinu fyrsta alþingi, en það er líklegt, því að ólíklegt er að þau hafi verið svo löng, að menn hafi viljað sætta sig við annað, en að fá að heyra þau öll þegar á hinu fyrsta þingi. En Úlfljótur hefur einnig orðið að kenna landsmönnum lög sín, og því er það eigi líklegt að hann hafi getað lokið öllu starfi sínu á einu alþingi, nema því að eins að hann hafi kent einhverjum mönnum lögin heima hjá sjer, og hann hafi á þann hátt búið þá (t. a. m. Hrafn Hængsson) undir lögsögumannsembættið. Að öðrum kosti hefur hann að líkindum orðið að segja upp aptur lög sín á næsta alþingi, og kenna landsmönnum þau þá betur. Hve langur tími hefur gengið til þessa, er nú eigi kunnugt, en ef hið fyrsta alþingi hefur komið saman árið 927, sem eigi er ómögulegt, þá hafa gengið til þess þrjú þing als (927—929).

Þá er Úlfljótur hafði gefið landinu lög og landsmenn lært þau, segir eigi síðar af honum. Annaðhvort hefur hann þá dregið sig í hlje og viljað að einhver yngri maður tæki við af sjer, eða hann hefur andast eða fatlast um veturinn 929—930; þó er þess eigi getið. Af orðum Ara hins fróða, er hann segir að Hrafn Hængsson tók lögsögu „næstr Úlflióti“.[1]) mætti jafnvel ráða að hann hafi verið lögsögumaður, en það hefur hann þó líklega ekki verið í orðsins vanalegu merkingu. Í lögsögumannatalinu í Uppsalaeddu[2]) er sagt, að Úlfljótur segði fyrstur lög upp á Íslandi og „at hans ráþi var alþingi sett“. Með þessum orðum hyggur höfundurinn þó eigi annað en að Úlfljótur hafi fyrstur haft yfir lög fyrir mönnum á alþingi, því að síðan segir hann, að Úlfljótur „hafði eigi laga uppsögu á Íslandi svá at þat sé vitað“,[3]) og hann telur Hrafn Hængsson hinn fyrsta lögsögumann hjer á landi eins og gert er í nokkrum öðrum fornritum.[4]) Í Melabók (A. M. 106 fol.) er sagt um Úlfljót, að hann „kendi fyrstr lög á Íslandi, ok með hans ráði var alþingi sett, en ekki hafði hann þar lögsögu, svá ritat sé“.[5]) Í heimildarrit-

---

[1]) Íslb. 3/6. [2]) Dipl. I, 560. [3]) Vitað er ef til vill ritvilla fyrir ritað, en annars þýðir það hjer sama sem kunnugt. [4]) Eg. 23/72; Ldn. 3/282; Stb. 344/217; Mb., Ísl. I, 337. [5]) Ísl. I, 337.

unum er eigi gerður svo glöggur munur á starfi Úlfljóts og lögsögumannanna sem skyldi, og hefur það vilt sjónir fyrir mönnum. Úlfljótur var löggjafi landsins, en hann var eigi lögsögumaður í sama skilningi og aðrir menn.[1])

Úlfljótur hefur eflaust verið mjög vitur maður og skörungur mikill: að öðrum kosti hefði hann eigi fyrstur manna ráðist í að útvega landinu lög. Ef hann hefur gert það upp á eigið eindæmi, sýnir það, hve mikill framkvæmdarmaður hann hefur verið; en hafi hann verið kvaddur til þess af landsmönnum, ber það vitni um, hvílíkt traust þeir hafa borið til hans.

Ari fróði segir, að hver maður hjer á landi hafi fengið Grími geitskör penning fyrir að kanna alt Ísland, og sýnir það að landsmenn hafa bæði kunnað að meta verk Gríms og að þeir hafi litið svo á, að hann hafi unnið það fyrir þá, en eigi fyrir sjálfan sig. Aptur á móti er þess eigi getið að þeir hafi greitt Úlfljóti neitt fyrir starf hans og hefur hann því líklega eigi fengið neitt. Það getur þó varla verið af því, að þeir hafi skoðað starf hans kostnaðarminna eða þýðingarminna en verk Gríms, heldur bendir það á, að Úlfljótur hafi farið utan af sjálfsdáðum. Það gat þá eigi komið til orða að greiða honum neitt fyrir ferðina og starf hans, fyr en hann var kominn heim aptur, og mun hann þá hafa eytt því, ef því hefur verið hreyft. Grímur geitskör naut eigi heldur sjálfur fjár þess, sem hann fjekk, heldur sýndi hann það veglyndi að gefa það til hofa.[2])

Lög þau, sem Úlfljótur setti, voru kend við hann og kölluð Úlfljótslög. Það er mikill skaði, að þau skuli eigi vera til, því að þau mundu hafa brugðið mikilli birtu yfir sögu þjóðarinnar og sýnt oss, hvernig þjóðfjelaginu var fyrir komið í upphafi. Úlfljótslög hafa þó geymst á vörum

---

[1]) Sbr. Þrjár ritgjörðir sendar Páli Melsteð. Kaupmannahöfn 1892. Bls. 59—61. Þar hef jeg áður látið í ljós nokkrar hinar sömu athuganir um stofnun alþingis sem hjer er skýrt frá. [2]) Íslb. 2,5.

lögsögumannanna og annara lögfróðra manna á meðan þau voru í gildi, en smátt og smátt óx upp mikil löggjöf í landinu, og sumt af Úlfljótslögum gekk þá úr gildi, en það, sem stóð óbreytt, dreifðist innan um löggjöf landsins og hvarf þannig úr sögunni, svo að nú er eigi hægt að skilja lagagreinir þær, sem kunna að eiga upphaf sitt að rekja til Úlfljótslaga, frá öðrum greinum í þjóðveldislögum vorum.

Hins vegar má ganga að því vísu að Úlfljótslög hafa innihaldið ákvæði um alþingi og þá stjórnarskipun, sem komst á með þeim og sameinaði alla Íslendinga í eitt þjóðfjelag og gerði þá alla að einni þjóð. Frá upphafi Úlfljótslaga er einnig skýrt og ákvæðum þeirra um baug goðanna og eiðstafi manna.[1]) Þau byrjuðu með lagaákvæðum um landvættirnar, rjett eins og þjóðveldislög þau, sem enn eru til, byrja á því að bjóða að allir skyldu vera kristnir hjer á landi. Hin heiðnu lög hafa eigi skipað að allir skyldu trúa á Æsi. Landnámsmennirnir þoldu aðra trú en þá, sem var almenn á meðal þeirra, en enginn mátti fæla vættir landsins í burtu; af því leiddi óhamingju yfir landið, þar sem þær áttu að vernda það móti hvers konar hættu. Fyrir því var það hið fyrsta ákvæði í Úlfljótslögum, að „menn skyldu eigi hafa höfuðskip í haf, en ef þeir hefði, þá skyldi þeir af taka höfuð, áðr þeir kæmi í landssýn, ok sigla eigi at landi með gapandi höfðum eða gínandi trjónum, svá at landvættir fælist við“.

Þær setningar, sem eru tilfærðar úr Úlfljótslögum, skýra eigi frá því, hvernig alþingi var í upphafi. Að eins er sagt að alsherjargoðinn hafi helgað alþingi með sömu orðum sem menn þeir, er lögskil þurftu af hendi að leysa að dómi, unnu með eiða sína að baugi þeim, sem goðarnir varðveittu; er sú sögn höfð eptir Þormóði alsherjargoða Þorkelssyni mána,[2]) og eiðstafurinn tilfærður úr Úlfljótslögum, ef marka má heimildir þessar. Þá er alþingi var sett á stofn, var ákveðið að einn goði skyldi helga það hvert sumar.

---

[1]) Ldn. 7/258; Hksb. 268/95—96; Mb., Ísl. I, 334—35; Þórðar s. hr. 94. [2]) Þórðar s. hr. 1/94; Mb. (yngri), Ísl. I, 335.

er það kæmi saman, og var hann kallaður alsherjargoði, það er goði allra landsmanna, og hafa að líkindum einhver ákvæði staðið um hann í Úlfljótslögum. Alsherjargoðinn þurfti ávalt að vera kominn á þingstaðinn, áður en alþingi skyldi setja. Hinir goðarnir áttu einnig að koma þangað í tæka tíð, og lá hegning við því, ef út af var brugðið, en alsherjargoðinn mátti þó síst allra manna láta standa á sjer. Þess vegna var það nauðsynlegt að hann ætti heima nærri þingstaðnum og ætti svo hægt með að sækja alþingi, að veðrátta og aðrir farartálmar gætu eigi hindrað hann frá að koma í tæka tíð. Svo stóð þá vel á að eigi gat verið vandasamt að ákveða hver verða skyldi alsherjargoði. Alþingi hafði verið valinn staður rjett við mörkin á landnámi Ingólfs Arnarsonar, og Þorsteinn sonur hans var hinn mesti merkismaður. Hann er talinn með hinum mestu höfðingjum þá á Suðurlandi og hann hafði sett hjeraðsþing á Kjalarnesi.[1]) Hann hafði fengið nokkra reynslu við þingstörf og fáir goðar áttu heima jafnnærri alþingisstaðnum sem hann. Hann var nú valinn alsherjargoði, og jafnframt var ákveðið að helgun alþingis skyldi fylgja goðorði hans. Landsmönnum hefur að líkindum þótt vænt um að geta sýnt syni fyrsta landnámsmannsins heiður þennan, og einnig vildu þeir meta það við hann að hann ljet setja þing á Kjalarnesi, áður en alþingi var sett.[2]) Þorsteinn Ingólfsson hefur síðan helgað hin fyrstu alþingi, sem háð voru, á meðan honum entist aldur til þess. En eptir andlát hans, litlu eptir 940 eða um miðja 10. öld,[3]) varð Þorkell máni sonur hans alsherjargoði, og síðan tók við Þormóður sonur hans, er var alsherjargoði fram yfir aldamótin (1000).[4])

Alþingi var frá upphafi háð árlega og mun því hafa verið ákveðið svo í Úlfljótslögum. Einnig mun þar hafa verið sagt, hve snemma alþingi skyldi byrja á sumrin, og eru þau ákvæði kunn af tilviljun einni. Ari fróði skýrir frá því, að árið 999 hafi það verið lögtekið á alþingi, að menn

---

[1]) Ldn. 15/321; Sbr. að framan I. 306 o. ef. [2]) Mb., Ísl. 336; sbr. að framan I. 210. [3]) Sbr. Safn I. 206. 303 4. [4] Ldn. 9/38—9; Ísl. I. 336.

skyldu koma til alþingis, er tíu vikur væru af sumri, en þangað til höfðu menn komið viku fyr til alþingis, eða þá er níu vikur voru af sumri: það er í miðjum júnímánuði, 11. til 17 júní eptir því, hve snemma sumarið byrjar. Þetta hefur verið ákvæði Úlfljótslaga.[1])

Alþingi var sett á þórsdegi (fimtudegi) og bendir það á, að Þór hafi verið skoðaður sem verndargoð þingsins í heiðni. Það hófst með því að alsherjargoðinn helgaði þingið, það er að segja lýsti með ákveðnum orðum friðhelgi yfir því innan ákveðinna takmarka, er voru kölluð þ i n g m ö r k.[2]) Hann nefndi tvo eða fleiri votta að athöfn sinni og vann eið „at baugi“ og bað Frey og Njörð og hinn almátka Ás að hjálpa sjer til að leysa helgun alþingis af hendi, eins og öll önnur lögskil, sem hann vissi „réttast ok sannast ok helzt at lögum.[3]) Þingmörkin hafa verið ákveðin, er alþingi var sett, og liggur það í hlutarins eðli að eigi hefur verið hægt að ákveða þau fyr en á þingstaðinn var komið. Úlfljótur hefur því eigi getað sett önnur ákvæði í lög sín en almenn um að þingmörk skyldi setja, og þingið skyldi helga og hvernig helgunin skyldi fara fram. Líklega hafa eigi verið samþykkt nein lagaákvæði um þingmörkin, heldur að eins sett merki til sýnis, þar sem þingmörkin voru ákveðin og

[1]) Íslb. 7,10. [2]) Grág. I, a, 44. [3]) Eiðstafurinn, sem sagt er að alsherjargoðinn færi eptir, og hver sá maður, er lögskil þurfti af hendi að leysa að dómi, er hann vann eið að baugi, var þannig: „Nefni ek í þat vætti (og nefndi nöfn vottanna) at ek vinn eið at baugi, lögeið, hjálpi mér svá Freyr ok Njörðr ok hinn almátki Ás, sem ek man svá sök þessa sækja, eða verja eða vitni bera, eða kviðu, eða dóma, sem ek veit réttast ok sannast ok helzt at lögum, ok öll lögmæt skil af hendi leysa, þau er undir mik koma, meðan ek em á þessu þingi.“ Ldn. 7 258; Hksb. 268/96; Flat. I. 201/249; Þórðar s. hr. 1/94; Ísl. I, 335; sbr. Glúm. 25/76. Hinn almátki Ás mun heldur vera Þór en Óðinn. Sbr. Henry Petersen: Nordboernes Gudedyrkelse og Gudetro, bls. 63—71, 92; Maurer, Die Entstehung bls. 157; Upphaf allsherjarríkis bls. 141. Þó er tæplega hægt að vita það með fullri vissu; má geta þess að Finnur Jónsson ætlar að hinn almátki Ás sje Óðinn. Norrænir víkingar unnu á Englandi á 9. öld eiða „at baugi“, og sýnir það að þetta hefur verið venja á Norðurlöndum, áður en Úlfljótslög voru sett. Maurer, Isl. 52; Steenstrup, Normannerne IV, 228.

landslagið sjálft afmarkaði eigi þingstaðinn nógu glögt. Hvar þingmörkin hafa verið, er hvergi sagt beinlínis, en landslagið og nokkrir atburðir, sem skýrt er frá í sögunum, bendir á, að Almannagjá hafi takmarkað þingstaðinn að vestan og kastalarnir á milli Vallanna og Efrivallanna að norðan. Að austan hafa þingmörkin verið uppi á hraunjaðrinum, en að sunnan hefur vatnið takmarkað þingstaðinn. Nokkrar af fornsögum vorum[1]) benda á, að þingmörkin hafi á síðari hluta 10. aldar (um 980) og snemma á 11. öld (1012) verið þar, sem hjer er greint: er líklegt að þau hafi verið sett þar þegar í upphafi eða mjög snemma, því að náttúran sjálf hefur sett mörkin á þrjá vegu um alþingisstaðinn.

Alsherjargoðinn fjekk eigi mikil völd á alþingi fram yfir aðra goða landsins. Það er óvíst, hvort þau hafa verið nokkur önnur en þinghelgunin. Ef hof hefur verið á Þingvöllum, mun hann hafa stýrt því og þeim blótum, sem hafa farið fram við það; en nú eru þess engin merki að hof hafi verið þar[2]) og aldrei er þess getið að blót hafi verið haldin á alþingi, nema þá er þeir Gissur hinn hvíti og Hjalti Skeggjason boðuðu þar kristni. Þá tóku heiðnir menn það ráð, að blóta tveim mönnum úr hverjum fjórðungi og heita á goðin til þess að þau ljetu eigi kristni ganga yfir landið. Það er sagt, að þeir hafi valið til þess hina verstu menn, hrundið þeim fyrir björg eða hamra, en eigi er getið um neitt hof, blótstall eða blótstein við það tækifæri.[3])

---

[1]) Reyk. 25/125; Nj. 136/730—31, 137/732; sbr. Kålund Ísl. I. 95.
[2]) Árbók 1880—81 bls. 81. Þorsteinn Ingólfsson hefur að líkindum átt hof, áður en alþingi var sett, og verið goði við það. Faðir hans var blótmaður og hefur því líklega reist hof í Reykjavík og Þorsteinn tekið við því eptir hann. Einnig var um þetta leyti búið að reisa hof á Kjalarnesi og var næst fyrir Þorstein að sækja þangað, ef hann hefur eigi átt hof sjálfur. Hins vegar mun Þorkell máni sonur hans als eigi hafa blótað og líklega ekkert hof haldið, sbr. Ldn. 9/38.
[3]) Krist. 11/23; Fms. II. 228/237—38. Flat. I. 350/444. Maurer ætlar að blótveislur hafi verið haldnar á alþingi. Die Entstehung bls. 149, sbr. bls. 168; Upphaf bls. 134, sbr. bls. 152. Björn M. Ólsen virðist vera á sömu skoðun, sbr. Um kristnitökuna bls. 53.

Aptur á móti voru ýms mikilvæg störf á alþingi þegar í upphafi fengin í hendur manni, sem kallaður var lögsögumaður, og var sýsla hans sett á stofn með Úlfljótslögum. Í þeim hafa því hlotið að vera einhver ákvæði um lögsögumanninn, einkanlega um störf hans, kosningu og kjörtíma.

Lögsögumaðurinn var hinn þýðingarmesti maður á alþingi; hann svaraði til alþingisforsetanna og lagasafnanna nú á dögum, en alsherjargoðinn til ráðherrans einungis á þeirri stundu, er hann setur þingið Það er efasamt hvað Úlfljótur hefur haft sjer til fyrirmyndar, þá er hann bjó til þetta merkilega embætti. Vísindamenn hefur greint mjög á um það, hvort lögmenn hafi verið til svo snemma í Noregi. Sú skoðun hefur verið almenn meðal Norðmanna að lögmannsembættin í Noregi hafi fyrst verið sett á stofn af Sverri konungi.[1]) Aptur á móti hefur Konráð Maurer leitt mikilvæg rök að því, að frá þeim tíma, er sönn saga hefst i Noregi og ríki kemst þar á stofn, hafi verið nokkurs konar opinberir sýslunarmenn, sem höfðu þau störf á hendi að skýra frá lögum og rjetti á þingum og veita úrskurði um efasöm lagaatriði, þá er dómendur æsktu þess. Þessir menn voru nefndir lögmenn og þeir áttu einnig að hafa orð fyrir bændum á þingum, þá er þurfti að tala alvarlega máli þeirra gagnvart konungi eða mönnum hans.[2]) Hins vegar hefur Ebbe Hertzberg sannað að lögmenn voru til í Noregi fyr en menn alment hafa ætlað; hyggur hann að þeir hafi komið upp á 11. öld, þá er konungsvaldið hafði fengið fulla festu og nauðsynlegt varð fyrir bændur, sem áttu að dæma um mál á þingum, að lögfróðir menn ljetu uppi skoðun sína um þau. Hann felst eigi algjörlega á kenningu Maurers,

[1]) R. Keyser, Norges Stats- og Retsforfatning bls. 247—48; Munch, Norges Beskrivelse bls. 11; Hist. IV. 189; Fr. Brandt, Langes Norske Tidsskrift (Christjania 1851—52) V. 106—107. [2]) K. Maurer, í Kritische Vierteljahresschrift X, bls. 374—81; Die Entstehungszeit der älteren Gulaþingslög bls. 165—69 (í Abhandlungen der Münchner Akademie, I. Classe, XII. Bd., III. Abth.); Das Alter des Gesetzsprecheramtes in Norwegen (Festgabe zu Dr. Ludwig Arndt, München 1875).

og segir að „lögmenn“ þeir, sem nefndir eru á Gulaþingi 934, merki að eins lögfróða menn eða lagamenn, enda þýði þetta orð svo eptir uppruna sínum. Í íslenskum sögum þýðir lögmaður lagamaður, lögfróður maður.[1]) Íslendingar hafa því einnig orðið að mynda nýtt orð, til þess að gefa formanni rjettarfars síns það nafn, sem störfum hans hæfði.[2])

Sumir rjettarsögufræðingar ætla að lögmannssýslanir hafi verið til hjá flestum eða öllum germönskum þjóðum, þótt hún hafi heitið ýmsum nöfnum.[3]) Vilhjálmur Finsen hefur af orðalagi því eða ræðusniði, sem er á fornum dönskum landslögum, bæði Sjálandslögum Valdimars og Eiriks, og hinum skánsku lögum, dregið þá ályktun, að þau hafi verið sögð upp.[4]) Maurer ætlar þó, að eigi sje hægt að sanna, að lögmenn hafi verið í Danmörku á þeim tíma, sem heimildarrit eru til um, en eigi sje ómögulegt, að þeir hafi verið til í fyrndinni.[5]) Aptur á móti er alkunnugt, að lögmenn voru til í Svíþjóð,[6]) og fyrir vestan haf voru einnig lögmenn.[7])

Störf lögmanna eða lögmannssýslanin mun hafa verið svo kunn þegar snemma á 10. öld, að líklegt er að Úlfljótur hafi haft eitthvað til fyrirmyndar, þá er hann setti lögsögu-

---

[1]) Nj. 1/1, 20/79, 21/80, 22/86, 27/105, 56/252, 109/570, 135/724, 138/733—36, 142/779, 142/783—85; Eyrb. 12/13; Lax. 25/89; V.-Ljót. 1/155; Grág. I a, 209; sbr. Eg. 56/192. Í Kristni sögu 12/28 þýðir orðið lögmaður líklega sama sem lögsögumaður; þó getur þar verið átt við lagamenn alment. [2]) E. Hertzberg, Den ældste norske Proces bls. 156—77. Sbr. G. Storm, Sigurd Ranessöns Proces (1877) bls. 65—68. [3]) Richard Schröder, Lehrbuch der deutschen Rechtsgeschichte (Zweite Aufl. 1894) bls. 22, 43, 171—72 og 223; H. Brunner, Deutsche Rechtsgeschichte I (1887) bls. 110—11, 150—54, sbr. 287. [4]) V. Finsen, De islandske Love i Fristatstiden (í Aarboger for nord. Oldkh. 1873) bls. 116—20; Den opr. Ordn. af den isl. Frist. Institut. 174—76 nm. Sbr. Rosenberg, Nordboernes Aandsliv II, 82—83; Joh. Steenstrup, Normannerne IV, 205—6. [5]) K. Maurer, Das angebliche Vorkommen des Gesetzsprecheramtes in Dänemark, í Sitzungsberichte der königl. bay. Akademie der Wissenschaften 1887, bls. 363—399. [6]) Sbr. (Snorri Sturluson.) Hkr. II, 77/135, 80/145. [7]) Steenstrup, Norm. IV, 195—204.

mannssýslanina á stofn, en hann hefur eigi fylgt neinni fyrirmynd í blindni. Hann sá að störfum slíks manns hlaut að verða öðru vísi háttað á Íslandi, en í Noregi eða í Svíþjóð. Þess vegna gaf hann manni þessum á Íslandi nýtt nafn, sem var sniðið eptir störfum hans, og kallaði hann lögsögumann, því að aðalstarf hans var að segja upp lögin fyrir almenningi á þingi, bæði gömul og ný, til þess að varðveita þau og halda uppi þekkingu á þeim í landinu. Einnig átti hann að segja hvað lög væri, er hann var spurður að því. Hann var eins og lifandi lögbók landsmanna, af því að lögin voru eigi rituð upp. Hann var formaður lögrjettunnar og gegndi ýmsum formannsstörfum á alþingi. Hins vegar þurfti lögsögumaðurinn auðvitað eigi að tala máli bænda við konung á þingum, eins og lögmennirnir gerðu í Svíþjóð.[1]) Um slíkt gat eigi verið að ræða á Íslandi. Hvernig þetta var í Noregi, þá er Úlfljótur fór þangað, er eigi kunnugt. Þó virðast lögmennirnir hafa verið talsmenn bænda og úr flokki þeirra, þá er þeirra getur fyrst.[2]) Í Svíþjóð var einn lögmaður í hverri deild landsins; Tíundaland var t. a. m. eitt lögmannsdæmi.[3]) Fyrir vestan haf voru lögmennirnir nokkrir saman, fjórir, sex eða tólf, og unnu allir saman sem einn maður eða dómur.[4]) Í Noregi virðast lögmennirnir einnig hafa verið nokkrir saman, því að þar er jafnan talað um þá í fleirtölu og alla sem einn mann.[5]) En þá er Sverrir konungur hafði gert lögmennina að konunglegum embættismönnum, gegndu þeir störfum sínum hver fyrir sig sem sjálfstæðir embættismenn.

Lögmennirnir í Noregi heimtu inn sektir þær, sem bændur fengu.[6]) Þeir áttu að gefa úrskurð um hvað lög væri,[7]) en dæma eigi, þótt úrskurður þeirra væri lagður til

---

[1]) Hkr. II, 77/135. [2]) Storm, Sigurd Ranessöns Proces bls. 68; Maurer, Das Alter des Gesetzsprecheramtes in Norwegen, bls. 43 o. ef. [3]) Hkr. II, 77/135, 79/140; sbr. Maurer, Das Alter bls. 9 o. ef. [4]) Steenstrup, Norm. IV, 196—99. [5]) Eg. 56/192; Storm, Sigurd Ranessöns Proces 11, 18, 65—66; N. g. L. V, 421—22. [6]) Hertzberg, Den norske Proces bls. 165—67; Maurer, Das Alter bls. 25—26, 57. [7]) Hertzberg, S. st. 163; Maurer, S. st. 29; Storm, Sigurd Ranessöns Proces 67.

grundvallar við dóminn og hlyti því að hafa áhrif á úrslitin. Þetta nægir til þess að sýna, að störfum lögmannanna í Noregi var öðru vísi háttað en störfum lögsögumannsins á Íslandi.

Lögmannsstörfin munu hvergi hafa verið arfgeng að lögum, en þó gengu þau stundum að erfðum í einstaka ættum. Forfeður Þorgnýs lögmanns á Tíundalandi höfðu verið lögmenn hver á fætur öðrum, og fleiri dæmi eru kunn, sem sýna að lögmannsstörfin hafa stundum gengið frá föður til sonar.[1]) Á Íslandi var lögsögumaðurinn kosinn til þriggja ára, og mátti endurkjósa hann; var það opt gert, einkum á söguöldinni og má vera að þeir hafi þá verið kosnir um lengri tíma, því að þá höfðu flestir þeirra lögsöguna á hendi á meðan þeim vanst aldur til, frá því að þeir höfðu verið kosnir í fyrstu; gæti því verið að lögsögumennirnir hafi upphaflega verið kosnir til að gegna lögsögu æfilangt, en ekkert er um það kunnugt. Á síðari hluta 11. aldar og fyrri hluta 12. aldar voru fjórir menn af sömu ættinni lögsögumenn, Gunnar hinn spaki og sonur hans og tveir sonarsynir, en ekki tóku þeir við lögsögu hver af öðrum, heldur voru aðrir menn jafnan lögsögumenn í milli þeirra; er því auðsætt, að þeir hafa verið kosnir af því að þeir hafa notið trausts manna, hvort sem það hefur verið sökum kunnáttu þeirra í lögum eða af öðrum ástæðum. Um 1200 vildi svo til í fyrsta sinni að sonur tók við lögsögu eptir föður sinn, en síðan tók við maður af annari ætt.[2])

Aðalstörf alþingis á dögum þjóðveldisins voru að setja lög handa landsmönnum og dæma um mál þeirra. Alþingi hlýtur því þegar í upphafi að hafa fengið bæði löggjafarvald og dómsvald, en af því segir ekki í heimildar-

---

[1]) Hkr. II, 78/136. sbr. Fms. IX. 94,334. Í lögmannatalinu á Vestur-Gautlandi, aptan við elsta handritið af lögum Vestur-Gauta, (B. 59 í kgl. bókasafninu í Stokkhólmi), er þess opt getið að sonur tók við lögmannassýslu eptir föður sinn. sbr. Sveriges gamla Lagar (utg. af Collin och Schlyter) I. 296—297. [2]) Safn II. 2—3. 19—25.

ritunum, hvernig því var fyrir komið. Þó er mjög þýðingarmikið að vita það, því að hjer er að ræða um meginþættina í stjórnarskipun landsins.

Hjer um bil einum mannsaldri eptir að Úlfljótslög voru sett, var gerð breyting á þeim eptir tillögum Þórðar gellis, og er þá getið um dómnefnu og lögrjettuskipan.[1]) Dómnefna þýðir skipun eða nefning, sem goðarnir höfðu á hendi, á dómurum í dóm á alþingi, og lögrjettuskipan sæti goðanna í lögrjettu. Dómur og lögrjetta eru nefnd við þetta tækifæri sem tvent ólíkt, en eigi sem eitt og hið sama, og einnig eru þau nefnd á þann hátt sem þau bæði hafi verið til áður, en nýmæli Þórðar gellis komst á. En sje svo að bæði sjerstakur dómstóll og lögrjetta hafi verið til, þá er Þórður gellir bar fram lagatillögur sínar (um 963), þá má einnig telja víst, að þau hafi verið sett á stofn með Úlfljótslögum um leið og alþingi var sett.

Af gjörðum alþingis fyrst eptir stofnun þess er lítið kunnugt. Þó er þess getið að það hafi samþykt ein lög á þeim tíma, sem hjer ræðir um (930—963), eða áður en því var breytt. Það voru lög Þorsteins surts um tímatalið, sem voru samþykt um 955.[2]) Ari hinn fróði segir, að „hann leitaþi þess ráþs at logbergi,[3]) at et siaunda huert

[1]) Íslb. 5/8. [2]) Sbr. Safn I, 336, 321; Gísla Brynjólfsson, Andvari VI, 158—59, og Finn Jónsson, Íslb. 20, er setur lög þessi um 950. Vilhjálmur Finsen telur lögin um sumarauka frá árunum 970—981, en færir engin rök fyrir því (Fristat. Institut. bls. 34). Þetta getur eigi verið rjett. Þótt sagt sje að Þorkell máni hafi ráðið til þess að lögtaka tillögu Þorsteins surts, þarf hann eigi að hafa verið orðinn lögsögumaður þá. K. Maurer ætlar að lög þessi sjeu eldri en lög Þórðar gellis, Die Entstehung bls. 149, ath. 4, Upphaf bls. 134, ath. 5, Island 50. Guðbr. Vigfússon telur Þorstein surt hafa dáið um 960, Safn I, 225, 226, 235—36. Líkt ætlar Kr. Kålund, Lax. bls. LIII, og benda allar heimildir á að svo hafi verið. Þorsteinn surtur er fæddur í lok 9. aldar; sjá um hann Íslb. 4/6—7; Cod 1812, 4to Gam. kgl. Samling bls. 7—8 (Ísl. I, 385); Ldn. 12,98—9, 18/116, 23/131; Mb., Ísl. I, 350; Ldn.² 36/240; Eyrb. 7/9; Lax. 6/11, 10,23—4, 17/48—9, 18/49—50. [3]) Hver maður, sem vildi koma á nýjum lögum, gat komið fram með tillögu um það að Lögbergi, sbr. Pál Briem, Tímarit h. ísl. Bókmfjel. VI, 216; en lögrjettumenn urðu síðan að skipa lögrjettu og samþykkja tillöguna, svo að hún yrði að lögum.

sumar scylldi auka vico, oc freista, hvé þá hlýddi". Þingheimur tók vel tillögu Þorsteins surts og var hún þegar í lög leidd „at ráþi Þorkels mána oc annarra spacra manna".[1]) Þorkell máni hefur þá verið alsherjargoði og mun hann hafa mælt með tillögu Þorsteins surts í lögrjettu og ráðið til þess að lögleiða hana; fyrir því mun hann vera nefndur, en ekki af því að hann væri orðinn lögsögumaður. Það varð hann fyrst seinna, en eigi var minni ástæða til þess að nefna hann fyrir það, er hann studdi tillöguna, heldur þvert á móti.

Af þessu má sjá að alþingi hefur samþykt lög á meðan það var eins og Úlfljótur hafði sett það í fyrstu, og að goðar landsins (alsherjargoðinn) hafa tekið þátt í samþykt þeirra. Það eru allar líkur til þess að lög þessi hafi verið samþykt í lögrjettu og að goðarnir hafi þá átt þar sæti, úr því að eins goða er sjerstaklega getið við samþykt þeirra.

Einnig er skýrt frá nokkrum málum, sem fóru til alþingis um miðja 10. öld og voru dæmd þar; bera þau vitni um að alþingi hefur þegar í upphafi dæmt mál manna. Um 945 sótti Sámur Bjarnason á alþingi vígsmál á hendur Hrafnkeli Freysgoða. Þar var þá settur dómur að lögbergi og dæmdi hann Hrafnkel sekan.[2]) Einnig getur sagan þess, að Hrafnkell hafi áður átt í málum við menn á alþingi og borið jafnan sigur úr býtum. Vegna þess voru flestir ófúsir á að veita Sámi lið. Hrafnkell var kunnur að ójafnaði; hann var vanur að hleypa upp dómnum fyrir mótstöðumanni sínum og hrekja hann með ofurefli liðs af málinu.[3]) Annað mál var einnig dæmt á alþingi áður en lög Þórðar gellis voru samþykt. Það var brennumálið frá

[1]) Íslb. 4/7. [2]) Hrafnk.[2] 4 115—17. Það var eigi eptir Grágás að setja dóma að lögbergi, en málum var lýst að lögbergi og þaðan gengu goðar og dómendur með lögsögumanni fremstum í flokki, en lögsögumaður rjeð hvar hver dómur skyldi sitja, Grág. I a, 45, 52, svo að þetta er eigi ómögulegt. En líklega er hjer nokkur ónákvæmni og blandað lögbergi við dóminn, af því að þaðan gengu dómendur út til ruðningar. [3]) Hrafnk.[2] 3/108, 4/114. Orðið dómur er í Hrafnkels sögu ýmist haft í eintölu eða í fleirtölu, þótt þá hafi eigi verið nema einn dómur

Örnólfsdal, er Þórður sjálfur sótti á hendur Tungu-Oddi; er þá getið um dóma á alþingi, að vísu í sögu, sem er eigi áreiðanleg að öllu.[1]) Einnig er þess getið, að Þórður gellir hafi áður átt í deilum á alþingi við Tungu-Odd um þrælsgjöld, er dæmdust á hendur Oddi.[2]) Enn fremur má nefna mál gegn Eysteini Mánasyni, sem Áskell goði Eyvindarson stefndi til alþingis, og annað gegn Hánef um sauðatöku, sem Steingrímur Örnólfsson fór með til alþingis og var Hánefur gjörður sekur.[3]) Það er eigi sagt neitt nánar frá málum þessum á alþingi, svo að þau sanna að eins að málum var stefnt til alþingis og að þar voru þau dæmd eða gert um þau; eigi er heldur víst hvaða ár þau voru, en líklegt er að þau hafi gerst um 960 eða rjett áður en nýmæli Þórðar gellis voru lögtekin.

Þar sem skýrt er frá Úlfljótslögum í Hauksbók, segir að goðarnir „skyldu nefna dóma á þingum“ og í Þorsteins þætti uxafóts er einnig sagt að „þeir skyldu dómnefnur eiga á þingum“ [4]). Þetta getur eigi þýtt annað en að goðarnir skyldu nefna menn í dóma á alþingi og vorþingum, en eigi er hægt að taka fyllilega mark á þessu, af því að fjórðungaskiptingu landsins er í báðum ritum þessum blandað saman við Úlfljótslög, og höfundum þeirra hefur eigi verið vel kunnugt um hina fornu stjórnarskipun landsins.[5])

á alþingi. Ástæðan til þess mun aðallega vera sú, að mestallan þjóðveldistímann voru fjórir dómar eða fleiri á alþingi, og því hefur opt verið talað um dóma í fleirtölu. Söguritarinn hefur notað máltýðskuna, en eigi athugað þetta, og ef til vill eigi heldur vitað, að einungis gat verið um einn dóm að ræða á alþingi í upphafi, áður en fjórðungsdómar voru settir. Annars er eintölu og fleirtölu stundum blandað saman, þá er um fjórðungsdóma er að ræða, Hungv., Bps I, 77, og sýnir það að menn athuguðu eigi ávalt, hvort dómarnir voru einn eða fleiri, eða fóru eigi nákvæmum orðum um það. En þetta getur einnig bent á, hve náið samband mönnum fanst vera á milli fjórðungsdómanna og að menn hafi skoðað þá sem eina heild. [1]) Íslb. 5/7—8; Hæns. 14/172; 15/177. [2]) Hæns. 11/162. [3]) Reyk. 3/15, 5/24. [4]) Hksb. 268/96; Ldn. 7/259; Flat. I. 201/249. [5]) Vilhj. Finsen ætlar þó að þetta bendi eflaust á, að sjerstakur dómur hafi verið á alþingi þegar frá upphafi. Frist. Institut. bls. 94.

Þótt þess sje hvergi getið, hvernig löggjafarvaldinu og dómsvaldinu hafi upphaflega verið fyrir komið á alþingi, má þó telja alveg víst, að allir þingheyjendur hafi eigi haft það á höndum, heldur að eins lítill hluti þingmanna, er til þess var kvaddur. Svo var það nokkru síðar, þá er sögurnar segja meira af alþingi, og svo var það einnig á lögþingunum í Noregi. Í Úlfljótslögum hafa hlotið að standa einhver ákvæði um það, hverjir skyldu hafa löggjöf landsins og dómsvaldið á hendi. Þar hefur að líkindum bæði verið ákveðið, hversu margir menn skyldu hafa löggjafarvaldið á hendi og hvernig dóm skyldi skipa til þess að dæma um mál landsmanna.

Á hinum norsku lögþingum ætla menn að til hafi verið lögrjetta um það leyti sem Ísland bygðist, og að hún hafi haft bæði löggjafarvald og dómsvald á hendi.[1]) Í hinum eldri Gulaþingslögum og eldri Frostaþingslögum er t. a. m. nefnd lögrjetta.[2]) Orðið „lögrétta“ er myndað af að „rétta lög“, sem að eins kemur fyrir í íslenskum ritum,[3]) enda átti lögrjettan á Íslandi að rjetta lögin, þ. e. koma rjettum orðum að þeim, endurbæta þau og bera upp „nýmæli“ eða tillögur til laga og samþykkja þær. Lögrjetta þýðir því löggjafarstarf. Líklega hefur orðtækið að rjetta lög og verið notað í Noregi, af því að lögrjetta var þar einnig; en norskir vísindamenn segja, að það þýði að skýra lögin, eða með öðrum orðum, að segja, þá er eitthvert rjettaratriði lá fyrir eða mál var fyrir dómi, hvað væri lögmæt skýring á ákvæðum laganna um það atriði, sem dæma átti um, og hvað væri eðlileg þýðing þeirra.[4]) Í lögrjettunum norsku hafa að líkindum setið 36 menn. Í Egils sögu er þess getið, að hersarnir

---

[1]) Keyser, Efterl. Skrifter II, 1, bls. 170; Aschehoug, Statsforfatningen i Norge og Danmark indtil 1814, bls. 63; Sars, Hist. I, 221; V. Finsen, De isl. Love i Fristatstiden (Årb. f. nord. Oldkh. 1873) bls. 70. [2]) N. g. L., I, 266/88, 2/127—28. [3]) Sbr. Grág. III, 644; N. g. L., V, 423; Fritzners Ordbog, 2. udg. undir orðinu lög; Guðbr. Vigfússon, Icelandic—Engl. Dictionary undir rétta; V. Finsen, De isl. Love i Fristatstiden, 58—61. [4]) Sbr. E. Hertzberg, N. g. L. V, 424 og Fritzner, s. st. orðið lög; ennfr. Maurer, Die Rechtsrichtung des älteren isl. Rechts. München 1887. bls. 132 o. ef.

úr Firðafylki, Sygnafylki og Hörðafylki nefndu þrennar tylftir í dóm á Gulaþingi til þess að dæma um mál manna.[1]) Í Landslögum Magnúsar lagabætis er ákveðið að lögrjettumenn skuli vera þrennar tylptir manna.[2]) Eins er sagt í Járnsíðu, að þrjá menn skuli nefna í lögrjettu úr þingi hverju, en þingin voru þá tólf.[3]) Af þessu hafa menn ályktað, að þrennar tylftir manna hafi átt sæti fyr á öldum í lögrjettunum á lögþingunum. Þó hafa sumir ætlað,[4]) að lögrjettumennirnir hafi verið fleiri á Frostaþingi, en eigi mun vera gild ástæða til þess að halda það.[5]) Lögrjettan átti að „dæma lög um þau mál", er skotið var til lögþingsins; hún átti einnig að ákveða, hvað vera skyldi lög um þau atriði, sem fyrir kunnu að koma, og engin ákvæði voru um í lögbókinni.[6]) Þá bjó hún til ný lagaákvæði og samþykti þau, en allar þær samþyktir, sem hún gerði, voru í dómsformi, og því voru þær kallaðar dómar. Löggjafarvaldið og dómsvaldið hjá norsku lögþingunum var eigi aðgreint reglulega; norsku lögrjetturnar voru því aðallega dómstólar, en þær gátu tekið ályktanir með dómi og samþykt lög með því að dæma að einhver ákvæði skyldu vera lög.[7]) Fyrir því er lögrjettan á Gulaþingi kölluð dómur í Egils sögu.

Lögrjettan á alþingi hefur eflaust verið sett á stofn með Úlfljótslögum, og Úlfljótur hefur að öllum líkindum tekið hugmyndina úr Gulaþingslögum, en þeirri lögrjettu, sem hann stofnsetti á alþingi, hefur eflaust verið öðru vísi háttað að ýmsu leyti en norsku lögrjettunni.

Úlfljótur hefur orðið að ákveða í lögum sínum, hverjir af landsmönnum skyldu fá löggjafarvaldið og dómsvaldið í hendur og þingheimur síðan að leggja samþykki sitt á það eins og annað í lögum hans. Eins og nærri má geta hefur

[1]) Eg. 56/187–88. [2]) N. g. L. II, 3/14, sbr. Hertzberg, Den ældste norske Proces, bls. 120. [3]) Járnsíða (Havniæ 1847) 3/4, 2/2. [4]) Aschehoug, Statsforfatningen i Norge, bls. 62—63; Brandt i Langes tidsskrift V, 104—105. [5]) N. g, L. 1, 2/127, sbr. Hertzberg, Den ældste norske Proces 121–123; hann ætlar að texti laganna sje rangur, og mun það rjett vera. [6]) N. g. L., I, 2 128. [7]) Aschehoug, Statsforfatningen i Norge, bls. 65; Hertzberg, Den ældste norske Proces 116, 177.

það verið vandasamt verk. Metnaður og rígur var mikill í mönnum. Margir vildu vera metorðamenn og ná einhverjum völdum undir sig, en jafnframt vöruðust landsmenn það sem heitan eld, að nokkur maður skyldi fá svo mikil völd í hendur, að hann gæti fengið yfirráð yfir landsmönnum. Margir stóðu að flestu leyti svo líkt að vígi, að erfitt var að greina á milli þeirra. Það hafa varla verið færri en um 400 sjálfstæðir bændur, meiri og minni höfðingjar, sem velja varð á milli. Reglubundin hjeraðastjórn var enn eigi komin á í landinu, nema ef til vill í einstaka sveitum. Bygð landsins var enn svo ung, að landsmenn alment höfðu þá eigi eignast leiðtoga í neinu, nema í trúarmálum, þar sem nokkrir helstu mennirnir höfðu reist hof. Hofseigendurnir voru goðar við hofin og „prestar“ þeirra manna, sem að hofunum sóttu.[1]) Sökum þess fengu þeir smátt og smátt meiri áhrif og álit hver í hjeraði sínu en flestir aðrir menn. Það var því eðlilegt, að þeir yrðu einkum fyrir vali, þá er ákveðið var, hverjir skyldu ráða mestu um löggjöf landsins og málalyktir manna, og að þeir fengju þá sæti í lögrjettu. K. Maurer hefur þó talið líklegast, að goðarnir sjálfir hafi eigi í fyrstu fengið sæti í lögrjettu, heldur hafi þeir nefnt menn í hana.[2]) Sú skoðun byggist á því, að goðarnir hafi þegar á landnámsöld verið samskonar veraldlegir höfðingjar sem hersarnir í Noregi, og stjórnað hjeruðum líkt og smáeinvaldshöfðingjar, en það er nú sannað að svo var eigi.[3]) Ef þeir hefðu eigi fengið sæti í lögrjettu með Úlfljótslögum, þá hefðu þeir eigi fengið aðalvöldin í hendur, heldur einmitt þeir menn, sem þeir nefndu í lögrjettu. Þeir hefðu þá eptir skoðun Maurers orðið bæði löggjafar og dómendur landsins; en goðarnir hefðu þá að eins fengið skipunarrjett eða kosningarrjett, en engin veruleg völd, og er það harðla ólíklegt. Þá hefði það eigi komið fram, að þeir stóðu næstir kosningu, og þá hefðu þeir að líkindum einnig átt erfitt með að ná aðalvöldunum undir sig um 963, ef þau voru komin í hendur

[1]) Sjá að framan I. 292—297. [2]) Die Entstehung bls. 151. 163. 176; Upphaf bls. 136—37. 147. 159; Island 51. 57. 62. [3]) Sbr. að framan I. 297—304.

annara. Þess er eigi heldur neinstaðar getið, að goðarnir hafi þá fyrst náð sæti i lögrjettu, nje látið dómsvaldið þá af hendi, ef þeir hafi setið í lögrjettu og haft það.

Það er hvergi sagt neitt um það, hve margir goðar hafi upphaflega fengið sæti í lögrjettu, en mjög líklegt er að þeir hafi verið 36, svo að lögrjettan hafi verið skipuð þrennum tylftum manna eins og lögrjettan á Gulaþingi. Tala goðanna, þá er landinu var skipt i fjórðunga, bendir einnig á að svo hafi verið. Landsmenn vildu þá auðsjáanlega að einungis 36 goðar ættu sæti í lögrjettu, af því að þeir munu hafa verið vanir við þá tölu áður í lögrjettu. Því varð eigi við komið, af því að við skiptingu landsins í fjórðunga urðu goðarnir í Norðlendinga fjórðungi tólf, og þá varð að gæta jafnvægisins á milli fjórðunganna. Það getur verið, að goðarnir hafi eigi verið fleiri en svo, þá er alþingi var sett á stofn, að ákveða hafi mátt, að þeir skyldu allir eiga sæti í lögrjettu og jafnvel hafi orðið að setja einhver ný hof á stofn í sumum hjeruðum landsins til þess að fylla töluna, ef það hefur þótt nauðsynlegt, að allir hinir eiginlegu lögrjettumenn væru hofgoðar, svo að þeir yrðu hæfilega margir til þess að skipa lögrjettu. Þó hefur þjóðfjelagið eigi sett hof á stofn, heldur hafa einstakir menn gert það; hefur varla verið erfitt að fá einhverja höfðingja til þess að reisa hof og gerast hofgoðar, þá er þeir áttu von á því að verða hluttakendur í löggjöf landsins og stjórn þess. Hins vegar bendir gjöf Gríms geitskarar á, að þörf hafi verið á að styrkja hofin; að minsta kosti hefur Grími þótt svo, og mun það að líkindum hafa staðið í sambandi við stofnun alþingis og ríkis hjer á landi. Kostnaðurinn við hofshaldið hefur í upphafi verið meiri en tekjum þess nam. Bæði voru landsmenn fámennir og eigi er heldur ólíklegt að margir hafi í fyrstu hliðrað sjer hjá að gjalda til hofanna, enda hafa þeir, sem komu vestan um haf, verið orðnir því afvanir. En líklega hefur bændum eptir stofnun ríkis á Íslandi verið með lögum gert það að skyldu, að gjalda toll til hofanna,[1]) en í fyrstu hafa menn gert það eptir samkomulagi.

[1]) Sbr. Eyrb. 4/6. 10/12; Vápn.[2] 5/35—37.

Þótt hofin um þetta leyti þyrftu styrktar við, getur þó verið að í sumum hjeruðum landsins hafi verið svo mörg hof, að allir goðarnir hafi eigi getað fengið sæti í lögrjettu. Þá hefur orðið að velja um þá; má ganga að því vísu að þeir hafa orðið út undan, sem höfðu minst traust á sjer og voru minstir fyrir sjer eða óframgjarnastir, og hefur mátt haga því vali eptir mannkostum þeirra, „viti ok réttlæti“.

Það var á valdi landsmanna, hverjir fengu sæti í lögrjettu, því að þeir hafa á alþingi átt atkvæði um þær tillögur, sem Úlfljótur hefur sett í lög sín um skipun lögrjettu eins og um annað í lögum hans. Ef val hefur verið í upphafi um marga goða í lögrjettu, er eðlilegt að ætla að þingheimur hafi eigi að eins ákveðið, hve margir þeirra skyldu sitja í lögrjettu, heldur hafi þá einnig farið fram einhvers konar kosning á goðum eða höfðingjum í lögrjettuna.[1])

Á Íslandi voru þá eigi til neinir höfðingjar eins og hersarnir í Firðafylki, Sygnafylki og Hörðafylki, sem nefndu menn í dóma eða í lögrjettu á Gulaþingi. Þess vegna hlaut Úlfljótur að koma þessu öðru vísi fyrir en það var í Gulaþingslögum, enda virðist flest benda á það, að goðarnir hafi þegar með Úlfljótslögum fengið sæti í lögrjettunni.

En þá voru einnig margir aðrir en goðarnir, sem vildu ná einhverri hlutdeild í löggjöf landsins og meðferð mála yfirleitt. Það er eigi heldur víst að hver sá maður, sem vildi ná sæti í lögrjettu upphaflega, hafi þurft að vera hofgoði. Það má vel vera að einstaka stórhöfðingjar, sem báru höfuð og herðar yfir aðra menn, hafi fengið þar sæti, þótt þeir ættu eigi hof.[2]) Hofseignin ein var eigi einhlít heimild eða hæfileiki til þess að verða goði í lögrjettu. Ýmsir höfðingjar eða stórbændur hafa eflaust þótst eins færir til þess að ráða lögum og lofum eins og goðarnir. Það þótti virðing að vera nefndur í dóm til þess að dæma um mál.[3]) Menn voru bæði vandir að virðingu sinni, þótt

---

[1]) Sbr. skoðun Páls Briems í Andvara XV, 126. [2]) Sbr. nokkra goða litlu síðar, Hrafnkel Freysgoða, Egil Skallagrímsson, er var primsigndur, og Þorkel mána. [3]) Dropl. 4 150—51.

á annan hátt væri en á vorum dögum, og svo metorðagjarnir, að það er svo sem auðvitað að eigi þótti minni virðing að vera umráðamaður goðanna í löggjafarmálum en að sitja í dómi. Það þótti yfirleitt virðing að vera kvaddur til ráða,[1]) hvort sem um almenn mál var að ræða eða málefni einstakra manna. Ef menn voru teknir í lögrjettu til umráða og ef dómsvaldið var fengið í hendur sjerstökum dómi, þá fengu miklu fleiri landsmenn þátt í löggjöf landsins og dómsvaldinu, en ella var kostur á. Úlfljótur hefur orðið að taka tillit til þessa, og reyna að sefa metorðagirnd stórbændanna á einhvern hátt, ef alt átti að geta farið vel og friðsamlega.

Af Grágás má sjá, að hver goði hafði með sjer í lögrjettu tvo menn til umráða og að menn sátu þar á þremur pöllum;[2]) áttu goðarnir sæti á miðpallinum, en umráðamenn hvers goða sátu hjá honum á hinum pöllunum, annar fyrir framan hann, en hinn að baki. Það er hvergi sagt, hve nær þetta var lögleitt. Í Njálu er þess fyrst getið, þá er fimtardómur var settur (um 1004), að þrennir pallar voru umhverfis lögrjettu, en þar er talað um þá eins og þeir hafi verið til áður. Það er því engin gild ástæða til þess að ætla, að goðunum hafi þá fyrst verið skipað að taka umráðamenn; auk þess er grein þessi röng og líklega innskotsgrein.[3]) Það er því eigi ólíklegt að ákveðið hafi verið þegar í upphafi með Úlfljótslögum, að hver goði skyldi taka með sjer tvo menn í lögrjettu til umráða og að það hafi verið gert til þess að miðla málum, svo að fleiri höfðingjar en goðarnir einir tækju þátt í löggjöf landsins, og jafnframt til þess að lögin yrðu sem best úr garði gerð af hendi lögrjettunnar. Úlfljóti og öðrum hinum vitrustu mönnum landsins hefur mátt vera ljóst, að alþingi mundi þurfa, þá er stundir liðu, að setja lög um hitt og þetta, eptir því sem reynslan sýndi og þörfin krefði, þar sem engin lög voru til nema Úlfljóts-

[1]) Sbr. Hkr. II, 125/274. [2]) Grág. I a, 211—12. [3]) Nj. 97/504—505, sbr. V. Finsen, De islandske Love i Fristatstiden 57—58 nm.; Frist. Institut. 106—111; K. Maurer, Die Rechtsrichtung des älteren isländischen Rechtes 133—34; Finnur Jónsson, Literaturhist. II, 535, 545.

lög ein, og þau gátu eigi verið svo fjölskrúðug og fullkomin, að eigi þyrfti við þau að bæta. Fyrir því hefur verið ákveðið, að lögrjettan skyldi eigi fá dómsvaldið í hendur, heldur skyldi það falið sjerstökum dómi, bæði til þess að tryggja löggjafarvaldið sem best og til þess að sem flestir skyldu fá nokkur metorð og hluttöku í almennum málum. En goðarnir hafa að líkindum þegar fengið dómnefnuna í hendur, og að því leyti fengu þeir sömu stöðu í hinu íslenska þjóðfjelagi sem hersarnir höfðu í Noregi, og urðu þeim svipaðir í ýmsu. Hver goði hefur þá fengið rjett til þess að nefna einn mann í dóm, og þannig hefur dómur, sem nefndur var alþingisdómur[1], verið skipaður þrennum tylftum manna, eða jafnmörgum mönnum sem goðar voru í lögrjettunni, þá er hún var komin á fót. Þá er getið er um dóm á alþingi á fyrstu áratugum þess, eins og skýrt er frá hjer að framan, virðist það hafa verið sjerstakur dómur, sem settur hefur verið á stofn með Úlfljótslögum.

Kostirnir við það að eiga sjerstaka löggjafarsamkomu og sjerstakan dómstól á alþingi, í stað þess að fela hvorttveggja sömu mönnunum á hendur, eru svo miklir og auðsæir, að það er harðla ólíklegt að Úlfljótur hafi eigi sjeð það, þá er hann sat með Þorleifi hinum spaka í þrjú ár við að íhuga, hvernig best yrði búið um löggjafarvaldið og dómsvaldið á Íslandi, og hvernig helst mætti gera hinum mörgu göfgu bændum þar í landi til hæfis. Sjerstaklega hlaut það að liggja í augum uppi, að landsmönnum mundi falla betur í geð, að nærri hálft annað hundrað hinna helstu manna landsins tækju meiri eða minni þátt í meðferð málefna landsmanna, — og það því fremur sem allir frjálsbornir bændur gátu á þennan hátt átt nokkurn aðgang að því, — en að alt væri lagt í hendurnar á einum þremur tylftum manna, nema kvaðning þeirra eða nefning, sem goðarnir hefðu þá haft á hendi. Einnig er það mjög ólíklegt, að Ari hinn fróði hefði eigi getið þess, ef svo stórkostleg breyting hefði verið gerð á lögrjettu með lögum Þórðar gellis, að dómsvaldið hefði verið tekið af henni, og þá hefði fyrst verið

---

[1]) Sbr. V. Finsen, Fristat. Institut. bls. 96.

gerður aðskilnaður á löggjafarvaldi og dómsvaldi. Enn fremur var það miklu fjær tilgangi Þórðar gellis en Úlfljóts að finna þetta fyrirkomulag. Ætlunarverk Úlfljóts var að íhuga vel og rækilega alt stjórnarskipulag út í æsar, bæði eins og það var í Noregi að Gulaþingslögum og eins og það mátti verða best og haganlegast á Íslandi; en Þórður gellir vildi að eins bæta úr þeim göllum á lögum landsins, sem hann hafði reynt í saksókn einni og koma í veg fyrir að vandræði hlytust optar af þeim. Þótt nú sje lítið til af Úlfljótslögum, eru menjar þeirra þó svo miklar, að sjá má að þeir Úlfljótur og Þorleifur hinn spaki hafa athugað alt vel og rækilega. Að öðrum kosti hefði Úlfljóti eigi gengið svo greitt, að koma lögum sínum á og alt farið svo friðsamlega.

---

## Enn um Úlfljótslög; goðar, vorþing og leiðir.

Auk þess sem þegar er talið, munu Úlfljótslög hafa innihaldið ákvæði um goðana, vorþing og leiðir, um rjett manna og málaferli eða dómsköp.[1] Vilhjálmur Finsen ætlar að í þeim hafi einnig verið ákvæði um erfðir og ýms önnur þýðingarmikil atriði úr einkamálarjettinum.[2] Þó er líklegast að meginhlutinn af þeim hafi verið um stjórnarskipulag landsmanna, um þing og dóma og um vígaferli. En ákvæðin úr Úlfljótslögum um siglingar manna og landvættirnar sýna þó, að Úlfljótur hefur sett lög um fleira en stjórnarskipun og rjettarfar;[3] einnig verður að gæta að því, að hann starfaði lengur að undirbúningi laga sinna, en nokkur annar

[1]) Íslb. 5/8. [2]) V. Finsen, Islandsk Retshistorie. A. M. Access. 6 b. § 5, bls. 37. Munch, Hist. I, 567. ætlar að Úlfljótslög hafi mestmegnis verið um stjórnarskipun og stjórnarfar landsins. Stjórnarskipunina og meiri hlutann af rjettarfars ákvæðunum segir hann að hafi eigi verið hægt að lána úr Gulaþingslögum, og fyrir því sje ljóst og skiljanlegt að þeim og Grágás beri eigi saman; auk þess hafi lög Íslands og Gulaþingslög breytst síðan um 930. [3]) Ákvæðið í Grág. Ia. 192; II, 190 um

maður á dögum þjóðveldisins að lagaundirbúningi, svo kunnugt sje, og að hann hafði það mark og mið að semja almenn landslög. Lög Úlfljóts hafa því hlotið að vera töluvert löng, og í þeim hafa verið ákvæði um meginatriðin i stjórnarskipun landsins og um ýmislegt fleira.

Eins og fyr er sagt,[1]) höfðu hofsóknir myndast kring um hofin og goðarnir voru í fyrstu hofprestar. Þeir höfðu þá að eins andlegt vald um fram aðra heldri bændur; en ef þeir voru atkvæðamenn, stóðu þeir betur að vígi en flestir aðrir höfðingjar á landnámsöldinni til þess að hafa áhrif á menn og ná nokkrum veraldlegum völdum undir sig, en um það voru enn engin lög. Nokkru eptir að Úlfljótslög voru sett, sýnir sagan það smátt og smátt, glöggar og glöggar, að goðarnir höfðu fengið allmikið veraldlegt vald. Þetta vald goðanna hefur fyrst verið lögákveðið með Úlfljótslögum. Fyr var það eigi hægt. En ákvæði þessi hafa tæplega verið margbrotin, og líklega einkum um, hvern þátt goðarnir skyldu eiga í löggjöf landsins og stjórnarstörfum bæði á alþingi og heima í hjeruðum, eða hvernig valdi goðanna skyldi vera háttað. Nú eru í Grágás mjög mörg ákvæði um þetta, sem hafa verið sett smátt og smátt á þjóðveldistíðinni. Aptur á móti hafa engin ákvæði verið gerð um það, yfir hverjum hver goði ætti að ráða, því að það var mönnum á sjálfsvald sett. Sú venja var komin á um hofsóknirnar, að það skyldi vera eptir frjálsu samkomulagi milli goðanna og hlutaðeigandi manna, að hvaða hofum menn sóttu. Eins var þessu hagað að því er þingmensku snerti, þá er goðarnir fengu veraldleg völd, og gjörðust veraldlegir stjórnendur eða höfðingjar landsins. Vald þeirra, sýsla eða embætti var nefnt eptir virðingarnafni þeirra og

---

að þræll, sem frelsi var gefið, skyldi taka hálfan rjett, „er hann kömr á jarls jörð, en þá allan ok fullan, er hann kömr á konungs jörð“ mun vera úr Gulaþingslögum, því að hvorki jarls jörð nje konungsjörð var á Íslandi á meðan þrælahald var alment. Þetta hefur því ef til vill komist inn í Úlfljótslög upphaflega. Sbr. V. Finsen, De isl. Love i Fristatstiden 139 nm.; A. Taranger. Den norske rets historie II. 55. [1]) Sjá að framan I, 296 o. ef.

kallað goðorð,[1]) en goðorð var mannaforráð,[2]) ríki[3]) eða veldi[4]) yfir þeim mönnum, sem sögðu sig í þing með goðanum til þess að njóta hjálpar hans og verndar. Í Grágás segir að mönnum væri frjálst að segja sig í þing með hverjum þeim goða, er menn vildu, og goðinn þurfti eigi heldur að veita öðrum viðtöku sem þingmanni sínum en þeim, sem hann vildi.[5]) Þetta hefur líklega verið lögákveðið með Úlfljótslögum, með því að grundvöllurinn var áður lagður að þessu skipulagi. Þingmennirnir gátu því valið hvern þann goða, sem þeir vildu, og farið eptir því, sem þeim þótti best og haganlegast, að svo miklu leyti sem vegalengdin til hofsins og goðans leyfði, því að eigi dugði að segja sig í þing með þeim goða, sem var svo langt í burtu, að hann fjekk enga liðveitslu veitt þingmanni sínum gagnvart yfirgangi ójafnaðarfullra manna, ef á lá. Þeir goðar, sem voru vinsælastir og mest traust þótti að, fengu eðlilega flesta þingmenn; en hins vegar urðu menn stundum að segja sig í þing hjá goða, sem þeim stóð ótti af, ef þeir bjuggu í nágrenni við hann, og eigi var hægt að fá næga vernd hjá öðrum goða, nje menn voru því vaxnir að verja sig sjálfir, því að öðrum kosti gátu þeir átt von á að hann mundi vinna þeim mein á ýmsan hátt. Um Hrafnkel Freysgoða er þess t. a. m. getið, að hann þröngdi Jökulsdalsmönnum undir sig.[6]) Ýmsar ástæður gátu því verið til þess, að menn sögðu sig helst í þing með þeim goða, sem næstur var. Þótt goðorðin hvíldu á frjálsu samkomulagi, bjuggu þó flestir undirmenn goðanna í nágrenni við þá og í næstu sveitum. Þó var auðvitað eigi sjaldan út af því brugðið, annaðhvort er vinfengi var svo ríkt með mönnum, eða einhver goði naut svo mikils trausts hjá sumum mönnum, að þeir sögðu sig í þing hjá honum. En til þess að menn skyldu eigi leita sjer goða of langt í burtu, var svo ákveðið

---

[1]) Grág. I b, 206, II, 47, III, 44; Hrafnk.² 2/96; Eg. 80/298. [2]) Hrafnk.² 4/110–11, 114, 10/137; Nj. 97/497—99; Lax. 76/283; Eg. 81/302. [3]) Hrafnk.² 9/135; Sturl. I 79/290, II, 208/76, 211/80, 213/81, 214/82; Fms. X, 276/51. [4]) Sbr. Grág. I b, 206. [5]) Grág. I a, 137, 140, II, 277—78, III, 427. [6]) Hrafnk.² 2/96.

síðar, þá er landinu hafði verið skipt í fjórðunga, að enginn skyldi eiga þingfesti hjá goða í öðrum fjórðungi en þeim, sem hann sjálfur bjó í, nema það væri lofað af lögrjettu og lýst að lögbergi, eða um bygð í Hrútafirði væri að ræða.[1])

Þótt ákveðið væri, hve margir þeir goðar skyldu vera, er hefðu veraldleg völd, var þó eigi öðrum bannað að halda hof eða blóthús handa sjer og sínum, enda má telja víst að einstaka menn hafa gert það, svo að í sumum hlutum landsins hafa verið fleiri hof en hin lögákveðnu. Eptir að Úlfljótslög voru sett, hafa því í heiðni (929—1000) verið til tvenns konar hof og goðar, höfuðhof og goðar þeirra, sem höfðu bæði hofþjónustu á hendi og löggjafar- og landsstjórnarvald (löggoðar eða forráðsgoðar), og önnur hof, aukahof eða heimilishof og blóthús, og goðar þeirra, er voru einungis goðar eða prestar við hof sín. Það er eigi líklegt að þess háttar hof hafi verið mjög mörg. Landsmenn voru að eins heiðnir í rúma hálfa öld eptir að ríki var sett á stofn og þangað til kristniboð byrjaði, og heiðnir menn lögðu aldrei eins mikla stund á að reisa hof eins og kristnir menn kirkjur, enda höfðu þeir eigi heldur jafnmikla þörf á hofum sem kristnir menn á kirkjum. Blót heiðinna manna voru aldrei nándarnærri svo tíð sem messugjörðir kristinna manna; fyrir því áttu þeir hægt með að sækja til hofanna, þótt langa leið væri að fara.[2]) Mörgum heiðnum trúmanni hefur þótt nóg að eiga smáskurðgoð í pússi sínum til trausts og dýrkunar hverdagslega.

Áhrif Úlfljótslaga á stöðu goðanna hafa verið harðla þýðingarmikil, því að með þeim var grundvöllurinn lagður að því veraldlega valdi, sem goðarnir höfðu, að því er stjórn landsins snerti á meðan þjóðveldið stóð. Aptur á

---

[1]) Grág. Ia, 141, II, 278. Í Vápn.[2] 12 165 er þess getið, að Þorkell Geitisson átti þingmenn í Eyjafirði í byrjun 11. aldar, um 1005; verið gæti, að ákvæði þessi hafi þá eigi verið komin á. Sbr. þó á síðari tímum Sturl. I, 202, 248, II, 282. (= Bps. I, 647). [2]) Menn vita eigi hve mörg hof hafa verið í Noregi í fornöld, en þess má geta til samanburðar, að P. A. Munch hefur ætlað að þau hafi verið töluvert yfir 100.

móti er það eigi rjett, eins og Maurer hefur ætlað,[1]) að vald þeirra hafi minkað að því er hjeraðsstjórnina snerti, af því að fast skipulag var eigi komið á hjeraðsstjórn goðanna svo snemma, eða hjeraðsstjórnina yfirleitt, nema þá í einstaka hjeruðum. Þar sem goðarnir höfðu eigi hjeraðsstjórn á hendi, áður en Úlfljótslög voru sett, þar gátu þeir eigi mist hana. Þessi áhrif hafa því verið misjöfn og farið eptir því sem á stóð í ýmsum hjeruðum landsins.

Í Úlfljótslögum hafa enn fremur hlotið að vera ýms ákvæði um þingaskipun landsins; með þeim hefur fyrst verið reynt að koma ákveðnu skipulagi á hjeraðsþingin, vorþing (várþing), og leiðir.

Áður en Úlfljótslög voru samin, höfðu tvö hjeraðsþing verið sett á stofn, svo getið sje.[2]) Landsmenn voru því búnir að fá nokkra reynslu um hjeraðsþing, áður en landslögin voru sett, og sjá, hvaða gagn þau gerðu heima í hjeruðum. Það lætur því að líkindum að Úlfljótur og aðrir landsmenn hafi viljað koma á fót í helstu hjeruðum landsins samskonar þingum sem þeim, er háð voru á Þórsnesi og á Kjalarnesi. Þótt sögurnar segi því miður heldur lítið af hjeraðsþingunum, má þó sjá af þeim, að þingunum hefur fjölgað bráðlega eptir að Úlfljótslög voru sett, og að þing voru komin á stofn víðs vegar um landið, áður en því var skipt í fjórðunga. Í Íslendingabók er líka getið um eitt ákvæði um vígsakir, sem hlýtur að vera úr Úlfljótslögum, og bendir það á, að sóknarþing eða vorþing hafi verið sett á stofn með þeim. Ákvæði þetta býður „at vígsacar scylldi sækia á þuí þingi, es næst vas véttvangi“.[3]) Þetta var um 962, og er hjer gengið út frá því, að þing sjeu til; en með því að ákvæði hefur verið sett í Úlfljótslög um, hvar

---

Nordmændenes ældste Gude- og Helte-sagn. Christjania 1854, bls. 164—179. O. Rygh segir í 2. utgáfu af þessari bók. Norröne Gude- og Helte-sagn (1880) að eigi sje hægt að semja neina áreiðanlega áætlun um þetta eptir staðanöfnum, sbr. bls. III. [1]) Die Entstehung 155; Upphaf 139. [2]) Sjá að framan I. 305 o. ef. [3]) Íslb. 5 8. Bæði Maurer, Isl. 52, og V. Finsen. Fristat. Institut. 41—42, telja eflaust að ákvæði þetta sje úr Úlfljótslögum.

vígsakir skyldi sækja, má einnig telja víst, að þar hafi verið skipað fyrir um sóknarþing, sem sækja skyldi málin á. Af orðum Ara hins fróða, er hann segir frá skiptingu landsins í fjórðunga, má líka ráða, að eitt þing hefur þá verið í Eyjafirði og annað í Skagafirði. Aptur á móti er eigi eins ljóst af orðum hans, hvort nokkurt þing hafi þá verið háð fyrir vestan Skagafjörð og fyrir norðan Eyjafjörð.[1]) Nú er Húnavatnsþing nefnt um 950,[2]) og er því auðsætt, að það hefur að minsta kosti verið komið á stofn, áður en landinu var skipt í fjórðunga. Einnig er líklegt að þing hafi verið komið á fót fyrir norðan Vaðlaheiði, eins og síðar skal getið nánar. Suður í Borgarfirði var þá einnig þing að Þingnesi.[3]) Þá er getið um Valseyrarþing í Dýrafirði á Vestfjörðum 959. Þar var þá Gestur hinn spaki Oddleifsson á þingi. Hann var frá Haga á Barðaströnd og var í búð hjá Þorkeli auðga: bendir það á að hann hafi eigi sjálfur átt búð á Valseyrarþingi.[4]) Þannig má sjá, að þing hafa verið haldin í hjeruðum á öllu landinu að vestanverðu og norðanverðu sunnan frá Reykjanesi og norður að Langanesi. Aptur á móti er eigi talað um þing á Austfjörðum fyr en um 980.[5]) en um Skaptafellsþing er getið fyr, einhvern tíma á árunum 960 til 970.[6]) Þingskálaþing á Rangárvöllum er fyrst nefnt um 982[7]) og Árnesþing nokkru síðar (um 992):[8]) þó þarf varla að efa að þau hafi verið sett fyr á stofn, en úr þessum hjeruðum eru mjög litlar sögur frá fyrri helming söguldarinnar.

Eigi er heldur mikið kunnugt um hjeraðsþing þau, sem nefnd eru fyrir 963, en svo lítið, sem það er, bendir það þó alt á vorþingin, sem eru kunn af Grágás og enginn efast um að haldin voru eptir 963. Hjeraðsþingin voru haldin á vorin, og er bæði Valseyrarþing og Þórsnesþing nefnt várþing um eða rjett fyrir 960.[9]) Þá voru einnig dómar á þing-

---

[1]) Íslb. 5/8. [2]) Vatn. 33/53. [3]) Íslb. 5/8, Hænsaþ. 12/167. [4]) Gísl.[2] 5–6/11–12; Kålund Ísl. I. 576–577 sbr. 573–574, II. 417; Árbók 1883, bls. 10–15, og 1884–1885, bls. 7–10. [5]) Vápn.[2] 4/32. [6]) Ldn. 11/268. [7]) Nj. 45/201. [8]) Fló 30/154, sbr. 156. [9]) Gísl.[2] 5/12; Lax. 18/49, sbr. Gísl.[2] 5/11, er Þorkell hinn auðgi Þórðarson og Súrssynir riðu um

um þessum til að dæma um mál manna. Þau voru sóknarþing, eins og segir um Valseyrarþing.[1]) Ef þetta er borið saman við ákvæðin í Grágás um vorþingin, má sjá að þing þessi eru þegar komin í líkt horf sem vorþingin og að þau hafa verið sett með Úlfljótslögum. Í Grágás er boðið að vorþingin skyldu eigi byrja fyr en fjórar vikur voru af sumri, eða í fyrsta lagi 7. mai, og eigi síðar en svo, að sóknarþingi væri lokið, þá er sex vikur væru af sumri, eða í síðasta lagi 27. mai. Af því að þau voru haldin á vorin, voru þau nefnd vorþing, og samkomutími þeirra var ákveðinn svo snemma, til þess að nægur tími væri til þess að fara með mál sín og tillögur af þeim til alþingis. Þau máttu eigi heldur standa lengur en eina viku og eigi skemur en fjórar nætur. Þó kendi reynslan að eigi var hagfelt að skylda menn til þess að vera fjórar nætur á vorþingi, ef ekkert var að gera. Fyrir því var ákveðið að þeim mætti slíta, er öllum sökum var lokið, ef þingunautar allir yrðu á það sáttir.[2]) Einnig segir í Grágás að vorþingin væru í tveimur deildum, sóknarþing og skuldaþing,[3]) og er auðsætt af ákvæðinu úr Úlfljótslögum um vígsakir, að vorþingin hafa þegar frá upphafi að minsta kosti verið sóknarþing. En af því leiðir, að einhver dómur hefur þegar í upphafi verið skipaður á vorþingum, eins og annars má sjá af sögunum.

Einnig er líklegt að ákveðið hafi verið með Úlfljótslögum, hve mörg vorþing skyldu vera; þó er eigi hægt að færa nægar sannanir fyrir því, og mögulegt er að það hafi farið mest eptir samkomulagi manna. En með því að telja má nærri víst að Úlfljótur hafi orðið að setja einhver lög um það, hve margir menn skyldu eiga sæti í lögrjettu, er líklegt að hann hafi sett ákvæði um, hve vorþingin skyldu vera mörg, því að goðarnir, sem skipuðu lögrjettu og mestu

„vár“, líklega 958, til Þórsnesþings. Orðið sjálft „várþing“ sannar þó minna, en að þing þessi voru haldin um vor, því að eptir 965 hefði mátt nota orðið vorþing um eldri hjeraðsþing, þótt þau hefðu eigi verið vorþing. [1]) Íslb. 5/8; Gísl.[2] 6/12. [2]) Grág. I a, 96, 97 sbr. 107. [3]) Grág. I a, 102, II, 115.

rjeðu á alþingi, rjeðu einnig mestu á vorþingunum. En af því að hin upphaflegu ákvæði um þetta eru eigi til og af því að menn vita svo lítið um þetta, eru skoðanir manna mjög skiptar um það, hve þingin hafi verið mörg í upphafi. Konrad Maurer hefur ætlað að hver goði hafi haldið þing fyrir sig, þangað til nýmæli Þórðar gellis um fjórðungaskiptingu landsins urðu að lögum;[1]) en Vilhjálmur Finsen ætlar að tólf vorþing hafi verið sett á stofn með Úlfljótslögum, eða tíu, ef Þórsnesþing og Kjalarnesþing, sem voru til áður, eru frá talin.[2])

Svo margt bendir á að hver goði hafi eigi haldið þing í upphafi hjer á landi, að það má að minsta kosti telja það mjög ólíklegt, ef það þykir eigi fullsannað. Að því er snertir landnámsöldina sjerstaklega, verður að vísa til þess, sem áður er sagt.[3]) En þá er kemur fram yfir landnám, er það t. a. m. auðsætt, að þingið í Þingnesi var eigi þing eins goða, heldur þing, sem goðarnir úr Borgarfirðinum hjeldu í sameiningu. Ekkert þing virðist þá hafa verið háð í Borgarfirðinum nema það, en þar voru þó fleiri goðar en einn. Ef hver goði hefði haldið þing, þá hefði átt að sækja brennumálið úr Örnólfsdal á þingi Arngríms goða, en eigi á Þingnesþingi. Arngrímur bjó í Norðtungu[4]) og hefði því átt að eiga þing fyrir norðan Hvítá, ef hann hefði átt nokkuð sjerstakt þing, því að þar voru flestir þingmenn hans.[5]) En á Þingnesi gat Tungu-Oddur haldið þing, því að flestir menn fyrir sunnan ána og fyrir innan Skarðsheiði voru þingmenn hans.[6]) Þó er líklegt að hann hefði valið annan stað hentugri fyrir sig og menn sína en Þingnes, ef hann hefði háð þing einn fyrir sig og menn sína. Þingstaðurinn var auðsjáanlega valinn í miðju hjeraði við Hvítá til þess að sem hægast væri að sækja þingið fyrir goða og þingmenn úr öllu hjeraðinu, hvort sem þeir bjuggu fyrir sunnan eða norðan ána.

---

[1]) Die Entstehung bls. 129 o. ef., 165: Upphaf bls. 115 o. ef., 149–150; Island bls. 101 o. ef., 191. J. E. Sars, Hist. I. fylgir Maurer. Björn M. Ólsen er einnig helst á þeirri skoðun, sbr. Árbók 1884—1885 bls. 12 o. ef. og Andvari 1901 bls. 145 nm. [2]) Sbr. rit hans, Frist. Institut. bls. 79. [3]) Sjá að framan I. 292 o. ef. [4]) Hæns. 1/122. 2/125. [5]) Hæns. 13/168. [6]) Eg. 84/316.

Þá er það einkennilegt og bendir eigi á, að hver goði hafi haldið þing fyrir sig, að hvergi er getið um meira en eitt þing eða þingsamkomu í hverju þingi (þ. e. þingsókn) af öllum þeim átta þingum, sem getið er um fyrir 963. Eitt þing er nefnt í Húnavatnssýslu, eitt í Skagafirði, eitt í Eyjafirði, eitt á Vestfjörðum, eitt í Þórsnesþingi, eitt í Borgarfirði, eitt í Kjalarnesþingi og eitt undir Skaptafelli. Það er kunnugt, að hofin voru miklu fleiri og að þrír goðar eru nafngreindir í sumum þeim hjeruðum, t. a. m. í Eyjafirði og Borgarfirði, sem nú voru talin, og getur varla annað verið, en þeir hafi háð þing í sameiningu. Þó getur verið að tvö þing hafi stundum verið háð á Vestfjörðum, sökum þess að fjöll og firðir greina alla bygð þar í sundur og þar eru engin stór hjeruð, en samgöngur mjög erfiðar. Þó hefur það eigi tíðkast fremur fyrir 963 en löngu síðar, því að í lok 12. aldar og á 13. öld er getið um að þing voru haldin í Dýrafirði og í Þorskafirði, en þó eigi samtíða á báðum stöðunum; má því vera að menn hafi skipt um þingstaði bæði fyr og síðar.[1]) Um Þorskafjarðarþing er fyrst getið kring um 970 og er allgreinilega sagt af því litlu síðar (976) í sögu Gísla Súrssonar.[2]) Hve nær það var sett á stofn, vita menn eigi. Það getur verið að það sje eigi eldra en lög Þórðar gellis, en það getur líka verið eldra og stofnað samkvæmt Úlfljótslögum. Þar sem samgöngur á Vestfjörðum voru svo erfiðar og bygðin er svo dreif og sundurlaus, var eðlilegt að Vestfirðingar ættu stundum erfitt með að koma sjer saman um einn sameiginlegan þingstað. Samt sem áður er þetta engin veruleg sönnun fyrir því, að hver goði hafi haldið þar þing fyrir sig, því að þá hefðu þingin orðið að vera þrjú.

Til skamms tíma að heita má var mönnum eigi kunnugt um að goðar voru til í Noregi, áður en Ísland bygðist, og að goðarnir á Íslandi áttu uppruna sinn að telja til þeirra.

---

[1]) Rs. Sturl. II, 4/277; Sturl. I. 13/177, 150/388. [2]) Ldn. 21/128, 10/197; Gísl.[2] 27—28/73—77; um þingstaðinn sbr. Kalund, Isl. I, 524—527; Daniel Bruun. Arkæologiske Undersøgelser på Island, Kbhavn. 1899, bls. 28—31 (Sjerprent úr Geografisk Tidsskrift).

Þetta hefur sjerstaklega valdið því, að menn hafa ætlað, að hver goði hafi sett þing á stofn hjá sjer um leið og hann reisti hof. Menn studdu þessa skoðun með stofnun Þórsnesþings og Kjalarnesþings og skýrðu setning þeirra í samræmi við hana [1]) Að setja þing á stofn var talið goðastarf, eins og t. a. m. að reisa hof og blóta goðin. Það var eðlilegt að litið væri svo á þetta, af því að menn hugðu að goðarnir ættu uppruna sinn að telja til hersanna og væru eptirmenn þeirra. En að því var eigi gætt að bygging hofsins og setning þingsins á Þórsnesi fóru eigi saman, heldur liðu eigi minna en tíu ár þar á milli. Það voru tvö fyrirtæki, eða tvær stofnanir. Þórólfur Mostrarskegg hefði vel mátt setja þing, þótt hann hefði eigi verið goði, en nú vildi svo til að hann var trúmaður mikill, og fyrir því hafði hann fyrst hugsað um það, sem þurfti til þess að rækja trúna. Hins vegar setti hann Þórsnesþing svo snemma á stofn, að ef til vill hefur í fyrstu enginn goði verið þar á þingi annar en hann. En er goðum fjölgaði þar vestra, sóttu þeir Þórsnesþing. Sumir af hinum helstu höfðingjum, sem námu land við Breiðafjörð, svo nærri Þórsnesi að þeir áttu hægt með að sækja þangað þing, höfðu verið lengi fyrir vestan haf, og voru annaðhvort kristnir eða svo blendnir í trúnni, að þeir reistu engin hof. Það var því fátt um goða í fyrstu sunnan og austan til við Breiðafjörð. Má sjerstaklega minna á helstu höfðingjana í Dalasýslu, Ólaf feilan og Dala-Koll. Ólafur var helstur höfðingi í Dölum framan af 10. öld og tók við arfi eptir ömmu sína kristna. Trú hans mun síðan hafa spillst. Hann mun hafa haft átrúnað á Krosshóla og mun hann hafa látið gjöra þar hörg og tekið að blóta. Sonur hans Þórður gellir var leiddur í hörg á hólunum, er hann tók við mannvirðingu eptir föður sinn.[2]) Báðir voru þeir feðgar höfðingjar miklir, og mun Þórður hafa verið goði, þótt þess sje hvergi beinlínis getið. Þórarinn fylsenni sonur hans átti hof og er nefndur goði og er

---

[1]) Sbr. t. a. m. Maurer, Entstehung bls. 126, 133—134; Upphaf bls. 112, 118—120; Island bls. 48. [2]) Ldn. 16/111, 19/117.

líklegt að hann hafi fengið það eptir föður sinn.[1]) En þótt Þórður gellir hafi verið goði, er þó ekkert, sem bendir á að hann hafi haldið þing með Dalamönnum. Aptur á móti virðist hann hafa staðið í svo nánu sambandi við Þórsnesþing, að varla þarf að efa, að það hefur verið vorþing hans, áður en hann bar upp nýmæli sitt. Hann var mágur Þórsteins þorskabíts Þórólfssonar Mostrarskeggs, og hann setti fjórðungsþing Vestfirðinga á vorþingisstað Þórsnesinga. Einnig gerði hann um deilur Þórsnesinga og Kjalleklinga, en þó virðist hann eigi hafa verið á þingi, þá er þeir börðust.[2]) Einnig er það eptirtektavert að Kjalleklingar fara að öllu sem sjálfstæðir höfðingjar, en eigi eins og þeir væru þingmenn Þorsteins þorskabíts, þótt þeir sæki þing það, sem faðir hans hafði sett. Skógstrendingar og Áslákur úr Langadal [3]) eru eigi heldur taldir með þingmönnum Þorsteins, þótt þeir sjeu á þingi. Þeir koma þar líka fram sem óháðir menn gagnvart honum, en um þingmenn Þorsteins og vini er sagt að þeir börðust með honum.[4]) Í nánum tengdum við Kjalleklinga var Þormóður landnámsmaður og goði á Rauðkollsstöðum. Hann var tengdasonur Kjallaks hins gamla í Bjarnarhöfn.[5]) Þormóður hefur að líkindum sótt Þórsnesþing, því að kunnugt er, að þangað sóttu flestir Hnappdælir vorþing síðar á 10. öld.[6]) Alt þetta nægir til þess að sýna, að það muni eigi vera rjett, að draga þá ályktun út af hofi því og þingi, sem Þórólfur Mostrarskegg setti, að hver goði hafi átt þing fyrir sig og hofsóknarmenn sína við hof sitt. Hjeraðsþingum má eigi blanda saman við blótfundi eða „messugjörð“ heiðinna manna.

Af Kjalarnesþingi er færra kunnugt en af Þórsnesþingi, en um upphaf þess mun þó líkt farið og um Þórsnesþing. Það mun eigi hafa verið sett um leið og hof var reist. Íngólfur var mikill trúmaður og því er allíklegt að hann hafi reist hof, þótt þess sje eigi getið. En fyrir því vita menn eigi

[1]) Kr. s., Bps. I, 2/6; Þorv. þ. 4/42—43. [2]) Eyrb. 10/11; Ldn. 12/98. [3]) Í byrjun 11. aldar er getið um Þórarin goða í Langadal. Lax. 67/246. [4]) Eyrb. 9/10. [5]) Ldn. 6/79, 11/96. [6]) Sbr. Eyrb. 56/103—6.

með vissu, hvort Þorsteinn Ingólfsson hefur fengið hof eða goðorð að erfðum; það er hvergi sagt að hann hafi verið goði áður en Úlfljótslög voru sett og alþingi hófst, en það er eigi ólíklegt. Um trú hans er ekkert kunnugt, en hann gat vissulega sett þing á stofn, þótt hann hafi eigi verið hofgoði.[1]) Til þess að geta gert það, þurfti hann einungis að vera greindur maður, höfðingi og skörungur til framkvæmda, og það var hann auðsjáanlega. Að þingi Þorsteins hurfu nokkrir aðrir höfðingjar úr næstu sveitum; er mjög líklegt að einhverjir af þeim hafi verið hofseigendur og goðar, einkum þá er leið að lokum landnámsaldarinnar. Synir Helga bjólans voru heiðnir og munu hafa reist hof. Einn þeirra, Þorgrímur, var goði, ef nokkuð má marka Kjalnesinga sögu.[2]) Refur hinn gamli, sonur landnámsmannsins í Brynjudal, hefur ef til vill verið goðorðsmaður. Hann er nefndur svo í einni sögu, sem að vísu er eigi áreiðanleg, en getur þó verið rjett um atriði þetta.[3]) Refur hefur að líkindum sótt Kjalarnesþing, sem varð vorþing manna við Faxaflóa sunnanverðan, þá er landslög voru sett. En Kjalarnesþing hefur tæplega breytst mjög mikið við það, nema ef til vill að því er dómnefnu snertir. Enginn veit, hvernig dómur var skipaður þar upphaflega, en eptir 930 hefur hann verið skipaður eins og á hinum vorþingunum.

Þá er alt er athugað, verður það ljóst, að forfeður vorir hafa í upphafi eigi sett hof og þing jafnsnemma á stofn á Íslandi. Ýmsir menn reisa hof, án þess þó að setja þar nokkuð þing. Hofin reistu menn heima á bæjum sínum. Þingin voru sett síðar, þar sem haganlegast þótti fyrir þingheyjendur. Að þessu leyti er það einkennilegt og eptirtektavert, að þingstaðirnir voru því nær ávalt annars staðar, en þar sem hof voru reist. Að eins ein undantekning er kunn frá þessu. Það er Þórsnesþing. Það var í upphafi háð á hofstað, áður en það var flutt inn í nesið, þar sem síðan heitir Þingvellir.[4])

---

[1]) Ekki mun Úlfljótur hafa verið goði og hann setti þó alþingi á stofn. [2]) Kjal. 2,401—402. [3]) Harð. 23 72. [4]) Eyrb. 10 11—12; sbr. um vorþingisstaðinn Kalund. Isl. I. 436—438, 440—444; Árbók 1882

Bæði sögurnar og þingatala sú, sem ákveðin var um 963, sýna að þingin voru þegar í upphafi eigi nærri eins mörg og hofin eða goðorðin. Þórður gellir hefur eðlilega reynt að halda sjer sem næst við þann þingafjölda, sem áður var. Það var engin ástæða fyrir hann að fækka þingunum, og eigi er heldur líklegt, að hann hefði í hendingskasti getað fengið menn til þess að leggja niður þing sín, ef þeir hefðu átt þau. Auk þess var slíkt als eigi tilgangur hans. Hann vildi hindra að menn þyrftu að fara í ókunn þing að reka rjettar síns og að annar málsaðili hefði allan hag á sína hönd. Það skipti hann því litlu, hvort hjeraðsþingin voru fleiri eða færri. Að minsta kosti gátu þau vandræði, sem hann vildi bæta úr, eigi orðið meiri þótt þingin hefðu verið smá og mörg, heldur þvert á móti. Einn goði gat aldrei orðið utanhjeraðsmönnum jafnhættulegur með mannafla sínum sem þrír goðar með liði sínu, ef þeir snerust öndverðir við utanhjeraðsmönnum á vorþingum. Fyrir því virðist flest benda á það, að ákveðið hafi verið í Úlfljótslögum að vorþingin skyldu vera tólf, ef nokkuð ákvæði hefur verið um það gert. Hins vegar er eigi hægt að sanna þetta algjörlega; sum af þeim rökum, sem Vilhjálmur Finsen hefur leitt að þessu og tekið góð og gild, eru í raun rjettri lítilsvirði að því er atriði þetta snertir.[1] Í Hauksbók[2] og Þorsteins þætti uxafóts,[3] í Melabók,[4] og Þórðar sögu hreðu[5] eru þingin talin þrjú í hverjum fjórðungi eða tólf als; en þetta þarf als eigi að vera af því að þingin hafi verið tólf, áður en landinu var skipt í fjórðunga. Mönnum hefur verið tamt að tala um þrjú þing í fjórðungi hverjum, án þess að taka Norðlendingafjórðung undan, og fyrir því getur þetta verið orðað svo. Goðorðin norðlensku voru fjórðungi skerð, og sökum þess urðu norðlensku þingin það einnig. Þau höfðu því eigi meiri rjettindi eða gildi á

---

bls. 93—96, 102—105; Grönlands hist. Mindesmærker I, 520—525. Collingwood and Jón Stefánsson, Saga-steeds of Iceland, bls. 89, 96 o. ef.; þeir hafa fyrstir rithöfunda sjeð, hvar þingið var háð. [1]) Sbr. Fristat. Institut. bls. 69—76. [2]) Ldn.[2] 268/96. [3]) Flat. I, 201/249 og Fms. III, 1/105. [4]) Ísl. I, 334. [5]) Þórð. hr. 1/94.

alþingi, en þrjú þing önnur eða þótt þau sjálf hefðu verið einu færra. Þetta komst algjörlega inn í meðvitund þjóðarinnar, svo að það mun hafa þótt óþarfi að geta ávalt um að þingin væru fjögur í Norðlendingafjórðungi og goðarnir þar því tólf, með því að það var þýðingarlaust á alþingi og mönnum var það kunnugt, svo að eigi þurfti að óttast að menn misskildu þetta á meðan fjórðunga og þingaskipun Þórðar gellis var í fullu gildi. En er þetta var komið inn í meðvitund þjóðarinnar, festist það einnig i málinu, og komst meðal annars i heimildarrit þau, sem áðan voru talin. Auk þess eru heimildarrit þessi svo ung, að eigi má meta gildi þeirra mikils um þetta. Höfundar þeirra eða ritarar eru svo ókunnugir hinum upphaflega lögum um þing landsins og skiptingu þess í fjórðunga, að í Hauksbók og Þorsteins þætti segir, að landinu hafi verið skipt í fjórðunga, þá er Úlfljótur setti lög sín. Í Melabók segir að það hafi verið gert um daga Þórðar gellis. Í Þórðar sögu er eigi sagt, hve nær það var gert; þó veit ritari hennar að fjórðungaskiptingin er yngri en Úlfljótslög. En það segir í öllum þessum ritum, að þrjú þing „skyldu vera" í hverjum fjórðungi, og er það rjett. Svo átti það að verða. Söguriturum eða afriturum um og eptir 1300 hefur varla verið hægt að skýra þetta nánar, því að þeir hafa hvorki haft tæki til þess nje þekkingu. Í þá daga hugsuðu menn einnig mjög litið um að kynna sjer skipulag þjóðfjelaga og framþróun þeirra.

Þetta orðalag kemur einnig glögglega í ljós í Grágás; má sjerstaklega geta hjer um ákvæðin um dómnefnu i fjórðungsdóm, af því að V. Finsen styður skoðun sína mest við þau. Ákvæði þessi hljóða svo:

„Þat er mælt í lögum várum, at vér skulum fjóra eiga fjórðungsdóma. Skal goði hverr nefna mann í dóm, er fornt goðorð hefir ok fult. Enn þau eru full goðorð ok forn, er þing váru þrjú í fjórðungi hverjum, enn goðar þrír í þingi hverju; þá váru þing óslitin".[1]) Af því að hjer er að ræða

[1]) Grág. I a, 38.

um nefnu á mönnum í fjórðungsdóma, sem voru fyrst settir, þá er búið var að skipta landinu í fjórðunga, geta þessi lagaákvæði eigi verið eldri en fjórðungsdómarnir og eigi átt við eldri tíma en stofnunartíma dómanna. Hjer er því eingöngu miðað við þá þingaskipun, sem komin var á, þá er fjórðungsdómarnir voru settir, það er við þrettán þinga skipunina (frá um 963), og þær breytingar, sem urðu síðan á þingunum, er þau slitnuðu eða skiptust í sundur, þá er einstaka menn tóku upp ný goðorð (fimtardómsgoðorðin) eða slíta fjelagsskap við hin fornu þing, eins og t. a. m. Þorsteinn úr Hafursfjarðarey gjörði.[1]) Af því að hin fornu goðorð í Norðlendingafjórðungi voru fjórðungi skerð við dómnefnuna, sökum þess að þau voru fjórðungi fleiri en goðorðin í hinum fjórðungunum, eru þing fullra goðorða og fornra talin þrjú í fjórðungi hverjum,[2]) og hefur eigi þótt nauðsyn að taka þarna fram þá undantekningu, sem átti sjer stað um goðorðin og þingin á Norðurlandi. Þetta getur því ekki verið næg sönnun fyrir

[1]) Eyrb. 56/105. [2]) Grág. I a, 211. Sbr. Björn M. Ólsen, Andvari 1901 bls. 146—149. Dr. Ólsen skýrir þar skerðingu goðorðanna í Norðlendingafjórðungi rjett og greinilega, en er hann segir að skilningur V. Finsens á þessum stað í Grágás „geti með engu móti verið rjettur, því að í honum felst sú mótsögn, að þing hafi verið þrjú „í fjórðungi hverjum“, áður en landinu var skipt í fjórðunga, áður enn nokkrir fjórðungar voru til!“ (Andvari 1901, bls. 145), þá er þetta eigi rjett skilið hjá dr. Ólsen. Eins og kunnugt er, eru þing á Íslandi eldri en fjórðungaskiptingin, en landnámin t. a. m. eru líka eldri en fjórðungaskiptingin og enn þá eldri en þingin. Þó er í Landnámu, sem var rituð á 12. og 13. öld, á sömu öldum sem þjóðveldis lögin voru skrásett, talað um landnám í fjórðungi hverjum, „áður enn nokkrir fjórðungar voru til.“ Það verður að gæta að því, að fjórðungaskiptingin var hin fyrsta staðlega skipting á Íslandi næst eptir smáskiptingu þá, sem gerð var eptir eign manna, þá er landið bygðist, og að hún var um langan aldur hin eina staðlega skipting samkvæmt stjórnarskipun landsins, sem til var. Auk þessa var fjórðungaskiptingin handhæg og einföld, er um alt landið var að ræða. Allir gátu skilið hana og munað, og hún var því brátt notuð mjög mikið af landsmönnum bæði í ræðu og riti. Á 12. og 13. öld, þá er hinar fornu bókmentir vorar blómguðust, höfðu menn enga aðra staðlega stórskiptingu á landinu að miða við, en fjórðungaskiptinguna. Ef eigi var nóg að nefna bygðarnafn, þá var fjórðungaskiptingin notuð eða landshlutirnir og áttirnar. Menn

því að 12 þing og 36 goðorð hafi verið á öllu landinu á meðan lög Úlfljóts voru óbreytt, þótt vera kunni, að nokkur bending í þá átt sje fólgin í þessum stað. Ákvæðið um að hver goði nefnir mann í dóm, mun semsje að öllum líkindum eiga uppruna sinn að rekja til Úlfljótslaga, og sýnir það þá að 36 menn hafa upphaflega setið í dómi á alþingi, og að þeir menn, goðarnir, sem þá fengu sæti í lögrjettu, hafi verið 36, jafnmargir dómendunum, sem þeir nefndu. Með því að sögurnar sýna, að þingin í sumum hjeruðum landsins hafa fyrir árið 963 verið þrisvar sinnum færri en goðorðin, benda þessar tölur einnig á að þingin hafi átt að vera tólf.

Svipað þessu er farið um fleiri staði í Grágás,[1]) en þeir sýna þó fyrst og fremst, hve ríkt var haldið jafnvægi á milli fjórðunganna.

Þannig bendir allmargt á að vorþingin hafi átt að vera tólf, áður en landinu var skipt í fjórðunga, og að svo hafi verið ákveðið í Úlfljótslögum, en hins vegar verður að gæta að því, að við marga og mikla örðugleika hefur verið að

---

miðuðu í fornöld við þá skiptingu landsins, sem þá átti sjer stað, eins og vjer miðum við hina núverandi skiptingu. Vjer segjum t. a. m. að Skálholt sje í Árnessýslu og Kristnes í Eyjafjarðarsýslu, og þó eru bæir þessir nokkrum öldum eldri en sýslurnar. Sýsluskiptingin myndaðist upp úr hinni fornu þingaskiptingu, er varð staðarleg eptir að ný landslög voru sett seint á 13. öld. En vjer miðum nú sýslur við ömt, rjett eins og forfeður vorir miðuðu þingin við fjórðunga, og segjum t. a. m. að Árnessýsla sje í Suðuramtinu og Eyjafjarðarsýsla í Norðuramtinu, þótt sýslurnar sjeu miklu eldri en amtaskiptingin. Og mikið má það vera, ef menn hafa eigi á vorum dögum sagt að sú eða sú sýsla væri í einhverju af ömtum landsins, þótt um eldri tíma væri að ræða en 1770, þá er landinu var fyrst skipt í ömt. Líkt gerðu forfeður vorir, er þeir töluðu um þing. Þeir miðuðu þau við fjórðungana og sögðu t. a. m. að Þórsnesþing væri í Vestfirðingafjórðungi, Kjalarnesþing í Sunnlendingafjórðungi eða að þrjú þing voru í fjórðungi hverjum, þótt þingin væru eldri en fjórðungarnir. Af þessu mun það nú orðið ljóst að vel má tala um þing í fjórðungum, þótt um eldri tíma sje að ræða en um 963, og að slíkt sannar als eigi, eins og dr. Olsen hefur ætlað, að staður sá í Grágás, sem hjer ræðir um, geti eigi átt við þingaskipun landsins fyrir 963. [1]) V. Finsen telur þessa staði í Fristat. Institut. bls. 71—76.

eiga, þá er til framkvæmdanna kom. Það er með öllu ókunnugt, hve greiðlega hefur gengið að koma vorþingunum á stofn; en það er eigi líklegt, að þau hafi öll komist á jafnskjótt og þegar í stað, heldur hafi þau flest verið sett á næsta áratug eptir að Úlfljótslög voru samþykt. Á Kjalarnesi og Þórsnesi, þar sem þing voru áður komin á fót, hefur fyrirhöfnin að líkindum eigi verið mikil. En landið er stórt og strjálbygt, og vegaleysi var um alt land. Það hlaut að vera til hindrunar. Landsmenn hafa því varla allir verið fljótir á sjer. Auk þess vantaði þá löghlýðni, sem nauðsynleg er til þess að geta alment framkvæmt tilskipanir fljótt og vel. Enginn var heldur skipaður til þess að hafa eptirlit með því, að þing væru stofnuð um alt land. Engin framkvæmdarstjórn var skipuð í landinu og fyrir því hlaut framkvæmdin mest að vera komin undir einstökum mönnum og frjálsu samkomulagi. Til þess að koma á öllum vorþingunum þurfti því nokkurn tíma. Það varð að íhuga hvar haganlegast væri að setju þau. Goðarnir og aðrir hinir helstu menn hafa orðið að koma sjer saman um það, því að ekki er líklegt að menn hafi tekið ákvæði um það á alþingi, þá er Úlfljótslög voru samþykt, enda hefur þá verið nóg annað að gera. Það má því ætla, að það hafi eigi gengið als staðar jafngreiðlega að koma vorþingunum á. Sumstaðar hafa menn að líkindum átt erfitt með að koma sjer saman um þingstaðinn og ef til vill skiptst í tvo flokka og sett tvö þing í staðinn fyrir eitt að byrja með. Um 929 voru goðarnir eigi fleiri en svo að nóg hefur verið að láta 36 goða fá sæti í lögrjettu. Þá hafa menn einnig viljað hafa tólf þing, en reynslu vantaði og fólkinu fjölgaði, og þá hefur goðorðunum einnig fjölgað. Ef til vill hafa menn í fyrstu hugsað að nóg væri að hafa eitt þing á Austfjörðum eins og í Vestfjörðum, en reynslan sýndi annað, þá er mannsaldur var liðinn og landinu var skipt í fjórðunga. Þá hefur í flestum hjeruðum landsins verið komin regluleg skipun á vorþingin, en hvort þau voru þá tólf eða þrettán eða jafnvel fjórtán, vitum vjer eigi með vissu. Þau hafa eins vel getað verið þrettán eins og tólf, þótt einungis 36

goðar sætu í lögrjettu. En í strjálbygðustu hlutum landsins hafa þingin eðlilega einna seinast náð fullri festu.

Fjórðungaskiptingin lagði nokkur bönd á menn, og þau gátu valdið því, að þingin urðu að vera þrettán eptir það, þótt áður hefði mátt komast af með tólf þing. Úr Norður-Þingeyjarsýslu máttu menn t. a. m. fyrir 963 sækja þing í Sunnudal, en eptir fjórðungaskiptinguna gátu menn það eigi. Það getur því verið að eigi hafi verið nema sjö eða átta goðar á Austurlandi, þá er landslögin voru sett, en tíu eða ellefu á Norðurlandi, og hefur þá mátt jafna það þannig, að hægt var að binda tölu goðanna í lögrjettu, eða lögrjettumannanna við þrennar tylftir, eins og menn voru vanir við úr Gulaþingslögum. Á meðan landið var ein heild, var þetta yfirleitt hægra viðfangs, en eptir fjórðungaskiptinguna þurfti að gæta jafnvægisins á milli fjórðunganna, og það olli erfiðleikum, af því að Norðlendingafjórðungur var langstærstur.

Leið, leiðarþing eða haustþing voru ásamt vorþingum og alþingi nefnd skapþing, þ. e. hin venjulegu eða hin löglegu þing. Á leiðum átti að skýra frá þeim lögum, sem samþykt voru á alþingi, svo að þau yrðu öllum kunn út um bygðir landsins. Þær geta því eðlilega eigi verið eldri en alþingi og eigi settar fyr á stofn en með Úlfljótslögum. Hins vegar var tekið að halda leiðir áður en nýmæli Þórðar gellis um varnarþing manna voru í lög tekin, svo að þær eru eigi settar með lögum hans. Fyrir 950 er getið um leið í Vatnsdæla sögu, en með svo almennum orðum, að hæpið er að draga ályktun út af þeim um setningu leiðarþinga.[1]) Aptur á móti er Ljósvetningaleið nefnd um 960.[2]) og sökum þess má telja víst að leiðir hafi verið háðar um miðja 10. öld. Nú er það eigi kunnugt að nein lög hafi verið sett um stjórnarskipun landsins frá því að Úlfljótslög voru sett og þangað til nýmæli Þórðar gellis komu til sögunnar. Fyrir því má hafa það fyrir satt, að leiðir eigi uppruna sinn

---

[1]) Vatn. 27/43. [2]) Reyk. 12/51.

að rekja til Úlfljótslaga. Í hinum fornu norsku lögum er þó hvergi getið um leið, en í landslögum Magnúsar lagabætis er hún nefnd,[1]) og hafa Norðmenn að líkindum tekið hana upp eptir Íslendingum.[2]) Úlfljótur virðist því eigi hafa haft neitt sjer til fyrirmyndar í Gulaþingslögum, og ákvæðin um leið hafa því verið ein af þeim nýjungum, sem hann setti í lög sín. Það er einnig mjög eðlilegt að Úlfljóti skyldi hugkvæmast að setja á fót leiðarþing. Þau skipa autt rúm í stjórnarskipun hans og bæta hin þingin upp. Úlfljótur hefur sjeð það, þá er hann íhugaði, hvernig auðveldast væri að kunngjöra almenningi lög þau, sem alþingi samþykti, og annað markvert, er þar gerðist og þjóðinni reið á að fá að vita. Hann hefur þá sjeð, að þetta varð að kunngjöra fyrir þeim mönnum, sem eigi gátu sótt alþingi, á þingum heima í hjeruðum, og ákveðið, að goðarnir skyldu halda þau, þá er þeir væru komnir heim af alþingi, á sumrin eða á haustin. Leiðarþing voru haldin í júlí eða í ágúst, og voru nefnd haustþing, annaðhvort af því að stundum var tekið að líða að hausti, þá er þau voru haldin, eða öllu heldur í mótsetningu við vorþingin. Að Úlfljótur er höfundur leiðarþinganna, styrkir einnig mjög þá skoðun, að hann hafi fyrstur sett lög um vorþingin og reynt með lögum að koma einu skipulagi á þau. Hann er því höfundur að allri þingaskipun landsins, nema fjórðungsþingunum.

Þótt landslög væru sett, má þó eigi ætla að alt hafi þegar fallið í ljúfa löð, sem lögin buðu, og það komist þegar á fót. Það var auðvitað miklu hægra fyrir landsmenn, að samþykkja góð lög, sem einn eða tveir menn höfðu samið og lagt fyrir þá, en að framkvæma þau svo að í lagi væri, og koma á öllum þeim stofnunum, þingum og dómum, sem lögin skipuðu. Hin fornu lög sýna það líka sjálf, að Íslendingar í fornöld voru snjallir að setja ítarleg og nákvæm lög

---

[1]) N. g. L. II 7/18. [2]) Sbr. Maurer, Entstehung 173; Upphaf 157. Úr þjóðveldislögum vorum hefur leið verið tekin upp í hin nýju lög á 13. öld, sjá Járnsíðu 5/7 og Jónsbók 7/12.

um nærri alt, sem fyrir gat komið í þjóðfjelagi þeirra. En fornsögurnar sýna það einnig, að þeir voru einrænir og einráðir, að þeir sáust lítt fyrir og voru fljótir til þess að brjóta lögin. Þeir voru vanir að fara eptir geðþótta sínum, en óvanir samvinnu.

Einstaka menn, sem voru duglegir og harðfengir, gátu jafnvel þröngt nágrönnum sínum til þess að gerast undirmenn sínir. Metorðagjarnir menn gerðu það stundum eins og Hrafnkell Freysgoði. Hann gerði það tvisvar að sagt er; í fyrra sinnið um það leyti sem Úlfljótslög voru sett, en í hið síðara sinn um eða laust fyrir miðja 10. öld. Í fyrra sinnið átti hann hof, í síðara sinnið eigi. Fyrra goðorð hans virðist hafa verið löglegt, hið síðara aptur á móti ólöglegt, enda aflaði hann sjer þá þingmanna auðsjáanlega til þess að geta hefnt sín og náð aptur fyrra goðorðinu og fyrri virðingu. Þótt hann væri þá hættur að blóta og ætti eigi hof, gat hann þó aflað sjer þingmanna.[1]) Sýnir dæmi hans að eigi var nauðsynlegt að eiga hof eða vera hofgoði til þess að ná undir sig mannaforráðum. Duglegir menn gátu aflað sjer þingmanna sökum vinsælda og hreysti og annara mannkosta, þótt þeir væru eigi löggoðar eða forráðsgoðar; en svo eru hjer nefndir þeir goðar, sem áttu sæti í lögrjettu og höfðu löggjöf og landsstjórn á hendi. Dæmi upp á þess konar menn var Arnkell goði Þórólfsson. Hann var hofgoði og mun hafa tekið upp goðorð sitt eptir að landinu var skipt í fjórðunga, því að hans getur á Þórsnesþingi á árunum um 980—992. Aðrir menn af öðrum ættum áttu þá hin löglegu goðorð í Þórsnesþingi, svo að hann hefur eigi getað verið löggoði. Hann átti marga „þingmenn“, en háði þó eigi neitt sjerstakt þing, heldur sótti hann Þórsnesþing, sem honum lá næst að sækja, og var það varnarþing hans.[2])

Þannig gátu við og við komið fyrir ýms afbrigði frá stjórnarskipun landsins, og er hæpið að leiða almenn stjórn-

---

[1]) Hrafnk.[2] 2/96—97, 7/126. [2]) Eyrb. 12/13—14, 16/19, 19/31, 27/45, 31/55, 35/64 sbr. Ldn. 9/89—90.

arskipunarákvæði út af þeim; en þau sýna að menn voru eigi svo löghlýðnir sem skyldi, og leyfðu sjer stundum að bregða út af lögunum; enda er sitt hvað, lögin eða framkvæmd þeirra.

---

## Lög Þórðar gellis og stjórnarskipunarbreytingin um 963.[1]

Stjórnarskipun Úlfljóts stóð óbreytt hjer um bil þriðjung aldar. Þá varð þingdeila mikil á milli þeirra Þórðar gellis Ólafssonar feilans frá Hvammi í Dölum og Oddssonar Önundar breiðskeggs. Hann var kallaður Tungu-

[1]) Lög Þórðar gellis eru venjulega talin frá árinu 965, því að svo hefur Guðbrandur Vigfússon ársett þingdeilur Þórðar gellis og Tungu-Odds og setningu fjórðungsdóma, sbr. Safn I, 321—23, 496. Árið er þó alveg óvíst og hefur Guðbr. Vigfússon valið þetta ár, af því að Ann. IV og V telja það dauðaár þeirra Tungu-Odds og Þórðar. Nú er það eigi rjett, að minsta kosti eigi að því er Tungu-Odd snertir, og ætlar Guðbrandur því að þeir hafi deilt það ár. Brennuna setur hann svo árið áður (964), Safn I, 321—23, 496. Allir hinir bestu annálar setja hana árið 962, Ann I, II, IV, V, VII. Þeir eru að vísu eigi áreiðanleg heimild um svo gamlan viðburð, en þó hefur eigi verið færð nein veruleg ástæða fyrir því, að víkja frá þessu ártali þeirra. Eptir Hænsa-Þóris sögu tekur Blundketill upp hey hjá Þóri á einmánuði. Þá er leið að sumri, fer Þorvaldur Tungu-Oddsson að norðan á fund föður síns, en gengur þá í mál Hænsa-Þóris og brennir Blundketil inni (Hæns. 5 134, 7/143). Á vorþingi reynir Þórður gellir að sækja málið, en það mistekst; hann fer með það til alþingis og ber þar upp nýmæli sín; gerist það alt á sama sumri eptir sögn heimildarritanna (962). Tímatal Guðbr. Vigfússonar um þetta er af handahófi og fjórðungsdómana setur hann sama ár, en þeir hafa fyrst verið settir fám árum síðar. Þess vegna mun vera fult eins rjett að ársetja lög Þórðar gellis 962 eða 963, ef alt hefur eigi gerst á einu ári, sem 965 Ef lögin hafa verið samþykt 962, hafa menn fyrst getað tekið að framkvæma þau vorið eptir. Ef lögin um að nýmæli skyldi segja upp á næstu þremur sumrum, áður en þau fengju varanlegt gildi í löggjöf landsins hafa þá verið komin á, hefur orðið að bíða lengur, en það er eigi líklegt, að þau hafi verið sett svo snemma.

Oddur eptir landnámi föður síns eða afa [1]) og var goði fyrir sunnan Hvítá í Borgarfirði.[2]) Ari hinn fróði segir svo frá að Þorvaldur, sonur Odds, hafi verið með Hæsna-Þóri að brennu Þorkels Blundketilssonar í Örnólfsdal, en Þórður gellir varð höfðingi að sökinni, af því að Hersteinn Þorkelsson Blundketilssonar átti Þórunni systurdóttur hans. Hún var dóttir Helgu Ólafsdóttur feilans og Gunnars Hlífarsonar.[3]) En þeir Þorvaldur Oddsson voru sóttir á þingi því, er var í Borgarfirði, á þeim stað, er síðan er kallað Þingnes. „Þat vǫ́ro þá lǫg, at vígsacar scylldi sœkia á þui þingi, es næst vas véttvangi". En þeir börðust þar og mátti þingið eigi heyjast að lögum. Þar fjell Þórólfur refur, bróðir Álfs í Dölum, úr liði Þórðar gellis. En síðan fóru sakirnar til alþingis, og börðust þeir þar þá enn; þá fjellu menn úr liði Odds. Hæsna-Þórir varð sekur og drepinn síðan, og fleiri, þeir er voru að brennunni. „Þá talþi Þórþr geller tǫlo umb at lǫgbergi, hvé illa mǫnnom gegndi at fara í ócunn þing at sœkia of víg eþa harma sína, oc talþi, huat hǫ́nom varþ fyrer, áþr hann mætti þui máli til laga coma, oc quaþ ýmissa vandræþi møndo verþa, ef eigi réþisc bœtr á. þá vas landino scipt í fiórþunga, suá at iii urþu þing í hueriom fiórþungi, oc scylldo þingonautar eiga huar sacsócner saman, nema í Norþlendinga fiórþungi vǫ́ro iiii, af þui at þeir urþu eigi á annat sátter. þeir, es fyr norðan vǫ́ro Ayiafiǫrþ, villdo eigi þangat sœkia þinget, oc eigi í Scagafiǫrþ, þeir es þar vǫ́ro fyr vestan, en þó scylldi iǫmn dómnefna oc lǫgrétto scipon ýr þeira fiórþungi, sem ýr einom hueriom ǫþrom. en síþan vǫ́ro sett fiórþungar þing".[4])

Þetta hafði Ari hinn fróði eptir Úlfhjeðni lögsögumanni Gunnarssyni; hann var lögsögumaður 1108 til 1116 og sonur Gunnars hins spaka lögsögumanns. Hann hefur að líkindum þegar í æsku haft gott tækifæri til að kynnast lögum lands-

[1]) Sbr. að framan I, 117 og Mb. Ldn.[2] 244. [2]) Eg. 84/316. [3]) Eg. 79/294; Lax. 7/16; Ldn. 19/116. Í Hænsa-Þóris sögu 10/157—59. 11/161 er hún kölluð Þuríðr en eigi Þórunn. [4]) Íslb. 5/7—8; sbr. Ldn.[2] 268/96; Melab. Ísl. I, 334; Þórð. s. hr. 1/94; Þorst. uxaf., Flat. I 201 249.

ins, og hefur verið mjög vel að sjer í þeim, enda er stundum vitnað til hans.[1]) Tveir synir Úlfhjeðins urðu síðar lögsögumenn og virðist lögspeki hafa legið í ættinni. En Ari mun einnig hafa haft frásagnir um þetta, sem hafa gengið í ætt hans. Hann var sjálfur fimti maður frá Þórði gelli í beinan karllegg.

Af viðburðum þeim, sem ollu því að Þórður gellir kom með nýmæli sitt, segir miklu nákvæmar í Hænsa-Þóris sögu, en henni ber eigi saman við Ara í ýmsum atriðum; er flest eða alt sannara hjá Ara, þar sem þeim ber á milli.[2])

Eptirmálið eptir Þorkel Blundketilsson átti að sækja á næsta þingi við Örnólfsdal og var það í Þingnesi fyrir sunnan Hvítá í Borgarfirði. Hersteinn, sonur Þorkels Blundketilssonar, var hinn rjetti aðili málsins, en sökum mágsemda tókst að fá Þórð gelli til þess að taka það að sjer og verða „höfðingi at sökinni“ eins og Ari segir. Þórður fór með tvö hundruð manna og ætlaði að sækja málið á Þingnesþingi, en Tungu-Oddur hafði safnað sveitungum sínum að sjer og hafði nær fjögur hundruð manna; varði hann Þórði vað á Hvítá, og sló þar í bardaga með þeim; fjellu fjórir menn af Þórði, en einn af Oddi, og varð Þórður frá að hverfa við svo búið.[3]) Þórður fjekk þannig að kenna á því, hve erfitt það gat verið að fara í ókunn þing að sækja mál, og fyrir því vildi hann koma í veg fyrir að aðrir kæmust í samskonar vandræði.

Það var harðla eðlilegt að ákveðið væri í Úlfljótslögum, að vígsmál skyldi sækja á því þingi, sem næst var vettvangi.[4]) Mestar líkur voru til að þar mundi verða hægast að fá sanna vitneskju um víg og verknað allan; en hins vegar höfðu engin ákveðin takmörk verið sett á milli þinganna, sem eigi var heldur hægt, því að þau voru bundin við menn, en eigi við landamerki. Það var því eigi gott að miða við þau. En nú kom það í ljós, hve erfitt og hættulegt það

---

[1]) Íslb. 3/6; Grág. I a. 122, 123. [2]) Sbr. K. Maurer, Über die Hænsa-Þóris saga (í Abhandl. d. k. bayer. Akademie 1871); sbr. einnig að framan I. 120; V. Finsen, Fristat. Institut. bls. 39 o. ef; Björn M. Ólsen, Aarboger f. n. Oldkh. 1905, bls. 63—80. [3]) Hæns. 13/168—170. [4]) sbr. V. Finsen, Fristat. Institut. bls. 41.

var fyrir menn að fara i fjarlæg þing til þess að reka rjettar síns, því að hjeraðsbúar gátu með hægu móti dregið saman ofurefli liðs og varnað ókunnum mönnum að ná rjetti sínum. Á annari eins vígaöld og söguöldinni var þetta hættulegt, og það því fremur sem engin framkvæmdarstjórn var til, og hver einstakur maður átti að leita rjettar síns sjálfur.

Til þess að ráða bót á þessu, var varnarþingslögunum breytt. Landinu var skipt í fjóra fjórðunga, þannig að þrjú þing skyldu vera í hverjum fjórðungi, nema í Norðlendingafjórðungi. Þar urðu þingin fjögur, af því að Norðlendingar urðu eigi á annað sáttir. Þeir er voru fyrir norðan Eyjafjörð, vildu eigi sækja þing þangað, og eigi í Skagafjörð, þeir er þar voru fyrir vestan. Í hverju þingi skyldu vera þrjú goðorð og eitt höfuðhof í hverju goðorði. Þeir, er bjuggu í sama þingi, voru þingunautar, og skyldu eiga varnarþing, „saksóknir“ saman á vorþingi í þingsókn sinni: en þeir, sem voru fjórðungsmenn[1]) saman, en áttu þó heima sinn í hverju þingi, skyldu eiga varnarþing saman á fjórðungsþingi. En ef menn sinn úr hverjum fjórðungi áttu í málaferlum, þá var alþingi varnarþing þeirra.

Breytingar þær, sem gjörðar voru á stjórnarskipun landsins með lögum Þórðar gellis, eru svo merkilegar, að hjer verður að skýra nákvæmar frá þeim, og er glöggast að halda sömu röð, sem Ari fróði hefur, því að öll rannsókn um lög Þórðar gellis verður að hvíla á frásögn hans. Hann telur skiptingu landsins í fjórðunga fyrst.

Fjórðungaskiptingin var hin fyrsta staðarlega skipting, sem gerð var á Íslandi í sambandi við stjórnarskipun þess, því að goðorða- og þinga-skiptingin var eigi staðarleg. Landamæri voru ákveðin á milli fjórðunganna og þeim gefin nöfn. Þau voru dregin af áttunum eptir legu fjórðunganna í landinu og íbúunum í hverjum landshluta, eða í einhverju hina helsta hjeraði í fjórðungi hverjum.

Nöfn fjórðunganna voru þessi:

---

[1]) Grág. II, 356.

Austfirðingafjórðungur, Sunnlendingafjórðungur eða Rangæingafjórðungur, Vestfirðingafjórðungur eða Breiðfirðingafjórðungur, og Norðlendingafjórðungur eða Eyfirðingafjórðungur.[1])

Austfirðingafjórðungur náði norðan frá Helkunduheiði á Langanesi[2]) alla leið suður um Austurland að Jökulsá á Sólheimasandi.[3]) Þá tók við Sunnlendingafjórðungur og náði hann eigi lengra eptir lögum Þórðar gellis, en að Botnsá, er fellur í Hvalfjarðarbotn. Að vísu hefur það verið allmikið vafamál, hvar landamærin hafa verið á milli Sunnlendingafjórðungs og Vestfirðingafjórðungs og skoðanir manna skiptar um það,[4]) en hinn elsti þingstaður í Borgarfirði, sem um er getið, var á Þingnesi fyrir sunnan Hvítá, skamt þaðan sem Grímsá fellur í hana.[5]) Þar átti Þórður gellir að sækja brennumálið eptir Þorkel Blundketilsson, og þá er hann hafði fengið fjórðungaskiptinguna í lög tekna, var Þingnes syðsti þingstaðurinn í Vestfirðingafjórðungi. Það er því ómögulegt, að fjórðungamörkin hafi verið fyrir norðan þingstaðinn, því að þá hefði hann orðið fyrir utan fjórðunginn. Nokkru síðar var þingið flutt upp undir Þinghól eða Valfell, sem er líklega hið sama, upp með Gljúfrá, og sótti þá þangað þing Tungu-Oddur og þingmenn hans, sem voru flestir fyrir sunnan Hvítá.[6]) Síðan var vorþing Borgfirðinga flutt í Stafholtsey við Þverá,[7]) er það var síðan kent við og kallað Þverárþing. Þar var það háð um langan aldur. Þangað sóttu menn vorþing úr öllum Borgarfirði bæði sunnan Hvítár og norðan; er auðsætt að allir þessir þingstaðir hafa verið valdir þannig, að hægt væri fyrir menn úr öllu hjeraðinu beggja megin við Hvítá að sækja

---

[1]) Íslb. 5/8, 10/16; Nj. 66/309, 103/544, 97/505, 138/736; Grág. I a, 19, II, 22, 264, III, 20. [2]) Ldn. 1/237; Fms. X, 311/114; Eirsp. 352/460; Flat. III, 271/215. Sbr. að framan I, 177—178; Kålund, Isl. II, 190—91, 193, 427. [3]) Ldn. 13/273. [4]) Sbr. Maurer, Island bls. 155—156; Kålund, Isl. I, 331—337; Sigurður Vigfússon, Árbók 1886 bls. 35—41, sem hefur víða farið eptir bók Kålunds án þess þó að nefna hana. [5]) Íslb. 5/8; Ldn. 18/115; Hæns. 12/167. [6]) Eg. 81/301—306, 84/316; Gunnl. 2/193, sbr. Kålund, Isl. I, 367—370. [7]) Dipl. I, 180.

þing þangað. Brjef eitt frá 1226 um ostatoll til Viðeyjarklausturs bendir einnig á að Kjalarnesþing hafi snemma á 13. öld verið talið að ná norður að Botnsá.[1]) Þá er fjórðungaskipunin var gerð, fengu þau þing. sem voru yst í hverjum fjórðungi, föst landamæri þeim megin. sem vissi að fjórðungamótunum, og var Kjalarnesþing eitt af þeim þingum. Hins vegar er Hvítá í Borgarfirði svo mikið vatnsfall, að hún ásamt sjálfum firðinum, er hún fellur í, skiptir hjeraðinu í tvent, svo að menn hafa löngu fyrir daga Ara hins fróða tekið að tala um land og sveitir í Borgarfirði fyrir „sunnan“ Hvítá og fyrir „vestan“ hana. Sumum hefur ef til vill þótt óviðfeldið að kalla alt land suður að Botnsá Vesturland, en að Hvítá skiptir hjeraðinu í tvent og að landið fyrir sunnan hana var kent við „suður“ og landið fyrir norðan ána við „vestur“, hefur þó mest stutt að því að menn tóku að setja takmörkin milli Suður- og Vesturlandsins við Hvítá. Þessi greining hefur fyrst komið upp í hjeraðinu sjálfu og á Vesturlandi, þar sem menn hafa ávalt kent landið fyrir sunnan Hvítá við suður og sveitirnar fyrir norðan ána við vestur og Vesturland. Á þetta benda ýms orðatiltæki í sögunum,[2]) og einnig skrá Ara hins fróða um nöfn nokkurra presta kynborinna íslenskra, frá 1143.[3]) Þar telur hann 40 presta og fer eptir áttunum og setur takmörkin milli suðurs og vesturs auðsjáanlega við Hvítá, því að hann telur Pál prest Sölvason í Reykholti „suðr“ á landinu. en Orm prest Koðránsson og Einar prest Skúlason „vestr“. Ormur var af kyni Gilsbekkinga og líklega prestur að Gilsbakka, en Einar var af ætt Mýramanna (Skallagríms) og hefur líklega verið að Borg á Mýrum. þá er hann dvaldi hjer á landi. Hjer er í raun rjettri ekki að ræða um nein fjórðunga takmörk. heldur um suðurhluta og vesturhluta

---

[1]) Dipl. I, 496. [2]) Sbr. „fyrir sunnan Borgarfjörð“ Eg. 28/90. 28/91; Ldn. 19/58; „fyrir sunnan Hvítá“ Eg. 83/309. 84/316; Ldn. 1/65; Heið. 22; Hæns. 13/168, 13/169; „fyrir vestan Hvítá“ Eg. 28/92 sbr. Hæns. 13/169—170. [3]) Ísl. I, 384 ásamt eptirmynd af skránni í handritinu sjálfu nr. 1812. 4to í Gammel kgl. Samling í kgl. bókasafninu í Kaupmannahöfn; Dipl. I. 180—194.

landsins Landslagið og daglegt mál hefur ráðið hjer mestu, og það orðið miklu áhrifameira, sem tíðkaðist í fjölbygðu hjeraði, en við Hvalfjörð, þar sem undirlendi og bygð er litil.

Borgarfjörðurinn er mikið hjerað. Hann liggur svo sunnarlega á Vesturlandinu og fjallgarðarnir, sem skilja hann frá Breiðafjarðardölum, eru svo miklir, að mönnum fanst hann eigi talinn með, þá er Vestfirðir voru nefndir eða jafnvel Vesturland. Þetta var svipað því, sem átti sjer stað í Austfirðingafjórðungi. Enginn taldi sveitirnar fyrir sunnan Vatnajökul með Austfjörðum, þá er þeir voru nefndir. Í Austfirðingafjórðungi voru bæði Austfirðir og Síða, en svo hjetu í fornöld einu nafni allar sveitir að sunnanverðu við allan Vatnajökul. Þær voru skoðaðar sem síða á Vatnajökli.[1])

Landslagið á Vestfjörðum og við Breiðafjörð er svo ólikt hinu breiða hjeraði Borgarfirði, að allur Vestfirðingafjórðungur varð tveir landshlutir í meðvitund manna. Einnig voru aðrir menn og aðrar ættir ráðandi í Borgarfirði en við Breiðafjörð og í Vestfjörðum. Í Borgarfirðinum voru þrjú goðorð og eitt þing, en á 13. öld verður hann nálega sem eitt ríki fyrir sig. Eptir víg Snorra Sturlusonar eignaði Hákon konungur Hákonarson sjer hann. Þá er skýrt er frá viðskiptum hans og Íslendinga, er Borgarfjörður nefndur sjerstaklega; eigi að eins landslagið heldur og stjórnarfarslegar ástæður valda því, að hann er þá skoðaður sem heild fyrir sig. En þó er ljóst, ef rjett er að gáð, að allur Borgarfjörðurinn er þá einnig talinn með Vestfirðingafjórðungi.[2])

Þótt landslagið og stjórnarskipunin hafi valdið því, að Borgarfjörðurinn var opt, einkum á 13. öld, skoðaður sem heild fyrir sig, hefur þó hið daglega mál aðallega valdið

[1]) Íslb. 2,5, 7,9 og 11, 11/18; Ldn. 6/82; Eyrb. 13/13; sjá einnig þar sem Síða, Síðu-Hallur og Síðumenn eru nefndir í Nj., Ldn, Austfirðinga sögum, Sturl., Bps. og Ann. IV, 1264. Sbr. Kålund, Isl. II, 312.

[2]) Sturl. I, 32/82, 39/235, II, 246/146, 317/250, 327/260, Sturl.[1] II a, 26/320; Eirsp. 352/459—460; Fms. X, 311/114.

því, að höfundar Landnámu settu takmörkin á milli Sunnlendinga- og Vestfirðinga-fjórðungs við Hvítá. Þeir, sem sögðu fyrir og rituðu um landnám að vestanverðu á öllu Íslandi, voru allir úr sveitunum sunnan við Breiðafjörð og úr Borgarfirði (Ari hinn fróði, Brandur prior hinn fróði, Styrmir fróði, Sturla Þórðarson), beint úr þeim hjeruðum, þar sem mönnum var tamast að tala um „vestr“ og „suðr“ í sambandi við Hvítá í Borgarfirði.

Af þessu er það ljóst, að Vestfirðingafjórðungur náði á dögum þjóðveldisins frá Botnsá um allan Borgarfjörð, Breiðafjörð, Vestfirði og Strandir, að Hrútafirði og Hrútafjarðará. Þá tók við Norðlendingafjórðungur austur að Helkunduheiði á ofanverðu Langanesi.

Næst fjórðungaskiptingunni telur Ari þingin. Þau urðu þrjú í hverjum fjórðungi, nema í Norðlendingafjórðungi. Þar urðu þau fjögur, af því að hann var stærstur og fjölmennastur, og einkanlega sökum þess að fjallgarðarnir skipta honum í fern bygðarlög eða fjórar deildir. Það er auðsætt af frásögn Ara, að mönnum hefur þótt sjálfsagt að þing væru í Skagafirði og Eyjafirði. Bygðin var þar svo mikil og hjeruð þessi svo rík, að annað hefur eigi þótt tiltækilegt. Eigi var heldur auðvelt að sækja eitt þing úr hjeruðum þessum, því að fjöllin á milli þeirra eru svo mikil. En með því að þingin áttu að vera einungis þrjú í fjórðungnum, var leitað til við „þá, er fyrir norðan voru Eyjafjörð“ að sækja þangað þing, en þeir vildu það eigi, og eigi vildu þeir heldur sækja þing í Skagafjörð, „er þar voru fyrir vestan“. Húnvetningar höfðu þá sett vorþing hjá sjer[1], svo að eðlilegt var að þeir vildu eigi afnema það, og fara að sækja þing um langa leið og torsótta austur til Skagafjarðar. Hins vegar var als eigi hægra fyrir Þingeyinga að sækja þing í Eyjafjörðinn, en Húnvetninga í Skagafjörðinn, heldur þvert á móti, og þeir höfðu því mikilvægar ástæður til þess að neita því. Þó var helst

[1] Vatn. 33,53; sbr. Safn I, 379, 496.

ætlast til að þeir gæfu eptir, og mun ástæðan til þess hafa verið sú, að bygðin var þar tiltölulega minst. En Þingeyingar vildu eiga sjálfir þing fyrir sig, og allir landsmenn ljetu þá undan þeim: er það eptirtektavert, að þeir kusu heldur allir að vægja til við einn hluta landsins, en að eiga það jafnvel á hættu, að fjórðungaskipunin kæmist eigi á eða að Þingeyingar tækju sig út úr fjelagsskap við landsmenn. Þetta sýnir, hve sjálfræðisandinn var ríkur og hve miklu lagi menn urðu að beita til þess að koma á einum lögum um land alt. En það getur líka bent á, að þing hafi verið komið á stofn fyrir norðan Vaðlaheiði, og að Þingeyingar hafi meðfram sökum þess haldið því svo fast fram, að þeir ættu þing sjálfir og eigi þótst skyldugri til þess að leggja niður þing sitt fremur en aðrir, og að landsmenn hafi þá fundið að öll sanngirni mælti með því, að þeir fengju að halda þingi sínu.[1])

Sumir hafa ætlað að ekkert þing hafi verið háð fyrir norðan Vaðlaheiði, áður en stjórnarskipunarlög Þórðar gellis voru sett,[2]) en eigi hafa verið leidd næg rök að því, hvorki með nje móti, svo að það er óvíst. Þótt líklegt sje að svo hafi verið ákveðið í Úlfljótslögum, að einungis tólf vorþing skyldu vera á öllu landinu, má þó vel vera, að þing hafi verið háð fyrir norðan Vaðlaheiði einhvern tíma á hinum næsta mannsaldri eptir að þau voru sett. Svo reglubundin varð þingaskipunin eigi á þeim tíma. Af sögunum má sjá, að tveir goðar voru svo snemma uppi þar í sveitum, að þeir máttu heyja þar vorþing. Það voru þeir Áskell goði Eyvindarson að Hvammi í Aðalreykjadal og Ljótur hofgoði að Þverá í Laxárdal.[3]) Það er eigi ólíklegt að þar hafi verið fleiri goðar fyrir 963, þótt það sje eigi kunnugt. Arnsteinn goði[4]) og Þorgeir Ljósvetningagoði voru

[1]) Björn M. Ólsen ætlar að sambandið í frásögn Ara, Íslb. 5,8, sýni að landsmenn úr þremur fjórðungum landsins hafi reynt að fá Norðlendinga til að leggja niður eitt af þeim fjórum þingum, sem þar hafa verið komin á stofn fyrir nýmæli Þórðar gellis. Tímarit Bókmfjel. XV, 128—29. [2]) V. Finsen, Fristat. Institut. 80—81; Páll Briem, Andvari XV, 133. [3]) Reyk. 1/2, 5/26—27, 7/32. [4]) Ldn. 20/235, sbr. Ljósv. 4/123—24, 126.

töluvert yngri en þeir Áskell. Þó er eigi ómögulegt að þeir hafi verið orðnir goðar fyrir 963. Þess er getið að Reykdælir hjeldu fund að Þverá hjá Ljóti og var þar Áskell goði. Hvaða ár það var, er óvist; en þá var harður vetur, og fyrir því hafa sumir ætlað, að það hafi verið óaldarvetur sá, sem getið er um í þann tíma, er Haraldur konungur gráfeldur fjell, og árfærður hefur verið 975 eða 976.[1]) Það er þó rjettara að ársetja fall Haralds konungs 969 eða 970.[2]) og hefur ef til vill mikið harðæri verið þá. En annars voru mikil harðindi á ríkisárum Haralds gráfelds og hefur þetta að líkindum verið einhvern harðan vetur þá, eða á árunum um eða rjett eptir 960. Það er óvíst, hve nær Áskell dó, en þetta virðist hafa verið nokkrum árum fyrir víg hans. Líklega hefur hann fallið frá um 970.[3]) Í Reykdæla sögu er einnig skýrt frá því að Áskell goði hafi sótt Vaðlaþing, og því hefur Páll Briem ætlað að ekkert þing hafi verið til fyrir norðan Vaðlaheiði.[4]) En nokkru fyr í Reykdælu er getið um Ljósvetningaleið, og sýnir það að menn fyrir norðan Vaðlaheiði áttu leiðarþing fyrir sig; er þá næsta líklegt að þeir hafi einnig átt vorþing. Ljósvetningaleið sóttu nokkrir menn úr Eyjafirði; þar var Steingrímur Örnólfsson með mönnum sínum og Eyjólfur Valgerðarson, er var goði í Eyjafirðinum.[5]) Hestaat það, sem háð var á Ljósvetningaleið, mun hafa dregið Eyfirðinga til þess að sækja þangað; sjálfir áttu þeir þá leiðarþing.[6]) Eins má vera að einhver önnur erindi hafi komið Áskeli goða til þess að ríða á Vaðlaþing, þótt það hafi eigi verið þing hans í raun og veru, og er þetta eigi næg sönnun fyrir því, að ekkert þing hafi verið til fyrir norðan Vaðlaheiði. Goðar og höfðingjar gátu sótt önnur þing, en þeirra eigin, ef þeir vildu og ef enginn varnaði þeim þess, enda er þess stundum getið að

---

[1]) Ísl. I. 323; Ann. I. II. IV. V. [2]) Safn I. 425; sbr. G. Storm. Norges Historie, i Salmonsens Konversationsleksikon XIII. 617. P. A. Munch. Hist. II. 868 telur dauðaár Haralds 965. [3]) Sbr. Safn. I. 400. Páll Briem telur dauða hans einhvern tíma um 965. Andvari XV. 122. [4]) Reyk. 15/73; Andvari XV. 133. [5]) Reyk. 12/51. 12/55. [6]) Reyk. 13/60.

þeir komu á önnur þing í kynnisför eða til þess að reka einhver erindi.[1]) Börkur hinn digri sótti t. a. m. Þorskafjarðarþing 976, og þó mun hann hafa farið með hálft goðorð Þórsnesinga á þeim árum.[2]) Illugi hinn svarti á Gilsbakka í Hvítársíðu kom á Þórsnesþing (um 980) og deildi þar um mund og heimanfylgju Ingibjargar Ásbjarnardóttur, konu sinnar.[3])

Ef Þingeyingar[4]) hefðu í fyrstu átt þing að sækja í Eyjafjörð, þá hefði mátt stefna málum þeirra þangað. Sjerstaklega hefði það verið freistandi fyrir Eyfirðinga, er þeir áttu í málum við Þingeyinga, því að langhægast var fyrir þá að sækja mál á Vaðlaþingi. En þá er Steingrímur Örnólfsson á Kroppi í Eyjafirði tók við sauðaþjófnaðarmáli af Hrafni á Lundarbrekku í Bárðardal á hendur Hánef í Óþveginstungu, ljet hann Hrafn stefna Hánef um sauðatökuna til alþingis, en eigi til Vaðlaþings.[5]) Þetta gerðist nokkru áður, en Áskell reið á Vaðlaþing, og bendir það á, að annaðhvort hafi átt að sækja Hánef fyrir norðan Vaðlaheiði eða á alþingi og því hafi Steingrímur kosið að láta málið fara til alþingis. Þetta bendir því á að þing hafi þá verið komið á stofn fyrir norðan Vaðlaheiði.

Eins og segir í Grágás og víðar í fornritunum voru þrír goðar í hverju þingi. Í Eyjafirði voru á miðri 10. öld þrjú goðorð. Þar voru þá goðar Eyjólfur Ingjaldsson að Þverá hinni efri, Eyjólfur Valgerðarson á Jórunnarstöðum og Álfur eða Ljótólfur úti í Svarfaðardal. Ef þeir Áskell goði og Ljótur hefðu átt vorþing saman með eyfirðsku goðunum í Eyjafirði, hefðu fimm goðar orðið í einu þingi, og gat það eigi átt sjer stað eptir skoðun Vilhjálms Finsens á Úlfljótslögum, og mun það rjett vera. Goðorðafjöldinn í Eyjafirði og fyrir norðan Vaðlaheiði, sem enginn virðist hafa

---

[1]) Gísl.[2] 5 11—12. [2]) Gísl.[2] 27/73—75. [3]) Eyrb. 17/19—20; Gunnl. 5/215. [4]) Þetta orð er notað um þá menn, sem bjuggu fyrir norðan Vaðlaheiði, eða í þeim sveitum, sem nú liggja undir Þingeyjarsýslu, þótt það væri als eigi til á þeim tíma, sem hjer ræðir um. Þeir áttu þá ekkert sameiginlegt nafn, en voru kendir við þær bygðir, er þeir bjuggu í. Svo var það þá um alt land, eða menn voru kendir við bæi eða ættfeður. [5]) Reyk. 5/23—24.

athugað í þessu sambandi, sýnir því berlega að þing hafi verið sett á stofn fyrir norðan Vaðlaheiði, áður en landinu var skipt í fjórðunga.

Þingeyingar hafa því sjálfir átt þing, þá er landinu var skipt í fjórðunga, og eigi viljað leggja það niður nje sækja langar leiðir vorþing í Eyjafjörð. Landsmönnum þótti rjettast að leyfa þeim það, og fyrir því var það nú ákveðið með lögum, að þrettán þing skyldu vera á öllu landinu. Þingatala þessi var auðsjáanlega sniðin svo nákvæmlega sem hægt var eptir þeim þingafjölda, sem hafði verið áður. Og eptir þetta voru það lög á meðan þjóðveldið stóð, að þingin skyldu vera þrettán, þótt einstaka sinnum væri út af því brugðið þegar á söguöldinni. Mikil brögð urðu þó eigi að því fyr en þá, er leið að lokum þjóðveldisins, og öll stjórnarskipun landsins færðist úr lagi.

Þingin eru hvergi nafngreind í þjóðveldislögunum, en þar er boðið að gefa vorþingunum nafn;[1]) voru þau venjulega kend við þann stað, sem þau voru háð á.[2]) Af sögunum má sjá, hvað flest þingin hafa heitið; einnig eru þau talin í Járnsíðu og Jónsbók.[3]) Flest þeirra hafa verið nefnd hjer að framan, þá er skýrt hefur verið frá upphafi þinganna, en til þess að yfirlitið yfir vorþingaskipun landsins verði sem glöggast, er rjett að nefna þau hjer öll og helstu vorþingstaðina að því leyti, sem þeir hafa eigi verið nefndir áður; en þó verða menn að gæta þess að þingaskiptingin er persónuleg en eigi staðarleg, svo að menn úr tveim þingum bjuggu opt hverjir innan um aðra í sömu sveitinni.

Í Sunnlendingafjórðungi var Rangæingaþing eða Rangárþing austast. Þar háðu menn vorþing að Þingskálum ofarlega á Rangárvöllum við ytri Rangá, og var það nefnt Þingskálaþing.[4]) Þá var Árnesþing og var þingstaður

---

[1]) Grág. I a. 97, 108. Að eins Árnessþingsókn og Rangæingaþingsókn eru nefndar í einu handriti. A.M., 347 fol. (Belgdalsbók) Grág. I b. 246. 251. [2]) Maurer. Isl. 160. [3]) Járn. 2 2; Jb. 2 6. [4]) Nj. 45/201. 64/297. 66/305. 68/314, 106/525, 107/556; sbr. Kalund. Isl. 218—220; Safn II, 549—552; Árbók 1888—1892. bls. 54—59. Árbók 1898 bls. 13—14 (með uppdrætti).

í Árnesi eða öllu heldur hjá því austur við Þjórsá.[1]) Er það eptirtektavert, að sá staður er eins vel valinn fyrir menn úr Holtunum eins og fyrir Árnesinga; getur verið, að menn hafi eigi viljað setja vorþingið mjög nærri alþingi. Vestast var Kjalarnesþing, sem háð var í fyrstu á Kjalarnesi. Sögurnar nefna eigi þingstaðinn, en Kjalnesinga saga segir að það hafi verið suður við sjó.[2]) Síðar var það á Þingnesi við Elliðavatn.[3])

Í Vestfirðingafjórðungi var Þverárþing syðst, þá Þórsnesþing og Þorskafjarðarþing nyrðst; hefur verið skýrt nokkuð frá þeim áður.

Í Norðlendingafjórðungi var Húnavatnsþing[4]) vestast, og var þingið háð að Þingeyrum;[5]) þá Hegranesþing,[6]) er haldið var í Hegranesinu að norðaustanverðu, skamt fyrir norðan bæinn Garð;[7]) þá Vaðlaþing eða Vöðlaþing og var þingstaðurinn hjá Kaupangi;[8]) þá Eyjarþing eða Þingeyjarþing nyrðst og austast. Það var lengi háð í Þingey í Skjálfandafljóti og tók nafn eptir henni.[9])

Í Austfirðingafjórðungi var Sunnudalsþing[10]) nyrðst, þá Múlaþing eða Kiðjafellsþing, sem háð var að Þingmúla. Um vorið 987 tóku bændur af Sunnudalsþing og var það síðan að minsta kosti stundum háð á sama þingstað

---

[1]) Fló. 30 154; sbr. Kålund, Isl. I, 195—197, II 409; Árbók 1888—1892 bls. 60—61. Árbók 1894 bls. 11—15 (með uppdrætti). [2]) Kjal. 2,404. [3]) Sbr. Kalund, Isl. I, 19—20, 59—60; Maurer, Germania XXIV, 97—98; Árbók 1880—1881, bls. 65, Árbók 1893, bls. 24—27, Árbók 1903, bls. 31—33. D. Bruun, Fortidsminder og Nutidshjem paa Island, Kbhvn. 1897, bls. 230—233. [4]) Íslb. 5/8; Vatn. 33/53 sbr. 29/49, 37/61; Ldn. 4 181, 5/184; Hallfr. 3/87, 10/109—11. [5]) Heið. 64; Kålund, Isl. II, 29—30; D. Bruun, Arkæologiske Undersøgelser. Kbhvn. 1899, bls. 36. [6]) Glúm. 14 42, 24/73—4; Ljósv. 25/224—27,234; Reyk. 26/127; Grett. 72,253—54. [7]) Sbr. Kålund, Ísl. II, 77—79 sbr. 421—422; Árbók 1888—1892 bls. 110—117; Árbók 1901 bls. 20—23; D. Bruun, Fortidsminder og Nutidshjem 226—229, Arkæol. Undersøgelser pa Island. Kbhvn. 1899, bls. 31—35. [8]) Íslb. 5/8; Glúm. 25/76, 27/82, sbr. Ldn. 13/209, Ldn.[2] 252; Ljósv. 10/146, 14 168, 18/180; Reyk. 15/73—67. Kålund, Isl. II, 125—128; D. Bruun, Fortidsminder og Nutidshjem bls. 223—26, Árbók 1901, bls. 16—17. [9]) Reyk. 27/136, 29,140—41. Kalund, Isl. II, 155—156, 425; Árbók 1895 bls. 8—9; D. Bruun, Fortidsminder og Nutidshjem bls. 221—223. [10]) Vápn.[2] 4/32, 4/40, 13/52, 13/57. Kålund, Isl. II, 197, 241; Safn II, 469; Árbók 1893 bls. 58—59.

sem Múlaþing.[1]) Þó er einnig getið um Krakalækjarþing. sem var innarlega í Hróarstungu, vestan megin við Lagarfljót.[2]) og einnig um Lambanessþing. sem enginn veit með vissu hvar hefur verið, en kunnugir menn ætla þó að hafi verið nærri Krakalækjarþingi.[3]) Á þessum stöðum hefur vorþing einhvern tíma verið háð. og getur annaðhvort verið að goðar þeir eða eptirmenn þeirra, sem áður háðu þing í Sunnudal. hafi háð þarna þing, eða vorþingið hafi verið flutt um hríð frá Múla. Eptir að Sunnudalsþing var afnumið, hafa þingin á Austfjörðum verið háð í bygðunum við Lagarfljót. stundum sitt á hvorum stað. en optast þó bæði á sama stað að Þingmúla. Fyrir því varð þar að eins eitt þing. Múlaþing. þá er ný lög voru leidd inn í landið.

Syðst í Austfirðingafjórðungi var Skaptafellsþing og var þingstaðurinn að Skaptafelli.[4])

Eins og fyr hefur verið getið. var víðar skipt um þingstaði en í Múlasýslum. Vorþingin átti að halda. þar sem venja var til. en það mátti breyta um vorþingisstað. ef goðarnir komu sjer saman um það, og sögðu þingmönnum sínum það á leið. Þeir gátu og afnumið vorþing á einum stað og háð þau tvö saman. ef þeir allir urðu á það sáttir. en þeir áttu að biðja um leyfi til þess af lögrjettu og segja það upp að lögbergi.[5]) Leiðarþingin voru háð á sama þingstað sem vorþingin. nema goðarnir fengju leyfi til annars af lögrjettu.[6])

Þótt það tækist eigi að skipta landinu svo í fjórðunga, að jafnmörg goðorð og þing yrðu í hverjum fjórðungi. vildu

---

[1]) Dropl.[2] 8 156; Fljótsd. 6. 92. 95; Vápn.[2] 13 64. Safn II, 483. 464; Kalund. Isl. II. 241—243. sbr. 233 og 265; Maurer. Isl. 102; Árbók 1893. bls. 33—35; D. Bruun. Ved Vatnajökuls Nordrand (Sjerprent úr Geografisk Tidsskrift 1902) bls. 2. 17. [2]) Dropl.[2] 4 149; sbr. Safn II. 463 sbr. 472. Árbók 1893, bls. 47—49. Þinghöfði er þar við Krakalæk; þar var haustþing. Dropl.[2] 8 156, 9 158—159 sbr. Safn II. 464. 465; Kalund, Isl. II. 205—6. [3]) Dropl.[2] 13 166; Safn II. 467; Kalund. Isl. II. 206. 242 sbr. Árbók 1896 bls. 27. [4]) Ldn. 11 268. 13 273; Nj. 116 993; Kalund. Isl. II. 291. Um þingin sbr. V. Finsen. Fristat. Institut. 83—88; Maurer. Isl. 101—102. [5]) Grág. I a. 107—8. [6]) Grág. I a, 111.

menn þó gæta þess, að jafnrjetti yrði á milli allra fjórðunganna, og að enginn þeirra skyldi ráða meira á alþingi en annar. Við þetta atriði hjeldu allir landsmenn fast, og fyrir því var ákveðið, að dómnefna og lögrjettuskipun skyldi vera jöfn úr Norðlendingafjórðungi sem úr hverjum hinna fjórðunganna.[1]) Allir tólf goðarnir úr Norðlendingafjórðungi fengu sæti í lögrjettu, en úr hinum fjórðungunum áttu þeir níu goðar, sem fóru með goðorð full og forn, að hafa með sjer einn mann úr hverju þingi, svo að tólf menn eignuðust lögrjettusetu úr fjórðungi hverjum.[2]) Hin fornu goðorð í þessum þremur fjórðungum landsins voru því aukin þriðjungi, til þess að goðarnir úr hverjum fjórðungi yrðu jafnmannsterkir í lögrjettu sem Norðlendingar, eða norðlensku goðorðin voru fjórðungi skerð. Þau voru að öllu jöfn níu fornum og fullum goðorðum úr hinum fjórðungum landsins. Að þessu lúta orð Grágásar, þar sem segir: „En forn goðorð Norðlendinga öll ero fjórðungi skerð at alþingisnefno við full goðorð önnor öll á landi hér“. Það er að segja, tólf hin fornu goðorð í Norðlendingafjórðungi fengu eigi fleiri sæti í lögrjettu, en hin níu fornu goðorð í hverjum hinna fjórðunganna. Með því að allir goðarnir úr Norðlendingafjórðungi hafa viljað sitja í lögrjettu, var eigi hægt að koma fullum jöfnuði á milli fjórðunganna, nema með því að láta goðana úr hinum fjórðungunum, taka mann með sjer úr hverju þingi í lögrjettu.[3])

---

[1]) Íslb. 5/8. [2]) Grág. I a, 211. [3]) Við þetta á setning nokkur í innskotsgrein einni, sem er í flestum handritum af Hænsa-Þóris sögu og er að mestu leyti tekin úr Íslendingabók, en breytt nokkuð og rangfærð, og svo er setningu þeirri, sem hjer ræðir um, bætt við; þó má vera að hún hafi upphaflega staðið í Íslendingabók, sbr. Björn M. Ólsen í Aarb. f. nord. Oldkh. 1905, bls. 77—78. Þá er sagt hefur verið frá fjórðungaskiptingunni og að þingin hafi orðið fjögur í Norðlendingafjórðungi, segir að „þó skyldi jöfn dómnefna á alþingi ór þeirra fjórðungi sem ór einhverjum öðrum“, en síðan er bætt við þessum eptirtektaverðu orðum, sem eigi eru kunn úr öðrum ritum: „af því skal einn maðr þaðan sitja fyrir forráðsgoðorð, at þeir goðar vildu allir setið hafa“ Hæns. 14/173. Setning þessi mun eiga við lögrjettuskipunina, enda eru allir ásáttir um það. En menn hafa skilið þessi orð svo sem þau lytu að því, að þrír menn voru teknir auk goðanna úr hverj-

Alþingisnefna kemur að eins fyrir á þessum eina stað í lögrjettuþætti, sem tilfærður var. Vilhjálmur Finsen segir að það þýði dómnefna, eins og augljóst er, en við lögrjettu geti það eigi átt, af því að goðarnir áttu sæti í henni og voru eigi nefndir í hana.[1]) Þeir Guðbrandur Vigfússon[2]) og

um landsfjórðungi að austan, sunnan og vestan, af því að allir goðarnir af Norðurlandi vildu sitja í lögrjettu. Veldi það, eða „hið ímyndaða goðorð“ eins og Maurer kemst að orði, sem þessir þrír menn úr hverjum af hinum þremur fjórðungum landsins fengu, hafa menn því hugsað sjer að hafi verið nefnt forráðsgoðorð. Maurer, Die Quellenzeugnisse. bls. 82—83; V. Finsen, Fristat. Institut. bls. 77—78. Sbr. Fritzner, Ordbog, orðið forráðsgoðorð; A. Heusler, Zwei Isländer-Geschichten, Berlin 1897 bls. X. Menn þessir hefðu þá átt að heita forráðsgoðar. Þeir „réðu lögum ok lofum“ í lögrjettu að sínum hlut eins og goðarnir, Grág. I a. 211. Orðið forráðsgoðorð kemur hvergi fyrir nema á þessum eina stað, og er að minsta kosti efasamt, hvort rjett hefur verið af ritara Hænsa-Þóris sögu að nota það þannig, því að hinir níu menn úr þremur fjórðungum landsins höfðu eigi einu sinni að nafninu til nein goðorð, og eru eigi nefndir goðar í Grágás. Ef þetta er rjett, verður það að styðjast við það, að menn þessir voru til forráða með goðunum í lögrjettu. V. Finsen er eigi heldur ánægður með skýringu þessa. Hann hyggur að forráðsgoði sje ef til vill sá goði, er þinghelgi á, og að hann hafi þá átt að helga þingið, segja upp nýmæli á leið Grág. I a. 112 og ef til vill velja þessa þrjá menn („ekki-goðana“) í lögrjettu, sbr. Isl. Retshistorie. § 29; afritið bls. 195—96, og Fristat. Institut. bls. 78, aths 1.

Í sambandi við þetta verður að gæta þess, að í Hæns. 6 142 er orðið „forráðsmaðr“ haft um goða, þar sem Hænsa-Þórir segir við Tungu-Odd: „þú ert forráðsmaðr heraðsins“. Þetta orð er myndað eins og forráðsgoðorð, og af því mætti ætla að forráðsgoðorð væri eigi annað en goðorð, löglegt goðorð, sem gaf goða sínum rjett til forráða þeirra, sem löggoðar höfðu bæði á alþingi og heima í hjeruðum. Hin umrædda setning í Hæns. þýðir þá að eins þetta: Allir tólf goðarnir úr Norðlendingafjórðungi vildu sitja í lögrjettu, og „af því skal einn maðr þaðan sitja fyrir forráðsgoðorð“, það er að segja fyrir „hvert fornt goðorð ok fult“. Söguritarinn hefur, ef svo er, viljað skýra frá því með orðum þessum, hvernig á því stæði, að tólf goðar sátu í lögrjettu úr Norðlendingafjórðungi. Enginn þeirra vildi gefa upp rjettinn til þess að sitja þar. Forráðsgoðorð er þá notað eins og „fornt goðorð og fullt“, til aðgreiningar frá fimtardómsgoðorðunum eða yngri goðorðum, sem eigi höfðu forráð. „Þaðan“ ætla jeg að eigi við „ór þeirra fjórðungi“ og svo ætlar Finnur Jónsson einnig. Ef það er rjett, getur það eigi átt við „ór einhverjum öðrum“, og þá er með orðinu „forráðsgoðorð“ átt við goðorðin í Norðlendingafjórðungi; en þá mun skýring þessi vera rjett.

[1]) Fristat. Institut. 78 og Grág. III. 582. [2]) Icel.-engl. Dictionary, alþingisnefna.

Björn Ólsen[1]) ætla að alþingisnefna bindi í sjer lögrjettuskipun líka, og færir Ólsen þau rök að því, að hvert einstakt goðorð úr þremur fjórðungum landsins var þriðjungi aukið að lögrjettuskipun. Að orð þetta stendur í lögrjettuþætti bendir þó helst á, að það muni eiga við lögrjettuskipan líka. Goðarnir úr þremur fjórðungum landsins „höfðu“ níu menn með sjer í lögrjettu, og voru þeir nefndir af þeim, þótt það orð sje eigi notað. Sömuleiðis voru umráðamennirnir nefndir af goðunum og mönnum þeim, sem þeir höfðu með sjer í lögrjettu, þótt orðið að „skipa“ sje haft um þá, af því að talað er um sætin í lögrjettu.[2])

Eptir skiptingu landsins í fjórðunga fengu því 48 menn sæti á miðpallinum í lögrjettu auk lögsögumannsins, og 96 menn með þeim til umráða, með því að hver goði og hver hinna níu manna skyldi skipa tveimur af þingmönnum sínum í lögrjettu með sjer, öðrum fyrir sjer en öðrum á baki sjer.[3]) Með lögsögumanninum sátu nú 145 menn als í lögrjettu.

Um dómnefnuna var þess gætt eigi síður en um lögrjettuskipunina, að hún yrði jöfn úr öllum fjórðungunum. Líklega hefur verið einn dómur á alþingi, þá er nýmæli Þórðar gellis voru samþykt, og þrennar tylptir manna setið í honum, og hefur því hver goði, er hafði fornt goðorð og fult, nefnt mann í hann, nema norðlensku goðarnir tólf. Þeir nefndu allir níu menn í dóminn, líklega þannig, að tveir dómendur voru nefndir úr hverju þingi og einn að auk úr einu þeirra til skipta, eða eptir ástæðum eða eptir hlutkesti. Þá er fjórðungsdómarnir komust á fót litlu síðar, nefndi hver goði, „er fornt goðorð hefir ok fult“, mann í dóm; „en þau eru full goðorð ok forn, er þing váru iii í fjórðungi hverjum, enn goðar iii í þingi hverju“.[4]) Tólf goðar í Norðlendingafjórðungi fengu eigi meiri dómnefnu en níu goðar úr öðrum fjórðungum landsins. Markmiðið var að allir fjórðungarnir væru jafnir, og með því að hin fornu goðorð

[1]) Andvari 1901, bls. 148. [2]) Grág. I a, 211—212. [3]) Grág. s. st.
[4]) Grág. I a, 38.

Norðlendinga voru fjórðungi skerð að alþingisnefnu. þurfti eigi að miða við annað en þrjú þing í fjórðungi hverjum og þrjá goða í þingi hverju.

Hins sama jafnvægis á milli fjórðunganna er einnig gætt, þá er fimtardómurinn var settur.[1] Aptur á móti er það auðsætt, að goðarnir nefndu á hverju vorþingi jafnmarga menn í dóm, og að tólf goðar á Norðurlandi nefndu að því leyti fleiri menn í vorþingisdóma sem þeir og vorþing þeirra voru fleiri en í hverjum hinna fjórðunganna. Þetta hallaði á engan hátt jafnrjetti á milli fjórðunganna, heldur varð að fullnægja fyrirmælum laganna um vorþingin og vorþingisdómana, en þau voru hin sömu um þau öll.

Á alþingi komu menn saman úr öllum fjórðungum landsins; þar varð því að gæta jafnrjettis á milli fjórðunganna, og að enginn þeirra yxi á annars kostnað. En annars staðar gat eðlilega eigi verið um slíkt að ræða. Til þess því að koma jöfnuði á milli fjórðunganna við dómnefnuna, voru norðlensku goðorðin fjórðungi skerð, en við lögrjettuskipunina var hvert goðorð í hinum þremur fjórðungum landsins þriðjungi aukið. Þannig varð „jöfn dómnefna ok lögrjéttuskipon“ úr öllum fjórðungum landsins, eins og Ari fróði segir, og kemur það heim við Grágás að heita má.[2]

Ari hinn fróði endar frásögn sína af nýmælum Þórðar gellis með því að segja „síðan váru sett fjórðungarþing“. Það er þó efamál, hvort þau hafa verið sett í öllum fjórðungum landsins. Þórður gellir setti fjórðungsþing handa Vestfirðingum á Þórsnesi, þar sem vorþingið var haldið; skyldu menn þangað til sækja um alla Vestfjörðu.[3] Eigi er neitt kunnugt um fjórðungsþing þetta, nema ef víg Vjebjarnar Sygnakappa hefur gerst þar.[4] Hann vá Grímólf mág sinn í Unaðsdal hjá Grímólfsvötnum og fyrir það var hann veginn

[1]) Grág. I a, 77. [2]) V. Finsen. Fristat. Institut. bls. 77 segir að Grágás sje eigi samkvæm Íslendingabók að því er lögrjettuskipunina snertir, en það er hún þó, nema að nafninu einu. [3]) Eyrb. 10 12, sbr. Ldn. 12 98. [4]) Sbr. að framan I, 145—146.

og þrír menn aðrir; segir í Sturlubók, að það hafi gerst á fjórðungsþingi á Þórsnesi, en í Hauksbók, að það væri á Þingeyrarþingi í Dýrafirði og er eigi hægt að segja með vissu, hvort rjettara er.[1]) Af fjórðungsþingum í hinum fjórðungum landsins er hvergi neitt sagt, svo að menn vita eigi, hvort þau öll hafa nokkurn tíma verið sett á stofn, nema að því leyti sem Ari segir það í almennum orðum. Eigi er heldur neitt kunnugt um, hvernig þeim var háttað, en þó má telja sjálfsagt, að allir goðarnir úr fjórðungnum hafi átt að sækja fjórðungsþingið; hafa þá níu goðar verið á hverju fjórðungsþingi nema í Norðlendingafjórðungi, þar sem þeir voru tólf.

Í Grágás eru fjórðungsþingin að eins nefnd einu sinni, og sagt að fjórðungsmenn allir eigi þar saman sóknir, „þá er þau eru höfð“.[2]) Þessi orð sýna að þau hafa eigi verið háð að staðaldri, enda eru þau eigi talin með venjulegum þingum, skapþingunum. Ef það er rjett, sem Ari segir, að fjórðungsþing hafi verið sett, þá hafa þau skjótt dottið úr sögunni, eflaust af því að þau hafa reynst óþörf, er fjórðungsdómar voru komnir á fót á alþingi, en dómþing voru til áður í hjeruðum, þar sem vorþingin voru.[3])

---

## Fjórðungsdómar.

Fám árum eptir að landinu var skipt í fjórðunga eru fjórðungsdómar nefndir í fyrsta sinn. Það er í Njáls sögu, þá er Mörður gigja sótti Hrút um fjemál Unnar dóttur sinnar og lýsti því í „fjórðungsdóm þann, sem sökin átti í at koma“ (um 969), og tveim vetrum síðar, er Gunnar á Hlíðarenda gekk að „Breiðfirðingadómi ok bauð Hrúti at hlýða til eiðspjalls síns“ (um 971).[4]) Frá stofnun þeirra

[1]) Ldn. 29/150; Stb 149/173; Hksb. 120/48. [2]) Grág. II, 356. [3]) Sbr. V. Finsen. Fristat. Institut. 43—45. [4]) Nj. 8/35, 24/95; sbr. Safn I, 321. 496.

er hvergi sagt, og því hafa sumir ætlað, að þeir hafi verið settir á stofn með lögum Þórðar gellis.[1]) Ari telur þá eigi meðal þeirra breytinga, sem þá voru gerðar, en getur þó um dómnefnu, svo að sjá má af orðum hans, að dómur hefur verið á alþingi. Það er augljóst að fjórðungsdómar geta eigi verið eldri en fjórðungaskiptingin, en hins vegar hljóta þeir að vera komnir algjörlega á fót nokkrum árum áður en fimtardómurinn var settur. Það getur verið að höfundur Njálu hafi í fyrsta sinn, er hann nefnir fjórðungsdóma, nefnt þá fyr í sögu sinni, en þeir voru í raun rjettri settir á stofn, af því að þeir eru aðallega sá dómur, sem dæmdi um þau mál, sem sagan segir af og gengu til dóms á alþingi; en þó er eigi líklegt, að það geti munað miklu. Á því er semsje enginn efi að fjórðungaskipunin hefur valdið því, að fjórðungsdómar komust á. En það er eigi líklegt, að þeir hafi verið settir þá þegar, bæði af því að Ari nefnir þá eigi, og af því að þá var ákveðið að setja fjórðungsþing. Þeir hafa því komist á litlu síðar. Goðarnir og þingheyjendur yfirleitt hafa brátt sjeð að eigi var hagfelt að eiga fjórðungsþing, með því að þrenns konar þing voru til áður. Menn hefðu þá orðið að eiga optar í þingreiðum en hægt var, og of mikill tími gengið til þess frá vorönnum. Alþingi var nauðsynlegt og þangað komu menn úr öllum fjórðungum landsins. Það var því hagfeldara fyrir þá, sem voru fjórðungsmenn saman, að eiga þar saksóknir saman, en að sækja sjerstakt fjórðungsþing til þess. Þess vegna hefur þótt hagkvæmara að heyja dóm á alþingi fyrir hvern fjórðung, en á sjerstöku fjórðungsþingi, því að það hlaut að vera allmiklum erfiðleikum bundið fyrir þá, sem bjuggu fjarri fjórðungs þingstöðunum.

Fjórðungsdómarnir hafa því aðallega verið settir til þess að koma í veg fyrir að heyja þyrfti fjórðungsþing, því að menn sáu brátt, hve erfitt það var eins og á stóð. En auk þess voru aðrar ástæður, sem gátu stutt að stofnun

---

[1]) Baldvin Einarsson í Juridisk Tidsskrift XXII, 43, 47; Maurer, Entstehung 163; Upphaf 147; Isl. 55—56; Guðbrandur Vigfússon, Safn I, 323.

þeirra. Málunum mun hafa fjölgað á alþingi bæði af því að landsmönnum fjölgaði og einnig af því að varnarþingsskyldunni var breytt. Alþingisdómurinn hefur því fengið meira að gera en áður, ef til vill meira, en hægt hefur verið að komast yfir á þingtímanum, og fyrir því gat dómurinn tekið upp það ráð að skipta málunum þannig á milli sín, að dómendur úr hverjum fjórðungi dæmdu í sameiningu mál úr fjórðungi sínum. Á þennan hátt mun alþingisdómurinn hafa orðið fjórar deildir, ein úr hverjum landsfjórðungi og handa honum, og fjórðungsdómarnir myndast.[1])

Fjórðungsdómunum voru gefin nöfn og hjetu þeir Austfirðingadómur, Rangæingadómur eða Sunnlendingadómur, Breiðfirðingadómur eða Vestfirðingadómur og Norðlendingadómur. Hver fjórðungsdómur átti að eins að dæma mál úr þeim fjórðungi, sem hann var kendur við; Austfirðingadómur t. a. m. átti að dæma mál úr Austfirðingafjórðungi.[2]) Þetta sýnir að fjórðungsdómarnir hafa fengið það hlutverk, sem Þórður gellir ætlaði fjórðungsþingunum, og að þeir hafa komið í staðinn fyrir þau og alþingisdóminn.

Í Grágás segir um dómnefnuna í fjórðungsdómana fjóra, að hver goði skuli „nefna mann í dóm, er fornt goðorð hefir ok fult. Enn þau eru full goðorð ok forn, er þing váru þrjú í fjórðungi hverjum, en goðar þrír í þingi hverju. Þá váru þing óslitin. Ef goðorð eru smæra deild, ok skulu þeir svá til skipta, er hlut hafa af fornum goðorðum, at svá sé nefnt sem nú er talit. Þá eru fjórðungsdómar fullir“.[3]) Eins og hjer segir, voru allir fjórðungsdómar fullskipaðir, þá er hver goði, er hefur fornt goðorð og fult, hafði nefnt mann í dóm. Síðan segir á sama stað, að goði hver skal „nefna sinn þriðjungsmann í dóm“, og „setja niðr dómanda sinn“ í hamraskarð, ef hann vill dóm nefna. Hjer er als staðar talað um dómendur í eintölu, svo sem hver goði hefði að

[1]) Sbr. V. Finsen, Fristat. Institut. 94—96. [2]) Grág. I a, 40—42, 93, 100, 101, 105, 175, I b, 57; II, 386; Nj. 143/790. Sbr. V. Finsen, Fristat. Institut. 17—21. [3]) Grág. I a, 38.

eins nefnt einn mann í dóm. Sama er að segja þá er talað er um dómaútfærslu. Þá átti lögsögumaður og „goðar at ganga með dómendr sína“ út frá lögbergi, og „skal goði setja niðr dómanda sinn“, þar sem lögsögumaður ákvað að „dómr skyldi sitja“.[1])

Eptir þessu hafa einungis níu menn setið í hverjum fjórðungsdómi, og á þeirri skoðun voru allir fram til 1845.[2]) Þá ljet Páll amtmaður Melsteð[3]) þá skoðun í ljós, að dómendur fjórðungsdómanna mundu hafa verið 36 og bygði hann það meðal annars á því, að 36 dómendur hefðu setið í vorþingisdómunum; fyrir því væri ólíklegt að færri menn hefðu skipað fjórðungsdómana, sem voru yfirdómar vorþingisdómanna í vefangsmálum, enda væri það venja í Grágás að þrennar tylftir dæmdu mál manna á þingum. Einnig væri þess getið í Njálu,[4]) að „þrennar tylptir í fjórðungi hverjum“ hefðu setið í fjórðungsdómum. Nokkru síðar komst Konrad Maurer[5]) að sömu niðurstöðu, og þekti hann þó eigi þá skoðun Páls Melsteðs; hafa síðan ýmsir íslenskir vísindamenn og rithöfundar fallist á þessa skoðun.[6]) Í annan stað hefur Vilhjálmur Finsen[7]) fylgt fram hinni eldri

---

1) Grág. I a, 38—39, 45. 2) Sbr. Jón Eiríksson í Arnesens Islandske Rettergang bls. 315—16; Baldvin Einarsson, Juridisk Tidsskrift XXII, 37—38; Dahlmann, Geschichte von Dänemark II, 212, 217, aths. 4; Keyser, Efterladte Skrifter II, I, bls. 274; Munch, Hist. II, 156. 3) Nýjar athugasemdir, Reykjavík 1845. Bls. 108—110. 4) Kaupmannahafnarútgáfunni 1772, 98/150. Nú er þessi staður öðru vísi í útgáfu Konráðs Gíslasonar og Eiríks Jónssonar af Njálu 1875, 97/502, og segir ekkert um dómendatölu í fjórðungsdómum. Útgefendurnir hafa farið eptir einu handriti, A. M. 162, B fol. (merkt í útg. C δ), sem er eitthvert hið elsta handrit af Njálu, frá um 1280, sbr. Finnur Jónsson, Litteraturhist. II, 525; Kålund, A. M. Katalog (um 1300); Nj. II, 678—680, 771—772, 783. 5) Entstehung (1852), bls. 177—178. Maurer, hefur síðan haldið skoðun þessari, sbr. Quellenzeugnisse über d. erste Landrecht und über d. Bezirksverfassung d. isländ. Freistaates, bls. 80—82, 100—101; Island, bls. 174—175; Germania XXIV, 101; Upphaf bls. 160—161. 6) Sbr. Gísli Brynjólfsson, Ný Fjelagsrit XIII, 110; Guðbr. Vigfússon, Safn I, 323, Iceland.-engl. Dictionary, undir véfang; rektor Jón Þorkelsson, Víkverji, Reykjavík 1873, bls 98 o. ef.; Páll Melsteð, Víkverji 1873, bls. 103; Arnljótur Ólafsson, Víkverji 1874, bls. 93. 7) Sbr. Om de islandske Love i Fristatstiden, bls. 74—76, Víkverji 1973, bls. 154—155, og ein-

skoðun og leitt mörg rök og líkur að því, að einungis níu dómendur hafi verið í hverjum fjórðungsdómi. Jafnframt hefur hann sýnt að engar þær ástæður, sem færðar hafa verið fyrir því að dómendur í fjórðungsdómum hafi verið 36, eru fullgildar. Þó hefur honum eigi tekist að skýra fyllilega eina þeirra nje hrinda henni, en það er um tölu dómenda í fjórðungsdómum og vorþingisdómum, þá er gengið var til vefangs. Ætlar hann að þar muni vera ritvilla í handritinu Konungsbók af þjóðveldislögunum.

Þá er dómendur gátu eigi orðið allir ásáttir um, hvernig dæma skyldi um eitthvert mál, áttu þeir að vefengja það, þ. e. kveða upp tvo andstæða dóma í málinu.[1]) Í fjórðungsdómum skyldu eigi færri ganga til vefangs en sex dómendur,[2]) og er það hæfileg tala, er dómendur voru níu, enda var nóg að sex dómendur sætu í fjórðungsdómi til þess að dómar hans væru löglega dæmdir.[3]) En um vorþingisdóma er einnig sagt, að eigi skuli færri ganga til vefangs en sex,[4]) og eru það undarlega fáir dómendur, er þeir voru 36. Með því að þar er vísað til ákvæðanna um vefang í fjórðungsdomi, og sagt að „fara svá at vefangi sem í alþingis dómi", ætlar Finsen, að endurminningin um þau hafi valdið því að ritari Konungsbókar hafi skrifað tölu vefangsdómendanna „vi".[5])

Það getur vel verið að tilgáta þessi sje rjett, en hún er þó engan veginn fullnægjandi. Sennilegra er að reynslan hafi kent mönnum, þá er fram liðu stundir, að setja dómaratöluna svona lágt. Það má ganga að því vísu að vorþingin hafa verið misjafnlega sótt, eins og alþingi og önnur þing eða mannfundir, enda þótt menn hafi venjulega sótt þau vel. Harðæri og ýmsar aðrar ástæður gátu að höndum borið og hindrað menn hópum saman frá að sækja þing, þrátt fyrir löglega skyldu til þess. Í sumum hlutum landsins kann því einstaka sinnum að hafa komið fyrir, að vor-

---

kanlega Fristat. Institut., bls. 12—29. [1]) Sbr. Grág. III, 691—693; Fristat. Institut. 22—24; Þrjár ritgjörðir tileinkaðar Páli Melsteð, Kmhöfn. 1892, bls. 72—73. [2]) Grág. I a, 75. [3]) Grág. I a, 53, 74, 75. [4]) Grág. I a, 101. [5]) Grág. III, 693; Fristat. Instit. 22, aths. 5.

þing hafi verið svo illa sótt, að eigi hafi mátt heyja það að lögum, nema ef ákvæðin um dómsskipunina væru mjög rúm. Einstök atvik hafa því getað gert það nauðsynlegt, að kröfurnar væru settar svo litlar sem framast mátti verða, til þess að hægt væri að skipa löglegan dóm á vorþingunum, þótt þau kynnu að verða illa sótt. Eptir að fjórðungsdómarnir voru komnir á fót, og landsmenn tóku að venjast því, að sex dómarar dæmdu mikilvæg mál, og þeir sáu að það fór vel, hlaut það að verða ljóst, að einnig mætti komast af með sexmanna dóm á vorþingum, ef eigi væri kostur á að fá þar fleiri menn, til þess að skipa dóminn. Þá er reynslan sýndi, að stundum gat verið nauðsynlegt, að slíkt væri leyfilegt, er mjög eðlilegt að lögunum væri breytt í þá átt að það yrði heimilt; en það er auðsjeð að ákvæði þetta, eins og það er orðað í Grágás, er eigi eldra en frá þeim tíma, þá er menn voru orðnir vanir við fjórðungsdómana (á fyrri hluta 11. aldar). Hins vegar var eigi meira að leyfa þetta, en að lofa að slíta vorþingi, áður en það hafði staðið hinn skemsta tíma, sem lögákveðinn var. Vorþing átti eigi að vera skemra en fjögra nátta þing, nema lofs væri að beðið í lögrjettu,[1]) en þó mátti slíta því fyr án lofs frá lögrjettu, ef allir þingunautar urðu á það sáttir og öllum þeim sökum var lokið, er búnar voru til þings.[2]) Reynslan hefur kent mönnum að eigi voru ávalt nóg mál til þess að þinga um í fjóra daga á vorþingunum. Fyrir því hefur það verið leyft í eitt sinn fyrir öll að slíta þeim heldur, en að neyða menn að dvelja þar til einskis gagns.

Ef alþingisdómurinn hefur skiptst í fjórar deildir eða fjórðungsdóma, eins og V. Finsen ætlar[3]) og líklegt er, verður það bæði vel skiljanlegt og eðlilegt, að dómendurnir voru einungis níu í hverjum fjórðungsdómi. Hins vegar hefði

---

[1]) Grág. I a, 96. [2]) Grág. I a, 97. [3]) Maurer segir einnig að hinum æðsta dómi hafi verið skipt í fernt, til þess að flýta fyrir málunum, af því að þingtíminn var stuttur, en í raun rjettri ætlar hann að fjórir fjórðungsdómar hafi verið settir (um 965) í stað lögrjettu að dæma mál manna. Entstehung bls. 175, Upphaf 158—159, Island 55—56.

dómendafjöldinn á alþingi orðið nálega óeðlilega mikill, ef tólf tylftir manna hefðu setið í fjórðungsdómunum.

Þá er fjórðungsdómarnir voru settir, hafði alþingi og stjórnarskipun landsins að heita má komist í það horf, sem hún hjelt síðan um mestallan þjóðveldistímann, að undanteknum þeim breytingum, sem siðaskiptin og setning fimtardómsins höfðu í för með sjer.

---

# II. Trúarbrögðin.

## Ásatrúin.

Eins og fyr er sagt,[1]) voru langflestir af landnámsmönnunum heiðnir og trúðu á guði þá, sem Æsir eru nefndir, en sumir þeirra voru kristnir og nokkrir goðlausir eða vantrúaðir. Hin fyrstu lög landsins bera það með sjer, að heiðin trú var algjörlega ráðandi, þá er þau voru sett, því að ekkert tillit er tekið í þeim til kristinnar trúar. Hinir kristnu landnámsmenn voru þá flestir andaðir og niðjar þeirra snerust allir til heiðinnar trúar, nema niðjar Ketils fíflska. Ásatrúin fjekk því löghelgi með Úlfljótslögum og varð þjóðtrú landsmanna, líkt og kristin trú eptir kenningu Lúthers er það nú á dögum. Ásatrúin var síðan drottnandi trú í landinu þangað til að hún varð að víkja fyrir kristninni á síðasta ári hinnar tíundu aldar. Tveir hinir fyrstu mannsaldrar af söguöldinni eru því blómaöld Ásatrúarinnar á Íslandi; fyrir því ber nú, þá er stjórnarskipun landsins hefur verið lýst, að segja nokkuð af henni, áður en lengra er haldið. Trúin einkennir og markar meira eða minna hugsanir manna og gjörðir. Hugsunarháttur og líf landsmanna á söguöldinni verður eigi skilið til hlítar, nema með því að gera sjer nokkra grein fyrir trú þeirra og skoðun þeirra á lífinu og heiminum.

Ásatrúin var margra alda gömul, þá er Ísland bygðist, og hafði þá víða orðið að víkja undan fyrir kristninni. Að uppruna og eðli var hún sameiginleg fyrir flestar hinar germönsku

[1]) Sbr. að framan I. 286 o. ef.

þjóðir, en hún fjekk aldrei neina eina ákveðna skipun, búning eða form, sem yrði sameiginlegt fyrir allar germanskar þjóðir. Það var eigi svo mikið sem hún væri alveg eins hjá hinum norrænu þjóðum, og hún er harðla ólík hjá þeim germönsku þjóðum, sem fjarskyldar eru. Ásatrúarmenn áttu enga lærða prestastjett, sem kendi mönnum trúarfræði; fyrir því komst trú þeirra eigi í svo fast horf sem ella mundi, og ákveðnar trúarsetningar mynduðust eða geymdust eigi. Auk þess breytast öll trúarbrögð meira eða minna með vaxandi mentun, að minsta kosti hinn ytri búningur, þótt kjarninn haldi sjer óbreyttur eins og í kristindóminum. Ásatrúin tók ýmsum breytingum, áður en hún barst með landnámsmönnunum til Íslands, en hvernig þær breytingar hafa verið, vita menn eigi mikil deili á.

Einungis þrír Æsir, Týr, Óðinn og Þór, voru að minsta kosti frá 6. öld sameiginlegir guðir allra germanskra þjóða, og Frigg ein af Ásynjum. Aptur á móti voru aðrir guðir einungis norrænir, svo sem Heimdallur, Ullur og Loki, Baldur, Hænir og Lóðurr, eða að eins norsk-íslenskir svo sem Bragi, Viðarr og Váli, og ýmsar Ásynjur (Sif, Gefjun, Iðunn). Tý nefndu hinir fornu Germanar *Tiu* eða *Ziu*, en það er sama nafnið sem *Dyâus* hjá Indum, *Zeus* hjá Grikkjum og *Ju-piter* (upphaflega Dju-piter) hjá Rómverjum. Í Austurlöndum var Týr ljósguð eða himinguð eða dagföður, og á nafn hans rót sína að rekja til afgamals indo-evropeisks orðs, div, sem þýðir að lýsa;[1]) en hjá hinum herskáu Germönum var Týr herguð, og eptir honum nefndu þeir þriðja dag vikunnar, sem Rómverjar höfðu helgað herguð sínum *(dies Martis*, Týsdagur). Óðin nefndu Þjóðverjar *Wodan* (á fornháþýsku *Wuotan)*, sem komið er af indo-evropeiskri rót *vâ*, að blása, en Þór nefndu þeir *Donar*, og er nafn hans rakið til orðsins *tan* í sanskrít, er þýðir að dynja, en af sömu rót er *tonare* (að þruma) og *tonitrus* (þruma) í latínu. Þá er Germanar þýddu latnesku daganöfnin, nefndu þeir fimta dag vikunnar, sem á latínu heitir *dies Jovis* (dagur Ju-

---

[1]) Sbr. E. Mogk, í Grundriss der germ. Philologie. 2. útg. III, 313.

piters), *Þórsdag* (á þýsku Donnerstag) og þýddu Jupiter með Þór.

Nokkra vitneskju um hinar elstu trúarhugmyndir Norðurlandabúa má fá af ýmsum *fornleifum*, sem finnast í jörðu, af haugum og dysjum, og úr nokkrum latínskum og grískum sagnaritum. Á nokkrum *rúnasteinum* eru áletranir, sem gefa áreiðanlegar upplýsingar um Ásatrúna, það sem þær ná, en þær eru að eins fá orð. Rúnasteinarnir allir hinir eldri eru úr heiðni, og hið sama er að segja um *kvæði norsku skáldanna* á 9. og 10. öld[1]) og *íslensku skáldanna* á 10. öld og flest *Eddukvæðin*. Þessi fornu kvæði eru hinar einu heimildir úr heiðni, sem skýra allnákvæmlega frá Ásatrúnni, en þau lýsa henni aðallega eins og hún var í Noregi og á Íslandi. Af þeim má sjá á hvaða stigi hún stóð á 9. og 10. öld, á víkingaöldinni, nokkru áður en kristnin barst til Norðurlanda og var þar í lög tekin.

Frá víkingaöldinni eru einnig nokkur *minnismerki*, úthöggnar myndir á steinum á Norður-Englandi (t. a. m. Gosforthkrossinn á Kumbralandi) og í Mön, en þær eru eptir kristnaða menn. Sama er að segja um kvæði íslenskra skálda á fyrsta mannsaldri 11. aldar, því að víkingaöldin varir jafnlengi á Íslandi sem söguöldin.

Yngri heimildarrit eru önnur *kvæði íslenskra skálda* á fyrstu öldum kristninnar (11.—13. öld), *Edda Snorra Sturlusonar*, allar *íslensku fornsögurnar*, *Saga Adams frá Brimum* og *Danasaga Saxa*. Af öllum ritum þessum má fá mikla og glögga þekkingu um trú Norðurlandabúa; en með því að þau eru flest íslensk, er það í raun rjettri einungis goðafræði Norðmanna og Íslendinga, sem menn þekkja nákvæmlega, enda eru að heita má eigi heldur til nein slík heimildarrit að goðafræði annara germanskra þjóða.

*Snorri Sturluson* ritaði fyrstur manna norræna goðafræði. Edda hans er goðafræði og óðfræði. Hvergi er

---

[1]) Um guðina í kvæðum þessum sjá: Finnur Jónsson. Mytiske forestillinger i de ældste skjaldekvad í Arkiv f. nord. filologi IX. bls 1—22.

Ásatrúnni í fornum ritum lýst svo ítarlega sem í Snorra Eddu og fór hann mest eptir fornum kvæðum, Eddukvæðunum, einkum Völuspá, en bætti þó nokkru við bæði eptir þjóðtrú manna og munnmælum, svo að sumt er nú eigi kunnugt af öðrum heimildum en Snorra-Eddu.[1])

Snorri segir að Æsir sjeu tólf[2]) af goðaætt, og er Óðinn æstur þeirra og elstur. Hann heitir Alföður, af því að hann er faðir allra goða og manna, og aldaföður, af því að hann er aldanna faðir. „Hann ræðr öllum hlutum" og önnur goð þjóna honum svo sem börn föður.[3]) En þótt hann sje „stýrandi himins ok jarðar", er hann þó eigi einráður um alt. Ókunnugt vald, sköpin, forlögin, hefur úthlutað völdunum og haldið sjálft miklu af þeim. Hinar göfgu örlaganornir, Urður, Verðandi og Skuld koma úr

[1]) Eptir daga Snorra rituðu engir goðafræði fyr en á síðari öldum. Á 19. öld hafa menn ritað hverja goðafræðina á fætur annari, einkum síðan Grundtvig, Finnur Magnússon og Jacob Grimm höfðu riðið á vaðið. Einnig hafa mjög margir, einkum þýskir vísindamenn, ritað ritgjörðir um ýms atriði í goðafræðinni og um Eddukvæðin eða einstök atriði í þeim. Hjer er auðvitað eigi rúm nje þörf að vitna til allra slíkra rita. Að eins skulu nefnd nokkur hin helstu rit um goðafræði fornmanna yfirleitt, eða um einstaka þætti eða kafla úr henni: N. M. Petersen, Nordisk Mythologi 2. udg. Kbh. 1863. Henry Petersen, Om Nordboernes Gudedyrkelse og Gudetro i Hedenold, Kbh. 1876. Karl Mortensen, Nordisk Mythologi, Kbh. 1898. P. A. Munch, Norröne Gude- og Heltesagn, 2. udg. Christjania 1880. Viktor Rydberg, Undersökningar i germanisk Mythologi, Stockholm 1886—89. J. Grimm, Deutsche Mythologi, 4. Ausg., Berlin 1878. Konrad Maurer, Die Bekehrung des norwegischen Stammes zum Christenthum, I—II, München 1855—56. E. Mogk, Germ. Mythologie, í Grundriss der germ. Philologie, 2. Aufl., og sjerstök, Strassburg 1898. Golther, Handbuch der germ. Mythologie, Leipzig 1895. Elard Hugo Meyer, Germanische Mythologie, Berlin, 1891. Paul Herrmann, Nordische Mythologie, Leipzig 1903. S. Bugge, Studier over nord. Gude- og Heltesagns Oprindelse, Christiania 1881—89; II. bind, Helgedigtene, Kbh. 1896. H. S. Vodskov, Sjæledyrkelse og Naturdyrkelse, Kbh. 1890—97. A. Lehmann, Overtro og Trolddom fra de ældste Tider til vore Dage, I—IV, Kbh. 1893—96. A. Olrik, Om ragnarok, í Árböger f. nord. Oldkyndighed, 1902. H. F. Feilberg, Jul, I—II, Kbh., 1904—5. Á íslensku hefur enginn á vorum dögum ritað goðafræði, sem hægt sje að telja. [2]) Snorri notar opt töluna tólf og þrír í Eddu sinni. [3]) Sn.—e. 2/10—11, 5/13, 19/25. Um Óðin sbr. Vafþrúðnismál, Grímnismál og Baldursdrauma.

sal einum fögrum, sem er undir Yggdrasils aski við Urðarbrunn, og skapa mönnum aldur og ákveða hvað á daga þeirri skuli drífa [1]) Þær eru umboðsmenn eða fulltrúar hins ókunna valds. En Óðinn hefur ýms mikilvæg einkarjettindi. Hann einn ræður sigri og kýs þá á vígvellinum, sem hann vill, enda væri eigi hægt fyrir Óðinn að ráða ríkjum og þjóðum, síðan ófriður kviknaði í heiminum, ef hann hefði eigi þennan rjett. Hann er yfirdómari eða „forseti“ í dómi þeim, sem Æsir heyja daglega við Urðarbrunn, þá er þeir dæma dána menn.[2]) Hann dæmir menn eptir hugarfari þeirra og verkum. Hann fyrirgefur veikleika körlum sem konum, en hórkarla, lygara, meinsærismenn, níðinga og helgidómsspellvirkja dæmir hann „varga í vjeum“.

Óðinn á stað þann á himnum, sem Valaskjálf heitir. Goðin gerðu sal þennan og þöktu skíru silfri. Í honum er Hliðskjálf, hásæti Óðins. Þá er hann setst í það, sjer hann um alla heima og hvers manns athæfi.[3]) Hann á tvo hrafna, er heita Huginn og Muninn. Í dagan sendir hann þá að fljúga um heim allan, og koma þeir aptur að dögurðarmáli. Þeir setjast þá á axlir honum og segja honum öll tíðindi, er þeir sjá og heyra.[4]) En Óðinn lætur sjer þetta eigi nægja. Hann er viskuguð og aflar sjer vísdóms með eigin rannsókn og sýn. Hann fer víða um lönd og freistar margs. Svo mikið leggur hann í sölurnar til þess að afla sjer vits og vísinda, að hann lætur auga sitt að veði til Mímis fyrir drykk af vísdómsbrunni hans.[5]) Í Vafþrúðnismálum er Óðni lýst sem hinum vísasta guði. Hann segir þar sjálfur:

Fjölð ek fór
fjölð ek freistaðak
fjölð ek of reynda regin,

þá er hann ræddi um við konu sína, að hann vildi vita, hvort Vafþrúðnir jötunn væri alvitur. Hann hugsar mjög

---

[1]) Vsp. 20/4; Sne.-e. 14/21. [2]) Grím. 29—30/82. Sn.-e. 14/21. [3]) Sn.-e. 8/16. 16/23—24. [4]) Grím. 20/79; Sn.-e. 37/39. [5]) Vsp. 28/5; Sn.-e. 14/20—21, sbr. Hkr. I, 7/18—19.

um hag mannanna, og gerir mikið til þess að greiða fyrir þeim og auka þekkingu þeirra og hyggindi. Hann gefur mönnum heilræði og lífsreglur eins og Hávamál (mál hins Háva, þ. e. Óðins) bera vitni um. Hann kennir mönnum íþróttir með rúnum og ljóðum. Hann fann rúnarnar og varð þá að leggja á sig þunga þraut, eins og hann sjálfur segir í Hávamálum:

Veit ek at ek hekk
vindgameiði á
nætr allar níu,
geiri undaðr
ok gefinn Óðni,
sjalfr sjalfum mér,
á þeim meiði,
er mangi veit
hvers hann af rótum renn.
Við hleifi mik sœldu
né við hornigi;
nýsta ek niðr,
nam ek upp rúnar,
œpandi nam,
fell ek aptr þaðan.
Þá nam ek frævask
ok fróðr vesa
ok vaxa ok vel hafask;
orð mér af orði
orðs leitaði
verk mér af verki verks leitaði.[1])

Óðinn er því hinn mesti rúnameistari og „galdrasmiðr“.[2])

[1]) Vísur þessar eru óljósar. Það er talað um að Óðinn hafi hangið í trjenu, og verið merktur eða lagður geiri; það eru tákn. Vísuorðin „geiri undaðr ok gefinn Óðni, sjálfr sjálfum mér“ minna á krossfestingu frelsarans (Sbr. Bugge, Studier); Eiríkur Magnússon ætlar því að þeim sje bætt inn í vísuna (sbr. Yggdrasill bls. 21). En af þessum viðburð hefur heimstrjeð fengið nafnið Yggdrasill = Óðins gálgi; drasill er eiginlega hestur, en gálgi er kallaður hestur. Vindgameiði = vindblásnum viði, Yggdrasilsaski. Sœldu = svöluðu; mjer var hvorki svalað með mat nje drykk. Nýsta ek = eg rannsakaði, eg leitaði fyrir mjer niður á við. Fell ek = eg fell aptur niður af trjenu. [2]) Háv. 138—145/60—62; Baldrs dr. 4/135; Hkr. I, 7/19.

Rún þýðir upphaflega rannsókn, launung eða leyndarmál, þekking, en rúnar heitir einnig norrænt stafróf, rúnastafróf, og er í Sigurdrífumálum talað um margskonar rúnar.[1]) Snemma tóku menn að skoða einstaka rúnastafi sem galdratákn og urðu þá rúnastafirnir töfrastafir í hugmynd manna. Þá urðu rúnarnar „rammar“ og Óðinn ramgöldróttur.

Óðinn var einnig skáldskaparguð. Skáldskapargáfuna hugsuðu menn sjer sprottna af töfradrykk. Sá drykkur var mjöður, og höfðu dvergar tveir búið hann til úr blóði Kvasis, hins vitrasta manns, sem getið er um í goða sögum, og úr hunangi. Hver, sem drakk af miði þessum, varð skáld eða fræðamaður. Þennan drykk fjekk Suttungur jötunn í föðurbætur, en Óðinn hætti lífi sínu og sótti drykkinn til Ásgarðs og miðlaði síðan goðum og mönnum af honum. Hann sveik þá Gunnlöðu Suttungsdóttur til þess að ná drykknum, og ásakaði hann sig sjálfur síðar fyrir, að hann hefði brugðist trausti hennar og grætt hana.[2])

Óðinn var herguð og var kallaður valföður, því að óskasynir hans eru allir þeir, er í val falla.[3]) Hann var og nefndur herjaföður[4]) og sigföður og fleiri nöfnum, sem minna á þennan eiginleika guðdóms hans; einnig nefna skáldin hann opt í sambandi við orustur og hernað. Orusta er nefnd veður Óðins eða gnýr hans, en sverð eldur Óðins. Hann vann „fólkvíg fyrst í heimi“, og kendi mönnum fylkingaskipun og orustuaðferð.[5]) Hann vekur víg og eggjar höfðingja hvern móti öðrum.[6]) Hann sendir valkyrjur til orustu hverrar til að kjósa feigð á menn og ráða vígum og sigri,[7]) því að hann var einnig dauðaguð. Allir þeir, sem fjellu fyrir vopnum, fóru til Óðins í Valhöll og áttu þar góða æfi með honum.

Óðinn var tignarlegur, þá er hann var með Ásum og Einherjum, eða tók eigi á sig dulargervi. Segir Snorri í

---

[1]) Sigrdr. 6—19/229—231. [2]) Háv. 103—110,55—56; Sn.-e. I 72—74. [3]) Sn.-e. 19/25; Hkr. I, 9,21—22. [4]) Grím. 19,79; Hyndl. 23/152. [5]) Vsp. 24,5; Reg. 20—23/217. [6]) Hárb. 24/100, 40/102. [7]) Hákm. Hkr. I. 32/219—22; Sn.-e. 35/37.

Ynglinga sögu, þar sem hann telur Óðinn þjóðhöfðingja mikinn og merkan, og ramgöldróttan, að hann hafi verið svo fagur og göfuglegur álitum, þá er hann sat með vinum sínum, að öllum hló hugur við; en í orustum sýndist óvinum hans hann ægilegur.[1]) Hann hafði gullhjálm á höfði og geirinn Gungni í hendi, þá er hann reið hesti sínum Sleipni lopt og lög.[2]) Sá hestur var allra hesta bestur, grár að lit og hafði átta fætur. Hann var undan Svaðilfara, hesti bergrisa nokkurs, og Loka Laufeyjarsyni.[3])

Stundum kom Óðinn gangandi, þá er hann birtist mönnum. Hann var þá aldraður ásýndum og einsýnn, síðan hann misti augað. Hann var hár vexti, í feldi blám og með miklu skeggi, og hafði síðan hatt á höfði.[4])

Á ferðum sínum nefndist Óðinn ýmsum nöfnum og merkja mörg þeirra eiginleika hans, en atburðir, sem gerðust á ferðum hans, liggja til sumra heita hans. Óðinn átti als nöfn svo mörgum tugum skipti;[5]) bera þau vitni um, hve mikið menn hafa hugsað um hann og hve fjölhæfur hann var. Sum af nöfnum Óðins eru svo einföld, að þau munu vera gefin honum af alþýðu manna, og eru sniðin eptir því, sem menn hugsuðu sjer hann. Sum nöfnin eru skáldleg og líklega búin til af skáldum.

Óðinn var örlátur mjög. Hann gaf mönnum gull og vopn, sigur og skáldlist, mælsku og mannvit.[6])

Óðinn neytti eigi matar. Þá vist, er á borð hans er borin, gefur hann úlfum tveimur, er hann á og heita Geri og Freki. Sjálfur lifði hann á víni, og er það honum bæði matur og drykkur.[7]) Hann og Sága á Sökkvabekk „drekka um alla daga glöð úr gullnum kerum“.[8]) Líklega

[1]) Hkr. I. 6 17. [2]) Sn.-e. 50,63, 17,85, 33 97—98. [3]) Grím. 44,85: Vegt. 2 135: Hyndl. 40/160: Sn.-e. 14 21, 41 41—43, 48 58. Eiríkur Magnússon hefur leitt ýms rök að því, að hinn áttfætti hestur Óðins sje vindurinn, sbr. Yggdrasill. Óðins hestr. Reykjavík 1895 bls. 47 o. ef. Sjálfur var Óðinn einnig vindguð, sbr. E. Mogk, Grundriss III, 333—37. [4]) Grím. Sæm.-e. 76; Hkr. I. 64,377—79. [5]) Mörg nöfn Óðins eru talin í Grímnismálum 46—54 85—88, sbr. Sn.-e. 19,25—26; Finnur Jónsson, Odin og Tor, í Arkiv f. nord. filol. XVII, 229 o. ef. [6]) Sbr. Hyndl. 2—3/152; Vsp. 29/5. [7]) Grím. 19/79; Sn.-e. 37/39. [8]) Grím. 7/77.

er Sága nafn á Frigg, þótt Snorri telji hana eina af Ásynjum. Sökkvabekkur minnir á Fensal, bústað Friggjar, því að þýðing þeirra orða er svipuð: bendir Sökkvabekkur á, er sólin rennur undir á kveldin niður í sæinn, eins og mönnum virðist á vesturströndum Norðurlanda og víða á Íslandi.[1])

Enginn guð meðal Ása var svo fjölhæfur sem Óðinn: í skapferli hans eru margir eiginleikar. Þess vegna er ertitt að lýsa honum með fám orðum og skilja hann til fulls. Sem vísdómsguð og stjórnandi heimsins var hann opt hugsandi og hafði stundum þungur áhyggjur sökum velferðar guða og manna.[2])

Kona Óðins hjet Frigg Fjörgvinsdóttir eða Fjörgynsdóttir. Hún var nefnd *Frija* á fornháþýsku og *Frig* á engilsaxnesku. Nafn hennar er komið af *prijâ* í sanskrit, sem þýðir húsfreyja. Af henni fjekk sjötti dagur vikunnar nafn og var kallaður frjádagur (á fornháþýsku *friatag*, á engilsaxnesku *frigedag*, á dönsku *Fredag)*. Sá dagur var helgaður ástargyðjunni meðal Rómverja *(dies Veneris)*. Frigg var ástagyðja eða hjúskapargyðja, og með því að hún var hin móðurlega jörð, var hún einkanlega verndargyðja hjúskaparins og heimilisins, gyðja kvenna. Hún var æst Ásynja og frá þeim Óðni var hin goðkynjaða ásaætt komin.[3]) Frigg vissi fyrir örlög manna, þótt hún segði þau eigi: hún reyndi á ýmsan hátt að hjálpa mönnum og forða þeim frá háska.[4])

Frægastur barna þeirra Óðins og Friggjar var Þórr eða Ásaþórr. Móðir hans er í Snorra-eddu[5]) kölluð Jörð, og er það heiti Friggjar. Hún er sem jarðgyðja einnig nefnd Hlöðyn og Fjörgyn, þá er talað er um Þór.[6]) Þór er fremstur Ása næst eptir Óðin og sterkastur allra goða og manna. Hann á þar ríki, er Þrúðvangar (þ. e. styrkleikans vangar eða lönd) heita, en höll hans heitir Bilskirnir. Í henni er sagt að sje 540 gólfa og ætla sumir, að svo sje

---

[1]) Sn.-e. 34,35. [2]) Sbr. Baldrs drauma og Sn.-e. 48,56—60. [3]) Sn.-e. 8,16, 34,35. [4]) Lokas. 29,117; Sn.-e. 19,25, 34,35—36. [5]) Sn.-e. 35,37. [6]) Vsp. 56,10.

talið, af því að 540 dyr voru á Valhöll, og hjer sje því blandað málum milli hallnanna.[1])

Þórr átti hafra tvo, Tanngnjóstur og Tanngrisnir, og reið; draga hafrarnir reiðina og ekur Þórr um lopt og láð: var hann af því nefndur Öku-Þórr. Hann ók svo hart, að „björg brotnuðu,

brann jörð loga“;

alt loptið leiptraði þá af eldingum, og hvert reiðarslagið rak annað. Þórr var þrumuguð, hreinsaði loptið og gaf frjóvgandi regn.

Þórr á líka þrjá kostgripi; einn er hamarinn Mjölnir, er hrímþursar og bergrisar kenna, því að hann hefur lamið margan haus á feðrum eða frændum þeirra. Annar gripur hans eru megingjarðir, er hann spennir um sig, og vex honum þá ásmegin að hálfu. Þriðji gripurinn eru járnglófar, sem hann notar, er hann grípur hamarsskaptið. Þórr vann svo mörg stórvirki, að enginn er „svá fróðr“, að telja kunni þau öll.[2]) Mörg tíðindi eru sögð frá honum í Snorra eddu og þrjú Eddukvæði eru um hann. Auk þess er eitt kvæði af þeim báðum Óðni og Þór, Hárbarðsljóð. Þeir þreyttu þar með sjer; varð Óðinn drjúgari, enda virðist skáldið halla á Þór og henda gaman að honum.

Þórr neytti afls síns og styrkleika til þess að verja Miðgarð, guði og menn. Hann er nefndur „Miðgarðs véurr“ eða verjandi Miðgarðs og Ásgarðs.[3]) Hann átti því mjög opt í einvígum og baráttu við jötna, hrímþursa og bergrisa. Hann var góðgjarn og mildur, hreinn í lund, en nokkuð bráður; þá er hann reiddist, hvesti hann augun svo öllum bauð ógn af. Hann var dýrkaður mjög mikið,[4]) eflaust af því að menn trúðu mjög á mátt hans og að hann hjeldi verndarhendi yfir mönnum. Þórshamar var verndarmerki; ætla menn að gjört hafi verið hamarsmerki, þá er hjón voru

[1]) Grím. 24/80; Sn.-e. 20/26—27, sbr. V. Rydberg, Fädernas Gudasaga. Stockholm 1887, bls. 34, 208; E. Mogk, Mythologie, Grundriss III, 358. [2]) Þrkv. 21/126; Sn.-e. 20/26—27. [3]) Vsp. 56/10; Sn.-e. 4/80. [4]) Sbr. Henry Petersen, Nordboernes Gudedyrkelse og Gudetro. bls. 33 o. ef.

vígð saman, til þess að vernda hjúskapinn og hið nýja heimili.[1]) Líklega hefur Þórr verið um hríð aðalguð flestra germanskra þjóða. Menn hugsuðu sjer venjulega Þór álits sem mikinn mann vexti, herðibreiðan og sterklegan, á manndómsaldri, sjaldan sem ungling.[2]) Hann var heldur ljós á hár með rauðleitt skegg.

Þá má nefna Tý, sem fyr er nefndur. Hann er djarfastur og best hugaður; hann ræður mjög sigri í orustum og var því gott fyrir hreystimenn að heita á hann. Sem mark um djarfleik hans má geta þess að hann þorði að leggja hönd sína að veði í munn Fenrisúlfsins, þá er Æsir lögðu á hann fjöturinn Gleipni. En er Æsir vildu eigi leysa hann, beit hann af höndina, og er Týr síðan einhendur. Ekki er Týr kallaður sættir manna.[3]) Týr var lítið dýrkaður á þeim tíma, sem hjer ræðir um. Nýir guðir voru komnir til sögunnar og einn þeirra í hans stað að því er himininn snerti.

*Heimdallur*, hvíti-áss, er mikill og heilagur. Hann er ljósguð eða sólarguð eins og nafn hans sýnir (þ. e. sá er lýsir yfir heiminum); hann er því í raun og veru hinn sami guð og hinn forni himinguð Týr. Hann er að eins nefndur í norskum og íslenskum heimildarritum.[4]) Heimdall báru að syni níu meyjar, er allar voru systur. Tennur hans voru af gulli og heitir hann því *Gullintanni*. Hann býr við *Bifröst* að *Himinbjörgum* og er vörður goða og gætir brúarinnar fyrir bergrisum. Hann þarf minni svefn en fugl. Hann sjer jafnt nótt sem dag hundrað rasta frá sjer. Hann heyrir, er gras vex á jörðu eða ull á sauðum og alt það, sem hærra lætur. Hann hefur lúður þann, er *Gjallarhorn* heitir, og heyrist blástur hans í alla heima.[5])

Norðurlandabúar hugsuðu sjer aðra guði eða guða ætt

[1]) Þrkv. 30/127—28, sbr. H. Petersen, S. st. bls. 57: mörg hamarsmerki eru til á steinum; menn báru smáa Þórshamra sjer til heilla, verndar og prýðis. [2]) Sbr. Sn.-e. 47/54. [3]) Sn.-e. 24/29; Sigrdr. 6/229: sbr. Lokasennu 113. 37—40 119. Hymiskviðu 4—7 106. 33 111. [4]) Sbr. E. Mogk, Mythol., Grundriss III, 317. [5]) Grím. 13/78. sbr. Rigsþulu; Sn.-e. 26/30.

jafnframt Ásum. Þeir hjetu Vanir, og er það nafn líklega skylt fornsaxneska orðinu *wânam*, sem þýðir sólarljós eða dagsbirtu. Vanir voru vænir ásýndar (þ. e. vel skapaðir, fríðir; vænn, sá, sem maður væntir góðs af; þar af kemur að vænn þýðir góður, duglegur), og rjeðu yfir hinum mildu og frjóvgandi kröptum náttúrunnar, ljósi og sólarhita. Þeir voru guðir auðlegðar og frjóvsemi. En auðurinn, gullið hefur misjöfn áhrif á menn; það vekur ágirnd og ófrið og dregur hreysti úr mönnum. Slíkt líkaði hinum herskáu Ásum illa, og lenti þeim því í ófrið við Vani. Segir í Völuspá að Gullveig (= gullsins kraptur) hafi komið til Ása; hún var völva, líklega af jötnaætt, og hafði ill áhrif, enda drápu Æsir hana og brendu, en hún lifnaði við aptur og gekk svo þrisvar („þrysvar brendu, þrysvar borna“). Þó er þetta óljóst, og hefur það því verið skilið á ýmsa vegu. En ófriður kviknaði upp milli Ása og Vana og segir svo:

Fleygði Óðinn
ok í fólk of skaut,
þat vas enn fólkvíg
fyrst í heimi;
brotinn vas borðveggr
borgar ása,
knáttu vanir vígspá
völlu sporna.

Vanir unnu sigur og var þá friður saminn og gislar seldir af beggja hálfu. Vanir ljetu þá til Ása hina ágætustu menn sína, Njörð hinn auðga og Frey son hans, og voru þeir með Ásum síðan. Þeir nutu sömu virðingar sem Æsir sjálfir og eru taldir með þeim.[1])

Goðasagnir þessar fela í sjer forna trúarbragðasögu, og benda á, hvernig hin heiðnu trúarbrögð hafa breytst.

Vanir voru norrænir guðir, en kunnir einnig meðal lágþýskra þjóðflokka og dýrkaðir af þeim.[2]) Aptur á móti

---

[1]) Vsp. 21—24/4—5; Sn.-e. 1/71, sbr. Hkr. I 4/12—13. [2]) Sbr. Nerthus frjóvsemisgyðju, sem Tacitus segir í bók sinni Germania, 40. kap.,

voru Æsir hinir gömlu guðir Germana og höfðu fylgt þeim frá upphafi vega þeirra, alla leið til Íslands.

Njörður býr á himni, þar sem Nóatún heitir. Hann ræður fyrir göngu vinds og stillir sjó og eld; á hann skal heita til sæfara og veiða. Hann er auðugur og fjesæll og gefur þeim auð landa eða lausafjár, sem á hann heita. Eptir að hann kom til Ása, fjekk hann konu þá, er Skaði heitir, dóttir Þjassa jötuns. Hún vill búa á fjöllum uppi, í Þrymheimi sem faðir hennar, en Njörður vill vera nær sæ. Svo lauk að Skaði fór á skíðum upp á fjall og bygði í Þrymheimi; skýtur hún dýr og er öndurdís.[1])

Njörður átti tvö börn, Frey, sem fyr er nefndur, og Freyju dóttur. Hún fór með föður sínum og bróður til Ása. Þau systkin eru fögur álitum og máttug. „Freyr er“ segir Snorri „hinn ágætasti af Ásum“ og ræður hann fyrir regni og skini sólar og jarðargróða; á hann er gott að heita til árs og friðar. Hann ræður og fjesælu manna. Freyr hjet Yngvi öðru nafni og var hann því stundum nefndur Yngvifreyr. Uppsala konungar og norskir konungar töldu ætt sína til hans. Ættmenn hans voru kallaðir Ynglingar. Nafn Yngva var lengi haft í ætt hans fyrir tignarnafn.[2])

Freyja er ágætust af Ásynjum. Hún á bæ þann á himni, er Fólkvangur heitir, og sal mikinn og fagran, er Sessrúmnir heitir. Hvar sem hún ríður til vígs, á hún hálfan val, en hálfan Óðinn.[3]) Hún á reið, er hún ekur í og ganga kettir fyrir. Á Freyju er gott að heita til ásta. Hún er gipt manni þeim, er Óður heitir, og elskaði hann mjög. En hann fór í braut og situr hún grátandi eptir; eru tár hennar rautt gull. Síðan fór hún að leita hans og gaf hún sjer þá ýms heiti, er hún fór með ókunnum þjóðum; er Gefn, Mardöll (haf lýsandi?) og Vanadís merkust þeirra. Freyja átti hið ágæta Brísingamen. Af nafni hennar er

---

að dýrkuð hafi verið á eyju nokkurri í útsænum. Nerthus og Njörðr er sama nafnið, og hafa menn ef til vill hugsað sjer þau systkini, sbr. Lokas. 36/118—19, líkt og Frey og Freyju. [1]) Sn.-e. 22/28. [2]) Sn.-e. 23/29; Hkr. I, 10/23 (Ynglinga saga), sbr. Ynglingatal Þjóðólfs hins hvinverska. [3]) Grím. 14/78.

tignarnafn ríkra kvenna, sem eru kallaðar frúvur, frúr.[1]) Hún var fjölkunnug og kendi fyrst seið með Ásum.[2])

Aptur og aptur bættust við nýir guðir, og voru þeir einungis dýrkaðir á Norðurlöndum. Hinn ágætasti af guðum þessum var Baldur (= herra, hinn sterki, á engilsaxnesku *bealdor*), sonur Óðins og Friggjar. Af honum er að eins gott að segja. Hann er bestur allra og hann lofa allir. Hann er svo fagur álitum og bjartur, að lýsir af honum; eitt gras er svo hvítt, að jafnað er við brár hans, og nefnt Baldursbrá. Baldur er vitrastur Ásanna, fegurst talaður og líknsamastur, en sú náttúra fylgir honum, að enginn dómur hans má haldast. Bústaður hans er á himni og heitir Breiðablik og má þar ekki óhreint vera.[3])

Sonur Baldurs og Nönnu Nepsdóttur konu hans heitir Forseti. Hann á sal þann á himni, er Glitnir heitir. Hann er rjettlætisguð og sættir alla, sem koma til hans með sakarvandræði.[4])

Bragi heitir einn Ása. Hann er skáldskaparguð, málsnjall og orðfimur. Hann er spakur og kann mest af skáldskap; af honum er bragur kallaður skáldskapur. Kona hans er Iðunn. Hún varðveitir í eski sínu epli þau, sem goðin skulu bíta á, þá er þau eldast, og verða þau þá ung.[5])

Þá eru enn þeir Höður, sem Snorri segir að sje blindur, Víðarr hinn þögli, sem er sterkastur næst Þór, Váli, sonur Óðins og Rindar, og Ullur, sonur Sifjar og stjúpsonur Þórs. Hann er veiðiguð og bogmaður svo góður og skíðfær, að enginn má keppa við hann.[6]) Flestir þeir Æsir, er nú voru taldir, eru að eins nefndir í norrænum ritum og er líklegt að sumir þeirra, svo sem Bragi, Váli og Víðarr, sjeu að eins norskir og íslenskir guðir. Sumir ætla að Bragi sje jafnvel Bragi hinn gamli Boddason, skáldið, og hafi hann eptir dauða sinn orðið guð í hugmyndum manna.

---

[1]) Sn.-e. 23/29, 34/35, sbr. Lokasennu, Þrymskviðu, Hyndluljóð. [2]) Hkr. I. 4/13, 10/24. [3]) Grím. 12/78; Sn.-e. 21/27. [4]) Grím. 15/78; Sn.-e. 31/31. [5]) Sn.-e. 25/30, sbr. Grím. 44/85 og Lokasennu. [6]) Sn.-e. 27–30/31; Vafþr. 51/73; Grím. 17/79.

Þá má nefna hjer Loka Laufeyjarson, því að hann var með Ásum og er talinn með þeim. Hann var sonur Fárbauta (þ. e. sá er slær eða veldur fári) jötuns, en er venjulega kendur við móður sína og kallaður Laufeyjarson. Hann er af jötnaætt í báðar ættir. Hann er fríður sýnum, illur í skaplyndi, en óvenjulega slægvitur og mjög fjölbreytinn að háttum. Hann tekur nákvæmlega eptir öllu og er óvenjulega glöggur að sjá höggstað á mönnum. Svo illa er hann þokkaður að sumir kalla hann „rógbera Ásanna“, „frumkveða flærðanna ok vamm allra goða ok manna“. Hann kom Ásum jafnan í vandræði, en þeir þoldu hann lengi, bæði af því að Óðinn hafði í fyrndinni veitt honum viðtöku og gengið í fóstbræðralag við hann,[1]) og af því að Æsir þóttust eigi mega vera án hans, því að hann leysti þá opt aptur úr vandræðunum með vjelráðum sínum.[2]) Loki var orðhákur svo mikill að enginn af goðunum mátti við honum í veislunni hjá Ægi, þá er sló í deilu með þeim.

Kona Loka heitir Sigyn og sonur Nari, en með gýgi einni í Jötunheimum, sem Angurboða hjet, átti Loki þrjú börn, Fenrisúlfinn, Jörmungand eða Miðgarðsorminn og Hel. Goðin vissu af spádómum, að þeim mundi standa mikið óhapp af systkinum þessum, og því kastaði Óðinn orminum í úthafið, og óx hann þar svo, að hann liggur í miðju hafinu um lönd öll og bítur í sporð sjer. Hel kastaði Óðinn eptir því, sem Snorri segir, í Niflheim, og gaf henni vald yfir níu heimum. Úlfinn fæddu Æsir upp heima. En hann óx mikið hvern dag, og varð svo ægilegur að Týr einn hafði djarfleik að ganga til, að gefa honum mat; allar spár sögðu einnig að hann mundi verða goðunum til skaða, og fyrir því rjeðu þau af að binda hann. Úlfurinn braut af sjer tvo fyrstu fjötrana, Læðing og Dróma, en hinn þriðji hjelt. Hann hjet Gleipnir og var dvergasmíði. Hann var gerður af dyn kattarins, skeggi konunnar, rótum bjargsins, sinum bjarnarins, anda fisksins og fugls hráka. Fjöturinn var sljettur og mjúkur sem silkiræma, og vildi úlfurinn eigi

[1]) Lokas. 9, 11.5. [2]) Sn.-e. 32 31—2.

láta leggja hann á sig, fyr en Týr lagði hægri hönd sína í munn hans að veði um að þetta væri falslaust. En því meir sem úlfurinn spyrndi við og braust um, því harðara og skarpara var bandið. Þá hlógu allir Æsir nema Týr: hann ljet hönd sína.[1])

Ásynjur telur Snorri eigi færri en Æsi, og er Frigg, sem var elst þeirra og æst, þegar nefnd; einnig Freyja og Iðunn. Frigg var í fyrstu kona Týs og hefur farið líkt um hana og Tý, að af henni myndast í hugum manna nokkrar gyðjur. Sumar Ásynjur eiga uppruna sinn að rekja til hennar og þar á meðal þær, sem taldar eru í þjónustu hennar, Fulla, Gná og Hlín. Fulla fer laushár með gullband um höfuðið, og bendir það á bjarta himingyðju. Hún ber eski Friggjar,[2]) gætir skóklæða hennar og veit launráð með henni. Gná reið lopt og lög Hófvarpni hesti sínum, þá er Frigg sendi hana með erindi sín út um heima, en Hlín er verndargyðja þeirra manna, er Frigg vill forða frá háska. Þá er Eir læknisgyðja, Sjöfn, ástagyðja, er snýr hugum karla og kvenna til ásta, Lofn, hin milda árnaðargyðja, er fær leyfi af Alföður eða Frigg til þess að konur og karlar megi giptast þrátt fyrir allar hindranir, Vár, trygðagyðja, sem hlýðir á eiða og einkamál kvenna og karla, Vör,[3]) viskugyðja, vitur og spurul, svo að hún veit alt, Syn (synjunargyðja), varnargyðja á heimilum og þingum, Snotra, viskugyðja og snyrti eða háttprýðisgyðja, Gefjun, mær, er framliðnar meyjar þjóna, og er hún eins og æskugyðjan Iðunn norsk-íslensk.[4])

[1]) Sn.-e. 33,32—35. [2]) Eskimær Friggjar, Grím., innganginn, bls. 76. [3]) Um Vár og Vör, sbr. Finn Jónsson, í Årböger f. nord. Oldkyndighed 1898, bls. 352—53 [4]) Lokasenna; Sn.-e. 34/35—36. Gefjun meyjagyðja er önnur kona en Gefjun sú, er plægði Sjáland frá Gylfa. Hún var farandi kona og átti börn með jötni nokkrum í Jötunheimum. Einhver afritari mun hafa ætlað að hún væri sama konan sem meyjagyðjan, nafna hennar, og því bætt við að hún væri „af ása-ætt", en eigi getur Snorri þess í Ynglinga sögu. Sn.-e. 1/181; Hkr. I, 5/15—16.

## Trú á sálnaverur og vættir.

Forfeður vorir trúðu á margt fleira en Æsi og Vani. Þeir hugðu að til væru ýmsar verur í ýmsum myndum, manna eða dýra, í einhverjum líkamsmyndum, sem þeir þektu eða höfðu heyrt getið um, því að í þá daga gátu menn enn síður en nú hugsað sjer líf án líkama. Sumar þeirra hugðu þeir vera margfalt stærri en menska menn, en sumar miklu minni. Sumar þeirra hugðu þeir vera skylda goðunum og mjög máttugar, en sumar voru í þjónustu goðanna og að flestu líkar menskum mönnum. Aðrar voru ólíkar goðum og mönnum og svarnir óvinir guða og manna.

Umheimurinn og hið daglega líf hefur aðallega áhrif á hugarfar manna.

Í umheiminum hafa menn þegar á bernskuskeiði mannkynsins orðið varir við ýms náttúruöfl, sem enginn ræður við nje skilur. Menn reyna að skýra þau fyrir sjer með því að hugsa, að æðri verur búi í náttúrunni og valdi náttúruviðburðunum. Svo taka menn að trúa því að öll náttúran sje full af lifandi verum. Trúin á vættir (náttúruvættir) sprettur aðallega upp af þessu.

Í daglegu lífi kynnast menn dauðanum. Hann kemur á hvert heimili, undantekningarlaust til allra manna. Þannig hefur það gengið frá alda öðli. En tæplega mun nokkur sú þjóð vera til, sem trúir því að sálin slokkni, þótt líkaminn deyi. Þær trúa á ódauðleika sálarinnar. Þessi trú hefur í fyrstu myndast af því að þeir, sem eptir lifa, finna að hinn dauði líkami hefur mist eitthvað, sem er enn í sjálfum þeim, og þeir þykjast verða varir við þetta í náttúrunni í kring um sig, þá er loptið andar, bærist eða hreyfist, rjett eins og menn gera á meðan þeir lifa. Þeir setja andvara loptsins í samband við anda eða önd, og ímynda sjer að andi mannsins yfirgefi að eins líkamann, þá er hann deyr, og fari út í loptið. Þannig myndast sú trú, að loptið sje fult af öndum, dauðra

manna sálum, sálnatrúin. Menn ímynda sjer einnig að sálin geti tekið á sig mannsmynd, verið sýnileg eða ósýnileg eptir atvikum, og að hún geti yfirgefið líkamann í lifanda lífi, á meðan maður sefur, og hvarflað um víða eða farið í ýmsa hami, en líkaminn liggi þá sem dauður eptir.[1]) Þetta þóttust menn sjá af draumum, sem opt er getið um í Íslendinga sögum. Þá er menn dreymdu varga eða griðunga, refi eða fugla, þóttust menn sjá þar sálir manna eða hugi vina sinna eða óvina, mannahugi, í ýmsum dýralíkjum.

Trú á sálnaverur og náttúruvættir hefur verið til frá aldaöðli; sömuleiðis trúin á sólarguð, ljósguð eða himinguð. Þess konar trú er eldri en trúin á marga máttuga guði, er heyja dóma yfir mönnum og stjórna öllu. Sú trú myndast að eins hjá þeim þjóðum, sem hafa náð töluverðum andlegum þroska.

Hvergi kemur sálnatrú forfeðra vorra ljósar fram en í trú þeirra á fylgjur. Sú trú er einkennileg fyrir Norðmenn og Íslendinga. Þeir trúðu því að sálin væri fylgja manns á lífsleiðinni, frá vöggunni til grafarinnar, og með því að hún gat yfirgefið líkamann og farið í nýjan ham, var hún einnig nefnd hamingja. Gagnstæðið á milli sálar og líkama var svo ríkt í huga þeirra, að þeir hugðu að sálin gæti skilið við líkamann og fylgt honum sjálfstæð, eða jafnvel farið sinna ferða. Upphaflega er fylgja sama sem hugur: mannahugir, sem getið er um í sögunum, eru fylgjur.[2]) Þær birtust mönnum í draumi[3]) og stundum í vöku,[4]) í sinni eigin mynd eða í dýralíkum, og voru dýrin eptir skaplyndi manna, eins og fylgjan sjálf. Höfðingjar og merkismenn eða hreystimenn áttu „rammar“ fylgjur: þeim fylgdu birnir, griðungar eða uxar, ernir eða úlfar, ef um dýrshami er að ræða. Slægum mönnum og brögðóttum fylgdu refir. Fylgjurnar fóru á undan mönnum; einstaka menn, sem voru

---

[1]) Vatn. 12/22; Hkr. I. 7/18. [2]) Háv. (Ísf.) 20/46; Þórð. 38; sbr. „svá segir mér hugr um“ Fló. 8/126 og „ekki vel segir mér hugr um“ Harð. 5/13, 8/19, 11/33. [3]) Gísl. 14/32, 33/92—93; Vatn. 36/58, 42/67—68; Ljós. 21/198; Vápn.[2] 13/53—4; Dropl.[2] 10/160; Nj. 23/93, 62/283—85. [4]) Lax. 67/247.

skygnir eða ófreskir, sáu þær.[1]) Fylgjan var verndarandi þess manns, er átti hana, og hún var óvinveitt óvinum hans.[2]) Trúin á fylgjurnar sem verndaranda varð með tímanum svo rík, að menn ætluðu að eigandi fylgjunnar gæti ljeð hana öðrum. Ríkir menn og hamingjusamir eða giptudrjúgir gerðu það stundum. Ólafur Tryggvason „lagði til giptu“ sína við Hallfreð vandræðaskáld, er hann sendi hann til Upplanda.[3]) Ólafur Haraldsson „lagði til“ með Hjalta Skeggjasyni „hamingju sína“, þá er hann fór með Birni stallara til Svíþjóðar.[4]) Við slík tækifæri er fylgja venjulega kölluð hamingja eða gipta, og hugsuðu menn sjer hana þá sem konu, er verndaði mann, enda er fylgja stundum nefnd fylgjukona.[5]) En það var eigi nóg með það, að hún verndaði einn einstakan mann, heldur gerðist hún ættarfylgja, og verndaði mann fram af manni í sömu ættinni.[6]) Hún var þá orðin alveg sjálfstæð sálarvera, sem lifir kynslóðir og flytur frá einum til annars. Þá er eigandi hennar deyr, velur hún sjer bústað hjá öðrum í ættinni, enda þótt í annað land sje að fara. Hamingja Vigfús hersis fór frá Noregi og tók sjer bústað hjá Víga-Glúmi Eyjólfssyni dóttursyni hans.[7]) Hallfreður vandræðaskáld vildi eigi í banalegu sinni á skipi sínu hafa fylgju sína með sjer inn í annað líf og sagði í sundur öllu við hana. Þorvaldur bróðir hans vildi eigi taka við henni, en Hallfreður ungi sonur hans tók við henni og var hún því kyr í ættinni.[8]) Þá er kristnin var boðuð á Íslandi, kom sú skoðun í ljós, að menn gætu skipt um fylgjur, er menn tóku nýja trú. Hallur af Síðu ljet Þangbrand skíra sig með því skilyrði, að erkiengillinn Mikael væri framvegis fylgjuengill hans.[9])

Skyldar fylgjunum voru dísirnar,[10]) spádísir, eða draumkonur.[11]) Þær voru eiginlega sem frjálsar fylgjur

---

[1]) Nj. 41,173; Ldn. 5 289; Fms. III. 5 113–14; sbr. tilvitnanir í 3. aths. á undanfarandi bls. [2]) Ljós. 30 244; Fms. II. 195; (= Flat. I. 335 420). [3]) Hallfr. 6,97. [4]) Hkr. II. 69 106—7. [5]) Vatn. 24 39, 26 43; Nj. 58 263; Lax. 67 247; Hallfr. 11/114. [6]) Vatn. 36 58; Fms. II. 195; Dr. Þorst. Síð. 233–35. [7]) Glúm. 9 26—27. [8]) Hallfr. 11,114. [9]) Nj. 100 530. [10]) Nj. 96,494. Fms. II. 215 192—197, Glúm. 6/16. [11]) Gísl. 21 56, 23 61—62, 29/79, 32/86—33/93; Dr. Þorst. Síð. 233—235.

og eigi bundnar við vissa menn; þó er getið um þær í sögunum sem ættarfylgjur. Þær hjálpa mönnum, og líkjast þá nornum eða valkyrjum, enda eru þær stundum nefndar dísir, svo sem í Krákumálum, er þær bjóða Ragnari loðbrók til Valhallar.

Nornirnar voru hinar máttugustu og merkustu sálnaverur, sem getið er um í goðafræði vorri, því að þær rjeðu forlögunum og sköpuðu mönnum aldur og mátti enginn hindra það.[1]) Forlaga- eða örlaganornirnar þrjár Urður, Verðandi og Skuld hafa verið nefndar áður. Nöfn þeirra eru eigi mjög gömul. Þær eru fyrst nefndar í Völuspá, í vísu einni, sem mun vera skotið inn í hana.[2]) Urður er elst þeirra og þýðir það nafn í upphafi forlög, örlög, sköp, og nær hún því yfir alt hugtakið örlaganorn.

Sambandið milli nornanna og guðanna er eigi fyllilega ljóst, en þó virðast guðirnir hafa orðið að lúta skapadómi þeirra. Þær voru óháðar guðunum og áttu störfum að gegna bæði með guðum og mönnum. Meðal guðanna voru þær viðhaldandi afl. Þær tóku hvern dag vatn úr Urðarbrunni og með aur þann, er liggur um brunninn, og jusu yfir askinn, hið mikla heimstrje, sem kent er við Yggdrasil, til þess að limar hans skyldu eigi „trjena eða fúna“; en í mannheimi komu þær til hvers barns, er fæddist, og sköpuðu aldur þess.[3]) En af því að ójafnt þótti skipt milli manna og sumir fengu gott líf og ríkulegt, en sumir þvert á móti, skiptu menn nornunum í góðar nornir og illar. Hinar góðu nornir eru vel ættaðar og skapa góðan aldur, en illar nornir valda ósköpum þeim, er menn verða fyrir. Kemur það stundum fyrir að menn kvarta undan því að nornirnar sjeu grimmar og illar.[4]) Í nánu sambandi við þetta hefur myndast sögnin um uppruna nornanna. Sumar

---

[1]) Urðar orði kveðr engi maðr. Fjölsvm. 47/351. [2]) Finnur Jónsson. Litteraturhist. I. 135—36. sbr. einnig S. Bugge. Sæmundar-edda bls. 33—41. [3]) Sbr. H. Hund. I. 2—3/179. [4]) Eg. 24,73 (Kveldúlfr: „norn erom grimm“); Sigkv. sk. 7,248. Aptur á móti segir Einar Orkneyjajarl að nornir skiptu rjett milli sín og Hálfdanar háleggs, þá er hann fjekk hefnt sín á honum og drepið hann. Hkr. I, 30/142.

þeirra voru af ásaætt, sumar af álfaætt, sumar af dvergaætt eins og segir í Fáfnismálum:

Sundrbornar mjök
hygg ek at nornir sé,
eigut þær ætt saman;
sumar eru áskungar
sumar álfkungar
sumar dœtr Dvalins.[1])

Forlagatrúin var mjög sterk á söguöldinni, og kemur það jafnan í ljós í sögunum, að alt sje áður ákveðið og að „eigi megi við sköpum sporna", eins og haft er eptir Ingimundi gamla Þorsteinssyni.[2])

Menn hugsuðu sjer nornirnar sem meyjar, og sama er að segja um valkyrjurnar. Þær eru fríðar sýnum, ungar og fagrar, búnar brynju, með hjálm á höfði, skjöld á hlið og leiptrandi spjót í hendi. Eðli þeirra er bæði guðdómlegt og mannlegt, því að sumar þeirra giptast menskum mönnum, frægum hetjum, og eiga börn með þeim (Sváfa Eylimadóttir í Helgakviðu Hjörvarðssonar, Sigrún Högnadóttir í Helgakviðum Hundingsbana (Völsungakviðum), Sigurdrífa í Sigurdrífumálum). Sumar þeirra eru konungadætur. Annars eru valkyrjurnar í þjónustu Óðins og eru því nefndar Óðins meyjar. Hann sendir þær til orustu hverrar að kjósa feigð á menn og ráða sigri. Þær ríða þá lopt og lög, og er yngsta örlaganornin í broddi fylkingar, því að nornirnar ráða forlögum í orustum sem endrarnær, en Skuld er valkyrja. Í Valhöll ganga valkyrjur fyrir beina og bera Einherjum öl.[3])

Vættir eru álfar, dvergar og jötnar, og landvættir

Álfarnir bygðu einn stað á himnum, sem Álfheimur heitir. Þeir voru svo fríðir sýnum, að þeir þóttu fegri en sól, og voru því nefndir Ljósálfar. Í Eddukvæðunum er opt getið um álfa ásamt Ásum.[4]) Þeir voru í veislu

[1]) Fáfn. 13/221; Vsp. 19—20/4; Sn.-e. 14/21—22, 15/23. [2]) Vatn. 15/26, sbr. „eigi má sköpunum renna" Harð. 35/106. [3]) Grím. 36/83; Sn.-e. 35/36—37. [4]) Vsp. 48/8; Skírn. 7/91; Grím. 4/77; Háv. 160/63; Alv. 10/130 og optar.

Ægis.[1]) Þeir voru æðri og máttugri en menn, þótt þeir væru eigi svo máttugir sem Æsir og lytu þeim. Er sagt að guðirnir hafi í upphafi gefið Frey Álfheim að tannfje.[2]) Ljósálfunum var vel til guða og manna, en Snorri Sturluson getur um aðra álfa, sem búa niðri í jörðunni og heita Dökkálfar. Þeir eru svartari en bik og enn ólíkari Ljósálfum í reynd en sjón.[3])

Dvergar bjuggu í steinum og í moldu. Þeir voru litlir vexti og ljótir, en vitrir og völundar mestu. Þeir voru að sögn Völuspár skapaðir úr blóði og beinum Ymis, en að sögn Snorra höfðu þeir kviknað í holdi hans, eða í moldunni og niðri í jörðunni, svo sem maðkar í holdi. Þeir voru þá maðkar, en af atkvæði guðanna fengu þeir mannvit og mannslíki. Þá er þess er gætt, að jörðin var sköpuð af líkama Ymis, má heita að sögnum þessum beri saman um uppruna dverganna.[4])

Jörðina hugsuðu menn sjer kringlótta og að mestu leyti flata; fyrir því kallar Snorri Sturluson hana „kringlu heimsins“. Utan um hana var útsærinn og var ófært að komast yfir hann. Himninum var hvolft yfir jörðina og var hann með fjórum skautum. Undir þeim stóðu dvergarnir Austri og Vestri, Norðri og Suðri, sinn undir hverju horni og hjeldu himninum uppi. Yst á jörðunni, á ströndunum við úthafið voru Jötunheimar.[5]) Þar bygðu jötnar, bergrisar og hrímþursar. Þeir voru voðalega stórir og sterkir, og því engum menskum mönnum líkir að afli og vexti. Þeir táknuðu hin æðisgengnu öfl og veldi náttúrunnar, að sínu leyti eins og álfarnir og dvergarnir merktu hið yndislega, milda og snildarlega í ríki náttúrunnar. Allar jötnaættir áttu uppruna sinn að telja til Ymis jötuns, en er Borssynir, Óðinn og bræður hans, drápu hann og sköpuðu jörðina og heiminn úr honum, druknuðu allir hrímþursar í blóði hans, nema Bergelmir einn og kona hans; eru síðan allar jötnaættir komnar frá þeim.[6])

---

[1]) Lokas., upph. bls. 113, 2/114. [2]) Grím. 5/77. [3]) Sn.-e. 16/23. [4]) Vsp- 9—16/2—3; Sn.-e. 13/19—20. [5]) Vafþr. 20—21/67—68; Grím. 40—41/84—85; Vsp. 5/1—2; Sn.-e. 7/14—15. [6]) Vafþr. 35/70; Sn.-e. 6/14.

Jötnar og þursar voru illir,[1] og hinir verstu óvinir guða og manna. Þeir voru stórskornir, og hræðilegir ásýndar, líkt og hin hrikalega náttúra, sjávarhamrar, hamrabjörg og háfjöllin, sem þeir bygðu. Að sama skapi voru konur þeirra, og voru þær vanalega nefndar gýgjar; þó kom fyrir að konur af jötnaætt voru fagrar, svo sem Skaði Þjassadóttir og einkum Gerður Gymisdóttir, sem Freyr varð mest ástfanginn af.[2])

Jötnarnir unnu eigi mentun nje friðsamlegum störfum. Þeir voru opt fremur einfaldir, en stundum virðast þeir eigi hafa verið svo illir eins og segir í Snorra-eddu. Þeir þoldu venjulega eigi að sjá sólarljós og áttu að því leyti sammerkt við dvergana.

Landvættirnar ímynduðu menn sjer að byggju í hæðum og hólum, hömrum og fjöllum.[3]) Þær hjeldu verndarhendi yfir landi og landsmönnum.[4]) Upphaf Úlfljótslaga[5]) sýnir, hve mikið traust landsmenn báru til þeirra og hve alvarlega menn trúðu á þær. Fyrir því var harðlega bannað að fæla þær eða styggja.[6]) Einna ítarlegast er landvættum lýst í Heimskringlu, þá er skýrt er frá því að Haraldur konungur Gormsson ætlaði að fara herferð til Íslands og sendi þangað fjölkunnugan mann í hamförum til þess að njósna. Hann fór í hvalslíki. Þá er hann kom til landsins, fór hann norður fyrir landið að austanverðu. Hann sá að fjöll öll og hólar voru fullir af landvættum, sumt stórt, en sumt smátt. Þá er hann kom fyrir Vopnafjörð, fór hann inn á fjörðinn og ætlaði á land að ganga. En þá fór ofan úr dalnum dreki mikill og fylgdu honum margir ormar, pöddur og eðlur, og bljesu eitri á hann. Hann lagðist þá í brott og vestur með norðurlandi fyrir Eyjafjörð. Hann fór inn eptir firðinum, en þar kom á móti honum fugl svo mikill, að vængirnir

---

1) Sn.-e. 4/13. 2) Sbr. Skírnismál; Sn.-e. 36/37—38. 3) Fms. II, 215/197; Hkr. I, 33/316. 4) Ldn. 12/271. 5) Ldn. 7/258; Sjá hjer að framan, bls. 22. 6) Sama hugsunin kemur í ljós hjá Þórólfi Mostrarskegg og Þorsteini þorskabít, er þeir bönnuðu mönnum að ganga til álfreka á Þórsnesi. Eyrb. 4/7, 9/10. Álfrek er það, sem rekur álfa í burtu. Menn hugðu að þeir mundu fælast óhreinindi.

tóku út fjöllin beggja vegna, og fjöldi annara fugla bæði stórir og smáir. Hann fór braut þaðan og vestur um landið og svo suður á Breiðafjörð, og stefndi þar inn á fjörð. Þar fór móti honum griðungur mikill og óð á sæinn út og tók að gella ógurlega; fjöldi landvætta fylgdi honum. Hann fór brott þaðan og suður um Reykjanes og vildi ganga upp á Víkarskeiði. Þar kom á móti honum bergrisi og hafði járnstaf í hendi, og bar höfuðið hærra en fjöllin, og margir aðrir jötnar með honum. Þaðan fór hann austur með endilöngu landi; var þar ekki nema sandar og öræfi og brim mikið fyrir utan. Í sambandi við þetta getur Snorri Sturluson þess, að Brodd-Helgi hafi þá verið í Vopnafirði, Eyjólfur Valgerðarson í Eyjafirði, Þórður gellir í Breiðafirði og Þóroddur goði í Ölfusi.[1]) Er eins og hann hafi viljað benda á, að fylgjur þeirra hafi verið fremstar í hverjum flokki.

Menn óttuðust landvættirnar og þorðu eigi að breyta á móti vilja þeirra. Af því að svo illa og slysalega tókst til, að Hjörleifur Hróðmarsson var drepinn af þrælum, hugðu menn að landvættirnar ættu óbeinlínis þátt í því, með því að þær hefðu eigi haldið verndarhendi yfir honum; menn ætluðu því að þær mundu eigi vilja að bygt væri við Hjörleifshöfða: fyrir því þorði enginn að nema þar land fyr en seint og síðar meir.[2]) Ef menn vildu að einhverjum gengi illa og að hann yrði landflótta, var fátt öruggara til þess en að æsa eða særa landvættirnar á móti honum. Fyrir því sneri Egill Skallagrímsson níðstöng þeirri, er hann setti Eiríki konungi og Gunnhildi drotningu, einnig á hendur landvættunum. Hann sneri hrosshöfðinu inn á land og mælti „sný ek þessu níði á landvættir þær, er land þetta byggja, svá at allar fari þær villar vega, engi hendi né hitti sitt inni, fyr en þær reka Eirík konung ok Gunnhildi ór landi".[3])

Landvættir þær, sem bjuggu í fjöllum, hugsuðu menn sjer venjulega vera risa; voru sumir þeirra nafnkunnir og

[1]) Hkr. I. 33 316—318 (Fris 37/117—118): Knytl. Fms. XI, 181 —183. [2]) Ldn. 13/272. [3]) Eg. 57/208.

áttu nöfn, svo sem Bárður Snæfellsáss[1]) og Svínfellsáss.[2])

Í sænum og vötnum hugsuðu menn sjer einnig margar vættir. Merkastur þeirra var Ægir. Hann var sjávarguð, af jötnakyni. Snorri kallar hann að vísu „mann" og segir að hann hafi einnig heitið Hljer og búið í Hljesey, og verið fjölkunnugur mjög. Hann var í vinfengi við Æsi, þá heimboð af þeim og bauð þeim til sín. Í veislu einni hjá Ægi jós Loki illyrðum og brígslyrðum yfir Æsi og Ásynjur, og hætti fyrst, þá er Þór kom og hótaði honum dauða. Frá þessu segir í Lokasennu. Kona Ægis hjet Rán. Hún átti net, sem hún veiddi í þá menn, sem á sæ komu. Allir, sem druknuðu, fóru til hennar. Ægir og Rán áttu níu dætur og eru sjávaröldurnar nefndar eptir þeim Ægisdætur eða Ránardætur.[3])

---

## Goðalífið og dauði Baldurs.

Í fyrndinni höfðu Æsir verið glaðir og átt góða daga. Það var á hinni svo nefndu gullöld, sem lýst er í Völuspá þannig:

Hittusk æsir
á Iðavelli,
þeir er hörg ok hof
hátimbruðu,
afla lögðu,
auð smíðuðu
tangir skópu
ok tól görðu.
Tefldu í túni,
teitir váru
var þeim vettergis
vant ór gulli.[4])

---

[1]) Bárðar s. 6 12 [2]) Nj. 123,640. [3]) Sn.-e. 1/68. 23 92. 31 96–97. 58/135. [4]) Vsp. 7–8/2.

En nú var sá tími liðinn fyrir langa löngu. Friðurinn stóð eigi lengi, og Æsir umgirtu Miðgarð, bústað guða og manna, snemma á öldum fyrir ófriði jötna.[1]) Líf guðanna varð skjótt róstusamt. Þeir áttu í einlægri baráttu við jötna, en gátu þó aldrei sigrað þá, svo að engin hætta stæði af þeim framar. Eigi var það heldur betra að guðirnir sjálfir áttu stundum í innbyrðis deilum, þótt Loki, sem flestu illu hefur komið til vegar með Ásum, væri annars vegar.[2])

Ógæfan var að Æsir voru engir fullkomnir guðir. Mannlegur andi þráir fullkomnar fyrirmyndir, guði, til þess að lypta huganum upp til og leita trausts hjá. Fyrir því höfðu menn búið sjer til guði þessa, en það hafði eigi tekist að gera þá fullkomna. Þeir voru ófullkomnir eins og önnur mannaverk. Menn hugsuðu sjer þá í mannsmynd, en margfalt fullkomnari og máttugri en menn. Þó höfðu þeir mannlega eiginleika, ástríður og breyskleika. Þeir borða og drekka, sofa og þá dreymir, þeir giptast og geta börn, vopnast og berjast, láta líf og limi eins og menskir menn. Þeir verða fyrir óhöppum. Það er leikið svo á Þór, að Þrymur jötunn getur náð hamri hans og falið hann fyrir honum, svo að hann verður að vera hamarslaus þangað til að hann getur náð honum aptur með brögðum.[3]) Freyr setst í hið helga hásæti Óðins og hefnist svo fyrir mikillæti sitt, að hann verður að láta sverð sitt til þess að eignast Gerði Gymisdóttur, sem hann varð þá ástfanginn af. Eptir það er hann aldrei jafnvel búinn að vopnum sem áður.[4]) Á þennan hátt veikist vald guðanna; en eigi nóg með það; þeir verða sjálfir óforsjálir og hrokafullir. Þeir þykjast hafa trygt alt og hafa alt í hendi sjer. Fyrir því skemta þeir sjer með því að skjóta á Baldur og — missa hann.

Guðirnir vissu það sjálfir að vald þeirra var takmarkað, að þeir voru ófullkomnir og áttu að berjast við ýmsar freistingar. Þeir vissu það einnig að á þessu mundi verða breyting. Einhvern tíma hlaut sá tími að koma, þá er guðirnir

---

[1]) Sn.-e. 7/15. [2]) Sn.-e. 8 83. 33/97. [3]) Sbr. Þrymskviðu. [4]) Skírnismál; Sn.-e. 36/37—38.

hlutu annaðhvort að fara halloka í heimsbaráttunni eða að verða fullkomnari og losna við veikleika sína. Þessi tími tók að nálgast, þá er hugkvæmd manna hafði íklætt hina góðu eiginleika guðanna mannsgervi, þar sem Baldur var, og Loki, illskan og slægðin sjálf, þurfti að eins að drepa þennan guð til þess að leiða glötun yfir guði og menn, eins og hann stundaði eptir.

Allir guðirnir vissu að þeim var vernd og traust að Baldri, en engum var það eins ljóst og Óðni. Á meðan Baldur lifði var öllu óhætt, því að hann var guð friðar og líknar. En eitt sinn dreymdi hinn góða guð drauma mikla um að líf hans væri í hættu. Þá reið Óðinn Sleipni til Niflhels og vakti upp völvu. Hann spurði hvers vegna búist væri til veislu hjá Hel. Völvan staðfesti grun hans og kvað búist við Baldri: Höður mundi verða honum að bana.[1]) Frigg tók þá svardaga til þess, að eira skyldu Baldri eldur og vatn, málmar og steinar, jörð og viðir, dýr og ormar, eitur og sóttir. Einungis viðarteinungur einn, sem kallaður er mistilteinn, var eptir. Frigg þótti hann of ungur að krefja hann eiðsins. En þó

Varð af þeim meiði,
er mær sýndisk,
harmflaug hættlig,
Höðr nam skjóta.
En Frigg um grét
í Fensölum
vá Valhallar.
Vituð ér enn eða hvat?[2])

Loki komst að þessu, og er Æsir skemtu sjer að því á þingi að skjóta á Baldur, fjekk hann Heði mistiltein og bað hann skjóta og sýna Baldri þá sæmd sem aðrir. Höður var blindur og tók því við mistilteininum og skaut að tilvísun Loka. Teinninn flaug í gegnum Baldur og fjell hann dauður til jarðar. En Æsir máttu engu orði upp koma fyrir harmi.

---

[1]) Sbr. Vegtamskviðu eða Baldurs drauma. [2]) Vsp. 32–33 6.

og Óðinn bar sig verst, því að hann vissi best, hversu mikill skaði Ásum var í fráfalli Baldurs.[1]) En nú var eigi hægt að bæta úr því, sem orðið var, og Baldur varð að fara til Heljar.

Frigg sendi samt Hermóð hinn hvata til Heljar, að bjóða henni útlausn, ef hún vill láta Baldur fara heim í Ásgarð. Hermóður bar þá bæn upp við Hel, og sagði hversu mikill grátur var með Ásum. Hún leyfði að Baldur skyldi fara aptur til Ása, ef hann væri svo ástsæll, að allir hlutir í heiminum, kvikir og dauðir, grjetu hann, en vera hjá sjer, ef nokkur mælti í móti eða vildi eigi gráta. Æsir sendu þá um allan heim erindreka að biðja, að Baldur væri grátinn úr Helju, og gerðu það allir, bæði menn og dýr, steinar og málmar, jörðin og trje. En er sendimenn fóru heim aptur og höfðu rekið vel erindi sín, finna þeir gýgi í helli nokkrum. Hún nefndist Þökk. Þeir biðja hana að gráta Baldur úr helju, en hún svarar:

Þökk mun gráta
þurrum tárum
Baldrs bálfarar;
kyks né dauðs
nautkak Karls sonar —
haldi Hel því er hefr.

[1]) Frá þessu er sagt öðru vísi í Danasögu Saxa, en aðalefnið er hið sama. Baldur er sonur Óðins og Friggjar, en Höður eða Hotherus, eins og Saxi nefnir hann, er Höðbroddsson, konungur og íþróttamaður mikill. Þeir Baldur deila um Nönnu dóttur Gevars konungs, sem Hother ann og giptist. Í íslenskum ritum er Nanna kölluð Nepsdóttir og hún er kona Baldurs. Hother fær biturt sverð hjá Miming trölli og að lokum særir hann Baldur til dauða. Bróðir Baldurs, sem í Eddunum er nefndur Váli, en Saxi kallar Bous, hefnir hans. Saxo Grammaticus, Historia Danica, liber III, Müllers útg. I, bls. 111 o. ef. Viktor Rydberg ætlar að Húsdrápa Úlfs Uggasonar, sbr. Lax. 29/98—100, hafi valdið þeim misskilningi hjá Snorra Sturlusyni, að Höður hafi verið blindur; hann hafi einnig farið eptir henni í frásögn sinni um bálför Baldurs. Loki hafi leikið á Höð með því að setja í örvamæli hans ör úr mistilteininum, sem hann hafði látið gjöra og leit eins út og örvar hans. Undersökningar i germ. Mythologi II. 282—295; Fädernas gudasaga, bls. 84—91, 205—207.

Það var enginn annar en Loki í gýgjargervi, er þetta kvað og vildi eigi gráta Baldur úr helju, enda var þetta nóg til þess að guðirnir fengu hann eigi aptur.

Loki hafði nú fylt svo mæli illgjörða sinna, að hann gat eigi lengur með allri slægð sinni og vjelráðum komist undan refsingu. Í Ásgarði átti hann grið, en goðin voru orðin reið við hann og hann hljóp á braut og fal sig. Þau fundu hann og tóku griðalausan og fóru með hann í helli nokkurn og bundu. Þar liggur hann á þremur eggsteinum, en yfir höfði hans festi Skaði upp eiturorm og drýpur eitrið úr honum í andlit hans. Sigyn, hin trygga kona Loka, stendur því hjá honum og heldur mundlaugu undir eiturdropana. En þá er mundlaugin er full, hellir hún eitrinu úr henni; á meðan drýpur eitur í andlit Loka. Þá kippist hann svo hart við að jörð öll skelfur — það eru landskjálptar, — en þarna liggur hann í böndum til ragna raka.[1])

Goðasagnirnar um Baldur eru einna fegurstar af öllum norrænum goðasögum. Þær eru langfegurstar í þeim búningi, sem þær hafa varðveitst í á Íslandi. En vísindamenn greinir mjög á um uppruna þeirra, og eru þeir eigi enn komnir þar að neinni fastri niðurstöðu.[2])

---

## Upphaf heims og endalok, ragna rök.

Eptir þetta tók að líða að ragna rökum,[3]) æfilokum guðanna, hinum mikilfengasta viðburði, sem skýrt er frá í

---

[1]) Vsp. 31—35/6; Sn.-e. 48—49/56—62. [2]) Sophus Bugge hefur í „Studier over de nordiske Gude- og Heltesagns Oprindelse“ (Christjania 1881—1889) bls. 32—288, ritað aðallega á móti því, að Baldurssögurnar væru norrænar að uppruna. Hann ætlar að þær sjeu settar saman úr írskum helgisögum um Krist og misskildum grísk-rómverskum sögum. Margt mælir á móti skoðun hans, en goðfræðisþekking manna hefur orðið miklu víðtækari en áður við þær rannsóknir, sem Bugge og aðrir hafa gert út af þessu. [3]) Ragna rök er eiginlega fleirtöluorð (rök

norrænum goðasögum. Menn hugsuðu sjer eða trúðu að goðin, allir Einherjar, alt mannkynið, allar illar vættir, jörð og himinn mundu týnast, en ný jörð rísa upp úr hafinu, og guðir og menn endurfæðast betri og fullkomnari en áður. Ef til vill hvíldi þetta á þeirri hugsun, að til mundi vera enn máttugri guð, en hinir máttugu guðir, sem menn dýrkuðu.

Forfeður vorir höfðu opt hugsað um hinar eilífu og óleysanlegu spurningar, um upphaf als lífs, upphaf heimsins og endalok hans. Þeir ímynduðu sjer, eins og segir í Völuspá og Snorri Sturluson fór með hana, að

Ár vas alda
þat er ekki vas;
vasa sandr né sær
né svalar unnir;
jörð fannsk eigi
né upphiminn,
gap vas ginnunga,
en gras ekki.

Ekkert var til nema eintóm auðn, ginnungagap, en þó var, að því er Snorri Sturluson segir, heitur og ljós heimur í suðri, er Múspell heitir, og kaldur þokuheimur í norðri, er Niflheimur heitir. Af víxláhrifum hrímsins úr Niflheimi og hitans úr Múspellsheimi varð mannslíkami í Ginnungagapi. Það varð Ymir jötunn, hinn fyrsti ættfaðir jötna. En af hríminu varð einnig kýr sú, er Auðhumla hjet. Hún sleikti hrímsteina þá, er saltir voru, og kom úr steininum, sem hún sleikti, að kveldi hins fyrsta dags manns hár, annan dag manns höfuð og þriðja daginn allur maður. Hann var nefndur Búri og var hinn fyrsti ættfaðir guðanna. Sonur hans Borr kvongaðist Bestlu Bölþornsdóttur jötuns, og voru synir þeirra Óðinn, Vili og Vje. Þeir bræður, sem opt eru nefndir einu nafni Borssynir, drápu

---

af rak, sbr. að rekja), og merkir líf goðanna frá upphafi til enda, en var snemma haft að eins um dauða goðanna og endalykt heimsins; var orðinu þegar á þjóðveldistímanum blandað saman við alt annað orð: røkr, rökkur, og beygt sem það. Hjer er það eigi gert.

Ymi jötun og fluttu hann út í mitt Ginnungagap og gerðu af honum jörðina og himininn, alla náttúruna, eins og hjer segir:

Ór Ymis holdi
var jörð um sköpuð
en ór beinum björg,
himinn ór hausi
ins hrímkalda jötuns,
en ór sveita sjór.[1])

Síðan skópu þeir mennina. Af sköpuninni segir í Eddukvæðunum, einkum í Völuspá, Grímnismálum og Vafþrúðnismálum, en lengst og greinilegast í Gylfaginningu Snorra Sturlusonar; en ýmislegt er athugavert við frásögn hans, sem eigi er hægt að minnast hjer á.

Ragna raka er opt getið í hinum forna skáldskap. Kenningin um þau eða trúin á þau er komin inn í skáldskap manna, en einungis í einu kvæði, Völuspá, er samanfeld saga af þeim. Snorri Sturluson hefur aðallega farið eptir Völuspá, en þó skotið frásögn Vafþrúðnis inn í sögu sína og aukið ýmsu við. Hann segir að fyrst komi þrír fimbulvetur og ekkert sumar á milli; þá eru frost mikil og snær, vindar hvassir; þessa getur eigi beint í Völuspá heldur í Vafþrúðnismálum.[2]) Þar segir og að úlfur „fari“ sólina, það er nái henni eða taki hana; verður þá sólarlaust og leiðir eðlilega af því að ekki kemur sumar og vetrar verða þeim mun harðari. Þá deyja allir menn, nema Líf og Lífþrasir leynast í Hoddmímis holti: „morgindöggvar þau sér at mat hafa, en þaðan af aldir alask“. Af þeim fæðist ný kynslóð manna. En sólin hefur eignast dóttur eina, áður en hún var tekin, og hún fer nú braut móður sinnar, eins og hjer segir:

Eina dóttur
berr álfröðull
áðr hana fenrir fari:
sú skal ríða

[1]) Vafþr. 21/67—68. [2]) Vafþr. 44. 46—47, 72.

þá er regin deyja
móður brautir mær.

Á Vígríðsvelli berjast goðin og Surtur; Fenrisúlfurinn gleypir Óðinn, en Víðarr hefnir hans. Þórr fellur og Surtalogi eyðileggur bústað guðanna, en

Víðarr ok Váli
byggva vé goða,
þá er sloknar Surta logi;
Móði ok Magni
skulu Mjöllni hafa
Vingnis at vígþroti.

Og með þeim byrjar nýtt goðalíf.[1])

Í Völuspá getur völvan fyrst um nokkra fyrirburði og síðan hefst saga ragna raka með lýsingu af því, hve mikil siðspillingin sje orðin:

Brœðr munu berjask
ok at bönum verðask,
munu systrungar
sifjum spilla;
hart er í heimi,
hórdómr mikill,
skeggöld, skálmöld,
skildir 'ru klofnir,
vindöld, vargöld,
áðr veröld steypisk;
mun engi maðr
öðrum þyrma.

Heimdallur blæs í Gjallarhorn, er hann sjer hvað um er að vera, og Óðinn mælir við Mímishöfuð. Askur Yggdrasils, hið mikla trje í Miðgarði, sem dreifir limum sínum um heim allan, skelfur, „en jötunn (líklega Fenrisúlfurinn) losnar“. Alt kemst á flug og ferð. Uppþotið er byrjað. Jötnar fara

---

[1]) Vafþr. 18/67. 44—53/72—3.

svo geyst, að allur jötunheimur fyllist gný. Hrymur jötunn ekur að austan með jötnum, og Miðgarðsormur knýr öldurnar og fer í jötunmóði á land. Naglfar, hið mikla skip af mannanöglum, losnar. Skip fer að austan, Múspellslýðir [1]) koma um lög, en Loki stýrir: allir jötnar fara með Fenrisúlfi og Loki er í för með þeim. Og enn drífa fleiri að, því að

Surtr [2]) ferr sunnan
með sviga lævi,
skínn af sverði
sól valtíva.
Grjótbjörg gnata
en gífr rata,
troða halir helveg
en himinn klofnar.

Óðinn fer fram á móti Fenrisúlfinum, en Freyr á móti Surt og Þórr á móti Miðgarðsorminum. Óðinn fellur fyrir úlfinum, en Víðarr hefnir hans og leggur hann „hjör til hjarta“.[3]) Í Vafþrúðnismálum er sagt að hann kljúfi kjapt hans í sundur. Segir Snorri, að hann hafi stigið öðrum fæti í neðra kjapt úlfsins, og á þeim fæti hafi hann haft skó þann er gerður hafi verið úr bjórum þeim, er menn sníða úr skóm sínum fyrir tám og hæli; en annari hendi hafi hann tekið hinn efra kjapt úlfsins og rifið sundur gin hans; og það hafi orðið hans bani. Freyr fellur fyrir Surt, af því að hann hafði eigi hið góða sverð sitt, að sögn Snorra. Þórr drepur orminn, en gengur að eins níu fet áður en hann fellur dauður til jarðar. Eptir fall Þórs ferst himinn og jörð, og eimur og eldur geisar yfir.

Sól tér sortna,
sígr fold í mar,
hverfa af himni
heiðar stjörnur;

[1]) Um Múspellslýði og Naglfar. sbr. A. Olrik. Aarböger f. nord. Oldkh. 1902, bls. 221 o. ef. [2]) Um Surt sbr. A. Olrik, s. st., bls. 227—234, og B. S. Phillpotts, Surt i Arkiv f. nord. filologi, XXI, bls. 14—30.
[3]) Þetta er sagt í vísu, sem er talin innskotsvísa.

geisar eimi
ok aldrnari;
leikr hár hiti
við himin sjálfan.

En völvan sjer lengra fram og heldur áfram sögu sinni um endurkomu jarðarinnar.

Sér hon upp koma
öðru sinni
jörð ór ægi
iðjagræna;
falla forsar,
flýgr örn yfir,
sá er á fjalli
fiska veiðir.

Jörðinni skýtur upp úr sænum og Æsir finnast eins og í fyrndinni á Iðavelli,[1]) þó að líkindum einungis þeir, sem af komust. Þeir minnast þar á forna viðburði, og finna „undrsamligar gullnar töflur í grasi“, þær sem Æsir höfðu átt í árdaga.[2]) Akrar vaxa ósánir, alt böl batnar, og Baldur kemur aptur; þeir Höður búa í Valhöll. Þá spáir Hænir, sem hafði verið gefinn Vönum í gislingu, um framtíðina og niðjar Vilja og Vjea byggja jörðina. Alt er nú launað eptir dygð, eins og völvan segir:

Sal sér hon standa
sólu fegra,
gulli þakðan,
á Gimlé;
þar skulu dyggvar
dróttir byggja
ok um aldrdaga
yndis njóta.
Þá kemr inn ríki
at regindómi

---

[1]) Sbr. Vsp. 7/2. [2]) Sbr. Vsp. 8/2.

öflugr ofan,
sá er öllu ræðr.

Þannig segir í hinu fræga kvæði Völuspá frá síðustu örlögum guðanna og heimsins.[1]) Skáldið hefur eflaust fært efnið í þann búning, sem því hefur þótt best við eiga. Sumt af því, sem þar segir, hefur verið almenn trú manna, en skáldið á búninginn og ef til vill einhver einstök atriði í frásögninni.

---

## Annað líf og áhrif Ásatrúarinnar.

Lífi sálarinnar var eigi lokið með dauðanum, heldur hugðu menn í fyrndinni, að hún lifði eins og andleg vera („annað jeg mannsins“) í umheiminum. Sálin gat farið í ýmsa hami og gjört lifandi mönnum bæði gott og ilt. Flestar sálir hugðu menn að hefðust við í loptinu, en annars áttu þær bústaði í hólum og fjöllum eða neðan jarðar. Þá er tímar liðu fram, tóku menn að ímynda sjer að undirheimaguðir hefðu náð valdi yfir þeim, og þannig myndaðist smátt og smátt trúin um ríki dauðra manna í undirheimum og að undirheimaguð rjeði yfir því. Trúin á undirheima hafði breiðst út meðal Norðurlandabúa, áður en Ísland bygðist, en þó er það eptirtektavert um ýmsa landnámsmenn og Íslendinga á 10. öld, að þeir trúðu því að sálir þeirra mundu lifa í fjöllum og hólum eptir dauðann, og sýnir það að sú trú var hvergi nærri horfin enn. Þórólfur Mostrarskegg hafði mikinn átrúnað á Helgafelli, eins og nafnið bendir á, sem hann

---

[1]) Vsp. 45—66/8—11; sbr. um ragna rök einnig Vafþr. 18/67, 39/71, 44—53/72—73; Grím. 17/79, 23/80; Lokas. 39, 41—2/119; Vegt. 14/137—38; Fáfn. 14—15/221—22; Hyndl. 42—44/160—61 (= Vsp. in sk. 12—14); Fsk.[2] 7/29 (Eiríksmál); Hkr. I, 32/221 (Hákm. 20/221); Sonatorrek 24.—25. vísa; Sn.-e. 50—52/62—67. Sbr. Axel Olrik, Om ragnarok i Aarböger f. n. Oldkh. 1902.

gaf því Hann trúði því, að hann mundi fara þangað, þá er hann dæi, og allir frændur hans á Þórsnesi. Þess vegna skyldi enginn maður óþveginn líta þangað, og engu skyldi tortíma í fjallinu, hvorki fje nje mönnum, nema sjálft gengi í brott. Þorsteinn þorskabítur sonur hans hjelt uppi helgi fjallsins og trúði því einnig, að þeir frændur dæju í fjallið. Hann druknaði um hausttíma, og er sagt, að sauðamaður hans hafi sjeð Helgafell ljúkast upp að norðanverðu kveldið áður, en fregnin kom um fráfall hans. Sauðamaðurinn sá inn í fjallið elda stóra, og heyrði þar mikinn glaum og hornaskvol. Hann hlýddi, ef hann næmi nokkur orðaskil, og heyrði, að Þorsteini þorskabít var heilsað þar og förunautum hans, og mælt að hann skyldi sitja í öndvegi gegnt föður sínum.[1])

Niðjar Auðar djúpúðgu trúðu því, að þeir dæi í Krosshóla, þar sem hún hafði haft bænahald sitt.[2]) Selþórir og niðjar hans í heiðni dóu í Þórisbjörg.[3]) Kráku-Hreiðar vildi deyja í Mælifell.[4]) Þá er Svanur á Svanshóli í Bjarnarfirði druknaði, þóttust fiskimenn, er voru í Kaldbak, sjá Svan ganga inn í fjallið Kaldbakshorn og vera þar vel fagnað. Sumir mæltu í móti þessu og kváðu engu gegna, en það vissu allir, segir söguritarinn, að Svanur fanst hvorki lífs nje dauður.[5])

Að líkindum hafa Norðurlandabúar ímyndað sjer í fyrstu, eptir að þeir tóku að trúa á dauðra ríki, að til væru þrír heimar, goðheimur, mannheimur og undirheimur. Í Völuspá og fleiri kvæðum frá 10. öld er þó talað um níu heima.[6]) Í undirheimum hjeldu menn, að kvennleg vera, sem Hel heitir, rjeði ríkjum og væri drotning.

Hel er dauðagyðja og er það sama orð sem gotneska orðið *halja*, en það orð svarar til Hades (= undirheimur) hjá Grikkjum. Hel þýðir hin hyljandi, sú er hylur, og hel þýðir einnig bústaður hinna dauðu og dauði. Í upphafi munu líka allir dauðir menn hafa farið til Heljar, hvort

[1]) Eyrb. 4/6—7, 11/12—13; Ldn. 12/97. [2]) Ldn. 16/111. [3]) Ldn. 5/78. [4]) Ldn. 7/192. [5]) Nj. 14/65—66. [6]) Vsp. 2/1, sbr. Vafþr. 43/72.

sem þeir fjellu fyrir vopnum eða eigi. Í Vegtamskviðu eða Baldurs draumum, sem er jafngamalt landnámum á Íslandi og eitthvert hið allra elsta kvæði af Eddukvæðunum, er sagt frá ferð Óðins „niðr til Niflheljar“ um foldveg, uns hann kom að húsi Heljar, sem var hátt. Hann reið fyrir austan dyr, þar sem hann vissi af völuleiði. Hann vakti hana upp og spurði hana tíðinda „úr helju“ og bauð að segja henni tíðindi úr mannheimi í staðinn. Hann vill vita hvers vegna búist sje til veislu hjá Hel og baugum sje stráð á bekkina og fletin fagurlega lögð gulli. Hún svarar:

Hér stendr Baldri
of brugginn mjöðr,
skírar veigar,
liggr skjöldr yfir.

Það var Baldur, sem Hel átti von á.[1])

Þá er Baldur er fallinn, fer hann líka til Heljar ásamt Nönnu konu sinni, sem sprakk af harmi, og þar er honum skipað í öndvegi í höll hennar. Þar hittir Hermóður hann, er hann kom að biðja Hel um lausn Baldurs. Eigi er þess getið að þar sje vond vistarvera, heldur bendir alt á að þar sje bústaður dauðra manna yfirleitt og sumir menn hafi farið þangað í öllum herklæðum. Móðguðr mær, sem gætir brúarinnar á Gjöll, segir Hermóði að „fimm fylki dauðra manna“ hefðu riðið um brúna hinn fyrri dag; hafa menn skilið þetta svo sem hjer væri átt við fylkingar dáinna manna, það er að segja dauða hermenn eða vopnaða menn. Þau Baldur og Nanna sendu Óðni og Ásynjum gjafir með Hermóði, og bendir það á að menn hafi þá hugsað sjer lífið líkt hjá Hel og hjá höfðingjum.[2])

Þjóðólfur hinn hvinverski, er uppi var á landnámsöldinni, segir í Ynglingatali, að Eysteinn konungur Hálfdanarson hafi farið til Heljar. Á herferð einni í Víkinni varð hann fyrir beitiási og fjell útbyrðis, og varð það hans bani. Sömuleiðis segir Þjóðólfur um Hálfdan konung Eysteinsson,

---

[1]) Vegt. 6—7 135. [2]) Sn.-e. 48 58—59.

er var hermaður mikill og löngum í víkingu, að Hel hafi boðið honum til þings, er hann dó:

Ok til þings
þriðja jöfri,
hveðrungs mær
ór heimi bauð.[1]

Sýnir þetta að Þjóðólfur hefur skoðað ríki Heljar sem almennan bústað dauðra manna.

Um Brynhildi Buðladóttur, sem brend var um leið og Sigurður Fáfnisbani, er sagt að hún hafi ekið með reið sinni á helveg,[2] og bendir það á að skáldið hafi ætlað að hún eða þau Sigurður bæði hafi farið til Heljar.

Niflhel eða Niflheim með sölum Heljar hugsuðu menn sjer „fyr jörð neðan", eins og segir í Völuspá.[3] Óðinn ríður „niðr", er hann fer þangað og Hermóður hinn hvati reið helveg „níu nætur dökkva dala og djúpa" uns hann kom að Gjallarbrú, og þar sagði Móðguðr honum til vegar og kvað helveg liggja „niðr ok norðr".

Í Grímnismálum er þess getið í vísu einni, sem talin er innskotsvísa, að Hel hafi búið undir einni rót asks Yggdrasils, en hrímþursar undir annari, en menskir menn undir þriðju.[4]

Í hinum elstu Eddukvæðum er þess eigi getið, að hjá Hel sje einungis vistarstaður fyrir sóttdauða menn og ellidauða. Aptur á móti kveðst Vafþrúðnir, hinn alsvinni jötunn, hafa komið í níu heima „fyr Niflhel neðan", og „hinig deyja ór helju halir".[5] Það er eins og skáldið hafi hugsað sjer að menn dæju frá Hel í Niflhel. Níu heimar eru nefndir nokkrum sinnum í goðakvæðum og goðasögnum, og getur hugmyndin um svo marga heima verið ástæðan til þess að hinn alvitri jötunn segist hafa komið í jafn marga heima í undirheimum.

---

[1]) Hkr. I. 46—47/78—80. [2]) Helr. Br. bls. 260; sbr. einnig Fáfn. 10/221, Atlm. 55/300. [3]) Vsp. 43/7. [4]) Grím. 31/82; sbr. F. Jónsson, Litteraturhist. I, 142 o. ef. [5]) Vafþr. 43/72.

En þessi skoðun breytist á víkingaöldinni, þá er hernaður vex í metum og þykir hinn virðulegasti atvinnuvegur, og menn gerast svo herskáir, að einungis sá dauðdagi að falla í orustu þykir fullsómasamlegur fyrir hrausta menn. Á víkingaöldinni kynnast Norðmenn meiri menningu, meiri auðæfum og dýrðlegra eða glæsilegra lífi, en þeir voru vanir við áður í Noregi. Þá taka menn í hugsunum sínum að krefjast launa fyrir að „þola sár ok sviða til bana“ og ímynda sjer lífið eptir dauðann glæsilegt hermannalíf. Allir vopnbitnir menn fara til Óðins, herguðsins, og eru hjá honum í Valhöll, en til Heljar fara þá einungis sóttdauðir menn og ellidauðir.[1]) Þá myndast sú saga um Hel, að hún sje dóttir Loka, og að Óðinn hafi kastað henni niður í Niflheim og gefið henni vald yfir níu heimum og til þess að skipta vistum með þeim, sem henni eru sendir, en það eru sóttdauðir menn og ellidauðir. Hel verður þá hálf blá, en hálf með hörundslit, grimmleg og gnúpleit, í hugmyndum manna. Hinum ægilegustu og tröllslegustu mönnum og apturgöngum er líkt við hana[2]) Samkvæmt þessu hugsa menn sjer þá bústað Heljar. Salur hennar er nefndur Eljúðnir (af él og úði), hungur diskur hennar, sultur hnífur hennar, Ganglati þræll, Ganglöt ambátt, fallanda forað þröskuldur, er inn gengur, kör sæng, Blíkjanda böl ársalur hennar.[3])

Vistin hjá Hel verður hegning og menn ímynda sjer það verra og verra. „Vándir menn fara til heljar ok þaðan í Niflhel; þat er niðr í inn níunda heim“ segir Snorri.[4]) Nú er Niflhel orðinn neðstur allra heima; áður var hann níu heimar.

Hinn versti kvalastaður er á Náströnd, sem völvan getur um, þá er spillingin er orðin sem mest fyrir ragna rök, og lýsir svo:

Sal sá hon standa
sólu fjarri

---

[1]) Sn.-e. 33/32, 38/40. [2]) Eyrb. 63/115; Grett. 32/125; Fms. III 8/189 (Þorst. bm.); Fms. V. 301 (= Flat. II. 136). [3]) Sn.-e. 33/32 sbr. 16/84. [4]) Sn.-e. 2/11.

Náströndu á,
norðr horfa dyrr;
fellu eitrdropar
inn um ljóra,
sá er undinn salr
orma hryggjum.
Sá hon þar vaða
þunga strauma
menn meinsvara
ok morðvarga
ok þanns annars glepr
eyrarúnu.
Þar saug Níðhöggr
nái framgengna,
sleit vargr vera.
Vituð ér enn eða hvat?

Eyrarúna er unnusta eða eiginkona og er hjer átt við hórkarla, og þeim skipað á bekk með morðvörgunum eins og öðrum eiðrofum. Snorri segir að öll ormahöfuðin viti inn í húsið og blási eitri, svo að eptir salnum renna eiturár; þær eru hinir þungu straumar, sem glæpamennirnir verða að vaða.[1])

Þessi staður er kvalastaður, rjettnefnt helvíti.

Andstætt vistinni hjá Hel var lífið í Valhöll. Menn gerðu sjer góðar vonir um það. Eptir hugmyndum manna var það líkast gnægtafullu, áhyggjulitlu og skemtilegu höfðingja og hermannalífi á víkingaöldinni. Valhöll gnæfði gullbjört í Glaðsheimi.[2]) Hún var þakin skjöldum.[3]) Í Ásgarði fyrir Valhallardyrum er lundur sá, er Glasir heitir; er lauf hans alt rautt gull.[4]) Valhöll er svo stór að á henni eru 540 dyr og gátu 800 Einherjar gengið í senn um hverjar þeirra.[5]) Sverð voru höfð fyrir eld í Valhöll að lýsa hana.[6])

---

[1]) Vsp. 38—39/7; Sn.-e. 51/65—66. [2]) Grím. 8/77 sbr. Sn.-e. 32/97. [3]) Sn.-e. 1/9; Hkr. I. 18/126. [4]) Sn.-e. 32/97. [5]) Grím. 23/80 [6]) Sn.-e. 31/96.

Allir þeir, sem í val falla, voru óskasynir Óðins og fóru til hans í Valhöll. Þar voru þeir nefndir einu nafni og hjetu Einherjar. Þeir fengu þar hið besta flesk að borða og var það af gelti þeim, sem Sæhrímnir heitir. Steikarinn Andhrímnir sauð hann hvern dag í katlinum Eldhrímni, en Einherjar átu hann og að aptni var hann heill.[1]) Til drykkjar höfðu Einherjar mjöð þann, er rann úr spenum geitar þeirrar, er Heiðrún heitir. Hún stóð upp á Valhöll og bitur barr af limum trjes þess, er Læraður heitir.[2]) Alt bendir þetta á að Einherjar hafi átt við hinn besta kost að búa og fengið hinn tærasta drykk. Alföður bauð til sín konungum, jörlum og öðrum ríkismönnum, og það varð að fagna þeim vel. Það spilti eigi heldur að hinar göfgu valkyrjur gengu þar um beina og báru Einherjum öl.[3])

Dag hvern hervæðast Einherjar, ganga út og berjast og fella hver annan, eins og hjer segir:

Allir Einherjar
Óðins túnum í
höggvask hverjan dag;
val þeir kjósa
ok ríða vígi frá,
sitja meir of sáttir saman.

Bardaginn er leikur þeirra, því að þeir rísa upp aptur og ríða heim um dögurðarmál.[4]) En það er líka æfing, því að Einherjar áttu að berjast með Óðni í ragna rökum, og þá var einskis sigurs að vænta, ef þeir hefðu týnt vopnaburði. Bæði í lifanda lífi og eptir dauðann áttu menn þar vísasta vörn, sem vopnin voru, og mest traust sitt undir þeim og eigin hreysti.

Trúin á Valhallarlífið hefur eflaust haft allmikil áhrif á menn einmitt á þeim tíma, sem hjer ræðir um, á seinni hluta víkingaaldarinnar. Menn gátu eigi ímyndað sjer annað glæsilegra, en þá er Einherjar, búnir hinum fegurstu her-

---

[1]) Grím. 18/79; Sn.-e. 19/25, 37/39. [2]) Grím. 25/80; Sn.-e. 38/39–40.
[3]) Grím. 36/84; Sn.-e. 35/36–37. [4]) Vafþr. 41/71–72; Sn.-e. 40/41.

klæðum og bestu vopnum, gengu út úr hinni gullbjörtu Valhöll til bardaga, eigi hugsað sjer annað ágætara en einvígi þessara hraustu manna hundrað þúsundum saman, eða annað ljúffengara og ánægjulegra en dögurð þeirra og samdrykkju á eptir. Þessi hin glæsilega Valhallartrú var sprottin af hernaðarlífi Ásatrúarmanna og ól hernaðaranda í þeim. Hún var runnin úr huga þeirra og hjörtum, en hafði hins vegar eggjandi áhrif og gerði menn hrausta og hugprúða. Hver sá sem fjell í orustu átti vísa vist með Óðni: [1]) fyrir því þótti sá dauðdagi góður og virðulegur. Góðir drengir kusu heldur að falla með sæmd en flýja fyrir óvinum sínum, þótt þess væri ærinn kostur. Þeir gátu tekið undir með Ragnari loðbrók, er skáldið lætur hann segja:

Sýtira drengr við dauða
dýrs at Fjölnis húsum;
eigi kömk með æðru
orð til Viðris hallar.[2])

Sumir óskuðu þess að mega falla í bardaga eða í fólkorustu eins og Egill ullserkur.[3]) Ef það auðnaðist eigi, mörkuðu slíkir menn sig geirsoddi, þá er þeir sáu að dauðinn nálgaðist, því að svo sögðu menn að Óðinn hefði gert.[4]) Hið ókunna skáld, sem ort hefur Krákumál, hefur lýst ágætlega hvernig hetjum varð við dauða sinn, þá er það lætur Ragnar loðbrók mæla deyjandi:

Fýsumsk hins at hætta,
heim bjóða mér dísir,
sem frá Herjans höllu
hefr Óðinn mér sendar.
Glaðr skalk öl með Ásum
í öndvegi drekka,
lífs eru liðnar stundir,
læjandi skalk deyja.

Þá er slíkir menn komu til Valhallar, var þeim vel

---

[1]) Fsk.[2] 12/49. [2]) Krákumál, 25 v., í Carmina norrœna. [3]) Fsk.[2] 10/33; Hkr. I. 23/202, [4]) Hkr. I, 9/21—22.

fagnað. Skáldin hafa lýst því, hve virðulega var tekið á móti nokkrum hinum hraustu konungum, er fjellu í orustum. Í kvæði einu, sem Gunnhildur konungamóðir ljet yrkja um Eirík konung blóðöx eptir fall hans, er því lýst, hvernig Óðinn fagnaði honum í Valhöll. Hann lætur ryðja Valhöll og búa til veislu, og er Eiríkur kemur, lætur hann Sigmund og Sinfjötla ganga í móti honum og bjóða honum inn. Sigmundur hefur orð fyrir þeim og segir:

Heill þú nú Eiríkr,
vel skalt hér kominn
ok gakk í höll horskr;
hins vilk þig fregna,
hvat fylgir þér
jöfra frá eggþrimu.

Eiríkur svarar:

konungar eru fimm
kennik þér nafn allra;
ek em enn sétti sjálfr.[1])

Á líkan hátt segir Eyvindur skáldaspillir frá komu Hákonar Aðalsteinsfóstra til Valhallar.[2]) Óðinn sendir valkyrjurnar Göndul og Skögul

at kjósa of konunga,
hverr Yngva ættar
skyldi með Óðni fara
í Valhöll at vesa.

Þær hitta Hákon konung búinn í bardaga við Eiríkssyni. Orustunni er lýst. Síðan lætur skáldið Göndul segja að nú vaxi fylgdarlið goða, er þau hafi boðið Hákoni heim með her mikinn. Hann heyrir þetta og spyr, hví Skögul „skipti svá gunni; vér várum þó verðir gagns frá goðum". Skögul svaraði „Vér því völdum, es þú velli helt, en þínir fjand-

[1]) Fsk.[2] 7/27—30. [2]) Eyvindur hafði Eiríksmál til fyrirmyndar. Fsk.[2] 11/38.

menn flugu“. Síðan ríða þær heim að segja Óðni að konungur komi. Hann býður Hermóði og Braga að ganga á móti konungi. En Hákon, sem var kristinn, hyggur að Óðinn sje sjer reiður. Bragi tekur honum vel og býður honum til drykkju með Ásum; „þú átt inni hér átta bræðr“. Konungur kveður þá sjálfa vilja halda öllum vopnum: „gott es til görs at taka“.[1])

Þá er Hákon konungur var heygður, vísuðu vinir hans honum til Valhallar,[2]) en það er eins og menn hafi stundum ímyndað sjer, einkum þá er komið er fram á síðari hluta 10. aldar, að fleiri færu til Óðins — eða jafnvel til Valhallar, — en þeir einir, sem vopnbitnir voru. Þannig segir Egill Skallagrímsson um Böðvar son sinn í hinu nafnkunna erfikvæði, er hann orti eptir sonu sína um 960, að hann hyrfi af lífi „á munvega“. Munvegar er gleðibústaður, bústaður Óðins, eða Glaðsheimur. Síðar segir Egill að Böðvar sje kominn í bæ loptsins kynnis að leita, og meinar hann með því að hann hitti þar bróður sinn framliðinn og ef til vill fleiri ættingja, en þeir höfðu dáið á sóttarsæng. Egill kveðst muna það enn, er Gauta spjalli (Óðinn) hóf áttar ask þann, er óx af sjer og kynvið konu sinnar (son sinn) upp í goðheim.[3]) Böðvar Egilsson druknaði og menn trúðu því annars, að þeir, sem druknuðu, færu til Ránar, en Egill minnist eigi á það, heldur ætlar hann að sonur sinn hafi farið til himna, í goðheim til Óðins. Egill hafði verið prímsigndur,[4]) en var heiðinn; vera kann að viðkynning hans af kristnum mönnum hafi haft einhver áhrif á hann um þetta, en hitt er þó eins líklegt að menn hafi tekið að trúa því, að fleiri færu til Óðins eða í goðheim en þeir, sem vopnbitnir voru. Því verri sem menn hugðu að vistarveran væri hjá Hel, því ófúsari urðu menn á að trúa því, að góðir menn færu þangað. Á Íslandi, þar sem menn áttu eigi í almennum ófriði og gátu eigi fallið í fólkorustum eins og víða í útlöndum, mun góðum mönnum og

---

[1]) Fsk.[2] 11—12/38—49; Hkr. I, 30/212—14, 32/219—22. [2]) Hkr. I, 32/219. [3]) Sonatorrek (í Egils sögu) 10., 18. og 21. vísa. [4]) Eg 50/156.

vitrum hafa þótt hart að komast eigi í annan betri stað en Niflhel, þótt þeir fjellu eigi fyrir vopnum. Menn fara að vænta launa eptir manndygð; slík hugsun ríkir hjá Þorkeli mána, er hann lifir svo hreinlega sem þeir kristnir menn, sem best eru siðaðir, og felur sig á deyjanda degi á hendi þeim guði, er sólina hafði skapað [1]) Menn fara að ímynda sjer fagran stað á himnum, líkt og sagt er í Völuspá um Gimle, þar sem dyggvar dróttir byggja og njóta yndis eptir dauðann. Þá er menn taka að kynnast kristninni og að því líður að hún ryður sjer til rúms, fara hugsanir heiðinna manna um annað líf að breytast og líkjast hugsunum kristinna manna. Þetta kemur svo glögglega í ljós í Völuspá og bendir það meðal annars á að hún sje ort seint á 10. öld.

Trúarhugmyndir Ásatrúarmanna um annað líf sýna eigi hvað síst, hvernig trú þeirra hefur breytst smám saman, og hve ófullnægjandi hún var. Menn sem Þorkell máni og Þorsteinn Ingimundarson [2]) fengu eigi traust af slíkri trú. Flestir guðirnir voru í raun rjettri herguðir og orðnir mönnum líkir; af þeim gengu miklar sögur, sem gátu komið ímyndunaraflinu á flug. Ávalt bjuggu menn til nýjar og nýjar goðasögur. Í goðalífinu var nóg af yrkisefni fyrir skáldin. Goðafræðin eða Ásatrúin hafði því frjóvgandi áhrif á þau. Skáldin urðu svo handgengin öllum goðasögunum og eigi síst skáldskaparguðnum Óðni, að þau yrkja sjaldan án þess að nota samlíkingar úr goðafræðinni eða tengja orðtök sín og hugmyndir við nöfn goðanna eða líf þeirra. Þau leiða svo að segja guðina inn í sjálfan búning skáldskaparins, í skáldamálið, kenningarnar. Skáldskapurinn sýnir því, hve fornmenn hafa hugsað um hina heiðnu guði og rækt þá að vissu leyti, því að öðrum kosti hefðu menn eigi skilið allar samlíkingarnar og kenningarnar úr goðalífinu; en skáldin hafa eigi að jafnaði kveðið dýrara en menn alment skildu.

Ásatrúin var eigi mild nje kærleiksrík. Trúarlífið var því eigi innilegt. Það vantaði guð kærleikans á meðal Ása.

---

[1]) Ldn. 9 38. [2]) Vatn. 23 38, 37 59, 46 77.

Baldur var líknarguð meðal þeirra um hríð, en hann mátti ekkert á móti hinum ríka hefndarhug og vígaanda, sem ríkti á meðal Ásanna.

Ásatrúin kemur mjög við þjóðlíf vort á söguöldinni, eins og síðar mun sýnt verða. Það eru víxláhrif á milli manna og trúarbragðanna.

---

## III. Vígaferlin. Merkir menn og atburðir á fyrri hluta söguáldarinnar.

### Blóðhefndin, þýðing ættarinnar.

Svo má heita að rekja megi blóðferilinn gegnum allar Íslendinga sögur á söguöldinni. Hvort sem þær eru af einstökum mönnum, ættum eða hjeraðsmönnum í einhverju bygðarlagi landsins, er þó ávalt getið um meiri eða minni vígaferli í þeim öllum. Manndrápin, vígin eru svo tíð og almenn, að mikill hluti af sögu vorri á tímabili því, sem hjer ræðir um, er um vígaferli. Menn eru fljótir að grípa til vopna og hefna sín. Margir landnámsmenn vega menn til hefnda í Noregi, brenna þá inni eða drepa á einhvern hátt, og stökkva síðan af landi brott til Íslands, til þess að komast undan hefnd. Sonur landnámsmanns, Egill Skallagrímsson, segir, er sonur hans druknar, að úti væri um Ægi, ef hann gæti sótt mál sitt með sverði. Svo mikill er hefndarhugur hans, að hann færi að berjast við bylgjurnar, ef hægt væri, til þess að hefna sín á sjávarguðnum.[1]) Einar Sigmundarson rjeðst t. a. m. á Lón-Einar fyrir það, að hann stefndi Hildigunni að Laugarbrekku, móður hans, um fjölkyngi; ljetti hann eigi fyr en Lón-Einar var fallinn og förunautar hans allir sex.[2])

Sumar sögurnar eru að heita má einungis um vígaferli og hefndir, svo sem Hrafnkels saga og Heiðarvíga saga: en hjer skulu að eins nefnd nokkur dæmi, til þess að sýna, hve vígaandinn og hefndarhugurinn var ríkur og hve hefndin

---

[1]) Sonatorrek, 8. vísa. [2]) Ldn. 7 83—85; Hksb. 63/25—27.

eða hefndarskyldan hvíldi alvarlega og þungt á mönnum. Síðar verður skýrt frá ýmsum deilum og atburðum, og munu þá opt koma í ljós ýms merki um þetta.

Menn hikuðu eigi við að drepa saklausa menn til þess að koma fram hefndum. Þorsteinn fagri Þorfinnsson vá Einar Þórisson, ódreng nokkurn, fyrir illmæli og svik, en til þess að hefna hans, vildi Þorgils mágur hans Þorsteinsson, sem annars var gegn maður, drepa tvo bræður Þorsteins saklausa; hann reið fram á þá af hendingu, er hann ætlaði að hefna Einars á Þorsteini. Viðskipti þeirra fóru svo, að Þorgils sjálfur ljet lífið fyrir þeim, áður en þeir fjellu. Fimm árum síðar sættist Þorsteinn fagri heilum sáttum við Þorstein hvíta, föður Þorgils og rjeðst til hans með fjölskyldu sína til búsumsýslu. En eptir átta ára dygga og drengilega þjónustu varð hann samt að fara af landi burt með alla ættmenn sína til þess að komast undan hefnd Helga Þorgilssonar, er þá gerðist frumvaxta. Þó hafði Þorsteinn fagri jafnan sýnt Helga góðvild mikla, en vitneskjan um að faðir hans hafði fallið fyrir bræðrum hans var nóg til þess að vega upp alt annað, úr því að enn var færi til þess að vega mann til hefnda fyrir hann.[1])

Hrafnkell Freysgoði rjeðst á Eyvind Bjarnason saklausan og drepur hann til þess að hefna sín eða geta hefnt sín þeim mun betur á Sámi bróður hans. Hann óttaðist Eyvind en Sám eigi, því að Eyvindur var miklu meiri maður en Sámur, en í það var eigi horft, að Eyvindur var algjörlega saklaus og hafði dvalið erlendis öll þau ár, er þeir Sámur deildu. Hrafnkell hefnir sín eigi á meðan hann er í burtu, en bíður þangað til hann er kominn til landsins.[2]) Ættin öll var skoðuð sem ein heild og allir ættmennirnir urðu að gjalda fyrir einn.

Orð og gjörðir spekingsins og friðsemdarmannsins Njáls Þorgeirssonar eru eins eptirtektaverðar, þótt um hefnd sje að ræða eins og um lagasetningu. Hann var í ráðum með sonum sínum og Kára, þá er þeir hefndu smánarorða Grjótár-

[1]) Þorst. hv.[2] 11—17. [2]) Hrafnk.[2] 8/129—9/134, 10/137.

manna, og hann vildi heldur brenna inni, en ganga út úr brunanum að Bergþórshvoli. Hann var þá gamall maður og kvaðst litt til búinn að hefna sona sinna, „en ek vil eigi lifa við skömm“. Jafnvel sveinninn Þórður Kárason kaus heldur að deyja með ömmu sinni og afa, en að lifa eptir; hefndarskyldan mun eflaust hafa vakað fyrir honum og hann fundið vanmátt sinn.[1] „Þat hlægir mik“, segir Skarphjeðinn í brennunni við Kára, „ef þú kemz í braut, mágr, at þú munt hefna vár“.[2] Vonin um hefnd var helfró hans. Hefndin var hið fyrsta og síðasta.

Eða þá Illugi svarti, höfðinginn á Gilsbakka. Hann bað á alþingi Önund á Mosfelli bóta fyrir Gunnlaug son sinn. Önundur neitaði því, enda var hann saklaus af vígi hans og hafði sjálfur látið son sinn. Þá svaraði Illugi: „kenna skal þá nakkvarr at skauti þinn frændi eðr þinna ættmanna“. Um haustið reið hann með 30 manna til Mosfells. Önundur komst undan í kirkju, en Illugi náði í frændur hans tvo, og ljet drepa annan en fóthöggva hinn. Áður en Illugi fjekk komið fram hefnd þessari, var hann jafnan dapur mjög, en nú glaðnaði yfir honum. Hermundur sonur hans undi þó eigi við þetta. Honum þótti eigi nóg að gjört og reið því um vorið eptir að heiman einn saman norður til Hrútafjarðar. Þar voru kaupmenn nokkrir búnir til brottferðar. Stýrimaður þeirra hjet Hrafn og var bróðurson Önundar að Mosfelli. Hermundur reið að honum og lagði spjóti í gegn um hann, og reið þegar á brott. Engar bætur komu fyrir víg þetta, en Hermundur varð ánægður og þóttist maður að meiri.[3]

Sama er að segja um smámenni sem Hænsa-Þórir. Hann linti eigi fyr látum en hann hafði komið fram grimmlegri hefnd á Þorkeli Blundketilssyni. Til þess að æsa menn upp til níðingsverks með sjer lýgur hann því upp að sveinninn Helgi Arngrímsson hafi sagt deyjandi við sig að brenna skyldi Þorkel inni.[4]

---

1) Nj. 91 469, 92/476, 129,665—67. 2) Nj. 129 670. 3) Gunnl. 13 272—74. 4) Hæns. 8,150.

Konurnar voru venjulega eins hefnigjarnar og karlmennirnir. Þær voru opt eins harðar og stundum jafnvel grimmari en þeir, því að tilfinningar þeirra eru örari og æstari. Þær sýndu stundum enn meiri þolinmæði og seiglu en karlmenn til þess að koma fram hefndum, því að þær höfðu þolinmæði þess, sem er minni máttar. Konurnar stóðu opt á bak við og eggjuðu til hefnda, og þær neittu allra bragða til þess að koma fram vilja sínum. Þær voru stundum ægilegar og geigvænlegar eins og Guðrún Ósvífrsdóttir, er hún var sem rólegust. Hún brosti við Helga Harðbeinssyni, er hann þerði blóð Bolla af spjóti sínu á blæjuenda hennar; hún gekk á leið með banamönnum Bolla til þess að sjá, hverjir þeir væru. Í „tólf“ ár, segir sagan, geymdi hún blóðug línklæði Bolla, til þess að sýna þau sonum hans og eggja þá, er þeir höfðu náð þeim þroska að þeir gátu hefnt sín. „Þessi sömu klæði“, sagði hún, „er þit sjáið hér, frýja ykkr föðurhefnda“. Nóttina eptir máttu þeir bræður eigi sofa fyrir hefndarhug.[1])

Hildigunnur Starkaðardóttir var aptur á móti grimmari og heiptúðugri í eggjan sinni en flestar íslenskar konur. Hún minnir á Brynhildi; henni var mikil vorkunn, því að maður hennar var veginn alveg saklaus og af þeim, er síst skyldi. Hún lætur sjer eigi nægja að Flosi vill sækja mál hennar til fullra laga eða veita til þeirra sætta, er sæmd sje að í alla staði, heldur krefst hún mannhefnda og leggur yfir hann skikkju Höskuldar með blóði hans í, svo að það dundi um Flosa allan, og eggjaði hann og særði „fyrir alla krapta Krists þíns ok fyrir manndóm ok karlmennsku þína“, að hefna „þeirra allra sára, sem Höskuldr hafði á sjer dauðum, — eða heit hvers manns níðingr ella“. Flosi hafði gefið Höskuldi skikkjuna og var hann í henni veginn. Flosa brá mjög við þetta, kastaði af sjer skikkjunni og kvað Hildigunni vera „hit mesta forað“ og „köld kvennaráð!“ [2])

Konur notuðu annars opt það ráð, er þær eggjuðu menn, að sýna þeim blóðug klæði þess, er veginn var. Þorgerður

---

[1]) Lax. 60/223. [2]) Nj. 116/593—94.

silfra seldi Bjarna Brodd-Helgasyni í hendur skikkju föður hans blóði drifna til þess að eggja hann til hefnda.[1]) Líkt fór Hróðný Höskuldsdóttir að, þá er hún fjekk Ingjald bróður sinn á Keldum til þess að skilja við Flosa.[2]) Aptur á móti reið Þorgerður Egilsdóttir að bænum í Sælingsdalstungu með sonu sína til þess að sýna þeim bústað bróðurbana þeirra og eggja þá til hefnda; brann hún þá í skapi og kvað ilt að eiga dáðlausa sonu.[3]) En optast munu konur þó hafa látið sjer nægja að eggja menn með orðum einum, eins og Hallgerður Gunnar að Hlíðarenda,[4]) eða Rannveig Þorgeirsdóttir Bjarna Brodd-Helgason. Hún iðraðist þó brátt eggjunarorða sinna, því að Bjarni fór einn að heiman til hefnda móti hinum mesta kappa Þorsteini stangarhögg. Hann kvað hana þá fara að dæmi þeirra kvenna, „er þat gráta á annarri stundu, er eggja á annarri“.[5])

Konur urðu stundum mikið til að vinna til þess að koma fram hefndum, og sýnir það eigi hvað síst, hve mikil nauðsyn þeim þótti hefndin vera.[6]) Þorgerður Þorbeinisdóttir fór til fjögra höfðingja, frænda sinna og venslamanna, til þess að fá einhvern þeirra til að taka við eptirmáli um víg manns hennar Vigfúss í Drápuhlíð. En er þeir færðust allir undan, gróf hún eptir ráðum Vermundar hins mjófa upp höfuð manns síns og færði Arnkatli goða. Henni var skapraun mikil að gera þetta, en hún vildi þó vinna það til, „ef þá yrði þyngri hluti úvina minna en áðr“. Arnkatli varð hermt við, er hún brá höfðinu undan skikkju sinni og mælti: „Hér er nú þat höfuð, er eigi mundi undan teljast at mæla eptir þik, ef þess þyrfti við“. Hann bratt henni frá sjer, en stóðst þó eigi eggjun þessa og tók við málinu.[7])

Margar mæður kusu það heldur að eiga á hættu að missa syni sína, en að manns þeirra eða mótgjörða við

---

[1]) Vápn.[2] 23/56. [2]) Nj. 124/648. [3]) Lax. 53/201. [4]) Nj. 35/135. [5]) Þorst. st. 80—81. [6]) Einkennilegt og eptirtektavert er það á söguöldinni, að hefnd og eptirmál eru þá helst nefnd „nauðsynjamál“. Hrafnk.[2] 4/111; Lax. 60/223; Gunn. þ.[2] 3/201; Nj. 131/684. [7]) Eyrb. 27/43—44.

sjálfar þær væri óhefnt. Þá er Þorgrímur tordyfill hallmælti Droplaugu Þorgrímsdóttur á Arneiðarstöðum, eggjaði hún syni sína Helga og Grím að hefna sín. Þó var Helgi þá að eins þrettán vetra, en Grímur tólf.[1]) En þetta er hinn sami hefndarhugur og hugsunarháttur sem hjá karlmönnunum. Flestir þeirra hugsuðu eins og Þórarinn karl, þá er hann eggjaði Þorstein son sinn til að berjast við Bjarna Brodd-Helgason, og mælti: „þykkir mér ok betra at missa þín en eiga ragan son“.[2]) Þórarinn hafði verið víkingur í æsku og var eigi dældarmaður, þótt hann væri gamall. Hann var þá orðinn sjónlítill og hrumur, og vildi Bjarni reyna hann eptir einvígið við Þorstein. Bjarni skrökvaði því að honum að sonur hans hefði fallið, en bauð honum þegar hin mestu sæmdarboð og að vera honum í sonarstað. Karl bað hann þá að ganga til sín í rekkjugólfið og handsala sjer boð sín. Bjarni gerði það, en þá þuklaði karl á saxi og vildi leggja til Bjarna.[3]) Hann mat hefndina meira en hæga ellidaga.

Til þess að geta skilið sögu vora rjett, er nauðsynlegt að komast eptir orsökunum til þessa, og gera sjer grein fyrir, hvernig á hinum miklu vígaferlum og hefndum hefur staðið.

Þá er Norðmenn tóku að byggja Ísland, stóðu þeir á öðru þroskastigi en Íslendingar standa á nú á dögum. Hið eina verulega friðarsamband eða friðhelgisfjelag, sem til var meðal þeirra, var ættin, en svo hjetu allir þeir menn, sem blóðskyldan tengdi saman. Orðið ætt þýðir eiginlega eign (af að eiga, átti), eða það, sem heyrir saman eða heyrir einhverjum til, er vandabundið; þar af merkingin vandamenn, frændur, skyldmenni.[4]) Í þá daga hirti þjóðfjelagið eða ríkið lítið um rjett einstakra manna, og hafði eigi heldur nein tæki til þess að vernda hvern einstakling.

---

[1]) Dropl.[2] 3/147. [2]) Þorst. st. 82. [3]) Þorst. st. 85—86. [4]) Sbr. H. Falk og A. Torp, Etymologisk Ordbog. K. v. Amira, Grundriss[2] III, 156 og A. Taranger, Retshistorie II. 36—37 segja að ætt þýði átta, þ. e. átta forfeður þess, sem talið er frá, fjóra í föðurætt og fjóra í móðurætt, með niðjum þeirra; en það mun vera mjög efasamt, hvort þetta er rjett.

Menn urðu því allir að verja sig sjálfir svo vel sem þeir gátu, ef þeir vildu eigi láta troða sig undir af hverjum, sem vera vildi. Foreldrar vernduðu börn sín, bræður systur sínar og mæður o.s.frv. Slíkt er eðlishvöt, og fyrir því hefur þegar á bernskuskeiði mannkynsins myndast og þróast friður og vernd meðal nánustu ættmanna. Samheldni og verndarandi meðal ættmanna var orðinn allríkur hjá hinum germönsku þjóðum, þá er þær komu til sögunnar. Áður en Ísland bygðist var blóðskyldan orðin mjög þýðingarmikil hjá þeim og hafði svo mikilvæg áhrif á þjóðlífið og rjettarfarið, að staða hvers einstaklings í þjóðfjelaginu var komin undir því af hvaða ætt hann var. Frændalaus maður var nærri því eins og rjettlaus maður. En á milli ættmannanna rjeð friður, og vígaferli voru útilokuð á meðal þeirra.[1])

Höfðingi ættarinnar rjeð mestu, þá er halda átti uppi rjetti ættarinnar og virðingu gagnvart öðrum ættum; en þó áttu fullveðja menn af hverri ætt rjett að lögum til þess að ráða sjer, og því var stjórn ættanna lík lýðveldisstjórn.

Sambandið milli ættmanna í Noregi var og svipað þessu.[2]) Ef vígaferli urðu þar meðal ættmanna, þótti það óðs manns æði.[3])

Á Íslandi hafði ætternið sömu þýðingu þegar á meðal landnámsmanna sem það hafði áður hatt. Á meðan engin lög voru til, var alt undir hverjum einstakling komið, og sjálfræði manna var takmarkalaust, ef áræði og orka bilaði eigi; lífi manna var því opt hætta búin. Um aðra vernd var eigi að ræða en þá, sem menn gátu veitt sjer sjálfir og ættmenn hverjir öðrum. Þá er landslög voru sett, breyttist þetta í raun rjettri eigi neitt verulega frá rótum. Friður og vernd hvílir á sama grundvelli eptir sem áður. Ríkið tekst eigi á hendur að vernda menn: ættin verður að gera

[1]) Brunner, Deutsche Rechtsgeschichte (1887) I. 81 o. ef. [2]) Sbr. A. Taranger, Retshistorie II. 36 39. [3]) Sbr. Gþl., N. g. L. I. 164 64. Þó urðu stundum ættvíg í Noregi og eins á Íslandi. Hkr. I. 34 150. 35 152, 36 153, 41/160, 43 163; II. 176/408; Fms. X. 332 152; Lax. 59 219. Eru kunnust ættvíg í Noregi í konungsættinni, milli sona Haralds hárfagra, en á Íslandi í ætt Laxdæla.

það eins og áður. Menn verða að reka rjettar síns sjálfir. Einungis þá er um enga ættmenn var að ræða, urðu goðarnir sakaraðilar.[1]) Afarmikið var undir vilja og geðþekkni einstakra manna komið. Þótt lög væru sett og samþykt, breyttust menn sjálfir eigi við það. Þeir voru líkt skapi farnir sem áður, og engir valdsmenn voru heldur skipaðir til þess að gæta þess að lögunum væri hlýtt. Framkvæmdarvald goðanna framan af söguöldinni hefur varla verið mjög mikið eða víðtækt, eigi miklu meira en ýmsra höfðingja. Vald höfðingjanna og annara manna á Íslandi fór í þá daga aðallega eptir því, hve mikinn mátt eða styrk þeir höfðu, hvort sem það var sökum hreysti eða annara persónulegra eiginleika, eða af því að þeir áttu mikinn frændastyrk eða mannafla. Mikið vald gátu menn eigi haft þá, hvað sem lögin heimiluðu, ef þeir höfðu eigi mannafla eða styrk til þess að beita því. Framkvæmdarvald höfðingjanna náði að jafnaði eigi langt út fyrir ættina, en afskipti goðanna af málum manna og hluttaka þeirri í stjórn landsins fór vaxandi, þá er stundir liðu fram, og jafnframt óx vald þeirra Eptir stofnun ríkis á Íslandi voru því í fyrstu eins og áður hjá ættinni allar skyldur og rjettindi, þar á meðal rjettur til hefnda og bóta, verndarrjetturinn, sem hjer ræðir sjerstaklega um. Frændur og frændkonur, þeir menn og konur, er frændsemi eða skyldleiki batt saman, voru eins og smáþjóðfjelag fyrir sig.[2])

Með því að menn áttu þar mest traust, sem ættin var, hafði ætternið svo afarmikla þýðingu. Að vera ættborinn hafði því í raun rjettri hina sömu þýðingu sem að vera frjáls og geta notið rjettar síns í þjóðfjelaginu. Ef eigi var um ættmenn að ræða, urðu menn að biðja sjer liðveislu og kaupa hjálp og vernd annara, ef þeir gátu; er þess opt getið að menn buðu eða gáfu „fé til liðveizlu“ og að menn „tóku fé til vinfengis“.[3]) Enda hvort sem var, urðu menn

[1]) Grág. III, 579—81. [2]) Sbr. um skipulag ættarinnar V. Finsen. Den isl. Familieret efter Grágás i Annaler f. nord. Oldkh. 1849, bls. 280 o. ef.; Maurer. Isl. 325 o. ef. [3]) Eyrb. 17/20—21, 31/55—56; Eg. 81/301; Lax. 16/45, 53—4/202—3, 56/211; Glúm. 9/28, 19/56; Ljósv. 14/167, 25/223—25; Reyk. 5/24—5; Nj. 134/704—711, 138/737—743; Hæns. 2/125, 6/131, 7/145; Vápn.[2] 11/49.

opt, er þeir áttu í deilum eða málaferlum, að leita sjer liðveislu, en helsti maðurinn í ættinni, eða sá maður, sem var ríkur höfðingi, átti miklu hægra með að fá slíka liðveislu, ef á þurfti að halda, en fátækur maður eða ættaus.

Helsta og þýðingarmesta vörn ættarinnar var *blóðhefndin*. Ef einhver vá mann, hjó hann skarð í ætt hins vegna, *ættarskarð* eða *ættarhögg*, og áttu þá ættmenn hans rjett til þess að drepa vegandann eða einhvern annan mann í ætt hans í staðinn; það var að höggva skarð aptur í ætt vegandans, eða vinna ætt hans hinn sama skaða. Það var hefnd. Ef ættmenn hins vegna neyttu eigi rjettar þessa, fengu þeir rjett til *bóta* eða *manngjalda* eptir hinn vegna, því að af hinum upphaflega rjetti til að höggva skarð í ætt vegandans leiddi rjett til bóta. Ættmenn vegandans voru hins vegar skyldir að verja hann og að *halda uppi bótum* (þ. e. borga bætur) með honum.[1]) Einnig í öðrum málum en vígsmálum áttu ættmenn að hjálpa hver öðrum, og þótti illa gert eða lítilmannlega, ef út af því var brugðið.

Rjettarákvæði og rjettarskoðanir manna breytast, þótt breytingar þeirra sjeu opt hægfara. Fyrir tæpum 1000 árum höfðu menn alt annað álit á vígum en nú á dögum, þótt þau væru unnin af ásettu ráði. Þá var svo langt frá því að almenningsálitið fordæmdi að vega mann, að það þvert á móti taldi það opt helga skyldu að hefna sín og vega mótstöðumenn sína fyrir mótgjörðir þeirra, en menn áttu að kannast við gjörðir sínar. Að *leyna vígi* var *morð*, og þau þóttu aldrei drengileg, enda er þung hegning lögð við þeim í fornlögum vorum. Þó voru þau opt unnin af merkum mönnum og frægum, því að þeir kusu það heldur, en að koma eigi fram hefndum. Blóðhefndin var eigi að eins helsta verndarmeðal ættarinnar, rjettarfjelagsins, heldur hafði hún einnig fest langdýpstar rætur allra varnarráða í meðvitund manna. Það dugði því eigi mikið í fyrstu, þótt menn tækju að setja lög um víg og banna mönnum að sitja um líf annara manna eða vega þá. Auk þess voru bönn þessi

[1]) Sbr. Grág. III, 613.

bundin miklum takmörkum. Í Vígslóða, hinum fornu lögum vorum um vígaferli, eru taldar margar sakir, sem sakaraðili, menn með honum og stundum enda hver er vildi,[1]) átti vígt í gegn eða vígt um, það er að segja, sakaraðili átti rjett til þess að drepa illgjörðamanninn, án þess þó sjálfur að verða sekur, og fjell hann óheilagur fyrir illverk sitt.[2]) Fyrir miklar sakir máttu menn hefna sín og áttu vígt um, hve nær sem menn vildu fram til næsta alþingis, en þá átti að heyja mál. Slíkar sakir voru víg, hin meiri sár,[3]) enn fremur legorðssakir, ef um legorð með konu manns, móður, dóttur, systur, fósturdóttur og fósturmóður var að ræða,[4]) og hinar verstu ærumeiðingar, svo sem þá er maður kvað níð um mann að lögbergi á alþingi eða fór hinum svívirðilegustu orðum um hann.[5]) En auk þessa voru margar minni sakir, sem sakaraðili mátti hefna sín fyrir þegar á vettvangi eða á fyrsta dægri, tólf tímum eptir að illverkið var unnið eða tilraun var gerð til þess að framkvæma glæpaverk.[6]) Líka mátti drepa þann mann, sem stóð fyrir þeim manni, sem hafði sært eða vegið mann, þá er sakaraðili vildi hefna sín á honum.[7]) Svona rík var blóðhefndin í fornlögum vorum um vígaferlin, sem fyrst eru rituð upp veturinn 1117—1118, rúmum hundrað árum eptir að kristni var lögtekin í landinu, en þau hafa eflaust mestöll verið sett á söguöldinni og breytst lítið að efni og anda, áður en þau voru rituð upp.[8])

Hefndin er lögbundin og takmörkuð í þjóðveldislögum vorum, en hún er leyfð þar svo opt, að engin norræn nje germönsk lög heimila hefnd svo opt sem Grágás.[9]) Einnig eru menn opt sviptir friði eða helgi í fornlögum vorum, og dæmdir af landi brott eða á skóggang, friðlausir um aldur

---

[1]) Grág. II, 304. [2]) Grág. II, 303, 332, 374, 392, 394. [3]) Grág. I a, 147, 149; II, 302, 303—304, 316—317, 332. [4]) Grág. I a, 164; II, 331—32. [5]) Grág. I b, 184—185; II, 392, 393. [6]) Grág. I, 145, 149, 190; I b, 167; II, 297, 298, 301, 302, 331—32, 374, 378, 384, 396. Sbr. V. Finsen, Isl. Retshistorie, A. M. Access. nr. 6, § 131. [7]) Grág. I a, 146—147, II, 300—301, 368. [8]) Sbr. V. Finsen, Fristat. Institut. 159—171. [9]) Sbr. Wilda, Strafrecht der Germanen, bls. 178; V. Finsen, Isl. Retshistorie § 130.

og æfi. Undir skóggang má í raun rjettri telja dauðahegningu,[1]) því að skógarmenn voru rjettdræpir, hvar sem þeir hittust.

Af því, sem hjer hefur verið sagt, mun það þegar orðið ljóst, hvernig á því stóð að blóðhefndin var svo rík í huga landnámsmanna og Íslendinga á söguöldinni.[2]) En auk þessa voru hin heiðnu trúarbrögð þannig, að þau ólu hefndargirnd í hug manna og hjörtum. Þau höfðu upphaflega myndast í hugum herskárra manna og fyrir því voru guðirnir sjálfir hefndargjarnir, og það hafði aptur áhrif á menn. Þá er Óðinn fór að grenslast eptir því, hvers vegna draumar boðuðu Baldri hættu, fær hann að vita, að Höður muni verða honum að bana. Hann spyr þá þegar, hvort hans muni verða hefnt.[3]) Svo er Óðni hugað um hefndina, að hann hvikar eigi við að sögn Saxa að lítillægja sjálfan sig með því að ginna Rindi á móti vilja hennar, til þess að koma fram hefndinni. Hún elur honum síðan soninn Bous eða Vála og hann hefnir Baldurs,[4]) því að aðrir Æsir gátu eigi gert það, nema með því að ganga á eiða sína gegn Heði. Þórr hefnir sín og guðanna einnig þráfaldlega, og allir guðirnir hefna sín á Loka. Þeir hafa einnig mikla fyrirhyggju og langvinnan undirbúning til þess að Víðarr geti hefnt Óðins. Æfidagar guðanna eru ófriðsamir, en með ófriði fylgir hefnd.

Hinn sami hefndar- og heiptar-andi kemur einnig í ljós í hetjukvæðunum í Eddu. Hvert hefndarverkið elur þar annað, og þarf eigi annað en minna á Helgakviðurnar, Reg-

---

[1]) Sbr. Brunner, Rechtsgeschichte I, 173. [2]) Jón Jónsson sagnaritari frá Ráðagerði segir að vígaferlin og alt „þjóðlíf Íslendinga á söguöldinni“ sje sprottið af blóðtengdum landnámsmanna við Kelta. Íslenskt þjóðerni. Reykjavík 1903, bls. 54, 64, 78. Hann færir eigi rök fyrir þessu, en eins og auðsætt er af því, sem hjer er sagt, er eigi hægt að fallast á það. Sama er að segja um skýringu Bjarna Jónssonar kennara (sem ritað hefur um Eggert Ólafsson o. fl.) á þessu. Hann hyggur að menn hafi haft manndráp sjer til skemtunar og segir: „Það þótti lítið gaman að lífinu, eins og guðspjöllunum, ef enginn var í því bardaginn. Þetta var orsökin til vígaferlanna á söguöldinni.“! Þjóðviljinn 17. ár 1903, bls. 175. [3]) Vegt. 10/137. [4]) S. s. 11. vísa.

insmál, Sigurðarkviðu hina skömmu, Guðrúnarkviðurnar. Ef til vill er hvergi lýst með meiri krapti, hvernig heipt og hefnd gagntók hug manna og hjörtu, en í Sigurðarkviðu hinni skömmu, þar sem skýrt er frá Brynhildi, er hún var orðin þess vís að Sigurður Fáfnisbani hafði riðið vafurlogann og brugðist henni. Þar segir svo:

Opt gengr hon innan
ills of fyld
ísa ok jökla
aptan hverjan,
er þau Guðrún
ganga á beð
ok hana Sigurðr
sveipr í ripti,
konungr inn húnski
kván frjá sína.
„Vön geng ek vilja
ok vers beggja,
verð ek mik gœla
af grimmum hug“.
Nam af þeim heiptum
hvetjask at vígi:
„þú skalt Gunnarr
görst of láta
mínu landi
ok mér sjalfri,
mun ek una aldri
með öðlingi.
Mun ek aptr fara
þars áðan vark
með nábornum
niðjum mínum,
þar mun ek sitja
ok sofa lífi,
nema þú Sigurð
svelta látir,
ok jöfur öðrum
œðri verðir.
Látum son fara
feðr í sinni,
skalat ulf ala
ungan lengi;
hveim verðr hölða
hönd léttari
síðan til sátta
at sonr lifit“.[1])

Hetjukvæðin eru eigi annað en skáldleg lýsing af samskonar lífi og sama anda, sem Íslendinga sögur segja frá.

Ekkert band mannlífsins var svo sterkt sem ættartilfinningin. Engin skylda hvíldi svo alvarlega á mönnum sem hefndarskyldan. En jafnframt þessu verður að gæta að því, að geðshræringar manna voru sterkar og ofsafengnar. Egill Skallagrímsson þrútnaði svo af sorg eptir Böðvar son sinn að kyrtill hans og hosur rifnuðu af honum.[2]) Flosa

[1]) Sig. sk. 8–12/248–49. [2]) Eg. 78/284.

Þórðarsyni brá svo við eggjan Hildigunnar, að hann varð í andliti stundum rauður sem blóð, stundum fölur sem gras, en stundum blár sem hel.[1]) Hávarður Ísfirðingur lagðist af sorg í rekkju eptir fall Ólafs sonar síns, en varð „kátr ok glaðr sem ungr væri“, er hann hafði hefnt hans.[2])

Skapferli manna var eigi svo samsett, sem nú á dögum, innra líf þeirra eigi svo sundrað og tvístrað af hugleiðingum og úttaugað af menningu. Menn voru svipaðir börnum eða unglingum. Þeir skynjuðu einn hlut í einu og voru allir með lífi og sál við það, sem greip hug þeirra í hvert sinn. Menn voru einráðir og einþykkir. Sjálfræði og stórmenska var opt efst á baugi. Ástríður manna voru óbilgjarnar og æðisgengnar. Þess vegna vega þeir menn með köldu blóði, þá er því er að skipta, þangað til hefndartilfinningin er orðin mett, eða óvinirnir allir fallnir.

Menn voru vanir við áreynslu, hraustir og harðfengir, en vandir að virðingu upp á sinn hátt. Virðing manna þótti í veði, ef einhvers var óhefnt eða hann „lá óbættr“. Það þótti svo lítilmannlegt og mönnum var jafnan borið það á brýn, ef menn hefndu sín eigi.[3]) Það var þá virt svo sem menn gætu það eigi eða þyrðu eigi, en engin orð eða brígsl þóttu verri en að vera kallaður ragur, og fá jafnvond.[4]) Menn neyttu líka allrar orku og allra bragða, bæði drengilegra og ódrengilegra, til þess að hefna sín. Fyrirsát og svik voru tíð.[5]) Menn rjeðust að óvinum sínum á næturþeli eða þá er minst varir og opt með ofurefli liðs. Enginn er óhultur um líf sitt. Allir ganga því

---

[1]) Nj. 116/595. [2]) Háv. 5/14. 13/35. [3]) Sbr. Eyrb. 37/65; Nj. 119/611, 123/640; Reyk. 16/78; Þorst. st. 79; Þorst. Síð. 228. [4]) Grág. II, 392, I b, 184. [5]) Sbr. t. a. m. Eyrb. 29/51, 32/57; Eg. 83/310—11; Lax. 48/187, 49/189—91; Korm 5/10—12; Ljósv. 31/248; Reyk. 6/29, 29/140; V.-Ljót. 3/171, 5/181—83, 6/186—87; Dropl.[2] 9/159; Nj. 61/279, 69/317, 92/478, 98/513, 102/537; Hæns. 15/175—77; Bj. Hít. 18/39, 26/53, 30—32/63—69; Eyrb. 32/57, 36/64, 37/67—68; Glúm 20—21/58—59, 27/82, 28/86; Ljósv. 13/163; Reyk. 2/9—11, 18/91—93, 21/107—9, 22/109—112, 26/127—34, 27/135—36, 30/143—46; V.-Ljót. 4/175; Gunn. þ.[2] 3/201—202; Gunnl. 12/269. Því miður er það eigi rjett, sem Jón Jónsson segir, að „drenglyndið og mannúðin“ komi hvarvetna fram í deilum Íslendinga. Ísl. þjóðerni bls. 79.

vopnaðir. Allir verða að vera varir um sig. Menn verða tortryggir, því að loptið er fult af vjelráðum En fyrir því voru menn einnig opt mjög auðtrúa, þá er þeim var sagt eitthvað ilt af einhverjum, svo að undarlega ljett veitti að rægja menn saman, t. a. m. Merði að rægja Höskuld Hvítanesgoða við Njálssyni, ef Njáls saga segir rjett frá því. Sjerhver skapraun hafði djúp áhrif á menn, læsir sig í hugann og festi rætur. Það var eins og menn starblíndu á hverja mótgjörð og gætu eigi snúið huganum frá henni. Menn eiga erfitt með að losa sig við þá hugmynd, sem þeir hafa eitt sinn fengið, eða við það, sem þeir hafa sett sjer fyrir eða tekið í sig, fyr en þeir hafa framkvæmt það og unnið jafnvel mikið óhappaverk. En af slíku spratt heipt og hefnd, og með því að öxin var skjótt á lopti, unnu menn opt í bræði og af ofsa ýms illvirki og hefndarverk, sem þeir iðruðust opt á eptir.

En í sambandi við þær ástæður, sem nú eru nefndar, megum vjer skilja þá atburði og vígaferlin, sem urðu á söguöldinni.

---

## Ættasögur. Fyrstu lögsögumennirnir.

Engin þjóð á að tiltölu eins margar ættasögur eins og Íslendingar; engin þjóð þekkir heldur eins vel sögu einstakra ætta og heimila eins og Íslendingar. Saga vor á söguöldinni er að vissu leyti miklu fremur saga einstakra ætta eða manna, hjeraða eða heimila, en þjóðarsaga eða landssaga.

Hjá öðrum siðuðum þjóðum var um þetta leyti — eins og enn er títt — konungsstjórn, og saga konunganna er meginþátturinn í sögu þeirra. Saga Íslendinga er því um

langt skeið harðla ólík sögu annara þjóða. Hjá oss var engin landsstjórn, sem sameinaði alt landið, heldur greindust yfirráðin milli margra höfðingja, að því leyti sem þau voru lögum bundin, svo sem dómnefna og þingstjórn. Vígaferlin og deilurnar voru því sjaldan víðtækari en svo, að þær snertu að eins einstaka menn eða ættir, eða einstök heimili eða hjeruð. Þeir atburðir, sem náðu til allra landsmanna, voru að tiltölu við hina heldur fáir.

En saga vor er engu ómerkari fyrir þetta. Næstu hundrað árin eptir setningu alþingis eru mjög söguríк, einkum þá er kemur fram á síðari hluta 10. aldar. Á allri söguöldinni voru uppi tiltölulega margir nýtir og göfgir menn, hraustir og duglegir. „Það hefur tæplega til verið nokkuð þjóðfjelag, sem hefur átt í hlutfalli við fólksfjöldann svo margar göfgar ættir, svo mikið kyngöfgi, svo mikið göfugt blóð sem hið íslenska þjóðfjelag á fyrstu öldunum eptir landnám“.[1])

Eptir landnámsöld, þá er Hrafn Hængsson var lögsögumaður, eru þeir Mörður gigja, Jörundur goði, Geir goði og Þorsteinn Ingólfsson taldir í Landnámu mestir höfðingjar á Suðurlandi. Eflaust hefði verið rjettara að telja hjer Teit Ketilbjarnarson móðurbróður Geirs goða í stað hans, því að hann var höfðingi um það leyti sem Hrafn Hængsson var lögsögumaður, en Geir goði var höfðingi á síðara hluta 10. aldar. Í Borgarfirðinum eru þeir Tungu-Oddur og Egill Skallagrímsson taldir mestir höfðingjar, en Þorgrímur Kjallaksson og Þórður gellir við Breiðafjörð; á Norðurlandi þeir Miðfjarðar-Skeggi, Þorsteinn Ingimundarson, Goðdælir, Hjaltasynir, Eyjólfur Valgerðarson og Áskell goði, en í Austfirðingafjórðungi Þorsteinn hvíti, Hrafnkell Freysgoði, Þorsteinn Böðvarsson, faðir Síðu-Halls, og Þórður Freysgoði.[2])

Þá er skýra á frá hinum merkustu atburðum í bygðum

---

[1]) Sars. Hist. I. 214—15; sbr. Guðbr. Vigfússon, Safn I. 296.
[2]) Ldn. 15,321.

landsins, verður glöggast að fara eptir hjeruðunum; er þa einfaldast að halda sömu leið kring um landið, eins og áður þá er skýrt var frá landnámunum. En sá er munurinn að nú má fara miklu hraðar yfir. Það þarf eigi að koma við í hverri sveit, heldur að eins í einstaka hjeraði, en viðstaðan verður að vísu sumstaðar nokkru lengri. Úr mörgum sveitum eru engar sögur, og úr sumum hinum mestu hjeruðum landsins, svo sem t.a.m. Skagafirði, eru mjög fá tíðindi kunn frá allri söguöldinni. Auk þess verður einungis skýrt frá helstu atburðunum og hinum merkustu mönnum, sem við þá voru riðnir.

Úr landnámi Ingólfs eru litlar sögur. Þorsteinn sonur hans setti Kjalarnesþing á stofn og hann varð alsherjargoði, er alþingi var sett, eins og þegar er getið, en annars fara engar sögur af honum. Hann hefur eflaust verið mikill höfðingi og friðsemdarmaður sem faðir hans.

Fyrir austan heiði rjett hjá landnámi Ingólfs var alþingi háð. Þingvellir urðu nú hjartastaður landsins. Þar var höfuðból allra landsmála og dómsstarfa. Þangað komu höfðingjar og bændur og menn með þeim af öllu landinu. Þar var fjör á ferðum í júnímánuði ár hvert, þær tvær vikur, sem alþingi stóð yfir.

Lögsögumaðurinn var að ýmsu leyti formaður alþingis. Hrafn Hængsson varð það fyrstur manna. Hann hafði tvo um fimtugt, er hann varð lögsögumaður, og hafði lögsögu á hendi í tuttugu ár (930—949). Af honum fara engar sögur og mun hann hafa verið spakur höfðingi.[1])

Eptir Hrafn tók Þórarinn Ragabróðir við lögsögu og hafði í tuttugu ár (950—969). Hann var sonur Óleifs hjalta landnámsmanns.[2]) Hann bjó að Varmalæk í Andakílshrepp í Borgarfirði, en flutti suður að Laugarnesi við Reykjavík, á meðan Glúmur bróðir hans var kvongaður Hallgerði langbrók Höskuldsdóttur (um 960). Þórarinn var „stórvitr“ maður. Hann kemur við Njáls sögu að því leyti sem kvonfang

---

[1]) Íslb. 3/6; Eg. 23/71—72; Ldn. 3/282; Ísl. I, 337; sbr. Safn II, 13—14 og að framan I, 91. [2]) Sbr. að framan I, 115—116.

bróður hans snertir, en lítið við aðrar sögur.[1] Á meðan hann hafði lögsögu bar Þórður gellir upp nýmæli sitt. Þórarinn átti Þórdísi Ólafsdóttur systur hans.

Þá var Þorkell máni Þorsteinsson Ingólfssonar lögsögumaður í fimtán ár (970—984).[2] Hann var einn af hinum helstu höfðingjum á Suðurlandi á sinni tíð,[3] og honum er við brugðið sökum rjettlætis og siðgæðis. Hann var því opt tekinn gjörðarmaður.[4] Hann hefur auðsjáanlega verið djúpvitur maður og tekið allmikinn þátt í löggjöf landsins.[5] Þótt hann væri goði og alsherjargoði mun hann hvorki hafa átt hof nje blótað heiðin goð. Hann mun hafa trúað á þann guð, sem hafði skapað sólina, því að hann ljet bera sig í sólargeisla í banasótt sinni, og fal sig á hendi þeim guði, er sólina hafði skapað. Hann lifði svo hreinlega sem þeir kristnir menn, er best eru siðaðir.[6]

Þessir þrír lögsögumenn munu allir hafa haldið lögsögu til dauðadags.

---

## Egill Skallagrímsson.

Í Borgarfirðinum voru þeir feðgar Skallagrímur og Egill að Borg merkastir menn um 930. Skallagrímur var þá farinn mjög, enda var hann nærri áttræður að aldri, en Egill sonur hans var um þrítugt og í hinum mesta uppgangi. Hann var þá einn á lífi af sonum Skallagríms, því að Þórólfur, sem var hjer um bil 12 árum eldri en Egill, var fallinn, þá er hingað er komið sögunni, en flest börn Skallagríms höfðu andast á unga aldri

Þeir bræður Þórólfur og Egill voru báðir miklir menn og sterkir, en þó mjög ólíkir. Þórólfur var fríður sýnum og

---

1) Nj. 13—17 57—75; Íslb. 3,6; Eg. 29,95; Ldn. 20 59, 19 117, sbr. Safn II. 14. 2) Íslb. 5 8. 3) Krist., Bps. I. 1 4. 4) Sbr. Harð. 10,27—29. 5) Íslb. 4,7; Grett. 12 33—34. 6) Ldn. 9 38; sbr. Safn II. 14.

vinsæll, en Egill var ljótur og svartur á hár og líkur föður sínum. Þegar á unglingsaldri var hann svo mikill og sterkur, að hann þótti bera langt af öðrum mönnum. Hann var illur viðureignar í uppvexti, kappsamur og reiðigjarn, óbilgjarn og svo óvæginn, að hann þoldi enga mótgjörð. Fyrir því vildi Þórólfur, sem hafði dvalið lengi erlendis þá er Egill var á barnsaldri, eigi lofa honum að fara utan með sjer; en Egill gerði þá bróður sínum þann óskunda, að honum þótti ráðlegast að láta undan honum.

Í Noregi drap Egill Bárð, ármann Eiríks konungs blóðaxar, og varð því fyrir reiði konungs og Gunnhildar drotningar, þótt Þórir hersir kæmi honum þá í sætt við konung. Voru þetta upptökin að löngum fjandskap milli Egils annars vegar en Eiríks konungs og Gunnhildar drotningar hins vegar; vaknaði þá upp hinn forni fjandskapur, sem verið hafði á milli feðra þeirra.

Þeir bræður Þórólfur og Egill voru á vetrin með Þóri hersi Hróaldssyni, æskuvini Skallagríms. Þar kyntist Egill Arinbirni syni hans og gerðist með þeim vinátta mikil. Á sumrin fóru þeir bræður í víking suður um Eystrasalt og eru allmiklar sagnir af því. Þá var það eitt sinn að Egill hitti Eyvind skreyju fyrir Jótlandssíðu. Hann var bróðir Gunnhildar drotningar að sögn Egils sögu. Þeir bræður áttu honum grátt að gjalda, og rjeðst Egill þegar á hann; drap hann af honum margt manna, en Eyvindur varð að hlaupa fyrir borð og bjarga sjer með sundi til lands. Eptir þetta þótti Þórólfi eigi ráðlegt að halda til Noregs um haustið. Þeir bræður sigldu þá suður með Fríslandi og Flæmingjalandi og fóru á fund Aðalsteins Englakonungs. Með honum börðust þeir á Vínheiði við Vínuskóga (925 eða 926), og fjell Þórólfur þar eptir fræga framgöngu. Bardaginn á Vínheiði er orusta sú, sem *Simeon* frá *Durham* getur um, að staðið hafi við *Vendune* á milli Aðalsteins konungs og Ólafs konungs og Constantíns Skotakonungs, og þýðir *dun* heiði.[1]) Egill dvaldi einn vetur með Aðalsteini eptir

---

[1]) Simeon. Dunelmensis ecclesia í Monum. hist. Britannica I, bls.

fall Þórólfs, en síðan fór hann til Noregs og fjekk Ásgerðar Bjarnardóttur hölds, ekkju Þórólfs bróður síns. Sumarið eptir fór Egill með konu sinni til Íslands (um 927) og hafði hann þá verið utan tólf vetur að því, er segir í sögu hans. Varð Skallagrímur þá feginn heimkomu hans.[1])

Egill tók nú við búsýslu og fjárforráðum með föður sínum og gerðist hinn mesti búhöldur. Á þessum árum var alþingi sett, og mun Skallagrímur eða Egill þá hafa fengið goðorð og þátt í löggjöf og landsstjórninni; höfðu þeir feðgar höfðingsskap til þess, og einnig er þess getið um Egil að hann hafi „farið með goðorð ok mannaforráð". Þó kemar hann lítið við sögur og deilur manna hjer á landi. Hann var eigi íhlutunarsamur um mál manna, og aðrir menn sýndu honum eigi heldur neinn ójöfnuð, enda mun fæstum hafa þótt árennilegt að leita á hann. Að eins einu sinni er þess getið að hann tæki þátt í deilu nokkurri í Borgarfirðinum, eins og síðar mun sagt. Hann var þá mjög harður í kröfum við mótstöðumenn sína; kom þar fram hið sama skap hans sem endranær.[2]) Allar hinar miklu deilur Egils gerðust erlendis og þar vann hann hreystiverk sín og flest frægðarverk. Egill var fjegjarn og vildi eigi láta hlut sinn fyrir neinum. Fyrir því átti hann í miklum deilum við nokkra venslamenn sína í Noregi út af jarðeignum, sem hann sagði að Ásgerður kona sín hefði átt að fá eptir föður sinn; en menn þessir stóðu í miklu vinfengi við Eirík konung og Gunnhildi drotningu og nutu styrks þeirra.

Þá er Björn höldur Brynjólfsson, faðir Ásgerðar konu Egils, var andaður, tók Bergönundur Þorgeirsson tengdasonur hans alt fje hans, lönd og lausa aura, undir sig. En er Egill frjetti það, fór hann utan og kona hans á fund Arinbjarnar vinar síns (um 933). Bergönundur var ranglátur maður og fjegjarn og tók mjög illa kröfum Egils um að skipta arfi eptir Björn höld með dætrum hans. Egill

686. Sbr. W. F. Skene. Celtic Scotland I. 358. Finnur Jónsson. Egils saga. Fortale. bls. LXXII. [1]) Eg. 40—56 126—183. [2]) Eg. 56 184. 66 245. 78,287. 84 302 o. ef.

stefndi honum þá til Gulaþings, og er það mál mjög frægt orðið, af því að við þetta tækifæri segir í fyrsta sinn nokkuð af skipulagi Gulaþings. Egill náði þar eigi lögum af Bergönundi sökum ofríkis Gunnhildar drotningar og Eiríks konungs; en hann bannaði Bergönundi og öllum öðrum að byggja og vinna jarðir þær, sem Björn höldur hafði átt, og hjelt burtu af þinginu. Konungur veitti Egli þá eptirför og ætlaði að taka hann af lífi. Egill komst undan og drap um leið einn hirðmann konungs og frænda; en konungsmenn rændu kaupskip Egils og brendu, og drápu tíu menn af honum. Arinbjörn gaf þá Egli skip til heimferðar, en konungur gerði hann útlægan um endilangan Noreg. Egill hefndi sín harðlega áður en hann fór til Íslands. Hann drap Bergönund og þrjátíu menn aðra og rændi miklu fje. Á meðal þeirra, er lífið ljetu, var Rögnvaldur sonur Eiríks konungs og nokkrir vinir konungs. Síðan reisti Egill Eiríki konungi og Gunnhildi drotningu níðstöng og sneri níðinu á landvættir Noregs, svo að þær skyldu reka konung og drotningu úr landi. Að því búnu ljet hann í haf og hjelt til Íslands (um 934).[1])

Þá er Egill kom heim, var faðir hans orðinn hrumur af elli; andaðist hann um haustið og var heygður út á Digranesi (um 934).[2])

Egill var nú tvo vetur að Borg, en á öðrum vetri gerðist hann „úkátr“; er sagt að Gunnhildur drotning hafi þá látið efla seið, að Egill skyldi aldrei ró bíða fyr en hún sæi hann. Snemma um sumarið eptir lýsti hann því yfir, að hann vildi til Englands á fund Aðalsteins konungs og vitja heita þeirra, er hann hafði heitið honum; mun það hafa verið hinn sanni tilgangur fararinnar og að fá rjetting máls síns í Noregi, ef hægt væri. Egill fjekk storm í hafi og braut hann skip sitt við Norðymbraland. Þar var þá Eiríkur blóðöx fyrir í Jórvík; hafði hann orðið að flýja úr Noregi, en engin frjett var komin um það til Íslands, því að farbann var milli landanna; hafði Aðalsteinn konungur sett hann

---

[1]) Eg. 56—57/184—209. [2]) Eg. 58/211—12.

þar til forráða og landvarnar. Egill frjetti að Arinbjörn hersir var með konungi, og rjeð hann því af að fara á fund hans, enda þótti honum lítilmannlegt að láta taka sig á flótta. Eptir ráðum Arinbjarnar færði Egill konungi höfuð sitt og fjekk líf náttlangt fyrir fylgi Arinbjarnar. Um nóttina orti Egill að ráði Arinbjarnar kvæði um konung til þess að mýkja skap hans, og flutti hann það daginn eptir fyrir konungi með miklum skörungsskap. Kvæðið er enn til og heitir Höfuðlausn.

Eiríki konungi þótti nú níðingsverk að láta drepa Egil og gaf honum því höfuð sitt, en sættist þó eigi við hann. Fjekk Egill að fara frá konungi heill á hófi og átti hann þar Arinbirni líf að launa.[1])

Frá Jórvík hjelt Egill á fund Aðalsteins konungs, og síðan til Noregs. Þar náði hann þá jörðum þeim, sem Ásgerður kona hans átti að fá eptir föður sinn, og leyfði Hákon konungur Aðalsteinsfóstri honum það sökum orðsendingar Aðalsteins konungs. Atli hinn skammi, bróðir Bergönundar, hafði þá tekið þær eptir bróður sinn, en Egill feldi hann í hólmgöngu á Gulaþingi. Í ferð þessari drap Egill Ljót hinn bleika. Hann var hinn versti berserkur

[1]) Eg. 59—61 213—226. Um þennan atburð sbr. Jón prófast Jónsson í Tímariti Bókmfjel. 1895 bls. 181—186 og 202; Halldór Kr. Friðriksson, sama rit 1897, bls 80—81; Björn M. Ólsen, s. st. bls. 88—98, og einkum Finnur Jónsson, Egil Skallagrímsson og Erik Blodokse i Oversigt over Det kgl. danske Videnskabernes Selskabs Forhandlinger 1903, bls. 295—312. En auk þeirra röksemda, sem vísindamenn þessir hafa leitt að skoðunum sínum, má geta þess að Gunnlaugur ormstunga segir í vísu einni, er hann kvað að boðinu í Skáney í Borgarfirði að Aðalráður (eða Alráður) dvaldi ferð hans „austan“ frá Englandi („allra nýztr meðan austan Alráðr farar dvaldi“). Þetta dæmi má bera saman við orð Egils Skallagrímssonar „Vestr fórk of ver“. Hann mátti eins segja að hann færi „vestur“ um haf frá Íslandi til Englands, eins og Gunnlaugur talaði um á Íslandi, að hann færi „austan“ frá Englandi til Íslands. Nokkrar fleiri sannanir og samlíkingar mætti færa að þessu, sem eigi hafa enn verið nefndar, en hjer nægir að geta þess, að þeir Jón prófastur Jónsson og Björn M. Ólsen hafa eigi í hinum fróðlegu ritgjörðum sínum leitt næg rök gegn því, að Egill hafi komið til Norðymbralands frá Íslandi, eins og sagan segir, til þess að geta hrundið frásögn Egils sögu.

og hólmgöngumaður. Egill fjekk þar færi til þess að launa Arinbirni velgjörðir hans nokkru, því að Ljótur hafði skorað á Friðgeir systurson Arinbjarnar til hólmgöngu, eða að gipta sjer systur sína ella; gekk Egill þá á hólm fyrir hann og frelsaði þau systkinin bæði.[1])

Egill hjelt síðan til Íslands og kom heim eptir tveggja ára brottveru (938). Hann dvaldi síðan mörg ár að Borg. En eitt sinn frjetti hann að Arinbjörn væri kominn til Noregs,[2]) og fýsti hann þá að fara á fund hans. Líklega hefur hann einnig viljað reyna að ná þeim jörðum, sem hann þóttist eiga í Noregi eptir Ljót hinn bleika. Egill bjó því skip sitt og sigldi til Noregs og var þar með Arinbirni um veturinn. Hann fjekk Arinbjörn til að fara á fund Hákonar konungs Aðalsteinsfóstra og gera tilkall til jarða Ljóts hins bleika, sem ármenn konungs höfðu tekið undir hann. En konungur tók því máli svo þunglega, að Arinbjörn sá að eigi mundi tjá að leita þess optar. Egill varð mjög „úfrýnn“, er hann heyrði það, en svo var Arinbjörn örlátur, að hann gaf Egli 40 merkur silfurs fyrir jarðir þær, sem Ljótur hinn bleiki hafði átt, og kvað það laun fyrir að Egill hafði leyst líf Friðgeirs frænda síns. Egill tók við fjenu og þakkaði Arinbirni og varð nú glaður.

Um sumarið eptir fór Egill í víking með Arinbirni, en um haustið skildu þeir við Jótland; fór Arinbjörn þá á fund Eiríkssona blóðaxar, því að Hákon konungur hafði stygst við hann, er hann fór með fjárkröfu Egils, svo að honum þótti sjer varla óhætt í Noregi. Egill sigldi þá til Noregs og var um veturinn austur í Vík með Þorsteini Þórusyni, systursyni Arinbjarnar. Fyrir hann fór Egill austur á Vermaland til þess að heimta skatt af Arnviði jarli. För sú var hin mesta hættuför, því að þeir menn, sem Hákon konungur hafði sent á fund jarls, höfðu aldrei komið aptur, og ætluðu menn, eins og raun varð á, að jarl hefði látið

---

[1]) Eg. 62—65/227—245. [2]) Í Egils sögu segir einnig að Egill hafi þá frjett fall Eiríks blóðaxar, en hann fjell 954. Þar er líklega blandað málum, sbr. Tímarit Bókmfjel. 1895, bls. 186—202.

drepa þá. En konungur var reiður við Þorstein sökum þess að Arinbjörn var farinn úr landi, og vildi því senda hann forsending eða gera hann útlægan að öðrum kosti. Egill tókst þá ferðina á hendur og sigraði allar hættur. Hann drap 25 menn, sem Arnviður jarl ljet sitja fyrir honum og komst með skattgjaldið til Noregs. Þá er konungur fjekk skattinn og frjetti hið sanna af ferð Egils, tók hann Þorstein í sætt við sig, og fór um sumarið herferð austur á Vermaland. En Egill hjelt þá til Íslands, er hann hafði ráðstafað jörðum þeim, sem hann átti í Sogni og á Hörðalandi.[1])

Þessa utanferð fór Egill á miðri 10. öld, líklega á árunum 950—952, og var það hin síðasta ferð hans til annara landa. Bar það mest til þess, að hann mátti eigi vera í Noregi af því að hann átti svo sökótt við Noregs konunga. Egill sat því um kyrt að Borg og bjó þar langa æfi og hafði hið mesta rausnarbú. Hann sótti alþingi og aðra mannfundi. Á alþingi átti hann búð, og þar þótti honum gaman að ræða við menn um tíðindi frá öðrum löndum, og segja af stórvirkjum sínum, ef hann var þess spurður. En sjerstaklega skemti hann sjer vel, ef hann hitti þar eitthvert gott skáld og ræður þeirra snerust um skáldskap, því að sjálfur var Egill hið ágætasta skáld að norrænu máli á sinni tíð, og vel að sjer í skáldskaparfræðum.[2])

Um þetta leyti urðu elstu börn Egils frumvaxta. Þorgerður var þeirra elst, og var hún fríð kona og mikil vexti, vitur og heldur skapstór. Hún giptist Ólafi pá Höskuldssyni í Hjarðarholti í Dölum (um 959). Böðvar hjet einn sona Egils. Hann var hinn efnilegasti maður, fríður sýnum, mikill og sterkur svo sem verið hafði Egill og Þórólfur á hans aldri. Egill unni honum mikið og Böðvar var elskur að honum. Eitt sumar hafði Egill keypt mikið af við á kaupstefnu við Hvítá og fluttu húskarlar hans viðinn á áttæring heim að Borg. Eitt sinn fór Böðvar með þeim, en þá vildi svo til á heimleiðinni að þeir fengu útfallsstraum og útsynning á Borgarfirðinum. Í þeim öldugangi,

---

[1]) Eg. 67—76 246—280. [2]) Sbr. Eg. 78/287—289, 78 292.

er þá varð, kafði skipið undir þeim og týndust þeir allir. Daginn eptir spurði Egill þessi tíðindi og reið hann þegar að leita líkama Böðvars. Hann fann lík hans rekið á land, tók það upp og setti í knje sjer og reið út í Digranes til haugs Skallagríms. Hann ljet þá opna hauginn og lagði Böðvar þar niður hjá Skallagrími; er sagt að Egill hafi þá þrútnað svo af harmi, að kyrtillinn rifnaði af honum og svo hosurnar.[1]) Síðan var haugnum lokað aptur. En er Egill kom heim, lagðist hann af sorg í lokrekkju sína, og ætlaði að svelta sig í hel. Ásgerður sendi þá eptir Þorgerði dóttur þeirra og tókst henni að fá föður sinn ofan af fyrirætlan sinni og til að yrkja erfikvæði eptir Böðvar; er fögur frásaga af þessu í Egils sögu. Egill orti þá hið fagra kvæði Sonatorrek, þ. e. sonamissir, eitthvert hið ágætasta kvæði, sem til er í fornum íslenskum eða norrænum skáldskap. Hann hafði litlu áður mist annan son, er Gunnar hjet, og minnist hann þeirra beggja í kvæðinu og kendi það við þá báða. Í upphafi kvæðisins getur hann þess að hann eigi mjög tregt með að hræra tunguna og að yrkja, en er fram leið að yrkja kvæðið, tók Egill að hressast, og er því var lokið, reis hann úr rekkju og settist í öndvegi og færði kvæðið Ásgerði og Þorgerði og hjónum sínum. Síðan ljet hann erfa sonu sína eptir fornri siðvenju; en er Þorgerður fór heim, leiddi Egill hana með gjöfum í brott.[2])

Þetta gerðist um 960 eða rjett eptir það ár.

---

## Brenna Þorkels Blundketilssonar.

Litlu eptir þetta urðu mikil tíðindi í Borgarfirðinum, þá er Hænsa-Þórir brendi inni Þorkel Blundketilsson í Örnólfsdal, eins og áður hefur verið drepið á.

---

[1]) Svo hjet fat það, sem menn höfðu um fótleggina: náði það frá ristinni og upp að hnje. [2]) Eg. 78/282—287, sbr. 66/245—246.

Hænsa-Þórir var snauður maður og eflaust ættsmár, því að ekkert er greint um ætt hans, þótt sjerstök saga sje til af honum. En hann græddi brátt fje af kaupum við menn í ýmsum hjeruðum bæði sunnanlands og norðan. Eitt sinn hafði hann með sjer hæns og seldi þau, og því var hann kallaður Hænsa-Þórir. Hann keypti síðan land að Vatni upp frá Norðtungu í Borgarfirði og reisti þar bú og gjörðist auðmaður mikill, en hann var þó ávalt óvinsæll og illa þokkaður.

Þá bjó í Norðtungu Arngrímur goði Helgason, Högnasonar landnámsmanns. Hann mun að líkindum hafa selt Þóri landið að Vatni, því að Vatn er sami bærinn sem Helgavatn og segir í Landnámu að Helgi faðir Arngríms hafi búið þar.[1]) Þórir reyndi að vinna vináttu og traust Arngríms goða, og bauð honum því barnfóstur. Arngrímur vildi eigi þiggja það í fyrstu, en Þórir bauð þá að gefa sveininum hálft fje sitt, og það fjekk Arngrímur eigi staðist. Fór þá Helgi sonur hans heim með Þóri, en Arngrímur hjálpaði honum síðan í viðskiptum við aðra menn.[2])

Um þetta leyti bjó í Örnólfsdal Þorkell Blundketilsson, Örnólfssonar landnámsmanns.[3]) Hann var auðugur maður og vinsæll, og átti mörg leigulönd. Sumar eitt (líklega 961) var lítill grasvöxtur og urðu sumir landsetar Þorkels þá heyþrota og leituðu hjálpar hjá honum. Þorkell hjálpaði þeim á meðan hann gat, en þá er kom fram á einmánuð, gat hann eigi hjálpað tveimur landsetum, sem leituðu til hans. Fyrir bænastað þeirra fór hann þá á fund Hænsa-Þóris að fala af honum hey til sölu en hann tók því illa og vildi engan greiða á gera, þótt tvöfalt verð væri í boði. Þorkell tók þá að lokum hey nokkuð hjá Þóri og lagði verð í staðinn, en ætlaði á áður að Þórir skyldi hafa nóg fóður til fjár síns, þó að algjafta væri til alþingis.[4])

---

[1]) Ldn. 2 68. Í Hæns. 2 125 segir að bærinn hafi fengið nafn af Helga syni Arngríms goða. [2]) Hæns. 1—2 122—25. [3]) Íslb. 5 7; Mb., Ldn.[2] 245; Ldn. 2 67. Sbr. að framan I. 120; Maurer, Über die Hænsa-Þóris saga, bls. 181—189 (í sjerpr., bls. 25—33); Björn M. Olsen, Aarb. f. n. Oldkh. 1905, bls. 63—72. Um bæi þá, sem hjer eru nefndir, sjá Kålund, Isl. I, 356—359. [4]) Hæns. 1 124. 4 131—5 140.

Þórir fór nú í Norðtungu og kærði Þorkel fyrir rán, en Arngrímur goði vildi eigi skerast í málið, þá er Helgi sonur hans sagði honum hið sanna um málavexti. Þórir reyndi þá að fá Tungu-Odd til að ganga í málið, en þótt hann bæri þungan hug til Þorkels, fór það á sömu leið, er hann heyrði hvernig farið hefði með þeim Þóri.

Nokkru síðar kom Þorvaldur Tungu-Oddsson að Norðtungu. Hann hafði verið í förum og komið út um sumarið fyrir norðan land og vistaðist þar um veturinn. Hann var nú á heimleið og hitti Þórir hann að máli í Norðtungu, og bauð honum þegar hálft fje sitt til þess að taka að sjer málið á hendur Þorkeli Blundketilssyni. Þorvaldur ljet leiðast til þess þrátt fyrir aðvörun Arngríms goða; en síðan ætlaði hann að ráðgast um við föður sinn um meðferð málsins. Þessu fjekk hann eigi ráðið fyrir Þóri; vildi hann eigi annað en að þeir færu þegar og stefndu Þorkeli um rán. Þeir fóru því daginn eptir í Örnólfsdal. Þorkell bauð enn hin bestu sáttaboð, og vildi Þorvaldur taka þeim, en Þórir bannaði það. Þorvaldur stefndi því Þorkeli um rán og hafði um frek ummæli. Þetta særði Þorkel sem von var, svo að hann brá litum. Hann sneri þá heim að húsum og mætti Austmanni nokkrum, er Örn hjet og var hjá honum um veturinn. Hann sá að Þorkell var rauður sem blóð og spurði hvort hann væri sár. Þorkell neitaði því, en sagði að þau orð, sem hefðu verið töluð við sig, væru eigi betri en sár, því að hann hefði verið kallaður þjófur og ránsmaður. Þorkell hafði sýnt Erni mikinn drengskap um sumarið og boðið honum vist hjá sjer, þá er Tungu-Oddur vildi beita hann ójöfnuði og banna honum kaup við menn. Örn vildi því launa Þorkeli hjálp hans, tók boga sinn, lagði ör á streng og skaut í flokk þeirra Þóris, er þeir riðu brott. En fyrir skotinu varð sá, er síðst skyldi, sveinninn Helgi Arngrímsson, og seig hann niður af hestinum. Þeir hlupu að honum, en Þórir hratt mönnum frá og laut niður að sveininum, og var hann þá dauður. Síðan rjettist hann frá honum og sagði að sveinninn hefði talað við sig og sagt þrisvar þessi orð: „brenni, brenni Þorkel inni“. Arngrímur kvaðst

eigi vita hvað sveinninn hefði sagt, en þó fór svo að Þórir kom vilja sínum fram. Þeir Arngrímur riðu burtu uns þeir komu í hvarf; þá stigu þeir af baki og biðu þangað til náttaði. Síðan riðu þeir aptur í Örnólfsdal, drógu viðarköst að bænum og kveiktu í; brendu þeir þar Þorkel inni og hvert mannsbarn, er í bænum var (líkl. 962).

Þorkels brenna Blundketilssonar var eitthvert hið langversta verk, sem unnið var í heiðni hjer á landi, og hin frægasta brenna fyrir Njálsbrennu. Slíkt verk hlaut að hafa miklar afleiðingar í för með sjer, því að þungar hefndir komu fram fyrir minna. Svo vildi líka til að Hersteinn sonur Þorkels hafði komist lífs af. Kveldið áður en brennan var, hafði hann farið að heiman til fóstra síns, er Þorbjörn hjet, og var hann hjá honum um nóttina. Þá er hann sá hvað um var að vera, fjekk hann með fóstra sínum Þorkel trefil Rauðabjarnarson í Svignaskarði til þess að veita sjer lið. Hann kom þeim Gunnari Hlífarsyni og Þórði gelli í málið með því að koma þegar á mægðum milli þeirra og Hersteins, sem gekk að eiga Þórunni Gunnarsdóttur.[1]) Hins vegar veitti Tungu-Oddur þeim Þorvaldi syni sínum. Drógu þeir hvorirtveggja meira lið saman en dæmi eru til á Íslandi við slík tækifæri á 10. öld.[2]) og sýnir það af hve miklu kappi málið var sótt og varið. Að lokum var það dæmt á alþingi, og báru þeir Þórður gellir sigur úr býtum. Brennumenn urðu sekir og Þorvaldur Oddssón dæmdur af landi brott í þrjá vetur. Hænsa-Þórir hafði horfið á brott fyrir þing; ætlaði hann að svíkjast að Hersteini, því að hann var veikur og gat eigi riðið á þing jafnsnemma sem aðrir. En Hersteinn var manna skygnastur og fjekk sjeð fyrirsát hans, og kallaði á menn sína; var þá Þórir tekinn og menn hans, og hjó Hersteinn af honum höfuðið [3])

---

[1]) Sbr. að framan, bls. 61. Hún er nefnd Þórunn í Íslb., Ldn. og Lax, en Þuríður í Hæns. Hæns. 10–11/155—165. Frásögn Hænsa-Þóris sögu 9/153—54, um að Þorbjörn hafi fengið Tungu-Odd til að koma þegar fyrir dag í Örnólfsdal morguninn eptir brennuna, getur eigi verið rjett, sbr. Kålund, Isl. I. 337, aths. 2. [2]) Hæns. 13 168—169, 14 171—172. [3]) Hæns. 15/174—178.

Eptirmál þetta hafði mikla þýðingu fyrir hið unga þjóðfjelag á Íslandi, því að með því komust menn að raun um, hve erfitt gat verið að ná rjetti sínum, er menn urðu að leita hans á næsta þingi við vettvang, eins og ákveðið var í Úlfljótslögum. Til þess að ráða bót á þessu, bar Þórður gellir upp laganýmæli sín, eins og fyr er sagt.

---

## Æfilok Egils Skallagrímssonar; deilur Þorsteins Egilssonar og Steinars Önundarsonar.

Egill Skallagrímsson kom eigi við brennumálið milli þeirra Þórðar gellis og Tungu-Odds svo getið sje. En það má geta nærri, að hann hefði verið kvaddur liðs og eigi heldur setið hjá, ef það hefði verið Blundketill Geirsson, sonur Þórunnar systur hans,[1]) sem var brendur inni í Örnólfsdal, eins og segir í Hænsa-Þóris sögu og Landnámabókum þeirra Sturlu Þórðarsonar og Hauks Erlendssonar. Egill var um þetta leyti mestur höfðingi í Borgarfirðinum, en hann kom lítið við mál manna, nema einu sinni á elliárum sínum, enda átti þá Þorsteinn sonur hans hlut að máli.

Þorsteinn var yngstur barna Egils.[2]) Hann var allra manna fríðastur sýnum, hvítur á hár og bjartur álitum, mikill og sterkur, en þó eigi eptir því sem faðir hans var. Þorsteinn var vitur maður og kyrlátur, hógvær og stiltur. Hann naut ástríkis móður sinnar, en ekki föður. Þorsteinn kvongaðist þá er hann var rúmlega tvítugur og fjekk Jófríðar Gunnarsdóttur Hlífarsonar. Fáum árum síðar andaðist Ásgerður móðir hans. Egill brá þá búi og seldi í hendur Þorsteini, en fór sjálfur suður til Mosfells í Mosfellssveit til Þórdísar Þórólfsdóttur, stjúpdóttur sinnar,

[1]) Sbr. Eg. 39/121; Ldn. 20/60 [2]) Eg. 66/246.

sem hann unni mikið og gipt var Grími Svertingssyni. Þar dvaldi hann þangað til hann andaðist í hárri elli, á níræðisaldri (um 983) og var hann þá orðinn sjónlaus.[1])

Skömmu eptir að Egill ljet af búskap, hófust deilur milli Þorsteins og Steinars að Ánabrekku út af beit í Staksmýri. Hún liggur í Borgarlandi fyrir sunnan Háfslæk, en hann ræður landamerkjum milli Borgar og Ánabrekku. Steinarr var sonur Önundar sjóna Ánasonar og hafði tekið við búi af föður sínum. Steinarr var uppivöðslumaður mikill, ódæll og harðfengur, og varð því þegar fátt með þeim Þorsteini. Í Staksmýri var ágæt beit fyrir nautpening, og gengu nautgripir Steinars þar á vorum, er þeir voru reknir að Háfslæk. Húskarlar Þorsteins vönduðu um það, en Steinarr, sem var bæði mikill og sterkur, gaf að því engan gaum. Vorið eptir beitti Steinarr nautum sínum í mýrina og bað þá Þorsteinn hann sjálfur að beita búfje sínu eins og að fornu hefði verið. Steinarr kvað fjeð mundu ganga, þar sem það vildi. Þorsteinn ljet þá hnekkja nautunum út yfir Háfslæk, en Steinarr ljet þá þræl einn sitja að nautunum á Staksmýri. Þetta var um heyannir og beittust þá upp engjarnar fyrir sunnan Háfslæk. Einn dag fór því Þorsteinn og drap þræl Steinars. En Steinarr hjelt áfram uppteknum hætti, og hið næsta sumar vá Þorsteinn aptur fyrir honum þræl einn, mikinn og sterkan, sem beitti nautunum á Staksmýri. Steinarr reið þá til Borgar og hitti Þorstein að máli En hann kvaðst mundu láta Steinar hafa beit um sumarið sem hann vildi fyrir þrælsvígið, eins og hann hefði gert sumarið áður. Ef hann ljeti reka naut hið næsta sumar í land sitt, mundi hann aptur drepa mann fyrir honum, og það þótt hann sjálfur fylgdi nautunum.

Steinarr fjekk þá Einar goðorðsmann í Stafholti og Tungu-Odd í lið með sjer og gaf þeim fje fyrir. Með styrk þeirra stefndi hann Þorsteini vorið eptir um þræladrápið. Þorsteinn sendi þá menn suður að Mosfelli til Egils föður síns, að segja honum af viðskiptum þeirra Steinars.

---

[1]) Eg. 79 293—94, 85 316—320; Gunnl. 1 190.

Sjálfur fjölmenti Þorsteinn mjög til vorþings og kom þangað nótt fyr en aðrir menn, og tjölduðu þeir allir búðir sínar, er búðir áttu. Síðan ljet hann þingmannalið sitt gera mikla búðarveggi og tjalda búð mikla, en engir menn voru í búð þeirri. Steinarr og styrktarmenn hans komu allir fjölmennir á þing, og hófst síðan þingið. En er menn voru gengnir í þingbrekku og mæltu málum sínum, reið Egill Skallagrímsson á þing með 80 manna alvopnaða. Hafði hann dregið að sjer hina bestu bændasyni af nesjunum syðra, þá er honum þótti víglegastir, og riðið með þá vestur í Borgarfjörð til að veita Þorsteini syni sínum. Þorsteinn fagnaði vel föður sínum og ljet bera inn farangur hans í búð þá, er hann hafði látið tjalda og auð var. Síðan gengu þeir Egill og Þorsteinn í þingbrekku með flokkinn allan, og spurði Egill hvort Önundur sjóni væri þar. Hann sagði til sín og kvaðst feginn komu Egils; hefði hann beðið Steinar son sinn að sættast við Þorstein. Þeir Egill og Önundur voru gamlir vinir, og hafði Önundur verið í förum með Egli.[1]) Egill talaði síðan svo um fyrir Önundi þar á þinginu, að hann fjekk Steinar til þess að selja sjer málið í hendur, en hann gaf Egli óskorað leyfi til þess að gera einn um það. Þetta traust notaði Egill eigi vel, því að daginn eptir, er hann sagði upp í þingbrekku sættargjörð sína milli þeirra Steinars og Þorsteins, dæmdi hann Ánabrekkuland endurgjaldlaust af Steinari fyrir það, að „hann hugðist ræna mundu Þorstein landeign sinni;“ skyldi Steinarr eigi hafa bústað nje vistafar í Borgarfirðinum fyrir sunnan Langá, og falla óheilagur fyrir Þorsteini og mönnum hans þegar eptir fardaga, ef hann vildi eigi fara brott. Önundi þótti gjörð þessi heldur skökk, og mundi hann því eigi spara að gera Þorsteini til óþurftar.[2])

Þetta var um 975—978.

Steinarr varð að flytja búferlum út yfir Langá og settist að Leirulæk. Hann sat síðan um líf Þorsteins og barðist við hann, en sökum þess bauð Þorsteinn honum að færa

---

[1]) Eg. 67/246. [2]) Eg. 80—82/295—309.

enn bústað sinn um Borgarhraun. Sá Steinarr eigi annað vænna en að gjöra það, og flutti hann þá að Elliða í Staðarsveit í Snæfellsnessýslu[1]), og lauk þá viðskiptum þeirra Þorsteins.

---

## Deilur Þórsnesinga og Kjalleklinga.
## Þorsteinn surtur og tímatalið.

Við Breiðafjörðinn eru sögurikar sveitir, einkum norðan á Snæfellsnesinu og inni í Dölum.

Sunnan við Breiðafjörð voru niðjar Þórólfs Mostrarskeggs og Bjarnar hins austræna merkastir. Þórólfur hafði kvongast í elli og eignast son, sem hann kallaði Þorstein og síðan var nefndur þorskabítur; hann var jafnan í fiskiróðrum. Þórólfur ól einnig upp Þorstein Hallsteinsson sonarson sinn og kallaði hann surt. En er Þorsteinn þorskabítur var á barnsaldri, andaðist faðir hans (um 918), og segir í Eyrbyggju að hann tæki þá föðurleifð sína. Unnur móðir hans og Þorsteinn surtur frændi hans munu þó í fyrstu hafa haft öll forráð fyrir búi föður hans, þótt þess sje eigi getið. Þorsteinn þorskabítur var bráðger og hefur hann að líkindum tekið sjálfur við búi og goðorði föður síns um það leyti sem Úlfljótslög voru sett. Hann gekk því næst að eiga Þóru dóttur Ólafs feilans, en systur Þórðar gellis, er þá bjó í Hvammi.

Þorsteinn þorskabítur var trúmaður sem faðir hans: hann vildi því halda uppi helgi þeirri, sem faðir hans hafði

---

[1]) Eg. 84/311—314. Steinarr var móðurbróðir Kormáks Ögmundssonar og kemur við Kormáks sögu. Hann gekk á hólm við Hólmgöngu-Bersa og vann sigur, en eigi fellur það vel við tímatalið, ef hann hefur gert það á meðan hann bjó á Elliða, eins og segir í Kormáks sögu. Korm. 11—12/21—29, sbr. Safn I, 373—75.

lagt á þingstaðinn hjá Hofstöðum, þar sem „Þórr hafði komið á land með öndvegissúlurnar“. Enginn mátti saurga þann völl, hvorki í heiptarblóði nje með því að ganga þar til erinda sinna. Til þess var haft sker eitt, er Dritsker var kallað, og er það fyrir utan tangann hjá Hofstöðum, þar sem þingið var háð. Þetta þótti þeim frændum Kjalleklingum lýsa miklum ofmetnaði hjá Þorsteini og vildu eigi þola honum það, ef til vill með fram sökum þess að hann var ungur, en þó einkum af því að hann hafði fengið goðorð til forráða, og var höfðingi bæði í hjeraði og á alþingi; en þeir þóttust sjálfir betur til höfðingja fallnir.

Kjalleklingar voru niðjar Bjarnar hins austræna og tóku þeir nafn af syni hans, Kjallak hinum gamla í Bjarnarhöfn.[1]) Fyrir þeim var þá Þorgrímur Kjallaksson; hann var þá ungur að aldri, því að hann andaðist um 980[2]), en hann var þó nokkru eldri en Þorsteinn þorskabítur. Þorgrímur átti þar liðveislu vísa, sem mágar hans voru, Ásgeir Vestarsson á Eyri og Þormóður goði Oddsson á Rauðkollstöðum; sjerstaklega var Ásgeir, sem bjó þar í næstu sveit, hvatamaður að öllum andróðri Kjalleklinga móti Þórsnesingum. Kjalleklingar áttu einnig marga frændur á Meðalfellsströndinni, því að Barna-Kjallakur, bróðurson konu Bjarnar hins austræna[3]), átti marga syni og vel menta; veittu þeir allir frændum sínum fyrir sunnan fjörðinn á þingum og mannfundum. Enginn ættbálkur var þá jafnfjölmennur í Breiðafirði sem Kjalleklingar og fyrir því var ofsi þeirra mikill; þóttust þeir, að því er segir í Eyrbyggju, vera fyrir öðrum mönnum þar í sveit.

Eitt vor á Þórsnesþingi gjörðu þeir Þorgrímur Kjallaksson og Ásgeir á Eyri orð á því, að þeir mundu ganga þar „til álfreka“ sem annars staðar á mannfundum á grasi, og að þeir mundu eigi fara í útsker til þess. Kváðu þeir lönd Þórsnesinga eigi helgari en aðrar jarðir í Breiðafirði. En er Þorsteinn þorskabítur varð þess var, vildi hann eigi þola,

---

[1]) Sjá að framan I, 126—127. [2]) Eyrb, 18/21. [3]) Sjá að framan I, 129—130.

að þeir saurguðu þann völl, er Þórólfur faðir hans hafði tignað um fram aðra staði í landeign sinni. Hann heimti að sjer vini sína og ætlaði að verja þeim völlinn; voru með honum þeir Þorgeir son Geirröðar á Eyri, Álptfirðingarnir Þorfinnur og Þorbrandur son hans, Þórólfur bægifótur og margir aðrir þingmenn Þorsteins. Um kveldið, er Kjalleklingar voru mettir, tóku þeir vopn sín og gengu út í nesið. Þeir sneru af þeim vegi, er til skersins lá, og er þeir Þorsteinn sáu það, hlupu þeir til vopna og runnu eptir þeim með ópi og eggjan. Kjalleklingar hlupu þá saman, en Þórsnesingar gjörðu svo harða atgöngu að þeim, að þeir hrukku af vellinum og í fjöruna. Varð þar mjög harður bardagi, áður en Skógstrendingar með Þorgesti hinum gamla og Áslák úr Langadal fremstum í flokki fengu skilið þá. Kjalleklingar náðu eigi að ganga upp á völlinn, og stigu þeir því á skip og fóru brott af þinginu, áður en griðum varð komið á með þeim, því að hvorugir vildu selja þau. Í bardaganum fjellu menn af hvorumtveggju, en fleiri af Kjalleklingum, því að þeir voru færri, og fjöldi manna varð sár. Völlurinn varð alblóðugur (um 933[1]).

Eptir vorþingið leit ófriðlega út með mönnum. Hvorirtveggju höfðu „setur fjölmennar“. Vinir þeirra beggja sendu þá eptir Þórði gelli Ólafssyni, er var mestur höfðingi í Breiðafirði, og báðu hann að leita um sættir. Þórður var frændi Kjalleklinga og mágur Þorsteins þorskabíts. Hann brá við og fór með marga menn að leita um sættir, og fjekk komið á griðum og stefnulagi. Málalyktir urðu þær, að Þórður skyldi gjöra um mál þeirra; var það eigi vandalaust, því að Kjalleklingar skildu það undan að þeir skyldu aldrei ganga í Dritsker til erinda sinna, og Þorsteinn skildi það til á sína hlið, að Kjalleklingar skyldu eigi saurga völlinn. Kjalleklingar kölluðu þá einnig hafa fallið óhelga, er fjellu fyrir Þorsteini, af því að þeir höfðu fyr farið að þeim með þeim hug að berjast; en Þórsnesingar sögðu að allir Kjalleklingar væru óhelgir fyrir lagabrot það, er þeir gerðu á

[1]) Sbr. Safn I, 334—35.

helguðu þingi. Þórður vildi heldur gera um málið, en að þeir skildu ósáttir. Það var upphaf á gjörð hans að sá skyldi hafa happ, er hlotið hefur: engin víg eða áverka, sem orðið höfðu á Þórsnesi, skyldi bæta, en völlinn kvað hann spiltan af heiptarblóði, og því eigi helgari nú en aðra jörð. Hann sagði það sök þeirra, er fyrri gerðust til áverka, og skar svo úr að þing skyldi eigi vera þar síðan. Til þess að þeir væru vel sáttir og vinir þaðan af, ákvað Þórður, að Þorgrímur Kjallaksson skyldi halda uppi hofinu að helmingi og hafa hálfan hoftoll og þingmenn að helmingi, og veita Þorsteini til allra mála þaðan af, og styrkja hann til, hverja helgi sem hann vildi leggja á þingið, þar sem það yrði sett næst. Enn fremur trygði Þórður gellir sætt þessa með því að gipta Þorgrími Kjallakssyni frændkonu sína, og var hann nú kallaður Þorgrímur goði.

Þeir Þorsteinn færðu síðan þingið „inn í nesið", þar sem það var haldið síðan. Er auðsjáanlega miðað við Breiðafjörð, þá er sagt er frá flutningi þingsins, því að það var sett á tanga einn rjett hjá Þingvöllum[1]). Þann bæ ljet Þorsteinn þorskabítur gjöra, þá er þingið var flutt[2]), og gaf hann síðan Þorsteini surt frænda sínum, og flutti hann þangað. Var mikil helgi lögð á þingstaðinn, en þó var þess gætt að leggja þar eigi á neitt slíkt bann, sem áður hafði vakið ófrið. Þorsteinn þorskabítur reisti einnig fyrst bæ að Helgafelli og flutti þangað búferlum. Hann mun hafa flutt þangað hofið frá Hofstöðum, því að Helgafell er kallað „hofstaðr" á dögum hans (um 935).

Þorsteinn þorskabítur var mesti aflamaður og er sagt að hann hefði með sjer 60 frelsingja. Eitt haust fór hann út í Höskuldsey til fangs, og á þeirri ferð druknaði hann í fiskiróðri, hálfþrítugur að aldri (938 eða 939[3]).

Þorsteinn ljet eptir sig tvo syni. Hinn eldri þeirra hjet

---

[1]) Sbr. W. G. Collingwood and Jón Stefánsson, Saga-steads of Iceland, Ulverston 1899 bls. 95 o. ef. [2]) Sbr. Guðbr. Vigfússon, í N. M. Petersen, Islændernes Færd hjemme og ude. 2. udg. III, 14. nm. [3]) Eyrb. 7—11/8—13; Ldn. 12/97—99.

Börkur og var kallaður hinn digri, en hinn yngri Þorgrímur. Hann var fæddur síðasta sumarið, sem Þorsteinn lifði. Þóra Ólafsdóttir hjelt bú að Helgafelli eptir lát manns síns, en Þorsteinn surtur frændi hennar varðveitti goðorð sona hennar á meðan þeir voru ungir.[1])

Þorsteinn surtur Hallsteinsson var í móðurætt kominn af Katli flatnef. Hann var sonur Óskar Þorsteinsdóttur rauðs og því systkinabarn við ekkjuna að Helgafelli. Þorsteinn bjó lengi á Þingvöllum og var hinn mesti spekingur að viti. Hann var því kallaður hinn spaki. Hann fann sumaraukann og bætti tímatalið.

Hinir spökustu menn á Íslandi hugðu í þá daga að 364 dagar væru í tveim missirum. Það verða 52 vikur rjettar, eða 12 mánuðir þrítugnáttar og fjórir dagar um fram. Þá er kom fram á miðja 10. öldina merktu menn af sólarganginum „at sumar munaþi aptr til várs“, en þá vissi enginn á Íslandi, „at einum degi var fleira í tveim missirum, en heilum vikum gegndi“, og að það olli skekkjunni. En Þorsteinn surtur fann þetta. Ari hinn fróði skýrir frá því og segir að hann hafi dreymt að hann hygðist vera að lögbergi, þá er þar var fjölment og vaka, en hann hugði alla menn aðra sofa; síðan hugðist hann sofna, en alla menn aðra vakna. Ari fróði segir að Ósvífur Helgason hafi ráðið svo draum þennan, að allir menn mundu þegja, á meðan hann mælti að lögbergi, en síðan, er hann þagnaði, mundu allir róma orð hans. Ósvífur Helgason þótti spekingur að viti, en ef það er rjett, að hann hafi ráðið draum þennan, hefur hann hlotið að vera þá mjög ungur að aldri, því að hann andaðist um 1015.[2])

Þá er menn komu til alþingis bar Þorsteinn surtur upp að lögbergi, að hið sjöunda hvert sumar skyldi auka viku, og freista hve þá hlýddi. Þingmenn tóku því allir vel, og var það þegar leitt í lög að ráði Þorkels mána alsherjargoða og annara spakra manna (um 955).[3]) Á þennan hátt varð

---

[1]) Eyrb. 11/12—13. [2]) Sbr. Lax. 66/244; Safn I, 499. [3]) Äldsta delen af Cod. 1812 4to gml. kgl. samling, utg. af Ludvig Larsson. Kbh. 1883, bls. 7—8; Íslb. 4/6—7; Ldn. 23/131; Lax. 6/11. Um árstalið sjá hjer að framan bls, 30. aths. 2; F. Jónsson, Litt. hist. II, 361.

leiðrjett versta skekkjan á hinu forna tímatali, með því að árið var nú 365 dagar að meðaltali, eins og hið hreifanlega ár Forn-Egipta. Með því að auka sjöunda hvert ár viku, vanst það, að halda mátti gamalli venju um sambandið milli mánaðardaga og vikudaga, og að sumarið byrjaði eptirleiðis ávalt á fimtudegi.

Frásagan af tímatalsskekkjunni bendir á að tímatal þetta, 364 daga ár, hafi eigi verið gamalt, því að öðrum kosti hefðu menn hlotið að reka sig á hana fyr. Að öllum líkindum er það eigi eldra á Íslandi en lög Úlfljóts, og mun hann hafa haft það út þangað. Þá er alþingi var sett og landsmenn urðu að ákveða hvaða dag þeir skyldu koma saman af öllu landinu á Þingvöllum til þess að heyja alþingi, urðu þeir að nefna einhvern ákveðinn dag, sem þeir gátu allir fundið eptir sameiginlegu tímatali hve nær væri. Þeir urðu því þá að gera samþykt um tímatalið og ákveða, hve langt árið skyldi talið. Missiristal eða tímatal var síðan alþingismál.[1]) En um miðja öldina, hjer um bil tuttugu árum eptir setningu alþingis sáu menn að árið var of stutt og að sumarið munaði aptur til vorsins. Að menn tóku einmitt þá eptir þessu, styður mjög þá skoðun að tímatalið sje eigi eldra á Íslandi en lög Úlfljóts, enda benda allar ytri ástæður einnig á það. Síðar hafa menn líka hlotið að sjá, að tímatal Þorsteins surts var eigi heldur rjett og að árið var enn of stutt og að enn þurfti að auka það. Mismunurinn á hinu forna íslenska ári og hinu júlíanska ári er hjer um bil $1^1/_4$ dagur og verður það á fimm árum $6^1/_4$ dagur, en $7^1/_2$ dagur á sex árum.

Eptir að kristni var lögtekin, kyntust kennimenn júlíanska tímatalinu. Þeir urðu að læra það til þess að geta reiknað, hve nær hinar kristnu hátíðir skyldi halda og messudaga. Hversdaglega notuðu menn þó hið gamla tímatal; og það var lagað með því að auka 28 ár fimm sinnum með einni viku, í stað þess að það var gert fjórum sinnum eptir nýmæli Þorsteins surts; bættist þá við árið að meðaltali $^1/_4$

[1]) Grág. I a, 37, 112.

ur sólarhring. Vikuauki eða 7 daga innskot á 28 árum er að meðaltali 6 stunda auki á ári. Þá er Ari hinn fróði hefur skýrt frá nýmæli Þorsteins, segir hann, að 365 dagar sjeu að rjettu tali í hverju ári, ef eigi er hlaupár, en þá einum fleira. Þetta sýnir að hann hefur þekt júlíanska tímatalið, og eru næstu orð hans samanburður á því og hinu elsta tímatali Íslendinga, sem Þorsteinn leiðrjetti, „óro tali“, sem Ari nefnir svo; þau eru hugleiðing um nýmæli Þorsteins, en eigi frásögn um það. „At óro tali“ eru 364 dagar í árinu, segir Ari, „en þá es ayesc at óro tali et siaunda hvert at vico, en øngo at hino, þá verþa vii ǫr saman jamnlong at huǫrotueggia, en ef hlaupǫr verþa ii á miþli þeira, es auka scal, þá þarf auca et sétta“.[1]) Eptir að Íslendingar höfðu lært júlíanska tímatalið, tóku þeir að auka árin optar og að því munu orð Ara lúta.

Frá æfilokum Þorsteins surts segir í Laxdælu. Þá er hann var orðinn nokkuð hniginn, en var þó enn hinn hraustasti, ætlaði hann að hjálpa Vigdísi systur sinni og taka við fje hennar á Hrappsstöðum í Laxárdal. Frændur Þorsteins að Helgafelli voru þá frumvaxta menn og höfðu tekið við goðorði sínu. Þorsteinn surtur ætlaði því að flytja sig

---

[1]) Íslb. 4/7. Í hinu forna handriti nr. 1812, 4to í gl. kgl. safni, einhverju hinu elsta íslenska handriti, sem nú er til (frá aldamótunum 1200), er þessu slept, og endar þar frásögn Ara, sem að öðru leyti er þar nærri orðrjett, með því, að segja að „menn tóku vel undir“ tillögu Þorsteins surts, sbr. enn fremur formála útgefandans, L. Larssonar, bls. XXIV—XXVI. Um nýmæli Þorsteins surts sbr. Geelmuyden, Om de gamle Kalendere, særlig Islændernes, i „Naturen“ udg. af C. Krafft, 7. Aarg. 1883, bls. 50—51, og Gustav Bilfinger, Untersuchungen über die Zeitrechnung der alten Germanen. Das altnordische Jahr. Stuttgart 1899, bls. 35—49. Hann ætlar að Úlfljótur hafi haft út júlíanska tímatalið hingað til landsins, og að tímatal Íslendinga — 364 daga ár með aukaviku fimta og sjötta hvert ár, — sem kunnugt er frá þeim tíma, sem sannar sögur eru af, sje eigi annað en einkennileg tegund af júlíanska tímatalinu. Fornnorrænt 364 daga ár innskotslaust segir hann að hafi aldrei verið til, og eigi heldur íslenskt ár með 364 dögum og ófullkomnum sumarauka sjöunda hvert ár, eða eins og það, sem menn ætla að Þorsteinn surtur hafi fundið. Hann færir ýms góð rök fyrir þessu.

búferlum að Hrappsstöðum; var smali rekinn eptir ströndinni, en sjálfur gekk hann á ferju með tólfta mann og bar á hana lausafje sitt. Í þeirri ferð druknaði hann í Kolkistustraum á Breiðafirði (um 960).[1])

---

## Niðjar Þorsteins rauðs. Upphaf Laxdæla.

Af Ólafi feilan Þorsteinssyni fara engar sögur, er hann hafði tekið við arfleifð eptir Auði djúpúðgu ömmu sína, en svo virðist sem Þórður gellir sonur hans hafi tekið mannvirðing um það leyti sem alþingi var sett á stofn, því að hann er talinn mestur höfðingi við Breiðafjörð litlu síðar, er hann sætti Þórsnesinga og Kjalleklinga.[2]) Sagt er að rödd hans hafi verið sem „griðungur gelldi"[3]), enda bendir auknefni hans á að hann hafi verið hároma og raddsterkur. Hann var skörungur mikill og vitsmunamaður, og mun því opt hafa verið leitað til hans að semja um mál manna. Hann var einnig mægður við hina merkustu menn; Þorsteinn þorskabítur, Gunnar Hlífarson og Þórarinn Ragabróðir lögsögumaður áttu systur hans[4]). Af honum var sjerstök saga, sem nú er týnd.[5]) En fyrir því er lítið kunnugt um hann í fullan fjórðung aldar á virðingarárum hans, áður en hann skarst í brennumálið úr Örnólfsdal eins og fyr er sagt.

Á meðan Ólafur feilan bjó í Hvammi, tók Dala-Kollur mágur hans sótt og andaðist. Höskuldur sonur hans var þá á ungum aldri, en með því að hann var snemma gjörvilegur, tók hann við föðurleifð sinni og búi; var þá bær föður hans kendur við hann og kallaður Höskuldsstaðir.

---

[1]) Lax. 10/23—4, 17—18/48—50. [2]) Eyrb. 10/11, sbr. Ldn. 15/321. [3]) Hæns. 13/170. [4]) Ldn. 19/116—117; Lax. 7/15—16. [5]) Ldn. 16/111.

Þorgerður Þorsteinsdóttir móðir Höskulds var þá enn ung kona og fríð sýnum. Hún nam eigi yndi á Íslandi eptir dauða Dala-Kolls og fór til Noregs. Þar giptist hún Herjólfi Eyvindarsyni, lendum manni að sögn Laxdælu, og eignaðist með honum son, sem hjet Hrútur. Nokkrum árum síðar andaðist Herjólfur; fór Þorgerður þá aptur til Íslands með auð fjár og var hún síðan með Höskuldi syni sínum til dauðadags. En er hún andaðist fám vetrum síðar, tók Höskuldur alt fje hennar, en Hrútur bróðir hans átti hálft.[1])

Í Laxdælu er skýrt frá bónorði Höskulds og sagt að hann fengi Jórunnar Bjarnardóttur í Bjarnarfirði. Hið sama segir í Melabók og á það bendir einnig Njáls saga. Hins vegar er þess getið í Landnámubók Sturlu og í Ólafs sögu Tryggvasonar að hann hafi átt Hallfríði Þorbjarnardóttur frá Vatni í Haukadal.[2]) Hvort sannara er, má nú enginn greina með fullri vissu, en líklegt er að frásögn Laxdælu, Melabókar og Njálu sje rjettari. Hjer verður því kona Höskulds nefnd Jórunn eins og í Laxdælu, enda eru þaðan allar þær sögur, sem af henni eru kunnar.[3])

Þau Höskuldur og Jórunn áttu nokkur börn. Elstur sona þeirra var Þorleikur, faðir Bolla, en af dætrum þeirra var Hallgerður langbrók eða snúinbrók nafnkunn sökum fríðleika, giptinga sinna og óstýrilætis.[4])

Laxdælu ber illa saman við aðrar sögur í mörgu, en einkum að því leyti er tímatalið snertir. Það er því erfitt að árfæra með vissu ýmsa af viðburðum þeim, sem sagan

---

[1]) Lax. 7—8/16—19; Ldn. 18/114; Nj. 1/1—2. [2]) Lax. 9/10, Ldn. 22/130, Mb. 35/240, Nj. 10/44—45; Ldn. 17—18/113—114, Stb. 104—5/159, Ldn[2] 270. Í Hauksbók vantar kaflann um þetta, en síðar er þar blandað saman Kolli Veðrar-Grímssyni og Hofkolla Hróaldssyni og Höskuldur talinn son Hofkolla, sem er rangt; einnig er þar sagt að hann hafi átt Hallfríði Bjarnardóttur úr Bjarnarfirði, og er þar blandað málum. Hksb. 83/36, 98/43. [3]) Vera má að Höskuldur hafi verið tvígiptur og að hann hafi átt báðar þær konur, sem hjer eru nefndar, og missögnin sje af því sprottin. [4]) Lax. 9/22; Ldn. 17—18/113—14.

skýrir frá.[1]) Í henni segir að Höskuldur væri hirðmaður Hákonar Aðalsteinsfóstra og hafi verið í förum milli Íslands og Noregs, áður en hann kvongaðist[2]); en þetta fellur illa við tímatalið, því að svo virðist sem Höskuldur hafi giptst um það leyti sem Hákon Aðalsteinsfóstri kom til ríkis. Þá er Höskuldur hafði verið kvongaður um hríð, er sagt að honum hafi þótt bær sinn ver húsaður, en hann vildi, og fyrir því hafi hann farið utan, en Jórunn varðveitt bú þeirra og börn á meðan. Hann tók Noreg við Hörðaland, þar sem kaupstaðurinn Björgyn var síðar reistur, og var þar um veturinn hjá frændum sínum. Um vorið fór hann á kaupstefnu austur í Brenneyjar, sem eru nyrðst á Hallandi sunnan til við mynni Gautelfar. Þar var fjölmenni mikið, því að skemtun þótti að koma þar. Hákon konungur hafði og farið þangað í stefnuleiðangur að gera frið fyrir land sitt. Einn dag kom Höskuldur í tjald kaupmanns nokkurs auðugs, er Gilli hjet og kallaður var hinn gerðski. Þar sá hann nokkrar ambáttir og leist honum ein þeirra mjög fríð sýnum, þótt hún væri illa klædd. Höskuldur keypti hana fyrir þrjár merkur silfurs, þótt hún væri þrem sinnum dýrari en aðrar ambáttir, og Gilli segði honum, að hann hefði aldrei getað fengið eitt orð af henni og hún mundi vera mállaus. Höskuldur hafði hana með sjer í búð sína og gaf henni góð klæði, sem henni sæmdi

Þá er höfðingjar höfðu lokið þeim málum, sem þeir áttu að þinga um, gekk Höskuldur á fund Hákonar konungs. Konungur tók honum vel, og var Höskuldur með honum um hríð. Konungur ljet hann fá húsavið, og gaf honum gullhring og sverð, áður en hann fór til Íslands.

Höskuldur hafði heim með sjer ambátt sína, en Jórunni konu hans þótti hún eigi góður gestur. Þó varð hún að sætta sig við að hún væri þar á heimilinu. Á ofanverðum vetri fæddi ambáttin sveinbarn fagurt. Höskuldur kvað það skyldu

---

[1]) Um tímatalið sbr. Kr. Kålund, „Indledning“ fyrir útgáfu hans af Laxdælu, bls. XLIX—LXII; Guðbr. Vigfússon, Safn I, 340, 351, 442—444, 450—456; Finn. Jónsson, Litteraturhist. II. 444. [2]) Lax. 9/19.

heita **Ólaf**, eptir Ólafi feilan móðurbróður sínum; segir í Laxdælu að hann hafi andast litlu áður en sveinninn fæddist.[1]) en það mun tæplega rjett. Ólafur Höskuldsson mun varla hafa fæðst fyr en 937, en líklegt er að Ólafur feilan hafi andast um það leyti sem Þórður gellir sonur hans tók mannvirðing (um 930).

Höskuldur lagði mikla ást við sveininn, en Jórunn sagði um sumarið, að ambáttin skyldi „upp taka verknað nokkurn eða fara í brott ella.“ Höskuldur bað hana þá vinna þeim hjónum og gæta líka sveins síns. Ólafur var snemma efnilegur og bráðþroska. Þá er hann var tveggja vetra, var hann almæltur. og komst þá Höskuldur að því, að móðir hans var máli gædd. Einn morgun, er Höskuldur gekk út að sjá um bæ sinn, heyrði hann mannamál við læk þann, sem fjell fyrir neðan túnbrekkuna. Hann gekk á hljóðið og sá þar Ólaf son sinn og móður hans; heyrði hann að hún talaði þá margt við sveininn. Hann gekk þá að þeim og spurði hana að nafni, og kvað henni eigi mundu stoða að dyljast lengur. Hún sagðist heita **Melkorka** og vera **dóttir Mýrkjartans** konungs á Írlandi[2]), og hafi hún verið hertekin þaðan fimtán vetra gömul. Höskuldur sagði Jórunni hvers hann var orðinn vís, en hún kvaðst eigi vita, hvað hún segði satt, og var ekki betri við hana en áður. Fór svo að lokum að Höskuldur varð að láta Melkorku fara í brott; fjekk hann henni bústað uppi í Laxárdal, fyrir sunnan

---

[1]) Lax. 11—13/25—32. [2]) Mýrkjartan er Muircheartach á írsku, og eru nokkrir konungar nefndir með því nafni á Írlandi. Á fyrri hluta 10. aldar var Muircheartach konungur í Elagh norðan á Írlandi og átti hann opt í ófriði við norræna víkinga á árunum 921 til 943, er hann var drepinn af víkingum. Steenstrup, Norm III, 119—124 Eptir tímatali að dæma gat hann vel verið faðir Melkorku, en hann var dáinn, þá er Ólafur pái kom til Írlands. Í Laxdælu segir, að hann hafi fundið þar afa sinn, en eigi er hægt að vita hvað satt er í því. Öll frásagan af ferð hans er skreytt og ósennileg að ýmsu leyti. P. A. Munch getur þess, Hist. I, 785, að einn smá- eða fylkis-konungur að nafni Muircheartach hafi verið drepinn um 963; ef hann hefur verið faðir Melkorku, hefur Ólafur getað hitt hann á lífi.

Laxá, þar sem heitir á Melkorkustöðum, og alt það, sem hún þurfti til bús; fór Ólafur sonur þeirra með henni[1]).

Þá er Ólafur var sjö vetra bauð Þórður goddi á Goddastöðum honum fóstur. Þórður var auðmaður mikill, en lítilsigldur. Kona hans Vigdís Ólafsdóttir feilans (eða Ingjaldsdóttir Ólafssonar feilans)[2]) hafði skilið við hann og leitaði hann því liðveislu hjá Höskuldi móti Þórði gelli og öðrum frændum hennar. Þórður goddi var barnlaus og bauð að arfleiða Ólaf að öllu fje sínu. Höskuldur játaði þessu, til þess að ná í auð hans handa syni sínum, en Melkorku þótti fóstrið of lágt; þó sætti hún sig við það, af því að hún gat hitt son sinn, er hún vildi. Þórður goddi tók síðan við Ólafi og lagði mikla ást við hann. Þá er hann óx upp, bar hann af öðrum unglingum að vexti og fríðleik. Faðir hans gaf honum þá kenningarnafn og kallaði hann pá. Festist það nafn við hann[3])

En er Ólafur var frumvaxti, fór hann utan að ráði móður sinnar til þess að vitja frænda sinna. Sjálf giptist hún þá Þorbirni skrjúp, svo að hann fengi Ólafi nægilegt lausafje til fararinnar; bendir það eigi á að fóstri hans hafi verið mjög ör á fje við hann. Ólafur fór fyrst með norrænum kaupmönnum til Noregs og þaðan til Írlands. Segir í Laxdælu að Haraldur gráfeldur og Gunnhildur móðir hans hafi þá ráðið ríki í Noregi og að Ólafur hafi verið 18 vetra, en þetta hvorttveggja kemur eigi vel heim við tímatalið í Egils sögu um kvonfang Ólafs.[4]) Er líklegt að Hákon Aðalsteinsfóstri hafi þá verið konungur í Noregi, og að það sje als eigi rjett, sem segir í Laxdælu, að Gunnhildur drotning hafi fengið Ólafi skip með 60 manna til þess að sigla á vestur til Írlands. Þar segir og að hann hafi hitt Mýrkjartan afa

---

[1]) Lax. 13/32—3. [2]) Í Ldn. 19/116—117 eru nefndar fjórar dætur Ólafs feilans, og er Vigdís talin ein af þeim. Í Lax. 7/15—16, 11/25 eru aptur á móti að eins nafngreindar þrjár dætur hans, en Vigdís er þar sögð Ingjaldsdóttir, sonardóttir Ólafs feilans; fellur það ver við tímatalið, sbr. Safn I, 346. [3]) Lax. 16/45—47. [4]) Sbr. Kålund, Lax. LIII—LIV; Finnur Jónsson, Litteraturhist. I1, 445.

sinn, er hann kom að landi við Írland; hafi þá konungur komið ofan af landi með miklu riddaraliði. Frásögnin af utanferð Ólafs er skreytt mjög, en það mun þó satt, að hann hafi farið vestur til Írlands; hefur hann að líkindum fundið þar frændur sína og fært þeim jarteiknir frá móður sinni eins og sagan segir, og þeir kannast við frændsemi hans. Einnig hefur hann fengið mikinn frama af ferð sinni. Ólafur var þrjá vetur í utanferð sinni, tvo í Noregi og einn á Írlandi (um 955—958). Árið eptir útkomu sína bað hann á alþingi Þorgerðar Egilsdóttur og var það að ráði gjört. Þau giptust þá seint um sumarið á Höskuldsstöðum. Vorið eptir tóku þau við búi á Goddastöðum og gerðist Ólafur höfðingi mikill. Litlu síðar keypti hann löndin á Hrappsstöðum og reisti risulegan bæ í holti einu, sem hann nefndi Hjarðarholt. Um vorið eptir fór hann þangað bygðum með allan kvikfjenað sinn.[1])

Laxdæla saga skýrir svo frá sem Höskuldur og síðan Ólafur pái sonur hans hafi verið mestir höfðingjar í Dölum á fyrri hluta söguldarinnar, en það er þó tæplega rjett. Á meðan Þórður gellir var á lífi, mun hann hafa verið ríkastur höfðingi þar um sveitir. En rjett um það leyti sem Ólafur fór búferlum að Hjarðarholti skarst Þórður gellir í brennumálið úr Örnólfsdal.

Þórður gellir mun hafa lifað fram á áttunda tug 10. aldar og andast um 975. Hans er síðast getið, er hann gerði mann nokkurn, Grím að nafni, sekan um áverka (um 970 eða litlu síðar), og þá er Haraldur Gormsson hugði á herferð til Íslands (um 975).[2]) Höskuldur Dala-Kollsson mun einnig hafa andast um þetta leyti eða nokkru síðar[3]). Þá er þeir báðir voru fallnir frá, var Ólafur pái mestur höfðingi í Dölunum. Hann var friðsamur maður og göfugur.

---

[1]) Lax. 20—24 59—86. [2]) Reyk. 21 106; Hkr. I 33 318. [3]) Menn hafa talið andlát Höskulds á árunum frá um 972 til 985, eptir því hvort þeir hafa farið mest eptir Laxdælu eða Njálu. Guðbrandur Vigfússon ætlar að Þórður gellir hafi andast um 978, en Höskuldur 984 eða 985. Safn I, 302, 342, 348—350, 496—497; Kålund, Lax. bls. LV.

## Gísli Súrsson og Þorgrímur goði Þorsteinsson.

Eptir að landnámum var lokið, fluttu einstaka Norðmenn sig búferlum til Íslands. Einn af þeim var Þorbjörn súr Þorkelsson frá Stokkum í Súrnadal í Noregi. Hann fór með sonum sínum tveimur, Þorkeli og Gísla, til Íslands rjett eptir miðja 10. öld. Þeir feðgar höfðu í Noregi átt í miklum vígaferlum. Þau spruttu af því, að Gísli vá mann nokkurn, sem honum þótti vanvirða Þórdísi systur sína. Óvinir þeirra ætluðu síðan að brenna þá feðga inni, en þeim tókst í fyrstu að slökkva eldinn fyrir þeim með sýru og komast síðan á brott.[1]) Þeir söfnuðu þegar liði og fóru að óvinum sínum; brendu þeir suma af þeim inni, en suma vógu þeir með vopnum. Eptir þessi hryðjuverk þótti þeim ráðlegast að leita af landi brott og fara til Íslands með alla fjölskyldu sína Þeir tóku land í Haukadal í Dýrafirði. Þar keypti Þorbjörn land og Gísli gerði bæ að Sæbóli (um 955).

Þorbjörn súr andaðist skömmu síðar, en þeir bræður voru vel metnir og mægðust við nokkra hina helstu virðingarmenn á Vestfjörðum. Gísli giptist Auði Vjesteinsdóttur Vjegeirssonar, en Þorkell Ásgerði Þorbjarnardóttur og bjuggu þeir bræður saman að Sæbóli. Eitt vor fóru þeir bræður með Þorkeli hinum auðga Þórðarsyni suður á Þórsnesþing. Þar kyntust þeir Þorgrími og Berki hinum digra, sonum Þorsteins þorskabíts (um 958). Vorið eptir riðu þeir Þorsteinssynir vestur í Dýrafjörð á Valseyrarþing og þáðu þeir veislu hjá Súrssonum. Þeir sáu þá Þórdísi systur þeirra bræðra. Þorgrími leist þegar svo vel á hana, að hann bað hennar, og var hún föstnuð honum. Brúðkaup þeirra var haldið þegar og fjekk Þórdís Sæból í

---

[1]) Sagan segir að Þorbjörn hafi fengið auknefni sitt af vörn sinni með sýrunni, en hitt gæti líka verið að hann hafi verið kallaður svo af því að hann var úr Súrnadal.

heimanfylgju. Þorgrímur rjeðst þá vestur, en Börkur bróðir hans bjó kyr að Helgafelli. Súrssynir reistu síðan bæ að Hóli, svo skamt frá Sæbóli, að garðar lágu saman.[1])

Þeir bræður Gísli og Þorkell voru báðir reyndir að hreysti, og Þorgrímur var snemma mjög efnilegur maður. Hann átti hlut í goðorði og þótti það mikill styrkur. Auður kona Gísla átti bróður, er Vjesteinn Vjesteinsson hjet. Hann hafði verið í siglingum og þótti merkur maður og góður kaupmaður. Vinfengi var gott með þeim mágum, og allir voru þeir metnaðarmenn. Þá er vorþing var háð, fóru þeir með 40 manna á þing. Þeir voru svo vel búnir að það vakti eptirtekt manna. Þeir sátu lengi við drykkju, en fylgdu málum allir saman með miklu kappi, er þeir veittu einhverjum manni lið. Atferli þeirra vakti nokkra öfund, og fyrir því spurði Þorkell hinn auðgi Gest hinn spaka Oddleifsson um, hve lengi hann ætlaði að kapp þeirra Haukdæla og yfirgangur myndi vera svo mikill. Hann svaraði þá, að „eigi munu þeir allir samþykkir it þriðja sumar, er þar eru nú í þeim flokki.“

Haukdælum var sagt þetta, og Gísli gaf þá það ráð, að þeir skyldu binda vinfengi sitt með fastmælum og sverjast í fóstbræðralag, til þess að spár Gests skyldu eigi rætast. Þeim leist vel á það, en er til kom, vildi Þorgrímur eigi sverjast í fóstbræðralag við Vjestein. Gísli dró þá að sjer hendina og kvaðst eigi binda sjer vanda við þann mann, er eigi vildi við Vjestein mág sinn. Var þá lokið fyrirætlun þessari.[2])

Árið eptir (961) fóru þeir mágar allir utan; voru þeir Þorgrímur og Þorkell saman á skipi, en þeir Gísli og Vjesteinn á öðru. Þeir Þorgrímur voru um veturinn í Noregi hjá Haraldi konungi gráfeld, er þá var nýkominn til ríkis. En þeir Gísli og Vjesteinn hjeldu alla leið suður til Danmerkur, og voru í Vjebjörgum um veturinn. Næsta sumar hjelt Vjesteinn til Englands að finna þar norrænan mann, er var fjelagi hans frá fyrri kaupferðum; en Gísli fór þá til

---

[1]) Gísl.[2] 2—5/4—14. [2]) Gísl.[2] 5—6,12—15.

Íslands. Þeir Þorgrímur og Þorkell komu þá einnig út um sumarið; hafði þeim öllum orðið gott til fjár á kaupferðum þessum.

Þeir bræður, Gísli og Þorkell, bjuggu saman á Hóli eins og fyr er sagt. Gísli var starfsmaður hinn mesti, en Þorkell oflátungur mikill og lá heima, þá er allir menn voru að heyverki. Hann hleraði þá eitt sinn samtal Ásgerðar konu sinnar og Auðar mágkonu sinnar, er þær sátu að saumi. Þær hentu gaman að því að Ásgerði litist vel á Vjestein en Auði á Þorgrím, og kvað Auður alt saklaust á milli sín og Þorgríms. Þetta skildi Þorkell svo, að eigi mundi saklaust vinfengi hafa verið milli Ásgerðar og Vjesteins, og spratt upp og mælti; „heyr undr mikit! heyr manns bana eins eða fleiri“. Þeim mágkonum þótti tal sitt ilt, er þær heyrðu þetta. Um kveldið, er Gísli kom heim frá verki, var Þorkell fár við hann og vildi eigi segja honum hið sanna. Einnig ætlaði hann þá að vísa konu sinni burtu frá hvílu þeirra, en hún hótaði honum að skilja við hann og láta föður sinn heimta mund sinn og heimanfylgju, ef hann væri þver. Við það sefaðist hann og sömdu þau þetta með sjer, svo sem ekki hefði í orðið. Þó vildi Þorkell eigi vera lengur að Hóli með bróður sínum en til vorsins. Hann baðst þá fjárskipta og kaus lausafje og rjeðst til búlags með Þorgrími mági sínum [1])

Það var auðsætt, að Þorkell og Þorgrímur hugðu á hefnd. Um haustið fengu þeir mann einn, er Þorgrímur hjet og kallaður var nef, til þess að smiða málaspjót úr brotum af gömlu sverði, sem Grásíða hjet og hafði þótt ágætt vopn. Maður þessi var fullur af gjörningum og fjölkyngi og hinn mesti seiðskratti, svo eigi var góðs af honum að vænta. Um þetta leyti hafði Gísli efnt til veislu og boðið til sín vinum og vandamönnum. Einn af boðsmönnum sagði þá Gísla, að Vjesteinn mágur hans væri kominn út og væri hans von að Hóli. Vjesteinn átti bú í Önundarfirði undir Hesti og sendi Gísli þegar tvo húskarla

---

[1]) Gísl.[2] 7—10/16—23.

sína til hans með orð og jarteikn um, að hann sje heima þar til Gísli sæki hann heim. En svo óheppilega tókst til að húskarlar Gísla og Vjesteinn fórust á mis og fundu þeir hann eigi fyr, en hann var kominn svo langt á leið, að hann vildi eigi snúa aptur. Hann fór því á Hól til Gísla og systur sinnar. En þriðju nóttina, sem hann var þar, var gengið hljóðlega að rekkju hans og hann lagður spjóti fyrir brjóstið, svo að stóð í gegnum hann. Það var spjótið Grásíða. Gísli tók það úr sárinu og kastaði því alblóðugu í örk eina og ljet engan mann sjá. Vjesteinn var síðan heygður og hjálpuðu þeir Þorgrímur og Þorkell til haugsgerðarinnar. Það var þá tíðska að binda helskó á fætur hins framliðna, er hann skyldi ganga á til Valhallar. Þorgrímur batt skó á Vjestein og mælti, er hann hafði lokið því: „Eigi kann ek helskó at binda, ef þessir losna“ (963).[1])

Nú var eins og ekkert hefði í skorist, en Gísli þóttist vita að Þorgrímur mágur hans hafði vegið Vjestein og hugði á hefnd eins og hann var skyldur til eptir fóstbróður sinn. Næsta haust hjelt Þorgrímur og Gísli veislu hvor fyrir sig (964). Meðal boðsmanna Þorgríms var Börkur bróðir hans og Eyjólfur hinn grái úr Otrardal Þórðarson gellis, frændi hans. Eina nótt tekur Gísli spjótið Grásíðu úr örkinni og gengur yfir að Sæbóli. Hann hafði sjeð svo fyrir að lokur voru eigi fyrir hurðum og fer hann inn, gengur í lokhvílu þá, þar sem Þorgrímur og Þórdís systir hans hvíldu, tekur klæðin af þeim með annari hendi, en með hinni leggur hann í gegnum Þorgrím með Grásíðu, svo að í beðinum nam stað. Þórdís vaknaði þá og kallaði, að bóndi sinn væri veginn og menn hlypi upp, en Gísli komst samt burt og heim til sín. Grunurinn fjell þó skjótt á hann. Þeir Þorkell og Eyjólfur grái fóru í dögun á Hól til Gísla og gengu að lokrekkju þeirri, sem hann hvíldi í og kona hans. Þorkell bróðir Gísla gekk þá upp í hvílugólfið og sjer, hvar skór Gísla liggja frosnir og snjóugir. Hann skaraði þá upp undir fótborðið, svo að aðrir menn skyldi eigi sjá þá. Síðan

[1]) Gísl.[2] 10—14/23—32.

sagði hann frá vígi Þorgríms, og bauðst Gísli til að hjálpa að heyja hann. Það þáðu þeir og fór Gísli með þeim á Sæból.

Þorgrímur var lagður í skip og gerður haugur um það. Gísli tók þá upp stein einn mjög mikinn og leggur í skipið, svo að brakaði mjög í því, og mælti: „Eigi kann ek skip at festa, ef þetta tekr veðr upp“. Þetta minnti menn á orð Þorgríms, er hann batt helskóna á Vjestein.[1])

Börkur hinn digri hefur að líkindum grunað Gísla um víg Þorgríms. Hann keypti að Þorgrími nef, að hann seiddi seið, að þeim manni yrði ekkert að björg, er hefði vegið Þorgrím, þó að menn vildi duga honum, og að hann mætti sjer hvergi ró eiga á landi. Nokkru síðar bar svo við að leikum, að Gísla varð litið á haug Þorgríms. Hann kvað þá vísu, sem er enn til; segist hann þar hafa orðið Þorgrími að skaða. Þórdís systir hans nam þegar vísuna og rjeð hana. Hún hafði þá gengið að eiga Börk hinn digra, og var hann um veturinn á Sæbóli. Um vorið flutti hann aptur suður að Helgafelli, en áður en hann fór, fjekk hann Þórdísi til þess að segja sjer, hví hún var svo óglöð um haustið, þá er þeir slitu leiknum. Þá er Börkur heyrði að Gísli hefði vegið Þorgrím, ætlaði hann þegar að drepa hann, en Þorkell bróðir hans gerði hann varan við. Börkur stefndi þá Gísla til Þórsnesþings: sýnir það að lög Þórðar gellis hafa þá verið komin á og fjórðungsþing sett, því að eptir eldri lögum átti að stefna Gísla til Valseyrarþings, eða þess þings, er næst var vettvangi.[2]) Börkur gerði Gísla sekan á Þórsnesþingi, og getur Gísli þess sjálfur í vísu einni; engir mikilsmegandi menn urðu til þess að veita honum (um 965).[3])

Þá er málið var búið til á hendur Gísla, seldi hann land sitt og fjekk fyrir lausafje. Hann fór síðan til Geirþjófsfjarðar, er gengur inn af Arnarfirði, og gerði þar alhýsi handa Auði konu sinni og fósturdóttur þeirra hjóna.

---

[1]) Gísl.[2] 15—17/36—42; Eyrb. 12/13. [2]) Íslb. 5/8. [3]) Gísl.[2] 18—20/43—53.

Einnig gerði hann þar jarðhús og var í því á laun þrjú fyrstu sektarár sín.

En er Börkur spyr að hann muni vera í Geirþjófsfirði, fer hann á fund Eyjólfs hins gráa í Otrardal og kaupir hann fyrir þrjú hundruð silfurs að leita eptir Gísla og drepa hann. Otrardalur er við Arnarfjörð. Til þess að komast undan ofsóknum Eyjólfs, fór Gísli úr Geirþjófsfirði; segir sagan að hann færi þá um alt land og væri þrjá vetur í þeirri ferð. Tvo vetur dvaldi hann í Vaðli hjá Þorgerði móður Gest Oddleifssonar, og aðra tvo vetur var hann í Hergilsey hjá Ingjaldi frænda sínum, en lengst var hann í Geirþjófsfirði hjá hinni tryggu og tápmiklu konu sinni. Þar fjell hann að lokum eptir fræga vörn, er hann hafði verið þréttán ár í sekt. Eyjólfur hinn grái kom þá að honum óvörum við fimtánda mann. Gísli komst á kleifar nokkrar við fylgsni sitt og varðist þaðan; vá hann fimm menn og særði þrjá til ólífis, áður en hann fjell. Þetta var hina síðustu sumarnótt, að öllum líkindum árið 978.

Gísli var óvenjulega hraustur maður og mikill íþróttamaður. Þess vegna fjekk hann borið sekt sína svo lengi. Stundum komst hann í þær mannraunir, sem að eins hraustmenni fá staðist; eru til nokkrar sögur af honum á sektarárum hans. Gísli var einnig ágætur smiður, vitur maður og göfugur. Hann var gott skáld; eru draumvísur hans einkum merkar.[1])

---

## Snorri goði og Arnkell goði.

Sama ár sem Gísli Súrsson var feldur, kemur systurson hans Snorri Þorgrímsson til sögunnar. Hann var þá einungis 14 eða 15 vetra, og segir sagan að hann hafi fæðst

[1]) Gísl.[2] 19—35 52—98.

litlu eptir að faðir hans var veginn Hann var í fyrstu kallaður Þorgrímur eptir föður sínum, en af því að hann var skapillur í æsku, var hann kallaður Snerrir og síðan Snorri.[1]) Hann ólst upp með Þorbrandi Þorfinnssyni[2]) í Álptafirði og fór utan með sonum hans tveimur Þorleifi kimba og Þóroddi. Börkur hinn digri galt honum 50 silfurs til utanferðar. Þeir fóstbræður voru utan einn vetur og hafði Snorri veturvist á Sóla og kyntist þá Erlingi Skjálgssyni, er var á líkum aldri sem hann. Í ferð þessari komu hyggindi Snorra þegar í ljós, því að hann eyddi eigi fje sínu og ljet lítið yfir sjer, er hann kom út. Hann var fátæklega til fara, er hann reið heim frá skipi og hugði Börkur að hann hefði eytt öllu fje sínu (haustið 978).

Litlu síðar kom Eyjólfur hinn grái að Helgafelli við tólfta mann að segja fall Gísla Súrssonar. Börkur varð kátur við þau tíðindi og leiddi Eyjólf í öndvegi, en bað Þórdísi að fagna honum vel. Henni rann þegar blóðið til skyldunnar og spurði, hvort eigi væri vel fagnað Gísla-bana, ef grautur væri gefinn. Um kveldið, er hún bar mat fram, feldi hún niður spón, og er hún laut niður eptir honum, þreif hún um meðalkaflann á sverði Gísla bróður síns, sem Eyjólfur hafði lagt hjá sjer, brá því skjótt og lagði til Eyjólfs. Hún vildi leggja á honum miðjum og lagði upp undir borðið, en gáði þess eigi að hjaltið horfði upp og nam við borðinu. Kom lagið í lærið og var það mikið sár. Börkur hratt þegar fram borðinu og sló til Þórdísar, en Snorri hratt þá Berki svo að hann fjell við og hjálpaði móður sinni. Eyjólfur hljóp einnig upp og þeir allir og „helt þar maðr á manni.“ Börkur bauð Eyjólfi sjálfdæmi fyrir þetta og gerði hann mikið fje, „full manngjöld“ að sögn Gísla sögu, fyrir áverkann.

---

[1]) Gísl.[2] 18/43—44; Eyrb. 12/13. [2]) Eyrb. 7/8, 9/10; Ldn. 13/99; Stb. 86/153—154; Hksb. 74/32—33. Í Mb. 26/238, 260 er Þorbrandur kallaður Vjebrandsson, sbr. B. M. Ólsen í Aarb. f. nord. Oldkh. 1905, bls. 110 o. ef.

Atferli Þórdísar Súrsdóttur er eitthvert hið skýrasta dæmi, sem til er í íslenskum sögum, uppá það, hvernig hefndarskyldan hvíldi á mönnum og hve ríkur hefndarhugur manna var. Þórdís unni bróður sínum, en þó gat hún eigi annað en lostið upp um hann morði Þorgríms. Nú rauf hún aptur á móti bæði húsfrið og alla gestrisni til þess að hefna hans. Sambúð hennar og Barkar varð eigi löng eptir þetta. Segir í Gísla sögu Súrssonar, að Þórdís hafi þá nefnt sjer votta og sagt skilið við Börk, og farið þegar að Þórdísarstöðum út á Eyri. En eptir sögn Eyrbyggju varð skilnaður þeirra sumarið eptir.[1])

Á vorþingi árið eptir (979) heimti Snorri föðurarf sinni af Berki og komst þá að Helgafelli. Börkur hugði að hann væri fjevani og kvaðst eigi vilja skipta Helgafelli, en mat það hálft á 60 silfurs og skyldi leysa það út þegar; lagði hann landið svo ódýrt af því að hann ætlaði sjer það sjálfum. En Snorri kaus landið og greiddi þegar verð þess. Börkur varð þá að handsala honum Helgafell og flytja þaðan. Var þá skipt fje þeirra Barkar og Þórdísar og Snorra, og fjekk Snorri þá eyjar þær, sem liggja undir Helgafell, fyrir litið verð[2]).

Snorri gerði nú bú að Helgafelli og var móðir hans fyrir innan stokk. Hann hafði fátt kvikfje og fjekk því Má Hallvarðsson, hálfbróður föður síns, til þess að ráðast til sín með búfje sitt og taka forráð fyrir búinu; varð þá búið rausnarbú og mátti þá hafa fjölmenni að Helgafelli, eins og fyr hafði verið. Þar var þá hof, sem Snorri tók við og varðveitti; var hann þá kallaður Snorri goði og hefur goðanafnið festst við hann. Hann tók einnig við goðorði föður síns, eða þeim hluta í því, er hann hafði átt; varð hann því þegar að taka þátt í stjórn og löggjöf landsins og annast goðastörf heima í hjeraði. Var slíkt flestum unglingum of vaxið, en Snorri sýndi það snemma að hann var vitur

---

[1]) Gísl.[2] 36/98—99; Eyrb. 13/14—16. Í frásögninni um þetta ber ýmislegt á milli Gísla sögu og Eyrbyggju, en um aðalatriðin eru þær sammála. [2]) Eyrb. 14/16—17.

maður og hógvær, og kunni vel að stilla sig, þótt hann reiddist og væri heiptugur og langrækinn[1])

Um þetta leyti voru helstir höfðingjar í nágrenni Snorra sunnan við Breiðafjörð Þorgrímur goði Kjallaksson og Arnkell goði Þórólfsson. Þorgrímur hafði eptir gjörð Þórðar gellis haldið uppi hofi þeirra Þórsnesinga að hálfu og haft þingmenn að helmingi. Hann var nú orðinn aldraður maður og átti þrjá syni uppkomna; urðu tveir þeirra nafnkendir menn, Arngrímur og Vermundur hinn mjóvi, og koma þeir báðir allmikið við sögur. Þeir þóttu báðir vitrir menn, en Arngrímur var ofstopamaður mikill og harðfengur; var hann því kallaður Styrr. Síðar var nafn hans lengt, og hann nefndur Víga-Styrr sökum þess að hann vá marga menn; er hann kunnur með nöfnum þessum.

Þorgrímur goði lifði eigi lengi eptir þetta, því að hann andaðist sumarið 980. Vermundur sonur hans tók þá við búi í Bjarnarhöfn, en Styrr hafði áður reist bú undir Hrauni inn frá Bjarnarhöfn. Ekki er þess getið að þeir bræður fengju nokkurn hluta í Þórsnesingagoðorði, og svo er að sjá af sögunum sem Snorri goði hafi farið einn með það. Mun ríki hans hafa vaxið við fráfall Þorgríms, enda voru þeir engir vinir, eins og sjá má af því, að Snorri veitti Illuga hinum svarta, er hann deildi við Þorgrím goða og syni hans á Þórsnesþingi vorið 980 um mund og heimanfylgju Ingibjargar Ásbjarnardóttur, konu sinnar. Bar Þorgrímur þar lægra hlut úr býtum, vegna þess að frændur hans af Meðalfellsströnd máttu eigi sækja þingið sökum storma[2])

Arnkell goði var sonur Þórólfs bægifóts[3]) og bjó á Bólstað við Vaðilshöfða. Hann var eldri en Snorri goði, því að hann var fæddur nálægt miðri 10. öld.[4]) Hann var einnig fremri Snorra að hreysti og eflaust betri drengur, en hann var eigi eins gætinn sem Snorri og eigi eins djúpvitur. Engum manni er jafnglæsilega lýst í Eyrbyggju sem honum.[5])

---

[1]) Eyrb. 15/17; Nj. 114/585; Grett. 68/245—46. [2]) Eyrb. 12/14, 17—18/19—21; Gunnl. 5/215; Ldn. 2/67, 17/112, 1/170. [3]) Sjá að framan I, 128. [4]) Sbr. Safn I, 331. [5]) Eyrb. 12/13—14, sbr. 37/68.

Hann var manna mestur og sterkastur, lagamaður mikill og forvitri. Hann var góður drengur og um fram alla menn aðra þar í sveit að vinsældum og harðfengi. Hann var og hofgoði og átti marga þingmenn. Þó var hann eigi af goðaætt. Faðir hans var gamall víkingur,[1] illgjarn maður og óvinsæll og átti hann aldrei hof. Sje það því satt, sem sagan segir um hof Arnkels goða og þingmenn, eins og ætla má, hefur hann sjálfur reist hof sitt og aflað sjer þingmanna, er hann hafði náð þroska til þess, og var það áður en Snorri Þorgrímsson tók við hofinu að Helgafelli.

Það má nærri geta að Þórsnesingum líkaði eigi vel uppgangur Arnkels, því að það hlaut að draga þingmenn frá þeim, er menn hændust að honum. Auk þess var hann nýr í tigninni, og öfundsýki og þröngsýni skorti eigi. Það lá því í hlutarins eðli að Snorra goða og Arnkatli mundi opt lenda saman á þingum, þar sem hvor þeirra átti að gæta rjettar margra manna; og þess var eigi heldur langt að bíða.

Veturinn 979—980 varð Gunnlaugur Þorbjarnarson frá Fróðá vitskertur. Oddur Kötluson frá Holti laug því þá upp að Geirríður Þórólfsdóttir í Máfahlíð hefði valdið því. Þorbjörn digri Ormsson faðir Gunnlaugs stefndi því Geirríði um fjölkyngi og fór málið til Þórsnesþings. Snorri goði veitti Þorbirni, því að hann hafði um þetta leyti fengið Þuríðar Barkardóttur, hálfsystur Snorra, en Arnkell goði varði málið fyrir systur sína; fjekk hann sannað sýknu hennar, og ónýtt málið fyrir þeim Þorbirni.[2]

Haustið eptir fundust eigi stóðhross nokkur, sem Þorbjörn digri átti á fjalli (980). Oddur Kötluson fjekk hann þá til að kenna Þórarni svarta í Máfahlíð, syni Geirríðar, um hvarf hrossanna. Hann fór í Máfahlíð við tólfta mann, setti þar dyradóm og ætlaði að láta dæma Þórarin um stuld. Við eggjunarorð móður sinnar hljóp Þórarinn út og vildi hleypa upp dóminum; sló þegar í bardaga með þeim og fjell maður af hvorum. Auður kona Þórarins

---

[1]) Ldn. 13 100; Eyrb. 8 9. [2]) Eyrb. 15—16 17—19.

hjet þá á konur að skilja þá og köstuðu þær klæðum á vopn þeirra; en þá var höggin hönd af Auði. Eptir bardagann varð Þórarinn þess vís og rann hann þá eptir þeim Þorbirni, þótt þeir væru nærri hálfu fleiri. Hann hitti þá skamt brottu, því að þeir höfðu bundið sár sín; hældist Oddur þá um að Þórarinn hefði höggið hönd af konu sinni. En Þórarinn hljóp þegar að Þorbirni og hjó hann banahögg. Varð þá harður bardagi og vann Þórarinn sigur, en Oddur rann undan við þriðja mann.

Nú þótti eigi óhætt fyrir Þórarin að sitja heima, og var hann því um veturinn með Arnkatli móðurbróður sínum. Geirríður komst þá að því, að Oddur Kötluson hafði höggið höndina af Auði. Þeir Arnkell fóru þá í Holt og tóku þau mæðgin og drápu. En er Katla sá fyrir dauða sinn vísan, kvaðst hún hafa valdið meini Gunnlaugs, er vandræði þessi hefðu af hlotist.[1])

Snorri goði átti nú að mæla eptir mág sinn, og reið því um vorið með 80 manna á Bólstað og stefndi Þórarni til Þórsnesþings og þeim öllum, sem að vígum höfðu verið með honum. Síðan fór hann út að Salteyrarós við Grundarfjörð[2]) og brendi þar upp kaupskip, sem norrænir og suðureyskir menn áttu, því að stýrimenn þeirra höfðu hjálpað Þórarni og Snorri þóttist vita, að hann ætlaði utan með þeim. Þeir Arnkell og Vermundur mjóvi, mágur Þórarins, keyptu þá skip af Austmönnum nokkrum, er uppi stóð í Dögurðarnesi, og fór Þórarinn á því utan og Vermundur með honum. En Snorri gerði hann sekan á Þórsnesþingi og alla þá, er að vígum höfðu verið með honum (981). Haustið eptir fundust stóðhross Þorbjarnar digra dauð á fjalli. Þau höfðu eigi haldið högum fyrir víghesti nokkrum, er Þórarinn átti og einnig gekk á afrjetti, og fallið um veturinn.

Mál þessi eru kölluð Máhlíðingamál.[3])

Nú leið svo eitt ár að þeir Arnkell og Snorri áttu eigi

---

[1]) Eyrb. 18—20/21—34. [2]) Safn II, 291; Kålund, Ísl. I, 427—28. [3]) Eyrb. 21—23/34—36; Stb. 79/150; Hksb. 67/28—29; Mb, 237. Um missagnirnar sbr. Aarb. f. n. Oldkh. 1905, bls. 81—87.

í málum, en þá fjekk Þorgerður ekkja Vigfúss Bjarnarsonar í Drápuhlíð komið Arnkatli til að taka að sjer vígsmál eptir bónda sinn. Upptökin til þessa máls voru orðahnippingar í rjettum, og særði Már Hallvarðsson þar frænda Vigfúss, en Snorri varnaði honum allra bóta. Vigfús sendi þá þræl sinn til að drepa Snorra, en það mistókst. Snorri tók þrælinn höndum og hafði af honum sannar sögur, fór síðan að Vigfúsi og tók hann af lífi. Vígsmál þetta sótti Arnkell á hendur Snorra á Þórsnesþingi og vann það; galt Snorri fje fyrir vígið, en Már skyldi vera utan þrjá vetur. Var sætst á öll mál á þinginu (983).[1])

Eptir þetta deildu þeir Arnkell og Snorri eigi í nokkur ár. Aðrir höfðu valdið deilum þeirra og sjálfir virðast þeir eigi hafa verið neinir bitrir óvinir enn sem komið var. Þó fór svo að lokum að Snorri fyltist heiptarhug til Arnkels og var Þórólfur gamli faðir Arnkels valdur að því.

Sagan segir að Katla í Holti hafi mælt svo um við Arnkel, áður en hún var drepin, að hann skyldi hljóta því verra af föður sínum, en Oddur sonur sinn hefði hlotið af sjer, sem hann ætti meira í hættu en Oddur.[2]) Þá er Þórólfur eltist, gerðist hann illur og æfur, og lagðist þá ómjúkt á með þeim feðgum. Þórólfur rændi Úlfar á Úlfarsfelli heyi. Hann bar sig upp fyrir Arnkatli og galt hann fyrir heyið. Þórólfur vildi þó eigi bæta það og ljet Arnkell þá reka heim af fjalli sjö yxn, er faðir hans átti og drepa þá alla í bú sitt. Þórólfur skipaði þá þrælum sínum að brenna Úlfar inni, en Arnkell sá eldinn, tók þrælana og ljet hengja þá. Þórólfur gaf þá Snorra goða Krákunesskóg til þess að hann mælti eptir þrælana. Hann gerði það og Arnkell bætti þrælana, en Þórólfur varð eigi ánægður með það; vildi hann auðsjáanlega að sonur sinn yrði sekur fjörbaugsmaður eða skóggangsmaður eða mannhefndir kæmu fram (um 988), enda keypti hann síðar mann til þess að drepa Úlfar. Arnkell hefndi hans, en Þórólfur eggjaði Þorbrands-

---

[1]) Eyrb. 23/37, 26—27/41—45, sbr. útgáfu H. Gerings 23/79. [2]) Eyrb. 20/34.

syni í Álptafirði[1]) til fjandskapar við Arnkel. Þeir höfðu áður heimt arf eptir Örlyg leysingja sinn, en eigi fengið, því að Úlfar, sem var bróðir hans, tók fje eptir hann og hjelt því með tilstyrk Arnkels. Þorbrandssynir spöruðu því eigi að eggja Snorra goða fóstbróður sinn gegn Arnkatli. Kom þá svo að lokum að Snorri fyltist heiptarhug til hans og sagði að hann „sæti yfir hvers manns hlut hér í heraði.“ Bætti Þorleifur kimbi Þorbrandsson því þá við, að Snorri hjeldi engu máli til fulls við hann.[2])

Í annan stað sneri Þórólfur nú við blaðinu og reyndi að eggja Arnkel son sinn á móti Snorra og heimta af honum Krákunesskóg. Arnkell vildi það eigi, en Þórólfi varð svo mikið um það, að hann andaðist nóttina á eptir. Þó hófust deilur á milli þeirra Arnkels og Snorra út af skóginum. Snorri ljet höggva skóginn mikið, en Arnkatli þótti hann eigi hafi fengið heimildartak á honum að lögum, og faðir sinn hafa gjört arfsvik við sig, er hann hafði fengið Snorra skóginn. Arnkell reið því eitt sinn á eptir Hauk fylgdarmanni Snorra og þrælum hans, er þeir reiddu heim við úr skógnum, feldi Hauk en rak þrælana á flótta og hafði viðinn heim til sín. Á Þórsnesþingi varð Haukur óheilagur af því að hann hafði hlaupið fram móti Arnkatli, og ónýttist málið fyrir Snorra.

Nú tók Snorri að beita svikum. Hann sendi flugumann til þess að drepa Arnkel, en hann ljet líf sitt fyrir Arnkatli. Haustið eptir skipaði Snorri Þorbrandssonum að halda njósnum fyrir sig um ferðir Arnkels og gera sig varan við, ef færi gæfist til þess að drepa hann. Arnkell var starfsmaður mikill og flutti hey um nætur af Örlygsstöðum, sem hann hafði undir. Litlu fyrir jól urðu Þorbrandssynir þess varir eina nótt, og gerðu Snorra þegar orð. Hann brá við skjótt

---

[1]) Bær þeirra feðga Þorbrands og sona hans í Álptafirði var síðar kendur við Kár Þóroddsson Þorbrandssonar og kallaður Kársstaðir; er hann nefndur svo í Eyrb. á meðan Þorbrandssynir bjuggu þar, því að hið upphaflega nafn hans var gleymt. Eyrb. 63/119; Ldn. 13/99; Hksb. 74/32; Stb. 86/153. [2]) Eyrb. 30–32/52–59.

og fóru þeir fimtán saman að Arnkatli. Þá er hann sá ferð þeirra, þótti honum betra að verjast í stakkgarðinum en að renna, og sendi heim þræla sína að vekja menn, en sökum hræðslu og heimsku svikust þeir um það.

Þeir Snorri sóttu þegar að Arnkatli, er þeir komu, og feldu hann eptir langa vörn og drengilega (um 993).[1] Eptir þetta gat enginn staðið Snorra á sporði vestur á Snæfellsnesi, þótt sumir höfðingjar væru þar hraustari en hann.

## Miðfirðingar. Miðfjarðar-Skeggi og Kormákur.

Skeggi Skinna-Bjarnarson var mestur höfðingi í Miðfirði eptir landnám.[2] Hann var kendur við fjörðinn og kallaður Miðfjarðar-Skeggi. Hann var þá á miðjum aldri (fæddur um 890) og lifði fram undir 960.[3] Aldur hans má marka nokkuð af því, að Hróðný dóttir hans var kona Þórðar gellis.[4] Skeggi var garpur mikill og farmaður á yngri árum. Hann herjaði í Austurveg og mun hann þá eða á utanlandsferðum sínum hafa eignast sverð eitt ágætt, sem nefnt var Sköfnungur eptir sverði Hrólfs konungs kraka.[5] Segir sagan, að hann hafi gengið á land á Sjálandi, þá er hann kom að austan, og brotist í haug Hrólfs kraka og tekið úr honum Sköfnung sverð konungs, öxi Hjalta og mikið fje annað; en aptur á móti á hann eigi að hafa náð brandinum Laufa af Böðvar-Bjarka.[6] Þótt svona sagnir gengu í fornöld af Miðfjarðar-Skeggja, eru þær þó litlu sannari en sögur þær, sem sagðar eru af honum í Þórðar sögu hreðu og í Bárðar

---

[1]) Eyrb. 33 59—60. 35—37 63—66. [2]) Ldn. 15 321. [3]) Sbr. Safn I, 369—370. [4]) Ldn. 1/170; Lax. 7 15. [5]) Hr.kr. 30 91, 33 100, 34 107. [6]) Laufi var sverð Böðvar-Bjarka sbr. Bjarkarímur bls. 125, 129—30, 134, 143, 160—61. Böðvar er eignarfall af böð, sem þýðir bardagi, orusta. Bjarki hefur verið kendur við orustu og kallaður böðvar-Bjarki, en seinna hefur það orðið að eiginnafni, mannsnafni.

sögu Snæfellsáss. Skeggi var einn af þeim mönnum, sem þjóðtrúin tók snemma nokkurs konar ástfóstri við.

Skeggi bjó á Reykjum í Miðfirði. Hann kemur við nokkrar sögur. Um 940 eða litlu síðar veitti hann Þorgrími hærukoll og bræðrum hans, sonum Önundar trjefóts, lið gegn Flosa Eirikssyni úr Árnesi og Víkurmönnum eptir bardagann að Rifskerjum.[1]) Þeir höfðu barist um hvalreka og fór málið til alþingis. Varð Flosi sekur og nokkrir þeir menn, er höfðu verið með honum.[2]) Nokkrum árum síðar (um 955) átti Skeggi í máli við Sleitu-Helga og fjelaga hans. Þeir voru víkingar norrænir og komu út á Borðeyri. Þeir fengu vist á Melum og Helgi kvongaðist þar bóndadóttur. Litlu síðar hurfu stóðhross frá Hrómundi halta, sem þá bjó á Fagrabrekku, og kendi hann það Sleitu-Helga og fjelögum hans. Miðfjarðar-Skeggi stefndi þeim þá um stuld til alþingis og urðu þeir allir sekir. Víkingarnir munu hafa þótst sjá hvernig fara mundi, því að þeir riðu eigi til alþingis, en bjuggu skip sitt; skyldi Hrómundur gæta hjeraðs fyrir þeim á meðan Skeggi var á þingi. Þá er víkingarnir voru búnir, fóru þeir einn morgun að Fagrabrekku og rjeðust á Hrómund og syni hans. Varð þar harður bardagi og höfðu þeir Hrómundur betur, þótt liðsmunur væri mikill. Helgi flýði við fimta mann, en sjö fjellu. Ljetu þeir Helgi þegar í haf, en týndust allir á Húnaflóa. Í bardaga þessum fjell einnig Hrómundur halti og Þorbjörn þyna son hans.[3])

Skeggi kemur einnig við Kormáks sögu. Segir þar að hann hafi lánað Kormáki Ögmundarsyni Sköfnung, þá er hann gekk á hólm við Hólmgöngu-Bersa (958 eða 959), en Kormákur eigi farið með sem skyldi og var þá brugðið heillum sverðsins. Skeggi á þá enn að hafa búið

---

[1]) Þau eru yst á Reykjanesi norðan til við Reykjarfjörð í Strandasýslu, Kålund, Ísl I, 626. [2]) Grett.² 12/29—34. [3]) Ldn. 33/161—167; Hrómundar þáttur halta í Fms. III, 142—151 og í Flat. I, 409—414; sbr. Safn I, 377—378.

á Reykjum. Annars er sagt að hann færi á elliárum sínum til Eiðs sonar síns í Ás í Borgarfirði og dæi þar.[1])

Kormákur var hraustur maður og harðfengur og skáld gott, en hann var lítill skapstillingarmaður og varð það honum að ógæfu. Af honum er sjerstök saga. Faðir hans hjet Ögmundur og kom hann út í Miðfjörð rjett eptir landnám (um 933). Hann fjekk land hjá Miðfjarðar-Skeggja og reisti bæinn á Mel (nú Melstaður) og kvongaðist þá í annað sinn og fjekk Döllu Önundardóttur sjóna. Synir þeirra voru þeir Þorgils og Kormákur.[2]) Eitt sinn vildi svo til að Kormákur sá Steingerði Þorkelsdóttur frá Tungu og varð brátt ástfanginn af henni.[3]) Svo fór líka að hún var föstnuð honum, en þá er brúðkaup þeirra skyldi halda, kom hann eigi, og var það kent seið Þorveigar kerlingar nokkrar, er átti sona sinna að hefna. Faðir og bróðir Steingerðar reiddust þá Kormáki og giptu Steingerði fornspurða Hólmgöngu-Bersa. Hann var systursonur Höskulds Dala-Kollssonar og nafnkunnur maður; hann bjó í Saurbæ vestur við Gilsfjörð.[4]) Kormákur skoraði hann á hólm, en beið ósigur. Síðan fór Kormákur utan (960) og hjelt aldrei kyrru fyrir. Var hann ýmist erlendis eða á Íslandi, og opt í víking, þangað til hann fjell á Skotlandi (um 968) hjer um bil 32 ára að aldri. Hann gleymdi aldrei Steingerði og orti um hana, ekki síst er hann komst í mannraunir, en hann fjekk hennar aldrei.[5])

---

[1]) Ldn. 1/169—170, 21/62; Korm. 9—11/19—25. [2]) Korm. 2/4. [3]) Í vísu einni, sem Kormákur orti þá, segir hann, að hann meti Steingerði jafnmikið sem Ísland alt, Húnaland og Danmörk, eða sem England og Írland. Korm. 3/7. [4]) Lax. 9/23. Bersi er einn af þeim, sem talinn er í Íslendingadrápu Hauks Valdísarsonar; sjá útgáfu Möbiusar (1874) bls. 8 (24. vísu), 49—50. [5]) Korm. einkum 6/13, 7/14, 9—10/18—21, 18/37, 27/54—56. Um Korm. sögu sjá útg. Möbius bls. 65—72, Safn I. 371—375, Finnur Jónsson, Litteraturhist. II, 746—748.

## Vatnsdælir.

Að Hofi í Vatnsdal var Ingimundur landnámsmaður Þorsteinsson enn á lífi, þá er alþingi var sett, og einhver hinn virðulegasti höfðingi á Norðurlandi. Hann var þá kominn undir áttrætt, en lifði nokkur ár fram á söguöldina; fjekk hann kenningarnafn sökum hins háa aldurs síns og var kallaður hinn gamli. Ingimundur var hinn mesti ágætismaður, rjettlátur og göfugur. Hann átti eigi í deilum eða málaferlum, því að hann var samhuga við flesta menn og „óágangsamr.“ Að eins einu sinni er þess getið að hann beitti brögðum og varð það til þess að eignast sverð eitt, sem honum ljek hugur á. Það átti Hrafn stýrimaður, norrænn maður, er hafði eitt sinn veturvist að Hofi, og vildi hann eigi selja það. Hann var óþýður í skapi og áttu þeir Ingimundur eigi lund saman. Ingimundur stilti þá svo til að hann gekk inn í hofið með sverðið, en fyrir það gerði hann það af honum og kvað það mundu mýkja reiði goðanna. Var sverð þetta lengi í ætt Hofverja og kölluðu þeir það Ættartanga.[1])

Þá er Hrolleifur hinn mikli Arnhallsson varð hjeraðssekur í Skagafirði, tók Ingimundur við honum sökum fornrar vináttu við Sæmund hinn suðureyska. Hrolleifur var tvo eða þrjá vetur með Ingimundi, en þá fjekk hann honum bústað í Ási fyrir handan Vatnsdalsá. Hrolleifur var mesti ójafnaðarmaður og mátti hvergi vera svo að eigi gerði hann ilt af sjer. Eitt sinn, er hann deildi við Ingimundarsyni um veiði í Vatnsdalsá, fór Ingimundur að stilla til friðar. Hann var þá orðinn hálfníræður og nær blindur og ljet smalasvein sinn leiða hest sinn undir sjer niður að ánni. Hann bauð Hrolleifi að ganga úr ánni, en Hrolleifur skaut spjóti til Ingimundar og fló það í gegnum hann. En er Ingimundur fjekk lagið, bauð hann sveininum að leiða hestinn

---

[1]) Vatn. 17/29—30.

undir sjer og hitta eigi sonu sína. Sveinninn hjálpaði Ingimundi af baki og sá hann þá að spjótið stóð í gegnum hann. Ingimundur braut spjótið af skapti og gekk með fulltingi sveinsins og settist í öndvegi sitt. Síðan sendi hann sveininn til Hrolleifs að segja honum að forða sjer áður en dagur kæmi. Sveinninn fór sem fyrir hann var lagt af trúmennsku við Ingimund. Þá er þeir bræður komu heim, var Ingimundur dauður í öndvegi (um 935).[1])

Ingimundur átti fimm syni og voru þeir allir uppkomnir menn og sumir þeirra betur, er þetta gerðist. Þorsteinn var elstur og var hann þá á miðjum aldri. Hann var vitsmunamaður mikill, fríður sýnum og gervilegur, hófsmaður um alla hluti og vel til höfðingja fallinn sem faðir hans. Næstur honum að aldri var Jökull, afreksmaður að vexti og afli, hraustur og harðúðugur, fálátur og ómjúkur, en tryggur vinum og frændum, þótt eigi væri hann mikill skapdeildarmaður. Hinn þriðji hjet Þórir, fjórði Högni og fimti Smiður.[2])

Víg Ingimundar þóttu mikil tíðindi og ill, og brá æskuvinum hans mest við þau. Eyvindur sörkvir, aldavinur hans, brá þá saxi, og ljet fallast á það ofan og ljet þannig líf sitt. Eins gerði Gautur vinur hans í Gautsdal, er hann spurði þetta, og mælti áður: „erat vinum lítt Ingimundar“.[3])

Synir Ingimundar settust eigi í sæti föður síns meðan hans var óhefnt, og lítið sóttu þeir leiki eða mannfundi. Vorið eptir heppnaðist þeim að ná í Hrolleif og drápu hann og Ljót móður hans, er var hið versta kerlingarflagð og fjölkunnug. Eptir það skiptu þeir arfi og fjekk Þorsteinn að kjósa Hofsland, því að með ráðum hans varð hefndinni komið fram. Jökull fjekk sverðið Ættartanga og bjó í Tungu; Þórir fjekk goðorðið og bjó að Nautabúi, er síðar var nefnt að Undunfelli (nú Undirfell). Högni var farmaður og fjekk hið ágæta siglingaskip Stíganda, er Haraldur konungur

[1]) Vatn. 20—23,33—38; Ldn. 4/178—179. [2]) Vatn. 13/23—24; Ldn. 2/175. [3]) Vatn. 23/39; Ldn. 5/186.

hárfagri hafði gefið Ingimundi. Smiður gerði bú að Smiðsstöðum.[1])

Þorsteinn var fyrir þeim bræðrum og var fagurt samlyndi á milli þeirra allra. Jökull ljet hann bera sverðið Ættartanga á lögþingum og Þórir unni honum sæmdar af goðorðinu. Þorsteinn gerðist því höfðingi yfir Vatnsdælum og öllum þeim þingmönnum, sem faðir hans hafði átt. Þorsteinn var bæði friðsamur maður og rjettvís, og jafnframt stjórnsamur og duglegur. Hann refsaði þeim mönnum, er gerðu sig seka í óspektum eða glæpum og hjelt uppi friði í hjeraðinu. Hann varð því að taka Þórólf sleggju og Þórólf heljarskinn af lífi. Þeir voru báðir þjófóttir. Þórólfur sleggja var seiðmaður og segir sagan að hann magnaði tuttugu ketti sjer til fulltingis. Þórólfur heljarskinn gerði sjer virki suður við Friðmundará og hafði þar um sig nokkra illvirkja sjer til styrktar. Í slíkum atförum var Þorsteini hinn mesti styrkur að Jökli bróður sínum Hann var hverjum manni hraustari og fór venjulega að ráðum Þorsteins, þótt hann væri mikill ofsamaður.[2])

Nálega tíu árum eptir dauða Ingimundar komu upp deilur á milli sona hans og Más Jörundarsonar frænda þeirra út af ágætu beitilandi, sem fanst í fjallinu fyrir ofan Másstaði, en lá einnig að Hofslandi. Már eignaði sjer þegar land þetta, sem kallað er í Landnámu Deildarhjalli. En út af því varð hann ósáttur við Ingimundarsyni, enda átti þar vondur maður hlut að máli, þar sem Þorgrímur skinnhúfa var. Þeir börðust á Kárnsnesi; fjellu þar nokkrir menn af Mávi og Högni Ingimundarson fyrir Hrómundi Eyvindarsyni, en Jökull særði Hrómund svo að hann var haltur síðan. Fyrir víg Högna gerði Þorsteinn Hrómund sekan milli Hrútafjarðarár og Jökulsár í Skagafirði; fór hann þá vestur að Fagrabrekku í Hrútafirði, og bjó þar til æfiloka.[3])

Ingimundarsynir áttu einnig í deilum við Berg hinn

---

[1]) Vatn. 24—27/39—44; Ldn. 4/179—180. [2]) Vatn. 28/44—45, 30/49—51; Ldn. 4/180—181. [3]) Vatn. 29/45—49; Ldn. 4/180.

rakka og Finnboga hinn ramma Ásbjarnarson, móðurbróður hans (um 955).[1]) Finnbogi hafði sökum víga orðið að fara norðan úr Flateyjardal[2]) og setst að á Borg í Víðidal. Bergur átti upptökin að deilunum. Hann áði í engjum Þorsteins og kom eigi heim til hans, eins og siður var ferðamanna. Í brúðkaupi nokkru gekk hann svo snúðugt hjá Þorsteini, að hann hrataði fyrir. Jökull laust þá Berg svo á milli herðanna, að hann fjell við. Hann spratt upp ákaflega reiður og greip til vopna, en menn gengu á milli þeirra, svo þeir náðu eigi að berjast. Bergur vildi engum bótum taka, þótt Þorsteinn byði þær, en stefndi þeim til Húnavatnsþings. Til þess að koma á sættum, ætlaði Þorsteinn að ganga þar undir þrjú jarðarmen; en er hann gekk undir hið fyrsta, mælti Bergur: „svínbeygða ek nú þann, sem æztr var af Vatnsdælum“. Þorsteinn gekk þá eigi undir fleiri. Finnbogi hinn rammi skoraði þá á hann til hólmgöngu í Víðidalsey, og Bergur á Jökul. En af þessu fengu þeir engan sóma. Þann dag, er hólmgangan skyldi vera, var hið versta illviðri með frosti, og hugðu þeir Bergur, að þeir bræður mundu eigi fara til hólmstefnunnar. Sökum dugnaðar Jökuls og fylgi Faxa-Brands vinar hans komust þeir bræður þó til hólmgöngunnar og reisti Jökull þar Finnboga og Bergi níð, þá er þeir komu eigi.

Nokkru síðar gerði Finnbogi og Bergur atför að þeim Þorsteini, en hann hafði liðsafnað fyrir. Fóru þá svo leikar að Þorsteinn gerði Finnboga og Berg brott úr hjeraðinu og máttu þeir eigi vera milli Jökulsár í Skagafirði og Hrútafjarðarár. Finnbogi fór þá vestur á Strandir, í Trjekyllisvík og bjó þar.[3])

Ingimundarsynir hjeldu virðingu sinni til dauðadags, en þeir munu hafa fallið frá á árunum 965—970. Áður en

---

[1]) Safn I, 379. [2]) Ldn. 17/225, sbr. Finnb. 28/50. [3]) Vatn. 31—35/51—58; Ldn. 4,181. Í Finnboga sögu hins ramma segir mikið af deilum Finnboga við Ingimundarsyni, en það er eigi sönn saga. Um Finnboga sögu sbr. *Vorrede* fyrir útg. Hugo Gerings af henni og Finnur Jónsson, Litteraturhist. III, 81—82.

skýrt er frá andláti þeirra bræðra er þess getið að Þorsteinn hafi fengið goðorðið hjá Þóri handa sonum sínum, en sá atburður, sem segir frá í Vatnsdælu við það tækifæri, mun þó hafa gerst töluvert fyr, en það var fæðing Þorkels kröflu. Hann var sonur Þorgríms Hallormssonar að Kárnsá, systursonar Ingimundarsona, og Nereiðar frillu hans. Þorgrímur ljet bera hann út af orðum konu sinnar, en þeir bræður Þorsteinn og Þórir björguðu barninu og fæddi Þórir það upp. Þetta var um 950 eða litlu síðar, því að 981 var Þorkell krafla orðinn höfðingi Vatnsdæla. Ef það er rjett, sem segir í Vatnsdælu, að Þórir Ingimundarson hafi lifað lengst þeirra bræðra, hefur Þorkell eflaust verið eldri en þrevetur, þá er fóstri hans andaðist, þótt sagan segi það.[1])

Þorsteinn Ingimundarson átti tvo syni, Ingólf, er bjó að Hofi eptir föður sinn, og Guðbrand, er bjó að Guðbrandsstöðum.[2]) Báðir voru þeir mjög hraustir menn, einkum Ingólfur. Hann var og manna fríðastur og er því stundum nefndur hinn fagri. Leist konunum svo vel á hann að um það var kveðið, og er þetta upphafið:

Allar vildu meyjar
með Ingólfi ganga.

Ingólfur lagði hug á Valgerði Óttarsdóttur og heimsótti hana og orti um hana mansöngsvísur. Sökum þess sendi faðir hennar tvisvar flugumenn til þess að drepa hann eða Guðbrand bróður hans. Ingólfur var var um sig, en Guðbrandur eigi og tók hann við flugumönnunum; tókst öðrum þeirra að drepa hann með svikum, en Guðbrandur hjó hann banahögg um leið og hann fjekk banasárið. Óttar varð síðan að bæta fyrir fjörráð við hann.

Ingólfur varð eigi gamall maður, því að hann dó fám árum síðar af sárum, sem hann fjekk í bardaga við úti-

---

[1]) Vatn. 37/59—60, 38/61; Ldn. 4/181. Á tímatalinu er allmikill ruglingur í Vatnsdælu, eigi síst um þetta skeið, sbr. Guðbr. Vigfússon, Safn I, 379—384, Finn Jónsson, Litteraturhist. II, 482; þó árset jeg atburðina nokkuð öðruvísi en þeir. [2]) Kálund, Isl. II, 44—45, 421.

legumenn. Hann barðist þá við ofurefli liðs, enda var hann mesti fullhugi, og feldi fimm menn áður en förunautar hans komu til.[1])

Eptir fráfall Ingólfs segir að Þorgrímur Hallormsson fengi goðorð þeirra Hofverja og var hann kallaður Kárnsárgoði.[2]) Ef það er rjett eins og auknefnið virðist benda á,[3]) hefur hann eigi haldið því lengi, enda mun hann hafa andast nokkru síðar. Í annan stað er þess einnig getið[4]) að goðorðið hafi lagst til Þorkels kröflu sökum bernsku Ingólfssona og má vera að Þorkell hafi fengið það eptir Ingólf Þorsteinsson frænda sinn, og notið þess auk frændsemi, að hann var uppeldissonur Þóris Ingimundarsonar og vænn til höfðingja. Þá er Þorvaldur víðförli og Friðrik biskup komu út 981, var hann orðinn höfðingi yfir Vatnsdælum; þó er eigi líklegt að hann hafi tekið við goðorðinu þegar eptir Þorstein Ingimundarson eins og Guðbrandur Vigfússon hyggur.[5]) Þorkell krafla bjó að Hofi. Í Grettis sögu segir þó að hann hafi búið að Mársstöðum í Vatnsdal, þá er Ásmundur hærulangur Þorgrímsson kom út (um 984), og má vera að hann hafi byrjað þar búskap.[6])

---

## Skagfirðingar.

Ekkert af hinum miklu hjeruðum landsins er eins sögusnautt á 10. öld, eins og Skagafjörðurinn, því að engin saga er til, sem hefur gerst þar á söguöldinni. Ef Grettis saga og fáeinar aðrar sögur kæmu eigi ofurlítið við Skagafjörðinn

---

[1]) Vatn. 29/49, 37—41 60—67; Hallfr. 2—3/86—87; Ldn. 4/180—182; Fms. II, 154/13—14. [2]) Vatn. 42/67—69. [3]) Þó má auknefni hans vera komið af því, ef hann hefur haft hof á heimili sínu. [4]) Vatn. 45/75. [5]) Vatn. 46/76; Bps. I, 1—2/4—6; Safn I, 383. [6]) Vatn. 45/75; Ldn. 4/183; Hallfr. 10/109 (ár 1001); Fms. III, 264/20. Grett. 13/37, sbr. Safn I, 376.

og skýrðu eigi dálítið frá einstaka mönnum, sem voru þar uppi, væri mönnum nú á dögum algjörlega ókunnugt um Skagfirðinga á þeim tímum, nema það, sem segir í Landnámabók. Sumir hafa skilið þetta svo sem friður og spekt hafi verið í hjeraði þessu alla söguöldina[1]), en það er þó harðla óvíst og söguleysið er als eigi næg sönnun fyrir því. Einn af sonum Eiríks í Goðdölum var kendur við hólmgöngur og kallaður Hólmgöngu-Starri[2]) og bendir auknefni hans eigi á að hann hafi verið neinn friðsemdarmaður. Það litla, sem kunnugt er um Skagfirðinga á söguöldinni, bendir eigi á að líf þeirra hafi verið mjög ólíkt því, sem það var annars staðar á Íslandi, og það er eigi heldur líklegt að svo hafi verið. Hitt má vel vera og er enda líklegt, að þar hafi eigi gerst nein stórtíðindi á söguöldinni, svo sem frægir bardagar eða brennur og málaferli, eins og í sumum öðrum hjeruðum landsins.

Aðalástæðan til þess að Skagfirðingar eru eigi eins sögurikir eins og alment er á söguöldinni, mun vera sú, að þeir menn, sem rituðu hinar fornu sögur Íslendinga, hafa eigi verið kunnugir í Skagafirði og að Skagfirðingar sjálfir hafa eigi átt sagnaritara. Þó er eigi ólíklegt að sum af söguritum þeim, sem týnd eru, hafi skýrt eitthvað meira frá viðburðum eða mönnum í Skagafirðinum en nú er kunnugt, og ómögulegt er það eigi að einhver saga eða þáttur þaðan hafi farið forgörðum.

Eptir landnám eru þeir Goðdælir og Hjaltasynir taldir mestir höfðingjar í Skagafirði[3]), en þetta er þó eigi alveg rjett. Hjalti Þórðarson var þá enn uppi og mun hafa lifað töluvert fram yfir miðja 10. öld; hann mun því hafa verið fyrir þeim feðgum að minsta kosti fram á miðja öldina. Synir hans voru þeir Þorvaldur og Þórður, ágætir menn; urðu þeir einkum frægir fyrir erfi það hið mikla, er þeir hjeldu eptir föður sinn, er hann dó (um 970).[4]) Í því voru 1440 boðsmenn og voru allir virðingamenn leiddir

---

[1]) Sbr. t. a. m. Safn I. 386. [2]) Ldn. 7/190. [3]) Ldn. 15/321.
[4]) Safn I. 249—50, 386—87.

brott með gjöfum. Oddur Breiðfirðingur færði þá drápu, sem hann hafði ort um Hjalta. Hann átti Hjaltasonum liðveislu að launa, síðan Glúmur Geirason stefndi honum til Þorskafjarðarþings. Þeir fóru þá að norðan sjóleið til Steingrímsfjarðar og þaðan fótgangandi til Þorskafjarðarþings.[1] En er þeir gengu á þingið, voru þeir svo vel búnir, að menn hugðu að Æsir væri komnir, eins og segir í vísu einni.[2] Oddleifur stafur Flókason deildi eitt sinn við Hjaltasyni, en ekkert nánar er um það kunnugt.[3] Um Þorvald Hjaltason er sagt að hann hafi barist með Eiríki konungi sigursæla á Fýrisvöllum (um 982) og orti hann tvær vísur eptir orustuna.[4] Þórður Hjaltason mun hafa búið að Hofi í Hjaltadal eptir föður sinn. Þar bjó Hjalti sonur hans, þá er Grettir settist í Drangey.[5]

Eiríkur að Hofi í Goðdölum átti fjóra syni og er eflaust átt við þá, þar sem Landnáma nefnir Goðdæli. Þó mun Eiríkur hafa lifað fram á söguöldina, og synir hans eru taldir með stærstu höfðingjum á landinu, þá er kristniboð hófst (981); er því auðsætt, að Landnáma telur þá, eins og fleiri á þeim stað, höfðingja nokkru fyr en rjett er. Starri, sem nefndur var Hólmgöngu-Starri, virðist hafa verið fyrir þeim, og mun hann hafa búið að Hofi eptir föður þeirra. Þar bjó Eiríkur sonur hans 1028.[6]

Fleiri göfgar ættir voru í Skagafirði á söguöldinni, svo sem niðjar Þórðar í Höfða, Öndótts í Viðvík, Sæmundar suðureyska (Hlíðverjar) og Eilífs arnar Atlasonar, Skíðasonar hins gamla; voru þeir nefndir Skíðungar, en flestir þeirra dreifðust um Húnavatnssýslu.[7]

---

[1]) Þar sem þeir gengu úr Steingrímsfirði yfir heiðina var síðan kallað Hjaltdælalaut, sjá Kålund, Ísl. I, 526—27. [2]) Ldn. 10/197—98. [3]) Ldn. 11/200. [4]) Fms. V, 250—251 (= Flat. II, 73). [5]) Grett. 70/250—251. [6]) Ldn. 7/190; Bps. I, 1/4; Grett. 70/252. sbr. Safn I, 388. [7]) Sbr. Ldn. 6/187 o. ef., Safn I, 388—389.

## Eyfirðingar.

Í Eyjafirði rjeðu niðjar Helga hins magra lögum og lofum, og eru af sumum þeirra allmiklar sögur.[1]) Þeir kvísluðust í margar greinar og urðu afkomendur Ingjalds á Þverá og Helgu systur hans, sem var gipt Auðuni rotin, frægastir höfðingjar í Eyjafirði á söguöldinni.

Ingjaldur Helgason var einhver göfgastur barna Helga hins magra og reisti hann hof að Þverá hinni efri, eins og fyr er sagt.[2]) Hann varð aldraður mjög og mun hann því hafa verið á lífi, þá er alþingi var sett á stofn. Hann hefur því verið einn af þeim goðum, sem fjekk sæti í lögrjettu. Af honum segir í upphafi Víga-Glúms sögu. Hann var orðinn gamall maður, er sagan hefst. Hann átti Salgerði Steinólfsdóttur, sonardóttur Ölvis barnakarls.[3]) Merkastur af börnum þeirra var Eyjólfur, er tók við Þverá eptir föður sinn. Á yngri árum komst hann í kynni við norrænan kaupmann, Hreiðarr að nafni, góðan dreng og ættstóran, sem út kom í Eyjafirði. Fjell svo vel á með þeim, að Eyjólfur útvegaði honum vist hjá föður sínum um veturinn. Sumarið eptir fór Eyjólfur utan með honum og var hjá honum á Vors á Hörðalandi um veturinn. Þar kyntist hann vinafólki Hreiðars Vigfúsi hersi syni Víkinga-Kára.[4]) Eyjólfur var fimm vetur í Noregi og fjekk gott orð fyrir karlmennsku og hreysti, bæði í víkingu á sumrum og þá er hann gekk á hólm við Ásgaut berserk til þess að veita lið einum frænda Hreiðars. Hann hjó fót undan berserknum, svo að hann varð að leysa sig af hólmi. Síðan fjekk Eyjólfur Ástríðar dóttur Vigfúss

---

[1]) Sbr. að framan I, 167 o. ef. [2]) Sjá að framan I, 292. [3]) Ldn. 16/222, 11/308. [4]) Í Glúm. 3/7, 5/13 er Vigfús kallaður Sigurðsson Víkinga-Kárasonar, en í Melabók af Landnámu 1/171, 16/222, sbr. Ísl. I, 325, Fms. I, 124/251 er hann talinn sonur Víkinga-Kára og er það rjettara, sbr. einnig ættartölu Gissurar hvíta og Ólafs Tryggvasonar frá Víkinga-

hersis og fór hún með honum til Íslands. Yngsti sonur þeirra var Víga-Glúmur.[1])

Þá er þau Eyjólfur komu í Eyjafjörð (um eða litlu fyrir 940), var Ingjaldur faðir hans andaður. Tók Eyjólfur þá við búi og goðorði, en hann varð eigi gamall og dó frá konu sinni og fjórum börnum í uppvexti. Einn af sonum þeirra hjet Vigfús og fjekk hann Hallfríðar dóttur Þorkels hins háfa frá Mývatni. Vigfús eignaðist eitt barn, en andaðist litlu eptir það, og barn hans skömmu síðar; bar þá undir Hallfríði allan arf Vigfúss, er hann átti í búi móður sinnar. Þorkell háfi notaði sjer þetta og Sigmundur sonur hans og fluttu búferlum til Þverár. Hugðist Sigmundur að gerast höfðingi þar í sveitinni og kvongaðist Vigdísi Þórisdóttur frá Espihóli, sonardóttur Hámundar heljarskinns. Þeir feðgar Þorkell og Sigmundur tóku því næst að veita Ástríði þungar búsifjar. Þverárlandi var skipt í helminga og hlutu þau mæðgin Ástríður og Glúmur, sonur hennar, þann hluta landsins, sem var ekki húsaður: urðu þau þá að reisa bæ. En þeir Sigmundur ljetu eigi þar við

---

Kára í Hkr. II, 69/107; Flat. I, 36/65; Fms. II, 218/210, IV 68/131; Nj. 26/102—103, 46/202—203. Ættin var þannig:

Sigurður bjóðaskalli Eiríksson.
|
Víkinga-Kári lendur maður á Vors
|

| | | |
|---|---|---|
| Vigfús hersir á Vors. | Böðvar hersir á Vors. | Eiríkur bjoðaskalli á Ofrustöðum. |
| Ástríður ∽ Eyjólfi. | Ólöf ∽ Teiti Ketilbjarnarsyni. | Ástríður ∽ Tryggva Ólafssyni. |
| Víga-Glúmur. | Gissur hvíti. Jórunn. | Ólafur Tryggvason, Noregskonungur. |
| | Ásgrímur Elliðagrímsson. | |

Í Hkr. 81/403 telur Snorri Eirík bjóðaskalla bróðurson Böðvars á Vors og kallar hann Sigurðsson Víkinga-Kárasonar, þvert á móti því er hann segir síðar; en eptir því hefðu þeir Ásgrímur Elliðagrímsson og Ólafur Tryggvason átt að vera fjórmenningar. [1]) Glúm. 1—4 1—13.

sitja, heldur sýndu Ástríði ýmsan ágang. Glúmur skipti sjer eigi af því nje af búsýslu, því að hann sá að hann gat eigi veitt móður sinni þá hjálp, sem dygði. Þá er hann var 15 vetra, fór hann utan til þess að leita sjer frama, en bað áður móður sína að lóga eigi landinu, þótt þröngt yrði kosti hennar.

Þá er Glúmur kom til Noregs, fór hann upp á Vors til Vigfúss afa síns, en hann tók honum fálega í fyrstu og kvaðst eigi vita hvað satt væri af því, er hann segði um ætt sína. Þó fjekk Glúmur að vera þar og var hann bæði fámálugur og ósiðblendinn, þangað til að hann barði á Birni járnhaus, berserk miklum, í gestaboði nokkru, svo að hann hröklaðist burtu og beið bana af. Þá fagnaði Vigfús Glúmi og kvað hann hafa fært sig með skörungskap í ætt sína. Glúmur var síðan um veturinn hjá Vigfúsi hersi í góðu yfirlæti. Um vorið vildi Glúmur fara til Íslands og ljet Vigfús þá búa skip handa honum og gaf honum farm á það og þrjá góða gripi, feld, spjót og sverð, er þeir frændur höfðu mikinn trúnað á. Kvaðst Vigfús vænta að Glúmur mundi eigi týna virðingu, ef hann lógaði eigi gripum þessum.[1])

Á meðan Glúmur var erlendis, höfðu þeir Sigmundur fært merkjagarðinn inn á land móður hans, og sölsað með rangindum undir sig hinn ágæta akur að Þverá Vitazgjafa, sem aldrei varð ófrjór. Einnig ljetu þeir nautgripi sína ganga í tún hennar. Vildu þeir auðsjáanlega koma henni burt frá Þverá. Glúmur var fálátur í fyrstu eptir að hann kom heim, en er þeir feðgar hjeldu áfram uppteknum hætti, tók hann að verja tún móður sinnar og rak burtu naut þeirra feðga; því næst drap hann Sigmund, er hann ætlaði að fara að skera upp kornið af akrinum, sem móðir hans átti þá að hafa.

Esphælingar bjuggu mál til alþingis á hendur Glúmi um víg Sigmundar. En Glúmur stefndi honum um stuld til óhelgi, og kvaðst hafa drepið hann á eign sinni. Annað mál bjó hann á hendur Þorkeli háfa um bekráð til fjár síns,

---

[1]) Glúm. 5—7/13—19.

og Ástríðar móður sinnar. Á alþingi fjekk Glúmur með fylgi Mosfellinga, tengdamanna sinna og frænda, gert Sigmund óhelgan, og Þorkell varð að velja um tvo kosti, annaðhvort að verða dæmdur sekur eða selja Glúmi Þverárland með slíku verði, sem hann vildi ákveða, og var það hjer um bil hálfvirði. Þorkell kaus síðari kostinn og flutti frá Þverá árið eptir (um 960).[1])

Glúmur fjekk virðingu af málum þessum og óx vegur hans brátt heima í hjeraði, enda mun hann nú hafa tekið við goðorði föður síns. Hann kvongaðist litlu síðar og fjekk góða konu Halldóru Gunnsteinsdóttur frá Lóni í Hörgárdal. Hún var bæði vel að sjer og dugleg, og gerðist nú ráð hans virðulegra en áður.[2])

Glúmur var vitur maður og lögkænn, og skáld. Hann var einnig mjög hraustur maður og vígur vel, og ótrauður til þess að láta vopnin skera úr, ef hann gat eigi náð rjetti sínum á annan hátt. Hafði hann þá eigi mörg orð um það, sem honum mislíkaði, þótt hann væri maður skapmikill.[3])

Glúmur átti í allmörgum deilum, og voru frændur hans Esphælingar optast annars vegar, því að aldrei greri um heilt með þeim og Glúmi eptir málaferlin á alþingi.[4]) Af vígum sínum fjekk Glúmur auknefnið Víga-Glúmur.

Glúmur átti tvo syni, Má og Vigfús; varð Vigfús einkum nafnkunnur maður sökum hreysti sinnar, utanferða og vígaferla. Hann var ofstopamaður. Hann drap Bárð hinn hvíta Hallason fyrir litlar sakir. Halli hinn hvíti, faðir hans, var dóttursonur Auðunar rotins og hafði hann fóstrað Einar Eyjólfsson frænda sinn. Hann bjó þá í Saurbæ og fjekk Halli hann til þess að taka við málinu. Hann batt þá vinfengi við Þórarin Þórisson á Espihóli, mág Sigmundar, og lauk svo málum á alþingi að Vigfús varð sekur fjörbaugsmaður, og skyldi vera utan þrjá vetur. En Vigfús vildi eigi fara utan á þeim árum og varð hann því alsekur eða skóggangsmaður. Glúmur hjelt hann þá á laun.

---

[1]) Glúm. 7/20—23, 8/24—25, 9/27—29; Ldn. 9/196, 20/233. [2]) Glúm. 10/30; Ldn. 14/213. [3]) Glúm. 7/23. [4]) Glúm. 9/29.

þótt hann væri sjálfur goði, og það væri trú manna, að sekir menn mættu eigi vera á svo helgum hofstað sem Þverá.[1])

Hjer um bil tveimur árum síðar bar svo við að Arngrímur Þorgrímsson í Möðrufelli vá Steinólf Arnórsson frænda sinn og fóstbróður, af því að hann grunaði hann um að hann talaði fleira við Þórdísi konu sína, en skaplegt væri. Þeir Arngrímur og Steinólfur voru systrasynir; í föðurætt var Arngrímur Esphælingur, en Steinólfur var náskyldur Glúmi og auk þess skjólstæðingur hans. Flestir ætluðu að Steinólfur hefði verið veginn fyrir litlar sakir eða engar, en hins vegar var sá grunur á, að Þorvaldur krókur Þórisson frá Espihóli, er bjó á Grund, hefði eggjað Arngrím mjög til að vega Steinólf, og að Einar Eyjólfsson hafi verið í ráðum með þeim. Þorvaldur krókur var við vígið og reið síðan með Arngrími til Espihóls. Þeir báðu Þórarin liðveislu, en hann var vitrastur og vinsælastur af þeim frændum.[2]) Hann gekk í málið, og nú reis upp hinn forni fjandskapur milli Esphælinga og Glúms.

Vorið eptir fór Már Glúmsson einn morgun í Möðrufell með 18 menn að stefna Arngrími um vígið, en Glúmur var heima við sjötta mann og bað þá skjótt koma heim. Þennan morgun kom Þorvarður Örnólfsson, bóndi í Kristnesi, að Þverá. Hann var vitur maður, en brögðóttur og eigi góðgjarn. Hann fjekk að vita hvað um var að vera, og fór þá til Espihóls og fjekk eggjað Þórarin á að stefna Steinólfi til óhelgi. Síðan sendi hann Guðbrand son sinn, tólf vetra svein, til Glúms og ljet hann segja honum af fyrirætlun Esphælinga. Glúmur skildi skjótt hvernig í öllu lá, og leyfði því eigi sveininum að snúa þegar heimleiðis, en sagði að faðir hans vildi að hann sýndi vaskleik sinn í dag. Þá er Glúmur sá ferð Esphælinga yfir Eyjafjarðará, rann hann úr garði á móts við þá og með honum sex karlar að Guðbrandi meðtöldum. Esphælingar voru fimtán saman. Glúmur reyndi því að dvelja þá þangað til Már kæmi; en

---

[1]) Glúm. 17/48—49, 19/53—56; Ldn. 16/220. [2]) Glúm. 20—21/57—60.

er það tókst eigi, skaut hann spjóti til Arngríms og hófst þá bardagi sá, sem kendur er við Hrísateig, því að svo hjetu grundirnar, þar sem þeir fundust. Þá er bardaginn hafði staðið litla hríð, kom að maður í skinnkufli hlaupandi og hafði sverð í hendi. Hann hjó þegar einn af mönnum Þórarins banahögg og fór í lið með Glúmi. Var þar kominn Vigfús sonur hans og hafði hann þá verið þrjá vetur í sekt og í leynd hjá föður sínum, en flestir ætluðu hann farinn utan. Glúmur kendi hann þegar og ávarpaði hann með nafni eins þræls síns, til þess að villa fyrir mönnum. Eptir nokkra hríð kom Már og fór þá Þórarinn af baki og í móti honum. Hann hafði eigi barist áður, því að honum þótti liðsmunur of mikill. Viðskiptum þeirra Más lauk svo, að Þórarinn fjell af sárum, en þá kom Halldóra, kona Glúms, og konur með henni. Hún batt um sár hans og sat yfir honum til þess er lokið var bardaganum.

Þorvarður Örnólfsson reið á Öngulsstaði, er hann fór frá Espihóli. Þar bjó Halli hinn digri. Þá er hann fjekk að vita hvað Þorvarður hafði aðhafst, brá hann við, safnaði mönnum og fór til bardagans og skildi þá. Voru þá fallnir fimm menn af hvorum; en einn þeirra, Þorvaldur tasaldi systurson Glúms, varð græddur. Af þeim mönnum, er Esphælingar ljetu í bardaganum, voru þeir Þorvaldur krókur Þórisson og Arngrímur Þorgrímsson merkastir.

Eptir bardagann taldi Glúmur Guðbrandi Þorvarðssyni trú um, að hann hefði vegið Þorvald krók og þóttist sveinninn maður að meiri; var víginu lýst á hendur honum. En er Þórarinn spurði að Þorvaldur tasaldi var lífs og að mannfallið var meira á hans hlið, kaus hann Þorvald krók bróður sinn til eptirmáls, því að hann þótti mest verður og mátti því fá mestar bætur eptir hann. Litlu síðar frjetti hann, að Guðbrandi var eignað víg hans, og þótti honum þá lítill slægur í að sækja hann til sektar. Þórarinn lá í sárum um sumarið, og fór því Einar Eyjólfsson með málið. Urðu þær sættir á þingi um sumarið, að bæta skyldi víg Steinólfs svo, að fram væri færð sýkna Vigfúss Víga-Glúmssonar. Guðbrandur varð sekur um víg Þorvalds og kom Glúmur honum utan.

Glúmur sjálfur hafði orðið Þorvaldi krók að bana, og hann gat eigi á sjer setið fremur en Gísli Súrsson eptir víg Þorgríms goða. Um veturinn orti hann vísu og gaf í skyn í henni hver valdur væri að víginu. Vísan barst út. Þorvarður Örnólfsson skildi hana og fjekk Þórarin til þess að taka upp málið aptur og stefna Glúmi að því er sagan segir til Hegranesþings, því að þar átti Þórarinn mjög mikinn frændaafla; voru allir samþingisgoðarnir „bundnir í nauðleytum“ (mægðum) við hann. Glúmur gekk til þings með hundrað manna, en nokkurn hluta liðs síns sendi hann sjóleið með herklæði og vistir og týndist það fyrir Úlfsdölum. Esphælingar urðu miklu fjölmennari, og með þeim var Einar Eyjólfsson. Þá er Glúmur skyldi færa fram vörn fyrir sig, var honum eigi gefið meira rúm, en einn maður mátti um ganga til dómsins, og var fylkt liði beggja megin. Glúmi sýndist óráðlegt að ganga í kvíar á milli mótstöðumanna sinna, en mikið var í veði. Hann skipaði því mönnum sínum í svínfylkingu; var fremstur sjálfur og síðan tveir og þá fjórir jafnfram. Þeir runnu að í einu skeiði í dómhringinn og höfðu spjótin fyrir sjer; hrukku þá hinir undan og varð þröng mikil og föst; leið langur tími nætur áður þeim Glúmi varð bægt frá í brott. Um síðir varð dómurinn settur í annað sinn; og er þeir tóku að reifa málið, gengur Glúmur í þingbrekku og nefnir votta, að sól væri þá komin á þingvöll. Síðan lagði hann bann við að dæma málið og varð það þá að falla niður. Esphælingar stefndu nú málinu að ráðum Einars Eyjólfssonar til alþingis, og þar komust á þær sættir, að Glúmur skyldi um haustið vinna eiða að því í þremur hofum í Eyjafirði, að hann hefði eigi vegið Þorvald krók. Að öðrum kosti varð hann sekur af víginu.

Þá er leið að þeim tíma um haustið, er Glúmur skyldi vinna eiðana, bauð Már Glúmsson mönnum til brúðkaups, og þá kom Glúmur að sunnan, svo engan varði, með Ásgrím Elliðagrímsson og Gissur hvíta og þrjú hundrað manna. Þeir sátu að boði um nóttina og var látið líta svo út sem fjölment væri sökum brúðkaupsins. Morguninn eptir sendi Glúmur til Þórarins og bað hann koma í Djúpadal að heyra

eiðana. Þórarinn kom þangað með hundrað manna. Glúmur gekk í hofið og Ásgrímur og Gissur með honum, en Einar og Hlenni hinn gamli með Þórarni. Glúmur tók síðan silfurbauginn í hönd sjer og vann eiðinn, og kvað svo að orði: „Ek nefni Ásgrím í vætti, annan Gizor í þat vætti, at ek vinn hofseið at baugi ok segi ek þat Æsi, at ek vark at þar, ok vák at þar, ok rauðk at þar odd ok egg, er Þorvaldr krókr fekk bana.“ Síðan bað Glúmur þá, „er spekimenn ero ok við ero staddir“, að líta á eiðinn, en þeir Þórarinn fundu ekkert athugavert við hann; þó kváðust þeir eigi fyr hafa heyrt þannig að orði kveðið. Glúmur vann síðan hinn sama eið í Gnúpufelli og að Þverá.

Þeir Ásgrímur hvíldu sig nokkrar nætur að Þverá. Að skilnaði gaf Glúmur þeim tvo af gripum þeim, sem Vigfús afi hans hafði gefið honum; fjekk Gissur feldinn bláa, en Ásgrímur spjótið gullrekna.[1])

Eiður Glúms var tvíræður, því að „at“ hefur margar merkingar eptir því, hvernig það er notað. Það er meðal annars neitunarorð í fornmáli voru og merkir þá eigi. Í þeirri merkingu hugðu þeir Þórarinn að Glúmur notaði það, er hann vildi vinna eið að því að hann væri saklaus af víginu. Þeim gat eigi dottið í hug ofdirfska Glúms og brögð, en Glúmur vildi vera við öllu búinn, ef þeir sæju brögð hans, og þess vegna sótti hann mikið lið af Suðurlandi. Síðan vann hann eið að því að hann var þar að og vá þar að og rauð þar að odd og egg, er Þorvaldur krókur fjekk bana. Honum reis hugur við því að vinna rangan eið, og vildi eigi gera það, þótt hann beitti als konar brögðum og ofríki eins og þá var títt, enda mundu þeir Gissur eigi hafa veitt honum lið til þess. Fyrir því sór hann að hann hefði vegið Þorvald krók. Þetta skildi Þorvarður Örnólfsson, er hann heyrði eiðinn, og sagði Þórarni um veturinn: eggjaði hann á að láta Einar Eyjólfsson taka upp málið, ef Þórarinn þættist mæðast sökum vanheilsu á að eiga við Glúm. Hann kvað Einar mundu fúsan til þess, ef hann kæmist að Þverá, og

---

[1]) Glúm. 21—25 62—76. Um Þorvarð Örnólfsson sbr. Reyk. 15 76.

Guðmundur bróðir hans mundi veita honum lið. Þetta var að ráði gjört og bauð Þórarinn Einari að kaupa Þverárland handa honum „eigi meira verði, en Glúmur keypti at Þorkatli hafa", ef hann vildi vera fyrir málinu. Einar mintist þess að Glúmur hefði nú lógað tveimur þeim hlutum, er móðurfaðir hans hafði gefið honum, og gekk að þessu[1].

Einar Eyjólfsson bjó síðan málið til alþingis (um 985), og þar urðu þau málalok að Glúmur gekk við víginu. Til þess að komast hjá sekt eða utanferð gekk hann að því að gjalda Katli syni Þorvalds króks hálft Þverárland í föðurbætur, en selja hinn helminginn. Glúmur skyldi þó búa þar þau missiri, en verða hjeraðssekur næsta vor og búa þá eigi nær en í Hörgárdal. Einar Eyjólfsson keypti síðan Þverá og varð Glúmur að flytja þaðan árið eptir (um 986)[2].

Þá er Glúmur Eyjólfsson bjó að Þverá, var merkur höfðingi fram í Eyjafirði. Hann var eigi riðinn við deilur Glúms, og er því eigi sagt af honum í Víga-Glúms sögu, en þeim mun optar er hans getið í Reykdæla sögu, því að þar var hann ásamt Áskeli goða gerðarmaður og vandræðastillir. Höfðingi þessi var Eyjólfur Valgerðarson. Hann var sonarson Helgu Helgadóttur hins magra og Auðunar rotins, en hann var sjaldan kendur við Einar föður sinn, heldur Valgerði Runólfsdóttur móður sína[3]. Var það opt siður að kenna syni við móður sína, ef hún lifði lengur en faðir þeirra. Í föðurætt var Eyjólfur fimti maður frá Grími kamban. Auðun rotin bygði fyrstur Saurbæ í Eyjafirði, og þar mun Einar sonur hans hafa búið. Eyjólfur bjó að sögn Melabókar með konu sinni Hallberu Þórólfsdóttur langa æfi á Jórunnarstöðum í Eyjafirði, en síðan keypti hann Möðruvelli af Hafliða hinum örva á elliárum hans, og

---

[1]) Glúm. 25/77. [2]) Glúm. 26/78—79. Í öllum hinum elstu annálum segir að bardaginn á Hrísateigi hafi verið 983 og lætur það nærri sanni, því að hann hefur annaðhvort staðið þá eða litlu síðar. Þremur árum eptir bardagann fór Glúmur frá Þverá. [3]) Ldn. 16/220; Glúm. 10/31.

bjó þar síðan. Hafði Hafliði fyrstur reist þann bæ[1]), en Eyjólfur gerði hann brátt frægan.

Eyjólfur er í Landnámu talinn einn af hinum mestu höfðingjum norðanlands, þá er landið hafði verið bygt 60 vetur, en hann kemur þó eigi fyr til sögunnar en á miðri 10. öld. Hann hefur varla verið fæddur fyr en um 915 og eigi orðið höfðingi fyr en eptir 940.[2]) Hann lifði þá er Friðrik biskup kom hingað til landsins (981), og er þá ásamt Víga-Glúmi talinn mestur höfðingi í Eyjafirði.[3]) Hann druknaði nokkru síðar í Gnúpufellsá (um 985).[4]) Eyjólfur var goði[5]) og fyrir því var hann svo opt við sáttamál riðinn. Í fyrsta sinn, sem þess er getið, var þá, er Áskell goði sendi til hans og bað hann semja með sjer um viðamál þeirra Vjemundar kögurs og Steingríms Örnólfssonar á Kroppi; er sagt að Eyjólfur hafi þá búið á Möðruvöllum, og var þetta um 960.[6]) Eptir þetta er þess opt getið að Eyjólfur gjörði um deilur manna.[7]) Hann var friðsemdarmaður, en þó hraustur og gat gripið til vopna, ef á þurfti að halda. Hann var skörungur og var fastráðinn í því að veita Haraldi konungi Gormssyni viðnám, ef hann kæmi með ófrið til Íslands eins og í ráði var (um 975). Þá er þau tíðindi komu til landsins, hafði einn af húskorlum Eyjólfs selt öxi sína fyrir gráan feld. Eyjólfur kvað þá vísu og áminti hann um að selja eigi vopn sín:

Selit maðr vápn við verði,
verði dynr, ef má, sverða,
verðum hæft at herða
hljóð, eigum slög rjóða.
Vér skulum Gorms af gömlu
Gandvíkr þoku landi,
hörð er ván at verði
vápnhríð, sonar bíða.[8])

---

[1]) Ldn. 16/220, 16/222; Ldn.[2] 253. [2]) Sbr. Safn I, 393. [3]) Krist. 1/4. [4]) V.-Ljót. 2/161. [5]) Reyk. 20/103—105; V.-Ljót. 1/159—160. [6]) Reyk. 10/41—2. [7]) Reyk. 11/50, 12/55, 13/59—60, 13/65—66, 14/71, 16/83—86, 24/122—123. [8]) Jómsv. Fms. XI, 13/42—43; Jómsv.[2] (AM 291,

Eyjólfs getur einnig sem höfundar að nýjum lögum. Það var þá er hallærið mikla var í heiðni (um 970). Þá sultu margir til bana, en sumir reyndu að bjarga lífinu með því að leggjast út til að stela. Fyrir það urðu þeir sekir og voru þeir drepnir, sem náðust. Skógarmenn urðu þá svo margir, að mein varð að því. Þess vegna lagði Eyjólfur það til, að hver sá skógarmaður, sem dræpi þrjá seka menn, frelsti sig, og var það lögtekið.[1])

---

## Reykdælir.

Á fyrri hluta söguldarinnar var uppi í Þingeyjarsýslu Áskell sonur Eyvindar landnámsmanns á Helgastöðum. Hann var goði, og því venjulega kallaður Áskell goði. Hann bjó í Hvammi (nú Presthvammi) í Reykjadal. Áskell goði var vitur maður og höfðingi mikill, og hann var einhver hinn góðgjarnasti og rjettlátasti maður, sem sögur fara af í fornöld. Hann var mjög riðinn við þá atburði, sem segir af í Reykdæla sögu, og var það jafnan hlutskipti hans að stilla til friðar, gjöra um mál manna og vernda rjett manna fyrir ójafnaðarmönnum. Hann var kominn á efri aldur, þá er sagan hefst.

Áskell goði átti systur, er Fjörleif hjet. Hún var gipt Þóri leðurháls Þorsteinssyni Gnúpa-Bárðarsonar. Þau áttu sex syni og voru þeir bræður kendir við móður sína og kallaðir Fjörleifarsynir. Nafnkendastur þeirra var Vjemundur kögurr. Hann bjó að Felli í Reykjadal.[2]) Vjemundur var garpur mikill og vígamaður, ódæll og óeirinn,

---

4to) 7/36. Vísan er eigi torskilin og er orðaröðin þannig í óbundnu máli: Selit maðr vápn við verði. Verði sverða dynr, ef má. Verðum at herða hljóð hæft. Eigum rjóða slög. Vér skulum bíða Gormssonar af gömlu þoku landi Gandvíkr. Ván er at verði hörð vápna hríð.

[1]) Skb. Ísl. I, 323, sbr. Reyk. 7/32; Fms. II, 225—226/222—228.
[2]) Reyk. 11/45—46, sbr. Kålund, Ísl. II, 158.

og svo hefndargjarn að hann hjelt enga sætt. Hann gerði hvern óskunda á fætur öðrum og var valdur að flestum þeim deilum, sem fyrri hluti Reykdæla sögu segir af. Af bræðrum hans kemur Háls, bóndi að Tjörnum í Ljósavatnsskarði, mest við söguna, og var hann einnig ofstopamaður.[1])

Þeir bræður áttu þó eigi upptökin að deilum þeim, sem Reykdæla skýrir frá, heldur Eysteinn bóndi Mánason í Rauðuskriðu við Fljótsheiði. Hann var einn af hinum verstu mönnum, sem sögurnar segja frá, illgjarn og slægur, og fullur ójafnaðar, þar sem hann mátti því við koma. Hann ljet reka um nótt fimtán geldinga í hús Háls Fjörleifarsonar vinar síns, og kendi honum síðan um að hann hefði stolið þeim. Háls varð sekur, en svik Eysteins komust upp og var hann þá gerður sekur á alþingi. Áskell goði reið síðan í Rauðuskriðu að framkvæma dóminn, en þá hafði Eysteinn safnað saman öllu gangandi fje, sem hann átti, og rekið inn í húsin og brent upp alt saman, bæinn, fjenaðinn og vinnuhjúin öll (um 960). Er þetta illvirki eins dæmi á Íslandi í fornöld. Af æfilokum Eysteins sjálfs fóru tvennar sögur. Sumir sögðu að hann hefði brunnið inni með hjúum sínum, en aðrir að hann hefði farið utan á Eyrum og sjest í Vík austur, en farið þaðan til Danmerkur.[2])

Um þetta leyti eða litlu síðar hófst kunningsskapur Vjemundar kögurs og Hánefs bónda í Óþveginstungu. Hann var hinn mesti óþokki, en bauð Vjemundi barnfóstur til þess að vinna traust hans. Vjemundur þá boð hans, en skömmu síðar komst sauðaþjófnaður upp um Hánef; hafði hann stolið sextíu geldingum frá góðum bónda, Hrafni að Lundarbrekku í Bárðardal. Hánefur ljetst vera saklaus og fjekk Vjemund til að styrkja mál sitt, en Hrafn leitaði liðveislu hjá Steingrími Örnólfssyni frænda sínum á Kroppi í Eyjafirði, bróður Þorvarðs í Kristnesi, og við það hófust deilur þeirra.

Eptir ráðum Steingríms seldi Hrafn jarðir sínar í Bárðar-

---

[1]) Reyk. 1/2—3, 2/8; Ldn. 18/226 segir að Háls byggi á Helgastöðum og hefur hann þá að líkindum flutt þangað frá Tjörnum. [2]) Reyk. 1—3/3—16.

dal og flutti til Eyjafjarðar, en stefndi þó áður Hánef um sauðatökuna. Honum brá svo við stefnuna, að hann reið þegar á fund Vjemundar og kannaðist við að hann væri valdur að sauðahvarfinu. Vjemundi þótti nú verra við að eiga, en ef henn hefði vitað það áður. Þó tók hann handsölum á öllu fje Hánefs og hafði heim barn sitt.

Um sumarið varð Hánefur sekur á alþingi, og ætlaði Vjemundur þá að koma honum utan í Raufarhöfn. En Steingrímur hafði fengið Hróa bónda í Klifshaga til að drepa Hánef, ef Vjemundur sendi hann þar til skips. Vjemundur frjetti ráðagjörð þeirra og fylgdi því Hánef til skips við átjánda mann. En Hrói sat fyrir þeim með þrem tugum manna og börðust þeir, því að Vjemundur vildi eigi selja fram Hánef. En er þeir höfðu barist um hríð, kom Áskell og skildi þá; var þá Hánefur fallinn og fjórir menn aðrir. Áskell sætti þá þegar með því móti að hann gerði um málið.[1])

Vjemundur hafði beðið lægra hlut að því leyti sem honum tókst eigi að koma Hánef undan. Hann tók því eptir þetta að sýna Steingrími eða mágum hans áreitni og ójöfnuð, hve nær sem hann gat því við komið. Gekk hann svo langt í því, að hann gerði sig sekan i ránum og öðrum illverkum, en Áskell kom jafnan á sættum og Eyjólfur Valgerðarson, enda var Steingrímur göfugmenni og fús til sátta, þangað til að Vjemundur svívirti hann að hestaati á Ljósvetningaleið, með því að láta manngarm einn, Þorgeir smjörhring, ljósta hann með sauðarhöfði fyrir augum allra. Þorgeir kallaði síðan á Vjemund sjer til hjálpar og skildu þá allir að þetta var gjört af völdum hans, en Steingrímur hefndi sín þegar og hjó Þorgeir banahögg. Áskell bauð Steingrími sættir, en hann kvaðst jafnan hafa sætst, en þá enga sætt hafa haldið og neitaði að sættast. Þó liðu svo tvö ár að Steingrímur leitaðist eigi við að hefna sín, en þá reið hann með tuttugu menn norður í Reykjadal. Vjemundi kom njósn, svo þeir náðu honum eigi. Steingrímur vildi

[1]) Reyk. 4—6/17—31.

þá snúa heimleiðis, en eptir eggjan Gnúps bónda og Steins Þorbjarnarsonar, mágs Steingríms, sneru þeir hefndum á hendur Herjólfi Fjörleifarsyni, bróður Vjemundar, og riðu til Mývatns. Einn þeirra teygði hann út og vá Gnúpur hann. Eptir tilmælum Steingríms leitaði Eyjólfur Valgerðarson um sættir og gerðu þeir Áskell goði um málið. Fyrir víg Herjólfs var bætt og þeir, sem höfðu tekið þátt í því, skyldu fara utan innan þriggja ára. Þeir efndu það eigi og feldi þá Vjemundur Gnúp og Stein, en hjó hönd af Hrafni, bónda einum á Hóli í Kræklingahlíð, sem sekur hafði orðið sökum atfarar við Herjólf. Áskell kom enn á sáttum, en Vjemundur rauf þær og rændi brúði frá Helga Þorbjarnarsyni, mági Steingríms, þá er hann ætlaði að kvongast. Helgi náði að vísu aptur festarkonu sinni og Áskell og Eyjólfur Valgerðarson gerðu um málið, en Vjemundur hjelt uppteknum hætti.

Eitt sinn fór Áskell goði til Eyjafjarðar með frændum sínum til þess að koma á sættum milli Háls Fjörleifarsonar og Helgu Granadóttur konu hans frá Arnarstöðum. Þá er þeir fóru upp með Eyjafjarðará gagnvart Stokkahlöðum, sáu þeir Steingrím og nokkra menn með honum ganga úr laugu. Háls brigslaði honum þá við Vjemund og kvað hann „hafa enn leitat at þvá af sér svívirðingina, er þú létt ljósta hann með sauðarhöfðinu“. Steingrímur heyrði þetta, og er þeir fóru heim aptur og komu gagnvart Kroppi, rann hann með 30 manna til árinnar í veg fyrir þá; sló þegar í bardaga við ána og skutust þeir á yfir hana. Þeir Steingrímur leituðu yfir ána á ísspöng einni, en hún brast undir þeim og druknaði Steingrímur þar og tveir menn með honum, en tveir af mönnum hans fjellu og var Helgi mágur hans annar þeirra. Áskell bað menn sína hvata burt og ók hann síðastur. Einn af liðsmönnum Steingríms, Þórir son Ketils flatnefs[1]) hafði rent fótskriðu yfir ísinn og leyndist hann

[1]) Þórir Ketilsson flatnefs er einnig nefndur flatnefur sjálfur; Reyk. 25/123, 30/142—43. Hann kemur síðar við söguna í Vestur-Skaptafellssýslu.

þar, er hann sá að Steingrímur druknaði. Þá er hann þóttist vita að þeir Áskell myndu farnir brott, hljóp hann undan ísnum og upp á bakkana. Síðan hljóp hann á eptir þeim Áskatli, og er hann kom að sleðanum, hjó hann til Áskels og kom í höfuðið. Síðan sneri hann aptur og rendi fótskriðu yfir ísinn. Áskell bað Helgu binda um höfuð sjer og gera eigi vart við áverkann. Daginn eptir, þá er þeir höfðu farið yfir Fljótsheiði, sagði hann frá sári því, er hann hafði fengið, og kvaðst fyrir því eigi fyr hafa til sagt, að hann vildi eigi að menn hlyti ilt af vígi sínu. Hann bað frændur sína vera sáttgjarna og vildi hann að Eyjólfur Valgerðarson og Hávarður Fjörleifarson gerðu um málið. Síðan andaðist Áskell goði og varð mörgum mönnum harmdauði; höfðu þá sex menn beðið bana sökum brigslisorða Háls, og þótti öllum mikið að orðið í fráfalli þeirra Steingríms.

Eyjólfur Valgerðarson gekkst fyrir sáttum og sendi Hávarði og öðrum frændum Áskels orð að koma að Möðruvöllum til sáttafundar. Áskell átti að sögn Reykdæla sögu tvo syni; hjet annar Þorsteinn, en hinn Skúta. Þorsteinn kom á sáttafundinn, og þar var einnig Einar Konálsson, fóstri Eyjólfs og systurson, en frændi Áskels goða;[1]) átti hann mikinn hlut í sáttamálum milli manna. Þorsteinn hafði erft göfuglyndi föður síns og sáttgirni, en eigi skörungsskap hans. Hann mintist fyrst föður síns með fögrum og göfugum orðum og kvaðst eigi hitta betra ráð en líkja sem mest eptir því, sem hann vissi að faðir sinn gerði, og taka sættum.[2]) Þeir Eyjólfur og Hávarður voru síðan látnir gera um málið, og var sú sættargjörð þeirra að víg Áskels og Steingríms skyldi standast á, en hinir þrír förunautar Steingríms, er ljetust, skyldu koma fyrir atförina. Fyrir víg Helga Þorbjarnarsonar skyldi bæta. Síðan voru veittar trygðir á milli manna, nema fyrir Skútu, því að hann var þá erlendis. Þórir Ketilsson skyldi fara utan og vera aldrei í Norðlendingafjórðingi meðan Fjörleifarsynir væru á lífi (um 970).[3])

---

[1]) Hann var sonarsonur Ketils Þorsteinssonar, föðurbróður Áskels, Reyk. 1/2; Ldn. 19/228—29. [2]) Reyk. 16/84—85. [3]) Reyk. 7—16/33—86.

Af Áskatli er sögð ein saga, sem lýsir hinni einstöku göfugmensku hans, þótt hinn kristni söguritari leggi honum þau orð í munn, sem hann helst vill kjósa. Einu sinni bar svo til að vetur var harður og áttu Reykdælir fund að Þverá; sýndist mönnum það þá ráð að heita til veðurbata, en urðu eigi ásáttir um hverju heita skyldi. Ljótur hofgoði vildi láta heita að gefa til hofs, en bera út börn og drepa gamalmenni. Áskatli þótti þetta óhæfilegt og kvað ráðlegra „at gera skaparanum tign i því, at duga gömlum mönnum, ok leggja þar fé til, ok fæða upp börnin". Lauk svo að Áskell rjeð, þótt margir mæltu í móti í fyrstu.[1])

---

## Mývetningar og Ljósvetningar.

Eptir fráfall Áskels goða koma Mývetningar og Ljósvetningar til sögunnar.

Þorsteinn Áskelsson tók við búi í Hvammi eptir föður sinn. Hann seldi af hendi goðorð þeirra Skútu, en þess er eigi getið hver það hlaut. Úr ættinni mun það eigi hafa gengið, og er svo að sjá af Njálu sem Áskell hafi átt son einn, er Þorkell hjet og hann hafi fengið goðorðið, því að 1012 var Áskell goði Þorkelsson á alþingi og fór með goðorð þeirra frænda.[2])

Skúta Áskelsson kom út annað sumar eptir víg föður síns og var með Þorsteini bróður sínum um veturinn. Vorið eptir skiptu þeir bræður föðurarfi sínum og fjekk Þor-

---

[1]) Reyk. 7/32. Á þennan atburð minnir Þáttur Svaða og Arnórs kerlingarnefs í Fms. II, 225—226/222—228; Flat. I, 345—346/435—439. Einnig prentaður í Fjörutíu Ísl. þáttum. [2]) Nj. 141/761 sbr. 138/737; Reyk. 17/86. Líklega hefur höfundur Njálu að eins vilst á nöfnunum og kallað Þorstein Áskelsson Þorkel. Þótt Þorsteinn vildi eigi fara með goðorð þeirra bræðra og seldi það af hendi, mátti það þó á ýmsan hátt komast í hendur sonar hans aptur.

steinn landið í Hvammi, en Skúta lausafje. Skúta þóttist engar bætur hafa fengið fyrir víg föður síns og hugði á hefndir, enda var hann í engum trygðum við menn um þá sök. Þorsteinn hjelt búinu í Hvammi og skyldi hann halda uppi bótum fyrir þá, er Skúta dræpi í föðurhefndir.

Skúta keypti sjer land að Mývatni og bjó þar að bæ, sem við hann er kendur og heitir Skútustaðir.[1]) Um það leyti eru nefndir ýmsir menn til sögunnar í Mývatnssveit, svo sem Arnór bóndi Þorgrímsson í Reykjahlíð, kappi mikill og góður drengur, Geiri austmaður og synir hans, Þorbergur höggvinkinni og Hallur að Sandfelli.[2]) Skúta bjó eigi lengi við Mývatn áður en hann drap tvo menn til hefnda fyrir föður sinn. Þeir höfðu verið með Steingrími, þá er þeir Áskell börðust, og bætti Þorsteinn þá af fje sínu.[3]) Nokkrum árum síðar vá Skúta Þóri Ketilsson flatnefs á Ljósvetningaleið. Hann var þá sekur eptir víg Hróars Tungugoða og hafði farið á fund Eyjólfs Valgerðarsonar til þess að fá hjeraðsvist fyrir norðan. Þórir var eitthvað skyldur Eyjólfi[4]) og fyrir því ætlaði Eyjólfur að hjálpa honum og láta lýsa sýknu hans á þremur leiðarþingum; taldi Eyjólfur hann þá vera sýknan, ef enginn mótmælti því. Það tókst að lýsa sýknu hans á Hegranesleið og Vöðlaleið, en Eyjólfur óttaðist að einhver mundi mæla í móti sýknu hans á Ljósvetningaleið. Hann fjekk því Þorgeir Ljósvetningagoða í lið með sjer, og til þess að gæta Þóris sem best, ljetu þeir hann sitja í milli sín. Skútu tókst þó með brögðum að komast svo nærri Þóri, að hann gat höggið hann banahögg. Síðan hljóp hann á bak hesti sínum og hleypti út í skóg og komst þannig undan.[5])

Eptir þetta sendi fyrst Þorgeir Ljósvetningagoði og síðan Þorbergur höggvinkinni hvern flugumanninn á fætur öðrum á hendur Skútu, en það kom fyrir ekki. Skúta var hraustmenni mikið og drap þá alla eða sigraði, er þeir ætluðu að vinna honum mein[6]) Loksins varð hann þó unninn með

[1]) Reyk. 17/86—87. [2]) Sjá Reyk. 17/87—88; Ldn 20/232—33. [3]) Reyk. 19/102. [4]) Þórir hefur líklega verið kominn af Katli flatnef Bjarnarsyni bunu eins og Eyjólfur. [5]) Reyk. 20/103—105. [6]) Reyk. 21—22/106—112, 27—29/135—141.

svikum af þeim Þórði illuga og Birni, sonum Þóris Ketilssonar (um 990). Þóroddur goði á Hjalla í Ölfusi hafði látið mann njósna um hýbýli Skútu, og gengu þeir bræður í jarðhús hans á næturþeli og komust þannig í lokrekkju hans. Skúta hafði þó mann fyrir sig, þá er hann fjell, og hjó Björn banahögg.[1])

Skúta var kallaður Víga-Skúta af því að hann vá svo marga menn. En þrátt fyrir það var hann þó góður drengur. Hann hefndi föður síns eins og þá þótti skylda, en út af því hófust ofsóknir gegn honum, svo að hann átti optast hendur sínar að verja, er hann vann víg. Skúta var vitur maður, og fengu þeir Víga-Glúmur hvorugur á öðrum unnið, þá er þeir áttust ilt við. Viðureign þeirra hófst út af vígsmáli á milli frænda þeirra, og gerðu þeir Eyjólfur Valgerðarson og Einar Konálsson um málið. Eptir það fjekk Skúta Þórlaugar dóttur Glúms,[2]) en þau átta eigi lund saman; fór Þórlaug þá heim til föður síns, og gipti hann hana Eldjárni hinum milda Áslákssyni. Skúta vildi hefna þess, og sat einn fyrir Glúmi uppi í seljum hans í Mjaðmárdal, en fjekk eigi náð honum.[3]) Þetta var um eða litlu eptir 980, en fyrir fundinn á Hrísateigi.[4])

Þorgeir Þorkelsson,[5]) sem þegar hefur verið nefndur, sonarsonur Þóris Grímssonar landnámsmanns í Ljósavatnsskarði, var um þessar mundir merkastur höfðingi fyrir norðan Vaðlaheiði. Hann bjó að Ljósavatni og átti goðorð Ljósvetninga; fyrir því var hann nefndur Ljósvetningagoði. Hann kemur töluvert við sögur. Hann var mikill vitsmunamaður og fjekk smátt og smátt orð á sig fyrir að vera lagamaður mikill. Eptir fráfall Þorkels mána var hann því kosinn lögsögumaður 985 og hafði hann það starf á hendi í 17 ár (985—1001), að líkindum til dauðadags. Hann varð fyrstur manna af Norðurlandi lögsögumaður, og hafði hann þá í fullan fjórðung aldar

---

[1]) Reyk. 30/142—146. [2]) Reyk. 23—24 112—123. [3]) Reyk. 25—26/126—135; Glúm. 16/44—48. Um Mjaðmárdal sbr. Kålund, Ísl. II, 122. [4]) Sbr. Safn I, 401. [5]) Í Nj. 105/547, 119/617 er Þorgeir kallaður Tjörvason, en það er rangt.

átt sæti í lögrjettu; var þá um gott mannval að ræða á Íslandi og því mikil virðing að vera tekinn til lögsögu.[1])

Saga Þorgeirs Ljósvetningagoða heima í hjeraði er hvorki eins fögur nje þýðingarmikil eins og saga hans á alþingi að því leyti sem hún er kunn. Hann varð aldrei svo ríkur heima í hjeraði að hann bæri höfuð og herðar yfir aðra hjeraðsmenn, eins og segja má jafnvel um Áskel goða og marga aðra. Hann var í raun rjettri heldur friðsamur maður, en átti þó eigi sjaldan í deilum við aðra, og var það meira sök annara og aldarháttarins en hans sjálfs. Hann var eigi göfugmenni sem Áskell goði, og hann var svo óhamingjusamur að vera í vinfengi við illan mann og óráðvandan, Þorberg bónda að Arnarvatni í Mývatnssveit. Hann fjekk Þorgeir til þess að styðja sig að málum, sem voru röng og ódrengileg, og var ekkert þeirra verra en málið gegn þeim feðgum Geira að Geirastöðum í Mývatnssveit og Glúmi skáldi syni hans. Þorbergur kendi þeim saklausum um stuld. Illmæli og svik Þorbergs komust upp, en þó eigi fyr en Þorbergur hafði stefnt þeim feðgum, barist við þá og sex menn beðið bana. Í þeim bardaga var Þorbergur höggvinn í andlitið, og varð hann að hafa þann áverka bótalaust sökum illmælis síns; var hann síðan nefndur Þorbergur höggvinkinni. En þeir feðgar, Geiri og Glúmur voru gerðir brott úr sveitinni. Þeir fóru þá vestur í Króksfjörð í Barðastrandarsýslu (um 960).[2]) Þorgeir hefur að líkindum verið um þrítugt, þá er þetta var, og varpar það eins og öll mök hans við Þorberg og svikræði þeirra við Víga-Skútu nokkrum skugga á hann. Þó sættust þeir Skúta og Þorgeir og setti hann síðan aldrei nein fjörráð fyrir Skútu.[3])

Þorgeir Ljósvetningagoði var þrígiptur og átti marga syni.[4]) Fjórir þeirra, Tjörvi, Höskuldur, Finni (einnig nefndur Drauma-Finni) og Þorkell hákur, eru kunnir af

---

[1]) Íslb. 5/8; Ldn. 17/224, 18/226—227, 5/291; Hksb. 202/80, 207/81, 313/110; Stb. 237/197, 242/198, 355/221; Mb. Ísl. I, 337, 354; Nj. 105/547—49, Ann. VI, V; sbr. Safn II, 14—15, I, 403. [2]) Reyk. 17/87—88, 18/94—98 sbr. Safn I, 387; F. Jónsson, Litteraturhist. I, 535. [3]) Reyk. 30/141. [4]) Ldn. 18/227.

Ljósvetninga sögu og Þorkell hákur einnig af Njálu. Rjett eptir að Víga-Skúta var af dögum ráðinn, átti Þorgeir í deilum við syni sína, þá er nú voru nefndir, og var Höskuldur þar fremstur í flokki. Mega deilur þær heita nærri einstakar i sinni röð í fornöld, enda brá Skarphjeðinn Þorkeli hák um að hann hefði kúgað föður sinn og barist við hann.[1]) Upptökin að þeim áttu bræður nokkrir að Gnúpum í Reykjadal, Sölmundur, Söxólfur og Eyjólfur Víðarssynir. Þeir voru ójafnaðarmenn miklir, og hafði Sölmundur keypt varning af Austmanni nokkrum, er Sigurður hjet, en vildi eigi borga, þá er að skuldadögunum kom. Austmaðurinn stefndi þá Sölmundi, en Söxólfur bróðir hans skaut hann spjóti til bana. Arnór bóndi í Reykjahlíð og Forni bóndi í Haga, sem Sigurður hafði haft veturvist hjá, bjuggu málið til þings, og urðu þau málalok, að þeir bræður báðir voru gerðir af landi brott; skyldi Söxólfur eigi eiga apturkvæmt, en Sölmundur vera utan þrjá vetur. Þeir fóru utan og lögðust í víking, en Sölmundi leiddist það og fór á fund Hákonar Hlaðajarls, er þá rjeð fyrir Noregi, og var með honum um hríð. Eptir tveggja vetra brottveru fýstist Sölmundur aptur til Íslands; sendi þá jarl þeim Þorgeiri Ljósvetningagoða og Guðmundi Eyjólfssyni gjafir og orð með honum, að þeir veittu honum ásjá og friðuðu fyrir hann. Þorgeir var vant við kominn, er þingmenn hans Arnór og Forni áttu hlut að máli, en þó varð hann ásáttur um við Guðmund að styðja hann, en Guðmundur skyldi vera fyrir málinu. Til þess að friðhelga Sölmund urðu þeir að koma honum á þrjár leiðir, og rjeðu þeir þá af að halda Eyfirðingaleið, Reykdælaleið og Ljósvetningaleið allar saman, til þess að það yrði hægra.

Þá er Arnór úr Reykjahlíð varð þess var, að Sölmundur var kominn heim og hjelt eigi sættir, fer hann að finna Þorgeir Ljósvetningagoða og biður „hann veita sonum sínum“. Orð þessi benda á að synir Þorgeirs hafi þegar verið gengnir í málið með Arnóri og að hann hafi þá verið búinn að frjetta

---

[1]) Nj. 120/623.

að Sölmundur hafi verið sendur þeim Þorgeiri og Guðmundi Eyjólfssyni til trausts og ásjár. En í Ljósvetninga sögu er óskipulega sagt frá þessu. Þorgeir sagði að Arnór hefði ilt ráð upp tekið „at leggja sæmd sína í virðing við eins manns mál útlends,“ sem látinn sje, og kvaðst mundu veita Guðmundi. Arnór fór þá til Höskulds Þorgeirssonar og sagði honum um samband þeirra höfðingjanna. Þeir bræður komust síðan að fyrirætlan þeirra föður síns og Guðmundar Eyjólfssonar og sátu fyrir þeim í sauðahúsi einu við veginn, er þeir riðu á Ljósvetningaleið[1]) með Sölmund á milli sín. En er þá bar fyrir dyrnar, skaut Höskuldur spjóti fyrir brjóst Sölmundi; hlupu þeir bræður síðan á hesta sína og riðu til manna sinna. Þeir Guðmundur veittu þeim eptirför og sló þegar í bardaga með þeim, er þeir fundust. Þar fjell Arnór úr Reykjahlíð og annar maður af þeim bræðrum, en einn af húskörlum Guðmundar Eyjólfssonar, áður en þeir voru skildir; segir í Njálu að þeir bræður hefðu sigur.[2])

Eptir fundinn var Þorgeiri Ljósvetningagoða sagt að Höskuldur sonur hans væri mjög sár, og hafði það þau áhrif á hann að hann skildist við málið. En þetta var bragð þeirra bræðra og óhelguðu þeir síðan Sölmund og bjuggu til vígsmál eptir Arnór og um fjörráð við sig. Mál þessi komu til þings næsta vor og sóttu Þorgeirssynir þau með miklu kappi. Höskuldur stefndi föður sínum af goðorðinu, og fóru þeir að Fjósatungu, sem er nokkrar bæjarleiðir suður frá Hálsi í Fnjóskadal[3]) og hjeldu þar þing, af því að þeir komu eigi vilja sínum fram á vorþingi; þeir riðu þó ofan á þingið að finna Þorgeir, og horfðist þá til bardaga. En Snorri Hlíðmannagoði úr Eyjafirði var þar með fjölmenni og skarst í leikinn og kom á sættum. Voru þá handsöluð málin í dóm og menn nefndir til gjörðar. Sölmundur varð óhelgur, en eptir Arnór voru gjörð fjegjöld. Báru þeir Höskuldur hærra hlut úr býtum.[4])

[1]) Í Ljósv. 2/119—120 stendur leiðmót og leið, en það mun hafa verið á Leiðarnesi í Fnjóskadal, þar sem Ljósvetningaleið var háð, að þeir ætluðu að halda þrjár leiðir saman, sbr. Kålund, Ísl. II, 141–42, 144. [2]) Ljósv. 1–2/113–121; Nj 119/618. [3]) Sbr. Kålund, Ísl. II, 144–148. [4]) Ljósv. 3–4/121–126.

Þetta gerðist á árunum um 994 og var Þorgeir þá tekinn að eldast, enda þótti Guðmundi hann fylgja málinu linlega á móti sonum sínum.[1] Þorgeir átti þó enn eptir að vinna hið frægasta verk sitt, er hann skar úr hinni þýðingarmestu og ægilegustu deilu, sem átti sjer stað á söguöldinni, og tók í lög kristni á Íslandi.

En eptir þetta var lengi fjandskapur mikill milli Guðmundar Eyjólfssonar og Þorgeirssona.

---

## Vopnfirðingar.

Á Austurlandi er bygðin víða dreifð og sundurlaus. Þar eru engin stór hjeruð nema Fljótsdalshjerað, en suður úr Fljótsdal voru taldar sautján dagleiðir á Þingvöll.[2] Það var því harðla eðlilegt að höfðingjar af Austfjörðum fjölmentu eigi að öllum jafnaði svo til alþingis sem höfðingjar úr öðrum fjórðungum landsins, er áttu þangað um miklu skemri leið að sækja. Þeir höfðu því eðlilega eigi ætíð jafnmikil áhrif á löggjöf og stjórnmál landsins í heild sinni og önnur alþingismál sem höfðingjarnir úr öðrum fjórðungum landsins. Þar voru eigi heldur svo miklar deilur sem víða annars staðar á Íslandi. Þó eru sjö sögur þaðan frá söguöldinni, að vísu allar heldur litlar og sumar smáar. Á síðustu áratugum 10. aldar og í byrjun 11. aldar gerðust þar allmargir viðburðir. Þá var og stundum allmikil þingreið þaðan

Einhver hin sögurikasta sveit á Austfjörðum er Vopnafjörðurinn. Menn þeir, sem búa þar, eru nefndir Vopnfirðingar eptir sveitinni, eins og venja er til á Íslandi bæði að fornu og nýju. Í þeirri merkingu er nafn þetta notað hjer; en í fornsögum vorum er það einnig haft um tvær hinar helstu ættir í Vopnafirðinum. Í Landnámu eru

---

[1]) Ljós. 4,124. [2]) Hrafnk.[2] 3,107.

niðjar Lýtings í Krossavík nefndir Vopnfirðingar og í sögu Þorsteins Síðu-Hallssonar eru niðjar Þorsteins hvíta kallaðir svo.[1]) Ættir þessar eru einnig nefndar Krossvíkingar og Hofverjar,[2]) og veldur það engum misskilningi að kalla þær svo.

Þorsteinn hinn hvíti Ölvisson að Hofi í Vopnafirði var ættfaðir Hofverja.[3]) Hann var einhver hinn merkasti höfðingi á Austfjörðum í fornöld. Hann kom ungur að aldri til Íslands og lifði töluvert fram yfir miðja 10. öld. Hann var friðsamur maður og göfugur, og því manna vinsælastur. Af honum er til saga, sem við hann er kend og heitir Þorsteins saga hvíta. Það er fögur saga, þótt lítil sje, því að göfuglyndi Þorsteins sjálfs og Þorsteins hins fagra Þorfinnssonar frá Skeggjastöðum í Hnefilsdal[4]) varpar fegurðarblæ á hana.

Einn af sonum Þorsteins hjet Þorgils. Hann var mannvænlegur maður og kvongaðist góðri stúlku, Ólöfu Þórisdóttur Atlasonar frá Atlavík, sem er skamt frá Hallormsstað fyrir austan Lagarfljót.[5]) Hún átti bróður, er Einar hjet. Hann var hávaðamaður og ódrenglyndur, enda varð hann valdur að mestum þeim óhöppum og vígaferlum, sem sagan segir frá. Hann gerði fjelag við Þorstein hinn fagra, sem var í förum um það leyti sem sagan hefst (um 940). Gjörði Þorsteinn vel við hann í öllu og hjelt honum til virðingar, en hann naut þó sjálfur meiri virðingar hjá öðrum mönnum sökum drengskapar síns og góðvildar. Svo er að sjá sem Einari hafi leikið öfund á um vinsæld hans og virðingu, því að eitt sinn, er Þorsteinn varð veikur af skyrbjúg í hafi á leið til Noregs, spottaði Einar hann og fór að öllu ódrengilega við hann. Vorið eptir sleit hann fjelagsskap við hann og fór til Íslands. Þá er Einar kom þangað, kvað hann Þorstein dauðvona og um haustið keypti hann

[1]) Ldn. 2 241; Hksb. 233/88; Stb. 271/204; Þorst. Síð. 217, 219. [2]) Brandkr.[2] 183; Þorst. hv. 5; Vápn. 2/25, 13/71. [3]) sjá að framan I, 179. [4]) Hann gengur suðvestur úr Jökuldal, Kálund, Ísl. II, 214. [5]) S. rit II, 237.

Austmenn til þess að segja andlát hans. Síðan bað hann Helgu Krakadóttur á Krakalæk, unnustu Þorsteins, en faðir hennar vildi eigi fastna honum hana, fyr en hann hefði fengið vissari frjettir um andlát Þorsteins. Einar bað þá Þorgils mág sinn um að biðja Helgu sjer til handa Þótt honum fyndist Kraki fara viturlega að og eins og hann sjálfur mundi hafa gjört, ef hann hefði átt hans hlut, gjörði hann það þó fyrir eggjan Grana gullhattar, fóstra síns en frænda Einars, en Grani var grályndur maður. Kraki hafði hin sömu svör sem fyr, en Þorgils hafði þá hótanir í frammi við hann, og þorði hann þá eigi annað en gipta Einari dóttur sína.[1])

Þorsteinn var lengi veikur, en að lokum batnaði honum þó og kom hann út sumarið eptir að vitja ráðahags síns; frjetti hann þá, hvernig komið var. Hann dvaldi um veturinn hjá föður sínum, en um vorið bjóst hann utan, og fór á fund Einars Þórissonar og bað hann bóta. Einar svaraði skopi einu, og vá Þorsteinn hann þá. Þórir í Atlavík fjekk síðan Þorgils til þess að ríða á eptir Þorsteini, en hann hitti bræður hans tvo og veitti þeim þegar atsókn. Þeir fjellu báðir eptir drengilega vörn, en Þorgils ljet áður líf sitt fyrir þeim og tveir menn aðrir (um 945).[2])

Þorsteinn fagri fór utan eins og hann hafði ætlað, og um sumarið var hann gerður sekur um víg Einars. Fimm vetrum síðar kom hann aptur til Íslands og fór á fund Þorsteins hvíta. Hann var þá orðinn blindur. Þorsteinn fagri bauð honum bætur og sjálfdæmi, en hann kvaðst „eigi vilja bera Þorgils son sinn í sjóði". Þorsteinn fagri lagði þá höfuð sitt í hnje nafna sínum til merkis um að hann gæfi honum líf sitt í bætur. Þorsteinn hvíti sagði þá, að sætt þeirra skyldi vera sú, að Þorsteinn fagri færi til sín til Hofs og væri hjá sjer til umsýslu meðan hann vildi. Þorsteinn fagri gerði það. Hann bað síðan Helgu Krakadóttur eptir ráðum nafna síns, og hjelt hann brúðkaup þeirra. Þorsteinn hinn fagri var síðan í átta ár eða lengur að Hofi og gekk Þorsteini hvita í sonarstað.[3])

---

[1]) Þorst. hv. 4—9. [2]) Þorst. hv. 10—14. [3]) Þorst. hv. 15—17.

Þorgils Þorsteinsson átti einn son, sem hjet Helgi og var hann þrevetur, er faðir hans fjell. Hann óx upp að Hofi hjá afa sínum og var snemma mikill og sterkur. Hann var óvæginn þegar á unga aldri, margbreytinn og hugkvæmur. Hann var kallaður Brodd-Helgi, af því að hann batt mannbrodda framan í enni á griðung einum á Hofi, til þess að honum skyldi veita betur, er hann stangaðist við aðkomugriðung einn. Þá er Brodd-Helgi var tólf vetra, mælti hann eptir mann einn þar í sveitinni og gjörði vegandann sekan. Hann hjet Svartur og lagðist út á Smjörvatnsheiði; tók hann þá óspart sauði frá Hofverjum; en Helgi fór einn að honum og vá hann.[1])

Þorsteinn fagri var vel til Helga, en þá er hann þroskaðist,[2]) fann afi hans að hann tók að bera svo þungan hug til Þorsteins fagra, að honum mundi eigi verða óhætt fyrir honum, er hann fjelli frá. Hann bað því Þorstein fagra fara utan með föður sinn og tengdaföður, því að hann mundi eigi lifa lengi hjer eptir, en Helgi fóstursou hans mundi vera ofsamaður. Þorsteinn fagri fór síðan utan með Þorfinn föður sinn og Kraka mág sinn og settist að á Hálogalandi og bjó þar til æfiloka. En Þorsteinn hvíti andaðist árið eptir (um 960), og hafði hann þá búið 60 vetur að Hofi.[3]) Tók Brodd-Helgi við búi hans og goðorði.

Hjer um bil tvær mílur frá Hofi sunnan við botninn á Vopnafirði stendur bærinn í Krossavík; í fornöld var hann nefndur Krossavík hin ytri, því að þá voru tveir bæir með því nafni. Bæ þennan reisti Lýtingur landnámsmaður

---

[1]) Þorst. hv. 5, 15, 18; Vápn. 1—2/24—27. [2]) Í Þorst. hv. bls. 17 segir að Þorsteinn fagri hafði verið átta vetur að Hofi, er nafni hans kom að máli við hann um að fara utan og að Helgi væri þá átján vetra. En eptir því sem áður er sagt í sögunni, bls. 15, hefði hann þá átt að vera sextán vetra. Er líklegt að Þorsteinn fagri hafi verið níu vetur als að Hofi, og farið utan sumarið eptir að Þorsteinn hvíti talaði um það við hann, en árið eptir burtför hans andaðist Þorsteinn hvíti og hefur Brodd-Helgi þá verið 18 vetra eptir tali sögunnar. Um tímatalið sjá Safn I. 266. [3]) Þorst. hv. 17—18. 19; Vápn. 1/24; Ldn. 1/239.

seint á landnámsöld og varð hann ættfaðir Krossvíkinga. Einn af sonum hans hjet Geitir og óx hann upp samtíða Brodd-Helga. Þeir Geitir voru mjög jafngamlir og var vinfengi mikið með þeim; áttu þeir leiki saman og hittust öllum stundum. Nokkru eptir að Brodd-Helgi tók við búi, kvongaðist hann og fjekk Höllu Lýtingsdóttur, systur Geitis; eignuðust þau þrjú börn og ól Geitir upp Bjarna son þeirra.

Geitir var vitsmunamaður sem faðir hans. Hann var goði og í raun rjettri friðsemdarmaður, en hann kunni því illa að á sig væri gengið, enda þótti það hin mesta vanvirða á hans dögum. Brodd-Helgi var hins vegar harðvígur maður og fjegjarn og mikill ójafnaðarmaður. Fyrir því minkaði vinátta þeirra er á leið, og varð úr að lokum fullur fjandskapur.

Ágreiningur hófst fyrst á milli þeirra út af fje Austmanns eins, er Hrafn hjet, og veginn var að samkomu einni í Vopnafirðinum, eflaust af völdum þeirra Brodd-Helga. Austmaður þessi var sagður auðugur að gersemum, og hafði hann stygt Helga með því að neita bæði vistarboði hans og að selja honum gripi á frest. Eptir víg hans ætluðu þeir Geitir og Helgi að taka fje hans undir sig. En fjelagi Hrafns, Þorleifur hinn kristni frá Krossavík í Reyðarfirði, tók allan varning hans og færði hann erfingjum hans í Noregi; fengu þeir mágar eigi hindrað það. Eptir þetta grunaði Brodd-Helga að Geitir, sem hafði tekið við Austmanninum um veturinn, mundi hafa dregið undir sig kistil einn, sem Hrafn hafði átt, og menn hugðu að fullur væri af gulli og silfri; spurði hann Geiti um kistilinn á hverjum mannfundi. En Geitir spurði þá Helga í mót að gullhring einum, sem Hrafn bar jafnan á sjer og eigi fór í gröf með honum.[1])

Nokkru eptir þetta varð Halla Lýtingsdóttir heilsuveik. Samfarir þeirra Brodd-Helga höfðu verið góðar, en þó fastnaði hann sjer litlu síðar ekkju eina unga, er Þorgerður hjet og var kölluð silfra. Þetta mæltist illa fyrir, og fór

---

[1]) Vápn.[2] 4—5/29—34, 5/38.

Halla í Krossavík, þá er Þorgerður settist að á Hofi, en eigi vildi Brodd-Helgi greiða af höndum fje hennar. Stefndi þá Geitir honum um fje Höllu til Sunnudalsþings, en Brodd-Helgi eyddi þar málinu með ofríki. Geitir hjelt þá málinu til alþingis, en þar fór það á sömu leið.[1])

Eptir þetta gjörðist hinn mesti óþokki með þeim Brodd-Helga og Geiti. Sýndi Brodd-Helgi þingmönnum Geitis hinn mesta yfirgang og drap nokkra þeirra, er þeir leituðu rjettar síns. Hann lauk einnig illa við Höllu konu sína og andaðist hún nokkru síðar.[2]) Sýndi hann Geiti svo mikið ofríki að hann flutti bústað sinn frá Krossavík og í Fagradal, sem er hálfu lengra frá Hofi, yst við Vopnafjörðinn að sunnanverðu. En nú þótti þingmönnum Geitis úr hófi keyra, og fóru þeir til fundar við Geiti og settu honum tvo kosti, annaðhvort að fara heim í Krossavík með bú sitt og flytjast þaðan aldrei síðan, en ráðast í móti Brodd-Helga, ef hann gjörði honum nokkurn ósóma, eða þeir mundu selja bústaði sína og ráðast í burtu, sumir af landi en sumir af hjeraði.[3])

Þetta hreif. Nú fór Geitir að leita liðveislu hjá höfðingjum í öðrum hjeruðum, Ófeigi Járngerðarsyni í Skörðum og Guðmundi ríka. Á þeirri ferð gisti hann hjá Ölvi hinum spaka í Mývatnssveit og spurði hann vandlega að Brodd-Helga. Geitir bar honum vel söguna og kvað hann góðan dreng að mörgu leyti, þótt hann væri óvæginn og ódæll. Ölvir spurði þá. „Er hann ekki ójafnaðarmaðr mikill?“ Geitir svaraði: „Þat er helzt á mér orðit um ójafnað Helga, at hann ann mér eigi at hafa himininn jafnan yfir höfði mér, sem hann hefir sjálfr.“

Vorið eptir færði Geitir bústað sinn í Krossavík og hafði mjög mannmargt. Þá var hallæri og sendi Brodd-Helgi Bjarna son sinn á undan sjer með þingmenn þeirra, en sjálfur reið hann við fimta mann og var sammældur Geiti. Hann kom

---

[1]) Vápn[2] 6/38—41. Í Vápn. segir að Guðmundur hinn ríki hafi veitt Brodd-Helga lið (eigi Geiti, eins og segir í Safni til sögu Íslands), en það er mjög efasamt, því að þetta var áður en hann tók við goðorði sbr. Safn I, 405—406. [2]) Vápn[2] 7—9/41—48. [3]) Vápn[2] 11/50—51.

þá við tólfta mann til móts við hann, og á þeirri ferð drap hann Brodd-Helga.[1] Svo virðist sem sættst hafi verið á víg Brodd-Helga á alþingi þá um sumarið og greiddi Geitir bætur eptir hann (um 986).[2]

Merkastur barna Brodd-Helga var Bjarni og bjó hann á Hofi eptir föður sinn. Hann var hraustur maður sem faðir hans og vígamaður allmikill, svo að hann var jafnvel kallaður Víga-Bjarni.[3] En hann var miklu stiltari maður en faðir hans og göfuglyndari. Honum þótti eigi nóg að taka fjebætur eptir föður sinn, og vá hann því Tjörfa hinn mikla, einn af þeim mönnum, sem borið hafði banaspjót á móti honum og gerður var úr hjeraðinu. Þó er líklegt að hann hefði látið þar við sitja, ef Þorgerður silfra hefði eigi eggjað hann. Hann sótti bæði heimboð og ráð til Geitis fóstra síns og móðurbróður, eins og ekkert hefði í skorist með þeim. Eitt sinn er hann skyldi fara á samkomu, fjekk Þorgerður honum skikkju[4] þá, sem faðir hans hafði verið veginn í, til þess að hafa hana yfir sjer. Hann grunaði ekki og rakti hana sundur og var hún blóði drifin. Hann laust til Þorgerðar og mælti „sel þú allra kvenna örmust“; en hún eggjaði hann að hefna föður síns. Þessa eggjun stóðst Bjarni eigi. Á fundinum hjó hann öxi í höfuð Geiti og fjekk hann þegar bana, en jafnskjótt sem hann hafði höggið, iðraðist hann og settist undir höfuð Geiti og andaðist hann í knjám hans (á einmánuði, líklega 987). Verk þetta mæltist illa fyrir, og er Bjarni kom heim, rak hann brott Þorgerði silfru.[5]

Geitir Lýtingsson var kvongaður og átti Hallkötlu Þiðrandadóttur Ketilssonar þryms.[6] Þau áttu son er Þorkell hjet; varð hann frægur maður og kemur allmikið

---

1) Vápn.$^2$ 12—13/51—54. Hjer vantar í Vápnfirðinga sögu og er því eigi kunnugt um síðasta fund þeirra, nje um eptirmálið eptir Brodd-Helga. 2) Um árstalið sbr. Safn I. 266. 3) Þorst. st.$^2$ 79. Krist. 1/4; Nj. 134 707. 4) Það vantar í Vápn. sögu hvaða fat þetta hafi verið, en samhengið bendir á að það hafi verið skikkja, því að það var yfirhöfn. 5) Vápn.$^2$ 13/55—57. 6) Þorst. hv.$^2$ 19; Vápn.$^2$ 3/28; Dropl.$^2$ 2/144; Þorst. Síð. 231; Nj. 96/494.

við sögur. Hann hafði lítið verið riðinn við mál föður síns og Brodd-Helga, líklega mest af því að hann var jafnan í förum milli landa, þá er hann hafði aldur til þess.[1]) Hann var erlendis, þá er faðir hans var veginn, en kom heim sumarið eptir og tók þá við búi föður síns.

Bjarni sendi þegar menn á fund Þorkels og bauð honum sætt og sjálfdæmi, en Þorkell ljet sem hann heyrði það eigi. Sat hann síðan um Bjarna og gekk svo í tvö ár að hann fjekk eigi fang á honum. Vorið eptir víg Geitis tóku bændur af vorþingið í Sunnudal; þótti þeim óvænt „at ganga í millum þeirra manna, er í slíkum stórmælum áttu hlut.“ Sóttu Vopnfirðingar þá vorþing í Fljótsdalshjerað eins og fyr er sagt. Vorið 989 voru þeir Þorkell og Bjarni þar báðir á þingi. Á heimleiðinni bar fundum þeirra saman hjá Eyvindarstöðum í Böðvarsdal, og rjeð Þorkell þegar á Bjarna. Liðsmunur var eigi mikill, því að þeir Þorkell voru fimtán saman, en þeir Bjarni átján. Þar varð harður bardagi og fjellu fjórir menn af hvorum. Þeir Þorkell og Bjarni urðu báðir sárir og flestir þeir, sem uppi stóðu. Hefðu eflaust fallið miklu fleiri, ef Eyvindur bóndi á Eyvindarstöðum hefði eigi hlaupið til bardagans og konur með honum og skilið þá.[2])

Eptir þetta er lítið kunnugt um viðureign þeirra frænda Bjarna og Þorkels. Þeir voru báðir fyrir innan þrítugt, er þetta var, og lifðu báðir lengi eptir það og koma við ýmsar sögur.[3]) En Vopnfirðinga sögu lýkur eptir bardagann í Böðvarsdal. Þó segir þar að Jórunn Einarsdóttir frá Þverá, kona Þorkels, hafi mýkt svo skap hans þegar um haustið að hann hafi tekið vinarboðum Bjarna og heimsótt hann. Hafi þá Bjarni boðið Þorkeli sætt og sjálfdæmi, og hann gert fjebætur á hendur Bjarna fyrir víg Geitis; en svo hafi þeir selt hvor öðrum grið og haldið vel síðan. En þetta er eigi rjett, því að Þorkell var þá eigi kvongaður Jórunni, heldur

[1]) Vápn.[2] 8/47. [2]) Vápn.[2] 13/57—58, 13/64—68 Allir elstu annálar telja bardagann í Böðvarsdal árið 989 og er það líklega rjett. [3]) Ljósv., Nj., Dropl., Þorst. st., Gunn s.

fjekk hann hennar fyrst tólf til fimtán árum síðar, og var hún seinni kona hans. Fyrri kona hans var Hallfríður Egilsdóttir frá Egilsstöðum í Vopnafirði.[1]) og voru þau gipt, þá er þetta var; börðust bræður hennar þrír með Þorkeli í Böðvarsdal og stóð hún eflaust eigi vel að vígi til þess að koma á sáttum með þeim Bjarna. Þeir frændur hafa að öllum líkindum verið lengi óvinir eptir þetta, en í byrjun 11. aldur kvongaðist Þorkell, sem þá hefur verið orðinn ekkjumaður, Jórunni dóttur Einars Eyjólfssonar á Þverá. Hún var þá milli tvítugs og þrítugs, en hinn mesti kvennskörungur. Hún kom því þá til leiðar, „sem engi hafði áðr komit", að þeir frændurnir sættust, og hjeldu þeir þá sætt vel og drengilega.[2]) Þannig er blandað málum um þetta í Vopnfirðinga sögu.

---

## Hrafnkell Freysgoði.

Af engum höfðingja á Austfjörðum á fyrri hluta sögualdarinnar segir jafnmikið sem af Hrafnkeli Freysgoða. Hann kom með síðustu landnámsmönnum til landsins og var þá ungur að aldri; lifði hann því fram yfir 960. Hann reisti bæinn að Aðalbóli í Hrafnkelsdal, eins og fyr er sagt[3]) Hann var mikill ójafnaðarmaður, en mentur vel. Hann var einnig mikill metnaðarmaður og vildi vera yfirmaður nágranna sinna og Jökulsdalsmanna; átti hann því opt í vígaferlum og málaferlum.[4])

Frægast er mál hans við Sám Bjarnason út af vígi Einars Þorbjarnarsonar. Hann hafði riðið Freyfaxa, átrúnaðargoði Hrafnkels, en Hrafnkell hafði strengt þess heit, að hann skyldi verða þeim manni að bana, sem riði honum án vilja hans. Hrafnkeli þótti fyrir að vega Einar,

---

[1]) Vápn.[2] 3/29; Ldn. 4/238. [2]) Ljósv. 11—12/149—154; Vápn.[2] 13/69—71. [3]) Að framan I, 180, 315 [4]) Hrafnk[2] 2/96—97.

því að honum líkaði vel við hann, og hann vildi annast föður hans til dauðadags eða styrkja hann og börn hans eptir ósk hans og þörfum; var það meira vert en manngjöld og þó hafði hann aldrei bætt neinn mann áður. En Þorbjörn vildi eigi þiggja þetta, heldur vildi hann að menn væru teknir til gerðar með þeim. „Þá þykkiz þú jafnmentr mér, ok munum vit ekki at því sættaz“, sagði Hrafnkell. Þorbjörn fjekk þá Sám bróðurson sinn að taka að sjer málið og stefndi hann því til alþingis. Honum hefði þó ekkert orðið ágengt, ef honum hefði eigi tekist að fá bræður tvo vestfirska, Þorkel og Þorgeir Þjóstarssyni úr Þorskafirði til þess að veita sjer lið með miklum mannafla Var Hrafnkell borinn ofurliði, þá er málið var sótt og dæmt, og gjörður sekur. Síðan hjálpuðu þeir bræður Sám að heyja fjeránsdóm yfir Hrafnkeli. Varð hann þá að fara af Aðalbóli með alt lið sitt og lítið fje, en Sámur settist þar að og tók bú hans og goðorð undir sig (um 945).[1])

Hrafnkell mátti eigi vera nær hinu forna heimili sínu en fyrir austan Fljótsdalshjerað. Hann fór eigi heldur lengra en áskilið var. Við botninn á Lagarfljóti stóð einn lítill bær, sem hjet Lokhilla. Þar var illa húsað en skógland mikið. Þetta land keypti Hrafnkell fyrir lítið verð og reisti þar reisulegan bæ, sem síðan heitir Hrafnkelsstaðir.[2]) Hann kom skjótt upp miklum kvikfjenaði og var búhöldur hinn mesti. Hann fjekk brátt mikla virðingu meðal manna og hændi að sjer menn fyrir austan Lagarfljót; tók hann þá upp goðorð og aflaði sjer þar margra þingmanna, enda var hann nú miklu gæfari og hægari en áður; varð hann því vinsæll maður, og liðu svo sex ár.[3])

Sámur Bjarnason átti bróður, er Eyvindur hjet. Hann var efnilegur maður og hafði farið utan árið áður en þeim Hrafnkeli lenti saman. Hann var síðan sjö vetur í útlöndum

---

[1]) Hrafnk.[2] 3/98. 3/103—4, 4/110, 4/116—117, 5/121—122, 6/123—125. [2]) Kålund, Ísl. II, 234—235. [3]) Hrafnk.[2] 5/122—123, 7/126—127. Í Hrafnkels sögu segir, að á þessum tíma kæmu mest skip af Noregi til Íslands, og menn næmu þá sem mest land í hjeraðinu, en það er rangt.

og mannaðist mikið á þeim árum. Hann kom út aptur í Reyðarfirði og ætlaði að flytja þaðan varning sinn heim til bróður síns. Hann reið við sjötta mann eins og leið liggur fram hjá Hrafnkelsstöðum. En er Hrafnkell varð þess var, safnaði hann mönnum og hjelt á eptir honum við átjánda mann. Eyvindur vildi eigi hleypa undan, en unglingur einn, sem var skósveinn hans og eigi hafði fengið þroska til orustu, reið á Aðalból að segja Sámi tíðindin. Hrafnkell veitti Eyvindi þegar atgöngu; fjell hann þar eptir hrausta vörn og allir menn hans, en tólf menn af Hrafnkeli. Reið Hrafnkell síðan aptur heim til sín, og fjekk Sámur eigi náð honum; ætlaði hann þá að halda á móti Hrafnkeli daginn eptir með miklu liði. En Hrafnkell beið eigi boðanna, heldur safnaði hann þegar 70 manna, og reið með þá vestur yfir heiði um nóttina; kom hann á óvart til Aðalbóls og tók Sám höndum. Varð hann þá að flytja þaðan að Leikskálum, þar sem hann hafði áður búið, og láta af höndum við Hrafnkel alt það, sem hann hafði af honum tekið (um 951); fjekk hann engar bætur fyrir Eyvind bróður sinn og enga leiðrjettingu á þessu síðan.[1])

Hrafnkell Freysgoði flutti nú aptur að Aðalbóli með Ásbjörn son sinn, en Þórir son sinn, sem var þeirra bræðra eldri, ljet hann vera á Hrafnkelsstöðum. Hrafnkell hafði nú mikil mannaforráð og hjelt virðingu sinni til dauðadags. Hann varð sóttdauður og tók Ásbjörn sonur hans þá við búi á Aðalbóli, en þeir bræður báðir áttu saman goðorð föður síns. Sonur Ásbjarnar var Helgi, sem deildi við Droplaugarsyni og síðar mun nefndur.[2])

---

[1]) Hrafnk.[2] 3,97, 8—9,127—135. [2]) Hrafnk.[2] 10 135—157.

## Síðumenn.

Öll bygðin fyrir sunnan endilangan Vatnajökul og hálendið vestur af honum var í fornöld nefnd einu nafni og kölluð Síða, og menn þeir, sem þar bjuggu, Síðumenn.[1]) Í þessari hinni víðtækustu merkingu orðsins er það notað hjer.

Það er þó varla líklegt að kunnugir menn hafi kallað landið Síðu lengra austur á við en að Lónsheiði, en fyrir austan heiðina í hinum næsta firði, Álptafirðinum (syðst í Suður-Múlasýslu), bjuggu nokkrir merkir menn og kynsælir, er koma allmikið við sögu landsins. Það voru niðjar Böðvars hins hvíta. Hinn merkasti þeirra Hallur Þorsteinsson var kendur við Síðuna og kallaður Hallur af Síðu,[2]) Hallur á Síðu[3]) eða Síðu-Hallur.[4]) En eigi er kunnugt hvort hann var nefndur svo af því að hann átti goðorð, sem var mestmegnis á Síðunni, eða af því að hann var kominn af Síðumönnum í móðurætt,[5]) eða af því að hann reið með Síðumenn á alþingi og var þar sem einn af þeim. Vera má að alt þetta hafi valdið því. Hann hefur að líkindum fengið auknefni þetta á alþingi, eða hjá mönnum úr fjarlægum sveitum, sem hafa eigi kunnað að greina, hvort hann bjó á Síðunni eða rjett þar hjá. Einnig getur verið að hann hafi einhvern tíma verið eitthvað við Síðuna eða Síðumenn riðinn, sem nú er eigi kunnugt, og hafi hann síðan fengið kenningarnafn sitt af því.

Í sveitunum um Síðuna voru ýmsir merkir höfðingjar á söguöldinni; þar gerðust einnig nokkrir sögulegir atburðir, en þó eru litlar sögur þaðan áður en Hildigunnur og Flosi koma til sögunnar.

Á fyrri hluta söguaidarinnar voru þar mestir höfðingjar Þorsteinn Böðvarsson hins hvíta og Þórður Freysgoði Össurarson Ásbjarnarsonar. Þorsteinn átti

---

[1]) Sjá hjer að framan bls. 66. [2]) Nj. 95/492 og víðar; Bps. I, 13/75, 151. [3]) Íslb. 7/9, 11,18; Ldn. 9/262; Þorst. Síð. 216, 231. [4]) Ldn. 7/256, Nj. 96/493 o. v.; Krist. 1/4, 7/11; Bps. I, 216. [5]) Kålund, Ísl. II, 312.

Þórdísi[1]) Össurardóttur keiliselgs, sonardóttur Hrollaugs landnámsmanns, forföður Síðumanna,[2]) og var sonur þeirra Síðu-Hallur.[3]) Af Þorsteini fara engar sögur, en Hallur kemur allmikið við sögu landsins á alþingi eptir að Þangbrandur kom út að boða kristni. Hallur var þá kominn yfir fimtugt, enda er hann talinn með höfðingjum landsins 981, og mun hann vera fæddur um 945.[4]) Hann átti Jóreiði Þiðrandadóttur frá Arneiðarstöðum og eru margir merkir menn frá þeim komnir.[5]) Hann var tengdafaðir Flosa Þórðarsonar og því mjög við mál hans riðinn.

Hallur var eitthvert hið mesta göfugmenni, sem sögur fara af á Íslandi, óeigingjarn og sáttfús. Hann kom jafnan fram til þess að firra menn vandræðum og stilla til friðar, enda varð honum mikið ágengt.

Þórður Freysgoði var tvigiptur; átti hann fyrst Praslaugu Þorsteinsdóttur titlings, og síðan Ingunni Þórisdóttur af Espihóli Hámundarsonar heljarskinns. Sonur Þórðar og Þraslaugar var Starkaður, faðir Hildigunnar konu Höskuldar Hvítanesgoða, en synir Þórðar og Ingunnar voru þeir Flosi, Kolbeinn, Egill, Þorgeir og Steinn. Flosi var fyrir þeim bræðrum og bjó hann að Svínafelli. Í Landnámu segir að hann og Kolbeinn bróðir hans vægju Arnór Örnólfsson úr Forsárskógum á Skaptafellsþingi, en í Njálu er sagt að þeir Kolbeinn og Egill hafi gert það, og að Arnór hafi misgjört eitthvað við Þórð föður þeirra. Um víg þetta er getið í Droplaugarsona sögu; er þar sagt að Flosi hafi látið vega Arnór og stefnt honum síðan til óhelgi. Fór hann til þess vestur í Skóga með hundrað manna og var Þorkell Geitisson í för þeirri með honum með þrjátíu manna. Það var hið sama sumar, sem Helgi Droplaugarson fjell (um 998).[6])

---

[1]) Hún er nefnd svo bæði í Ldn. og í Nj., en í sögu Þorst. Síðu-Hallssonar er hún nefnd Þórey. Ein af dætrum Síðu-Halls hjet Þórdís, Þorst. Síð. 232, og mun móðir hans hafa heitið svo. [2]) Íslb. 2/5. [3]) Ldn. 7/256, 15/321. [4]) Krist. 1/4, sbr. Safn I, 411. [5]) Ldn. 7/256, 9/262; Nj. 95—96/492—494; Þorst. Síð. 231—232. [6]) Ldn. 10/265, 11/268, 13/273; Nj. 95/491—493, 116/593; Glúm. 5/14; Dropl. 9/156.

Bróðir Arnórs var Halldór Örnólfsson. Hann er talinn með höfðingjum þeim, sem voru á alþingi í sambandi með Gissuri hvíta, þá er Gunnar á Hlíðarenda var sóttur um víg Otkels (um 985). Hann var síðar veginn undir Hömrum[1]) af Merði úrækju. Mörður var frændi Þráins Sigfússonar og fjekk skip hans, er hann kom úr utanferð sinni (um 992). Sagt er í Njálu að Mörður hafi vegið Odd Halldórsson austur í Gautavík í Berufirði. Mun sá Oddur hafa verið sonur Halldórs Örnólfssonar, og hefur þá Mörður úrækja vegið þá feðga báða [2])

Mestar deilur í Skaptafellssýslu á fyrri hluta söguealdarinnar voru eflaust deilur þær, sem Hróar Tungugoði, sonur Una Garðarssonar og Þórunnar Leiðólfsdóttur, var riðinn við. Hann tók allan arf eptir Leiðólf afa sinn og var hið mesta afarmenni. Hann virðist einnig hafa verið töluverður óspektarmaður. Hróar bjó fyrst í Ásum. Síðan tók hann Lómagnúpslönd af Eysteini Þorsteinssyni titlings, bróður Þraslaugar konu Þórðar Freysgoða, en systursyni Móðólfs hins spaka Eyvindarsonar karpa. Önundur töskubakur frændi Eysteins skoraði þá Hróari á hólm á Skaptafellsþingi, en svo fór um þá hólmgöngu að Önundur fjell að fótum Hróars.

Hróar var kvongaður og átti Arngunni Hámundardóttur, systur Gunnars að Hlíðarenda, og var sonur þeirra Hámundur halti, vígamaður mikill, er bjó á Hámundarstöðum.[3]) Hróar tók Þórunni brún Þorgilsdóttur úr Hvammi í Mýdal og átti son við henni; hefur það að líkindum verið áður en hann kvongaðist, því að Hróar mun hafa verið töluvert eldri en Arngunnur kona hans. En Þorsteinn Upplendingur tók síðan Þórunni brún og flutti utan. Hróar fór þá utan, og í þeirri ferð drap hann Þröst berserk á hólmi, en þeir Þorsteinn sættust.

---

[1]) Hvaða Hamra er átt við, er ókunnugt, en líklegast eru þeir einhvers staðar í Vestur-Skaptafellssýslu (ef til vill Víkurhamrar?).
[2]) Ldn. 13/272; Nj. 56/253, 88/443. [3]) Það er nú ókunnugt hvar bær þessi hefur verið, en líklega hefur hann verið í Vestur-Skaptafellssýslu og er nú fyrir löngu í eyði.

Tveir systursynir Hróars, Tjörvi hinn háðsami og Gunnar, eru nefndir til sögunnar. Tjörvi bað Ástríðar manvitsbrekku Móðólfsdóttur hins spaka í Skógahverfi, en bræður hennar Hrólfur og Ketill synjuðu honum konunnar og gáfu hana Þóri flatnef Ketilssyni flatnefs, sem mun hafa verið í ætt við þá eða í vinfengi.[1]) Þá dró Tjörvi líkneski þeirra á kamarsvegg og hrækti hvert kveld í andlit líkneski Þóris, en kysti líkneski hennar, áður Hróar skóf þau af. Eptir það skar Tjörfi þau á hnífskepti og kvað vísu, þar sem hann segir að hann gjöri þetta til glettu. En fyrir þetta fóru Móðólfssynir, Þórir Ketilsson, Brandi Eyvindarson frá Gnúpum, föðurbróðir Móðólfssona og fleiri menn með þeim að Hróari Tungugoða. Varð fundur þeirra í Hróarstungu, milli Foss og Hörgslands í Vestur-Skaptafellssýslu, (um 978) og fjell þar Hróar og systursynir hans. Þórir Ketilsson varð síðan sekur sunnanlands eptir víg Hróars; fór hann því norður á fund Eyjólfs Valgerðarsonar og beið þar bana eins og fyr er sagt; en annars hefndi Hámundur halti Hróars föður síns og þeirra bræðra.[2])

## Vígið við Sandhólaferju. Rangæingar.

Í byrjun söguældarinnar urðu allmiklar deilur og vígaferli milli tveggja höfðingjaætta í Rangárvallasýslu. Þær hófust

---

[1]) Um Ketil flatnef föður Þóris er ekkert kunnugt, en líklegt er að þeir feðgar hafi verið af ætt Ketils flatnefs Bjarnarsonar bunu. Í Reykdælu segir að Þórir væri nokkuð skyldur Eyjólfi Valgerðarsyni, og bendir það á að hann hafi verið kominn af Katli flatnef eins og Eyjólfur. Auknefni Ástríðar minnir einnig á Jórunni manvitsbrekku Ketilsdóttur, móður Ketils fíflska, því að þær einar báru það auknefni svo kunnugt sje. Einn af Móðólfssonum hjet Ketill og bendir það nafn á ættmenn Ketils fíflska. Sbr. Karl Rygh, Norske og islandske tilnavne bls. 45; Safn I, 414. [2]) Ldn. 4/247—248, 11/266, 11/268—269; Nj. 19/78; Reyk. 20/103; sbr. Safn I, 413.

við Sandhólaferju á Þjórsá og jókst síðan högg af höggi; gekk svo um nokkur ár, að ýmsir áttu högg í annars garði, þangað til fullum sættum var komið á. Voru þá fallnir að minsta kosti níu menn og fimm af þeim höfðingjar eða göfgir bændur.

Deilur þessar voru á milli niðja þeirra Baugs landnámsmanns á Hlíðarenda og Sighvats rauða landnámsmanns að Bólstað á Einhyrningsmörk.

Baugur átti þrjá syni, Gunnar, Eyvind og Stein hinn snjalla, sem einnig var kallaður Snjallsteinn, og eina dóttur, er Hildur hjet og giptist Erni í Vælugerði í Flóa. Gunnar átti Hrafnhildi Stórólfsdóttur, systur Orms hins sterka.

Sighvatur rauði var tvíkvæntur. Fyrst átti hann konu, sem Rannveig hjet, en misti hana í lok 9. aldar eða um 900 á meðan hann var á Hálogalandi. Hann var þá á miðjum aldri og kvæntist brátt aptur og fjekk þá Geirlaugar, dóttur Eyvindar lamba og Sigríðar frá Sandnesi, er átt hafði Þórólfur Kveldúlfsson. Geirlaug var fædd um 880. Sighvatur rauði fór því næst til Íslands, og Sigmundur sonur hans af fyrra hjónabandi, er þá var frumvaxta maður. Sighvatur rauði nam land á Einhyrningsmörk eins og fyr er sagt og mun hafa búið þar til æfiloka; er líklegt að Bárekur sonur hans og Geirlaugar hafi tekið þar við búi eptir föður sinn; kemur hvorki hann nje niðjar hans við sögur, og er slíkt mjög eðlilegt, er þeir hafa alið þar aldur sinn uppi til fjalla. En Sigmundur hefur kvongast um það leyti sem hann kom til Íslands og tekið þá land til ræktunar og reist þar bæ. Hvar það hefur verið, er ókunnugt, en líklegt er að það hafi verið á Velli á Rangárvöllum. Þar bjó Mörður gígja elsti sonur hans.[1])

Sigmundur átti fimm börn, sem upp komust, þrjá syni, Mörð gígju, Sigfús í Hlíð og Lamba á Lambastöðum, og tvær dætur, Þorgerði, er átti Önundur bíldur í Önundar-

---

[1]) Nj. 1/1.

holti í Flóa, og Rannveigu, konu Hámundar Gunnarssonar.[1])

---

[1]) Um kvonfang og niðja Sighvats rauða fer tvennum eða þrennum sögum og verður að greiða hjer úr þeim. Í Landnámu segir að Sighvatur rauði ætti Rannveigu dóttur Eyvindar lamba og Sigríðar, er átt hafði Þórólfur Kveldúlfsson, og að Rannveig væri systir Finns hins skjálga. Í Egils sögu segir aptur á móti að börn þeirra Eyvindar lamba væru Finnur skjálgi, faðir Eyvindar skáldaspillis, og Geirlaug, er átti Sighvatur rauði (Ldn. 3/283; Eg. 22/68). Egils saga ber það með sjer, að höfundur hennar hefur vitað betur um ætt Eyvindar lamba en höfundar Landnámu; einkum er í Hauksbók skýrt alveg skakt frá konu Eyvindar lamba og móðurætt Rannveigar fyrri konu Sighvats rauða. Er það eflaust rjett, sem segir í Egils sögu að dóttir þeirra Eyvindar lamba hafi heitið Geirlaug, en hins vegar styrkir nafn móður Gunnars á Hlíðarenda það, sem segir í Ldn., að amma hennar, kona Sighvats rauða, hafi heitið Rannveig. Dóttir þeirra Eyvindar lamba og Sigríðar, sem giptist Sighvati rauða, getur eigi verið fædd fyr en um 880, og verður þá tíminn of stuttur til þess að barnabörn þeirra, Mörður gígja og Þorgerður og frumvaxta synir hennar, Sigmundur kleykir og Eilífur auðgi, geti komið til sögunnar á árunum 930—940, eins og Guðbrandur Vigfússon hefur bent á, Safn I, 282—283. En hann hefur eigi munað eptir því, að í Eg. segir að dóttir Eyvindar lamba, en kona Sighvats rauða, hafi heitið Geirlaug. Alt bendir því á að Sighvatur hafi verið tvíkvæntur, eins og hjer er sagt.

Um niðja Sighvats rauða segir í Sturlubók, að son hans væri „Sigmundr, faðir Marðar gígju, ok Sigfús í Hlíð ok Lambi á Lambastöðum ok Rannveig, er átti Hámundr Gunnarsson, ok Þorgerðr, er átti Önundr bildr í Flóa. Annarr son Sighvats var Bárekr faðir Þórðar, föður Steina.“ Ldn. 3/284; Stb. 345/218. Ef hjer væri eigi sagt að Bárekur hafi verið annarr son Sighvats rauða, hefði legið næst að skilja þetta svo sem Sigfús, Lambi, Rannveig og Þorgerður hefðu verið börn Sighvats rauða, en eigi börn Sigmundar, því að einungis nafn Marðar stjórnast af faðir. Í Hauksbók segir einnig að son Sighvats væri „Sigmundr faðir Marðar gígju, er mestr höfðingi var á Rangárvöllum um hans daga, ok þat var hvert kallat loklausu þing, er hann kom ei til. Sigmundr fell við Sandhólaferju; þar er haugr hans fyri austan Þjórsá. Rannveig var ok dóttir Sigmundar, er átti Hámundr Gunnarsson. Þeirra son Gunnarr at Hlíðarenda. Son Sighvats var Bárekr faðir Þórðar, föður Steina“. Hksb. 304/107; Ldn. 3/284. Hjer eru að eins talin tvö börn Sigmundar, en síðar er samt Þorgerður dóttir hans nefnd. Hksb. 307/108; Ldn. 4/286.

Þá er þriðja frásagan um niðja Sighvats rauða í Njálu. Þar segir að Mörður gígja væri sonur Sighvats rauða (Nj. 1/1) og að Rannveig móðir Gunnars að Hlíðarenda „væri Sigfúsdóttir, Sighvatssonar hins rauða. Hann var veginn við Sandhólaferju“ (Nj. 19/76). Það er auðsjá-

Eitt sinn bar svo við að Sigmundur og Steinn hinn snjalli Baugsson fóru utan af Eyrum og komu þeir Sigmundur og förunautar Steins allir senn til Sandhólaferju við Þjórsá

anlega einhver misgáningur að Rannveig hafi verið Sigfúsdóttir og bróðurdóttir Marðar gígju, ef borið er saman síðar við söguna; hún var systir Marðar gígju, en eigi Sigfússona (Ldn. 4/288). En vera má að Rannveig sje hjer nefnd Sigfúsdóttir, af því að föðurnafn hennar hafi vakað fyrir söguritaranum, og hann hafi vitað að hún var eigi dóttir Sighvats rauða. Þá er skýrt er frá ætt Þráins Sigfússonar og þeirra bræðra, er Sigfús faðir þeirra talinn son Sighvats hins rauða (Nj. 34/139). Enn fremur er Lambi, faðir Sigmundar farmanns kallaður „Sighvatsson hins rauða" (Nj. 41/169). Sigmundur Sighvatsson hins rauða er als eigi nefndur í Njálu, og eigi eru þar heldur talin fleiri börn Sighvats rauða nje Sigmundar, enda kemur hvorki Bárekur nje Þorgerður eða niðjar þeirra við söguna.

Þrjú af börnum Sigmundar Sighvatssonar rauða, sem talin eru í Sturlubók, Þorgerður, Sigfús og Lambi, áttu hvert son, sem Sigmundur hjet, eptir föður þeirra. Mörður gígja átti einungis eina dóttur, svo að hann var löglega afsakaður, þótt hann hjeldi eigi uppi föðurnafni sínu. En það er því harðla ólíklegt að það sje rangt, í sem Landnámu segir, að sonur Sighvats rauða hafi heitið Sigmundur; hins vegar hefur hann eigi getað verið dótturson Eyvindar lamba, heldur hefur hann verið sonur Sighvats rauða af fyrra hjónabandi hans, og er nafn móður hans rjett, en um ætt hennar er algjörlega ókunnugt. Þorgerður hefur verið elst barna Sigmundar, fædd um 900 eða í byrjun 10. aldar, og voru synir hennar frumvaxta, er Mörður gígja bróðir hennar sættist við Hámund Gunnarsson. Aðrar dætur Sigmundar voru þær Rannveig, móðir Gunnars að Hlíðarenda, og líklega Unnur kona Sæbjarnar goða Hængssonar lögsögumanns (Ldn. 3/283; Hksb. 303/106; Stb. 344/218). Næstur Þorgerði að aldri hefur Mörður gígja verið, en þeir bræður Sigfús og Lambi munu hafa verið yngri. Tímatalsins vegna væri eigi ómögulegt að þeir hafi verið synir Sighvats rauða og Geirlaugar, því að börn þeirra hafa verið á líku reki og börn Sigmundar, en þó er líklegast að frásögn Njálu um það sje röng. Lambanafnið í ættinni á Íslandi er að vísu komið frá Eyvindi lamba, og væri eðlilegt að ætla að það væri notað af Geirlaugu og að Lambi hafi verið sonur hennar; en Sigmundur stjúpson hennar, sem hefur verið á líkum aldri og hún sjálf, mun eflaust hafa þekt Eyvind lamba föður hennar, og hefur hann einnig getað látið einn son sinn heita eptir honum; er líklegt að hann hafi gert það, þá er Eyvindur lambi fjell frá. En Lambanafnið mun hafa átt þátt í ruglingi þeim, sem er í Landnámu um konur Sighvats rauða. Menn mundu að hann átti dóttur Eyvindar lamba og konu er Rannveig hjet, og hafa því gert hana að dóttur Eyvindar og eitt hjónaband úr tveimur; komst þá ruglingur á milli barna hans og barnabarna af fyrra hjónabandi eins og er í Njálu.

og vildu hvorir fara fyr yfir ána. Þeir Sigmundur stjökuðu þá húskörlum Steins, líklega eitthvað óþyrmilega, og ráku þá frá skipinu. Í því kom Steinn að og hjó hann þegar Sigmund banahögg (um eða rjett eptir 930).[1])

Fyrir víg Sigmundar voru allir Baugssynir gerðir brott úr Fljótshlíðinni. Gunnar fór þá í Gunnarsholt, Eyvindur í Eyvindarhóla undir Eyjafjöllum og Steinn hinn snjalli í Snjallsteinshöfða fyrir vestan Ytri Rangá. Þessir bæir hafa fengið nafn eptir þeim bræðrum og er því líklegt að þeir hafi reist þá.

Þorgerði Sigmundardóttur líkaði illa að föðurbani hennar settist að svo að segja í næstu sveit við sig, og eggjaði Önund bónda sinn, að hefna föður síns. Hann fór þá með 30 manna í Snjallsteinshöfða og bar eld að húsum. Snjallsteinn gekk þá út og gafst upp, en þeir leiddu hann í höfðann og vágu hann þar. Eptir víg hans mælti Gunnar bróðir hans og varð Önundur sekur um það. Hann sat þá með fjölmenni tvo vetur í Önundarholti og vildi eigi fara brott eins og dómurinn gerði ráð fyrir. Gunnar ljet þá Örn í Vælugerði mág sinn halda njósnum um Önund. Nú leið hinn þriðji vetur þangað til eptir jól. Þá ljet Örn Gunnar vita að færi mundi gefast til þess að ráðast á Önund. Gunnar brá þegar við og fór með 30 manna að Önundi og fann hann, er hann fór frá leik með tólfta mann til hrossa sinna. Gunnar veitti honum þegar atgöngu og heitir þar síðan Orrustudalur, er þeir börðust. Önundur fjell með fjórða mann og einn af Gunnari. En á heimleiðinni, þá er Gunnar reið með Þjórsá, fjell hann af baki, og var þá örendur af sárum.

---

[1]) Nj. 19,76. Höfundi Njálu hefur verið kunnugt um að einn af þeim frændum var veginn við Sandhólaferju og með því að hann vissi eigi um Sigmund, hefur hann ætlað að það hafi verið Sighvatur, faðir hans, sem var veginn þar, en það er eflaust rangt. Sighvatur hefur þá verið um eða yfir áttrætt, ef hann hefur verið á lífi, og varla átt í langferðum. Í þætti Þorsteins Ásgrímssonar tjaldstæðings, Flat. III 70,435 segir og að Sighvatur hafi fallið við Sandhóla, en þar er fleira rangt og þátturinn eigi góður eins og hann er í Flateyjarbók. Þó er Sigmundur nefndur þar.

Önundur bíldur átti tvo syni, Sigmund kleyki og Eilíf auðga. Þeir sóttu Mörð gígju frænda sinn að eptirmáli, en hann kvað óhægt þar sem um sekan mann var að ræða. En þá bræður langaði einkum til að koma hefndum fram á Erni í Vælugerði, því að hann sat næst þeim. Mörður lagði það þá til, að þeir skyldu fá skóggangssök á hendur Erni, og koma honum svo úr hjeraði. Önundarsynir tóku þá beitingamál[1]) á hendur Erni, og varð hann svo sekur, að hann skyldi alstaðar falla óheilagur fyrir Önundarsonum, nema í Vælugerði og í örskotshelgi við landeign sína. Önundarsynir sátu jafnan um hann, en hann gætti sín vel. Loksins fengu þeir færi á honum, er hann rak naut úr landi sínu, og vágu hann. Menn hugðu að Örn mundi hafa fallið óheilagur, en Þorleifur gneisti, bróðir hans, keypti Þórmóð Þjóstarsson til að helga Örn. Þormóður var ágætur bogmaður og var þá nýkominn frá útlöndum. Hann skaut síðan svo langt af handboga, að fall Arnar varð í örskotshelgi hans.

Þau Gunnar og Hrafnhildur Stórólfsdóttir áttu son, er Hámundur hjet. Hann var nú frumvaxta og mælti hann með Þorleifi eptir Örn. Mörður gígja veitti Önundarsonum, frændum sínum þeir; urðu þó hjeraðssekir úr Flóanum, en sluppu hjá að gjalda bætur. Til þess að tryggja síðan sættir sem best, gipti Mörður Rannveigu systur sína Hámundi Gunnarssyni, er var afreksmaður að afli og vænleik sem faðir hans, og rjeðst þá Hámundur aptur í Fljótshlíðina og settist að á föðurleifð sinni Hlíðarenda, en þaðan hafði hann flutt með föður sínum. Mörður gígja sá einnig frændum sínum fyrir kvonfangi. Hann bað Þorkötlu Ketilbjarnardóttur á Mosfelli til handa Eilífi og settist hann að í Biskupstungum, en Arngunnar Þorsteinsdóttur drangakarls til handa Sigmundi og rjeðst hann þá austur í Vestur-Skaptafellssýslu.[2]) Þetta var einhvern tíma um 940.

---

[1]) Í Stb. 348/219 stendur bettingamál, en það er ritvilla í staðinn fyrir beitingamál, sbr. Ldn.[2] 280. [2]) Ldn. 3/282—284, 4/285—288, sbr. að framan I, 195—197, 214.

Mörður gígja mun hafa fengið virðingu af málum þessum, því að eptir þetta er hann talinn mestur höfðingi á Rangárvöllum um daga sína.[1]) Einkum var honum þó við brugðið sem miklum lagamanni, og er svo sagt í Njálu „at engir þóttu lögligir dómar dæmdir, nema hann væri við.“ Á efri árum sínum gipti hann Unni dóttur sína Hrúti Herjólfssyni á Hrútsstöðum í Dölum, hálfbróður Höskulds Dala-Kollssonar. Hrútur var mikill merkismaður, en þau Unnur áttu eigi lund saman, og skildi hún við hann eptir þriggja vetra samveru. Á alþingi sumarið eptir (um eða fyrir 969) reyndi Mörður að ná fje dóttur sinnar hjá Hrúti, en það tókst eigi. Hrútur skoraði Merði á hólm, en hann sá sitt óvænna, ef hann berðist við Hrút, og kvaðst eigi mundu gjöra það. Mörður gígja var orðinn gamall maður, er þetta var, en Hrútur á miðjum aldri og manna fræknastur. Þó segir sagan að Mörður hefði hina mestu svívirðu af því að berjast eigi. Nokkru síðar andaðist hann á sóttarsæng (um 970)[2]).

Annar mætur höfðingi á Rangárvöllunum í upphafi söguialdarinnar var Hrafn lögsögumaður Hængsson, sem þegar hefur verið nefndur. Hann var hjer um bil þrjátíu árum eldri en Mörður gígja, og má telja víst að Mörður hafi numið lög af honum. Töluvert yngri en Hrafn, en þó nokkru eldri en Mörður, var Jörundur goði Hrafnsson hins heimska[3]), sem talinn er einn af þremur hinum mestu höfðingjum í Rangárþingi um þessar mundir. Hann átti fyrst Þuríði Þorbjarnardóttur hins gaulverska og var þeirra son Úlfur aurgoði, forfaðir Oddaverja og — þó um einn kvennlið — Sturlunga. Síðan átti Jörundur Þórlaugu Hrafnsdóttur lögsögumanns og með henni Valgarð goða. Fyrir því mun Jörundur goði hafa komist að Hofslandi eptir tengdaföður sinn; að minsta kosti bjó Valgarður sonur hans þar.

Jörundur goði kemur lítið við sögur; hans er getið í

---

[1]) Ldn. 15/321; Hksb. 304/107. [2]) Nj. 1—2,1—8, 6—8,21—40, 18,75, 21,80, 22,87;. Lax. 19/58; Ldn. 18/114—115, 3,285. Sbr. Safn I, 343—46.
[3]) Sjá að framan I, 198—200.

Njálu á alþingi, þá er Mörður gígja deildi við Hrút Herjólfsson, en vera má að Úlfur sonur hans eða annarhvor þeirra bræðra hafi ráðið Merði frá að berjast, sem honum er eignað. Ef Jörundur hefur þá verið á lífi, hefur hann að minsta kosti verið kominn á áttræðis aldur og andast litlu síðar. Guðbrandur Vigfússon ætlar að hann hafi andast um 960, og getur verið að það sje rjett. Dauðaár hans er ókunnugt.[1])

## Gunnar Hámundarson og Njáll Þorgeirsson. Hallgerður langbrók.

Litlu eptir fráfall höfðingja þeirra, er nú hefur verið skýrt frá, komu til sögunnar í Rangárþingi þeir tveir menn, sem frægastir eru þar um slóðir á söguöldinni. Annar þeirra var Gunnar Hámundarson að Hlíðarenda í Fljótshlíð, en hinn Njáll Þorgeirsson að Bergþórshvoli í Landeyjum. Þeir voru hinir mestu vinir, því að báðir voru þeir drenglyndir, trúir og tryggir; að öðru leyti voru þeir mjög ólíkir, en þeir bættu hvor annan upp; það, sem annan þeirra vantaði, hafði hinn.

Gunnar var sonur Hámundar Gunnarssonar og Rannveigar Sigmundardóttur. Engum manni er lýst svo glæsilega í Íslendinga sögum sem honum, og þótt eitthvað kunni að vera orðum aukið, er það þó engum efa bundið að hann var afbragð annara manna að vígfimi, íþróttum og hreysti; á það bendir alt, sem um hann er kunnugt. En hann var líka góðgjarn maður, mildur og stiltur, vinfastur og vinavandur[2]). Njáll Þorgeirsson[3]) er aptur á móti frægur fyrir

---

[1]) Ldn. 3/284—285; Hksb. 305/107; Eg. 23/72; Nj. 8/36, 25/99—100. Safn I, 285, 420—421; þar segir að Úlfur aurgoði hafi verið dótturson Hrafns, en það er rangt. [2]) Nj. 19/76—77 sbr. 31/119, 66/309. [3]) Um ætt hans sjá að framan I, 198—199. Í Njálu er Ásgerður landnámskona, amma Njáls, kölluð móðir hans.

vitsmuni sína, því að hann var „lögmaðr svá mikill, at engi var hans jafningi, vitr ok forspár, heilráðr ok góðgjarn, ok varð allt at ráði þat er hann réð mönnum, hógværr ok drenglyndr, langsýnn ok langminnigr. Hann leysti hvers manns vandræði, er á hans fund kom.“ Varð Gunnari það opt að liði, en þótt hann væri ráðhollur maður, bar hann samt eigi gæfu til þess þrisvar að fara að ráðum Njáls, en það var þá, er hann kom frá útlöndum og reið til alþingis, og er hann vá tvisvar í sama knjerunn og rauf síðustu sætt sína. Njáll var fríður maður yfirlits, en þó þótti það lýti „at hánum óx eigi skegg“. Hann var kvongaður, þá er hans er fyrst getið, og hjet kona hans Bergþóra Skarphjeðinsdóttir. Hún var kvennskörungur mikill og góður drengur, en nokkuð skaphörð. Þau Njáll áttu sex börn, og urðu synir þeirra Skarphjeðinn, Grímur og Helgi nafnkendir menn. Þeir voru allir hraustir menn og sterkir og vel vígir, en Skarphjeðinn var hinn mesti kappi, skjótráður og öruggur í öllum mannraunum.[1])

Þeir Gunnar og Njáll koma báðir jafnsnemma til sögunnar, um 971, þá er Gunnar hjálpaði Unni Marðardóttur gígju, frændkonu sinni, og náði fje hennar frá Hrúti Herjólfssyni. Njáll lagði þá á ráðin með Gunnari og sagði honum hvernig hann skyldi fara að, er hann stefndi Hrúti, svo að það yrði sem hættuminst fyrir hann. Hrútur varð síðan að greiða fjeð á alþingi.[2]) Gunnar var þá hálfþrítugur eða rúmlega það, því að hann var fæddur um 945, en Njáll var þá nærri fertugur, því að hann var eitthvað tíu til fimtán árum eldri en Gunnar.[3])

Rjett eptir þetta fór Gunnar utan ásamt Kolskeggi bróður sínum, hraustum manni og góðum dreng.[4]) Þeir tóku

---

[1]) Nj. 20/78—79, 25/101—192. [2]) Nj. 21—24/79—99. [3]) Safn I, 415—420. [4]) Bræður Gunnars eru nefndir tveir í Njálu 19/77—78 Kolskeggur og Hjörtur, og hálfbróðir Ormur skógarnef, laungetinn. Í Melabók Ldn². 236 er Kolskeggur eigi nefndur, en bræður Gunnars taldir fjórir, Helgi, Hafur, Hjörtur og Ormur skógarnef. Í Hksb. 307/109 eru þessir fimm taldir synir Hámundar og Rannveigar, en Kolskeggur eigi nefndur. Ldn. 4/288

sjer far með Hallvarði hvíta, víkverskum manni, er hafði verið í veturvist hjá Gunnari, og voru tvo vetur utan (um 972—974). Þeir fóru allir í víking og hjeldu í austurveg. Þar feldi Gunnar víking einn, er Hallgrímur hjet, og tók af honum ágætt vopn, atgeir þann, er hann bar síðan meðan hann lifði. Gunnar kom til Heiðabæjar, segir sagan, á fund Haralds konungs Gormssonar og þá af honum góðar gjafir og mikinn sóma. Síðan hjelt hann til Noregs og var með Hákoni jarli um veturinn.[1])

Gunnar fór síðan til Íslands og reið til alþingis um sumarið og með honum Kolskeggur og Hallvarður hvíti. Þá er þeir komu á þing, voru þeir svo vel búnir að engir voru jafnvel búnir á þingi. Það flaug líka frægðarorð af Gunnari, og menn fóru úr hverri búð að sjá hann og margur maður fór að finna hann og spyrja hann tíðinda. Hann var við alla menn ljettur og kátur, og sagði öllum slíkt er vildu. Eigi gat heldur glæsilegri mann og ágætari að líta þá á Íslandi en Gunnar í gullfjölluðum tignarklæðum, sem Haraldur konungur Gormsson hafði gefið honum, með gullbúið skarband og gerskan hatt á höfði, en með gullhringinn Hákonarnaut á hendi. „Hann var mikill maðr vexti ok sterkr, vænn at yfirliti ok ljóslitaðr, rétt nefit ok hafit upp í framanvert, bláeygr ok snareygr ok rjóðr í kinnum; hárit mikit, gult, ok fór vel. Manna var hann kurteisastr, harðgörr í öllu."

Það var einn dag, er Gunnar gekk frá Lögbergi, að konur nokkrar velbúnar gengu á móti honum, og sú var í ferðarbroddi, er best var búin. Hún var tignarleg, mikil vexti og fríð sýnum. Hún var í rauðum kyrtli og var á búningur mikill; yfir sjer hafði hún skarlatsskikkju búna hlöðum í skaut niður, og hrundi hárið, bæði mikið og fagurt, niður um bringu. Kona þessi kvaddi þegar Gunnar, er þau fundust. Hann tók vel kveðju hennar og spurði hver hún væri. Hún nefndist Hallgerður Höskuldsdóttir Dala-

[1]) Nj. 28—32/105—122,

Kollssonar. Hún mælti djarflega til Gunnars og bað hann segja sjer frá ferðum sínum, en hann kvaðst eigi mundu varna henni máls. Þau settust þá niður og töluðu: þau töluðu lengi hátt og að lokum spurði Gunnar hana, hvort hún væri ógefin.

Hallgerður langbrók[1]) Höskuldsdóttir var eitthvað fimm eða sex árum eldri en Gunnar og um hálffertugt, er þetta var. Hún hafði tvisvar verið gipt, fyrst fornspurð og nauðug, enda varð hún ráðbani þess manns, síðan að eigin ósk Glúmi Óleifssyni hjalta, fríðleikamanni, miklum og sterkum. Þjóstólfur fóstri hennar vá hann eins og fyrri mann hennar, en þó á móti vilja hennar. Hallgerður var „blandin mjök“. Hún var örlynd, svo að hún mátti opt eigi stilla sig; hún var skaphörð, svo að hún ljet sjer fátt fyrir brjósti brenna. Hún var stórlát og metnaðargjörn, hefndargjörn og heiptrækin, svo að hún gætti eigi hófs og svivirti jafnvel heldur sjálfa sig en að koma eigi fram hefnd. Hún gat verið svo sviplynd, ósanngjörn og særandi, að enginn maður mátti þola það. En hún var líka með allri fegurð sinni eigi að eins glæsileg í framgöngu, heldur laðandi og ginnandi, djörf og blíð og skemtileg, ef hún ætlaði sjer að vinna einhvern. Hún var einnig atkvæðamikil, er hún vildi, og hafði alla þá kvennlegu slægð og undirferli, sem þróast hjá þeim konum, sem verja viti sínu til þess að vinna menn og hefna mótgjörða.

Höskuldur og Hrútur tóku Gunnari vel, er hann kom til þeirra, þótt þeir hefðu deilt áður. Hrútur sagði honum alt ófregið um skapferli Hallgerðar, þá er hann bað hennar, en hann var svo ástfanginn að það tjáði eigi. Kaupmálar gengu saman og Höskuldur ljet Hallgerði festa sig sjálfa. Brúðkaup þeirra stóð um haustið að Hlíðarenda (um 974).[2])

Eptir þingið sagði Gunnar Njáli að hann hefði fest sjer Hallgerði, en hann tók því þungt og sagði: „af henni mun standa allt hit illa, er hón kemr austr hingat.“ Því miður

---

[1]) Nj. 9/40; Lax. 9/22. Í Ldn. 17—18/114 og 30/151 er hún kölluð snúinbrók. [2]) Nj. 33—34/123—134, sbr. 1/2—3, 9—17/40—75, 41/171.

urðu orð þessi að sönnu Um veturinn var heimboð að Bergþórshvoli og þar ljet Bergþóra Hallgerði þoka fyrir konu einni,[1]) er kom síðar til boðsins og skyldi fá sæti. Hallgerði þótti sjer óvirðing gerð og brá þegar Bergþóru um að hún hefði kartnögl á hverjum fingri og Njáll væri skegglaus. Bergþóra svaraði: „hvártki okkart gefr þat öðru at sök, en eigi var skegglauss Þorvaldr búandi þinn, ok rétt þú þó hánum bana“. Hallgerður eggjaði þegar Gunnar til hefnda, en hann stóðst eggjunarorð hennar og fór heim með hana. Hallgerður sagði við Bergþóru að skilnaði: „mun þú þat Bergþóra, at vit skulum eigi skildar.“ Sumarið eptir ljet hún Kol verkstjóra sinn drepa húskarl Bergþóru, en Bergþóra ljet hefna hans og gekk svo um fimm ár, að þær Hallgerður ljetu drepa menn hvor fyrir annari. Þeir Njáll og Gunnar seldu hvor öðrum sjálfdæmi um öll vígin og varð þeim það aldrei að ágreiningsefni. Hallgerður hafði þá fengið Sigmund Lambason frænda Gunnars til þess að vega Þórð Leysingjason, fóstra Njálssona. Njáll sættist á málið og kvað syni sína eigi mundu rjúfa þá sætt, er hann gerði. En Hallgerður fjekk þá Sigmund til þess að bæta gráu ofan á svart og yrkja háð og spott um Njál og syni hans. Þá þoldu þeir bræður eigi eggjunarorð móður sinnar nje hróp þeirra Sigmundar og fóru þegar um nóttina af stað af leita Sigmundar og vágu bæði hann og Skjöld fjelaga hans (um 980).[2])

Hallgerði tókst aldrei að vekja óvináttu á milli Gunnars og Njáls eða sona hans, þó að fátt væri meðal annars liðsins; en að lokum tókst henni að leiða óhamingju yfir Gunnar. Hann var skapgóður maður og þoldi Hallgerði allvel eggjunaryrði og brigslyrði, þótt það kæmi fyrir að hann teldi á hana fyrir sum illverk hennar.[3]) Þó fór svo eitt sinn að hann fjekk eigi stilt sig.

---

[1]) Í Nj. 35/134 segir að það hafi verið Þórhalla Ásgrímsdóttir kona Helga Njálssonar; ef það væri rjett, hefur hann þá verið nýlega giptur. En það getur eigi verið rjett; Helgi hefur kvongast tíu til tuttugu árum síðar, og hefur þetta verið einhver önnur kona, ef til vill kona Ásgríms Elliðagrímssonar, sbr. þó Safn I, 419–420. [2]) Nj. 35–45/134–198. [3]) Nj. 36/143, 37/155, 38/163, 41/172, 44/182–183.

Maður er nefndur Otkell Skarfsson. Hann bjó í Kirkjubæ á Rangárvöllum. Hann var óvitur maður og ómerkur, en ættstór, því að hann var sonarsonur Hallkels landnámsmanns og frændi Mosfellinga í Grímsnesi. Í hallæri einu, sem þá bar að höndum, reið Gunnar í Kirkjubæ og falaði af Otkatli hey og mat, en hann vildi eigi selja. Þó keypti Gunnar írskan þræl af honum að ósk hans. Um þingtímann sumarið eptir ljet Hallgerður þræl þennan stela í Kirkjubæ smjöri og ostum á tvo hesta og leggja síðan eld í útibúrið, þar sem vara þessi var geymd. Þá er Gunnar fór heim af þingi riðu margir þingmenn með honum að Hlíðarenda. Hallgerður bar fyrir þá ost og smjör. Gunnar vissi að Hallgerður hafði eigi sjálf búið til ost og spurði hana, hvaðan matur sá kæmi. „Þaðan sem þú mátt vel eta“, sagði hún, „enda er þat ekki karla at annaz um matreiðu“. Gunnar reiddist og mælti: „illa er þá, ef ek em þjófsnautr“ og lýstur hana kinnhest. Hún kvaðst þann hest skyldu muna og launa, ef hún mætti.

Otkell átti vin, er Skammkell hjet. Hann var bæði illgjarn og lyginn, og einhver hinn versti óþokki, sem sögur fara af. Hann fjekk ásamt Otkatli Valgarð hinn gráa[1]) til þess að grafast fyrir um skaðann í Kirkjubæ; höfðu þeir þegar fengið grun á Hallgerði og þrælnum, því að þeir vissu að hann var þjófgefinn. Það kom líka upp úr kafinu, að Hallgerður mundi hafa látið stela þaðan ost. En er Gunnar frjetti það, reið hann í Kirkjubæ og bauð hin bestu boð fyrir skaðann, er orðinn væri af völdum konu hans og þrælsins, er hann keypti. Hann bauð Otkatli sjálfdæmi, en eptir ráðum Skammkels vildi hann eigi taka því, fyr en hann

---

[1]) Í Njálu 49/214 segir að hann fengi Mörð Valgarðsson til þessa, en hann var þá barn að aldri, sbr. Safn I, 418. Af því að þeir feðgar voru báðir illgjarnir og slægir og Mörður var þjóðkunnur fyrir róg sinn gegn Höskuldi Hvítanesgoða, eru hin mestu líkindi til að honum sje í Njálu eignuð ýms illvirki föður síns. Mörður gat varla sökum æsku, allra síst þegar eptir stuldinn í Kirkjubæ, verið sá, er verstur var í ráðum gegn Gunnari. Mörður var einnig náskyldur Gunnari, en Valgarður eigi og Unnur kona hans þá dáin, Nj. 46/203.

hefði fundið Gissur hvíta og Geir goða. Skammkell fór síðan á fund þeirra fyrir Otkel og sagði þeim boð Gunnars. Þeim þótti þau góð og rjeðu að taka þeim. En er Skammkell kom aptur, laug hann að Otkatli að það væri vilji þeirra Mosfellinga, að hann stefndi Hallgerði um stuld en Gunnari um afneytslu. Otkell var svo óvitur að gjöra það og skaprauna Gunnari með stefnu um jafnsvívirðilega sök sem stuld.

Málið fór til alþingis. Þar fengu þeir Gissur hvíti og Geir goði að vita svik Skammkels og fór svo, að þeim þótti ráðlegast að bjóða Gunnari sjálfdæmi. Hann gerði þá verð húss og matar þess, er inni brann, sjer til handa fyrir að honum var stefnt til háðungar. Gissur vildi eigi að Gunnar gyldi fje, en það að hann vildi vera vinur Otkels. „Þat skal verða aldrei", sagði Gunnar, „ok mun hann hafa vináttu Skammkels."

Vorið eptir reið Otkell með sjö mönnum austur í Dal til Runólfs goða Úlfssonar; varð þá hesturinn undir honum svo ólmur, er hann reið austur Fljótshlíðina, að hann fjekk varla við ráðið. Svo óheppilega vildi til að hann reið þá á Gunnar ofan á sáðlandi hans og rak sporann við eyra honum, og risti hann mikla ristu. Gunnari þótti slíkt ósæmilega gert, en hugði þó lítt á hefnd, fyr en hann frjetti að Skammkell, sem var með í ferðinni, hefði sagt, að hann hefði grátið. Það var meira en ærukær maður mátti þola. Hann reið því einn í veg fyrir þá að Rangá, er þeir fóru að austan, og barðist við þá (um 985). Vá hann skjótt fjóra af þeim, en þá kom Kolskeggur bróðir hans til bardagans og feldu þeir þá alla átta. Þetta var fyrsti bardaginn, sem Gunnar átti í á Íslandi, og varð honum mikið um verk þetta. Hann reið hart heim, og sagði þá Kolskeggur: „hart ríðr þú nú frændi." „Hvat ek veit," segir Gunnar, „hvárt ek mun því úvaskari maðr en aðrir menn, sem mér þykkir meira fyrir en öðrum mönnum at vega menn."

Gunnar reið til Bergþórshvols og sagði Njáli verk þessi. Honum þótti mikið að gjört, en kvað hann mundu fá hina mestu sæmd af máli þessu, og rjeð honum að vega aldrei

meir i hinn sama knjerunn en um sinn og rjúfa aldrei sætt.

Gissur hvíti og Geir goði áttu að mæla eptir Otkel. Þeir hlutuðu um hvor þeirra skyldi fara með sökina og hlaut Geir goði. Hann sótti Gunnar og Kolskegg á næsta alþingi fyrir víg þeirra átta. Gunnar naut aðstoðar Njáls og ónýtti málið sökum rangs málatilbúnings. En Gunnar var sáttgjarn og gerðu sex menn um málið. Skammkell var gerður ógildur, en sporahöggið var lagt á móti einum manngjöldum. Sex menn voru bættir og gáfu frændur Gunnars fje til, svo að öll vígin voru bætt þegar á þinginu.[1])

Eptir þennan fræga sigur óx mörgum i augum sæmd Gunnars, og urðu ýmsir til þess að öfunda hann mjög. Helstir þeirra voru þeir frændur, synir þeirra mága Starkaðar Barkarsonar undir Þríhyrningi, nágranna Gunnars, og Egils Kolssonar í Sandgili. Þeir voru ofsamenn miklir og kappsamir, harðlyndir og ódælir. Fyrir þeim voru þeir Þorgeir Starkaðarson og Kolur Egilsson. Þeir rjeðust á Gunnar saklausan að hestaati, en hann þreif Kol og kastaði honum á völlinn, og Þorgeir laust hann með stafnum svo að hann fjell. Síðan sátu þeir frændur allir við 30. mann fyrir Gunnari hjá Knafahólum, er hann síðla sumars reið heim úr boði hjá Ásgrími Elliðagrímssyni. Gunnar var með Kolskegg og Hirti bræðrum sínum og varð þar harður bardagi við Rangá. Fjellu þar fjórtán menn af óvinum Gunnars, þar á meðal Egill úr Sandgili og synir hans og tveir synir Starkaðar, en hinir flýðu Þar fjell einnig Hjörtur Hámundarson, og Kolskeggur varð sár (um 986)[2]).

Njáll studdi Gunnar með ráð og dáð, bæði með því að óhelga hina dauðu fyrir atför og fjörráð við þá bræður og með því að selja honum gagnsakir á hendur helstu óvinum hans. Málin fóru til alþingis og var þeim fylgt fast fram, en fyrir orð Hjalta Skeggjasonar voru þau lögð i gjörð; voru þá vígin bætt en engar mannsektir. Hafði Gunnar „hina mestu sæmd af málinu, ok urðu allir á þat sáttir, at

---

[1]) Nj. 47—56/203—259. [2]) Nj. 57—63/259—293.

engi væri hans jafningi í Sunnlendingafjórðungi. Reið Gunnarr heim af þingi ok sitr nú um kyrrt. En þó öfunduðu mótstöðumenn hans mjök hans sæmd."[1])

Þorgeir Starkaðarson ginti því næst eptir ráðum Valgarðar hins gráa (eða Marðar sonar hans?) Þorgeir Otkelsson í lið með sjer til þess að Gunnar skyldi vega tvisvar í hinn sama knjerunn, segir sagan, en jafnframt þó til þess að hann fengi aptur svo ríka höfðingja á móti sjer sem Mosfellinga. Þorgeir var vel mannaður og vinsæll maður, en talhlýðinn og óvitur.[2]) Þeir nafnar sátu síðan við 24. mann fyrir þeim bræðrum, Gunnari og Kolskeggi, — við Rangá segir í Njálu, sem er eitthvað ófullkomin eða röng um ferð Gunnars[3]) — og lauk svo fundi þeirra að Þorgeir Otkelsson fjell og nokkrir menn aðrir, en Þorgeir Starkaðarson flýði undan með flesta.[4]) Gissur hvíti sótti síðan Gunnar á alþingi fyrir víg Þorgeirs frænda síns. Þótt Njáll færði fram þá vörn fyrir þá bræður, að þeir Þorgeir hefðu farið að þeim Gunnari til að vinna á þeim, voru þó bæði fjegjöld og utanferð gjörð á hendur þeim; skyldu þeir bræður vera utan þrjá vetur. Njáll bað þá Gunnar innilega að halda sætt þessa og hjet hann því.

Þeir bræður, Gunnar og Kolskeggur, tóku sjer far og ljetu flytja vöru sína til skips. Þeir kvöddu Njál og aðra vini sína. Skilnaðarstundin kom einnig að Hlíðarenda og „Gunnar hvarf til allra heimamanna sinna", ok þeir bræður ríða í braut. Þeir ríða fram að Markarfljóti. Þá drap hestur Gunnars fæti og stökk hann af baki. Honum varð litið upp til hlíðarinnar og bæjarins að Hlíðarenda. Þá mælti hann: „Fögr er hlíðin svá at mér hefir hún aldri jafnfögr sýnz — bleikir akrar en slegin tún —, ok mun ek ríða heim aptr ok fara hvergi." „Ger þú eigi þann úvina fagnað", segir Kolskeggur, „at þú rjúfir sætt þína." „Hvergi mun ek fara", segir Gunnar, „ok svá vilda ek at þú gerðir." „Eigi

---

[1]) Nj. 66/309, sbr. 70/327. [2]) Nj, 67—68/310—314. [3]) Sbr. Kålund, Ísl. I, 226—227; Árbók 1892 bls. 49—52, Árbók 1902 bls. 7—9. [4]) Nj. 71—72/329—336.

skal þat", segir Kolskeggur „hvártki skal ek á þessu níðaz ok á engu öðru því, er mér er til trúat; ok mun sjá einn hlutr svá vera, at skilja mun með okkr. En seg þat móður minni ok frændum mínum, at ek ætla ekki at sjá Ísland; því at ek mun spyrja þik látinn, frændi, ok heldr mik þá ekki til útferðar." Skilur þá með þeim; ríður Gunnar heim til Hlíðarenda, en Kolskeggur til skips og fer utan (um 989).[1])

Á alþingi árið eptir lýsti Gissur hvíti sekt Gunnars að Lögbergi og fór að honum um haustið við 40. mann, þá er hann var einn heima vígra manna. Þeir sóttu að Gunnari í skála hans og var þar Rannveig móðir hans og Hallgerður kona hans. Gunnar varðist fyrst með bogaskotum, þangað til bogastrengur hans var höggvinn í sundur. Þá þreif hann atgeirinn og varðist með honum, en mælti til Hallgerðar: „Fá mér leppa tvá ór hári þínu ok snúið þit móðir mín saman til bogastrengs mér." „Liggr þér nakkvat við?" segir hún. „Líf mitt liggr við", segir hann, „því at þeir munu mik aldri fá sóttan, meðan ek kem boganum við." „Þá skal ek nú," segir hún, „muna þér kinnhestinn: ok hirði ek aldri, hvárt þú verr þik lengr eða skemr." „Hefir hverr til síns ágætis nakkvat," segir Gunnar, „ok skal þik þessa eigi lengi biðja". Rannveig mælti: „Illa ferr þér, ok mun þín skömm lengi uppi".

Gunnar varði sig lengi vel og fræknlega og særði sextán menn, en tvo feldi hann, en þar kom að hann fjell af mæði; var þá hægt að særa hann til ólífis og ganga af honum dauðum.[2]) En þótt sagan um bogastrenginn og Hallgerði kunni vel að vera sönn, eru þó eigi líkindi til þess að óvinir Gunnars hefðu aldrei fengið hann sóttan, ef Hallgerður hefði gefið honum hár í bogastreng.

Gunnar var mjög harmdauði mörgum mönnum, einkum Njáli. Hann sendi Skarphjeðin son sinn að Hlíðarenda og hefndi hann Gunnars með Högna[3]) syni hans. Þeir fóru

---

[1]) Nj. 73—75/337—351. [2]) Nj. 75—77/352—367. [3]) Hann er nefndur Hámundur í Ldn. 5/290; Hksb. 312/109.

undir Þríhyrning og drápu tvo verstu óvini Gunnars, Starkað og Þorgeir son hans. Einnig fóru þeir í Odda og vágu þar tvo menn; hafði annar þeirra hælst um að hafa veitt Gunnari banasár. Valgarði hinum gráa að Hofi (eða Merði syni hans), sem verstur hafði verið í tillögum við Gunnar, hótuðu þeir dauða, en hann seldi Högna sjálfdæmi.[1])

## Árnesingar.

Af Árnesingum fara litlar sögur framan af söguöldinni. Merkastir höfðingjar voru þar niðjar Hásteins Atlasonar í Flóanum og einkum niðjar Ketilbjarnar hins gamla í Grímsnesinu og Tungunum. Með Þóroddi goða Eyvindarsyni að Hjalla í Ölfusi kom og allmerkur maður til sögunnar á síðari hluta 10. aldar. Hann var dótturson Þormóðar skapta.

Þórður dofni Atlason í Traðarholti í Flóa[2]) fór utan þá er hann hafði tvo um tvítugt að heimta arf sinn, en týndist í hafi (um 939). Hann ljet eptir sig son einn tvævetran, er Þorgils hjet, og ekkju unga, er Þórunn hjet og var dóttir Ásgeirs austmannaskelfis. Vetri síðar kom út Þorgrímur örrabeinn Þormóðarson, dótturson Ketilbjarnar, og rjeðst hann til forráða með Þórunni og fjekk hennar þremur árum síðar; eignuðust þau son, er Hæringur hjet.

Þorgils fjekk auknefni af Þorgrími og var kallaður örrabeinsstjúpur. Þeir áttu eigi lund saman og fór Þorgils frá stjúpa sínum til Lopts í Gaulverjabæ og ólst upp hjá honum. Síðan fór hann utan, er hann hafði aldur til og

[1]) Nj. 78/371, 79/373–377. Í Njálu segir að þeir Skarphjeðinn færu fyrst að Odda, síðan undir Þríhyrning og þá að Hofi. Allir, sem kunnugir eru afstöðu þessara bæja og Hlíðarenda, munu sjá að þetta er algjörlega óeðlilegt. Líklegt er að þeir hafi fyrst farið undir Þríhyrning og þá að Odda eða Hofi, sbr. Árbók 1902 bls. 9. [2]) Sjá að framan I, 284—285.

var lengi erlendis.[1]) En nokkru eptir þetta lagði Þorgrímur örrabeinn hug á Áshildi ekkju eptir Ólaf tvennumbrúna. Helgi trausti sonur hennar vandaði um. Hann sat fyrir Þorgrími og bað hann láta af komum sínum. Þorgrímur ljest eigi hafa barnaskap. Þeir börðust. Þorgrímur fjell, en Helgi fjekk sjer síðan far í Einarshöfn. Hæringur Þorgrímsson var þá 16 vetra og reið hann að finna Teit Ketilbjarnarson.[2]) Þeir Teitur riðu fimtán að banna Helga far. Þeir fundust í Merkurhrauni upp frá Mörk við Helgahvol. Þeir Helgi voru þrír saman komnir af Eyrum. Þar fjell Helgi og maður með honum og einn af þeim Teiti; fjellust víg þau í faðma.[3])

Þorgils örrabeinsstjúpur kom út og bjó alllengi í Traðarholti og þótti mikill afreksmaður, en eigi virðist hann hafa haft jafnmikið veldi í Flóanum sem forfeður hans; mun það hafa fallið um koll með föður hans. Þorgils fór til Grænlands eins og síðar mun sagt, en lifði lengi á Íslandi eptir að hann kom heim úr ferð þeirri, og varð gamall maður.[4])

Ketilbjörn landnámsmaður á Mosfelli átti mörg börn, og var Teitur nafnkendastur sona hans. Hann hefndi Þorgríms örrabeins systursonar síns og hann mun einnig hafa veitt Víga-Glúmi lið á alþingi, er hann hafði vegið Sigmund Þorkelsson. Þetta hvorttveggja var um 960 og hefur Teitur þá verið á efra aldri. Teitur hafði fengið göfugt kvonfang í Noregi, Ólöfu Böðvarsdóttur af Vors, og var Gissur hvíti sonur þeirra. Hann var fæddur einhvern tíma á miðri 10. öld,[5]) líklega þó heldur rjett fyrir 950 en eptir það ár, og er hans og Ásgríms Elliðagrímssonar fyrst getið í Víga-Glúms sögu um 960 á alþingi, en það mun eigi rjett. Þeir

---

[1]) Fló. 12—17 130—137. [2]) Teitur er í Ldn. 10 307 (í Stb. 377 226, en eigi í Hksb.) kallaður Gissurarson, og hefði hann eptir því átt að vera sonarsonur Ketilbjarnar. En það er varla rjett, því að Ari fróði, Íslb. 7 9, 10 18, kallar hann son Ketilbjarnar; hefur Teitur Ísleifsson mátt vita það, en eptir honum hefur Ari haft þetta. Sbr. einnig Sturl. I. 12 203; Bps. I 2 60; Nj. 26 102, 46 202; Hkr. I 81 403. [3]) Ldn. 10 305—307; Fló. 10—12 128—130, 18/138—139. [4]) Sbr. Fló. sem þó er mjög ýkt. [5]) Sbr. Safn I. 423—424.

voru þá báðir of ungir til þess að vera fyrir liðveitslu á alþingi, eigi síst er Teitur faðir Gissurar var þar, og er þarna blandað málum við liðveitslu þeirra víð Víga-Glúm hjer um bil 25 árum síðar. Gissur hvíti bjó að Mosfelli í Grímsnesi að sögn Njálu, en í Skálholti að sögn Kristnisögu og Hungurvöku, og mun það sannara.[1]) Hann var höfðingi mikill, og kemur til sögunnar um eða rjett eptir 980; er hann talinn með helstu höfðingjum landsins, þá er kristniboð hefst. Fyrstu málin, sem hans getur við, eru mál Otkels frænda hans í Kirkjubæ og vígsmál Víga-Glúms eptir bardagann á Hrísateigi. Sama er að segja um Ásgrím Elliðagrímsson, Ásgrímssonar landnámsmanns. Elliðagrímur faðir hans mun hafa flutt suður um land og líklega reist bæinn í Tungu (nú Bræðratunga) í Biskupstungum. Þar bjó Ásgrímur sonur hans. Elliðagrímur fjekk Jórunnar Teitsdóttur, systur Gissurar hvíta. Hún var eldri en bróðir hennar, því að Ásgrímur son hennar var á líku reki sem Gissur móðurbróðir hans. Ásgrímur er talinn með höfðingjum 981.[2])

Nokkru eldri en Gissur hvíti mun frændi hans og vinur Geir goði Ásgeirsson, í Hlíð hinni ytri í Biskupstungum, hafa verið. Móðir hans var Þorgerður Ketilbjarnardóttir og voru þeir Gissur hvíti systkinasynir.[3]) Geir var höfðingi og kemur við Njáls sögu.

Þá má enn nefna Hjalta Skeggjason úr Þjórsárdal.[4]) Hann var töluvert yngri en Gissur hvíti, enda var hann tengdasonur hans og átti Vilborgu dóttur Gissurar og Halldóru Hrólfsdóttur hins auðga fyrstu konu hans.[5]) Hjalti

---

[1]) Nj. 46/202, 50/224, 65/299—300, 77/369, 135/713; Bps. I. 12/26 (í Kristnisögu segir þó, að hann hafi búið fyrst í Höfða, síðan í Skálholti), 2/60—61. Þáttur af Ísleifi Gissurarsyni bendir einnig á að hann hafi búið í Skálholti, Bps. I, 54. [2]) Nj. 26/102; Sturl. I, 12/203; Krist. 1/4. [3]) Sjá að framan I, 214. Nj. 46/203. Þar er sagt að Þorkatla Ketilbjarnardóttir hafi verið móðir hans. [4]) Í registri yfir mannanöfn í I b. af Biskupa sögum og I. b. af Safni til sögu Íslands segir að Hjalti Skeggjason byggi á Núpi, en þess er hvergi getið í sögunum á hvaða bæ í Þjórsárdal hann bjó; er þarna farið eptir sögn Jóns Egilssonar, Safn I, 29, 33. [5]) Hkr. I, 81/403, II 69/107; Hungr. Bps. I, 2/60; Ldn. 21/63.

kemur fyrst við sögu á alþingi um 987, þá er þingað var um vígsmálin eptir fundinn hjá Knafahólum, og var þá ungur maður, en hann er þó talinn með höfðingjum 981, og mun skörungsskapur hans við kristnitökuna hafi valdið því, að menn hafa ætlað að hann hafi þá verið orðinn höfðingi, en hann hefur þá tæplega varð tvítugur.

Allir þessir höfðingjar voru friðsamir menn, göfuglyndir og rjettsýnir. Þeir gripu að eins til vopna, þá er nauðsyn krafði eptir hugsunarhætti manna á þeim tímum. Þeir fylgdust allir að málum, og var því erfitt að standa þeim á sporði. Fáar ættir á Íslandi voru jafnágætar sem Mosfellingar. Þeir kvísluðust út um Árnessýslu, einkum Grímsnesið og Tungurnar; voru jafnan merkir menn og miklir höfðingjar meðal niðja Ketilbjarnar alla þá tíð, á meðan þjóðveldið stóð.

---

## Aðstaða Íslands við önnur lönd.

Þótt vígaferli og deilur væru alltíðar meðal einstakra manna á söguöldinni, varð þó aldrei neinn almennur ófriður meðal landsmanna, líkt og stundum átti sjer stað í öðrum löndum eða á 13. öld í landinu sjálfu. Að eins einu sinni, þá er þeir Þórður gellir og Tungu-Oddur deildu, lá nærri, að allmikil styrjöld yrði á Vesturlandi, en hún hjaðnaði niður og varð eigi eins mannskæð eins og ýmsir fundir milli fárra manna. Landsmenn nutu einnig yfirleitt friðar við aðrar þjóðir, enda voru menn þá eigi teknir að fara með her manns yfir úthafið og til lítils var að slægjast á Íslandi.

Íslendingar fóru opt til annara landa bæði til þess að selja og sækja nauðsynjavörur og til þess að mannast, eða til að „afla sér fjár ok frama", eins og segir í sögunum. Einnig komu margir útlendingar til Íslands, einkum Norðmenn eða öðru nafni Austmenn. Viðskipti íslenskra manna og útlendra voru venjulega friðsamleg, en kæmi upp ágrein-

ingur, fór þá opt á sama hátt sem hjer hefur verið frá skýrt, þá er um deilur og missætti var að ræða meðal Íslendinga sjálfra. Menn gripu til vopna, ef í hart fór, eða ef eigi var hægt að ná rjetti sínum á annan hátt og skjótt þurfti úr að ráða. Urðu þá víg, eitt eða fleiri eptir ástæðum, og hvort sem slíkt var á Íslandi eða erlendis, reis samt aldrei neinn almennur ófriður út af því meðal Íslendinga og annara þjóða eða þjóðhöfðingja. Þó lá það nærri eitt sinn.

Á árunum kringum 970 bar svo við að íslenskt kaupskip braut í Danmörku, en Danir tóku upp fje alt og kölluðu vogrek. Fyrir því rjeð bryti konungs, er Birgir hjet. Íslendingum þótti sjer mikill órjettur gjörður og báðu konung rjetta ránið, en hann vildi það eigi. Til þess að hefna sín, samþyktu þeir síðan lög um það að yrkja skyldi um Danakonung níðvísu fyrir nef hvert, er á var landinu. Haraldur Gormsson var þá konungur í Danmörku, og ortu Íslendingar níð um hann og bryta hans; er enn til ein af níðvísum þeim, sem þá voru ortar, og hljóðar hún svo:

Þás sparn á mó marnar
morðkunnr Haraldr sunnan,
varð þá Venða myrðir
vax eitt, í ham faxa,
en bergsalar Birgir
böndum rækr í landi
(þat sá öld) í jöldu
óríkr fyrir líki.[1])

Þetta var eitthvert hið versta níð, sem vera mátti eptir hugsunarhætti manna í þá daga. Þvílíkar samlíkingar þóttu

[1]) Vísuna skal taka þannig upp: Þás morðkunnr Haraldr sparn (= fór) sunnan á marnar mó (= skip) í ham faxa, þá varð Venða myrðir vax eitt, en Birgir óríkr, rækr böndum bergsalar (= goðum fjallanna, landvættum; bergsalur er einnig = himinn og þá þýðir þetta goðum himinsins) í landi, fyrir (= sparn fyrir) í jöldu (= merar) líki; þat sá öld. Sbr. Finn Jónsson, Hkr. IV, 86.

þá jafnsvívirðilegar og meiðandi sem oss virðist þær óskáldlegar og ruddalegar. Eins og eðlilegt var reiddist Haraldur konungur Gormsson Íslendingum ákaflega fyrir níðið og hugði á hefndir. Hann fór rjett á eptir með mikinn skipaher til Noregs á hendur Hákoni jarli Sigurðssyni. Á meðan hann var með lið sitt í Sólundum, ætlaði hann að halda til Íslands og rjeðst um það við hina vitrustu menn í liði sínu, en þeim þótti eigi ráðlegt að leggja með liðið út á svo mikið haf. Dönum var einnig ókunnugt til hafna á Íslandi, „en fólk á landinu harðfengt ok ilt viðreignar", að sögn Ólafs sögu Tryggvasonar í Fornmanna sögum. Haraldur konungur sá þá að þetta var ófæra, og sneri hann því liði sínu suður með landi og fór til Danmerkur (um 975).

Þá er það spurðist til Íslands, að Haraldur Gormsson hefði í hyggju að herja á landið, þótti það mikil tíðindi: en eins og sjá má af dæmi Eyjólfs Valgerðarsonar og frásögn Snorra Sturlusonar hafa landsmenn ætlað sjer að taka hraustlega á móti. Og er það frjettist, að konungur hefði hætt við herferðina og að ófært þótti langskipum yfir úthafið, eignuðu menn það vættum landsins: myndaðist síðan sú saga, að konungur hefði boðið kunngum manni að fara í hamförum til Íslands og að landvættirnar hefðu bægt honum burtu.[1])

Milli Íslendinga og Noregskonunga var fátt í fyrstu, en það breyttist skjótt til hins betra. Mikill þori landnámsmanna var óvinveittur Haraldi hárfagra, og hann gerði mörgum þeirra mikinn skaða, en þeir hefndu sín eptir föngum, eins og fyr er sagt. Hann reyndi að hefta för manna til Íslands, en er hann fjekk eigi við það ráðið, lagði hann gjald á þá, sem fóru þangað. Svo fór að menn gengust undir að greiða konungi fimm aura, ef þeir væru eigi frá því skildir, til þess að njóta friðar af hálfu konungs. En þeir, sem höfðu farið áður til Íslands og voru ósáttir

---

[1]) Hkr. I, 33/315—318; Frís. 36/117; Fms. I, 83/153; Flat. I, 121/152; Jómsv. Fms. XI, 13/42—43; Knytl. Fms. XI, 3/181—182, sbr. hjer að framan bls. 107—8.

við konung, voru eigi óhultir um líf sitt, ef þeir komu aptur til Noregs. Þeir munu því hafa tekið upp það ráð að greiða konungi slíkt gjald sem landnámsmenn þeir, er voru í friði við konunginn, til þess að fá einnig að njóta friðar og landslaga í Noregi, enda segir Ari hinn fróði, að gjöld þessi til Haralds hárfagra hafi verið „upphöf“ að gjaldi því, „es nú es kallat landaurar“. Eins og þá var ástatt var það eigi lítilsvert fyrir Íslendinga að mega njóta friðar og rjettar í Noregi. Norðmanna konungur gat annars gert þá útlæga í Noregi, er þeir komu þangað, ef honum bauð svo við að horfa; urðu þeir þá rjettdræpir, hvar sem þeir hittust í ríki hans. Þá er svona stóð á, var það harðla eðlilegt að Íslendingar leituðu svo opt á fund konungs, er þeir komu til Noregs. Þeir höfðu gott af því á ýmsan hátt að koma sjer vel við konunginn, og hvergi áttu þeir kost á að fá virðulegri veturvist og meiri frama en hjá honum, ef þeir voru sjálfir vel að manni.

Haraldur hárfagri hafði sitt fram um gjaldið vegna þess að landsmenn þurftu að koma til Noregs og þeim var þar hætta búin, ef þeir ljetu ekkert af hendi rakna við konunginn. Hins vegar gat hann eigi fengið vald yfir Íslandi og landsmönnum, þótt hann vildi það helst. Tilraun hans í þá átt mistókst.[1]) En þótt flestir landnámsmenn gætu komið sjer í frið við Harald hárfagra, segir það sig sjálft að þeir höfðu eigi meiri mök við hann en nauðsyn var á, nema þeir, sem voru vinir hans, en þeir voru eigi margir.

Eiríkur blóðöx sat svo skamma stund að ríki í Noregi, að þess var eigi að vænta að mikil breyting gæti komist á um þetta á ríkisárum hans (930—935), enda var hann óþýður maður og grimmur og átti jafnan í ófriði. Hákon konungur Aðalsteinsfóstri var hins vegar vinsæll maður, glaðvær og rjettlátur. Hann sat alllengi að ríki (935—961) og ýmsir Íslendingar kyntust honum. Á ríkisárum hans tóku Íslendingar að gerast hirðmenn Noregs konunga, og gekk svo alla þá tíð, er þjóðveldið stóð á Íslandi. Þórólfur

---

[1]) Sjá að framan I, 182, 285.

hinn sterki Skólmsson var í hirð Hákonar konungs og barðist með honum í Storð á Fitjum á Hörðalandi (961), þá er konungur fjekk banasár. Var konungur afbragðsmaður að afli og hreysti og voru þeir Þórólfur kallaðir jafnsterkir.[1]) Hjá Haraldi gráfeld (961—970), Hákoni jarli Sigurðssyni, Eiríki jarli syni hans, en þó einkum hjá Ólafi konungi Tryggvasyni og Ólafi konungi Haraldssyni voru margir Íslendingar. Það má telja víst að einhverjir Íslendingar hafi ávalt verið með þeim, á meðan þeir sátu að ríki í Noregi, og stundum voru þeir mjög margir. Í öllum þeim stórorustum, sem höfðingjar þessir háðu, voru jafnan einhverjir Íslendingar. Má rekja þetta í Noregs konunga sögum og Íslendinga sögum, þótt hjer sje það eigi gert.

Þá er sögur hefjast á Norðurlöndum var það einnig konunga siður að hafa skáld við hirð sína. Svo gerði Haraldur hárfagri og nokkrir konungar fyrir hann. Siður þessi hjelst í Noregi til loka 13. aldar. Hirðskáld Haralds hárfagra voru eðlilega öll Norðmenn; en bæði Egill Skallagrímsson og Glúmur Geirason ortu um Eirík blóðöx, þótt eigi væru þeir hirðskáld hans. Skáld Hákonar Aðalsteinsfóstra voru norsk. Á hans dögum var hirðskáld hans og vinur Eyvindur skáldaspillir Finnsson, sonarson Eyvindar lamba, frægast skáld í Noregi. Eptir daga Eyvindar hnignar skáldskap Norðmanna mjög, en á Íslandi blómgast skáldskapur um langan aldur og íslensk skáld gerast hirðskáld Noregs konunga. Haraldur konungur gráfeldur tók fyrstur Noregs konunga íslensk skáld, Glúm Geirason og síðan Kormák Ögmundarson, í hirð sína, en Eyvindur skáldaspillir mátti eigi þýðast hann, og fór heim til sín norður á Hálogaland. Upp frá þessu voru venjulega einungis íslenskir menn hirðskáld Noregs konunga og skáld margra annara stórhöfðingja á Norðurlöndum.[2])

Nokkru síðar orti Eyvindur skáldaspillir drápu um alla Íslendinga, en þeir launuðu svo, að hver bóndi gaf honum

---

[1]) Fsk. 5/24, 12/43—44; Hkr. I, 30/213; Ísl. dr. 13. vísa. [2]) Sbr. Skáldatal, Sn.—e. III, 270—286; Hkr. I, 1 224—228.

skattpenning, er stóð þrjá penninga silfurs vegna og var hvítur í skor. Þeir komu með silfrið fram á alþingi og rjeðu þá af, að fá smiði til að skíra það. Var síðan gjörður feldardálkur af því og greitt af smíðarkaupið, og stóð eða vá dálkurinn 50 merkur.[1]) Íslendingar sendu síðan Eyvindi dálkinn. Þá var hallæri mikið í Noregi, og ljet Eyvindur því höggva í sundur dálkinn og keypti hann sjer bú fyrir (um 970.)[2])

Íslendingar sýndu bæði með þessu og með framkomu sinni gegn Haraldi Gormssyni að þeir kunnu að launa í sameiningu bæði gott og ilt, og að koma allir fram sem einn maður og ein þjóð gagnvart útlendingum. Sjest það enn betur síðar að þjóðernistilfinning þeirra er vöknuð og að þeir skoða sig allir sem eina þjóð. Sú tilfinning vaknar snemma hjá þeim og er stofnun þjóðfjelags þeirra hið fyrsta óræka alsherjarvitni um það. En er staðhættir og náttúra landsins tók að hafa áhrif á þá, byrjuðu þeir einnig smátt og smátt að finna betur og betur mun á sjer og Norðmönnum og að skoða sig sem sjerstaka íslenska þjóð, en eigi norska.

Íslendingar stóðu einnig í þá daga mjög vel að vígi til þess að þrífast vel og þroskast sem ofurlítil sjálfstæð þjóð og til þess að geta verndað sjálfstæði sitt. Landið var svo fjarri öðrum löndum, að eigi þurfti að óttast óvinaher nje neinn átroðning í sjálfu landinu eða við strendur þess af hálfu annara þjóða. Samgöngur um öll lönd voru svo seinar, að Íslendingar voru eigi afskektari frá hinum mestu menningarlöndum heimsins en aðrar Norðurlanda þjóðir, að minsta kosti eigi meir en Norðmenn eða Svíar. Menn höfðu þá eigi önnur samgöngufæri en þau, sem Íslendingar höfðu. Íslendingar áttu jafnhægt með að hafa viðkynni af mentaþjóðunum eins og Norðmenn og eiga viðskipti við þær. Ef Norðmenn fóru kaupferð frá Noregi til annara landa, voru þeir venjulega

---

[1]) Það eru 800 lóð silfurs. Silfur var þá miklu dýrara en nú. Ein mörk hreinsaðs silfurs var = þrjú hundruð vaðmála (360 álnir). Kvæðislaunin voru því um 150 kúa virði, eða sem svarar til hjer um bil 16000 kr. í peningum. [2]) Hkr. I, 16/253—254; Fris. 17/95.

heilt ár í ferðinni, alveg eins og Íslendingar, er þeir fóru erlendis. Íslendingar kunnu einnig í þá daga mjög vel að beita vopnum, eigi síður en aðrir menn. Þeir stóðu því í fornöld vel að vígi bæði til þess að verja hendur sínar, er á þurfti að halda, og einnig til þess að keppa við aðrar Norðurlanda þjóðir í ýmsum greinum, svo sem í kaupskap og siglingum og í almennri menningu. Og sagan sýnir það líka að Íslendingar stóðu í fornöld öðrum mönnum jafnfætis, og í einstaka greinum enda feti framar.

Eptir miðja söguöldina urðu tvenn stór tíðindi í sögu Íslendinga, sem nú verður að hverfa að. Annað þeirra var fundur Grænlands og Vesturheims, en hitt boðan kristinnar trúar og lögtaka hennar á alþingi.

---

## IV. Landafundir Íslendinga.

### Fundur Grænlands og landnám. Landsmenn kristnaðir.

Íslendingar voru á þeim tíma, sem hjer ræðir um, djarfir og ágætir siglingamenn. Þeir könnuðu ókunn höf. Eru frægastar ferðir þeirra vestur um haf, þá er þeir fundu Grænland og Norður-Ameríku.

Á miðri landnámsöldinni rak mann nokkurn, er hjet Gunnbjörn Úlfsson, vestur um Ísland og sá þá land og fann sker þau, er við hann voru kend og nefnd Gunnbjarnarsker[1]). Hvar sker þessi voru varð mönnum aldrei vel kunnugt, að öðru leyti en því, að þau voru vestur af Íslandi og því gleymdu menn eigi. Ísland, sem fyrir nokkru hafði verið með öllu ókunnugt, hafði fundist vestur í hafi: ýmsum mönnum mun því eigi hafa þótt ólíklegt að fleiri ókunn lönd kynnu að vera þar. Slíkar hugsanir hafa hlotið að vekja löngun hjá einstaka mönnum til að kanna ókunna stigu og leita nýrra landa.

Þess er þó eigi getið að neinn hafi farið að leita Gunnbjarnarskerja fyr en um 978, er þeir Snæbjörn galti Hólmsteinsson og Hrólfur hinn rauðsendski lögðu af stað í þeim erindum. Snæbjörn var alinn upp í Þingnesi í Borgarfirði. Hann barðist við Hallbjörn Oddsson frá

---

[1]) Ldn. 8/86, 14/104—5, 29/150; Hksb. 64/27, 77/34, 121/48, 122/50; Stb. 76/149, 89/155, 150/173, 152/174.

Kiðjabergi i Grímsnesi hjá Hallbjarnarvörðum og hefndi vígs frændkonu sinnar Hallgerðar Tungu-Oddsdóttur.[1]) Snæbjörn átti þá skip i Grímsárósi og keypti Hrólfur hinn rauðsendski helminginn i því; ljetu þeir síðan i haf að leita Gunnbjarnarskerja og voru ellefu menn með hvorum þeirra. Með Snæbirni var Þóroddur fóstri hans úr Þingnesi og kona hans; enn fremur bræður tveir, Þorkell og Sumarliði Þorgeirssynir rauðs, sonarsynir Einars Stafhyltings.[2]) Af mönnum Hrólfs er einn nafngreindur, Styrbjörn nokkur, er mun hafa verið upphafsmaðurinn að sundurlyndi og vígaferlum milli þeirra fjelaga. Honum sagði eigi vel hugur um ferðina, því að hann dreymdi um bana sinn og vígaferli, og „frost og kulda, feikn hverskonar.“ Annars segir eigi af ferð þeirra fyr en þeir fundu land, og mun það hafa verið austurströnd Grænlands. Þá urðu þeir missáttir Snæbjörn og Styrbjörn útaf könnun landsins og braut Styrbjörn skipanir Snæbjarnar. Þeir gjörðu sjer skála og voru i honum um veturinn, en hann lagði i fönn, og urðu þeir að grafa sig út. Það var á góu. Til þess að leita sjer bjargar, fóru flestir þeirra á veiðar, en Snæbjörn gjörði að skipi. Menn af beggja hendi voru heima að gæta skálans. Þar var Þóroddur og kona hans, Hrólfur og Styrbjörn. En þótt þeir væru i óbygðum og illa staddir, gat Styrbjörn þó eigi stjórnað heipt sinni og hefndarhug. Hann vá Þórodd og þegar á eptir fór hann með Hrólfi að Snæbirni og drápu þeir hann báðir. Þá er menn komu heim af veiðum, urðu þeir bræður Þorkell og Sumarliði og aðrir menn Snæbjarnar að sverja eiða sjer til lífs. Þess var eigi að vænta að mikið yrði úr landakönnun þessara manna, er svona var komið. Um sumarið ljetu þeir i haf og tóku Hálogaland, og þaðan fóru þeir til Íslands og komu út i Vaðli. En nú vofði hefnd yfir höfðum þeirra Hrólfs og Styrbjarnar. Þá er Þorkell trefill frjetti hið sanna

[1]) Ldn. 30 151—153. [2]) Föðursystir þeirra bræðra Jórunn Einarsdóttir var gipt Þórarni korna Grímkelssyni, bróðursyni Gunnbjarnar Úlfssonar; munu þeir bræður því hafa heyrt ættmenn sína segja af ferðum Gunnbjarnar. Ldn. 8/87.

af ferðum þeirra, sendi hann mann til höfuðs þeim, og voru þeir báðir vegnir.[1])

Fregnir af ferð þeirra Snæbjarnar og Hrólfs hafa eflaust borist víða út um sveitir, einkum á Vesturlandi; er eigi ólíklegt að það hafi ýtt undir Eirík rauða, þá er hann lagði af stað litlu síðar að leita Gunnbjarnarskerja.

Eiríkur hinn rauði var sonur Þorvalds Ásvaldssonar og var fjórði maður frá Yxna-Þóri. Þeir feðgar áttu heima á Jaðri í Noregi, en urðu að fara þaðan fyrir víga sakir. Þeir hjeldu þá til Íslands og var það löngu eptir landnám, rjett eptir miðja 10. öld (um 955). Þeir feðgar settust að á Hornströndum og bygðu þar land í landnámi Hella-Bjarnar Herfinnssonar og bjuggu að Dröngum. Þar andaðist Þorvaldur, en Eiríkur fjekk Þjóðhildar Jörundardóttur, sonardóttur Úlfs skjálga [2]) Móðir hennar var Þorbjörg knarrarbringa, er þá var gipt Þorbirni hinum haukdælska. Eiríkur rjeðst nokkru síðar norðan af Ströndum og sótti á fund tengdamóður sinnar. Hann ruddi land í Haukadal og reisti þar bæ hjá Vatnshorni, er hann nefndi Eiríksstaði og bjó þar um hríð. En eitt sinn feldu þrælar hans skriðu á bæ Valþjófs á Valþjófsstöðum, en Eyjólfur saur, frændi Valþjófs, hefndi hans og drap þrælana. Fyrir það vá Eiríkur Eyjólf og einnig vá hann að Leikskálum mann nokkurn, sem hjet Hólmgöngu-Hrafn. Frændur Eyjólfs mæltu eptir hann, og var Eiríkur gjörður úr Haukadal. Hann „nam“ þá Brokey og Öxney og bjó fyrsta veturinn að Tröðum í Suðurey, en síðan flutti hann í Öxney og bjó á Eiríksstöðum.[3]) Eiríkur komst þar skjótt í illdeilur við menn, því að hann var óvæginn. Á meðan hann bjó að Tröðum, ljeði hann Þorgesti hinum gamla Steinssyni á Breiðabólsstað á Skógarströnd set-

---

[1]) Ldn. 30/151—154; Hksb. 122/48—50; Stb. 152/173—174. [2]) Um ætt hennar sjá Ldn. 22/129—130. Í Ólafs sögu Tryggvasonar er Jörundur faðir Þjóðhildar talinn Atlason og er það eflaust Atli hinn rauði Úlfsson skjálga. Fms. II, 220/213; Eir. r. 49. Í Flóamanna sögu 15/133 er sagt að Eiríkur rauði hafi farið utan ungur að aldri og verið með Hákoni Hlaðajarli. Það hefur hlotið að vera á meðan hann bjó að Dröngum. [3]) Sbr. Kålund, Ísl. I, 455—56; Safn II, 293, 296.

stokka, en er hann heimti þá aptur, vildi Þorgestur eigi skila þeim. Eiríkur sótti því setstokkana á Breiðabólsstað, en Þorgestur fór eptir honum. Þeir fundust skamt frá garði að Dröngum, næsta bæ fyrir utan og neðan Breiðabólsstað, og börðust; fjellu þar tveir synir Þorgests og nokkrir menn aðrir. Eptir fund þennan voru hvorirtveggju varir um sig og höfðu um sig fjölda vígra manna. Þá er voraði bjó Þorgestur málið undir þing á hendur Eiríki. Þorgestur var tengdasonur Þórðar gellis og veittu því synir hans honum og fleiri gildir bændur. Eiríki rauða veitti aptur á móti Styrr Þorgrímsson lið, Eyjólfur Æsuson úr Svíney, Þorbjörn Vífilsson og Þorbrandssynir úr Álptafirði. Þótt það væru hraustir menn, mun Eiríkur þó hafa sjeð sitt óvænna, því að málaefni hans voru þung. Þórsnesþing var fjölment þetta vor, en Eiríkur kom þangað eigi, og enginn liðveislumanna hans, nema Styrr. Hann dró alla þá menn undan Þorgesti, er hann mátti og fjekk Snorra goða til þess að fara eigi að Eiríki eptir þingið. Eiríkur varð sekur, en hann hafði búið skip sitt um þingtímann í Eiríksvogi og borið á það alt lausafje sitt. Eptir þing fóru þeir Þorgestur með mörgum skipum inn í eyjar að leita Eiríks, en fundu hann eigi, því að Eyjólfur leyndi skipi hans í Dímonarvogi á meðan leitin stóð yfir. Þeir Styrr komu þangað til móts við Eirík og fylgdu honum út um eyjar eptir dæmi Arnkels goða. Eiríkur sagði þeim þá að hann ætlaði „at leita lands þess, er Gunnbjörn, son Úlfs kráku, sá, er hann rak vestr um Ísland, þá er hann fann Gunnbjarnarsker“; og hann kvaðst aptur mundu leita til vina sinna, ef hann fyndi landið [1])

Eiríkur rauði sigldi undan Snæfellsnesi, og hann kom utan að Miðjökli á Grænlandi, þar sem Bláserkur heitir. Hann fór þaðan suður með landi, að leita ef landið væri þar byggjandi. Hann var hinn fyrsta vetur í Eiríksey, sem hefur líklega verið nær miðri hinni eystri bygð, eins og segir í Ólafs sögu Tryggvasonar og Landnámuhandritunum Hauksbók og Melabók, og sama eyjan, sem Eiríkur var í hinn

---

[1]) Ldn. 13—14 102—104; Eir. r. 2 5—7; Eyrb. 24/37—38.

þriðja vetur.[1]) Um vorið eptir fór Eiríkur til fjarðar þess, er hann nefndi Eiriksfjörð eptir sjálfum sjer, og tók sjer þar bústað. Hann fór það sumar víða fram með landi, kannaði það og gaf örnefni. Hann hefur þá að líkindum farið til vestri bygðar eins og segir í sumum heimildarritunum. Um vetur var hann í Eiríkshólmum við Hvarfsgnípu. Hið þriðja sumar fór hann alt norður til Snæfells og inn í Hrafnsfjörð. Hann hvarf þá aptur og var hinn þriðja vetur í Eiríksey fyrir mynni Eiríksfjarðar. Sumarið eptir fór hann til Íslands og kom í Breiðafjörð og var þar um veturinn í Hólmslátri. Um vorið börðust þeir Þorgestur og beið Eiríkur þá ósigur, en eptir það voru þeir sættir. Um sumarið fór Eiríkur að byggja land það, sem hann hafði fundið. Hann gaf því nafn og kallaði Grænland, og „kvað menn þat mundo fýsa þangat farar, at landit ætti nafn gott.“ Þetta var eptir sögn Ara fróða fjórtán vetrum eða fimtán fyr en kristni kæmi hjer á Ísland, 986 eða 985. Höfundur Eyrbyggju, er hefur notað rit Ara fróða sem heimild, segir að það hafi verið 14 vetrum fyr en kristni væri lögtekin, og telur viðburðina eptir því. Í Landnámu er sagt að það hafi verið 15 vetrum fyr en kristni var í lög tekin á Íslandi, sömuleiðis í sögu Ólafs Tryggvasonar; en þar segir og að það hafi verið sama sumar, sem Friðrik biskup og Þorvaldur Koðránsson fór utan. Það var árið 986, og er þessi bending ef til vill rjett og mikilsverð. Þó er eigi hægt að segja með fullri vissu, hvort árið er rjettara. Eiríkur hefur því farið að leita Gunnbjarnarskerja annaðhvort 981 eða 982 og kannað hið nýfundna land á árunum 981—984 eða 982—985. Síðan var hann einn vetur á Íslandi og fór að byggja Grænland sumarið 985 eða 986.[2])

---

[1]) Fms. II, 220/214—215 og í Eir. r. bls. 50, 52, sbr. Hksb. 76/34. Mb., Ldn. 14/105 nm. Í Stb. 89/155 segir að Eiríksey væri í vestri bygð, sbr. þó Finnur Jónsson, Grønlands gamle Topografi efter Kilderne, í Meddelelser om Grønland XX. Kbhvn. 1899, bls. 270. [2]) Íslb. 6/9; Ldn. 14/105—106; Hksb. 78/35; Stb. 90/156; Eyrb. 24/38; Eir.r. 2/8—9; 50—51 (= Fms. II, 220/214—215). Allir elstu annálar telja byggingu Grænlands 986. Svo ætlar Guðbr. Vigfússon, Safn I, 337—38, og er líklegt að það ár sje bygðarár Grænlands.

Fundur Grænlands vakti mjög mikla eptirtekt einkum á Vesturlandi, enda mun Eiríkur ekkert hafa sparað til þess að fá fólk til að flytja þangað. Svo er sagt að 25 skip færu úr Breiðafirði og Borgarfirði um sumarið á eptir Eiríki til Grænlands, en að 14 kæmust út þangað. Sum rak aptur, en sum týndust, og sýnir það, eins og margar aðrar ferðir til Grænlands á þeim tímum, að eigi var auðveldara þá að sigla þangað, en nú á dögum, enda var eigi hægt að fara þangað beint frá Íslandi fyrir ís. Ísar voru svo miklir fyrir austan Grænland „í landnorðri eða til norðrs fyrir landinu“ segir í Konungs skuggsjá, að hver sá, er vildi ná landinu, varð að sigla um það til útsuðurs og vesturs, „til þess er hann er umkominn alla þessa ísa ván,“ og sigla þaðan og til landsins. En það henti menn iðulega að þeir leituðu of snemma landsins og komust fyrir því í ísa.

Straumur er líka mikill fram með austurströnd Grænlands og gerði það siglingu enn hættulegri. Skildu menn það eigi í fornöld, þá er ísana rak úti í reginhafi eins móti veðri og undan, og svo mikil var ferð þeirra og áköf sem skipssigling í góðu byrleiði. Þóttu því ísar þessir „undarligir at náttúru“.[1])

Íslendingar námu land á Grænlandi eins og forfeður þeirra höfðu gert á Íslandi. Landið mun hafa verið óbygt, þar sem þeir settust að, enda er talað um það sem óbygt land. Ari fróði segir að það hafi fundist og bygst af Íslandi, en þó getur hann þess að Íslendingar hafi fundið þar „manna vistir, bæði austr ok vestr á landi, ok keiplabrot ok steinsmíði þat, es af því má skilja, at þar hafði þess konar þjóð farit, es Vínland hefir bygt ok Grœnlendingar kalla Skrælingja“.[2]) Svo er að sjá af þessu og landnámi Íslendinga yfirleitt, sem Eskimóar hafi eigi verið fyrir á suðvesturströnd Grænlands, þá er Íslendingar komu þangað og námu þar land, en þeir höfðu áður farið þar um. Þá er Íslendingar eða Grænlendingar hjeldu síðar langt norður eptir vesturströndinni, hittu þeir Eskimóa norður í óbygðum.

---

[1]) Kgssk. 16,40. [2]) Íslb. 6,9.

Hve nær það var, er eigi kunnugt. Á miðri 11. öld, þá er Þorkell Gellisson kom til Grænlands, höfðu þeir líklega eigi hitt þá, því að þá mundi Ari fróði, sem ritaði um Grænland eptir frásögn Þorkels, hafa getið þess eða komist öðru vísi að orði um menjarnar eptir þá. Aptur á móti höfðu grænlenskir veiðimenn fundið þá hjer um bil hundrað og fimmtíu árum síðar, þá er „Historia Norvegiæ“ var rituð (snemma á 13. öld); voru þeir litlir vexti og höfðu þeir eigi járn, en hnífa úr steini og örvarodda úr hvalbeini. Grænlendingar kölluðu þá Skrælingja.[1]) Annars er þess getið í Flóamanna sögu að þeir Þorgils örrabeinsstjúpur hafi orðið varir við tvær konur, sem þeir hugðu að væru tröllkonur, og hafa sumir ætlað að það hafi verið Eskimóar,[2]) og þeir hafi hafst við á stangli á suðausturströnd Grænlands, en Flóamanna saga er svo óáreiðanleg að eigi er hægt að leggja fullan trúnað á þetta.

Eiríkur rauði nam Eiríksfjörð í eystri bygð og bjó í Brattahlíð, norðan við innanverðan fjörðinn; er þar einhver hinn fegursti blettur á Grænlandi. Nokkrir menn aðrir, sem land námu á Grænlandi, eru taldir. Einn þeirra var Herjólfur Bárðarson, sonarson Herjólfs landnámsmanns í Höfnum. Hann nam Herjólfsfjörð og bjó á Herjólfsnesi. Það er syðst á meginlandi Grænlands. Með honum fór til Grænlands maður nokkur kristinn frá Suðureyjum og orti hann Hafgerðinga drápu. Þeir komust í hafgerðingar, sem getið er um í Grænlandshafi. Stefið úr drápunni er enn til og biður skáldið Krist að beina för sína og halda verndarhendi yfir sjer.[3])

Um flesta af landnámsmönnum þeim, sem sagt er um í Landnámu að færu út með Eiríki, er nú ekkert kunnugt. Firðir þeir eða dalir, sem þeir námu, voru flestir nefndir eptir þeim (Ketilsfjörður, Hrafnsfjörður, Sölvadalur, Einarsfjörður, Hafgrímsfjörður, Arnlaugsfjörður); þó var stundum

---

[1]) Hist. Norv., Monum. hist. Norv. bls. 76. [2]) Fló 24/145—46; P. A. Munch. Hist. II, 364. [3]) Kgsk. 16/39; Ldn. 14/106, 14/319—20; Hksb. 79/35.

út af því brugðið. Þorbjörn glora nam Siglufjörð og Snorri Þorbrandsson kallaði fjörð þann Álptafjörð, er hann nam, eptir átthaga sínum á Íslandi. Allir þessir firðir eru í Eystri bygð.[1])

Í Landnámu er sagt að Snorri Þorbrandsson[2]) hafi farið út með Eiríki til Grænlands, en það er eigi rjett, og má vera að svo sje um fleiri, sem þar eru nefndir og hið sama er sagt um. Snorri Þorbrandsson fór fyrst til Grænlands eptir sætt Eyrbyggja og Álptfirðinga 998 og með honum Þorleifur kimbi bróðir hans. Þorleifur bjó þar til elli, og er við hann kendur Kimbavogur á milli jökla á Grænlandi; en Snorri fór til Vínlands eins og síðar mun sagt verða.[3])

Með Eiríki rauða fór til Grænlands systrungur hans Þorkell farserkur. Hann nam Hvalseyjarfjörð milli Eiríksfjarðar og Einarsfjarðar.[4]) Er auðsjeð að Eiríkur hefur gert alt, er hann mátti, til þess að fá menn til að flytja til Grænlands. Margir af þeim, sem fluttu þangað, voru vinir hans, kunningjar eða vandmenn. Einn af vinum Eiríks var Þorbjörn sonur Vífils leysingja Auðar djúpúðgu. Hann var goðorðsmaður að því, er segir í sögu Eiríks rauða, og bjó á Hellisvöllum (nú Hellnar) undir Snæfellsjökli. Fjárhagur hans gerðist erfiður og fór hann þá til Grænlands með fjölskyldu sína. Hafði Eiríkur lofað að launa honum liðveisluna, þá er þeir skildu á Breiðafirði. Með honum rjeðust þrír tugir manna til ferðarinnar og einn af þeim var Ormur bóndi frá Arnarstapa með konu sinni. Þeir fengu óveður í hafi, vos mikið og vesöld; sótt kom í lið þeirra og andaðist Ormur og kona hans og helmingur þeirra. Seint um haustið tóku þeir Herjólfsnes á Grænlandi. Þar bjó þá góður bóndi, er Þorkell hjet, og tók hann við Þorbirni og skipverjum hans um veturinn (líklega 999—1000). Ef þetta er rjett,

---

[1]) Um legu þessara fjarða og hinna fornu bygða á Grænlandi sbr. Finn Jónsson, Grønlands gamle Topografi i Meddelelser om Grønland XX, bls. 267—329. [2]) Í Stb. 92/156 er hann kallaður Helgi, en það er rangt. Þorbrándssynir eru taldir í Eyrb. 12/13, Ldn. 13/100; Stb. 86/154. [3]) Eyrb. 48/91—92, sbr. Eir. r. 7/27, Ldn. 14/107. [4]) Ldn. 14/107.

sem varla þarf að efa, hafa fleiri bændur reist bæi eða búið þá á Herjólfsnesi en Herjólfur einn eða Bjarni sonur hans, sem tók við búi föður síns eptir hann.[1]) Um vorið bjó Þorbjörn skip sitt og fór á fund Eiríks rauða í Brattahlíð. Var honum þar vel tekið og var hann þar um veturinn. Um vorið gaf Eiríkur Þorbirni land á Stokkanesi og reisti hann þar bæ og bjó þar síðan. En Þorbjörn var nú orðinn aldraður maður og andaðist hann árið 1002.

Dóttir Þorbjarnar var Guðríður, hin mesta merkiskona, er giptist Þorsteini Eiríkssyni rauða haustið 1001. Þau feðgin voru kristin, þá er þau komu til Grænlands og er því líklegt að þau hafi eigi farið þangað fyr en um 999.[2])

Annar merkur maður fór einnig um þetta leyti til Grænlands eptir boði Eiríks rauða. Það var Þorgils örrabeinsstjúpur Þórðarson frá Traðarholti. Hann braut skip sitt undir Grænlandsjöklum í vík nokkurri á austurströnd landsins. Þar varð hann að vera tvo vetur sökum ísa, og kom þá sótt í lið hans og dó hjer um bil helmingur þess. Þrælar hans myrtu þá Þórey konu hans veika og hlupu á brott. Eptir miklar þrautir náði hann þó um síðir til bygða á Grænlandi. En hann var þar eigi lengi, því að þeim Eiríki rauða samdi eigi. Þorgils hjelt þá aptur til Íslands og kom hann þangað eptir mikla hrakninga og eptir hjer um bil sex ára brottveru. Þorgils hafði tekið kristni á Íslandi áður en hann lagði í ferð þessa, og hefur það því verið um aldamótin 1000.[3])

Til Grænlands leituðu einnig einstaka menn sekir til þess að forða sjer undan hefnd, alveg eins og ýmsir vígamenn höfðu gert, þá er Ísland bygðist. Þeir bræður Vjesteinssynir fóru til Noregs með móður sinni og Auði ekkju Gísla Súrssonar nokkrum árum eptir að þeir höfðu hefnt föður síns. Þar var Bergur Vjesteinsson veginn af Ara Súrssyni. Helgi forðaði sjer þá og fór til Grænlands og settist þar að;

[1]) Grænl. þ. 2/55 [2]) Eir.r. 2/6—7, 3/9—14, 4/18, 5/22, 6/23—26; Ldn. 7/85, 17/112. [3]) Fló. 20—28/141—153.

hefur það verið litlu eptir að Eiríkur tók að byggja Grænland.[1]) Enn fremur fóru þangað nokkrir menn til þess að vitja feðra sinna eða frænda, er höfðu setst þar að. Svo gerði Bjarni Herjólfsson að því að sagt er, þá er hann kom til Íslands frá Noregi, og faðir hans var farinn til Grænlands. Hann ljet þá aptur í haf og fór á fund föður síns. Síðar mynduðust sagnir um ferð hans og var sagt að hann hefði sjeð lönd á leiðinni til Grænlands.[2])

Grænland bygðist á heldur skömmum tíma, líklega á hjer um bil tíu til tuttugu árum, á meðan Eiríkur rauði var uppi. Mikill mannfjöldi var það eigi, sem fór til Grænlands; en töluvert fleiri hafa þó farið þangað en þeir, sem voru á þeim fjórtán skipum, sem náðu landi á Grænlandi sama sumar sem Eiríkur rauði tók að byggja það. Mannfjöldinn á þeim hefur varla farið fram úr 420 manna eða 30 menn als að meðaltali á skipi, en líklegt er að þangað hafi flutt hjer um bil helmingi fleira fólk frá Íslandi. Um þetta eru þó engin skírteini; en löngu síðar, þá er nýlenda Íslendinga stóð í mestum blóma, er sagt að þar hafi verið 280 bæir, 190 í Eystri bygð og 90 í Vestri bygð.[3]) Bendir þetta á að landslýður hafi verið um eða undir 3000 manna als, og er allíklegt að nærri þriðjungur af þeirri tölu hafi flutt til landsins á landnámsöld þess. Bygðin var aldrei stór, því að undirlendi er lítið á Grænlandi og byggilegt land er þar að eins í fjörðunum á vesturströndinni, en landið sjálft liggur undir jökli. Vesturströnd landsins er mjög vogskorin, og ganga margir mjóir firðir langt inn í landið. Öll bygðin á Grænlandi skiptist í tvent, Eystri bygð og Vestri bygð. Eystri bygð var mest og var hún suðvestan á Grænlandi, austan frá Sölvadal og Herjólfsfirði eða sunnan frá Herjólfsnesi, rjett fyrir sunnan 60. stig norðlægrar breiddar, ef miðað er við syðsta nesið á Grænlandi, og norður fyrir 61. stig. Mest var bygðin í kringum Eiríksfjörð (nú Tunugdliarfik)

---

[1]) Gísl.[2] 37, 99—100. [2]) Grænl. þ. 53—56. Sbr. G. Storm i Aarb. f. n. Oldkh. 1887 bls. 305 o. ef. [3]) Meddelelser om Grønland XX, 320.

og Einarsfjörð (nú Igalikofjörðinn). Það eru næstu firðir við Júlíönuvon.

Úr Eystri bygð var talinn sex daga róður sex mönnum á sexæringi til Vestri bygðar.[1]) Syðstur fjörður í Vestri bygð er Lýsufjörður (nú Fiskinessfjörður) talinn, á 63. stigi norðurbreiddar. Þaðan gekk Vestri bygðin alla leið norður á 65. breiddarstig um firðina kringum Góðvon.[2]) Í Vestri bygð er enginn landnámsmaður nefndur, en að eins sagt að sumir þeirra færu þangað. Veturinn 1001—1002 eru tveir bændur nefndir, sem bjuggu í Lýsufirði. Það voru þeir Þorsteinn Eiríksson og Þorsteinn svarti og munu þeir hafa bygt þar fyrstir. En Þorsteinn Eiríksson andaðist þann vetur úr sótt.[3])

Þótt bygðin væri eigi mikil á Grænlandi og engin saga sje til af Grænlendingum í heild sinni, er þó sagt allmikið af sumum þeirra í Íslendinga sögum og af ferðum nokkurra Íslendinga til Grænlands. Einnig hafa Íslendingar ritað sögu Eiríks rauða og tvo þætti af Grænlendingum.[4]) Saga Grænlendinga er því töluvert kunn framan af öldum. Grænlendingar settu þegar ríki á stofn, er landið var bygt, og ljetu þeir íslensk lög gilda hjá sjer,[5]) enda voru allar ástæður svo líkar, að engin þörf var á að breyta frá íslenskum lögum, að því leyti sem gat komið til mála að framkvæma þau

[1]) Grönlandiæ vetus chorographia í Meddelelser om Grønl. XX, bls. 319; einnig í Grønl. hist. Mindesm. III, 228. [2]) Áður á tíðum leituðu menn að Eystri bygð á austurströnd Grænlands, en náðu þar eigi landi fyrir ís. Heinrich Peter von Eggerz ritaði þá „Om Grönlands Österbygds sande Beliggenhed“ í Landhusholdnings Selskabs Skrifter IV, 1792, bls. 239—320 og leiddi rök að því, að Eystri bygð hefði verið á vesturströndinni. W. A. Graah, höfuðsmaður í sjóliðinu, komst á rannsóknarferð sinni 1828—1831 að raun um að svo hefði verið, sbr. Undersøgelses-Rejse til Østkysten af Grønland. Efter kgl. Befaling udført i Aarene 1828—31 af W. A. Graah. Kbhavn. 1832, bls. 161—190. Um endurfund Grænlands sjá Grønl. hist. Mindesmærker III, 625—794. [3]) Eir. r. 6/23—26. [4]) Öllum söguþáttum og greinum úr fornritum vorum um Grænland hefur Finnur Magnússon og C. C. Rafn safnað saman og gefið út í Grønlands historiske Mindesmærker I—III b. Kbhavn. 1838—45. Margt af því er nú komið út í nýrri útgáfu og má sjerstaklega nefna sögu Eiríks rauða. Kbhavn. 1891. [5]) Sbr. orðin „hér á landi eða í várum lögum“ (= nýbygð Íslendinga á Grænlandi) í Grág. I a, 226, II, 70.

á Grænlandi. Höfðingjarnir rjeðu mestu, og voru þeir nefndir goðar eða goðorðsmenn, eins og á Íslandi, og áttu þingmenn.[1]) Þeir settu þing á stofn og var það háð árlega að Görðum í Einarsfirði, er var mest höfuðból á Grænlandi annað en Brattahlið; þingið var stundum nefnt Garðaþing en stundum þing þeirra Grænlendinga eða alþingi.[2]) Þeir hafa ef til vill átt lögsögumann; að minsta kosti er lögmaður nefndur þar á fyrri hluta 11. aldar að vísu í heimildarriti frá 14. öld. Það var Skáld-Helgi, Íslendingur, sem rímurnar eru af. Hann hraktist til Grænlands og varð þar vel metinn lögmaður; er það eigi undarlegt þótt það orð sje notað í rímum, sem ortar eru á 14. öld, en eigi lögsögumaður, enda fer það ver í ríminu.[3]) Á Garðaþingi voru sótt mál á hendur mönnum og þeir dæmdir. Þar bjuggu menn í búðum um þingtímann og skemtu stundum þingmönnum með því að segja frá stórvirkjum og tíðindum, og var alt líkt því, sem var á vorþingum eða jafnvel alþingi á Íslandi, nema mannfjöldinn minni og þingmálin því færri.[4])

Grænland bygðist um það leyti sem baráttan hófst á Íslandi milli heiðinnar og kristinnar trúar. Eiríkur rauði var heiðinn og flestir þeir menn, sem land námu á Grænlandi. Að eins fáeinir af þeim mönnum, sem fluttu þangað, voru kristnir; en það leið eigi á löngu áður en kristni væri boðuð á Grænlandi. Ólafur konungur Tryggvason var frumkvöðull að því, sami maðurinn sem sótti fastast að kristniboðinu væri haldið áfram á Íslandi. Hann fjekk Leif Eiríksson til þess.

Leifur var fæddur á Íslandi einhvern tíma á árunum 960—970. Hann ólst þar upp og fór með föður sínum til Grænlands. Eitt sinn fór hann utan og er eigi annars getið um ferð hans í Ólafs sögu Tryggvasonar, en að hann hafi

---

1) Fóst. 7/83, 9/97. 2) Fóst. 9/86, 9/96. 11/105; Grænl. þ., Flat. III, 3/448. 5/450; brjef 1389 i Grönl. h. Mind. III. 140. 3) Skáld-Helga rímur VI. 25. vísa. i Grönl. hist. Mind. II. 532; Rimnas. 148. 4) Fóst. 9/86—91, 11/105; Grænl. þ. Flat. III, 1/445, 5/450—52.

komið um haustið 999 af Grænlandi til Noregs.[1]) Í Eiríks sögu rauða er aptur á móti skýrt frá því að hann hafi orðið sæhafi til Suðureyja sama sumar, sem hann sigldi af Grænlandi, og dvalið þar lengi, því að þeim byrjaði seint. Leifur lagði þá hug á konu eina ættstóra, er Þórgunna hjet. Þá er Leifur sigldi á brott, beiddist hún að fara með honum. Leifur vildi eigi leyfa það, er hann heyrði að hún hefði eigi samþykki frænda sinna til þess, og kvað það vera að hertaka konu í ókunnu landi, ef hann færi með hana. Nokkru síðar ól Þórgunna svein, sem kallaður var Þorgils, og kom hann til Grænlands, þá er hann stálpaðist og kannaðist Leifur við faðerni hans. Þórgunna sjálf ætlaði sjer einnig að fara þangað, en af því varð þó eigi svo getið sje. Aptur á móti er skýrt frá því í Eyrbyggju að kona nokkur suðureysk, er Þórgunna hjet, hafi komið út árið eptir (1000) í Breiðafjörð með Dyflinnarfari einu, og hafa því sumir ætlað að það hafi verið Þórgunna vinkona Leifs, enda bendir saga Eiríks rauða á að höfundur hennar hafi ætlað að svo hafi verið, því að hann nefnir Þorgils son þeirra Leifs í sambandi við Fróðárundur og segir, að hann kæmi að sögn sumra manna til Íslands sumarið fyrir þau. Það fellur þó mjög illa saman við tímatalið og aldur Þórgunnu, sem til Íslands kom, svo að eigi er hægt að segja um það með vissu. Menn hugðu að hún væri komin á hinn sjötta tug ára, og andaðist hún árið eptir að Fróðá hjá Þuríði Barkardóttur (1001). Gerðust þá Fróðárundur um haustið og veturinn eptir, af því að brugðið var út af tilskipun hennar um rekkjubúnaðinn.[2])

---

[1]) Hkr. I, 86/410; Fms. II, 221/215; Flat. III, 341/430. [2]) Eir. r. 5/18—20; Eyrb. 50—55/92—102. Í Eyrbyggju segir að Þórgunna hafi komið út það sumar, er kristni var lögtekin (1000). Bæði sökum þess og aldurs hennar hefur P. A. Munch (Hist. II, 364—65) getið þess til að Leifur hafi farið um 986 utan frá Grænlandi og að hann hafi þá kynst Þórgunnu og eignast son með henni, og sje blandað saman þessum tveimur ferðum Leifs í Eiríks sögu rauða, en það er eigi líklegt. Orð Eyrbyggju um aldur Þórgunnu er að eins getgáta, en í Eyrbyggju segir að Kjartan sonur Þuríðar að Fróðá væri 13 eða 14 vetra, er Þórgunna

Þá er Leifur kom til Noregs, fór hann á fund Ólafs konungs Tryggvasonar og var með honum um veturinn. Hann tók þá við kristni og allir skipverjar hans, og bað konungur hann síðan að boða kristni á Grænlandi. Leifur lofaði því og fjekk konungur honum þá prest og kennimenn til fylgdar. Um sumarið (1000) sigldi Leifur til Grænlands, en fjekk útivist harða og langa. Velkti hann þá um lengi og hitti ókunn lönd. Einnig fann hann menn á skipsflaki og bjargaði þeim og flutti heim með sjer. Að lokum tók hann land í Eiríksfirði og fór heim í Brattahlíð. Hann tók síðan brátt að boða kristna trú og sýndi mönnum orðsendingar Ólafs konungs. Eiríkur tók máli hans seint, en Þjóðhildur móðir hans ljet skjótt skírast. Hún ljet gjöra kirkju kippkorn frá húsum og var kirkja sú kend við hana og kölluð Þjóðhildarkirkja. Í henni hafði hún bænahald og menn þeir, sem við kristni tóku. Þjóðhildur vildi eigi veita Eiríki sömu sambúð sem áður, síðan hún tók kristna trú, og var honum það mjög móti skapi. Fer tvennum sögum af því, hvort hann hafi verið skírður áður en hann andaðist. Í Ólafs sögu Tryggvasonar segir, að alt fólk á Grænlandi og Eiríkur þar á meðal hafi verið skírt að ráðum og eggjan Leifs, en í Grænlendinga þætti er sagt að Eiríkur hafi andast fyrir kristni og að hann hafi dáið þá um veturinn (1001), en hann hefur líklega eigi dáið fyr en 1007[1], og er eigi ólíklegt að hann hafi þá verið skírður, þótt hann hjeldi fast við heiðnina.[2]) Að minsta kosti tókst Leifi að koma kristni á Grænland, en til þess mun eflaust hafa gengið meiri tími en eitt

---

kom út, og var hann það í lok 10. aldar. En sje það rjett að Þórgunna vinkona Leifs og nafna hennar, er andaðist að Fróðá, sje sama konan, hefur þó Þorgils sonur hennar hlotið að vera kornungur þá: hans er eigi heldur getið í Eyrbyggju. Líklega er sagan um Fróðárundur þjóðsaga, sem hvílir á sögulegum viðburðum, sem hafa gerst í byrjun 11. aldar: — þá druknaði Þóróddur að Fróðá; fyrir því er hann eigi nefndur 1008 eða 1009; — en nú er eigi hægt að greina hvað satt er í henni. Sbr. Guðbr. Vigfússon i Eyrb. bls. XVII og A. M. Reeves. The Finding of Wineland bls. 169—170.

[1]) Eir. r. 12/45. [2]) Sbr. Fló. 25/149.

ár: hefur því starfi ef til vill eigi verið lokið fyr en á dögum Ólafs konungs hins helga.[1])

Eptir það að Leifur kom úr Noregsferð sinni og hafði bjargað mörgum mönnum og fundið ókunn lönd, fanst mönnum svo mjög um hamingju hans, að þeir lengdu nafn hans og kölluðu hann Leif hinn heppna. Eiríkur faðir hans sagði þó, að „þat væri samskulda, er Leifr hafði borgit skipsögn manna ok þat, er hann hafði flutt skémanninn til Grœnlands“. Svo nefndi hann prestinn.[2])

Eptir fráfall Eiríks rauða tók Leifur við búi eptir hann í Brattahlíð. Hann þótti hinn mesti höfðingi á Grænlandi á meðan hann var uppi. Hann átti son, er Þorkell hjet, og tók hann við búi í Brattahlíð eptir föður sinn. Leifur er síðast nefndur, þá er Ólafur konungur hinn helgi bað Þórarinn Nefjólfsson að flytja Hrærek konung til Grænlands (1019). En er Þormóður Kolbrúnarskáld kom þangað um 1025, var Þorkell Leifsson höfðingi yfir Eiríksfirði og einhver hinn vinsælasti höfðingi á Grænlandi; hefur Leifur þá verið fallinn frá.[3])

## Fundur Vínlands eða Norður-Ameríku.

Á meðan Grænland var að byggjast, voru töluverðar samgöngur milli þess og Íslands. Þá voru og alltíðar ferðir milli Íslands og Noregs; eru því öll líkindi til þess að hinir íslensku landnámsmenn á Grænlandi hafi framan af leitað fyrst til Íslands og haldið þaðan til Noregs, þá er ferðinni

[1]) Adam frá Brimum getur þess að kristni væri nýlega komin til Grænlands, sem hann segir sje fimm til sjö daga sigling frá Noregi. Mennirnir, sem búi þar, sjeu grænleitir af saltvatni, og af því taki landið nafn. Lifnaðarháttur þeirra sje líkur lifnaðarhætti Íslendinga, en þeir sjeu grimmari, og ránfíkni þeirra sje hættuleg fyrir sjófarendur. Gesta Hammaburgensis ecclesiae pontificum. Ed. altera. Lappenberg-Waitz. Hannover. 1876 Lib. IV, 36/185. [2]) Eir. r. 5 20—21 (= Hksb. 5/431—32); Fsk.[2] 21/113; Hkr. I. 96/427—28, II. 124/272; Fms. II. 231/245—46; Grænl. þ. 4/60, 5/62. [3]) Ldn. 14/107; Fóst. 6/82, (= Hksb. 20/389, Flat. II, 152/205); Hkr. II, 85/158.

var heitið þangað. Á meðan allar leiðir eru ókunnar, halda menn eðlilega aptur þá leið, sem þeir hafa komið og rata best. Þó leið eigi á löngu áður en menn tækju að sigla beina leið á milli Grænlands og Noregs, og mun Leifur hinn heppni hafa verið sá, sem fyrstur hætti sjer í þá langferð (999): að minsta kosti er eigi kunnugt að annar hafi orðið fyrri til þess. En ferð hans heppnaðist eigi alveg, því að hann varð sæhafi og kom til Suðureyja sem fyr er sagt. Þá er hann fór heim aptur, ætlaði hann að halda beina leið frá Noregi til Grænlands, og stefndi langt fyrir sunnan Ísland líklega milli Færeyja og Hjaltlands. Hann velkti þá lengi um í hafi og austanvindar og landnyrðingar báru hann langt vestur og suðvestur um Atlantshafið, þangað til hann fann ókunn lönd (1000). „Váru þar hveitiakrar sjálfsánir og vínviðr vaxinn; þar váru ok þau tré, er mösurr hétu ok höfðu þeir af öllu þessu nokkur merki, sum tré svá mikil, at í hús váru lögð".[1]) Þetta ókunna land var austurströnd Norður-Ameríku, líklega Nova Scotia eða jafnvel litlu sunnar. Þeir gáfu því nafn eptir vínviðnum og frjósemi þess og kölluðu það **Vínland** eða **Vínland hit góða**.[2])

Fundur Vínlands barst út um öll Norðurlönd og er hans því getið í erkibiskupa sögu Adams frá Brimum. Hann dvaldi í Danmörku um 1070 við hirð Sveins konungs Ástríðarsonar, og var hann þá að leita sannra sagna um atburði þá, er hann skýrir frá í sögubók sinni. Hann kveður Svein konung hafa sagt sjer frá eyju nokkurri, sem hafi fundist út í úthafinu og kölluð er Vínland, af því að vínviður, sem gefur af sjer hið besta vín, vaxi þar af sjálfu sjer og gnægð sje þar af sjálfsánu korni. Hann segir enn fremur að þetta sje enginn tilbúningur, heldur viti hann það af sannri frásögn

---

[1]) Eir. r. 5/21. [2]) Líklega hefur Leifur kallað landið að eins Vínland; svo er það optast nefnt í fornritunum og þar á meðal í Íslendingabók. Vínland hið góða er það kallað í Ldn. 22/129: Krist. s., Bps. I. 11 20: Hkr. I, 96/428; Fms. II. 231,246; Hksb. 8,436. Er líklegt að menn hafi bætt við lýsingarorðinu síðar, þá er menn töluðu um frjósemi landsins og menn hugsuðu til þess að eigi hafði tekist að byggja það. Yngvar Nielsen ætlar að Leifur hafi sjálfur nefnt land þetta „hit góða" til heilla því. Hist. Tidsskrift (norskt) 4. R. III, 253.

Dana, og hann kveður konung hafa sagt sjer, að bak við ey þessa sje eigi neitt byggilegt land í úthafi þessu, heldur sje þar alt fult með óþolandi ís og fjarskalegu myrkri.[1]) Frásaga Adams af Vínlandi er merkileg bæði sökum þess, hve gömul hún er og af því að hún er sjálfstæð, óháð öllum heimildarritum vorum, sem annars væru ein til frásagna um fund Vínlands. Er það eptirtektarvert að þar er skýrt frá viltum vínvið og sjálfsánu korni eins og í sögu Eiríks rauða, en þess er annars eigi getið í hinum elstu íslensku heimildarritum. Enn fremur getur Adam einungis um fund Vínlands, en nefndir þar enga bygð nje að kristni væri komin þangað eins og á Grænlandi. Bendir þetta á hið sama sem íslensk rit skýra frá, að Íslendingar og Grænlendingar hafi farið þaðan alveg burtu skömmu eptir fund landsins og eigi reist þar neina bygð.

Hin elsta heimild í íslenskum ritum um fund Vínlands eru þrjár vísur, sem ortar voru af Íslendingum í Ameríku og eru í Eiríks sögu rauða.[2]) Tvær þeirra eru eptir Þórhall veiðimann. En annars er Vínlands fyrst getið í Íslendingabók Ara hins fróða.[3]) Hann nefnir landið að eins og að það byggi sú þjóð, sem Grænlendingar kalla Skrælingja. Vitneskju sína um það og um Grænland hefur hann frá Þorkeli Gellissyni, föðurbróður sínum, og hafði hann fróðleik sinn frá mann á Grænlandi, er sjálfur hafði farið með Eiríki rauða frá Íslandi til Grænlands; hafði Þorkell talað við mann þennan, þá er hann kom til Grænlands á miðri 11. öld.[4]) Heimild Ara er því heldur eldri en rit Adams frá Brimum; eru heimildir þessar svo gamlar og áreiðanlegar, að það er engum efa bundið að Íslendingar fundu Norður-Ameríku nærri 500 árum fyr en aðrir Európumenn, þótt sumir vísindamenn hafi eigi viljað trúa því.[5])

---

[1]) Adamus Bremensis, Gesta. Lib. IV, 38/186. [2]) Eir.r. 9/36—37, 12/44. [3]) Íslb. 6/9. [4]) Til Þorkels Gellissonar er einnig vitnað í Ldn. 22/129—30, þar sem Vínland er nefnt og skýrt er frá sjóhrakningi Ara Márssonar; er það líklega komið frá Ara fróða í Landnámu. [5]) T. a. m. G. Bancroft (frægasti sagnaritari Ameríku), De forenede Staters Historie. I, 6—7; sbr. A. Reeves, The Finding of Wineland bls. 2

Í hinum elstu söguritum er eigi sagt. hver fyrstur hafi fundið Vínland. en þess er getið í hinum næst elstu. Í landaskipunarlýsingu Nikulás ábóta Bergssonar frá Munka-Þverá. sem er samin um 1155. er sagt að Leifur hinn heppni hafi fyrstur fundið það.[1] Í Kristni sögu er einnig sagt að hann hafi fundið Vínland og má vera að þau orð eigi uppruna sinn að rekja til Ara fróða.[2] Í Heimskringlu er það sagt nálega með sömu orðum[3]. enda er enginn efi á að það er rjett. þótt sagt sje í Grænlendinga þætti. sem er miklu yngri og finst í Flateyjarbók. að Bjarni Herjólfsson hafi sjeð fyrstur þrjú lönd fyrir vestan haf. Þáttur sá er óáreiðanlegur og er þar blandað málum um allar ferðir Íslendinga og Grænlendinga til Ameríku. Aptur á móti ber sögu Eiríks rauða vel saman við hin elstu heimildarrit um fund Vínlands og landanna vestan hafs. og er hún rjett að því er meginatriðin snertir.[4]

Á Grænlandi þótti það mikil tíðindi. er Leifur fann land. sem enginn vissi af. Var mikið rætt um það og rjeðu menn þegar af um veturinn (1000–1001) að leita Vínlands hið næsta sumar. Gerðist Þorsteinn Eiríksson. bróðir

[1]) Grönl. h. M. III. 220. [2]) Bps. I. 11 20; sbr. G. Storm i Aarb. f. n. Oldkh. 1887 bls. 303. [3]) Hkr. I, 96/428. [4]) Sbr. Aarb. f. nord. Oldkh. 1887, bls. 305—313. Um fund Vínlands hafa margir ritað og er margt af því orðið úrelt nú. þar á meðal að miklu leyti hin fræga bók „Antiquitates Americanæ“, sem C. C. Rafn gaf út 1837. G. Storm ruddi nýja braut með rannsókn sinni um heimildarritin i ritgjörð. er heitir „Studier over Vinlandsrejserne, Vinlands Geografi og Ethnografi“ i Aarb. f. n. Oldkh. 1887 bls. 294—372. Hann gaf einnig út góða útgáfu af Eiríks sögu rauða og Grænlendinga þætti. Kbhvn. 1891. Önnur merkust rit eru: The Finding of Wineland the Good. The History of the Icelandic Discovery of America by Arthur Middleton Reeves (London 1890) og Jos. Fischer, Die Entdeckungen der Normannen in Amerika (Freiburg im Breisgau 1902; ensk útgáfa. The Discoveries of The Norsemen in America. London 1903). Í riti Reeves's er ljósprentuð útgáfa af Eiríks sögu rauða bæði eptir Hauksbók og A. M. 557. 4to. og af þætti Eiríks rauða og Grænlendinga þætti í Flateyjarbók. Jos. Fischer ritar einkanlega vel um skilning manna síðar á öldum á löndum þessum og um hina elstu uppdrætti, sem Grænland og Vínland er á. Í riti hans er skrá yfir rit þau. er snerta landafund Íslendinga í Ameríku; er hún ítarlegust í ensku útgáfunni.

Leifs, formaður að því fyrirtæki. Hann var góður maður og vinsæll, vel gjörður og fróður. Hann rjeð tuttugu menn til fararinnar og bjuggu þeir skip það, er Þorbjörn Vífilsson hafði haft út. Þeir báðu Eirík rauða að fara með sjer, því að þeir treystu best gæfu hans. Hann var ófús til þess, en hjet þó að lokum ferðinni. Síðan sigldu þeir út úr Eiríksfirði, glaðir í bragði og gerðu sjer fagrar vonir um ferð sína. En þá velkti lengi úti í hafi og komu eigi á þær slóðir, sem þeir vildu. Þeir komu í sýn við Ísland og svo höfðu þeir fugl af Írlandi. En er leið á sumarið, sneru þeir aptur og komu mæddir og mjög þrekaðir um veturnætur til Eiríksfjarðar. Mintist þá Eiríkur þess að skipverjar hans hefðu verið kátari um sumarið, er þeir fóru út úr firðinum.[1])

Haustið eptir (1002) komu tvö skip af Íslandi til Grænlands. Annað þeirra átti Skagfirðingur nokkur, Þorfinnur karlsefni Þórðarson frá Reyninesi. Hann var þriðji maður frá Þórði landnámsmanni í Höfða og nafnkendur farmaður. Með honum var Snorri Þorbrandsson úr Álptafirði á Snæfellsnesi, sem kunnur er af Eyrbyggja sögu.[2]) Hitt skipið áttu tveir menn, Bjarni Grímólfsson, breiðfirðskur maður, og Þórhallur Gamlason af Austfjörðum. Á skipum þessum voru átta tigir manna, 40 á hvoru. Skip þessi komu í Eiríksfjörð og voru skipverjar í Brattahlíð um veturinn. Þar var þá Guðríður Þorbjarnardóttir, ekkja eptir Þorstein Eiríksson, er andast hafði veturinn áður. Hennar bað Þorfinnur og var það að ráði gjört og stóð brullaup þeirra um veturinn.[3])

Í Brattahlíð frjettu Íslendingar alt af landafundi Leifs og varð þeim mjög tíðrætt um það. Þeir Þorfinnur karlsefni og Snorri ákváðu þá að leita Vínlands, og er voraði, tóku

---

[1]) Eir. r. 5/21—23. [2]) Í Eyrbyggju 48/91—92 segir að Þorbrandssynir, Snorri og Þorleifur kimbi færu til Grænlands eptir sætt Eyrbyggja og Álptfirðinga á Þórsnesþingi vorið 998. Ef þeir hafa leitað þangað litlu eptir sættina, hefur Snorri komið aptur til Íslands nokkru síðar (1001) og farið síðan í annað sinn til Grænlands með Þorfinni. Vera má og að þeir bræður hafi fyrst flutt til Grænlands með Þorfinni, þótt hvorki Landnáma nje Eyrbyggja bendi á það. [3]) Eir. r. 7/27—30.

þeir að búa skip sitt; rjeðust þeir Bjarni og Þórhallur þá til ferðar með þeim með skip sitt og alt föruneyti, og enn fremur margir aðrir menn, flestir grænlenskir. Þeir bjuggu út skip það, sem Þorbjörn Vífilsson hafði átt, og var fyrir þeim Þorvarður bóndi í Görðum, er átti Freydísi laundóttur Eiríks rauða, og mágur hans Þorvaldur Eiríksson. Á skipi með þeim var Þórhallur veiðimaður, mikill maður vexti, ódæll og einþykkur. Hann hafði lengi verið í veiðiförum með Eiríki á sumrum og var honum víða kunnugt í óbygðum. Alls voru þeir 140 manna, er fóru að leita Vínlands, og voru með þeim konur þeirra, er kvongaðir voru. Einnig höfðu þeir með sjer alls konar kvikfjenað, því að þeir bjuggu sig þannig til fararinnar, að þeir gætu reist bygðir og bú í hinu nýfundna landi, ef þeim byði svo við að horfa.

Þeir þóttust vita að Þorsteinn Eiríksson hefði leitað of austarlega og því eigi fundið neitt land. Fyrir því sigldu þeir fyrst til Vestribygðar og þaðan undan Bjarnareyjum (líklega við Lýsufjörð) í norðanveðri. Þá er þeir höfðu verið úti í tvö dægur, fundu þeir land og könnuðu það. Þeir fundu þar hellur margar og stórar og kölluðu því landið Helluland. Melrakkar voru þar og margir eins og enn er í Labrador. Þá sigldu þeir í norðanveðri tvö dægur; var þá land fyrir þeim, og var á skógur mikill og dýr mörg. Ey lá í landsuður undan landinu og fundu þeir þar bjarndýr og kölluðu Bjarney, en landið kölluðu þeir Markland Eptir tveggja dægra siglingu enn á ný sáu þeir land. Þeir sigldu undir það og fóru á bátum til lands við nes eitt. Þar fundu þeir kjöl af skipi og kölluðu því nesið Kjalarnes (nú Cape Breton). Þar var öræfi. Strandirnar á landi þessu voru langar og sendnar, og kölluðu þeir þær Furðustrandir. Þeir sigldu suður með landi uns það gerðist vogskorið; hjeldu þeir þá inn á vog einn og köstuðu akkerum. Þorfinnur karlsefni hafði með sjer tvo skotska menn, karlmann og konu, er þeir feðgar í Brattahlíð höfðu fengið honum til fylgdar. Menn þessa hafði Ólafur konungur Tryggvason gefið Leifi, þá er hann bað hann um að boða

kristni á Grænlandi og sagt honum að taka til þeirra, ef hann þyrfti skjótleiks við, því að þau væru dýrum skjótari. Þorfinnur ljet þau á land til þess að leita landskosta í suðurátt. Eptir þriggja daga leit komu þau aptur með vínber og sjálfsáið hveiti. Ljettu þeir Þorfinnur þá akkerum og fóru leiðar sinnar, þar til er varð fjarðskorið. Þeir lögðu þá inn á fjörðinn; var þar ey ein úti fyrir og voru þar straumar miklir og umhverfis eyna. Þeir kölluðu hana Straumey og fjörðinn Straumfjörð. Þeir báru farminn af skipunum og bjuggust þar um. Þeir settu fje sitt á haga og voru þar grös mikil. Fjöll voru þar og fagurt um að litast. Þeir gáðu einskis nema að kanna landið, og öfluðu sjer því eigi vista undir veturinn (1003—1004). En vetrarríki gerðist þar mikið og tókust af veiðarnar; þá fóru þeir út í eyna, og væntu að þar mundi gefa nokkuð af veiðum og rekum. Þar var þá lítið til matfanga, en fje þeirra hafði þar góða haga. Lá þá við vandræðum, en nokkru síðar gaf þeim að róa til fiskjar og skorti þá eigi vistir. Um vorið fóru þeir aptur inn í Straumfjörð og höfðu þeir þá veiðar af meginlandinu, en eggver í eynni og útróðra af sjónum.

Um sumarið kom upp nokkur ágreiningur milli Þorfinns og Þórhalls veiðimanns. Þorfinnur vildi fara suður fyrir landið, en Þórhallur hverfa heim aptur eða halda norður um Furðustrandir og fyrir Kjalarnes að leita Vínlands. Einir níu menn urðu til að fylgja honum, og bjóst hann þá til fararinnar. Einn dag er hann bar vatn á skip sitt, drakk hann af því og kvað vísu, sem enn er til. Segir hann þar, að menn hafi sagt að hann mundi fá hinn besta drykk, er hann kæmi hingað; hann verði því að lasta landið; hann verði að drekka vatn og vín komi eigi á varir sínar. Þá er þeir voru búnir, kvað Þórhallur aðra vísu, og segir þar: „Förum aptr, þar er órir eru landar"[1]. Þeir sigldu norður fyrir Furðustrandir og Kjalarnes, en þeir hreptu mótvind og rak

---

[1]) Eir. r. 9 36. Sögunni ber eigi saman við vísurnar.

þá til Írlands: voru þeir þar barðir og þjáðir og ljet Þórhallur þá líf sitt, eptir því sem kaupmenn sögðu.

Þorfinnur karlsefni, Snorri og Bjarni og annað lið þeirra fóru suður fyrir land. Þeir fóru lengi og til þess, er þeir komu að á einni, er fjell ofan af landi og í vatn og svo til sjóvar. Eyrar voru þar miklar fyrir árósnum og mátti eigi komast inn í ána nema við háflóð. Þeir sigldu þá til áróssins og kölluðu landið í Hópi. Þar fundu þeir sjálfsána hveitiakra, þar sem lægðir voru, en vínvið alt þar sem holta kendi. Hver lækur var þar fullur af fiskum, og mikill fjöldi dýra á skógi. Þeir reistu nokkra skála upp frá vatninu og voru þar um veturinn (1004—1005). Þar kom alls enginn snjór og allur fjenaður gekk þar úti sjálfala.

Land þetta hugðu Íslendingar vera Vínland, sem Leifur hafði fundið, en hvar það var í Ameríku vita menn nú eigi með áreiðanlegri vissu. Skoðanir manna um það hafa verið mjög skiptar; þó ætla flestir nú á dögum að Vínland hafi verið Nova Scotia með eyjunni Cape Breton, er liggur á 44—46° norðlægrar breiddar eða á sömu breiddarstigum sem suðurhelmingur Frakklands. Að þessari skoðun komst Gustav Storm í rannsókn sinni, en áður hugðu flestir að Vínland hefði verið sunnar (Massachusetts eða þar í grend í Bandaríkjunum). Menn hafa reynt að ákveða afstöðu Vínlands eptir því, sem segir í Grænlandinga þætti um sólarganginn í skammdeginu: „Meira var þar jafndægri en á Grænlandi eðr Íslandi; sól hafði þar eyktarstað ok dagmálastað um skamdegi.“ Geelmuyden stjörnufræðingur hefur reiknað út að þetta hafi verið á 49° 55' n. br. eða sunnar.[1]) Land það, sem Íslendingar nefndu Markland, er að líkindum New Foundland og Helluland Labrador; er það hið næsta land fyrir suðvestan Grænland, og austurströnd þess er hjer um bil beint í suður frá Lýsufirði eða Fiskinesfirði í Vesturbygð, þaðan sem þeir Þorfinnur ljetu í haf. Þó er eigi ómögulegt að

[1]) Arkiv f. nord. Filologi III, 128 í ritgjörð eptir G. Storm, Om Betydningen af Eyktarstaðr i Flatöbogens Beretning om Vinlandsrejserne. Grænl. þ. 3 58. En staðar þessi sannar eigi mikið, sbr: Jón Þorkelsson, Dagmálastaðr og eyktarstaðr. Ísafold (1874) I. bls. 2—3.

þeir hafi farið fram hjá Labrador og tekið fyrst land á norðurhálfeyju New Foundlands.[1])

Þá er þeir Þorfinnur höfðu verið hálfan mánuð í Hópi, urðu þeir einn morgun snemma varir við íbúa landsins. Þeir sáu níu húðkeipa og var veifað trjám af þeim sólarsinnis. Þeir skildu það sem friðartákn og tóku skjöld hvítan og báru í móti. Þá reru hinir til þeirra, gengu á land og undruðust þá. Menn þessir voru smáir og illilegir, og „illt höfðu þeir hár á höfði; eygðir váru þeir mjök ok breiðir í kinnunum." Þeir dvöldu um stund og undruðust yfir hinum aðkomnu mönnum, stigu síðan í húðkeipa sína og reru í brott suður fyrir nesið.

Íslendingar kölluðu menn þessa Skrælingja,[2]) en um það eru nú skiptar skoðanir, hvort þeir hafi verið af Eskimóakyni eða af kyni Indíána.[3]) Ari fróði hugði að þeir væru „þess konar þjóð", sem hefði farið um Grænland, og á það benda húðkeipar þeirra eða skinnbátar sjerstaklega. Er því allíklegt að það hafi verið Eskimóar, og að þeir hafi fyrir 900 árum hafst við svo sunnarlega sem í Nova Scotia. Hins vegar verður að gæta að því, að hvorki Ari fróði nje aðrir

---

[1]) Sbr. G. Storm i Aarb. f. n. Oldkh. 1887 bls. 324—345. [2]) Íslb. 6/9; Eyrb. 48/92; Eir. r. 11/40—42, 12/44; Grænl. þ. 5/62, 7/67—68; Historia Norvegiæ í Mon. hist. Norv. bls. 76. [3]) G. Storm, Aarb. f. n. Oldkh. 1887, bls. 346—355, ætlar að þeir hafi verið af kyni Indíána. Á þeirri skoðun er Hugo Gering, Eyrbyggja saga (Halle 1891) bls. 179 nm.; S. Ruge, Entdeckungsgeschichte der neuen Welt (í Hamburgische Festschrift zur Erinnerung an die Entdeckung Amerika's. 1892) I, 7; E. Mogh, Grundriss 2. Aufl. 1903, II, 801; Jos. Fischer, Die Entdeckungen der Normannen in Amerika bls. 103. Á móti þessu hefur William Thalbitzer ritað, sbr. hið mikla rit hans, The Eskimo language í Meddelelser om Grønland XXXI bls. 19—22, og Skrælingerne i Markland og Grønland, deres Sprog og Nationalitet í Oversigt over Det kgl. danske Videnskabernes Selskabs Forhandlinger 1905, bls. 185—209. Hann ætlar að Skrælingjarnir á Marklandi og Vínlandi hafi verið Eskimóar, og að þau fjögur orð, sem höfðu eru eptir þeim í Eiríks sögu, sjeu afbökuð eskimósk orð eða orðsetningar; nafnið Skrælingi ætlar hann líklegast eptirlíkingu af eskimósku orði. Yngvar Nielsen hefur einnig í norsku Hist. Tidsskrift 4 R. 3. B (1905) bls. 275—284 leitt ýms rök að því að hjer sje um Eskimóa að ræða. Kr. Bahnson, Etnografien (1894) I, 224, ætlar það einnig líklegast.

Íslendingar í fornöld áttu kost á að kynnast frumbyggjum Vínlands og Eskimóum á Grænlandi svo mikið, að þeir gætu haft áreiðanlega vissu um, hvort þeir væru af sama kyni eða eigi, svo að skoðun þeirra er að mestu leyti getgáta.

Íslendingar urðu eigi varir við Skrælingja um veturinn, en þá er vora tók, komu þeir aptur mjög fjölmennir á afarmörgum húðkeipum. Þeir áttu þá kaup við Íslendinga og vildu helst kaupa rautt klæði og sverð og spjót; en þeir Þorfinnur karlsefni og Snorri Þorbrandsson bönnuðu mönnum að selja vopn sín. Skrælingjarnir höfðu skinnavöru að kaupa fyrir, og bundu þeir hinar rauðu klæðisræmur, sem þeir keyptu, um höfuð sjer. Í fyrstu fór alt vel með þeim, en þá bar svo til að griðungur einn, er þeir Þorfinnur höfðu með sjer og var þar á beit í skóginum, kom hlaupandi fram úr skóginum og öskraði hátt. Við það fældust Skrælingjar og hlupu út á húðkeipa sína og reru brott. Þremur vikum síðar komu þeir aptur mjög fjölmennir, og veifuðu þá trjánum rangsælis. Íslendingar tóku þá rauða skjöldu og gengu þeir þá saman og börðust. Varð þar skothríð hörð. Skrælingjar höfðu valslöngur og steinvopn; en Íslendingar höfðu vopn betri, þar sem þeir höfðu járnvopn. Fyrir því tókst þeim að verjast Skrælingjum, þótt þeir væru ofurliði bornir, og lauk svo að Skrælingjar hættu bardaganum og hlupu á skip sín og hjeldu á brottu. Voru þá fallnir fjórir menn af þeim, en tveir af Þorfinni; var annar þeirra Þorbrandur Snorrason, hinn röskvasti maður; stóð hellustein í höfði honum dauðum.

Þeir Þorfinnur karlsefni þóttust nú sjá, að þeir mundu aldrei fá notið þar friðar fyrir Skrælingjum. Fyrir því bjuggust þeir brott, þótt landskostir væru þar góðir, og hjeldu til Straumfjarðar. Á leiðinni þangað norður fundu þeir fimm Skrælingja sofandi í skinnhjúpum og drápu þá. En er þeir komu í Straumfjörð, voru þar nægar bjargir. Er það sumra manna sögn að þau Bjarni og Guðríður hafi verið þar eptir og 100 manna með þeim; en þeir Þorfinnur og Snorri og 40 manna með þeim hafi haldið suður í Hóp og dvalið þar einungis tvo mánuði, og komið aptur hið sama

sumar; var Freydís Eiríksdóttir með í ferð þeirra. En hvað sem sannast er í þessu, fór Þorfinnur þó nú frá Straumfirði á einu skipi með nokkurn hluta liðsins, að leita Þórhalls veiðimanns. Þeir fóru norður fyrir Kjalarnes og svo langt fram með því að vestanverðu, að þeir höfðu land á bakborða; voru þar eyðimerkur; og er þeir höfðu lengi farið, lögðu þeir inn í árós nokkurn. Þar var Þorvaldur Eiríksson skotinn ör til bana af Skrælingja nokkrum eða innfæddum manni, sem þeir hugðu að væri einfætingur.[1]) Þeir fundu eigi Þórhall veiðimann, sem eigi var heldur von, og þeir vildu eigi hætta liði sínu lengra. Þaðan, sem þeir voru, sáu þeir fjöll í austri og ætluðu það vera fjöll þau, sem voru í Hópi í vesturátt; hugðu þeir að hjer um bil jafnlangt væri úr Straumfirði beggja vegna við landið í Hóp og til þeirra. Þeir fóru þá aptur til Straumfjarðar og voru þar hinn þriðja vetur (1005—1006). Skrælingjar gerðu þeim engar ónáðir, en á milli sjálfra þeirra komu upp flokkadrættir, og urðu konur þeim að rógi. Sumir þeirra voru kvongaðir eins og fyr er sagt, og sóttu þeir, er konulausir voru, í hendur þeim. Líklega hafa hjer gerst atburðir þeir, sem liggja til grundvallar fyrir því, er segir í Grænlendinga þætti af Freydísi og tveimur íslenskum mönnum úr Austfjörðum, Helga og Finnboga.[2]) Deilur þessar studdu eflaust nokkuð að því, að þeir Þorfinnur hurfu alveg frá því sumarið eptir að nema þar land. Þeir hjeldu þá til Grænlands, og komu við á Marklandi á leiðinni (1006). Þar fundu þeir fimm Skrælingja og náðu tveimur af þeim og höfðu með sjer. Voru það sveinar tveir. Þeir kendu þeim íslensku og voru þeir síðan skírðir.

Þá Bjarna Grímólfsson rak vestur í Írlandshaf og komu þeir í maðksjó; fundu þeir eigi fyr en skipið gerðist maðksmogið undir þeim. Þeir höfðu eptirbát, er var bræddur seltjöru og því óskemdur af maðki, en hann tók eigi meira en helming skipverja. Eptir ráði Bjarna hlutuðu þeir um

---

[1]) Sbr. Grænl. þ. 5 62; Í Eir. r. 12 43—44 segir að það hafi verið einfætingur. [2]) Grænl. þ. 8 69—72.

hverjir skyldu ganga af skipinu og í bátinn, svo að eigi væri farið eptir mannvirðingu. Bjarni hlaut rúm í bátnum, en ljet ungan mann íslenskan fá það í sinn stað: fóru þeir, er í bátnum voru, síðan leiðar sinnar til þess er þeir tóku land á Írlandi og sögðu tíðindi þessi. En til Bjarna spurðist eigi framar; mun hann hafa látist þar í maðkahafinu, og þeir menn, sem í skipinu voru með honum.[1])

Eptir þetta segir eigi af Vínlandsferðum Íslendinga eða Grænlendinga í rúm hundrað ár. Þeir hafa eflaust horfið frá því að nema þar land, og sjeð að þeim var það ófært, enda hafa engar rústir eða leifar fundist með vissu eptir þá í Norður-Ameriku; þó hefur þess opt verið leitað. Hitt er annað mál að einhverja menn kann að hafa hrakið til Ameríku og eigi borið gæfu til að koma aptur. Um það vita menn ekkert með vissu. En til eru nokkrar sagnir um menn, sem eiga að hafa hrakist suðvestur í haf;[2]) er og eðlilegt að þær hafi myndast um menn, er ljetu í haf frá Íslandi og komu eigi aptur, eins og stundum varð raun á; en vinir þeirra og vandamenn væntu þeirra heima og vissu að einhver ókunn eða lítt kunn lönd voru fyrir vestan haf. Þó benda sagnir þessar eigi á Vínland, heldur á að menn hafi ímyndað sjer land vestur í hafi, „sex dægra sigling vestr frá Írlandi", en eigi langt frá Vínlandi hinu góða. Land þetta var nefnt Hvítramannaland, eða Írland hið mikla,[3]) og eins og fyrra nafnið ber vitni um, gengu menn þar í hvítum klæðum. Þeir voru kristnir, gengu í skrúðgöngu með fána og sungu; það er með öðrum orðum, íbúar landsins voru kennimenn. En hitt nafnið, Írland hið mikla, bendir á að menn hafa hugsað sjer að land þetta hafi verið bygt frá Írlandi, og fyrir því kent það við það, eins og Rúsland var á þeim tímum nefnt Svíþjóð hin mikla, sökum þess að Svíar höfðu reist þar nýbygðir allmiklar. Á hið sama benda einnig orð Eyrbyggja sögu, þar sem sagt er að landsmenn hafi mælt írsku, því að þar er auðsjáanlega átt við Írland hið mikla, þótt

[1]) Eir. r. 8—13/30—46. [2]) Ldn. 22/129—130; Eyrb. 47/91, 64/119—122. [3]) Ldn. 22/129; Eir. r. 12/45.

það sje eigi nafngreint.[1]) Sagnir þessar um Hvítramannaland hafa líklega í fyrstu myndast á Írlandi og mun frásögn Dicuils um Þúle[2]), sem írskir kennimenn fundu, hafa gefið tilefni til þess. Þúle var sex daga sigling norður frá Bretlandi, en þá er Ísland var orðið kunnugt og Grænland fundið, hafa menn tekið að ímynda sjer að Þúle, þar sem hinir írsku einsetumenn byggju, væri úti í hafi vestur af Írlandi. Írar og íslenskir siglingamenn hafa hjálpast að með að mynda sagnir um land þetta. Íslenskir siglingamenn, Hrafn Hlymreksfari og fleiri sögðu sögur af því út á Íslandi; gengu sögur af þessu ókunna landi bæði á Írlandi og Orkneyjum, og heyrði Þorkell Gellisson, föðurbróðir Ara hins fróða, íslenska menn skýra frá því, sem þeir höfðu heyrt Þorfinn jarl í Orkneyjum segja af Ara Márssyni frá Reykhólum og landi þessu. Ari hafði siglt frá Íslandi rjett eptir 980 og hvergi komið fram, en menn sögðu að hann hefði orðið sæhafi til Hvítramannalands og verið þar skírður. En er Íslendingar spurðu að land væri suður í hafi fyrir vestan Írland, er mjög eðlilegt, að þeir hjeldu að þangað kæmu sumir þeir menn, sem landnyrðingar hröktu suðvestur í haf.[3])

Fundur Grænlands og Vínlands ber skýlaust vitni um áræði og dug forfeðra vorra að því er farmensku og siglingar snerti, en þeir fundu Vínland of snemma á öldum til þess að geta numið það og bygt. Þeir höfðu engan mannafla til þess, þar sem munurinn á vopnum þeirra og frumbyggja hinna nýju landa var eigi meiri en sá, sem fólginn er í því að aðrir höfðu samskonar vopn úr steini og beini, en hinir úr járni. Þá er Spánverjar og aðrir Evrópumenn komu til Ameríku fimm öldum síðar, höfðu þeir byssur, púður og kúlur en hinir eigi, og fyrir því gátu þeir sigrað frumbúa landsins, þótt við ofurefli liðs væri að eiga, kastað eign sinni á lönd þeirra og kúgað þá eptir vild sinni.

En af Þorfinni karlsefni er það að segja, að hann hjelt

---

[1]) Eyrb. 64/120. [2]) Sbr. að framan I, 9—10. [3]) Sbr. Storm, Aarb. f. n. Oldkh. 1887, bls. 355—362.

skipi sínu til Íslands eptir vetrardvöl á Grænlandi (1007), og tók þar við búi í Reyninesi ásamt Guðríði konu sinni. Þau hjónin urðu mjög kynsæl. Hið fyrsta haust, sem þau voru í Straumfirði (1003), ól Guðríður son, sem nefndur var Snorri. Hann fæddist upp í Vínlandi hinu góða til þess er hann var þrevetur; þá fór hann með foreldrum sínum til Grænlands og þaðan til Íslands og ólst þar upp. Hann er hinn eini maður af indoevrópeisku ættinni, sem fæddur er í Ameríku svo kunnugt sje, áðar en Columbus fann þá heimsálfu, og er margt manna á Íslandi komið frá honum, og sumt af því nafnkunnir menn. Dóttir hans var Hallfríður, móðir Þorláks biskups Runólfssonar, en sonur hans var Þorgeir afi Brands biskups Sæmundssonar. Annar sonur Þorfinns karlsefnis og Guðríðar var Þorbjörn, afi Bjarnar biskups Gilssonar.[1])

Einnig má geta þess að Þórhallur stýrimaður Gamlason kom aptur til Íslands. Hann keypti land að Melum í Hrútafirði og bjó þar, og átti tvo syni, er urðu nafnkendir menn. Sjálfur fjekk hann auknefni eptir ferð sína og var kallaður Vínlendingar.[2])

Það var því eigi kynlegt þótt endurminningar um fund Vínlands hins góða lifðu jafnan á Íslandi, þótt enginn færi eða reyndi að komast þangað fyr en 1121. Í byrjun 12. aldar var settur erkibiskupsstóll í Lundi yfir öll Norðurlönd, og þá vaknaði áhugi hjá mönnum að gæta betur kristninnar en gert hafði verið í hinum fjarlægu eylöndum norður í hafi. Þá settu Íslendingar biskupsstól á Norðurlandi og um það leyti eða litlu síðar var skipaður biskup yfir Færeyjar[3]) og annar biskup yfir Grænland eða trúboðsbiskup sendur þangað. Árið 1112 er í Lögmannsannál getið um „ferð Eiriks biskups"[4]) og verður að skilja það svo sem hann hafi þá farið frá Íslandi með biskupserindi til Grænlands; hefur hann

[1]) Eir. r. 14/47—48, sbr. Grænl. þ. 9/72—74; þar er eflaust rangt að Þorfinnur hafi farið frá Grænlandi til Noregs. Ldn 17/112, 10/198. [2]) Grett. 30/114, sbr. 14/39. [3]) Munch Hist. III, 617—619. [4]) Ann. VII, sbr. Flat. III, 511.

áður fengið biskupsvigslu í Lundi. Eiríkur biskup er nefndur í Landnámu og kallaður þar Grænlendingabiskup. Hann er einnig nefndur svo í sumum annálum. Eiríkur var Gnúpsson og kallaður upsi að auknefni. Hann var sjötti maður frá Örlyg gamla landnámsmanni.[1]) Á fornum skrám yfir biskupa í erkibiskupsdæmi Niðaróss er hann talinn fyrstur biskup á Grænlandi, og má það vel vera rjett, þótt Grænlendingar eptir fráfall hans ákvæðu á Garðaþingi að efla til biskupsstóls hjá sjer; hefur enginn fastur biskupsstóll verið á Grænlandi á meðan Eiríkur biskup var þar, enda var þess varla að vænta. Það var eigi heldur á Íslandi á dögum Ísleifs biskups.[2]) Einnig má vera að Eiríkur hafi verið sendur sem trúboðsbiskup til Grænlands.[3]) Um Eirík biskup er þess síðan getið í flestum hinum fornu annálum, að hann færi 1121 að leita Vínlands.[4]) Honum hefur verið kunnugt um fund Vínlands og ferð þeirra Þorfinns karlsefnis þangað; mun hann því hafa ætlað sjer að finna landið aptur og að líkindum boða þar kristni. En ekkert er kunnugt um hvernig ferð hans gekk, því að hans getur eigi eptir þetta og Grænlendingar fengu annan biskup litlu síðar og settu þá biskupsstól á fót; er því líklegt að Eiríkur biskup hafi týnst í Vínlandsferð sinni.

Þess má geta hjer, af því að eigi verður vikið aptur að fundi Ameríku í sögu þessari, að í íslenskum annálum er skýrt frá því, að 1347 hafi skip komið til Íslands af Grænlandi minna að vexti en smá Íslandsför. Það kom í Straumfjörð hinn ytra í Hnappadalssýslu og var akkerislaust. Á því voru 17 eða 18 menn. Þeir höfðu farið til Marklands, en orðið hafreka til Íslands.[5]) Sumarið eptir (1348) fóru þeir til Noregs, til þess að komast þaðan heim til sín.[6]) En hvort

---

[1]) Ldn. 13/46; Ann. IV. [2]) Nr. 5 fol. í kgl. bókasafninu í Stockhólmi, og A. M. 309 fol., útgefnar í P. A. Munch, Saml. Afhandl. II, 592, 594; Dipl. III, 24, 27; Hksb. 501; Flat. III, 445, sbr. Þætti mína úr Íslendinga sögu bls. 99—100. [3]) Svo ætlar, K. Maurer, Geschichte der Entdeckung Ostgrönlands i Die zweite deutsche Nordpolarfahrt (1873) I, 213—214. [4]) Ann. I, III, IV, VII, VIII, X; Flat. III, 512. [5]) Ann. V, VIII. [6]) Ann. VIII.

menn af Grænlandi hafi optar farið eða reynt að fara til Vínlands eða Marklands er ókunnugt.[1])

---

[1]) Professor Yngvar Nielsen ætlar að Haraldur harðráði hafi reynt að fara til Vínlands; byggir hann það á orðum Adams frá Brimum í 4. bók, kap. 11 og 38 í Erkibiskupa sögu hans. Þá er Adam hefur talað um norðurhöfin og eyjarnar í þeim og farið að nokkru leyti eptir riti Eginhards, segir hann í 11. kap.: „En það, sem hann (þ. e. Eginhard) segir um hinn sama flóa, sem er ókunnur að lengd, kom nýlega í ljós við dugnað hinna hraustustu manna, Ganund Úlfs, jarls Dana og Haralds konungs Norðmanna, sem á mjög erfiðri ferð og með margskonar hættu fyrir fjelaga sína rannsökuðu stærð hafs þessa, og komu að lokum aptur þrekaðir og sigraðir af hinum tvöföldu hrakningum vindanna og ræningjanna“. Þá er getið hefur verið um Vínland í kap. 38, og því bætt við úr Marcian, að „fyrir handan Thule sje eins dags sigling til íslagðs hafs“, segir svo: „Þetta reyndi nýlega hinn þaulreyndi höfðingi Norðmanna Haraldur. Hann rannsakaði á skipum strandir hins norðlæga úthafs, og þá er heimurinn hvarf loksins fyrir augum þeirra á takmörkum þokumyrkursins, varð hann að hverfa aptur og slapp með naumindum heill burtu frá hinum afarmikla afdýpis straum“. Eins og auðsætt er af þessu hefur Haraldur harðráði farið á nokkrum skipum norður í haf að kanna það, en hvert þeirri ferð hefur verið heitið, er eigi hægt að segja með vissu. Adam frá Brimum ætlar að hin nýfundnu lönd sjeu eyjar, og hver þeirra liggi norður af annari fyrir norðan Noreg. Menn hafi siglt til norðurs, er þeir fundu þær og því fundið Ísland fyrst, þá Grænland og síðan Vínland, en ekkert byggilegt land fyrir norðan það. Adam hefur líklega blandað saman tveimur frásögum, annari um fund Grænlands og Vínlands, hinni um rannsókn Haralds konungs í Íshafinu fyrir norðan Noreg, sbr. Axel A. Björnbo og Carl S. Petersen, Fyenboen Claudius Claussön Swart, Kbhavn 1904, bls. 231. En hugmyndir Adams frá Brimum um legu þessara landa og afstöðu þeirra frá Noregi eru svo skakkar, að ekkert má á honum byggja um þetta. Yngvar Nielsen styður skoðun sína að eins með nokkrum líkum, svo sem að Haraldur harðráði hafi haldið uppi veldi Noregs konunga á Skotlandseyjum og sent flota vestur um haf, og að Vínland sje nefnt á rúnasteini einum, sem var á Hönen í Hringaríki, en nú finnst hvergi. Ætlar hann að steininum hafi verið settur yfir göfugan mann, sem hafi komið langt út á haf í átt til Vínlands og norður í Íshaf, og þessi maður hafi verið með Haraldi harðráða. Hist. Tidsskrift, 4. R. III, 259–275. Um rúnirnar á steini þessum sjá Sophus Bugge, Hønen-Runerne fra Ringerike. Christiania 1902. Rúnirnar voru mjög máðar, þá er þær voru rannsakaðar og auk þess hafði Bugge þær eigi sjálfar, heldur einungis mjög ófullkomna teikningu af þeim, svo þýðing hans gat eigi orðið meira en skarpvitrar getgátur. Rúnavers það, sem á steininum stendur, má því eigi skoða sem

áreiðanlega heimild. Það má því telja alveg víst, að Haraldur hafi eigi komið til Vínlands, hvort sem hann hefur reynt að fara þangað eða eigi. K. Maurer leggur engan trúnað á frásögn Adams um ferð Haralds konungs, sbr. Die zweite deutsche Nordpolarfahrt. Leipzig 1873, I B. bls 208 nm.

# V. Íslendingar kristnaðir.

## Útbreiðsla kristninnar og kynni Íslendinga af henni áður en kristniboð hefst.

Á 10. öld færðist kristin trú ávalt nær og nær Íslandi. Það hlaut eðlilega að hafa mikil áhrif á trúarbrögð Íslendinga, og að lokum leiða til þess að þeir snerust til kristinnar trúar.[1])

Kristnin hafði þá fyrir langa löngu haldið sigurför sína um allan suðurhluta Norðurálfunnar, Rómaríki hið forna. Hún hafði einnig breiðst út norður á bóginn um hin vestlægu lönd Norðurálfunnar. Til Bretlands hafði kristnin komið snemma, á öndverðri 4. öld, jafnvel áður en sannar sögur hefjast þar. Þaðan fluttu kennimenn hana til Írlands á 5.

---

[1]) Af því að kristnitakan er þýðingamikill atburður og snertir bæði sögu Noregs og kristninnar í heild sinni, hefur á síðari tímum optar verið ritað um hana en flesta aðra viðburði í sögu vorri. Hin helstu rit eru þessi: Finni Johannæi, Historia ecclesiastica Islandiæ I T., Havniæ 1772. P. A. Munch, Det norske Folks Historie. 2. B., Christiania 1853. R. Keyser, Den norske Kirkes Historie under Katholicismen. 1. B., Christiania 1856. K. Maurer, Die Bekehrung des norwegischen Stammes zum Christenthume. I—II B., München 1855 og 1856. Sami, Island, München 1874. A. D. Jorgensen. Den nordiske kirkes grundlæggelse og første udvikling. Kbhavn, 1874—78. A. Chr. Bang, Udsigt over den norske Kirkes Historie under Katholicismen. Kristjania 1887. A. Taranger. Den angelsaksiske kirkes indflydelse paa den norske. Kristjania 1890. Sbr. K. Maurer, Nogle Bemærkninger til Norges Kirkehistorie, Christjania 1893 (í norsku Historisk Tidsskrift. 3. R., III B.). Björn M. Olsen. Um kristnitökuna árið 1000 og tildrög hennar, Rvík 1900. Rit Maurers. Die Bekehrung er enn aðalritið.

öld, og 563 fór Kolumkille (dúfa kirkjunnar) eða Kolumba, sem nefndur er í fornritum vorum, til Suðureyja, setti þar klaustur í Ióna og hóf þaðan kristniboð á Skotlandi.

Á þjóðflutningaöldinni komu margar heiðnar þjóðir til sögunnar, og þá kom mikill apturkippur í alla andlega mentun og útbreiðslu kristinnar trúar. Á Englandi átti þá kristnin lengi í vök að verjast, því að á 5. öld komu heiðnar þjóðir, Englar og Saxar, til landsins og brutu það undir sig. Bretar hrukku undan. Sumir þeirra flýðu suður um Kanalinn eða Ermina (la Manche) til Armorica, er fjekk nafnið Bretagne eptir þeim; en sumir þeirra hjeldu vestur á bóginn og námu staðar á vestanverðu Englandi. Þar hjeldust þeir við í Wales, Cornwall og Strathclyde, er síðar var nefnt Kumraland (Cumberland). Engilsaxar lögðu þó Cornwall og Strathclyde síðar undir sig.

Eptir komu sínu til Englands voru Engilsaxar heiðnir hjer um bil hálfa aðra öld, en þá ljet Gregor páfi hinn mikli Augustin, sem síðar varð erkibiskup í Kantaraborg, ásamt nokkrum kennimönnum hefja kristniboð á meðal þeirra, og byrjuðu þeir í Kent, syðst á austanverðu Englandi. Á meðal Breta í Wales hafði kristnin dofnað á 6. öldinni, en kennimenn frá Ióna styrktu hana og treystu og tóku síðan að boða kristni á Norður-Englandi, litlu síðar en kristniboðar Gregors páfa hófu kristniboð á Suður-Englandi. 627 ljet Eadwin konungur á Norðymbralandi skírast, og því næst var reist klaustur á Lindesfarne, eyju einni nyrðst við Norðymbraland; var það síðan eins og klaustrið á Ióna helsta stoð og stytta kristniboðsins á Norður-Englandi. Úr þeim klaustrum komu flestir þeir menn, sem mestan þátt áttu í að kristna Norðymbraland og Merciu, en Kent, Wessex og Austur-Angel voru aptur á móti kristnuð af rómverskum kristniboðum.

Á miðri 7. öld mátti heita að England væri orðið kristið eptir mikla baráttu og ýmsa apturkippi.

Þá er víkingarnir í lok 8. aldar tóku að herja á England, rændu þeir og brendu kirkjur og klaustur og drápu kennimenn eigi síður en aðra. Tveimur mannsöldrum síðar

tóku Danir að leggja England undir sig (865). Þeir settust þá að í þeim hjeruðum, sem þeir unnu. Norðymbraland og allur norðvesturhelmingur Englands suður að Wætlingastræti komst undir yfirráð þeirra. Það leið þá eigi á löngu áður en margir af víkingum þeim, sem búsettir voru á Englandi, tækju kristna trú og sumir þeirra gengu síðan í þjónustu kirkjunnar. Þannig má nefna Odó, er varð erkibiskup í Kantaraborg frá 942—958. Hann var sonur heiðins víkings og hinn mætasti kennimaður. Í Jórvík voru líka þrír erkibiskupar ættaðir af Norðurlöndum: yngstur þeirra var Osvald (erkibiskup til 992) bróðurson Odós erkibiskups og varð hann erkibiskup eptir Oskytel frænda sinn († 971).

Á fyrri hluta 10. aldar komu norskir víkingar af Írlandi til Norðymbralands og náðu þar yfirráðum. Þeir voru heiðnir. Játmundur Englandskonungur (940—946) sneri mörgum þeirra til kristni, og frá miðri 10. öld má telja að Danir þeir og Norðmenn, sem voru búsettir á Englandi, væru alment kristnir. Þó verður að gæta þess að heiðnir víkingar komu þá jafnan frá Norðurlöndum til Englands, en það hafði eigi lítil áhrif á þá, bæði vitandi og óvitandi, að hitta þar landa sína fyrir, sem voru kristnir. —

Þá er keltneskir Krists-menn gengu suður til Rómaborgar eða Jórsala, komust þeir að raun um að kristindómsástandið var mjög ilt á Frakklandi. Merovingar voru ósiðlátir og hafði það hin verstu áhrif á landsmenn, enda ríkti áhugaleysi alment meðal kennimanna. Til þess að ráða bót á þessu og rjetta við kristnina fór Kolumba hinn yngri *(Columbanus)* 590 við 12. kennimann frá Írlandi til Frakklands. Hann setti þar þrjú klaustur á stofn (í Burgund) og hafði mikil andleg áhrif á menn. En rómverskir prestar urðu honum andvígir og Brynhildur drottning í Burgund og hirð hennar reiddist, af því að hann sagði henni til syndanna, og ljet flytja hann úr landi burt. Hann fór þá til Sviss og boðaði þar Alamönnum kristni. Upp frá þessu tóku írskir kennimenn að breiða út kristna trú meðal germanskra þjóðflokka á Suður-Þýskalandi og kristnaðist þá Bayern og fleiri lönd þar í grend. Um 700 hætti kristniboð

íra á Þýskalandi, en engilsaxneskir kristniboðar tóku þá við. Þeir boðuðu Frísum og Hessum og fleiri þjóðflokkum kristni og breiddist þá kristnin enn norður á bóginn. Nokkrir þeirra fóru kristniboðsferð til Danmerkur. Seint á 8. öld braut Karl hinn mikli Saxa til kristni, og rjett eptir aldamótin var settur biskupsstóll í Brimum (804 eða 805) [1])

Eitthvert hið helsta höfuðból kristninnar norðan á Frakklandi var um þessar mundir klaustrið í Corbie (í Picardie). Þar ólst upp í byrjun 9. aldar maður sá, er Ansgar hjet og síðar hefur verið nefndur postuli Norðurlanda. Hann var snemma guðrækinn og mjög ástundunarsamur. Þá er hann hafði tvo um tvítugt, var hann sendur (823) til klausturs þess, er sett var á stofn frá Corbie til þess að efla kristindóminn meðal Saxa. Það var við Weser í Westfalen og nefnt Corbeia, á saxnesku Korvey, eptir móðurklaustrinu. Þar átti Ansgar að kenna og vera fyrir klausturskólanum.

Um þetta leyti hafði erkibiskup Ebó í Rheims borið það upp við Loðvík keisara hinn gæfa að kristna Dani og unnið keisarann á það mál. Erkibiskup fór síðan sjálfur til Danmerkur og boðaði þar kristni eitt sumar (823). Þremur árum síðar kom konungur nokkur frá Danmörku, er Haraldur hjet, á fund Loðvíks keisara í Mainz og bað hann liðveislu. Keisarinn taldi hann þá á að taka kristni og ljet hann skírast. Þá er hann fór heim aptur, var Ansgar fenginn til þess að fara með honum og boða Dönum kristni (826). Hann vann að því í tvö ár, en varð þá að hverfa aptur. Haustið eptir (829) lagði hann af stað að nýju og hjelt hann þá til Svíþjóðar eptir ósk nokkurra sendimanna þaðan. Hann kom til Bjarnar Svíakonungs í Bjarkey (Birca), sem er í Leginum. Þar dvaldi hann hálft annað ár og skírði nokkra menn. Þá er Ansgar kom heim úr ferð þessari, var hann skipaður erkibiskup í Norðalbingíu (þ. e. Stórmæri, Holtsetalandi og Þjettmerski), og skyldi hann

---

[1]) Um útbreiðslu kristninnar á Þýskalandi sbr. A. Hauck, Kirchengeschichte Deutschlands I—II. Leipzig 1887 og 1890.

vera fyrir kristniboðinu á meðal Dana, Svía og Vinda. Sjálfur skyldi hann eiga aðsetur í Hamborg (um 831).

Ansgar erkibiskup vann síðan að útbreiðslu kristinnar trúar á meðan honum entist aldur til († 865), en kristnin átti þá og um langan aldur mjög örðugt uppdráttar í Danmörku. Að lokum ljet þó Haraldur konungur Gormsson skírast um 960, þá er Poppo prestur hafði sýnt almætti Krists með því að bera glóandi járn. Meiri hluti Dana fór þá að dæmi konungs, og hann efldi síðan kristnina eptir mætti.

Í Noregi hófst kristniboð miklu meira en hundrað árum síðar en í Danmörku, en það leið eigi nema hjer um bil hálf öld frá því að kristni var boðuð þar í fyrsta sinn og þangað til að hún komst þar á; var það mest Ólafi konungi Tryggvasyni að þakka.

Hákon konungur Aðalsteinsfóstri reyndi fyrstur að kristna Norðmenn Hann hafði fengið kristilegt uppeldi á Englandi hjá Aðalsteini konungi, en hann varð konungur í Noregi á þann hátt, að vitrir menn kvöddu hann leynilega aptur í land til þess að losna við Eirík konung blóðöx og Gunnhildi drottningu, er voru grimm og óvinsæl.[1]) Hákon Aðalsteinsfóstri varð að binda lag sitt við Sigurð jarl og aðra höfðingja, sem óánægðir voru, og gerast þeim skuldbundinn til þess að ná konungdómi. Auk þess var hann þá unglingur að aldri, að eins 15 vetra að sögn Snorra Sturlusonar, en nálega tvítugur að því er segir í Ágripi og Fagurskinnu. Sögn Snorra mun líklega rjett, því bæði fellur hún betur við aldur Haralds hárfagra, af því að hann var nærri sjötugur, er hann átti Hákon, og einnig er líklegt að Snorri hafi þar farið eptir Ara fróða.[2]) Hákon hafði því hvorki þroska nje nægan styrk til þess að fara að kristna Noreg þegar á fyrstu ríkisárum sínum, þótt hann hefði fegginn viljað. Engilsaxneska kirkjan stóð um þessar mundir í

---

[1]) Ágr. 5/380. Ágr.[2] 5/9; Theodricus monachus, Hist. i Mon. hist. Norv. bls. 7, Historia Norvegiæ, s. st. bls. 105. [2]) Sbr. Safn I, 314; G. Storm, Snorre Sturlassons Historieskrivning. Kbh. 1873. Bls. 121.

töluverðum blóma, og er mjög líklegt að Hákon konungur hafi haft töluverðan áhuga á að efla kristnina, þótt hann fengi því eigi við komið. Hann fór leynilega með trú sína og hjelt sunnudaga helga og fastaði á föstudögum. Hann hefur líklega haft engilsaxneskan kennimann til að halda guðsþjónustu fyrir sig í heimahúsum. Hann tók eigi þátt í blótum og varð bændum fyrst fyllilega ljóst af hverju það var, þá er hann boðaði þeim kristni. En annars hefur auðsjáanlega farið tvennum sögum um kristnihald hans og ber íslenskum og norskum söguritum eigi saman um það. Þótt Íslendinga greini nokkuð á í sögum sínum um hann, bera þeir honum þó miklu betur söguna, en hinn ókunni kennimaður, er ritað hefur *Historia Norvegiæ* og farið hefur eptir norskri sögusögn. Norskir kennimenn hafa auðsjáanlega minst þess með gremju að konungur ljet kúgast til þess að taka þátt í blótum.[1])

Hákon konungur var ágætur maður og hinn mesti atgjörvismaður. Hann var svo vinsæll að hann var kallaður hinn góði. Þá er hann hafði setið lengi að ríki og hugðist vera orðinn svo fastur í konungstigninni að honum væri óhætt, reyndi hann að koma kristni á í Noregi. Í Ágripi segir, að margir menn hafi snúist til kristni á hans dögum af vinsældum hans, en sumir hafi hafnað blótum, þótt þeir hafi eigi kristnast; hann hafi einnig reist nokkrar kirkjur í Noregi og sett kennimenn við þær. En eptir því sem Theodricus segir, á Ólafur Tryggvason að hafa reist fyrstur kirkju í Noregi.[2]) Það er mjög sennilegt, að ýmsir þeir menn, sem voru kærastir Hákoni konungi, hafi snúist til kristni eða látið af blótum. En Snorri Sturluson segir þó svo frá, að Hákon konungur hafi sent til Englands eptir biskupi og öðrum kennimönnum, þá er hann þóttist hafa fengið styrk af nokkrum ríkismönnum til að halda upp kristninni í Þrándheimi, þar sem hann sat löngum. Þá er þeir komu í Noreg, gerði hann það bert, að hann vildi bjóða kristni um alt land.

[1]) Slíkt kemur einnig nokkuð fram í Ólafs sögu Tryggvasonar, Fms II, 167/46—47. [2]) Mon. hist. Norv. bls. 17.

Hann ljet þá að sögn Snorra vígja kirkjur og setti þar presta til, en þá er hann bauð bændum kristni, skutu þeir því máli til Frostaþings. Um sama leyti sem þingið var háð, fóru Útþrændir suður á Mæri og drápu þar þrjá presta og brendu kirkjurnar; segir Snorri að þær hafi verið þrjár.

Hvað sem satt er í þessu, er það þó víst að Hákon konungur boðaði Þrændum kristni, en varð ekki ágengt, og að bændur neyddu hann til þess að taka þátt í blótum með sjer. Segir í Fagurskinnu að það hafi verið á 16. ríkisári hans (951).[1])

Hákon konungur ljet undan bændum með fram fyrir bænastað vina sinna.[2]) Hann hugði í fyrstu á hefndir, en þá tóku Eiríkssynir að herja á Noreg og fjekk hann þá nóg að gjöra að snúast við þeim. Hann iðraðist þess síðan mjög að hann hefði tekið þátt í blótum. Áður en hann andaðist, buðu vinir hans honum að flytja lík hans til Englands og grafa hann þar að kirkju. Hann kvaðst þess eigi verður: „svá lifða ek sem heiðnir menn í mörgu, skal mik ok fyr því svá jarða sem heiðna menn; vætti ek mér þaðan af meiri miskunnar af guði sjálfum en ek sé verðr“.[3])

Kristniboð Hákonar konungs var of snemma borið fram til þess að það gæti haft verulegan árangur, því að Þrændur voru enn ramheiðnir. Helsti höfðingi þeirra og ríkasti vinur Hákonar konungs, Sigurður Hlaðajarl, var hinn mesti blótmaður. Hann latti konung á allar lundir við kristniboðið, og var undir niðri með bændum, þótt hann hins vegar vildi sjá um að konungi væri hvergi hætt. Hákon konungur fjekk því einungis fáa menn til þess að taka kristni, en hann kom Norðmönnum til þess að fara að hugsa um það, hvort allur landslýður skyldi skipta um trú og hafna hinum gömlu goðum. Þetta var stórkostlegt nýmæli og snerti alla; má nærri geta að það hefur vakið athygli margra manna um endilangan Noreg og jafnvel á Íslandi líka. Þessi

---

[1]) Historia Norvegiæ (Mon. h. N.) 106; Ágr. 5,381—82; Fsk. 8,31—32; Hkr. I, 13—18/185—95. [2]) Fsk 8,32; Fms. II, 167/48. [3]) Ágr. 6,384; Fsk. 12/47; Hkr. I 32/218—19.

andlega hreifing mun því hafa verið hið þýðingarmesta við kristniboð Hákonar Aðalsteinsfóstra.[1])

Eptir þetta tóku líka fleiri og fleiri Norðmenn að kynnast kristninni fyrst og fremst í útlöndum og síðan einnig í Noregi. Eptirmenn Hákonar konungs í konungdómi í Noregi, Eiríkssynir[2]) voru kristnir og höfðu verið skírðir á Englandi, en þeir ljetu hvern trúa því, er hann vildi. Þó brutu þeir niður hof og spiltu blótum, en hve víða það hefur verið, vita menn eigi, því að heimildarritin skýra eigi frá því. Það má vera að það hafi einungis verið á konungsbúunum[3]) og að þeir hafi ætlað sjer að ráða, hvort þar væru hof eða kirkjur, en þó er það eigi mjög líklegt. Eiríkssynir áttu í fjárþröng mikilli og þeir voru ágjarnir. Ástæðan til þess að þeir brutu hofin, mun því hafa verið aðallega sú, að þeir vildu auðga sjálfa sig; fyrir því hafa þeir orðið að brjóta hof víðar en á konungsbúum, ef það skyldi duga, enda getur Einar skálaglamm Helgason þess í drápu einni, er hann orti, að orð hafi leikið á því, að Eiríkssynir hafi grandað vjeum manna. Þetta vakti allmikla gremju og hreifingu meðal heiðinna manna, einkum af því að árferðið var líka hart í Noregi. Landsfólkið kendi það reiði goðanna og því, að konungarnir ljetu spilla blótstöðum þeirra.[4])

Um það leyti sem Hákon Aðalsteinsfóstri fjell, komst kristni á í Danmörku og Haraldur konungur blátönn ljet þá nokkru síðar byrja kristniboð í Víkinni. En hvort það var á ríkisárum Haralds konungs gráfelds, eða rjett eptir fall hans, er eigi hægt að segja með vissu. Danakonungar þóttust eiga frá fornu fari æðstu yfirráðin yfir Víkinni, og Haraldur blátönn hafði hjálpað Eiríkssonum móti Hákoni Aðalsteinsfóstra; sjerstaklega hafði hann sýnt Haraldi gráfeld mikla

---

[1]) Sbr. A. Chr. Bang, Den norske Kirkes Historie, bls. 40. [2]) Þeir eru einnig nefndir Gunnhildarsynir eptir móður sinni og var Haraldur gráfeldur fyrir þeim sem kunnugt er. [3]) Svo ætlar A. D. Jörgensen. Það er líklegt, sem hann tekur fram, að Hákon Aðalsteinsfóstri hafi eigi gert það að skyldu að brjóta hof á öllum konungsbúunum. Den nordiske kirke, bls. 269—270. [4]) Fsk. 13/52—53, 13/58, 14/70; Hkr. I 3/170, 2/228—229; Oddr[2], 1/2.

vinsemd, en hann mun eigi hafa launað það miklu, þá er hann var orðinn konungur í Noregi.[1]) Eptir dráp Tryggva konungs Ólafssonar og Guðröðar konungs Bjarnarsonar lagði Haraldur gráfeldur Víkina undir sig, án þess að leita samþykkis Haralds Gormssonar eða greiða honum skatta. Hann tók því vel við Hákoni jarli Sigurðssyni og fjellst á ráð hans að láta drepa Harald gráfeld með svikum (969 eða 970).[2]) Síðan fór

---

[1]) Saxo segir, lib. X, bls. 477, 479, að Haraldur gráfeldur hafi lofað að borga Haraldi blátönn skatt fyrir liðveisluna og að hann hafi gert það í þrjú ár. [2]) Hve nær Haraldur gráfeldur fjell er óvíst, og sagnaritarar hafa sett dauða hans á árunum 962 til 976. Á hans dögum var hallæri mikið í Noregi Hist. Norv. 108; Ágr. 8 385; Oddr² 1 2; Fsk. 13,53; Hkr. I, 2,229, 16,252—254, 12,274. Einnig var óaldar vetur mikill á Íslandi í heiðni og er sagt að hann hafi verið „í þann tíma er Haraldr konungr gráfeldr fell en Hákon jarl tók ríki í Noregi“. Eptir miðja 11. öld var annað óáran á Íslandi. Það er sagt að það hafi hafist þann vetur, er Ísleifur tók biskupsvígslu af Aðalbert erkibiskupi, en manndauði hafi verið mestur af sulti þann fyrsta vetur, sem Ísleifur var á Íslandi (1057—1058) Skarðsárb. Ldn. 323. Ísleifur var vígður 26. maí 1056 og var þá á útmánuðum hjá Aðalbert erkibiskupi, en næsta vetur var hann í Noregi, Íslb. 9,14, og fór síðan til Íslands og var fyrsti biskups vetur hans þar 1057—1058. Höfundur eða ritari Skarðsárbókar segir að biskupsvígsla Ísleifs hafi verið á dögum Haralds harðráða, en annars hefur honum alls eigi verið nákvæmlega kunnugt um tímatalið. Hann hefur ætlað að Ísleifur biskup hafi verið hjá Aðalbert erkibiskupi veturinn 1056—1057, en eigi vitað að hann var utan tvo vetur. Að manndauðinn var mestur veturinn eptir að Ísleifur var kominn heim, sjest af því, að sumarið eptir ljet hann heita á alþingi að menn skyldu fasta hinn 12. dag jóla um þrjú ár. Veturinn á undan 1056—1057 hefur hallæri verið mikið á Íslandi og má vera að það hafi byrjað árið áður. Það er sagt að 80 vetrar hafi verið á milli þessa hallæris og óaldarvetursins í heiðni, Skrsb. Ísl. 1. 323, og hafa því allir elstu annálaritarar sett hann eptir því árið 975 og fall Haralds gráfelds árið eptir (976), nema Konungsannáll, er setur hvorttveggja árið 975. Haraldur gráfeldur hefur eflaust verið fallinn og Hákon jarl setstur að ríkisstjórn í Noregi fyrir nokkru, þá er Ottó keisari annar fór herferð til Danmerkur. Nú vita menn með vissu að það var 974, því að þýskir annálaritarar, sem þá voru uppi (svo sem Thietmar biskup í Merseborg, † 1018), geta þess. Annálar þeirra eru prentaðir í Pertz, Monumenta historica Germaniæ. Scriptores III. Sbr. einnig um herferð þessa Joh. Steenstrup, Danmarks Sydgrænse og Herredømmet over Holsten, Kbhavn 1900, bls. 62—65; Jahrbücher des Deutschen Reiches unter Otto II und Otto III. Leipzig 1902 I, 55—56.

hann með mikinn her til Noregs og kom til Túnsbergs og gekk þá landsfólkið undir hann. Hann gaf þá Hákoni jarli til forráða allan Noreg vestanfjalls sunnan frá Líðandisnesi; skyldi hann hafa það ásamt föðurleifð sinni í Þrándheimi og gjalda Danakonungi skatt. Sjálfur tók Haraldur blátönn Víkina undir sig og setti þar að sögn Snorra Harald hinn grenska yfir og gaf honum konungsnafn.[1])

Bæði í Fagurskinnu og Heimskringlu er getið um kristniboð Haralds konungs blátannar í Víkinni. Í Fagurskinnu segir að þar hafi verið komin boð Danakonungs um rjetta trú, þá er Hákon jarl kom þangað úr leiðangrinum móti

Haraldur gráfeldur hafði eigi setið lengi að völdum, áður en óáran varð í Noregi, og mikið hallæri á að hafa verið þar í landi, er hann fjell. Ef hallæri hefði verið mjög mikið í nálægum löndum á einhverju af þeim árum, sem hjer ræðir um, hefði ef til vill mátt álykta af því, hvaða ár það hefði verið í Noregi, því að stundum eru hallæri svo mikil og víðtæk að þau ná til margra landa eins og t. a. m. 868, en optast eru þau að eins á litlu svæði, í einu landi eða nokkrum hluta þess. Á ríkisárum Haralds gráfelds var ekkert slíkt stórkostlegt hallæri, sbr. Frits Curschmann, Hungersnöte im Mittelalter, Leipzig 1900 (Leipziger Studien). Í Heimskringlu I 12/274, sbr. einnig Fsk. 14/63—64 er þess getið að árferði hafi verið viðunandi í Danmörku, svo að hallærið hefur eigi náð þangað. Joh. Steenstrup hefur bent á, að í írskum annálum sje sagt að óáran mikið hafi verið á Írlandi 964. Ef ætla mætti að hallæri þetta hafi náð til Noregs, þá mætti setja fall Haralds gráfelds og upphaf ríkisstjórnar Hákonar jarl 965, segir Steenstrup, sbr. rit hans, Venderne og de Danske, Kbhavn. 1900, bls. 58—59. Verið getur að þetta sje rjett, en þó er engin vissa fyrir því. P. A. Munch, Hist. II, 11—14 nm. setur einnig falls Haralds gráfelds 965, en þá verða stjórnarár hans eigi fleiri en fimm og það er ólíklegt Sæmundur fróði telur þau 9, Flat. II, 522; Ari fróði 15, Hkr. I, 19/277; Theodricus munkur 12, Mon. hist. Norv. bls. 10, og sama segir í Konungatali í Flat. I, 583. Sbr. um þetta Safn I, 314, 387, 425; K. Maurer, Die Bekehrung II, 509 o. ef.; A. Gjessing, Kongesagaens Fremvæxt II, Christjania 1876, bls. 20 o. ef. Það mun mega telja alveg víst að Haraldur gráfeldur hafi eigi fallið fyr en 965 og eigi síðar en 970, en að það hefur líklegast verið annaðhvort 969 eða 970.

[1]) Theodric 10—11; Fsk. 14/68; Oddr 15/257, Oddr² 11/15; Hkr. I, 15—16/278—280 (Vellekla). Á bautastein þann hinn mikla, sem Haraldur Gormsson reisti yfir foreldra sína í Jalangri (nú Jellinge) skamt frá Vejle á Jótlandi og enn stendur þar, ljet hann rista, að hann hefði unnið alla Danmörku og Noreg og kristnað Dani. Wimmer, De danske Runemindesmærker I, 17—30, (Kbhavn 1895).

Ottó keisara öðrum, og bauð hann að hafna skyldi blótum og láta skírast. Fyrir sakir ríkis hans reis enginn maður á móti því og ljetu margir skírast; en Hákon jarl sneri mönnum til blóta.[1]) Snorri segir aptur á móti að Haraldur Gormsson hafi sent tvo jarla í Noreg með mikið lið til þess að boða þar kristni. Það gekk við í Víkinni, þar sem ríki Haralds konungs stóð yfir og skírðist þá margt landsfólk. Snorri greinir eigi hvað jarlar þessir hjetu.[2]) En í Jómsvíkinga sögu og í sögum Ólafs Tryggvasonar, bæði eptir Odd munk og í lengstu sögunni, er sagt að Ottó keisari hafi sent jarla tvo í Noreg með 12 kugga[3]) hlaðna af mönnum og vopnum, til að kristna landið á meðan Hákon jarl var í brottu að berjast á móti honum í Danmörku. Jarlar þessir eru nafngreindir og hjet annar þeirra Urguþrjótur, en hinn Brimilskjarr. Þeir kristnuðu Víkina, en hjeldu burtu, þá er Hákon jarl kom þangað.[4]) Það nær ekki neinni átt að þetta sje rjett, en hin ókendu nöfn jarlanna munu hafa valdið því, að sú skoðun hefur myndast að þeir hafi verið menn keisarans; en hann gerði eigi út kristniboða til Noregs. Johannes Steenstrup hefur bent á að nöfn þessi gætu verið slavnesk og að þetta hafi verið höfðingjar tveir frá Vindlandi, sem hafi verið í þjónustu Danakonungs; fyrir því hafi hann sent þá til Noregs. Hann bendir á ýms slavnesk nöfn til samanburðar, en segir að þetta sje þó einungis getgáta;[5]) hins vegar virðist hún eiga við töluverðar líkur að styðjast.

Snorri getur um að þetta hafi verið, eptir að Haraldur blátönn tók kristni og á meðan hann hafði yfirráð yfir Víkinni, en hann segir eigi nánar, hve nær það var. Hann setur þetta eigi í samband við Ottó keisara eða Hákon jarl.

Hákon jarl barðist með Háraldi blátönn sem ljensmaður hans móti Ottó keisara 974. Áður en hann fór til Noregs, neyddi Haraldur hann til þess að láta skírast og fjekk honum presta og bauð honum að láta skíra alt fólk í Noregi. En

---

[1]) Fsk. 15/78. [2]) Hkr. I, 53/360—61; Frís. 57/133. [3]) Í Ól. s Tr., Fms. I, 68/122, segir „með 30 kugga“. [4]) Oddr 12/246—48, 12/252; Fms. I, 68/122, 72/132; Flat. I, 83/110, 87/114; Jómsv. (Fms) 9/31, 12/41.
[5]) Steenstrup, Venderne og de Danske, bls. 57.

Hákon var einlægur heiðingi og reiddist þessu. Hann skaut prestunum á land, áður en hann ljet í haf, kastaði kristninni og gerði uppreist á móti yfirráðum Danakonungs. Þá er hann kom í Víkina, sneri hann að sögn Fagurskinnu öllum til blóta, þar sem hann kom, og hjet þeim trausti sínu; blótuðu þá margir þeir, er áður höfðu skírn tekið.[1])

Einar Helgason skálaglamm segir í hinni frægu drápu Velleklu, er hann orti um Hákon jarl, að hann hafi skjótt látið öll „hofslönd“ Þórs og goðanna verða sönn vje handa mönnum, þá er hann hafði fengið yfirráðin yfir öllum Noregi fyrir norðan Vík. Goðin sjálf hafi vitjað blótanna, og Hákon hafi fengið frama af því. Árferðið batnaði þá einnig skjótt í Noregi (um 970), og hyggur skáldið að það sje afleiðing af því, að Hákon jarl hresti við hofin og blótaði. Hann segir því hrifinn „Nú grær jörð sem áðan. Hinn örláti maður lætur menn byggja glaða aptur goðahof“.[2])

Kvæði þetta virðist benda á gjörðir Hákonar fyrir norðan Líðandisnes, þá er hann kom til ríkis um 970. En þótt hann hafi rjett við heiðnina í Víkinni 974, kom Haraldur Gormsson árið eptir til Noregs með mikinn her og mun hann þá hafa reist við kristnina aptur í Víkinni. Einnig hjelt hann þar yfirráðum á meðan hann lifði. En eptir fráfall hans efldi Sveinn konungur tjúguskegg, sonur hans, eigi kristnina í Noregi, og þá hurfu margir þeir aptur til blóta, er við kristni höfðu tekið í Víkinni. Noregur var því enn um hríð alheiðinn að kalla má.[3])

Hákon jarl var ákafur blótmaður og mikill styrktarmaður heiðninnar meðan hann mátti, enda er sagt að hann hafi blótað syni sínum til sigurs sjer.[4])

Sagnirnar um kristniboðið í Víkinni eru bæði litlar og

---

[1]) Fsk 15/76—78; Hkr. I, 27/302—304. [2]) Hkr. I, 16/280—281. Carmina norrœna, Khb. 1893, bls. 36. Skjalded, B, 119—120. [3]) Hkr. I, 33/315, 53/361. [4]) Hkr. I, 42/337. Saxo, lib. X, bls. 483, segir hiklaust, að hann hafi blótað tveimur sonum sínum, en það mun vera rangt; eins er sumt, sem er sagt um hjátrú hans og blótskap í hinum yngri heimildarritum, eflaust orðum aukið. Í Flat. I, 17, 346 er Hákon nefndur blótjarl.

sundurleitar; þær hafa fallið í gleymsku eptir öll stórvirki þeirra Ólafs Tryggvasonar og Ólafs Haraldssonar í kristindómsins þjónustu. En þótt lítið sje kunnugt um kristniboðið í Víkinni, er það þó víst, að Haraldur blátönn hafði látið boða þar kristni og að þar höfðu Norðmenn haft mest kynni af kristninni í Noregi, áður en Ólafur Tryggvason kom til ríkis; segir Snorri Sturluson, að hann hafi fyrst kristnað Víkina, og mun honum því hafa þótt ráðlegast að byrja þar.[1])

Á Íslandi hafði kristnin á landnámsöldinni eigi náð að festa fullkomlega rætur, nema í Kirkjubæ á Síðu. Hinir kristnu landnámsmenn[2]) höfðu flestir lítið við að styðjast á Íslandi, nema munnlegar sögusagnir um Krist og nokkra helga menn, svo sem Kolumkille, því að ýmsir þeirra höfðu tekið kristni af kennimönnum úr klaustrinu í Íóna. Þá vantaði kennimenn til þess að halda kristninni uppi.[3]) Þeir

---

[1]) Hkr. I, 53/361—363. A. D. Jörgensen, Den nordiske kirke, bls. 253—274, hefur fyrstur manna bent á hvaða þýðingu kristniboðið í Víkinni hafði. Hann ætlar að Hákon jarl hafi að eins einu sinni dvalið hjá Haraldi blátönn, áður en hann kom til ríkis í Noregi og að konungur hafi þá neytt hann til að láta skírast. Jörgensen setur svo þessa dvöl Hákonar jarls í Danmörku 971—977 og hallæri í Noregi 976. Den nord. kirke bls. 270—273. Þótt kristnitaka Haralds blátannar standi eigi í neinu sambandi við herferð Ottós keisara til Danmerkur, eins og fornsögur vorar segja, má vel vera að Hákon jarl hafi getað dvalið eitt ár hjá konungi, án þess að hann hafi neytt hann til þess að skírast, enda mun Hákon jarl hafa kunnað að fara gætilega með trú sína, ef hann hefur sjeð sjer hag í því. Eptir að hann aptur á móti hafði reist upp hof í Noregi og gerst ákafur blótmaður, var allmikil ástæða fyrir Harald konung að snúa honum til kristni, einkum þá er hann sjálfur hafði tekið að láta boða kristni í Víkinni. Tímatals reikningur Jörgensens er eigi sennilegur. Þótt bæði Fsk. og Hkr. segi margt rangt um herferð Ottós keisara, má þó telja víst að Hákon jarl berðist með Danakonungi á móti keisaranum (sbr. Velleklu), og er því mjög líklegt að það sje rjett í söguritum þessum að Haraldur blátönn hafi þá neytt Hákon jarl til að láta skírast. [2]) Sjá að framan I, 288—291. [3]) Sbr. Fms I, 119/244; Flat. I, 215/263. A. D. Jörgensen, Den nordiske kirke, bls. 212—213, ætlar, að Ásólfur alskik hafi verið kennimaður úr kuldeisku kirkjunni, sbr. að framan I, 8, og ætlað að boða kristna trú á Íslandi. „Þeir fóru 12 saman“, segir í Hksb. 21/13 og bendir frásaga hennar nokkuð á að svo hafi verið. Þó er þess eigi getið að þeir hafi boðað kristni, en

gátu eigi heldur fengið styrk til þess vestan um haf. Víkingarnir óðu þar uppi, og Írar og Bretar, Engilsaxar og Skotar áttu þá fullt í fangi í viðureign sinni við þá. Írskir og engilsaxneskir kennimenn fóru eigi um það leyti í miklar trúboðsferðir, nema þeir væru fengnir til þess, og hinir kristnu landnámsmenn höfðu eigi heldur færi á að mynda fjelag sín á milli og fá sjer kennimenn frá Ióna, en þangað var skemst fyrir þá að leita. Enginn rjetti því kristninni á Íslandi hjálparhönd og sökum þess gekk hún óviða í ættir, og landið mátti heita alheiðið, þá er hinir kristnu landnámsmenn fjellu frá.[1]) Ásatrúin stóð því á fyrri hluta söguldarinnar í sem mestum blóma á Íslandi, ef um blómaöld heiðinnar trúar getur verið að ræða á ættjörð vorri, þar sem hún ríkti svo skamman tíma og kristnin færðist nær og nær; einnig hafði Ásatrúin þá orðið fyrir töluverðum áhrifum og breytingum og varð þeim æ meira og meira undirorpin. En þessi tími var að sumu leyti eins og söguöldin í heild sinni eitthvert hið fríðasta skeið í allri sögu vorri fyr á tímum. Það var hreystibragur á flestu og táp í mönnum. Hugkvæmd manna var auðug. Trúin á Óðin og Valhöll kemur þá fram í skáldskapnum í hinni fegurstu mynd sinni. Nýjar sagnir myndast líklega um ragnarök og sum goðin.

En í nágrannalöndum vorum var um 960 komin á mikil breyting frá því, sem þar hafði verið, þá er Ísland bygðist. Kristnin hafði, eins og þegar er sagt, rutt sjer braut norður á Jótlandsskaga og norður að Orkneyjum og Hjaltlandi. Íslendingar voru orðnir nágrannar kristinna þjóða. Ef þeir fóru eitthvað lengra en til Noregs eða Orkneyja, komu þeir í kristin lönd, þar sem þeir sáu nýja siði og nýja trú, þar

landsmenn ómuðust meira við þeim en öðrum kristnum mönnum, og má vera að ein hin helsta ástæða til þess hafi verið sú, að þeir hafi reynt að boða kristni, þótt það hafi gleymst áður en sögur voru ritaðar. En þótt einstaka kennimenn kunni að hafa komið til Íslands, var þó skortur á þeim.

[1]) Síðast í Ldn. segir að landið væri „alheiðit nær hundraði vetra“. Þetta er eigi rjett, ef það er skilið eptir bókstafnum, en það þarf eigi heldur að gera það, og það er eigi ætlun höfunda Ldn., því að þeir geta um undantekningar.

sem menn tignuðu ósýnilegan guð með söng, bænahaldi og messugjörð og kendu sætan ilm undir guðsþjónustunni. Öll guðsdýrkunin var svo ólík blótum þeim, sem þeir höfðu vanist, að hún hlaut að vekja athygli margra þeirra. Sama er að segja um það, sem þeir heyrðu sagt af guði kristinna manna, að hann væri almáttugur, hefði skapað himin og jörð og stýrði öllum hlutum. En mest fanst þó flestum um Krist, sem var máttkari en Þór, og hafði farið niður til helvítis eða undirheima og bundið þar hinn versta óvin guðs og manna. Slíkar sagnir þóttu merkilegar.

Ýmsir ungir og framtakssamir Íslendingar voru jafnan í förum á þessum árum. Þeir fóru eigi að eins til Noregs, heldur og „vestur um haf" til Skotlands og Suðureyja, Írlands og Englands, og suður á bóginn til Danmerkur, Saxlands, og fleiri suðlægri landa. Þeir fóru einnig í Austurveg, til Garðaríkis og alla leið suður til Miklagarðs (Konstantinopel). Þannig er þess getið um Þorkel Þjóstarsson og Eyvind Bjarnason að þeir dvöldu báðir um hríð rjett fyrir miðja 10. öld suður í Miklagarði. Þeir voru báðir mörg ár í utanferðum sínum.[1]). Eptir það fóru ýmsir Íslendingar suður til Miklagarðs.

Í flestum þessum löndum gátu Íslendingar komist í kynni við kristna menn, sjeð helgihald þeirra, kirkjur og guðsþjónustu. Þeir gátu, ef þeir fengu einhverja löngun til þess eða ef forvitni vaknaði hjá þeim,[2]) kynst kristninni nokkuð, að minsta kosti að því leyti, er hið ytra snerti. Flestir þeirra hafa að minsta kosti fengið vitneskju um að önnur trú og annar siður var til en þeirra eiginn. Það fer líka aldrei svo, er margir menn ferðast í öðrum löndum og sjá ókunna siði og menningu, að það hafi eigi einhver áhrif á suma af þeim. Heimskir menn og áhugalausir geta farið svo víða um lönd, að þeir í raun rjettri læri ekkert verulegt eða nýtilegt og án þess að verða fyrir neinum þeim áhrifum, sem beri menjar og verði til þess að hefja þá upp á æðra

---

[1]) Hrafnk.[2] 3/97, 4/110. 8/127, 10/136. [2]) Sbr. Hkr. I, 82/404; Lax. 40/150; Fms. II, 165/37; Krist. 7/12.

þroskastig. En þeir menn, sem eru greindir og geta tekið andlegum þroska, eru móttækilegir fyrir áhrif annara og læra af því, sem þeir sjá og heyra. Því skynsamari og eptirtektarsamari og áhugameiri sem menn eru, því meiri áhrifum og þroska geta þeir tekið. Hugkvæmd slíkra manna kemst á flug, þá er þeir athuga framkvæmdir og siðu annara þjóða og bera það saman við verk og hætti landa sinna; nýjar hugmyndir kvikna, nýjar hugsanir vakna. Og því meira sem þeim finst til um eitthvað, því betur athuga þeir það, og því minnistæðara verður þeim það, en af því leiðir líka meiri áhrif en ella.

Viðkynning Íslendinga af umheiminum var um þessar mundir tiltölulega mikil. Það getur eigi heldur verið neinum efa undirorpið, að hinar sífeldu ferðir þeirra á söguöldinni — og öllum þjóðveldistímanum — til annara landa, höfðu mikil áhrif á þá og stórkostlega þýðingu fyrir þá sjálfa. Heimildarritin, fornsögurnar, saga þeirra öll sýnir það, ef hún er skoðuð í sambandi við sögu annara þjóða á þeim tímum.

Trúarbrögð Íslendinga fóru eigi heldur varhluta af þeim áhrifum, sem viðkynning ýmsra landsmanna við kristnar þjóðir hlaut að hafa í för með sjer.

Þá er Þorkell Þjóstarsson hafði veitt Sámi Bjarnasyni lið og rekið Hrafnkel Freysgoða frá Aðalbóli, ljet hann fletta goðin öll á Aðalbóli og síðan leggja eld í goðahúsið og brenna alt saman (um 945).[1]) Þetta hefði Þorkell eigi gert, ef hann hefði aldrei farið utan og aldrei dvalið í kristnu landi; en hann hafði verið lengi í Konstantinopel og hafði eflaust hafnað öllum átrúnaði á Æsi og ef til vill verið kristinn, þótt þess sje eigi beinlínis getið.[2]) Hvaða ástæða var

---

[1]) Hrafnk[2] 6/125. [2]) Til samanburðar má geta þess hjer, hvílík áhrif hin gríska guðsþjónusta hafði á hina heiðnu sendimenn Vladimirs Rússakonungs, að því er sagan segir. Það var rjett um það leyti sem kristni var boðuð á Íslandi. Vladimir var konungur í Kænugarði 980 til 1015 og vildi eigi láta skírast fyr en hann hafði látið nokkra af mönnum sínum grenslast eptir hvaða trúarbrögð væru best. Hann sendi því 10 vitra menn og vandaða í þeim erindum til nágrannaþjóða sinna. Í

annars fyrir hann að ráðast á goðin og hofið og brenna upp hvorttveggja?

Þá er Íslendingar dvöldu með kristnum þjóðum, urðu þeir líka að taka nokkuð tillit til trúarbragða þeirra. Þeir gátu auðveldlega hitt þá menn fyrir, sem teldu um fyrir þeim að láta skírast, en þó það væri eigi gert, urðu þeir samt að semja sig dálítið að siðum kristinna manna. Þórólfur og Egill Skallagrímssynir urðu að láta prímsignast til þess að geta verið með Aðalsteini Engla konungi; er sagt að það hafi þá verið „mikill siðr bæði með kaupmönnum ok þeim mönnum, er á mála gengu með kristnum mönnum, því at þeir menn, er prímsignaðir váru, höfðu alt samneyti við kristna menn ok svá heiðna, en höfðu þat at átrúnaði, er þeim var skapfeldast.“[1])

Þá er þeir fóstbræður Gísli Súrsson og Vjesteinn Vjesteinsson höfðu veturvist ásamt Bjálfa fjelaga sínum suður í Vjebjörgum (961—962), ljetu þeir allir prímsignast að sögn hinnar svo nefndu meiri sögu af Gísla Súrssyni, því að þá var kristni komin í Danmörku. Þótt þetta sje líklega viðbót við frumrit sögunnar, mun hún þó vera rjett; á það benda orð í hinu skemmra handriti sögunnar, þar sem sagt er að Gísli hafi látið af blótum síðan hann var í Vjebörgum.[2])

---

Miklagarði voru þeir í Sofíukirkjunni (Aya Sofia) og sáu þar mjög hátíðlega guðsþjónustu. Söngurinn í grísk-katólskum kirkjum, einkum í Konstantinopel, var á þeim tímum miklu fegurri en í kirkjunum í öllum Vesturlöndum Norðurálfunnar; enda urðu sendimennirnir svo gagnteknir af hinni dýrðlegu guðsþjónustu og af söngnum í kirkjunni, að þeir sögðu, þá er þeir komu aptur til Vladimirs konungs, að þeir vissu eigi, „hvort þeir hefðu verið á himni eða jörðu, því að slík dýrð og fegurð er annars eigi til á jörðunni.“ Þeir kváðust eigi geta lýst því, en það vissu þeir samt, að guð er þar sjálfur meðal mannanna og guðsdýrkunin er þar fegurri en í nokkru öðru landi. Til þess að mæla sem best með hinum gríska kristindómi, sögðu þeir: „Ef hin gríska trú væri vond, mundi Helga (Olga) amma þín, sem var spakari en allir aðrir menn, eigi hafa tekið hana“. Nestors russiske Krönike. Oversat og forklaret af C. W. Smith. Kbh. 1869. Bls. 86—87.

[1]) Eg. 50/156. [2]) Gísl. st. 96, m. 18; Gísl.[2] 10.23. Um hlutfallið á milli handritanna af Gísla sögu sjá útgáfur þeirra Konráðs Gíslasonar og Finns Jónssonar af sögunni og einkum F. Jónsson. Litteraturhist. II, 450.

Þess má sjá merki, hvaða áhrif atburðir þessir höfðu.

Þá er Sámur Bjarnason hafði tekið Aðalból, bauð hann þangað til veislu öllum þeim, sem verið höfðu þingmenn Hrafnkels. Á meðan þeir voru þar, ljet Þorkell brenna goðin og goðahúsið eins og fyr er sagt, og þeir bræður hrundu hinum helga hesti Freyfaxa fram af hamri og týndu honum svo. En þrátt fyrir þetta varð ekkert tíðinda. Goðin gátu eigi bjargað sjer, og þingmenn þeir allir, sem áður höfðu sótt að hofi þessu, stóðu hjá og horfðu á og gerðu eigi neitt til þess að hjálpa goðunum. Ýmsir þeirra höfðu eflaust vænt þess að þau gætu bjargað sjer sjálf, þar sem þeir trúðu á þau og að þau gætu veitt bæði sjálfum sjer og öðrum mikla hjálp. En traust þeirra til goðanna hefur hlotið að minka eigi alllítið, er þeir sáu hvernig fór fyrir Hrafnkeli og þeim sjálfum.

Sagan segir ekkert um hvaða áhrif þetta hafði á þingmennina, en hún greinir frá því, hvernig fyrverandi höfðingja þeirra blótmanninum Hrafnkeli Freysgoða varð við, þá er hann spurði að Þjóstarssynir höfðu týnt Freyfaxa og brent hofið. Hann misti þegar alla þá trú, sem hann hafði enn á Frey og goðunum og mælti: „„Ek hygg þat hégóma at trúa á goð," ok sagðiz hann þaðan af aldri skyldu á goð trúa; ok þat efndi hann síðan, at hann blótaði aldri." [1])

Egill Skallagrímsson dvaldi alllengi með Aðalsteini konungi. Þó hann tæki eigi kristni, er það þó auðsætt af Sonatorreki að kristin trú hefur haft nokkur áhrif á hann. Egill var skapmaður hinn mesti; hann var einnig goði,[2]) en þó kemur það aldrei í ljós að hann væri mikill blótmaður. Í Sonatorreki kemur hins vegar fram nokkur sjerskoðun hjá honum á öðru lífi, sem minnir á skoðun kristinna manna.[3]) Egill talar þar líka um trú sína á Óðin og segir:

Áttak gótt
við geirs dróttin,
gerðumk tryggr

---

[1]) Hrafnk[2] 7/126. [2]) Eg. 81/302 sbr. 78/288. [3]) Sjá að framan bls. 128.

at trúa hánum,
áðr vinan
vagna rúni
sigrhöfundr,
of sleit við mik.

Blœtka því
bróður Vílis,
goðjaðar,
at gjarn séak,
þó hefr Míms vinr
mér of fengnar
bölva bœtr,
es et betra telk.

Gáfumk íþrótt
ulfs of bági
vígi vanr,
vammi firrða
ok þat geð,
es gerðak mér
vísa fjándr
af vélöndum.[1])

Egill virðir það við Óðin að hann gaf honum skáldskaparíþróttina, annars þykir honum hann hafa slitið vináttu við sig, þar sem hann hafði eigi varið hann sonamissi. Traust hans á Óðni var nærri því að bresta.

Gísli Súrsson tók eigi kristni, en viðkynning hans af kristindóminum hafði þó töluverð áhrif á hugsanir hans um annað líf. Hann dreymir um það í útlegð sinni. Í draumnum kemur hann í sal, þar sem hann sá framliðna frændur og vini. Kona, sem kölluð er í sögunni draumkona hans, fylgdi honum og sagði, að hann ætti sjö vetur eptir ólifað og skamt væri til hins betra. Hún rjeð honum að nema eigi galdur, heldur það, er gott væri skáldum. Fátt væri

---

[1]) Eg. bls. 367. Skjalded. B. 37.

verra fyrir hermann en að kunna ilt. Hún bað hann vera friðsaman og hjálpa blindum, handlausum og höltum. Kveð eigi ilt háð. „Hygg at því skjaldar Baldr“.

Gisla dreymdi einnig um sælubústað eptir dauðann, en um Valhöll dreymdi hann eigi.[1])

Gísli skýrir frá þessu í vísum sínum, og munu þær vera rjettmæt vitni eptir hann sjálfan.[2]) En þær votta það að Gísli hefur alls eigi verið neinn ásatrúarmaður, heldur að kristin trú hefur haft áhrif á hann og að hann hefur hugsað mikið um annað líf. Hann vill vanda líferni sitt og væntir þá góðs eptir dauðann. Hann hefur í útlegð sinni leitað huggunar í siðferðislegum hugsunum og í þeirri trú, sem hann vissi að var í Danmörku en þekti þó lítið. Eptirtektaverð og einkennileg í þessu sambandi er einnig hin síðari æfi Auðar, ekkju Gísla Súrssonar, er var með honum í útlegð hans, þá er hún mátti því við koma. Hún var hin mesta trygðakona, tápkona mikil og vel greind. Nokkru eptir fall Gísla fór hún utan og með henni Gunnhildur ekkja Vjesteins bróður hennar. Þær fóru til Danmerkur og tóku þar við trú í Heiðabæ. Síðan gengu þær suður, en komu eigi aptur.[3]) Þær voru hinir fyrstu suðurgöngumenn frá Íslandi, er sögur fara af. Þetta bendir á að Gísli Súrsson hafi haft nokkur áhrif á Auði í trúarmálum eða á þær báðar.

Kristin trú hafði eigi heldur kulnað algjörlega út á Íslandi.[4]) Af orðum Landnámu um að hún hafi „óvíða í ættir“ gengið, mætti jafnvel ráða, að einhverjir fleiri en niðjar Ketils fíflska hafi varðveitt hana og verið kristnir. Það er líka getið um konu eina, sem Gróa hjet og kölluð var „hin kristna“; mun varla vera efi á því, að hún var kristin, eins og auknefni hennar bendir á. Hún var dóttir Geirleifs

---

[1]) Gísl.[2] 21/56—58, 29/79—80. Finnur Jónsson skýrir „ilt kveða háð“ = menn kveða háð ilt, sbr. Skjalded. B bls. 99, en mjer finst það í samræmi við anda vísunar að skýra „kveða“ = kveð eigi. [2]) Finnur Jónsson telur þær eflaust eptir Gísla. Litteraturhist. I, 518. [3]) Gísl.[2] 37/100. [4]) Nj. 101/532; Krist. 7/12; Fms. II, 216/202; sbr. að framan I, 291.

landnámsmanns á Barðaströndinni og var föðursystir Gests hins spaka Oddleifssonar. Hún hefur verið uppi á fyrri hluta 10. aldar og um miðbik aldarinnar. Hvort hún hefur farið utan og tekið þar kristni eða af einhverjum kristnum manni innanlands, er nú ókunnugt.[1]) En hvað sem um það er, er það samt víst, að endurminningar og sagnir lifðu víða á Íslandi um þá landnámsmenn, sem höfðu verið kristnir, og að sumum, eigi síst ýmsum mönnum á Síðunni, hefur verið það kunnugt, að einstaka menn á landinu hjeldu enn trygð við kristnina. Mörgum Íslendingum hefur því eigi að eins verið kunnugt um að kristin trú var til, heldur og að hún hafði komið til Íslands og var þar enn til.

Sögurnar geta um einstaka kristna Íslendinga á meðan landið var heiðið. Einn þeirra, Þorleifur hinn kristni Ingileifarson[2]) hefur þegar verið nefndur, því að hann kom við sögu Vopnfirðinga fyrir miðja söguöldina. Þess er eigi getið hvar hann tók kristni, en það hefur eflaust verið erlendis. Hann var í siglingum bæði með Norðmönnum og suðureyskum mönnum, og var kristinn, þá er hann kom út um 975. Hann átti bú í Krossavík í Reyðarfirði og settist þar að, þá er hann ljet af siglingum. Hann virðist hafa verið einlægur trúmaður og hafa viljað breyta eptir kristilegri kenningu. Hann sýndi óvenjulega mikinn drengskap og rjettlæti í viðskiptum við menn ásamt mikilli djörfung og festu. Hann var vinsæll maður. Hann vildi eigi gjalda hoftoll sem aðrir bændur, og vakti það nokkra eptirtekt þar eystra, en hann ljet eigi neyða sig til þess.[3]) Það er eigi ólíklegt að slíkur maður hafi haft einhver áhrif á heimamenn sína og nánustu vini sína í Austfjörðum að því er skoðun þeirra snerti á trúarefnum.

Litlu síðar eða ef til vill um sama leyti sem Þorleifur hinn kristni tók hinn fyrsti kristniboðandi á Íslandi, Þorvaldur

---

[1]) Ldn. 25/138, 351: Mb. 42/241. [2]) Föðurnafn hans er ókunnugt, en stjúpi hans var Ásbjörn loðinhöfði. Í registrinu við Biskupa sögur er hann kallaður sonur hans, en það er rangt. [3]) Vápn.[2] 4—5 29—39; Krist. 11/23—24; Fms. II. 228/238—239; Ldn. 3/245.

viðförli, kristna trú í útlöndum. Einnig er getið um einstaka Íslendinga, sem ljetu skírast erlendis fám árum síðar.[1]) En þótt sögurnar segi að eins frá einstaka Íslendingum, sem urðu fyrir áhrifum kristninnar eða tóku skírn og snerust algjörlega til kristinnar trúar, eru þó næsta litlar líkur til þess að þær segi frá því ávalt, er það kom fyrir.[2]) Það væri mikill misskilningur að ætla, að sögurnar segðu frá öllu því, er gerðist á söguöldinni. Og að því er trú manna snertir, skýra þær venjulega einungis frá henni, þá er það snertir þá menn eða atburði, sem sögurnar eru af. Það má því telja víst að stundum hafi einstaka Íslendingar eigi að eins íhugað kristna trú og orðið fyrir áhrifum af henni, heldur og látið skírast, þótt þess sje hvergi getið. Það hefur, eins og margt annað, gleymst eins og eðlilegt er, áður en sögurnar voru ritaður, enda þurfti það eigi að snerta neina þá sögu, sem til er, og þá var engin ástæða til þess að geta þess í þeim.

Það er eigi heldur hægt að vita, hvaða áhrif einstaka kristnir menn, sem voru á Íslandi, kunna að hafa haft á suma nágranna sína og vini, eða einstaka kristnir menn, sem komu til landsins frá Suðureyjum[3]) eða ef til vill frá öðrum kristnum löndum. Þótt áhrif þessi hafi eigi verið mikil, hafa þau þó opnað augun á einstaka mönnum, vanið

---

[1]) Nj. 81/380 (Kolskeggur). Fms. I, 139/276 (Stefnir Þorgilsson). Í þætti af Ormi Stórólfssyni, Flat. I, 417/529; Fms. III, 8/222 er sagt að hann væri prímsigndur í Danmörku en kristnaður á Íslandi, og á það að hafa gerst í lok 10. aldar. Ormur var uppi á fyrri hluta 10. aldar, en þáttur hans er eigi sönn saga. Svipaðar ýkjur eru í sögu Finnboga hins ramma um kristnitöku hans, sbr. 20/40, 36/69. Tímatalið er þar einnig alt vitlaust og öll líkindi eru til að Finnbogi hafi fallið frá áður, en kristni var lögtekin á Íslandi. [2]) Til samanburðar má geta þess að í Noregs konunga sögum er þess nálega aldrei getið um nokkurn Norðmann að þeir hafi tekið kristni erlendis, nema um þá menn af konungsættinni, sem reyndu að kristna Noreg. Sagan af Finni Sveinssyni, Fms. II, 201/153—158, er undantekning, enda kemur hann við kristniboð Ólafs Tryggvasonar. Af útlendum heimildarritum er það þó kunnugt, að margir Norðmenn, sem voru fyrir vestan haf, tóku þar kristni. Sumir þeirra hafa þó eflaust komið aptur til Noregs.
[3]) Ldn. 14/106, sbr. hjer að framan bls. 266.

þá dálitið við kristnina og gert þeim ljettara að taka skírn, þá er þar að kom. Að því studdi líka mjög útbreiðsla kristninnar í öðrum löndum; því fleiri sem tóku kristni, því meira var hún metin.

Ýmislegt bendir einnig á að margir menn á síðari hluta 10. aldar hafi hugsað töluvert um trúarbrögð og átrúnað sinn, aðallega þó um það á hvern guð væri best að trúa, hvaða guð mundi veita mönnum mesta og besta vernd og liðveitslu, þá er í nauðir ræki. Íslendingar skoðuðu þá goðin sem vini sína eða fulltrúa, enda eru þau stundum nefnd svo. Þeir litu svo á samband sitt við þau og viðskipti eins og þeir hefðu gert samning við þau, og að báðir málsaðilar væru skyldugir að halda hann og hefðu hag af því. Þeir skyldu blóta goðin með fórnfæringum, en þau aptur á móti vernda þá fyrir voða og tjóni. Ef reyndin sýndi að þau gerðu það eigi eða gátu það eigi, þá voru menn lausir allra mála við þau.[1]) Það var því þýðingarmikið að vita hvaða guð væri máttugastur, þá er menn völdu sjer einhvern þeirra fyrir vin eða fulltrúa, eða hvaða vætt væri hollust, ef valið stóð á milli þeirra. Það hefur eflaust haft mest áhrif á marga, er þeir snerust til kristinnar trúar, að þeir sannfærðust um að Kristur væri máttugri en Þór og Óðinn, og því væri traustari hjálpar að vænta hjá honum en þeim.[2])

En þess konar trú laut mest að því, hvað hagsælast og öruggast væri í daglegu lífi, enda munu flestir hafa hugsað mest um það. Gísli Súrsson hugsaði þó hærra, um hina siðferðislegu hlið lífsins. Eins gerði að sögn Þorkell máni og Þorsteinn Ingimundarson, og þeir námu eigi staðar við það, heldur hugsuðu þeir um sköpunarverkið, hve máttugur sá guð væri, sem hefði skapað sólina. Þeir sáu að sólargeislarnir lýstu jörðunni, vermdu hana og græddu alt. Fyrir því trúðu þeir að sá guð, sem hefði skapað sólina, væri

---

[1]) Eyrb. 3/5, 4/5, 7/8; Eir. r. 8/35; Hrafnk.[2] 3/97; Glúm. 9/29 sbr. 14/40—41; Harð. 15/44, 15/50, 19/59 sbr. 7/15; Flat. I, 298/367. [2]) Krist. 2/5; Þorv. þ. 2/38—41; Vápn. 5/37; Nj. 102/538—539; Fms. II, 201/157 (Flat. I, 313/389).

máttkastur allra guða og rjeði öllum hlutum[1]) en á Æsi og önnur goð voru þeir vantrúaðir.

Þessi dæmi sýna að vitrir Íslendingar á þeim tíma, sem hjer ræðir um, hugsuðu allmikið um trú og guðdóma, og að þeir gátu hafið hugann hátt og beint honum að hinum miklu ráðgátum lífsins, að hinni eilífu spurningu, sem afarmargir andans menn á öllum öldum hafa hugleitt, en enginn hefur fengið úr leyst, spurningunni um upphaf heimsins og tilverunnar. Ljóst dæmi upp á þetta er hið fræga kvæði Völuspá, sem er frá þessum tíma, líklega síðari hluta 10. aldar.

Hver ort hefur Völuspá vita menn eigi. Höfundur hennar hefur verið ágætt skáld eins og Egill Skallagrímsson eða Kormákur Ögmundarson, og getað hafið sig hátt og sjeð yfir alt hið mikla yrkisefni sitt. Hann hefur hugsað djúpt um mannlífið og tilveruna eins og þeir Þorkell máni, Þorsteinn Ingimundarson, Njáll Þorgeirsson eða Einar Þveræingur og sumir aðrir hinir spökustu og göfgustu Íslendingar á söguöldinni, því að hann reynir að skilja hið innsta samband tilverunnar Á síðari hluta 10. aldar voru flest hin bestu skáld á norrænu máli íslensk, og að því leyti eru mest líkindi til að Völuspá sje eptir einhvern Íslending. Þó voru þá góð skáld uppi í Noregi, að líkindum fleiri en nú eru kunn. Hvar Völuspá er ort, veit enginn með vissu. Höfundur hennar hefur átt heima einhversstaðar „við það haf, sem bar Norðurlandabúann til ókunnra landa og vaggaði nýjum hugsunum heim til átthaga hans. En það var maður, sem alt þetta hafði áhrif á og gat skilið armæðu herlífsins og haft hugboð um fullkomnun. Það var skáld, sem hafði hlýtt á hina hrífandi hátign í kvæðum vestan hafs um stórverk guðs, um tortímingu heimsins og endurreisn“.[2])

Frá efni Völuspár er áður skýrt allmikið í þættinum um trúarbrögðin. Það er úr heiðinni goðafræði um upphaf heims og endi, um líf guða og manna, en hugmyndir eru

[1]) Ldn. 9/38; Vatn. 37/59, 46/77. Þórir Ingimundarson trúði einnig á þann guð, sem sólina hefur skapað. [2]) Axel Olrik, Nordisk Aandsliv. Kbhavn 1907, bls. 64. Að höfundur Vsp. hafi heyrt kvæði vestan hafs er auðvitað getgáta, en eigi ólíkleg.

þar nokkrar, sem eiga líklega að einhverju leyti uppruna sinn að telja til kristninnar.[1]) Blærinn á tilverunni og á einstökum dráttum ber vitni um lífsskoðun, sem ber keim af kristnum hugsunum, hvort sem skáldið hefur vitað af því eða eigi. Það hefur verið heiðinn maður, sem hefur orðið fyrir kristilegum áhrifum. „Það er djúp mótsetning milli þess kvíða, sem fyllir lífið eins og það er og eins og það kemur skáldinu fyrir sjónir, og þeirrar dýrðar, sem hefur verið á jörðunni og vinna má aptur eptir stórkostlega tortímingu og hreinsun. Þessi mótsetning er sú lífsbirta, er aðgreinir skoðun skáldsins frá hinni fornu heiðnu frumskoðun“.[2])

Á Íslendingum hafði verið enn meiri hreifing og flutningur en á þeim Norðmönnum, er bjuggu langt inn í landi eða upp til fjalla. Fyrir því var hvergi eins rótgróin venja á Íslandi eins og í sumum afdölum í Noregi. Í ýmsum afskektum bygðum í Noregi hafa menn hlotið að vera þröngsýnni og óvanari breytingum og nýjum hugsunum en á Íslandi, þar sem feður sumra og forfeður flestra lands-

---

[1]) Sem vitni um kristilegar hugmyndir og drætti í Völuspá eða um keim af þeim hafa menn helst talið siðaspillinguna, 45/8: „sól tér sortna, sígr fold í mar, hverfa af himni heiðar stjörnur“, og bruni jarðarinnar, 57/10: endurkoma jarðarinnar, 59/10: endurkoma Baldurs, 62/11: Gimlé, eilíf sæla og rjettlæti, 64/11, og 65. vísa: Þá kemr inn ríki o. s. frv. Það er trú á einn guð, en eigi heiðin goð. En þessi vísa, sem er að eins fjögur vísuorð, er eigi í elsta handritinu af Eddukvæðunum (Cod. reg., nr. 2365 í kgl. bókasafninu í Kmh.): telja sumir (Finnur Jónsson o. fl.) hana seinni viðauka, og má vera að það sje rjett. Um það er eigi hægt að segja með fullri vissu.

Skoðanir vísindamanna eru mjög skiptar um Völuspá og hafa þeir deilt lengi um hana, stundum af ofmiklu kappi. Má nefna hjer tvo íslenska vísindamenn, sem síðast hafa ritað um hana: ætlar annar þeirra Finnur Jónsson, Litteraturhist. I. 128 o. ef., Skírnir 1907 bls. 340, að hún sje alheiðið kvæði, en hinn Björn M. Ólsen að hún sje ort af kristnum manni, sem vildi sýna að sigur kristninnar yfir heiðninni væri óhjákvæmilegur og nauðsynlegur, að heiðin trú beri í sjer sinn eigin dauðadóm og að eptir hana muni koma hið eilífa ríki hins ríka, sem nefndur er í 65. v. Kristnitakan bls. 56, sbr. einnig ritgjörðir þeirra um Eddukvæðin í Tímariti Bókmfjel. 1894 og 1895. [2]) A. Olrik, Nordisk Aandsliv bls. 65.

manna, í 2. og 3. lið upp frá þeim mönnum, sem voru uppi í lok 10. aldar, höfðu flutt búferlum til landsins. Það er þess vegna alllíklegt að einstaka Norðmenn hafi verið fastheldnari við fornan átrúnað en Íslendingar reyndust, en yfirleitt var munurinn eigi mikill. Íslendingar voru eigi áhugalausir um goð sín og trú, þá er tekið var að boða kristni hjer á landi. Allur fjöldinn af þeim var meira en heiðinn að nafninu til. Margir þeirra voru miklir trúmenn í heiðnum sið,[1]) en er þeir íhuguðu grandgæfilega heimslífið og þær sagnir, sem þeir þektu um goðin og dýrkun þeirra, vann Ásatrúin eigi við slíkar rannsóknir, ef miklir vitsmunamenn áttu hlut að máli. Aðrir mistu líka traust sitt á goðunum, er þeim fanst þau bregðast sjer eins og Hrafnkell Freysgoði, Grímkell goði Bjarnarson og Víga-Glúmur.[2]) En þrátt fyrir þetta var þó heiðin trú, trú á sálir eða anda, trú á vættir og einstaka Æsi rótgróin hjá mestum hluta landsmanna, og eflaust einlæg hjá mörgum þeirra. Það virðist hafa verið heldur almennur siður að hver maður eða heimili ætti eitthvert goð, anda eða einhverja vætt fyrir „fulltrúa“ eða sem átrúnaðargoð. Landsmenn voru eigi heldur ófúsir á að taka upp nýja guði á meðal hinna fornu goða sinna, einkum ef þeir sannfærðust um að hinn nýi guð fengi veitt þeim mikla hjálp; sýnir það að trúarþörfin var töluvert rík hjá þeim. Það er einnig eptirtektavert að eitt heiðið skáld á þessum tíma, Eilífur Guðrúnarson, yrkir bæði um Krist og Þór, sína drápuna um hvorn.[3]) Því miður er drápa hans um Krist mestöll týnd, en líkingar hans eru ramheiðnar. Hann segir: Menn kveða hann (þ. e. Krist) sitja suður að Urðarbrunni: „svá hefr ramr konungr Róms remðan sik

[1]) Lax. 41/155; Gísl. 15/36; Hrafnk.[2] 2/96; Ldn. 11/201; Hallfr. 4/89; Vatn. 16/28. 25/41. 26/42 sbr. Ldn. 4/179; Krist. 2/6; Þorv. þ. 4/43; 5/44—45; Harð. 7/15. Annars eru tiltölulega færri blótmenn nefndir á söguöldinni en á landnámsöldinni; er það meðfram af því að eigi var eins opt ástæða til að nefna þá í sambandi við það, sem frá er sagt, eins og á landnámsöldinni, þá er menn fluttu til landsins og reistu hofin. [2]) Harð. 19/59; Glúm 26/78. [3]) Um Eilíf er lítið kunnugt. Finnur Jónsson, Litteraturhist. I, 548.

löndum setbergs banda". Hinn ríki Róms konungur hefur treyst svo vald sitt yfir heiðnum löndum.[1]) Það er auðsjeð að skáldið hefur haft Þór í huga, þá er hann kvað þetta: að eins kom Kristur úr annari átt.

En það var annað að taka einhvern nýjan guð upp á meðal hinna fornu goða og vætta, en að hafna öllum fornum átrúnaði og trúa einungis á einn guð og taka jafnframt upp „nýjan sið", að því er guðsþjónustu snerti. Siðaskiptin sjálf uxu eigi hvað minst mönnum í augum, og alt var það stórkostleg breyting á mörgu sem var rótgróið hjá þjóðinni og menn vanir við frá blautu barnsbeini, kynslóð eptir kynslóð. Slikt hlaut að mæta megnri mótstöðu og kosta allmikla baráttu.

En nú bárust sunnan að bylgjur nýrrar kenningar og andlegrar hreifingar til Íslands. Þær braut á fornum hugsunum og venjum. Annaðhvort varð undan að láta.

## Kristniboð Þorvalds víðförla.

Það var happ fyrir Ísland að nokkrir hinir bestu og göfugustu Íslendingar, sem þá voru uppi, gerðust frumkvöðlar að því ásamt nokkrum útlendingum að kristna landið. Einn þeirra, Þorvaldur hinn víðförli, hóf fyrstur kristniboðið á Íslandi, og Íslendingar sjálfir áttu að lyktum mestan þátt í því að kristin trú var í lög tekin á alþingi, þótt Ólafur konungur Tryggvason stæði á bak við með konunglegu veldi og brugðnu sverði, og herti á þeim með öllum hinum mikla dug sínum og kappi.

Þorvaldur Koðránsson var ágætur maður og mikill atgjörvismaður, bæði andlega og líkamlega. Á það benda

[1]) Sn-e I. 446 sbr. II. 333. Skjalded. B. bls. 144.

meðal annars sögusagnir nokkrar, sem hafa myndast um hann og er hin merkasta þeirra um álit Sveins konungs tjúguskeggs á honum.

Eitt sinn er sagt að Sveinn konungur sæti að einni ágætri veislu með tveim konungum öðrum. Þá er matur var fram borinn, sagði dróttsetinn, að eigi mundi einn skutill (þ. e. borð) verða síðan svo veglega skipaður sem þá, er „þrír svá voldugir konungar snæddu af einum diski". Sveinn konungur brosti og mælti: „Finna man ek þann útlendan bóndason, at einn hefir með sér, ef rétt virðing er á höfð, í engan stað minna göfugleik ok sómasemd en vér allir þrír konungar". Allir, sem heyrðu þetta, fóru að hlæja og spurðu hver þessi maður væri. Sveinn konungur svaraði: „Þessi maðr, er ek tala hér til, er svá vitr sem spökum konungi hæfði at vera, styrkr ok hugdjarfr sem hinn örugg-asti berserkr, svá siðugr ok góðháttaðr sem hinn siðugasti spekingr".

Þessi maður var Þorvaldur Koðránsson. Hann hafði verið í víking með Sveini konungi og reynst bæði hraustur maður og hugaður, ráðagóður og svo rjettlátur og góðgjarn að einsdæmi þóttu meðal heiðinna manna. Sagan segir að hann notaði alt það fje, sem hann fjekk í hlutskipti til útlausnar herteknum mönnum, er hann sendi heim aptur til feðra sinna eða frænda, eða þurfamönnum til hjálpar. Hann varð af þessu ástsæll mjög. Eitt sinn þá er Sveinn konungur herjaði á Bretland (Wales) og sótti langt á land upp, varð hann hertekinn og með honum Þorvaldur og margir aðrir göfgir menn. Höfðingi einn, sem átti Þorvaldi að launa frelsi sona sinna, kom að leysa hann út. En Þorvaldur vildi fyrir engan mun þiggja það, nema Sveinn konungur væri útleystur með mönnum sínum, og fjekk hann þannig borgið lífi konungs. Sökum þess á konungur að hafa lofað hann svo mjög að veislunni, þar sem sagt er að hann hafi skýrt frá þessu.[1]) Hvað sem satt er í sögu þess-

[1]) Þorv. þ. 1/36—38 (= Fms. I, 130/256—259). Þáttur af Þorvaldi víðförla er í hinni löngu sögu af Ólafi Tryggvasyni. Í Biskupa sögunum er hann prentaður eptir sama handriti sem í Fornmanna sögum.

ari, sýnir hún þó, hvernig Íslendingar hafa síðar hugsað sjer Þorvald víðförla.

Þorvaldur Koðránsson var af göfugri ætt, sonarson Eilífs arnar landnámsmanns, Atlasonar, Skíðasonar hins gamla, sem ættin hefur verið kend við (Skíðungaætt),[1]) og í frændsemi við marga merka menn á Norðurlandi. Koðrán faðir hans og Járngerður móðir hans bjuggu að Giljá í Þingi; segir sagan að Þorvaldur fæddist þar upp í litlu yfirlæti föður síns, þangað til Þórdís á Spákonufelli bauð honum til sín. Þórdís var spákona, forvitra og framsýn og mikil merkiskona;[2]) er eigi ólíklegt að hún hafi haft nokkur áhrif á Þorvald og vakið hann til umhugsunar á andlegum efnum. Hann fór ungur utan að hennar ráði og var fyrst í hernaði með Sveini tjúguskegg og herjaði með honum vestur um haf. Í Danmörku og á Englandi hefur Þorvaldur mátt fá nokkur kynni af kristninni; þótt Sveinn tjúguskegg væri í fyrstu lítill vinur kristninnar var hann þó skírður.

Þá er Þorvaldur ljet af víking, fór hann víða um „Suðurlönd".[3]) Sagan segir að hann fyndi suður á Saxlandi biskup þann, er Friðrik hjet, og tæki af honum skírn og trú rjetta, og væri með honum um hríð. Þorvaldur bað biskup fara til Íslands með sjer, að skíra föður sinn og móður, og aðra frændur sína, þá er vildu fylgja hans ráði. Biskup veitti honum það.[4]) Nánar segir ekki af skírn Þorvalds víðförla, en hvort þetta er rjett eða eigi, er eigi hægt að vita með vissu; mjög sennilegt er það þó eigi. Það má nærri geta að Þorvaldur hefur kynst kristninni, áður en hann kom til Saxlands, rjett áður en hann fór til Íslands, og er einnig líklegt að hann hafi verið skírður fyr, þótt þess sje eigi

---

[1]) Sjá að framan I, 156—157. Ætt Þorvalds er rakin í Ldn. 6/187—188; Þorv. þ. 1/35 (= Fms. I, 130/255); Flat. I, 223/268; Krist. 1/3; Nj. 113/582.
[2]) Vatn. 44/73—75 sbr. Ldn. 4/183, Mb.; Þorv. þ. 1/35—36; Flat. I, 223/269; Heið. 63; ver er henni borin sagan í Korm. 9/18, 22—23/45—50.
[3]) Krist. 1/3. Suðurlönd, þ. e. löndin, sem eru í suðri frá Norðurlöndum, Danmörku; með því að Saxland er eitt af þeim, er Þýskaland og önnur lönd í Mið-Evrópu talin með Suðurlöndum, eins og orðið er notað hjer. [4]) Krist. 1/3 sbr. Þorv. þ. 2/38, Flat. I, 223/269.

getið. Það er sjaldnast skýrt frá því, hvaða kennimenn hafi skírt þá Íslendinga, er skírn tóku í útlöndum, enda er þess engin von, að mönnum á Íslandi væri kunnugt um nöfn þeirra, nje að þau geymdust þar lengi, hafi þau nokkru sinni orðið þar alment kunnug. Hins vegar er harðla eðlilegt að sú sögn myndaðist á Íslandi, að Friðrik biskup hefði skírt Þorvald, þar sem þeir unnu saman að kristniboðinu og allir vissu að biskup skírði menn. Um Friðrik biskup er ekkert kunnugt, nema kristniboð hans á Íslandi. Hann er eigi talinn meðal biskupa á Saxlandi,[1]) en þó er varla efi á því að hann hafi verið biskup, þá er hann kom til Íslands. Hann er nefndur svo í níðvísu þeirri, er var ort um þá Þorvald. Ari fróði telur hann meðal útlendra biskupa á Íslandi[2]) og sögurnar nefna hann eigi heldur öðru nafni. Hann hefur því verið vígður kristniboðsbiskup áður en hann fór til Íslands, og er mjög líklegt að Aðaldagur erkibiskup í Brimum (937—988) hafi gert það.[3]) Aðaldagur var skörungur mikill og vann mjög mikið að útbreiðslu kristinnar trúar í Danmörku og meðal slavneskra þjóðflokka, sem bjuggu þá fyrir sunnan Eystrasalt og alt vestur að Elfunni, með því að senda kristniboða til þeirra og skipa þeim biskupa. Hann vígði marga menn til biskups í þeim erindum og hafði vald til þess af páfa.[4]) Þá er Þorvaldur víðförli tók að hugsa um að kristna Íslendinga, má gera ráð fyrir því að hann hafi aflað sjer vitneskju um, hvernig hann skyldi fara að því; er því líklegt að hann hafi leitað til Aðaldags erkibiskups og beðið hann um að fá sjer kennimenn til hjálpar.

Kristin trú festi svo djúpar rætur í hjarta Þorvalds víð-

---

[1]) Maurer, Die Bekehrung I, 204—205, Isl. 71—72. Thietmar nefnir að vísu í kroníku sinni, 3. bók, árið 981 Friðrik biskup í Zeitz á Saxlandi, Pertz, Mon. Germ. hist. III, 764, sbr. A. Hauch, Kirckengeschichte Deutschlands III, 1001, en það getur varla verið sá biskup, sem hjer er um að ræða. [2]) Íslb. 8/121 sbr. Hungr. 3/64; Ísl. I, 331, 332. [3]) A. D. Jørgensen, Den nord. kirke bls. 277. [4]) Fr. Nielsen, Haandbog i Kirkens Historie II, 285 (2. udg. Kbhavn 1898); Joh. Steenstrup, Danmarks Riges Historie I, 333.

förla að hann varð gagntekinn af henni. Hugur hans flaug heim til ættjarðarinnar, eins og hugur mjög margra Íslendinga, er í útlöndum hafa dvalið lengi. Hann hugsaði um föður sinn og móður, frændur og vini og hvílík sáluhjálp og hamingja það væri fyrir þá að taka kristni. Honum rann þá til rifja að þeir skyldu trúa á skurðgoð og vita ekkert um hinn eina sanna guð, skapara himins og jarðar, nje um Krist, son guðs og frelsara allra þeirra manna, sem á hann tryðu. Fyrir því ásetti hann sjer að gera það, sem hann gæti, til þess að hjálpa þeim og snúa þeim til rjettrar trúar. Hann tók því að búa sig undir kristniboðsferð til Íslands og fjekk Friðrik biskup til fararinnar með sjer.

Þeir Þorvaldur og biskup komu út til Íslands sumarið 981[1]) og voru hinn fyrsta vetur að Giljá hjá Koðráni. Þeir voru þar 13 saman og munu nokkrir af þeim hafa verið kennimenn, þótt eigi sjeu neinir þeirra nafngreindir[2]). Biskup kunni eigi norrænu og hafði Þorvaldur því orð fyrir þeim. Hann tók brátt að boða foreldrum sínum og heimamönnum þeirra kristni, en eigi er greint frá því, hvernig menn tóku kristniboði hans, nema um föður hans. Honum leist vel á guðsþjónustu biskups; þó vildi hann eigi láta skírast fyr, en hann vissi hvor meira mætti biskup eða verndarvættur sú, er hann trúði á og hugði að byggi í steini einum að Giljá. Þá er hann sannfærðist um það, að biskup væri þeirra máttugastur, ljet hann og kona hans skírast og allir heimamenn, nema Ormur sonur þeirra[3]).

Sumarið eptir gerðu þeir Þorvaldur og biskup bú að Lækjamóti í Víðidal og bjuggu þar fjóra vetur. Þeir tóku þegar að boða kristni þar í grendinni og fóru „víða um Ísland“ í þeim erindum; má sjá að þeir hafa farið um mestallt Norðurland, vestur í Breiðafjarðardali og suður á Þingvelli, en í Austfirðingafjórðung munu þeir eigi hafa komið. Það

[1]) Krist. 1/3—4; Þorv. þ. 10/50; Flat. I, 226/273. [2]) Að nokkrir kennimenn aðrir en Friðrik biskup hafi verið með í ferðinni má sjá af Krist. 3/7; Þorv. þ. 2/38. 4/43—44. [3]) Krist. 1/3—2,5; Þorv. þ. 1/35—36, 2/38—41. Flat. I, 223/269.

er eigi hægt að skýra nákvæmlega frá ferðum þeirra nje í áreiðanlegri tímaröð; fyrir því er glöggast að fara eptir hjeruðum.

Þeim Þorvaldi varð langmest ágengt í Norðlendingafjórðungi, og hafa þeir farið þar um í sumum hjeruðum aptur og aptur á meðan þeir dvöldu á Íslandi. Ýmsir höfðingjar nyrðra eru nefndir, sem ljetu skírast, og margir menn „höfnuðu blótum ok brutu skurðgoð sín. en sumir vildu eigi gjalda hoftolla“[1]).

Þorkell krafla Þorgrímsson var þá mestur höfðingi í Vatnsdalnum. Hið fyrsta haust, sem þeir Þorvaldur voru að Lækjamóti, voru þeir að haustboði hjá Ólafi bónda að Haukagili í Vatnsdal, tengdaföður Ingólfs Þorsteinssonar, er þá var dáinn, og Þorkels kröflu, sem var í boðinu. Ólafur var þá háaldraður og ljet hann skírast og margir menn aðrir, en Þorkell krafla ljet prímsignast. Ólafur andaðist síðan í hvítavoðum[2]).

Annar Húnvetningur er nefndur, sem Friðrik biskup skírði. Það var Máni í Holti á Kólgumýrum, er kallaður var hinn kristni, af því að hann hjelt kristna trú „með mörg-

---

[1]) Krist. 2/6; Þorv. þ. 4/43; Flat. I, 223/270. [2]) Af heimboði þessu eru mismunandi sagnir. Í því á biskup að hafa fyrirfarið tveimur berserkjum, er hvortveggi hjet Haukur; fanst mönnum mikið um það og er þessa atburðar getið í öllum heimildarritunum. Í Þorv. þ. 3/41 segir að þetta hafi verið á hinum fyrstu missirum, er þeir Þorvaldur voru að Lækjamóti og að það hafi verið brúðkaupsveisla hans; segir þar að hann hafi beðið sjer konu, Vigdísar dóttur Ólafs. Sama segir í Flat. I, 223/269, nema að þetta hafi verið á hinum síðustu missirum, er þeir voru að Lækjamóti. Í Krist. 2/5—6, Vatn. 46/76—77 og Ldn. 4/183 (Mb.) er þess eigi getið að Þorvaldur hafi kvongast. Er auðsætt að hjer er blandað málum. Þorkell krafla var giptur Vigdísi Ólafsdóttur frá Haukagili og fjekk hann hennar um þetta leyti. Mb., Ldn. 4/183, Forns. 195. Finnur biskup Jónsson hefur þegar bent á að eigi sje líklegt að Þorvaldur hafi kvongast. Hist. eccl. Islandiæ I, 43, aths. b, sbr. einnig Maurer, Bekehrung I, 212 aths. 17. Í Vatn. er sagt að Þorkell krafla hafi verið skírður, þá er kristni var lögtekin, en eigi nefnt að hann hafi verið prímsigndur af Friðrik biskupi, eins og sagt er í Krist. 2/6 og Grett. 13/37. Í Mb. er sagt að hann tæki skírn af Friðriki biskupi og allir Vatnsdælir.

um manndygðum og góðlifnaði". Hann gerði kirkju á bæ sínum, og í henni þjónaði hann guði bæði nætur og daga með helgum bænum og ölmusugerðum, er hann veitti fátækum mönnum. Hann endaði æfi sína sem einsetumaður, því að hann vildi eigi að lokum eiga samvist við heiðna menn. Kirkja hans stóð fram á 13. öld og var þá við kirkjugarðinn gamalt garðlag, er verið hafði utan um túnblett þann, sem Máni ræktaði og kallað var Mánagerði. Þar hafði hann heyjað handa einni kú.[1])

Í Skagafirðinum tók Þorvarður Spakböðvarsson, sonarsonur Öndótts landnámsmanns í Viðvík, við kristni. Hann bjó í Ási í Hjaltadal og var talinn einn af hinum mestu höfðingjum landsins á þeim tíma. Þorvarður ljet gera kirkju á bæ sínum og biskup fjekk honum prest til þess að syngja tíðir og veita honum guðlega þjónustu; er eigi ólíklegt að prestur sá hafi snúið einhverjum mönnum, einkum fátæklingum, til kristinnar trúar. Kirkjan í Ási var reist 984.[2])

Annar merkur maður í Skagafirðinum er nefndur, sem „var þá skírðr með heimamenn sína". Það var Atli hinn rammi Eilífsson, föðurbróðir Þorvalds. Hann bjó „undir Eilífsfelli" í Laxárdal og dvöldu þeir biskup þar um hríð[3]).

Af merkisbændum í Eyjafirðinum er að eins nefndur einn, sem tók kristni og ljet skírast. Það var Hlenni hinn gamli í Saurbæ, son Orms töskubaks, Þórissonar snepils landnámsmanns[4]). Þó er auðsætt að kristniboð þeirra Þorvalds hefur haft áhrif á fleiri Eyfirðinga, því að Eyjólfur

---

[1]) Þorv. þ. 7/46; Kálund, Isl. II. 47—48. [2]) Krist. 1/4. 3/6—7; Þorv. þ. 4/43—44; Flat. I. 223/270; Fms. II. 225/224. Þar er sagt að Gunnlaugur munkur geti þess, að sumir ætli að Þorvarður Spakböðvarsson hafi verið skírður á Englandi og flutt kirkjuvið þaðan. [3]) Þorv. þ. 6/45. Bær Atla er í eyði fyrir löngu. Kalund, Isl. II, 58. [4]) Krist. 1/5; Þorv. þ. 4/43; um ætt hans sbr. Ldn. 17/224. Í Glúm. 10/31 er faðir Hlenna kallaður Örnólfur töskubakur og þar er sagt að Hlenni byggi í Víðinesi í Eyjafirði, sbr. Glúm. 19/53—55. Í Ljósv. 20/189—193, sbr. 22/199–200, 24/213 er Hlenni kallaður hinn spaki og sagt hann byggi í Saurbæ; í Þorv. þ. er hann kallaður „Hlenni af Saurbæ". Í Ldn. og

Valgerðarson, sem þá var virðulegastur höfðingi í Eyjafirði, ljet prímsignast.[1])

Þeir Þorvaldur fóru norður um Vaðlaheiði og tók þar við kristni af þeim Önundur Þorgilsson í Reykjadal. Hann var sonarson Grenjaðar landnámsmanns. Önundur var síðan kendur við hina nýju trú sína og kallaður hinn kristni[2]); hefur hann að líkindum haldið hana vel.

Eitt sumar fóru þeir Þorvaldur og biskup vestur til Breiðafjarðar til að boða kristni þar í sveitum. Það mun hafa verið skömmu eptir að þeir fluttu að Lækjamóti, líklega árið 983. Þeir komu í Hvamm í júnímánuði. Þar bjó þá Þórarinn fylsenni Þórðarson gellis, og var hann á alþingi. Kona hans var Friðgerður Þórðardóttir frá Höfða í Skagafirði, og var hún heima og Skeggi son þeirra hjóna. Þá er Þorvaldur tók að tala við hana og aðra heimamenn um erindi sitt og boða þar kristni, gekk hún í hofið og blótaði, og var hin ákafasta á móti trúboði Þorvalds; heyrði hvort þeirra orð annars, en sveinninn Skeggi hæddist að þeim. Skýrir Þorvaldur sjálfur frá því í vísu, sem hann orti þá og enn er til[3]).

Hve víða þeir fóru um Vesturland er nú ókunnugt, en bæði í Kristni sögu og í þætti Þorvalds víðförla segir, að menn hafi eigi látið skírast af orðum þeirra í Vestfirðingafjórðungi, svo menn viti. Þess er eigi heldur getið að þeir hafi kristnað menn neinsstaður, nema í Norðlendingafjórðungi. Það er þó næsta ólíklegt að það sje rjett. En það er auðsætt að norðlenskir sögumenn (Gunnlaugur munkur Leifsson í Þingeyra klaustri)[4]) hafa ritað það, sem nú er kunnugt um kristniboð þeirra Þorvalds og biskups, því að

---

Krist. er eigi sagt hvar hann ætti heima. Líklegt er að hann hafi búið fyrst í Víðinesi, en síðan í Saurbæ, eptir að Einar Þveræingur flutti þaðan, sbr. Safn I, 398, 402, 489.

[1]) Krist. 1/5; V.-Ljót. 2/161. [2]) Krist. 1/5; Þorv. þ. 4/43. [3]) Krist. 2/6; Þorv. þ. 4/42—43; Flat. I, 223/270; Ldn. 10/199; Lax. 7/15. [4]) Sbr. K. Maurer, Über die Ausdrücke: Altnordische, altnorwegische & isländische Sprache (München 1867) bls. 72; B. M. Ólsen í Árb. f. n. Oldkh. 1893 bls. 299; F. Jónsson. Litteraturhist. II, 409.

það er eingöngu um gjörðir þeirra á Norðurlandi, nema að því leyti sem vísur hafa verið til, er hafa mint menn á aðrar framkvæmdir þeirra. Í Landnámu er þess getið að maður einn á Suðurlandi, Glúmur Þorkelsson, sonarson Svartkels landnámsmanns að Kiðjafelli, hafi tekið gamall kristni[1]. Af ættartölu hans má sjá að hann hefur verið uppi um þetta leyti. Hins vegar hefði varla verið minst á kristnitöku hans í Landnámu, ef hann hefði eigi látið skírast nokkru áður en kristni var lögtekin, hvort sem Friðrik biskup hefur gert það á ferð sinni til alþingis eða kennimenn þeir, sem voru með Stefni Þorgilssyni. Um það er eigi hægt að segja neitt með vissu.

Bæði kristniboðar og aðrir, sem unnu mest að því að koma kristni á hjá germönskum þjóðum, reyndu ávalt að fá kristna trú tekna í lög á þingum eða viðurkenda á annan hátt sem hina löglegu trú landsmanna, ef það var hægt. Þeir lögðu meiri stund á það, en að innræta mönnum kristilegt hugarfar og að undirbúa menn rækilega undir skírnina og upptöku meðal kristinna manna. Þeim þótti auðsjáanlega mest í það varið, að kristnin næði að verða hin rjetta trú manna að lögum lands þeirra, því að þeir litu svo á, að þá mætti ávalt á eptir fræða almenning um kristindóminn og gæta þess að menn fengju kristilegt uppeldi og yrðu kristilega innrættir.

Þá er menn gæta þessa, verður það ljóst, hvers vegna allir þeir kristniboðar, sem til Íslands komu, fóru til alþingis til þess að boða þar kristna trú, þótt það væri eigi hættulaust. Þeir vildu allir reyna að fá kristnina tekna í lög á alþingi, þótt þess sje eigi getið í fornsögum vorum.

Þeir Friðrik biskup og Þorvaldur voru eigi ánægðir með ferðir sínar um landið og árangurinn af þeim. Þeir sáu að Ísland mundi seint verða kristið, þótt þeir fengju einstaka menn til þess að taka kristni; einkum var biskup, sem þekti betur til kristniboðs erlendis en Þorvaldur, óánægður og vildi reyna að fá kristnina viðurkenda með

---

[1]) Ldn. 13/45; Hksb. 16/12.

lögum. Hann bað því Þorvald að ríða með sjer til alþingis og telja trú fyrir mönnum að lögbergi. Þeir fóru því þangað eitt sumar, að líkindum árið 984. Þorkell máni hafði þá lögsögu í síðasta sinn. Þorvaldur boðaði þar að lögbergi þingheimi kristna trú; þótt eigi sje sagt annað af ræðu hans, en að hann hafi fram borið með mikilli snild mörg og sönn stórmerki almáttugs guðs, má þó ætla að hann hafi beðið menn að taka kristni og lögleiða hana. Biskup stóð á meðan hjá honum og horfði yfir þingheiminn. Þá er Þorvaldur hafði lokið ræðu sinni, tók til máls í móti honum höfðingi einn norðan úr Eyjafirði, Hjeðinn hinn mildi Þorbjarnarson frá Svalbarði, og kom svo orðum sínum „at engi maðr lagði trúnað á þat, er Þorvaldr hafði sagt". Eptir þetta óx mjög óþokki heiðinna manna til þeirra biskups og Þorvalds, og kendi Þorvaldur það mest ræðu Hjeðins. Heiðnir menn fengu skáld til að yrkja níð um þá og var þá þetta kveðið:

Hefir börn borit
biskup níu,
þeirra er allra
Þorvaldr faðir.

Þetta var eitthvert hið versta níð, sem vera mátti, því að á þeim tímum trúðu margir því að menn gætu tekið hamskiptum, og karlmönnum þótti ekkert óvirðilegra og meiri háðung, en að vera brugðið um að þeir hefðu alið barn eða þeir væru stundum kona og ættu óeðlileg viðskipti við aðra menn. Í gegn slíkum orðum og níði áttu menn vígt[1]), og Þorvaldi mun hafa þótt þetta því meinlegra sem

---

[1]) Sbr. Þorst. Síð. 222; Nj. 123/640; Grág I b, 184—185; II, 392, 393, sbr. að framan bls. 140. Björn M. Ólsen, Kristnitakan bls. 18 hefur skýrt vísu þessa sem skop um skírnina; en Þorvaldi víðförla mundi varla hafa tekið það svo sárt, ef vísuorð þessi hefðu að eins lotið að því, að hann væri guðfaðir þeirra barna, sem biskup skírði. Biskup mun eigi heldur hafa haldið þeim sjálfur undir skírn, er hann skírði, heldur gerðu það guðfeður þeirra, er skírðir voru, sbr. Fms. II, 165/39; A. Chr. Bang, Den norske Kirkes Historie under Katholicismen. Bls. 210.

biskup með alrakað andlit og búinn kennimannsklæðum hefur í augum þingheims litið heldur kvennlega út. Enginn veit að vísu hvort hann var fríðleiksmaður eða eigi, en eptir framkomu hans að dæma er alllíklegt að hann hafi verið góðmannlegur ásýndar, og eigi ómildari að sjá nje stórskornari en margar konur voru á Íslandi.[1]) Þorvaldi þótti líka nauðsyn að hefna þeirra biskups fyrir níðið og vá hann þá tvo menn, sem höfðu ort kvæðið. Enginn varð til þess að sækja Þorvald fyrir víg þessi, og sýnir það best, hverja þýðingu heiðnir menn hafa lagt í vísuna, og að þeir hafa álitið að Þorvaldur hafi þar eigi gert annað en það, sem hann átti rjett til að lögum.

Friðriki biskupi þótti aptur á móti ilt að Þorvaldur skyldi vega menn og spurði hann því hann hefði gert það. Þorvaldur kvað það hafa verið af „því at þeir sögðu okkr eiga börn saman“. Þá er sagt að biskup hafi svarað: Þeir lugu á okkr, en þú færðir óorð þeirra afleiðis, því at ek mátti vel bera börn þín eptir mér.[2])

Þeir Þorvaldur reyndu ekki aptur að boða kristni á alþingi, því að þeir sáu að það var ófært. Þó vildu þeir eigi hætta við að boða hana á þingum, ef vera kynni að þeir gætu fengið hjeraðsmenn til þess að innleiða hana hjá sjer. Ef það gæti tekist, var mikið unnið, því að þá mátti vænta að fá mætti fleiri vorþing til þess, og þá gæti svo

---

Auk þess höfðu heiðnir menn tekið upp þann sið eptir kristninni að ausa börn vatni, er þeir gáfu þeim nöfn, sbr. R. Keyser, Efterladte Skrifter II b, bls. 8; Kr. Kålund, Aarb. f. nord. Oldkh. 1870 bls. 274, og Grundriss[2] III, 414. Það eru því lítil líkindi til að þessi skýring dr. B. Ólsens geti verið rjett.

[1]) Þess ber að gæta að bæði Íslendingar og Norðmenn eru alment skarpari og harðlegri ásýndar en Danir og Þjóðverjar. Andlitsdrættir þeirra eru venjulega miklu hjúgari og ávalari en andlitsdrættir Íslendinga. [2]) Krist. 4 7: Þorv. þ. 5 44—45; Flat. I, 223 270—71. Frá samtali þeirra biskups og Þorvalds er sagt öðruvísi í Krist. en í Þorv. þ., og er það á hvorugum staðnum orðrjett, en innihaldið í því er líklega rjett. Í Ldn. 16 223 er sagt um Hjeðin milda að hann ljeti gjöra Svalbarð 16 vetrum fyrir kristni og hefur það því verið þetta sama sumar.

farið að alþingi fengist til þess að lokum að taka kristnina í lög. Þeir Þorvaldur riðu því hið næsta vor í þessum erindum til vorþings í Hegranesi. Þeim mun hafa þótt vænlegast að reyna þar fyrir sjer, því að þeir munu hafa fengið fleiri fylgismenn í Skagafirðinum en í Húnavatnsþingi; þar á meðal voru tveir mikilsmegandi menn, Þorvarður Spakböðvarsson og Atli hinn rammi, sem þeir máttu vænta liðsinnis af. En árið áður hafði nokkur æsingur komið í menn á alþingi útaf kristniboðinu; fyrir því fóru heiðnir menn á móti þeim Þorvaldi, þá er þeir vildu ríða á Hegranesþing, og börðu þá grjóti. Þeir urðu þá að snúa burtu og hjeldu heim til sín að Lækjamóti. En nú voru heiðnir menn orðnir svo æfir við þá, að þeir gerðu þá seka um sumarið (985). Eptir alþingi söfnuðu nokkrir heiðnir höfðingjar liði og riðu að þeim biskupi með 240 manna. Sagan um þetta er helgisaga og segir að heiðingjarnir hafi ætlað að brenna þá inni að Lækjamóti. Þeir áðu hrossum sínum, áður en þeir ætluðu að ríða heim á bæinn. En er þeir vildu fara á bak, flugu fuglar hjá þeim og fældu hesta þeirra; fjellu sumir þeirra af baki og meiddu sig, en hestarnir hlupu frá sumum, og við það fóru þeir heim aptur. Það segir sig sjálft að þetta er eigi rjett, en sögurnar skoða þetta sem jartein. Það er líklegt að þeir Þorvaldur hafi verið dæmdir sekir fjörbaugsmenn á alþingi, en sektin hafi eigi orðið þyngri sökum þess að þeir hafa átt þar góða talsmenn. Síðan hafi mótstöðumenn þeirra farið að heyja fjeránsdóm eptir þá, eins og lög gera ráð fyrir að gert væri fyrir utan túngarð á bæ hins seka, áður 14 nætur væri liðnar frá því þingi, sem hann var dæmdur á.[1]) Hefur þá að líkindum annaðhvort verið, að þeir Þorvaldur hafa haft fjölment fyrir, og hinum þótt ráðlegast at ríða burtu, er þeir höfðu háð dóminn, eða þeir Þorvaldur hafa leyst sig með fjörbaugi.[2])

[1]) Sbr. V. Finsen, Grág. III, 604. [2]) Krist 4/8; Þorv. þ. 8/47; Flat. I, 224/271; Grág. III, 609.

Þeir Þorvaldur voru einungis einn vetur eptir þetta að Lækjamóti, og segir þá ekki af þeim. Sumarið eptir fóru þeir utan eptir 5 ára dvöl á Íslandi (986). Þeir tóku land í Noregi og lágu um hríð í höfn nokkurri. Þá kom þangað utan af Íslandi Hjeðinn frá Svalbarði. Hann fór upp í skóg að höggva við, en er Þorvaldur varð þess var, fór hann með þræl sinn að honum og ljet hann drepa Hjeðin. Biskupi líkaði mjög illa víg þetta og að Þorvaldur skyldi eigi láta af manndrápum. Hann kvað hann vera of heiptrækinn og skildi við hann. Fór biskup til Saxlands og er ekkert síðan um hann kunnugt, nema að hann andaðist þar.

Þorvaldur lifði mörg ár eptir þetta og var fyrst í kaupferðum. Hann afrjeð þá að fara eigi aptur til Íslands, því að honum þótti óvíst, segir sagan, hvort hann þyldi svo „mótgang og meingerðir sinna samlanda“, sem vera ætti. Hann rjeðst þá í pílagrímsferð til Jórsala og fór víða um lönd og fjekk kenningarnafn sitt af þeim ferðum. Á heimleiðinni kom Þorvaldur til Miklagarðs; þaðan fór hann til Kænugarðs (Kijev) og síðan til Garðaríkis. Um þetta leyti hófst frá Miklagarði kristniboð á Rúslandi;[1] og eru til sögusagnir um það að Þorvaldur hafi átt einhvern þátt í útbreiðslu kristninnar þar í landi. Er svo að sjá sem Miklagarðskeisari hafi skipað hann yfir kristniboðið og er sagt að hann hafi sett þar klaustur hjá höfuðkirkju einni skamt frá Palteskju (Polozk), er helguð var Jóhannesi skírara og verið í því til æfiloka. Það er hjer um bil miðja vegu á milli Kænugarðs og finnska flóans, á Valdaihryggjunum, þaðan sem Dýna (Düna) og Lovat renna norður um Garðaríki, en Nepr (Dnipr eða Dnjepr) suður um land, fram hjá Kænugarði og út í Svartahaf. Þorvaldur andaðist á Rúslandi. Það er haft eptir Íslending einum, sem Brandur hjet, að hann hafi komið þar, er Þorvaldur Koðránsson hvíldi „í há fjalli upp í Drafni at Jóhanneskirkju“. Brandur þessi var kallaður hinn víðförli, en ekkert er um hann kunn-

[1]) Sbr. Fr. Nielsen, Haandbog i Kirkens Historie. II. 306—308.

ugt; þess hefur verið getið til að hann hafi verið uppi á ofanverðri 12. öld.[1])

Þorvaldur víðförli var einn af þeim mönnum, sem varð mjög hrifinn af kristindóminum, þótt í honum væri of mikill víkingsandi til þess að hann gæti þolað hverja mótgjörð hefndarlaust. Hann var of háður tíðarandanum til þess að geta það, fyr en eptir langa reynslu og æfingu. Hann hefur eflaust farið pílagrímsferð sína til þess að bæta fyrir víg sín og önnur afbrot, og í samræmi við það hefur hann síðan varið æfi sinni. En það varpar eigi litlum fegurðarblæ á kristniboðsferð þeirra Friðriks biskups að þeir báðir lögðu út í hina hættulegu ferð til Íslands af kærleika og trúaráhuga. biskup af einskærum kristilegum kærleika, en Þorvaldur bæði af kristilegum kærleika og af ást til foreldra sinna og frænda. Þeir voru báðir samvaldir og bættu hvor annan upp; biskup var spakur og mildur, stiltur og hógvær, og dró því úr ákafa þeim og ofsa, sem kom stundum í Þorvald, enda mun hann hafa farið að ráðum biskups í öllu, er trúarboðið snerti. Hins vegar var Þorvaldur sverð þeirra beggja og skjöldur, þá er til karlmensku kom; en stillingu biskups og staðfestu mun það þó mest að þakka, að þeir gátu dvalið svo lengi á Íslandi. Það var eins og biskup væri boðinn og búinn til þess að þola alt fyrir Krists sakir.

Biskup kunni eigi norrænu í fyrstu og fyrir því hafði Þorvaldur orð fyrir þeim[2]); er svo að sjá sem hann hafi jafnan gert það, enda mun honum hafa tekist það vel; hann hefur að minsta kosti haft þá mælsku, sem sannfæring og áhugi veitir.

Kristniboð þeirra Þorvalds vakti mikla eptirtekt, einkum í þeim hlutum landsins, þar sem þeir fóru um að boða kristni. Frjettir af því flugu út um alt land, einkanlega

---

[1]) Krist. 4/8, 12/25—26; Þorv. þ. 8—9/47—50; Flat. I, 224—225/271—273. Erindi það, sem tilfært er eptir Brand í Krist., er svo úr garði gert, að það getur varla heitið vísa. Finnur Jónsson hefur skýrt mjer frá, að hann ætli það þýtt úr latínu. [2]) Krist. 1/5.

eptir að þeir höfðu boðað kristni á alþingi. Sem dæmi upp á það hvílíka athygli kristniboð þeirra vakti í Skagafirði, er sögð ein saga, hvað sem satt er í henni. Drengur einn fimm vetra gamall, er Ingimundur hjet, kom til þeirra biskups, þá er þeir dvöldu hjá Atla hinum ramma, og bað biskup um að skíra sig. Sveinn þessi var sonur Hafurs í Goðdölum og var að fóstri á Reykjaströndinni. Hann heyrði mikið talað um biskup og erindi hans og fjekk smalamann fóstra síns til þess að fylgja sjer til Eilífsfjalls. Atla þótti varúðarvert að skíra hann án vitundar föður hans eða fóstra, en biskup skírði hann samt og kendi honum það af kristnum fræðum, sem honum var skyldast að varðveita með kristninni, áður en hann fór brott.[1])

Kristniboð Þorvalds víðförla hafði líka þýðingu fyrir alt Ísland sem kristniboð Hákonar Aðalsteinsfóstra fyrir Noreg, að því leyti að þau komu ýmsum hugsandi mönnum til þess að íhuga, hvort þeir ættu að hafna trú forfeðra sinna og láta skírast. En annars var kristniboð Þorvalds bæði miklu lengra, þolmeira og áhrifameira en kristniboð Hákonar konungs. Þeir Þorvaldur komu því kristninni töluvert lengra áleiðis á Íslandi en konungur í Noregi. Þó varð þeim Þorvaldi eigi meira ágengt við Íslendinga á þingum, en Hákoni konungi við Norðmenn á Frostaþingi, heldur unnu þeir alla þá menn utanþings, sem ljetu skírast. Segja heimildarritin svo frá, að margir menn í Norðlendingafjórðungi hafi hafnað blótum, brotið skurðgoð sín og trúað á Krist undir niðri, þótt þeir ljetu eigi skírast, en sumir vildu eigi gjalda hoftoll. „Fyrir þat reiddust heiðingjar Friðreki biskupi ok lögðu fjandskap á alla þá, er honum samþyktu“.[2])

Þá er þeir Þorvaldur víðförli fóru af Íslandi, hafði kristnin náð fótfestu á Norðurlandi. Norðlendingar og margir aðrir Íslendingar urðu nú að venjast þeirri hugsun, að nokkrir þeirra hefðu tekið kristni, og ýmsir Íslendingar gátu eptir þetta einnig átt færi á að kynnast hinum nýja

---

[1]) Þorv. þ. 6,45–46. [2]) Krist. 2 6; Þorv. þ. 4/43.

sið i landinu sjálfu. Ýmsir munu því eflaust hafa spurt bæði sjálfa sig og aðra, á hvað þetta vissi. Ætli sú tíð komi, að menn falli frá hinum forna átrúnaði og taki hinn nýja sið?

---

## Eptir fyrsta kristniboðið.
## Ólafur Tryggvason og kristniboð Stefnis.

Sögurnar segja lítið af kristninni á Íslandi á því tíu ára skeiði, sem leið frá því að Þorvaldur víðförli fór af landi brott og þangað til að kristniboð var hafið að nýju. En það segir sig sjálft, að sumir þeir Íslendingar, sem kristni höfðu tekið, hafa haldið hana vel, því að þeir voru alvarlega trúaðir. Kristnin hefur líka þann eiginleika, að hún gagntekur marga menn, veitir þeim hugsvölun og kærleika, frið og þolinmæði. Margir heiðingjar hafa verið svo andlega þroskaðir, þá er þeir hafa snúist til kristni, að þeir hafa fundið til þessa. Fyrir þeim hefur opnast nýr andlegur heimur, og sumir, sem svo eru gerðir, hafa orðið hrifnir og fengið hinn mesta áhuga á að breiða út kristni á meðal annara manna, til þess að gera þeim gott, frelsa þá frá glötun og vinna guði velþóknanlegt verk.

Allir þeir menn, sem ljetu skírast af Friðriki biskupi, tóku kristni af fúsum og frjálsum vilja. Það má því nærri geta að einhver af þeim muni hafa verið snortinn svo djúpt af kristninni, að hann hafi fundið til þessa, og reynt að telja um fyrir nágrönnum sínum og kristna þá, en þó svo að lítið bæri á og án þess að lenda í deilum og verða gerður sekur. Sögurnar benda einmitt á að Þorvarður Spakböðvarsson í Ási hafi verið þess konar maður. Hann reisti kirkju og hjelt prest á heimili sínu. Þessu reiddist Klaufi Þorvaldsson frá Barði í Fljótum og ætlaði að brenna kirkjuna, en drepa prestinn. Arngeir Spakböðv-

arsson rjeð honum frá að vinna prestinum mein, því að Þorvarður bróðir hans mundi hefna þess þunglega. Hann ætlaði þá að brenna kirkjunna, segir sagan, en það tókst eigi og var það skoðað jartein.[1])

Þorvarður Spakböðvarsson hefur eigi notað kirkjuna að eins handa sjálfum sjer og heimamönnum sínum, heldur munu kristnir menn í Skagafirðinum hafa sótt til hennar og fengið guðsþjónustu hjá prestinum. Sama má ætla um fleiri kristna menn, einkanlega úr Húnavatnssýslu, sem áttu hægast með að ná til prestsins í Ási. Það er einnig líklegt að einhverjir nágrannar eða sveitungar Þorvarðs Spakböðvarssonar hafi snúist til kristni af umtali við hann sjálfan eða prestinn, eða orðið kristninni vinveittir, þótt þeir hafi eigi látið skírast. Einkum er það líklegt um fátæklinga og minni háttar menn, því að kristnin tók þá undir verndarvæng sinn. Ein frásaga er einnig til, sem bendir á það. Í harðæri nokkru um 990 er sagt að Svaði bóndi á Svaðastöðum í Skagafirði hafi ætlað að drepa marga fátæka menn til þess að ljetta á matbjörg hjeraðsmanna. Þorvarður Spakböðvarsson komst að því af hendingu og frelsaði fátæklingana móti því að þeir tækju kristna trú. Hann ljet síðan prest sinn skíra þá og kenna þeim kristin fræði, og fæddi þá á meðan harðærið hjelst[2]). Hvað satt er í sögusögn þessari er eigi hægt að vita með vissu, en líklega má þó ætla að hún eigi við þann atburð að styðjast, að Þorvarður hafi einhvern tíma hjálpað fátæku fólki og jafnframt snúið því til kristni.

Það er eins og margir hafi vaknað af svefni við kristniboð Þorvalds víðförla, því að það kveikti svo mikinn efa og óróa í hugum ýmsra manna. Trúræknir menn, sem höfðu borið traust til trúbragða forfeðranna, er þeir höfðu að erfðum tekið, tóku nú að efast um mátt hinna fornu goða, anda og vætta, og hve gott væri að treysta þeim og trúa á þau. Hins vegar þektu þeir eigi hina nýju trú svo,

---

[1]) Krist. 3/6—7; Þorv. þ. 4/43—44. [2]) Fms. II. 225/222—224; Flat. I. 345/435—436.

að þeir gætu metið hana rjett og fengið það traust og þá friðþægingu í henni, sem þeir höfðu áður fundið í fornum átrúnaði. Einnig hlaut þeim flestum að vera ógeðfelt í fyrstu að halla sjer að hinum „nýja sið", því að hann kom til landsins sem óvinur forns átrúnaðar, þeirra eigin trúarbragða. Slíkir menn urðu því efablandnir í trúarefnum og vissu eigi hverju trúa skyldi Þeir urðu angistarfullir um ókomna tíð og kom það fram á ýmsan hátt, í draumum, spádómum, sýnum og vitrunum.[1]) Þær boða allar trúarskipti og benda opt á að hin nýja trú sje betri en hin gamla[2]). Þó verður að gæta að því, að þær lýsa sumar betur hugsunum þeirra, sem ritað hafa sögurnar, en þeirra, sem þær eru sagðar af. Kristnir menn rituðu sögurnar og hafa þeir því stundum eigi getað varist þess að láta skoðun sína koma í ljós. Stundum hafa þeir einnig verið ókunnugir þeim stöðvum, þar sem sögurnar hafa gerst, og eigi getað rannsakað þær sögusagnir og frásögur, sem þeir færðu í letur. Þannig er t. a. m. sagt um Hávarð halta, Ísfirðing, að hann hafi heitið að taka annan sið, betri og fegri, sem hann hafði heyrt sagt utan úr löndum, að þar væri boðaður, ef hann sigraði Þorbjörn Þjóðreksson. Hann hafði lagst eptir honum út í sker eitt og Þorbjörn ætlaði að keyra stein í höfuð honum. Þetta á að hafa verið á dögum Hákonar Hlaðajarls, og er sagt að Hávarður hafi spurt nokkrum vetrum síðar að Hákon jarl væri dauður, en Ólafur Tryggvason orðinn konungur og boðaði aðra trú. Hann hafi þá farið utan með konu sína og Þórhall frænda sinn og látið skírast og haft síðan út með sjer kirkjuvið.[3]) En víg Þorbjarnar varð seinna, líklega eigi fyr en kristni var í lög tekin eða rjett eptir það (um 1002). Þetta er því tilbúningur þeirra, sem söguna hafa sagt eins og hún er nú til.[4])

---

[1]) Lax 33/112 (um 988); Harð. 7/8; Fms. II, 215/195, 227/229—232 = Flat. I, 347—348/439—441: Nj. 81/379—380; Þorst. uxaf. 6/118—119. [2]) Sbr. Maurer, Bekehrung I, 226 o. ef. [3]) Háv. 11/28, 24/53. [4]) Ldn. 21/127, 28/145—147. Um Hávarðar sögu Ísfirðings sbr. Safn I, 365—367;

Hins vegar er varla efi á því að einstaka heiðingjar, sem höfðu heyrt getið um kristnina, leituðu í vandræðum hjálpar hjá Kristi, með því að heita því að taka kristni, ef þeir kæmust heilir úr raunum sínum eða bæru hærra hlut. Svo gerði Bjarni Sturluson, Kalmanssonar landnámsmanns, þá er hann deildi við Geitlendinga, Hrólf hinn yngra Hróaldsson og syni hans um Tunguna litlu. Hvítá braut þá út, segir sagan, „farveg þann, er nú fellr hún“ og eignaðist Bjarni þá Tunguna litlu. „Bjarni Sturluson tók skírn“ og benda orð þessi á að hægt hafi þá verið að gera það innanlands, því að eigi er þess getið að hann hafi farið utan; hefur þetta því verið á kristniboðsárunum einhvern tíma eptir 981 en fyrir 1000. Bjarni bjó á Bjarnastöðum í Tungunni litlu og ljet gjöra þar kirkju.[1])

Það má einnig telja víst að sú hugsun hafi gripið ýmsa Íslendinga að eitthvað óvænt væri í vændum og að þeir hafi sumir búist við að heiðnin myndi verða að víkja fyrir kristninni, eins og mörgum hefur verið kunnugt um, að raun hafði á orðið í öðrum löndum. Þetta kemur einna ljósast fram í hinni fögru og einkennilegu sögu af Þiðranda Hallssyni, sem dísir drápu. Þar kemur einnig í ljós baráttan milli heiðninnar og kristninnar. Hallur af Síðu bjó að föðurleifð sinni Hofi, þegar þetta gerðist og var enn heiðinn. Þá bjó að Hörgslandi norrænn maður, er Þórhallur hjet Hann var fróður og mjög framsýnn, og var kallaður Þórhallur spámaður. Hann var vinur Halls. Þiðrandi var elstur sona Halls og hinn mannvænlegasti og unni Hallur honum mjög. Þiðrandi var hvers manns hugljúfi, því að hann var lítillátur og mjög góður í viðmóti við alla. Hann fór ungur utan og kom út aptur í Berufirði. Hann var þá 18 vetra. Það sumar dvaldist Þórhallur spámaður með Halli og ætlaði eigi heim fyr en lokið væri haustboði

F. Jónsson, Litteraturhist. I. 519. II, 752—754; Kålund, Isl. I, 554, 557—58, 561—62, 579—80, en einkum 588—93 og 602—607.

[1]) Ldn. I.65—66; Fms. I. 129/254 255 segir að Bjarni efndi vel heit sitt, tæki rjetta trú og hjeldi til dauðadags. Hinn gamli farvegur eptir Hvítá sjest enn. Kålund, Isl. I, 337.

hans. Enn er á leið sumarið, tók Þórhallur að ógleðjast. Hallur spurði hverju það sætti, en hann svaraði, að sjer segði þungt hugur um haustboðið. Veislan var búin að veturnóttum, en boðsmenn komu fáir, því að veður var hvast og ilt. En er menn settust til borða um kveldið, bað Þórhallur menn varast að fara út um nóttina, og kvað mikil mein mundu á liggja, ef út af væri brugðið. Hallur bað menn halda orð Þórhalls, því að þau hefðu jafnan rætst. Þá er menn gengu að sofa, skipaði Þiðrandi gestum í sæng sína, en svaf sjálfur í seti yst við þil. En er flestir voru sofnaðir, þá var barið að dyrum, og ljet enginn sem vissi; fór svo þrisvar. Þá spratt Þiðrandi upp og mælti: „Þetta er skömm mikil, er allir láta sem þeir sofi, og munu boðsmenn komnir“. Hann tók sverð í hönd sjer og gekk út og sá engan mann. Hann gekk þá að viðarkesti einum, er stóð þar rjett hjá, til að skygnast um. Þá heyrði hann að riðið var norðan á völlinn og sá að það voru níu konur svartklæddar og höfðu brugðin sverð í höndum. Enn heyrði hann að riðið var sunnan á völlinn og fóru þar níu konur, allar í ljósum klæðum og á hvítum hestum. Þá ætlaði Þiðrandi að fara aptur inn í bæinn og segja mönnum sýnina. En þá bar svartklæddu konurnar þar fyr að og sóttu að honum. Þiðrandi varðist drengilega, en þær særðu hann banasári. Um nóttina vaknaði Þórhallur og saknaði Þiðranda. Var þá út gengið. Var á tunglskin og frostviðri. Menn fundu þá Þiðranda liggja þar særðan og báru hann inn. Hann sagði frá því, sem fyrir hann hafði borið, og andaðist um morguninn í lýsing. Hann var heygður að fornum sið. Hallur spurði Þórhall hverjum undrum þetta mundi gegna. En hann gat til að hinar svartklæddu konur hefðu verið heiðnar ættarfylgjur þeirra frænda, og mundu þær hafa vitað fyrir að siðaskipti mundi verða og að þeir frændur mundi taka hinn nýja sið og segja skilið við þær. Hafi þær því viljað taka þennan skatt af ættinni áður. Hinar hvítklæddu konur, kvað hann, mundu vera dísir hins nýja siðar og mundi hann verða betri en hinn forni siður. Hinar betri dísir mundu hafa viljað hjálpa Þiðranda en eigi getað

að svo búnu; þeir frændur mundu þó njóta þeirra, er þeir hefðu tekið hinn nýja sið.

A. D. Jörgensen[1]) hefur bent á, að eitt þýðingarmikið atriði muni hafa gleymst úr sögu þessari. Þiðrandi muni eflaust hafa orðið fyrir áhrifum af kristninni á meðan hann var erlendis, án þess þó að taka kristni og láta skírast. Þegar svo stóð á, gat hann eðlilega vakið áhyggjufullan grun hjá Þórhalli spámanni og orðið fyrir reiði dísanna, þar sem hann var sá, er fyrstur ættmanna sinna gerðist fráhverfur goðunum, án þess þó að brjótast algjörlega undan yfirráðum þeirra og komast undir vernd hinna hvítu dísa.

Halli varð svo mikið um lát Þiðranda, að hann undi eigi lengur að Hofi, en flutti að Á eða Þvottá, sem er sunnar í Álptafirðinum. Þaðan er sagður annar fyrirburður, sem Þórhallur spámaður sá, er hann var þar eitt sinn að heimboði með Halli. Þeir sváfu þá saman í hvílugólfi, en sinn í hvorri rekkju. Einn morgun, er þeir vöktu báðir, brosti Þórhallur. Hallur spurði hann, að hverju hann brosti. En hann kvaðst brosa að því, að hann sæi margan hól opnast og hvert kvikindi, bæði smá og stór, búa sinn bagga og halda fardaga.

Þetta er í hinni lengstu sögu Ólafs Tryggvasonar sett í samband við komu Þangbrands til Íslands.[2])

Landsmenn voru yfirleitt fremur umburðarlyndir og mildir við kristna menn, á meðan þeir hlýddu lögum landsins og fóru eigi fram með ofsa gegn heiðinni trú. Þess er eigi heldur getið að neinn liði píslarvættis dauða á Íslandi fyrir trú sína. Að eins einu sinni er sagt frá því, að kristnum manni, Þorleifi hinum kristna, hafi verið stefnt, áður en kristniboðarnir höfðu æst heiðingjana og ofsi var kominn í málið, og það var fyrir að hann vildi eigi gjalda hoftoll, en því var eigi hreift, að hann var kristinn. Stefnan

---

[1]) Den nordiske kirke, bls. 357. [2]) Fms. II, 215/192—197 (Flat. I. 335/419—421). Þiðrandi er í Nj. 96/494 talinn með sonum Halls og sagt að dísir hafi drepið hann. Eptir sambandinu að dæma á víg hans að hafa verið um 990 eða rjett eptir það ár.

var þó mest sprottin af persónulegum ástæðum. Þá er Digur-Ketill ljet hana falla niður, virðist sökin eigi hafa verið tekin upp aptur.[1])

Sumir landsmenn voru eflaust kærulitlir um trúarbrögðin, og sumir hafa líklega trúað á mátt sinn og megin, þótt eigi sje getið um neina Íslendinga á þessum tíma, sem hafi gert það. Það er að eins gefið í skyn að Kjartan Ólafsson hafi treyst meira afli sínu og vopnum en Þór eða Óðni, en alls eigi sagt að hann hafi verið goðlaus eða trúað á mátt sinn og megin, þótt sumir hafi skilið það svo.[2]) Eigi er heldur getið um goðlausa eða trúlausa Íslendinga á þessum tíma eins og á landsnámsöldinni, og virðist því eigi hafa borið mikið á þeim.

Staða hinna kristnu manna á þessum árum mátti því heita heldur góð. Ef þeir fóru spaklega að, gátu þeir notið sama friðar sem aðrir, og þeir gátu fengið kunningja sína og fleiri til þess að taka trú sína, ef þeir fóru að með lagi og lempni. En þótt einstaka menn tækju kristni, var þó fjarri því, að mikið yrði ágengt með að kristna alt Ísland. Þess hefði eflaust orðið langt að bíða, ef engin örvan og hjálp hefði komið utan að og enginn hefði hafið kristniboðið að nýju. Á meðan Noregur var alheiðinn og ramheiðinn maður sat þar að ríki, eins og Hákon jarl Sigurðsson, var tæplega stórra breytinga að vænta á Íslandi. En nú „var sú tíð komin“, segir Snorri Sturluson, „at fyrir dæmask skyldi blótskaprinn og blótmenninir, en í stað koma heilög trúa ok réttir siðir“.[3])

Þótt Hákon Hlaðajarl væri vitsmunamaður, átti hann þó eigi góðan mann að geyma; kom það best fram eptir

---

[1]) Vápn 5/37. [2]) Lax. 40/149. Ýmislegt bendir hins vegar á að menn hafi í Dölunum haldið í fastara lagi við fornan átrúnað. Í Noregi má sjá að einstaka menn trúðu á mátt sinn og megin, Hkr. I, 17/192; Fms. II, 200/151, 235/365. Sigmundur Brestisson, sem var alinn upp í Noregi, trúði á mátt sinn og megin, Flat. I, 114/144, 296/365; Fms. II, 184/107—108, 189/123. Á dögum Ólafs hins helga er einnig getið um þess konar trú, Hkr. II, 201/448—49, 215/473; Fms. V, 189/48, 201/67. [3]) Hkr. I, 50/356.

það, er hann hafði unnið sigur á Jómsvíkingum og þóttist fullfastur í sessi. Hann gerðist þá svo ósiðlátur, að konum manna og dætrum var eigi óhætt fyrir honum. Þetta varð honum að falli. Bændur gerðu uppreist á móti honum og í þeim ófriði var hann drepinn, en rjett um það leyti kom Ólafur Tryggvason til Þrándheims. Hann kom eins og hann væri kallaður. Bændur urðu honum fengnir „ok vildu eigi annat heyra, en Óláfr Tryggvason skyldi konungr vera“. Var hann þá til konungs tekinn á allsherjarþingi í Þrándheimi.[1])

Ólafur Tryggvason var einhver hinn glæsilegasti maður, sem sögur fara af í Noregi. Hann var gæddur hinum mestu hæfileikum, bæði andlegum og líkamlegum. Hann var mikill vexti, tígulegur og snarlegur, hvítur á hárslit. Hann var rammur að afli og hinn mesti íþróttamaður. Hann var allra manna glaðastur og leikinn mjög. Hann var örlyndur, blíður og lítillátur, en hann var líka allra manna grimmastur, ef hann reiddist. Hann var stórgjöfull og vinsæll mjög meðal manna sinna. Vinir hans elskuðu hann, óvinir hans hræddust hann, en almenningi fanst mjög til um slíkan konung. Það var því eigi að undra, þótt framkvæmd hans yrði mikil, þá er hann fjekk konungsvald yfir Noregi.[2])

Ólafur Tryggvason hafði í uppvexti fengið mikla reynslu og þroska, bæði í Hólmgarði austur og í víking. Hann hafði æft sig í íþróttum, reynt sig í bardögum, vanist umgengni við marga menn og beitt alls konar ráðum og brögðum sem títt var meðal víkinga. Vist hans á Rúslandi og víkingalíf hans hafði mikil áhrif á hann. Hann hafði orðið of opt að grípa til illra bragða og verka, og fyrir því höfðu hinir lakari eiginleikar hans fengið færi á að æfast og taka þroska. Hann varð því bæði brögðóttur og undirförull, svikull og grimmur, ef því var að skipta.

Það hafði afarmikla þýðingu fyrir Ólaf Tryggvason að

---

[1]) Fsk. 21/112; Hkr. I, 51/357. [2]) Ágr. 16,393; Oddr 45—46 313—314; Oddr² 36/38; Hkr. I, 85/408—409; Fms. II, 206/169—170, 234/258, 236—237/274—277.

hann kom til Englands og tók þar kristni. Hann fór þangað í víking 991 og var þá með tveimur víkingaforingjum, Guðmundi Stegitanssyni og Justin, sem ef til vill hefur verið Jósteinn móðurbróðir hans. Þeir höfðu allir 390 skipa, svo að það var eigi lítill her, sem þeir áttu fyrir að ráða. Þeir tóku land á Staines við Thems og herjuðu þar. Síðan fóru þeir til Sandwich og þaðan norður til Ipswich. Þá hjeldu þeir aptur suður til Essex og sigldu inn hinn þrönga Blackwaterflóa, er þá hjet Panta. Þá var Brihtnoth yfirmaður *(ealdorman)* í Austurangel, hraustur maður og mætur. Hann safnaði liði og fór á móti víkingunum. Fundur þeirra varð við Maldon og varð þar ein hin frægasta orusta á Englandi á þeim tímum; er skýrt frá henni í kvæði einu engilsaxnesku, sem frægt er orðið. Brihtnoth fjell og víkingarnir unnu sigur. Þá skaut Aðalráði Englakonungi skelk í bringu og keypti hann með ráði nokkurra höfðingja sinna frið af víkingunum fyrir 10000 pund. Auk þess skyldu þeir fá vistir þangað til þeir færu brott, en hins vegar skyldu þeir hjálpa konungi á móti öðrum víkingum. Þetta var í fyrsta sinn að Englakonungur keypti frið af víkingunum.[1])

Ólafur Tryggvason var eptir þetta í vesturvíking, og mun hann hafa átt eigi lítinn þátt í ránum víkinganna á Öngulsey (Anglesey), Lindesey og víðar á norðanverðu Englandi. 8. september 994 kom hann ásamt Sveini konungi tjúguskegg með 94 skip til Lundúnaborgar og settust um hana. Þeim tókst þó eigi að vinna borgina, en þeir herjuðu þá um sunnanvert England, brendu hýbýli manna og gerðu mikinn skaða á mönnum og fje. Aðalráður konungur bauð þeim þá mikið fje, ef þeir ljetu af ránum. Þeir Ólafur gengu að því, og fengu 16000 pund og vistir í Wessex handa liði sínu. Ælfheah, biskup í Winchester, sem síðar varð erkibiskup í Kantaraborg (1006—1011), og Æthelwerd yfirmaður fóru síðan að boði Aðalráðs konungs á fund Ólafs

[1]) Steenstrup, Norm. III, 228—238 (þar er þýðing af kvæðinu um orustuna við Maldon), IV, 55 o. ef.

Tryggvasonar og báðu hann að koma til móts við konung. Þeir seldu honum gisla og fylgdu honum síðan með mikilli viðhöfn til konungs, sem var þá í Andover, „og Aðalráður konungur tók við honum úr hendi biskups og gaf honum konunglegar gjafir“.[1]) Orð þessi í Engilsaxnesku kronikunni lúta að því að Ólafur Tryggvason var staðfestur í Andover af biskupi og að konungur var hjálplegur við þá athöfn. Fyrir velgjörðir konungs hjet Ólafur honum því að herja eigi framar á England. Efndi hann það vel; sumarið eptir sigldi hann til ættlands síns.[2])

Að því sem segir í fornsögum vorum, var Ólafur skírður í Syllingum (Scillyeyjum), áður en þetta var.[3]) Má vel vera að það sje rjett, en það skiptir hjer minstu; þýðingarmeira var það fyrir kristnina að Ælfheah biskup hafði auðsjáanlega mikil áhrif á Ólaf Tryggvason eptir staðfestingu hans. Biskup hefur líklega unnið hann í þjónustu kirkjunnar, þá er hann kendi honum kristin fræði, því að hann lagði mikla stund á að snúa heiðnum mönnum til kristni. Það er auðsætt af öllu, að Ólafur hefur um þetta leyti sett sjer það takmark að vinna ríki Haralds hárfagra og kristna alla norræna menn, því að vorið eptir (995) fór hann frá Englandi að öllu undir það búinn. Mun Ælfheah biskup hafa búið hann undir kristniboðið. Hann hafði með sjer frá Englandi Sigurð biskup og fleiri kennimenn. Á leiðinni neyddi hann Sigurð jarl Hlöðvisson í Orkneyjum til þess að láta skírast.[4])

---

[1]) Anglo-saxon Chronicle, ed. Thorpe I, 242, líka í Monumenta hist. Brit. I, 402—403, sbr. Florentius, Chronicon, s. ritsafn I, 582. [2]) Steenstrup, Norm. III, 239—242; Munch, Hist. II, 243—248. [3]) Ágr. 16/392—393; Oddr 11/243—244; Fsk. 21/111; Hkr. I. 31/308—311; Theodricus 14. Vísindamenn greinir á um hvort Ólafur Tryggvason hefur verið skírður fyr en í Andover af Ælfheah biskupi, því að skírn og staðfesting fóru opt fram saman, þá er fullorðnir menn voru skírðir, sbr. Steenstrup, Norm III, 241—42 nm.; A. D. Jörgensen, Den nord. kirke bls. 310; A. Chr. Bang, Norsk Kirkes Hist. bls. 44; Taranger, Angelsaks. kirkes indfl. bls. 125. [4]) Hkr. I. 47/346; Maurer, Bekehrung I, 282 o. ef., Munch, Hist. II, 259 o. ef.; A. D Jörgensen, Den nord. kirke 321 o. ef.; A. Chr. Bang, Norsk Kirkes Hist. 44 o. ef.

Um þetta leyti var óvenjulega sterk andleg eða kirkjuleg hreifing uppi víða í hinum kristnu löndum, og hún fór vaxandi um alllangt skeið. Til skamms tíma hefur hreifing þessi verið talin afleiðing af því, að menn hafi ætlað að heimurinn mundi farast árið 1000 eptir Krists fæðingu og að sú hugsun hafi gripið fjölda manna með ótta og skelfingu. Margir hafi því viljað sjá sálum sínum borgið með guðrækilegu líferni, pílagrímsgöngum til helgra staða og gjöfum til guðsþakka. En er hættan var um garð gengin, hafi hræðslan snúist upp í fögnuð, gleði og þakkargjörð. Mestur á ótti þessi og angist að hafa verið á Frakklandi, og var sagt að hún hafi sprottið af misskilningi á orðum þeim, sem standa í Opinberunarbók Jóhannesar, 20. kapítula, um þúsund ára ríki Krists.[1]) En nýjar rannsóknir hafa leitt í ljós, að söguleg heimildarrit frá 10. og 11. öld benda alls eigi á að menn hafi alment trúað því að heimurinn mundi farast árið 1000; eigi er heldur hægt að sjá neinar verulegar menjar um það af gjafabrjefum. Að vísu er þess getið, að prestur einn í Paris hafi minst á það eitt sinn í prjedikunarstólnum, að heimurinn mundi farast árið 1000. Abbo ábóti í Fleury, hinu nafnkunna klaustri við Loire, í miðhluta Frakklands, skýrir frá því árið 990. Hann kveðst hafa heyrt það, þá er hann var á ungum aldri. Hann lagði engan trúnað á það og segist hafa síðar mótmælt alvarlega prjedikun þessari; mundi hann varla hafa gert það, ef kennimenn hefðu alment trúað því að heimurinn mundi tortímast það ár. Hitt er annað mál, þótt kennimenn hafi þá prjedikað um dómsdag og hinn síðasta dag heimsins, eins og þeir hafa gert alt til þessa dags.[2])

---

[1]) Sbr. t. a. m. Fr. Nielsen, Haandbog i Kirkens Hist. II, 1. útg. bls. 283, 2. útg. bls. 239; Steenstrup, Norm. III, 404—5; Henri Martin, Histoire de France (Paris 1844) III, 40 o. f.; L. Stacke, Deutsche Geschichte, 5. útg. (Bielefeld 1892) I, 294; C. Cantu, Verdenshistorie III, 491. [2]) H. v. Eichen, Die Legende von der Erwartung des Weltunterganges und der Wiederkehr Christi im Jahre 1000, í Forschungen zur Deutschen Geschichte. XXIII, 303—318. Ch. Pfister, Études sur la regne de Robert de Pieux, í Bibliotheque de l'ecole des hautes études. Paris 1885. 64. hepti, bls. 322 o. ef.

Hin kirkjulega og andlega hreifing, sem hófst á 10. öld, stafaði af ýmsum ástæðum, en sjerstaklega áttu Clunymunkarnir *(Cluniacensar)* mikinn þátt í henni.[1]) Þeir fylgdu Benediktsreglunni með þeim strangleik, sem til var ætlast í upphafi og endurbættu hana. Odó ábóti (926–942) fjekk önnur klaustur til þess að innleiða reglu þeirra og gjörðu þau öll samband sín á milli og stóðu undir yfirumsjón ábótans í Cluny, en hann stóð undir páfa og var þar enginn maður í milli. Odó ábóti fór opt til Ítalíu að vinna þar að ýmsum endurbótum, og eptirmenn hans hjeldu sömu stefnu. Reglan breiddist út svo að Clunyklaustur risu upp víðsvegar um allan vesturhluta Evrópu sunnan frá Benevento og norður að Atlantshafi. Clunymunkar heimtuðu einlífi af kennimönnum, svo að heimilislíf skyldi eigi glepja þá og þeir gætu verið óháðir.

Trúarlífið hafði þá um hríð verið í mestu niðurlægingu. Klaustur og kirkjur voru háðar aðalsmönnum og páfaveldið var ósjálfstætt sökum siðleysis páfanna og annara, er þar áttu mestan hlut að máli. En til þess að breyta þessu, hófu munkarnir frá Cluny mikla baráttu. Þeir náðu mörgum klaustrum úr höndum leikmanna og lögðu þau undir ábótann í Cluny, og er framliðu stundir, reyndu þeir að koma leikmönnum undir yfirráð kennimanna, eins og síðar mun sagt. Á 10. öld breiddist hreifing þessi út um alt Frakkland og Lothringen;[2]) þaðan barst hún út um Þýskaland og til Norðurlanda, einkum Danmerkur, en það var nokkru síðar en hjer er komið sögunni (á dögum Knúts ríka).

Odó erkibiskup og Osvald biskup frændi hans komu Englandi í samband við þessa hreifingu á meginlandinu. Þá

---

[1]) Klaustrið í Cluny (á latínu Cluniacum), smábæ einum í Bourgogne, austarlega á Frakklandi, var sett á stofn 910. Cluny er við á eina, sem Grosne heitir, og rennur hún í Saône. Um sögu Cluniacensa, störf þeirra og áhrif, sjá Ernst Sackur, Die Cluniacenser in ihrer kirchlichen und allgemeingeschichtlichen Wirksamkeit bis sur Mitte des elften Jahrhunderts. I–II. Halle 1892–1894. E. Lavisse, Histoire de France, Tome II, 2 (Paris 1901), bls. 123 o. ef. [2]) E. Sackur, Die Cluniacenser I. 121 o. ef.

er Odó átti að taka við erkibiskupsembætti, fór hann fyrst til Fleury og gerðist þar Benediktsmunkur, til þess að kynnast hinni kirkjulegu hreifingu og endurbótum þeim, sem gerðar voru á klaustrunum á Frakklandi.[1]) Hann barðist síðan fyrir samskonar endurbótum á Englandi, en einkanlega vann eptirmaður hans Dunstan, erkibiskup í Kantaraborg (959—988), mjög mikið að endurbótum í sömu stefnu sem Clunymunkar. Hann hafði kynst þeim, er hann dvaldi í Blandinium-klaustri í Flandern, rjett hjá Gent. Dunstan hreinsaði klaustrin og endurnýjaði reglur þeirra; hann vjek veraldlegum kanókum burtu úr kanókasetrum við dómkirkjurnar og skipaði munka í stað þeirra. Hann hvatti prestana til að vera skyldurækna og reyndi að vekja trúarlífið og bæta siðferði landsmanna. Dunstan mætti mikilli mótstöðu hjá löndum sínum og á ríkisárum Aðalráðs konungs hins ráðlausa dundu hörmungarnar yfir England, svo að kirkjulegt líf gat eigi náð þar neinum verulegum blóma, fyr en friður komst á, eptir að Knútur hinn ríki hafði unnið konungdóm á Englandi (1016). En ýmsir kennimenn hjeldu fram stefnunni og störfuðu að sama takmarki sem Dunstan.[2]) Einn af þeim var Ælfheah biskup, sem staðfesti Ólaf Tryggvason; var hann bæði guðhræddur maður, lærður og staðfastur, og ljet að lokum líf sitt fyrir víkingunum (1011).

Þótt ófriður, rán og hernaður væri mjög algengur, urðu samt margir gripnir af hugsjónum Clunymunka og hinni kirkjulegu og andlegu hreifingu, sem þeir höfðu mest vakið. Ýmsir tóku að iðka vísindi af kappi, einkum í Reims, sumstaðar á Norður-Ítalíu og við hirð þýska keisarans. Pílagrímsgöngur urðu tíðar. Konungar ljetu reisa fjölda af kirkjum og voru kennimönnum vinveittir og sumir þeirra studdust við fylgi þeirra. Sökum þess varð tímabil þetta mikið framsóknarskeið fyrir kristnina einnig að því leyti

---

[1]) Sbr. Hans Olrik, Konge og Præstestand I (stærri útgáfan 1892), 117; Taranger, Den angels. kirkes indfl., bls. 93. [2]) Um hann sjá W. Stubbs, Memorials of Saint Dunstan, London 1874; W. F. Hook, Lives of the archbiskops of Canterbury I, 382 o. ef. London 1860.

sem útbreiðslu hennar snerti. Um sama leyti sem kristni var boðuð í Noregi og á Íslandi, unnu kennimenn og konungar eða aðrir þjóðhöfðingjar að kristniboði á Rúslandi, Ungverjalandi, Póllandi og Prússlandi. Á því ári sem Gissur og Hjalti Skeggjason boðuðu kristni að lögbergi, kraup hinn þýsk-rómverski keisari Ottó hinn þriðji að bæn í Gnesen við gröf Aðalberts biskups, hins ágætasta trúboða á þeim tíma, sem hafði látið líf sitt á kristniboðsferð meðal Prússa (997), og þá var settur þar erkibiskupsstóll handa Pólverjum. Sama ár fengu Ungverjar einnig erkibiskup.[1])

Það getur varla verið efa bundið að Ólafur Tryggvason hafði orðið eitthvað snortinn af þessari hreifingu, á meðan hann var á Englandi, þótt þess sje eigi getið, að minsta kosti eigi beinlínis. Þá er hann hafði látið hylla sig um endilangan Noreg, tók hann þegar að boða landsmönnum kristni með öllum þeim dug og því kappi, sem honum var gefið. Hann beitti bæði góðu og illu, blíðu og stríðu til þess að fá menn til að taka skírn. Hann boðaði mönnum kristni bæði á þingum og heima hjá þeim, eða er menn komu á fund hans. Hann sótt menn heim sjálfur eða sendi eptir þeim. Opt reyndi hann fyrst að vinna höfðingjana í hverjum landshluta á mál sitt, til þess að sundra mótstöðu manna. Hann ljet þá suma þeirra fá stórar veislur eða mikil hjeruð að ljeni; öðrum gaf hann gjafir eða ljet þá fá ríkulegt kvonfang. Öllum hjet hann vináttu sinni, sem ljetu skírast. Margir höfðingjar spöruðu eigi heldur að maka krók sinn, áður en þeir ljetu skírast, og sömdu um launin við konung. Þá er höfðingjarnir höfðu tekið kristni, gerðu bændur það einnig, því að þeir voru vanir að fylgja þeim í almennum málum. En stundum beitti konungur brögðum og ofbeldi, ef eigi dugði annað. Hann bauð þá bændum tvo kosti, annaðhvort að berjast við sig eða láta skírast. Mörgum mönnum sýndi konungur vináttu og blíðu til þess að vinna þá undir kristni, og sumir ljetu einnig skírast af vin-

---

[1]) Sbr. W. Giesebrecht, Geschichte der deutschen Kaiserzeit I, 5. Aufl. bls. 675 o. ef. A. Hauch, Kirchengeschichte Deutschlands III, 257 o. ef.

áttu og ást til hans, eða af því að þeim fanst svo mikið til um hann. Hann bað menn og taldi um fyrir þeim, hjet þeim gjöfum og góðvild sinni. Opt sýndi hann mikla þolinmæði, þá er hann hugði að alt mundi vinnast með góðu. Stundum reyndi hann jafnvel íþróttir við menn, til þess að þeir ljetu skírast. En sumum hjet hann líka refsingum og dauða. Og þá varð hann stundum afarreiður og grimmur gegn þeim mönnum, sem flýðu fund hans og sýndu ósveigjanlega þverúð og fastheldni við fornan átrúnað. Ljet hann þá pína slíka menn grimdarlega til dauða. Fyrir því segir í sögunum, að Ólafur konungur hafi „brotið menn til kristni.“

Ólafur sigraði alla, sem hann reyndi sig við; heiðnir menn tóku eptir því og skildu, að guð hans var sterkari og máttkari en guð þeirra. Hann var líka sagður svo byrsæll, að hann sigldi það opt á einum degi, er aðrir sigldu tvo eða þrjá, og „í mörgum hlutum var hans gipt langt umfram aðra menn“.[1]) Er það eigi undarlegt þótt mönnum fyndist svo, því að á rúmum fjórum árum tókst honum að koma kristni um endilangan Noreg og í þau lönd, sem bygð voru þaðan. Þó það væri eigi nema að nafninu, var það mikið stórvirki.

Ólafur Tryggvason tók þegar á fyrsta ríkisári sínu að hugsa um að kristna Ísland. Á meðan hann var fyrir vestan haf fjekk hann hin fyrstu kynni af Íslendingum, svo kunnugt sje, því að þar kom til hans Íslendingur einn, er Stefnir hjet Þorgilsson og gerðist hans maður. Stefnir var fæddur og uppalinn á Kjalarnesi og var Eilífur afi hans sonur Helga bjólans. Hann fór á unga aldri utan og tók kristna trú í Danmörku. Segir í Ólafs sögu Tryggvasonar að hann hafi síðan hitt Þorvald víðförla og farið með honum víða um lönd að kanna helga staði.[2]) Á það að hafa verið eptir að Þorvaldur kom utan frá Íslandi. Aptur á móti er sagt í Kristni sögu, að þeir Þorvaldur hafi fundist eptir hvarf Ólafs Tryggvasonar og að þeir hafi þá farið víða um lönd, allar götur til Jórsala. Þar hafi þeir snúið aptur og haldið til

[1]) Oddr 46/314. [2]) Fms. I, 159/276.

Miklagarðs, svo til Kænugarðs eptir Nepr. Þorvaldur hafi andast á Rúslandi, en þá hafi Stefnir farið til Danmerkur.[1]) Saga þessi er enn ósennilegri en hin fyrri, því að Þorvaldur víðförli mun hafa byrjað Jórsalaferð sína löngu fyrir Svoldarbardaga. Þetta er því að öllum líkindum sögusögn ein, sem hefur myndast af því að æfi þeirra Þorvalds og Stefnis var að sumu leyti lík. Báðir höfðu þeir boðað kristni á Íslandi og hvorugur þeirra kom til landsins eptir það. Þá er framliðu stundir, settu menn því ferðir þeirra og þá sjálfa í samband hvorn við annan, er menn sögðu sögu þeirra.

Stefnir mun hafa farið frá Danmörku vestur um haf og hitt þar Ólaf Tryggvason. Hann fór með konungi til Noregs og hefur að líkindum fylgt honum um landið á hyllingarferð hans. En er konungur tók að hugsa um, hvern hann skyldi senda til Íslands til þess að kristna það, þótti honum Stefnir líklegastur til þess, því að hann hugði að honum mundi verða meira ágengt við landa sína en útlendum manni. Hann bað því Stefni að fara í þeim erindum til Íslands. Stefnir fann enga innri köllun hjá sjer til þess, en kvaðst fús á að gera vilja konungs, þótt sjer segði hugur þungt um ferðina. Konungur fjekk honum skip og förunauta, þar á meðal nokkra kennimenn. Stefni gekk ferðin vel til Íslands og tók hann land í Gufárósi í Borgarfirði. Hann byrjaði þegar að boða kristni og fór djarflega með erindi sitt. Hann mun eigi hafa dregið neina dul á það, að hann var maður Ólafs konungs og að hann hefði sent hann til þess að kristna landsmenn. Hann fór um landið við 10. mann, bæði „vestur“ eða „norður“ úr Borgarfirðinum og „suður“ um sveitir þaðan; en annars er lítið sagt af ferðum hans. Hann hefur farið vestur í Dali og hitt þar frændur sína, syni Ósvífrs Helgasonar; hefur þeim mislíkað mjög kristniboð Stefnis og eigi samist með þeim frændum, því að sagt er að frændur Stefnis tækju honum verst og mun þar sjerstaklega átt við þá.

Kristnin hafði eigi fest neinar rætur í þeim hjeruðum.

[1]) Krist. 12/25.

sem Stefnir fór um, og tóku landsmenn honum því illa, enda mun sumum þeirra eigi hafa farið að lítast á þær fregnir, sem þeir höfðu af útbreiðslu kristninnar. En er landsmenn skipuðust lítt við kenningar Stefnis, reiddist hann og vildi beita hörðu, eins og Ólafur konungur gerði í Noregi. Hann tók þá að „meiða hof ok hörga ok brjóta skurðgoð“. Heiðnir menn söfnuðust þá saman og vörðu hof sín og goð, en Stefnir varð að flýja til frænda sinna á Kjalarnesi, og var hann með þeim um veturinn.

Aðfarir Stefnis vöktu allmikla gremju. Heiðnir menn tóku því að íhuga, hvernig þeir skyldu hegna honum og vernda trú sína. Þeim þótti ráðlegast að fara gætilega að Stefni og drepa hann eigi, af því að hann var sendimaður og hirðmaður Ólafs konungs, sem frægðarorð flaug af, og þeir máttu vænta þess að hefnd væri vís af hendi konungs. Hins vegar þótti þeim eigi mega hlíta við þau lög, sem til voru um misgerðir við goðin, því að þau voru eigi sett með sjertöku tilliti til kristninnar. Fyrir því var það í lög tekið á alþingi árið eptir (997),[1]) að hvern þann mann skyldi gera sekan og útlægan, er lastaði goðin eða gerði þeim nokkuð mein eða ósæmd. Kristnin var þá einnig kölluð frændaskömm, og var það ákveðið með lögum, að hinir fjarskyldari frændur, þrímenningar og fimmmenningar og þeir, sem þar voru í milli, skyldu sækja þá frændur sína, sem fyrir sökum væru hafðir.[2]) Náfrændur máttu aptur á móti eigi eiga saksókn,

[1]) Svo segir í Krist. 6/10—11. Í Ól. s. Tr., Fms. I, 142/285 segir að það hafi verið sama sumarið sem Stefnir kom út (996). Þótt hann kunni að hafa komið til Íslands fyrir alþingi, eins og þar segir, er það þó ólíklegt, að hann hafi verið búinn að vekja svo mikla gremju á svo skömmum tíma, að hægt hafi verið að gera þetta þegar í júní 996.
[2]) Í Krist. 6/10—11 stendur „at frændr hinna kristnu manna skyldu sækja um þá guðlöstun, nánari en þriðja bræðra, ok firnari en næsta bræðra“. „Þriðja bræðra“ voru fimmmenningar nefndir í fornöld, en þrímenningar „næsta bræðra“. Fjarskyldari menn en fimmmenningar tóku eigi bætur nje guldu eptir frændur sína. Í Ól. s. Tr., Fms. I, 142/285 segir að „þrímenningar ok fjórmenningar ok þar á milli“ skyldu sækja frændur sína um sakir þessar, en fjórmenningar er auðsjáanlega

því að þeim var eigi treystandi til þess að sækja frændur sína sökum hinnar miklu blóðskyldu og vináttu. Með lögum þessum gengu menn svo hart að þeim, sem gerðust kristnir og löstuðu goðin, að hin sterku ættarbönd voru slitin og er það bæði einkennilegt og eptirtektavert og ólikt öllu því, sem venja var til. Er auðsætt af því, að annaðhvort hefur mönnum þótt mikils við þurfa til þess að vernda hin fornu goð, eða að einhverjir ættingjar Stefnis hafa verið honum mjög reiðir og átt hjer mikinn hlut að máli. Hvaða glæpi, sem menn annars unnu, voru þeir eigi kallaðir frændaskömm, en þetta var skoðað sem brot á móti ættinni. Má vera að Stefnir hafi brotið goð og skemt hof fyrir einhverjum ættingjum sínum, og þeir hafi því reiðst honum svo mjög og fengið þetta í lög tekið. Einnig var það nokkur hagur fyrir ættina, að ættingjarnir sjálfir ættu rjett til saksóknar gegn slíkum frændum sínum, svo að fje þeirra lenti hjá ættinni, ef það væri gert upptækt. Ef ættingjarnir notuðu eigi rjett þennan, er líklegt að þá hafi átt sök hver, er vildi, eins og opt átti sjer stað.[1])

Lög þessi eru hin einu lagaákvæði, sem sett voru á Norðurlöndum á móti kristninni, og enn eru kunn;[2]) sýna þau ásamt ýmsu fleiru að margir Íslendingar hafa haldið fast við heiðnina og verið mjög móthverfir kristninni. Ákvæði þessi voru í lög tekin aðallega sökum aðgjörða Stefnis og þeim var líka þegar á sama alþingi beitt á móti honum. Frændur hans Ósvífrssynir, allir nema Óspakur, sóttu hann

---

rangt í staðinn fyrir fimmmenningar, því að það gat eigi verið hin minsta ástæða til þess að taka fimmmenninga undan. Allir fjarskyldari frændur, þrímenningar og enn fjarskyldari, sem bætur áttu að taka eða að gjalda, hafa fengið rjett til að sækja frændur sína um goðlöstun, en orðunum „nánari“ og „firnari“ í Kristni sögu mun vera alveg ofaukið, sbr. Björn M. Ólsen, Kristnitakan, bls. 25—26. Ósvífrssynir, sem sóttu Stefni, voru fjórða og fimta við hann (Helgi bjólan — Eilífur — Þorgils Stefnir, og í hinn ættlegginn Björn austræni — Óttar — Helgi — Ósvífur — Þórólfur og bræður hans). Guðbr. Vigfússon segir í ógáti að þeir hafi verið rjettir fjórmenningar, Safn I, 430.

[1]) V. Finsen, Grág. III, 580. [2]) A. D. Jörgensen, Den nord. kirke bls. 361.

og gjörðu hann sekan. Stefnir var á þingi[1]) og mun hann hafa ætlað sjer að boða þar kristni, ef það hefði verið hægt. En hann sá skjótt að það var eigi til annars en að gera ilt verra, og að hann gat ekkert á unnið, allra síst þá er margir frændur hans snerust á móti honum. Stefnir fór því utan þegar eptir alþingi, er hann var ferðbúinn. Skip hans hafði um veturinn staðið upp í Gufárósi, en það hafði tekið út í vatnavöxtum og ofviðri, þá er snjóa leysti. Heiðnir menn kendu það reiði goðanna og kváðu um það vísu. En skip Stefnis skemdist lítið og fór hann utan á því, er hann hafði gert við það.

Þá er Stefnir kom á fund Ólafs Tryggvasonar, fagnaði konungur honum vel; sagði Stefnir honum alt hið sanna af ferð sinni og hve þunglega Íslendingar hefðu tekið kristniboði hans. Stefnir var síðan með konungi á meðan hann lifði. Hann fór með konungi til Vindlands, en var með því liði, sem hafði siglt þaðan frá honum. Fráfall Ólafs konungs fjekk Stefni svo mikinn harm, að hann undi eigi í Noregi, og rjeð hann sig þá til suðurgöngu. Hann gekk til Róms. Á heimleiðinni sá hann í Danmörku Sigvalda jarl. Stefni var gramt í geði til hans, því að honum þótt hann vera valdur að dauða Ólafs konungs og kvað vísu um það, að níðingur einn hefði dregið Tryggvason á tálar. Fyrir það ljet Sigvaldi jarl drepa Stefni.[2])

[1]) Svo virðist mega ráða af því sem sagt er um svar hans til Ósvífrssona, ef það er eigi yngri sögusögn. [2]) Krist. 6/9—11, 12/26; Fms. I, 139/276, 142/283—286, II, 187/118, III, 263/19—20; Flat. I, 238—240/285—287, 294/362, 392/500; Fsk² 22/122; Oddr 61/342, Oddr² 53/49—50. Vísur Stefnis, sjá Skjalded. A 153—154.

## Kristniboð Þangbrands.

Stefni varð mjög lítið ágengt með útbreiðslu kristinnar trúar á Íslandi, en hann vakti megna óvild og mótspyrnu gegn henni, af því að hann fór fram með ofbeldi. Þótt flestum rynni reiði við Stefni, er hann var farinn af landi brott, hvarf þó eigi allur ótti frá mönnum fyrir því. Það var alkunnugt, að Ólafur konungur Tryggvason hafði sent hann til landsins, og það fanst mörgum mjög viðsjárvert, því að þá tóku að spyrjast þau tíðindi af konungi, að hann byði Norðmönnum að taka kristni og að margir þeirra hefðu þegar orðið að hlýða vilja hans, bæði í Gulaþingslögum og í Víkinni. Sú fregn flaug einnig um, að konungur boðaði kristni öllum þeim Íslendingum, sem komu á fund hans. Nokkrir Íslendingar höfðu komið til Noregs hið sama sumar sem Stefnir fór til Íslands og höfðu þeir eigi sjeð annað vænna, en að taka við kristni.[1])

Þessi tíðindi vöktu töluverða eptirtekt á Íslandi eins og vonlegt var. Þótti mörgum það mikil firn að hafna fornum sið og átrúnaði. En er Njáll Þorgeirsson heyrði menn mæla slíkt, segir sagan að hann hafi sagt: „Svá lítz mér, sem hinn nýi átrúnaðr muni vera miklu betri ok sá muni sæll, er þann fær heldr; ok ef þeir menn koma út hingat, er þann sið bjóða, þá skal ek þat vel flytja“. Hann mælti það opt. Hann fór opt frá öðrum mönnum einn saman og þuldi.[2])

Þótt hinn snjalli kristni höfundur Njáls sögu leggi auðsjáanlega Njáli orð hjer í munn, mun þó eigi þurfa að efa að Njáll hafi tekið vel tíðindunum um hinn nýja átrúnað og að hann hafi hugsað mikið um hvor trúin væri betri. Er eigi ólíklegt að Kári Sölmundarson, sem þá var kominn til Njáls fyrir fám árum, hafi getað frætt hann eitthvað um kristnina og að flestir fyrir vestan haf hefðu þennan nýja

[1]) Hallfr. 5—6/91—99. [2]) Nj. 100/527.

átrúnað, því að Kári hafði verið þar lengi. Hann var að vísu hirðmaður Sigurður jarls Hlöðvissonar í Orkneyjum og dvaldi að líkindum lengst þar í eyjunum, en hann var kunnugur í Suðureyjum og víðar vestan hafs, þar sem hann mátti kynnast kristninni.[1])

Þetta sama sumar um haustið (997) kom út kristniboði nokkur austur í Álptafirði hinum nyrðra og tók hann þar land í Selvogum fyrir norðan Melrakkanes.[2]) Hann var eins og Stefnir sendur af Ólafi konungi Tryggvasyni og mátti þá landsmönnum brátt verða ljóst, að konungur mundi ætla sjer að kristna Ísland alveg eins og Noreg. Kristniboði þessi var þó eigi íslenskur, heldur var það prestur einn, er Þangbrandur hjet, og var ættaður sunnan af Saxlandi.[3])

Þangbrandur prestur er hinn eini af hinum útlendu kennimönnum á söguöldinni, sem nokkrar sagnir eru af, áður en hann kom til Íslands; er það mest af því að hann var harðla líkur mörgum þeim köppum, sem sögurnar segja mest af. Hann var mikill maður vexti og sterkur að afli. Hann var ofstopamaður mikill og vígamaður, og fullhugi að allri karlmensku, þó að hann væri kennimaður, ekki áleitinn, en harður og óvæginn, ef hann varð reiður. Hann var snjallur í máli og klerkur góður.[4])

Þangbrandur[5]) var af göfugri ætt. Það er sagt að faðir

---

[1]) Nj. 84/397, 85/400, 86/407, 89—90/454—456. [2]) Í Nj. 100/527 segir að hann hafi komið út í Berufirði, þar sem heitir Gautavík. [3]) Elstu heimildir um Þangbrand og kristniboð hans eru fimm vísur í Krist., Ól. s. Tr. í Fms. og Flat. og í Nj. eptir Þorvald hinn veila, Úlf Uggason, Steinunni móður Skáld-Refs og einn ónafngreindan mann. Aðrar heimildir eru Íslb., 7/9, 9/14; Ldn. 3/283; Ágr. 16/393; Oddr, Fms. X, 23/276, 37/297; Oddr[2] 16/23, 30/33; Oddr[3] 26/46, 40/61; Hkr. I, 73/388, 84/407—408; Theodric 15, 19—21; Hist. Norv. bls. 115; Krist. 5/8—9, 6/9, 7—8, 11—16, 10/19; Nj. 100—104/526—545; Lax. 41/153—154; Ól. s. Tr. Fms. I, 74/134—135, 81/151, 99/203, 141/283, II, 188/118—20, 216/197—206, 218/208—211; Flat. I, 88/115, 119/151, 237/285, 295/363, 336—37/421—426, 339/427—428. Ann. IV og yngri annálar. [4]) Hkr. I, 73/388; Fms. II, 188/120; Flat. I, 295/363. [5]) Theodric munkur kallar hann Þjóðbrand (Theobrand) og segir að hann væri frá Flandern, Monum. hist. Norv. 15, en það er rangt, sbr. K. Maurer, (Norsk) Hist. Tidsskr. 3. R., III, 5.

hans væri greifi af Brimum og hjeti Vilbaldur. Þangbrandur var til menta settur og tók snemma klerkvígslu; er sagt að hann færi með Albert biskupi nokkrum frá Brimum til Árósa á Jótlandi, hvað sem í því er hæft.[1]) Eitt sinn hitti hann líka Ólaf Tryggvason á Þýskalandi, á Vindlandi (Kristni saga), eða á Saxlandi (Ólafs saga Tryggvasonar), og gaf Þangbrandur honum þá skjöld, er á var markaður kross með líkneski Krists. Ólafur bauð honum þá að koma til sín, ef hann þyrfti nokkurs trausts eða halds. Nokkru síðar varð Þangbrandur að flýja fyrir vígsök eina af Saxlandi og Danmörku, og leitaði hann þá á fund Ólafs Tryggvasonar, sem var þá kominn vestur til Englands. Þar tók Þangbrandur síðan prestvígslu og gerði Ólafur hann að hirðpresti sínum.

Þangbrandur fór með Ólafi konungi til Noregs og skipaði konungur hann prest við kirkju þá, sem hann ljet gera í Mostur. En Þangbrandur hjelt sig svo ríkmannlega, að fje það, sem konungur fjekk honum, gekk til þurðar. Hann tók þá að herja á heiðna menn og rænti víða og lagði það fje fyrir lið sitt. En er konungur spurði þetta, stefndi hann Þangbrandi til sín og bar sakir á hann. Þangbrandur bað þá konung að leggja á sig nokkura þraut eða torvelda sendiferð til yfirbótar. Stefnir var þá nýkominn af Íslandi, og bauð konungur honum þá að fara þangað og kristna landið.[2])

Konungur fjekk síðan Þangbrandi menn og skip og ljet búa ferð hans sem best. Í föruneyti hans voru nokkrir kennimenn og að minsta kosti einn Íslendingur. Það var Guðleifur Arason frá Reykhólum, vígamaður og hraustmenni og harðgjör í öllu.[3])

Það var hvorttveggja að eigi var neinum heiglum hent að fara kristniboðsferð þessa, eptir að æsingur var hlaupinn í marga heiðna menn, enda er auðsætt hvernig Ólafur kon-

---

[1]) Sbr. Maurer, Bekehr. I, 383 o. ef. [2]) Krist. 5—6, 8—9, 7 11: Hkr. I, 73/388; Fms. I, 74/134—135, 81 151, 99 203, II, 189 118—120; Nj. 100/527. [3]) Nj. 100/528. I Krist. og Ól. s. Tr. eru engir förunautar Þangbrands nefndir, en Guðleifs er þar getið við víg Veturliða skalds og Þorvalds veila, sbr. einnig Ldn. 3/283.

ungur leit á það, þar sem hann ljet Þangbrand fara hana til þess að leysa af hendi þraut til yfirbóta og hann fjekk honum vígamann til fylgdar. Má nærri geta að konungur hefur eigi ætlast til að þeir væru þegar uppnæmir, ef í hart færi, enda var þá eigi farið að mönnum með lipurð. En um hugarþel ýmsra landsmanna ber það ljósan vott, að þeir vildu eigi mæla við Þangbrand nje vísa honum til hafnar, þá er þeir vissu að hann var kristinn og menn hans. Í Njálu segir að bræður tveir í Berunesi, Þorleifur og Ketill Hólmsteinssynir, hafi haldið fund og bannað mönnum að eiga kaup við þá. Þangbrandur leitaði þá liðsinnis hjá Halli af Síðu, sem bjó þá að Á í Álptafirði, og kvað Ólaf konung hafa sent sig til hans, ef hann kæmi í Austfjörðu. Hallur flutti Þangbrand heim til sín og hjelt hann um veturinn. Hann ljet gera búð handa honum og skipverjum hans þar á túnvellinum og tjalda hana; bjuggu þeir Þangbrandur í henni um veturinn. Kom það hjer fram sem optar að kristnir menn vildu eigi eiga meira samneyti við heiðna menn, en nauðsyn var á. Þangbrandur söng messur í búð þessari um veturinn, en það gat hann eigi gert í bæjarhúsum Halls á meðan allir voru heiðnir.

Það leið eigi á löngu áður en slíkur vitsmunamaður sem Hallur tæki að gefa gaum að sið þeirra Þangbrands. Hann var vel til hans og allra förunauta hans og var opt í búðinni hjá þeim. Daginn fyrir Michaelsmessu (29. septbr.) hætti Þangbrandur vinnu um nón og hjelt heilagt. Hallur var þá í búðinni og spurði hvernig á því stæði. Þangbrandur sagði honum að á morgun væri hátíð Michaels höfuðengils og notaði um leið tækifærið til þess að skýra honum frá veldi hans og miskunarverkum. Halli fanst mikið til um engil þennan og kvaðst gjarnan vilja eiga hann að vin. Daginn eptir var hann með hjúum sínum við guðsþjónustu hjá Þangbrandi og ljetu þau vel yfir athæfi kristinna manna.

Upp frá þessu tók Hallur sjálfur að hneigjast að kristinni trú, en hann virðist hafa íhugað það mál vel, betur en flestir aðrir. Sagan segir að hann ljeti fyrst skíra tvær

karlægar kerlingar til reynslu. Og er þeim varð vel við, hjet hann að taka trú. Líklega er þetta tilbúningur einhverra kennimanna til þess að sýna krapt skírnarinnar. En Hallur ljet skírast laugardaginn fyrir páska (16. apríl 998) og hjú hans öll. Voru þau vatni ausin þar í ánni, og er hún síðan kölluð Þvottá.[1])

Það var mikill styrkur fyrir Þangbrand að fá svo góðan mann og merkan sem Hall af Síðu algjörlega í lið með sjer, áður en hann hóf kristniboðsferðir sínar um Ísland. Hann reið með honum til alþingis, því að þangað vildi Þangbrandur fara til þess að reyna að fá kristnina lögtekna. Á leiðinni til alþingis boðaði Þangbrandur víða kristni. Þeir fóru því seint yfir og hafa því hlotið að leggja af stað frá Þvottá nokkru fyr, en venja var til í alþingisferð. Kristniboði Þangbrands var víða vel tekið í Skaptafellssýslu, einkum af frændum Halls. Þangbrandur skírði þá Hildi hinn gamla í Borgarhöfn og hjú hans öll, Kol Þorsteinsson að Kálfafelli og heimamenn hans, Ingjald Þorkelsson Háeyjartyrðils í Mýrdal og Njál Þorgeirsson og fólk hans. En hann prímsigndi Össur Hróaldsson að Breiðá og Flosa Þórðarson að Svínafelli; hafa þeir báðir líklega orðið að afneita hinum heiðnu goðum og ef til vill vinna eið að því.[2]) Flosi hjet

---

[1]) Krist. 7/11—12; Fms. II, 216/197—202; Nj. 100/529—31. [2]) Þá er menn voru fyrst merktir krossi eða, eins og það var kallað, prímsigndir, urðu þeir að afneita hinum heiðnu goðum með eiði og urðu þeir þá samkvæmt fornum kristnum sið „*katekumen*“, en svo var sá nefndur, sem verið var að búa undir skírn, en var eigi enn tekinn í kristinna manna tölu. Hraban ábóti í Fulda, síðast erkibiskup í Mainz († 856), getur þess að menn hafi orðið að afneita með eiði heiðnum goðum, áður en krossmarkið var gert. Á hinum fyrstu öldum kristninnar voru menn opt lengi „katekumen“ og rækilega búnir undir kristna trú, áður en þeir voru skírðir. En síðar á tímum, er kristnin hafði náð mikilli útbreiðslu, ljetu margir prímsignast af ábatavon eða öðrum veraldlegum ástæðum. Svo gerðu margir víkingar til þess að geta átt kaup og samneyti við kristna menn, eins og t. a. m. synir Skallagríms, þótt þeir blótuðu heiðin goð, er þeir komu heim til sín. Þá er svo stóð á, fór eigi skírn fram á eptir prímsigningunni. Sbr. H. Olrik, Konge og Præstestand (1892) I. 56. Maurer, Bekehrung II. 333 o. ef. telur prímsignda menn, sem nefndir eru í sögunum, en gerir eigi, eins og optar í því riti, mun á sönnum og ósönnum sögum og dæmum.

einnig að fylgja þeim á þingi. Þeir Þangbrandur komu á leiðinni í Kirkjubæ til Surts Ásbjarnarsonar, sem var kristinn eins og allir langfeðgar hans.[1])

Þangbrandur varð líka að mæta mikilli mótstöðu og fjandskap á ferð þessari. Þorkell að Stafafelli mælti mjög á móti trúnni og skoraði Þangbrand á hólm. Hann hafði þá róðukross í staðinn fyrir skjöld,[2]) en þó lauk svo með þeim, að Þangbrandur hafði sigur. Heiðnir menn keyptu einnig fjölkunnugan mann, er Galdrahjeðinn hjet og bjó í Kerlingardal, til þess að deyða Þangbrand. Hann efldi blót mikið, segir í Njálu, og er sagt að jörðin hafi brostið í sundur undir hesti hans, en hann hljóp af hestinum og komst upp á bakkann. Í Kristni sögu segir, að hestur Þangbrands hafi fallið í jörð niður, þá er þeir riðu úr Kirkjubæ. Fyrir þetta drap Guðleifur Arason Galdrahjeðin.[3])

Nokkrir menn urðu líka til þess að yrkja níð um Þangbrand og eru tveir þeirra nafngreindir; var annar þeirra Veturliði skáld, sem mótmælti mest kristninni í Fljótshlíðinni, en hinn Þorvaldur hinn veili, er bjó í Eyvík í Grímsnesi. Þá er þeir Þangbrandur fóru um Fljótshlíðina, fundu þeir Veturliða að torfgrepti og vágu hann þar.

Þorvaldur hinn veili vildi sitja fyrir Þangbrandi og drepa hann. Hann gerði því Úlfi skáldi Uggasyni orð um, að hann hjálpaði sjer til þess, og segir hann í vísu, sem hann sendi honum, að hann skuli drepa Þangbrand, en sjálfur ætli hann að vega Guðleif. Kallar Þorvaldur Þangbrand í vísu þessari „argan goðvarg“, svo gramur hefur hann verið. Úlfur svaraði með vísu aptur. Hann

---

[1]) Nj. 101—102/531—535. Njála segir greinilegast af þessari ferð og er þar sagt að Þangbrandur hafi á henni komið í Haukadal og skírt Hall Þórarinsson, en það gerði hann fyrst árið eptir, Íslb. 9/14; Hkr. I, 7. Einnig er það ósennilegt, sem sagt er í Njálu, að þeir Þangbrandur hafi farið í Haukadal af Rangárvöllum og svo þaðan til Hestlækjar í Grímsnesi, sem er suður undir Hestfjalli austanverðu. Þeir hafa auðsjáanlega eigi krækt upp í Haukadal, heldur riðið beint að austan „út yfir ár“ til Hestlækjar í Grímsnesi, því að hann er þá á leiðinni til Þingvalla. [2]) Sbr. B. Ólsen, Kristnitakan bls. 31 nm. [3]) Nj. 102/533; Krist. 7/12 og Ól. s. Tr. Fms. II, 216/202 geta eigi um víg Galdrahjeðins.

kvað það eigi líkt sjer að gína við flugu; „röng mál eru á gangi“; hann vilji forðast mikið mein. Ulfur virðist hafa verið orðinn vinveittur kristninni og fór hvergi. Þeir Þangbrandur fundu Þorvald hinn veila við Hestlæk, þar sem hann sat fyrir þeim, og vágu þeir hann þar. Eptir það riðu þeir á Þingvöll, og lá nærri að sögn Njálu, að frændur Þorvalds myndi ganga að þeim. En Njáll og Austfirðingar veittu þeim lið.

Þangbrandur flutti skörulega guðs erindi á þingi, og tóku þá margir menn við trú í Sunnlendingafjórðungi og Norðlendingafjórðungi,[1]) „en þeir voru þó fleiri, er í gegn mæltu og neittu“,[2]) eins og Ari segir um kristniboð Þangbrands í heild sinni. Má vera að Hjalti Skeggjason og Gissur hvíti hafi þá tekið kristni; að minsta kosti er mjög líklegt að Síðu-Hallur hafi komið Þangbrandi í kynni við þá á alþingi það sumar, því að á þessu ári snerust þeir í lið með Þangbrandi. Er eigi ólíklegt að Þangbrandur hafi haft orðsendingu frá konungi til Gissurar, eða að hann hafi fundið hvöt hjá sjer til þess að styðja erindi Þangbrands sökum frændsemi við konung.

Theodric munkur getur þess að þeir Síðu-Hallur, Gissur hvíti og Hjalti úr Þjórsárdal hafi tekið kristni af Þangbrandi, og hann nefnir enn fremur „Þorgils úr Ölfusi“ sem hinn fjórða merkismann, er það hafi gert,[3]) en hann greinir ekkert um það, hvort þeir hafi látið skírast þetta sumar á alþingi eða síðar við annað tækifæri. Af því að enginn höfðingi í Ölfusinu er kunnur á þeim tíma, sem Þorgils hjet, þykir líklegt að hjer sje átt við Þórodd goða, ef sveitarnafnið er rjett. Þó er þess hvergi getið, að hann hafi tekið kristni fyr en hún var í lög tekin á alþingi, en eitt atvik er þó kunnugt, sem virðist benda á að hann hafi verið kominn í kristinna manna tölu áður.[4]) Þóroddur goði varð einnig um þetta leyti tengdafaðir Gissurar hvíta, og er eigi ólíklegt að hann hafi komið í Skálholt, á meðan Þangbrandur var þar, og látið skírast. Þess má líka geta að Þorgils örra-

[1]) Krist. 7/12; Fms. II, 216/202. [2]) Íslb. 7/9; Oddr 37/397; Fms. II, 216/204. [3]) Monum. hist. Norv. 20. [4]) Krist. 11/22.

beinsstjúpur tók kristni að líkindum um þetta leyti, áður en hann fór til Grænlands.[1]) Ef Theodric hefur átt við hann, er sveitarnafnið rangt; en hann var úr Flóanum næstu sveit við Ölfusið.

Lengra en til alþingis er eigi hægt að rekja ferð Þangbrands með áreiðanlegri vissu eptir rjettri tímaröð, því að í sögunum eru ýmsar missagnir um hvernig hann hagaði ferðum sínum, en það yrði of langt mál að fara ítarlega út í þær hjer.[2]) Í Kristni sögu er sagt að hann hafi verið þrjá vetur á Íslandi, tvo hjá Halli af Síðu, en síðan einn hjá Gissuri hinum hvíta. Í Njálu aptur á móti er alt ferðalag Þangbrands látið gerast á einu sumri, en ferðar hans um Austurland og norður í Mývatnssveit er eigi getið. Ari hinn fróði segir að Þangbrandur væri hjer einn vetur eða tvo, og mun hann meina tvo vetur eptir orðalagi hans að dæma. Oddur munkur fer sömu orðum um þetta sem Ari. Theodric munkur og Snorri Sturluson segja að Þangbrandur dveldist tvo vetur á Íslandi og hið sama segir í Ólafs sögu Tryggvasonar hinni lengstu.[3])

Það er enginn efi á því að Þangbrandur var tvo vetur á Íslandi; einnig er auðsætt um hvaða hluti landsins hann hefur farið, þótt eigi sje skýrt greinilega frá ferðum hans. Hann ferðaðist um Suðurland, Austurland og Vesturland alla leið vestur í Barðastrandarsýslu, en á Norðurland kom hann að eins í Þingeyjarsýslu.

Þangbrandur mun hafa riðið með Síðu-Halli heim af alþingi. Frá Þvottá hjelt hann síðan norður eptir Austfirðingafjórðungi, og var ferðinni heitið norður í Þingeyjarþing, því að þangað höfðu nokkrir menn, er trú vildu taka, boðið honum um sumarið. Hann hefur þá að líkindum heimsótt Þorleif hinn kristna í Krossavík í Reyðarfirði. Þó segir ekkert af ferðum hans, fyr en hann kom norður í

---

[1]) Fló. 20/140. [2]) Um missagnirnar sjá Maurer, Bekehr. I, 388—408, sem tilfærir alt úr heimildarritunum um Þangbrand, og Björn M. Ólsen, Kristnitakan bls. 33—36. [3]) Krist. 7—8/11—16; Nj. 100—103/527—545, sbr. Lax. 41/153—154; Íslb. 7/9; Oddr 37/297 (= Oddr[3] 40/61); Theodric 20; Hkr. I, 73/389; Fms. II. 216/197—206.

Axarfjörð. Þar skírði hann marga menn í læk þeim hjá Skinnastöðum, sem síðan heitir Þangbrandslækur.[1]) Þaðan hjelt hann suður í Mývatnssveit og skírði þar enn einhverja menn í Þangbrandspolli við Mývatn.[2]) Þá ætlaði Þangbrandur að halda áfram ferðinni vestur um Norðurland, en er hann kom að Skjálfandafljóti, varð hann að hverfa aptur fyrir ríki Eyfirðinga; fór hann þá aptur í Austfjörðu og að Þvottá.[3])

Nú bjó Þangbrandur skip sitt, og segir bæði Kristni saga og Ólafs saga hin stærsta að hann hafi ætlað utan, en hrept mótviðri og orðið apturreka til Íslands; tók hann þá land í Borgarfirði, í Hítará eða öllu heldur skamt þar suður frá sem heitir Þangbrandshróf.[4]) Í Kristni sögu segir að hjeraðsmenn hafi bannað þeim kaup öll, og hafi þá Þangbrandur falað mat af Kol bónda í Lækjarbug, en hann vildi engan selja. Þeir tóku þá matinn og lögðu verð eptir. En Kolur kærði fyrir Skeggbirni á Hítarnesi. Hann barðist við Þangbrand, en fjell og átta menn aðrir. Tveir fjellu af Þangbrandi. Þá er Gissur hvíti spurði þessi tíðindi, bauð hann Þangbrandi til sín og má vera að hann hafi gert það fyrir frændsemis sakir við konunginn.[5]) Þangbrandur var hjá honum um veturinn í Skálholti, og má nærri geta að hann hefur messað þar og boðað mönnum trú, þá er færi var til þess. Ef hann hefur eigi áður verið búinn að skíra Gissur og fólk hans, þá hefur hann gert það nú.[6]) Um

---

[1]) Lækur þessi fellur í Sandá, Kalund, Isl. II. 185. [2]) Sbr. Kålund, Isl. II, 426—427. Alls eru átta staðanöfn kend við Þangbrand og eru fjögur þeirra í Álptafirðinum í Suður-Múlasýslu. Kålund, Isl. II, 160—161. [3]) Krist. 7/12; Fms. II, 216/202. [4]) Sbr. Kålund, Isl. I, 389. Í Ól. s. Tr. segir að Þangbrandur hafi tekið land í Höfn skamt frá Hvítá, en þangað kom hann fyrst árið eptir. [5]) Fms. II, 218/210. [6]) Björn M. Ólsen, Kristnitakan bls. 34—35, hefur getið þess til að Gissur hvíti hafi um sumarið í alþingisferðinni boðið Þangbrandi að vera hjá sjer um veturinn, og hafi hann því verið að flytja sig sjóveg þangað. Þessi getgáta er sennileg, þótt eigi sje neitt getið í skyn um það í sögunum. Það var eflaust hægra fyrir Þangbrand eptir allar ferðir hans um sumarið að fara þangað sjóveg en landveg, en hins vegar næsta ólíklegt að hann hafi viljað hætta við kristniboðið eptir eitt ár, eins

vorið (999) skírði hann Hall Þórarinsson í Haukadal, er þá var þrjevetur, og mun hann hafa skírt þar fleiri. Þá fór Þangbrandur einnig vestur um sveitir til Breiðafjarðar að finna Gest hinn spaka Oddleifsson í Haga á Barðaströnd. Á meðan hann dvaldi hjá honum, segir sagan, að hann hafi sigrað berserk nokkurn,[1]) er kunni þá íþrótt að ganga berum fótum um eld brennanda og falla á saxodd sinn, án þess að saka. Þangbrandur vígði eldinn og gerði krossmark yfir saxinu. Berserkurinn brann því, er hann óð eldinn, og beið bana, er hann fjell á saxið. Eptir þessa jartegn ljet Gestur prímsignast eða skírast, og nokkrir vinir hans.[2])

Þangbrandur sneri aptur í Haga. Segir í Njálu að Gestur hafi latt hann að fara lengra, því að vestur í fjörðum væru menn „harðir og illir viðureignar“. Þangbrandur hjelt því suður í Borgarfjörð. Um veturinn hafði skip hans tekið út og rak það á land þar skamt frá á Mýrunum fyrir sunnan Kálfalæk. Heiðnir menn kendu þetta reiði goðanna og orti Steinunn, móðir Skáld-Refs, tvær vísur um það, sem enn eru til og sýna, hvernig heiðnir menn litu á þetta. Hún segir: Þór brá skipi Þangbrands úr stað, hristi það, og barði og laust því við jörðu. Skipið mun eigi sjófært síðan, því að harður stormur, sem kendur er Þór, hafi brotið það í spón. Þór braut alt skipið fyrir klerknum; goðin ráku skipið. Kristur hlífði eigi skipinu, þá er það kneyfði. Eg hygg að goð (kristinna manna), gætti að eins lítt skipsins.[3])

---

mikið og hann hafði þá á unnið um sumarið, nema því að eins að hann hafi verið gerður sekur þá á alþingi.

[1]) Hann er í Krist. nefndur Tjörfi, en í Njálu Útryggur. [2]) Í Krist. 8/16 og í Ól. s. Tr. Fms. II, 216/206 segir að Gestur ljeti prímsignast, en eptir því að dæma, sem segir í báðum þessum sögum af kristniboðinu á alþingi árið eptir, má ætla að hann hafi verið skírður, eins og sagt er í Nj. 103/543. [3]) Vísur þessar eru nú best útgefnar í Skjalded. A 135—36, B 127—28. Í Nj. 102/538—539 segir að Steinunn kæmi í móti Þangbrandi, er hann fór vestur um sveitir og boðaði honum heiðni og teldi lengi fyrir honum. Þar er Steinunn látin segja: „Hefir þu heyrt þat, er Þórr bauð Kristi á hólm, ok þorði Kristr eigi at berjaz við Þórr?“ „Heyrt hefi ek“, segir Þangbrandr, „at Þórr var ekki nema mold ok aska, ef guð vildi eigi, at hann lifði.“ „Veizt þú“,

Þangbrandur ljet bæta skipið og kallaði það Járnmeis, því að það mun hafa verið styrkt með járnböndum eða spengum. Hann sigldi því suður um Borgarfjörð til Hafnar og lagði þar inn á voginn við höfða einn, sem síðan heitir Járnmeishöfði og beið þar byrjar.[1]) Hann mun eigi hafa látið í haf fyr en eptir miðsumarsskeið; sigldi hann þá til Noregs og kom til Niðaróss um haustið.

Ferð Þangbrands hafði haft allmikinn árangur. Margir höfðu tekið kristni og látið skírast eða þeir höfðu gerst kristninni vinveittir og búist undir að taka hana og látið prímsignast. Þangbrandur hafði eigi að eins unnið ýmsa mæta menn og merka höfðingja fyrir kristnina, sem nafngreindir eru, heldur og venjulega alt heimafólk þeirra, því að það fylgdi húsbændum sínum. Auk þess hafa ýmsir minni menn tekið kristni, sem eigi fara neinar sögur af.

Sumir tóku kristni af því að þeir höfðu sannfærst um að hún væri betri en heiðnin, en sumir af því að þeir höfðu orðið gagnteknir af hinni fögru guðsþjónustu kristinna manna. Ýmsir gerðu það af því að höfðingjar þeirra ljetu skírast og þeir voru vanir að fylgja þeim í öllum almennum málum. Margir gerðu það af einhverri hagnaðarvon, af því að þeir ætluðu að Kristur mundi veita þeim betri og traustari vernd en hin gömlu goð, eða af því að þeim þótti það hyggilegra að vera þeim megin, sem sigra

segir hon, „hverr brotið hefir skip þitt?“ „Hvat segir þú til?“ segir hann, og er þá til færð síðari vísa Steinunnar, er endar svo:

„hlífðit Kristr, þás kneyfði
knǫrr, málmfeta varrar;
litt hykk at goð gætti
Gylfa hreins at einu“.

Útaf þessum vísuorðum mun samtal þetta spunnið, og er alveg óvíst hvort þau Steinunn og Þangbrandur hafi sjest. Í Nj. er einnig sagt að skip Þangbrands hafi brotið austur við Búlandsnes og það hjeti Visundur, af því að það er kallað „mástalls vísundr“ (= hafs uxi) í vísunni. Hvorttveggja er rangt. Af því að fleiri rit eru hjer til frásagna má sjá, hve rangt sumt er í Nj. í frásögn hennar um kristniboðið.

[1]) Kålund, Isl. I, 298. Af því að Þangbrandur sigldi nú til Hafnar sunnan við Borgarfjörð, hefur sá, er setti saman Olafs sögu Tryggvasonar, sagt að hann tæki þar land, er hann kom fyrst í Borgarfjörðinn.

mundi. En kristnitaka þessara manna hefði þó eigi getað gengið svo greitt, ef jarðvegurinn hefði eigi verið töluvert undirbúinn af Þorvaldi og Friðrik biskup, Stefni og þeim mönnum, er kristni höfðu tekið og voru á Íslandi. Jafnframt hlutu þau tíðindi, sem bárust þá frá útlöndum um sigurför kristninnar, að hafa töluverð áhrif á ýmsa menn. Kristnin var að nafninu til orðin mörgum kunn á Íslandi.

Kristnum mönnum hefur eflaust fjölgað um meira en helming við kristniboð Þangbrands[1]) og þeim óx bæði hugur og dugur, enda mun Þangbrandur hafa eflt samheldni á meðal þeirra. Þeir vörðu Þangbrand á alþingi 998 á móti hefnd frænda Þorvalds veila, en gátu þó eigi hindrað að hann væri gerður sekur á alþingi fyrir víg hans og Veturliða.[2]) Hvort það var þá um sumarið eða árið eptir, er óvíst, og eigi er heldur kunnugt, hvort Þangbrandur var þá á alþingi (999). Hann er eigi nefndur þar og má vel vera að hann hafi um það leyti verið við skip sitt. En þetta sumar var mikil umræða á alþingi um trúna, er Þangbrandur boðaði. Þá guðlöstuðu sumir menn mjög, en kristnir menn ámæltu goðunum, „ok var at því sveitardráttr mikill“. Þingheimur eða mesti hluti hans skiptist þá í tvo flokka, kristna menn og heiðna. Kristni flokkurinn var miklu minni, en hann hafði meiri áhuga en heiðni flokkurinn og vísari von um sigur. Hjalti Skeggjason var yngstur atkvæðamikill höfðingi í kristna flokknum og áhugamestur. Hann kvað þá kviðling þennan að lögbergi:

Vilkat goð geyja,
grey þykkjum Freyja.[3])

Það er auðsætt að umræðan hefur staðið að lögbergi, þar

---

[1]) Nj. 103/544. [2]) Krist. 8/14; Fms. II, 218/208. [3]) Íslb. 7/10; Krist. 9/17. Hjer er vísan rituð eins og í Skjalded. B, bls. 131. Vísa þessi hefst þannig í Nj. 102/538: Spari ek eigi goð geyja; og kveður þar við annan tón en í Íslb. Þar er einnig bætt við tveimur vísuorðum: „Æ mun annat tveggja Óðinn grey eða Freyja“ og munu þau vera yngri, sbr. Konráð Gíslason Nj. II, 505—506; F. Jónsson Skjalded. A, 129. B, 131. Þessi viðbót er einnig hjá Oddi 37/298; Ól. s. Tr., Fms. II, 217/207 og Flat. I, 338/426.

sem Hjalti kvað þetta; er það leitt að eigi er neitt nánar af henni sagt. En eitthvað hefur komið umræðunni af stað; er eigi ólíklegt að Hjalti eða Gissur eða einhver annar kristinna manna hafi reynt að fá þar viðurkend rjettindi fyrir kristna menn, eða að minsta kosti reynt að fá það afnumið að kristnin væri kölluð frændaskömm. Slíkt gátu kristnir menn eigi þolað, og það hlaut að stofna til vandræða, þar sem svo margir voru orðnir kristnir, þar á meðal að minsta kosti tveir goðar (Síðu-Hallur og Gissur hvíti), og auk þess voru nokkrir þeirra prímsigndir.

Runólfur goði Úlfsson stefndi Hjalta fyrir kveðling þennan um goðgá og sótti hann þegar til sektar. Kristnum mönnum þótti þetta hart og gripu til þeirra úrræða, sem menn brugðu of opt fyrir sig á alþingi í fornöld, en það var „að hleypa upp dómnum“, sem átti að dæma mál þetta. Svo var það kallað þegar menn bönnuðu með ofríki dómendum að sitja í friði og dæma mál. Þetta hleypti þinginu í mesta uppnám, því að Runólfur goði vildi eigi heldur láta sinn hlut og reyndi því að setja niður dóminn á öðrum stað. En kristnir menn gengu að með ofbeldi og gekk svo um hríð, að dómurinn gat hvergi setið, fyr en Runólfur setti hann á Öxarárbrú og ljet verja báða brúarsporðana. Þannig varð sókn og vörn í máli þessu einhver hin harðasta, sem verið hafði á alþingi til þessa. Heiðnum mönnum leitst eigi heldur á flokk kristinna manna eða á kapp þeirra og Runólfs goða, því að enginn af dómendunum fjekkst þá til að reifa málið, fyr en Þorbjörn Þorkelsson úr Goðdölum settist í dóminn og reifði það. Hjalti var síðan dæmdur sekur fjörbaugsmaður um goðgá, og fór hann um sumarið til Noregs á fund Ólafs konungs Tryggvasonar, og með honum Gissur hvíti, tengdafaðir hans.[1]) Þeir hittu konung í Niðarósi um haustið, þá er hann kom þangað norðan af Hálogalandi.

[1]) Íslb. 7/10; Krist. 9/16—18; Fms. II, 217/207—208; Nj. 102/538; Lax. 41/154. Í Krist. er svo að orði komist, sem þeir Gissur og Hjalti hafi eigi orðið samferða utan, en það þarf varla að efa.

Hjalti Skeggjason var einn af hinum miklu merkismönnum, sem þá voru uppi á Íslandi. Engin samfeld lýsing er til af honum í sögunum, en það er auðsætt að hann var ágætismaður og vel til foringja fallinn. Hann var dugnaðarmaður mikill, hreinn og beinn í skapi, greindur vel[1]) og óvenjulega góður drengur. Hann sýndi snemma skörungsskap og fanst Gunnari á Hlíðarenda mikið til um hann.[2]) Hann var mjög vinsæll af sínum mönnum[3]) og lýsir eitt atvik vel, hve góðan mann hann hafði að geyma. Hjalti hafði látið gera skip heima í Þjórsárdal og færði hann það eptir Rangá hinni ytri (vestari) til sjóvar, er hann var sekur orðinn og ætlaði utan. Þá er þeir fóru ofan eptir ánni, kom þar maður hlaupandi og hafði spjót í hendi og skjöld. Hjalta grunaði að hann mundi vera sendur til sín og kallaði til hans. „Þér liggr hálmsvisk þar er hjartað skyldi". Maður þessi skaut spjótinu til Hjalta, en hann greip skjöld og brá fyrir, svo spjótið kom í hann. Menn Hjalta hlupu á land og tóku manninn og spurðu hver hann væri. Hann kvaðst heita Narfi og hafði Runólfur goði sent hann til höfuðs Hjalta; skyldi hann svo leysa sig undan sektum. En sagan segir að Hjalti hafi þá mælt: „Ek kann þér betra ráð, far þú utan með mér ok mun ek gera þik sýknan". Bendir það á að Hjalti hafi tekið manninn að sjer og flutt hann utan til þess að koma honum úr sekt.

Hjalti var einn af þeim Íslendingum, sem varð hrifinn af kristinni trú, og sjerstaklega fann hann til þeirrar heimsku að trúa á vanmáttug skurðgoð. Þótt hann væri í raun rjettri mikill stillingarmaður, eins og hann sýndi við flugumanninn, var hann þó áhugamikill og hugprúður maður. Hann mun einnig hafa verið snjallur í máli, að minsta kosti þá er hann talaði um mál, sem honum brann í brjósti. Atburðir þeir, sem urðu á alþingi 999, höfðu einnig hleypt kappi í hann. Honum mun nú hafa fundist hin brýnasta nauðsyn vera á því, að kristin trú yrði lögleidd og heiðin goð

---

[1]) Nj. 118,601—602. 139/746; Hkr. II. 78/137. [2]) Nj. 66/307—308, sbr. 75/353. [3]) Fms. II. 217/207.

gerð útlæg af landi brott. Upp frá þessu varð líka Hjalti einn af þremur hinum helstu forgöngumönnum kristninnar á Íslandi, ef hann í raun rjettri hefur eigi verið þeirra fremstur. Hann var um hríð hið drífanda afl á meðal þeirra, líkt og Tómas Sæmundsson var á meðal Fjölnismanna.[1])

Það er mjög líklegt að Hjalti Skeggjason hafi fengið Gissur hvíta til þess að fara utan með sjer, eða að minsta kosti ýtt undir hann til þess. Utanferð hans er mjög eptirtektarverð. Þessi mæti og göfugi höfðingi var nú kominn um fimtugt, en hann var framkvæmdamaður og sjálfkjörinn stuðningsmaður kristninnar. Frá erindi hans er eigi sagt, en einhver brýn nauðsyn hefur hlotið að knýja hann til fararinnar, þar sem hann hafði eigi verið í förum áður, að minsta kosti eigi svo kunnugt sje. Það er þó auðsætt af því, sem segir af ferð hans, að hann hefur eigi farið í kaupskaparerindum, eins og sumir búsettir menn gerðu á þeim tímum. Hins vegar liggur það svo að segja í augum uppi í hvaða erindum hann hefur farið. Deilan milli heiðinna og kristinna manna var orðin svo hörð, að kristnir menn munu eigi hafa þótst mega búa við það lengur,[2]) enda vildu þeir fá kristnina tekna í lög sem trú landsmanna eða að minsta kosti friðaða með lögum. Tengdasonur Gissurar, einn af höfðingjum kristinna manna, var dæmdur sekur af því að hann hafði talað óvirðulega um goðin, sem kristnir menn sáu að voru falsgoð ein. Og heiðnir menn heimtuðu að þeir skyldu gjalda toll til slíkra goða. Að hverfa aptur til þess að dýrka slík goð, var ómögulegt fyrir Gissur og aðra hina bestu og vitrustu menn úr kristna flokknum. Þeim var því í raun rjettri nauðugur einn kostur, að halda fast við kristna trú, vernda hana, útbreiða og styrkja á allar lundir, í fám orðum sagt, leiða hana til sigurs á Íslandi, eins og þeir vissu að gert hafði verið í öðrum löndum.

---

[1]) Af þeim Íslendingum, sem ritað hafa um Hjalta Skeggjason á vorum dögum, hefur sjera Matthías Jochumsson skilið hann best. Andvari 1901 bls. 217—219; Skírnir 1907 bls. 57 o. ef. [2]) Í Lax. 41 154 segir: „gerðisk þá trautt óhætt með heiðnum mönnum ok kristnum"; mun það sjerstaklega eiga við þá, sem voru ákafir og vanstiltir.

Ólafur konungur Tryggvason hafði tvisvar sent kristniboða til Íslands; hann hafði látið vekja þann ófrið og þá úlfúð, sem nú var risin upp í landinu. Honum var því skylt að styðja þetta mál svo, að hægt væri að leiða það vel til lykta. Þangbrandur kristniboði hans hafði verið hjá Gissuri undanfarandi vetur. Eins og nærri má geta, sagði hann Gissuri margt af frænda hans, konunginum; hefur þeim báðum verið jafnljúft að tala um hann. Þangbrandur hefur skýrt Gissuri frá hvílíkur ágætismaður konungur var, glaður og gestrisinn, góður og öflugur vinur allra kristinna manna. Hvað var því eðlilegra fyrir Gissur en að leita trausts og ráða hjá þessum frænda sínum kristnum mönnum til handa gegn heiðninni. Af sögunum vitum vjer að hann fór rakleiðis á fund hans, og um erindið þarf því eigi að efast eptir því sem á stóð.

Hvað talast hefur á milli kristinna manna á alþingi 999, áður en þeir skildu, er með öllu ókunnugt; engin sögurit segja neitt af því. En það liggur þó beint við að ætla, að þeir hafi gert einhver ráð fyrir sjer, og að þeir hafi ákveðið að vernda trú sína og gæta rjettar síns og fylgjast að allir sem einn maður að þessu máli, svo að eitt skyldi yfir þá ganga. Það var öllum augljóst að þeir þurftu mikinn styrk og mannafla til þess að verða nokkuð ágengt, eins og ástatt var orðið. Að öðrum kosti máttu þeir lúta í lægra haldi og vænta mikils ójafnaðar af heiðnum mönnum. Það er því líklegt að þeir hafi talað um að fjölmenna til næsta alþingis, hvað sem öðru liði.

En áður en sögunni er haldið áfram innanlands, verður að hverfa til Noregs og skýra nokkuð frá þeim Íslendingum, sem komu þangað á þessum árum, og þeim atburðum, sem koma þar við sögu vora.

---

## Frá Íslendingum í Noregi.

Á meðan það gerðist, sem nú hefur verið sagt frá, voru siglingar milli Íslands og Noregs eins miklar og nokkru sinni áður. Margir Íslendingar fóru þá utan, eins og venja þeirra var, bæði í kaupferðir og til að mannast. Ýmsar sögur og sagnir eru enn til af þeim og viðskiptum þeirra og Ólafs konungs Tryggvasonar. Þó munu eigi margir þeirra hafa fundið konung á fyrsta ríkisári hans, eða á meðan hann var lengstum í Víkinni. Sumir þeirra vildu líka forðast fund konungs, er þeir spurðu að hann neyddi menn til þess að taka kristni og hafna fornum átrúnaði, en þeim tókst það sjaldan.[1] Konungur var bæði snarráðari en þeir og skjótari til framkvæmda.

Ólafur konungur lagði í raun rjettri jafnmikið kapp á að kristna þá menn, sem komu til Noregs og voru af norrænu kyni, sem Norðmenn sjálfa, því að hann hafði ásett sjer að kristna þau lönd, sem bygð voru af Noregi.[2] Hann boðaði því Íslendinga á fund sinn eða bannaði þeim að fara brott, ef þeir komu þar sem hann var fyrir. Hann beitti við þá lagi og lempni, eða hörku og grimd, ef hann reiddist. Þó reyndi hann optast í fyrstu að vinna þá með góðu. Sumir þeirra sömdu líka við hann og áskildu sjer einhvern hagnað, svo sem vináttu hans eða vernd, ef þeir ljetu skírast. Svo gerði að sögn Þorvaldur tasaldi og fleiri, er síðar verða nefndir.[3] Konungur varð við slíkum bænum; hann sýndi Íslendingum stundum mikla lempni og þolinmæði, enda varð hann að lokum vinsæll á meðal þeirra, sem kyntust honum. Margir þeirra gengu í þjónustu hans og nokkrir fjellu með honum í Svoldarorustu.[4]

---

[1]) Hallfr. 5,91—92; Oddr 36/294; Hkr. I, 81/403; Krist. 10,19 sbr. Lax. 40/143. [2]) Sbr. Fms. I, 142/284. [3]) Hallfr. 5,92—93; Hkr. I, 82/404; Fms. II, 200/144; Flat. I, 309,379. [4]) Ormur skógarnef Hámundarson fjell á Orminum langa. Ldn. 4/288; Hksb. 307,109; Oddr 67/355; Oddr[2] 58/56; Hkr. I, 94/426; Frís. 101/156; Fms. II, 233,252;

Einn af þeim Íslendingum, sem kyntist Ólafi konungi þegar á fyrstu ríkisárum hans, var **Hallfreður skáld Óttarsson**. Hann hafði þá verið í förum nokkur ár og kom utan af Íslandi. Segir sagan að hann legðist við Agðanes, sunnanvert við mynni Þrándheimsfjarðar, og spyrði þar, að höfðingjaskipti væri orðið í Noregi og að hinn nýi konungur boðaði nýjan sið. Skipverjum kom þá saman um að heita á goðin miklu fje, ef þeim gæfi brott; að öðrum kosti skyldi konungur ráða. En goðin brugðust og þeim gaf eigi brott. Sigldu þeir þá inn til Hlaða. Á leiðinni þangað fengu þeir óveður svo mikið á höfn einni, að akkerin hjeldu eigi skipinu. Nokkur langskip lágu þar fyrir og fóru menn af þeim og hjálpuðu kaupmönnum. Einn maður gekk þar langbest fram og rjeð hann fyrir hjálpinni. Það var Ólafur Tryggvason, en eigi vissi Hallfreður það fyr en síðar.[1])

Þetta á að hafa verið 996, því að þá mun Hallfreður hafa komið fyrst á fund Ólafs konungs, en óvist þykir að konungur hafi þá verið nokkuð í Þrándheimi;[2]) en verið getur að konungur hafi komið þangað snöggvast eða að þetta hafi gerst annars staðar við Noreg eða jafnvel árið eptir. Tveir vísuhelmingar, sem sagt er að þeir Hallfreður og konungur hafi ort við þetta tækifæri, benda á að það sje satt, að konungur hafi hjálpað Hallfreði i storminum.

Konungur stefndi þeim Hallfreði á fund sinn og bauð þeim að láta af fornum átrúnaði og taka kristni. Hallfreður var eigi ófáanlegur til þess, ef hann fengi kaup fyrir það. Vildi hann að konungur ljeti sig aldrei sjer af höndum,

---

Flat. I, 355/452. Sömuleiðis Þorsteinn uxafótur. Oddr. 67/354, 69/363; Oddr² 58/55, 60/60; Hkr. I, 94/425; Frís. 101/156; Fms. II, 233/251, 255/329—330, III, 256/4; Flat. I, 355/452, 383/491, 385/494, sbr. 208/256—257. Sagt er að Hásteinn eða Hallsteinn Hrómundarson hins halta hafi fallið á Orminum langa. Ldn. 33/167; Flat. I, 355/452, 331/414 (Hróm. þ.); en það er líklega rangt, því að Hástein var eldri en svo, sbr. Safn I, 369, 377—378. Í þætti af Þorsteini Þorkelssyni skelk er sagt að hann hafi fallið á Orminum langa, Flat. I, 416—418. Eptir honum er farið í Flat, I, 355/452, 383/492, en þátturinn er æfintýri.

[1]) Hallfr. 5/91—92. [2]) Sbr. Björn M. Ólsen, Aarb. f. nord. Oldkh. 1878, bls. 45 o. ef.

hvað ilt sem sig henti, og að hann hjeldi sjer undir skírn.[1]) Þótt konungi litist Hallfreður ófyrirleitinn og hann væri því heldur tregur til þess að veita honum báðar bænir hans, ljet hann samt þetta eptir honum til þess að hann tæki skírn.

Litlu síðar bað Hallfreður konung um að hlýða á kvæði, sem hann hefði ort um hann. Konungur neitaði því. Hallfreður kvaðst þá mundu týna fræðum þeim, sem konungur hafði látið kenna honum, enda væru þau eigi skáldlegri en kvæðið. „Sannliga máttu heita vandræðaskáld“, sagði konungur og leyfði honum að flytja kvæðið. En eptir þetta var Hallfreður kallaður vandræðaskáld.

Hallfreður var óstýrilátur. Hann gat eigi á sjer setið og lofaði stundum goðin mjög. Hann kvað vísu svo konungur heyrði og sagði þar, að áður hefði hann getað blótað Óðin sjálfan; nú væri gipta manna önnur. Konungi mislíkaði þetta og ljet hann kveða vísur til yfirbóta. En verra henti Hallfreð um veturinn. Þá lenti hann eitt sinn í kappmæli við einn hirðmann konungs og drap hann. Til þess að halda orð sín gaf konungur Hallfreði líf, og seinna tók konungur hann í fulla sátt við sig, því að hann bað fyrirgefningar; svo þungt fjell honum reiði konungs. Að lokum fjekk Hallfreður svo mikla elsku á konungi, að hann fjekk varla borið harm sinn eptir fall hans og undi hann þá engu.[2])

Í Hallfreðar sögu er eigi getið um neina aðra Íslendinga í Noregi en Hallfreð, þá er hann var skírður, en í öðrum sögum eru ýmsir Íslendingar nefndir við það tækifæri. Í Laxdæla sögu er sagt að margir merkir Íslendingar hafi verið í Noregi, þá er þeir Kjartan Ólafsson og Kálfur Ásgeirsson lögðu skipi sínu inn til Niðaróss. Þar lágu þá fyrir

[1]) Í Hallfr. 5/92—93 eru bæði þessi skilyrði nefnd í sambandi við skírn Hallfreðar, en í Hkr. I, 83/405 er að eins getið um síðara skilyrðið í sambandi við skírnina, en hið fyrra, er Ólafur spurði Hallfreð, hvort hann vildi verða hirðmaður hans. Hallfreður getur þess í erfidrápu sinni eptir Ólaf konung, að hann hafi fengið hann fyrir guðföður. Skjalded. B, 156. [2]) Hallfr. 5—6/93—97, 10—11/111—114; Krist. 10/19; Lax. 40/152; Oddr 36/296; Hkr. I, 83/405—407; Fms. II, 165/39—40.

bryggjunum þrjú skip frá Íslandi; átti eitt þeirra Brandur hinn örvi Vermundarson, annað Hallfreður Óttarsson og hið þriðja bræður tveir úr Fljótshlíðinni, Bjarni og Þórhallur synir Breiðár-Skeggja. Þetta var að sögn Laxdælu, þá er Ólafur konungur Tryggvason hafði nýlega fengið yfirráðin yfir öllum Noregi, og árið áður en Þangbrandur var sendur til Íslands (996), en þá hafði konungur eigi reist kaupstað að Niðarósi. Í Laxdælu er að vísu talið að Þangbrandur hafi verið einn vetur á Íslandi, og mætti því ætla, að söguritarinn hafi jafnvel hugsað að þetta hafi verið 997. Hann lætur Kjartan vera fjóra vetur í Noregi og koma út árið eptir að Ísland varð kristið.[1]) Þar er sagt frá utanferð Gissurar hvíta og Hjalta Skeggjasonar tveimur árum eptir að Kjartan kom til Noregs. Einnig er þá getið um Sverting Runólfsson með albúið skip til heimferðar eptir vetrardvöl í Noregi, og að konungur hafi bannað honum að fara og öðrum Íslendingum. Sumarið eptir er sagt frá kristniboðsferð Gissurar og Hjalta og heimferð Bolla Þorleikssonar, og þá eru þeir Halldór Guðmundsson og Kolbeinn Þórðarson nafngreindir, því að konungur hjelt þeim eptir í gíslingu ásamt Kjartani og Svertingi; en Hallfreður vandræðaskáld er þá eigi nefndur.[2])

Snorri Sturluson segir aptur á móti að flestir þessir menn og tveir aðrir hafi verið í Niðarósi haustið 999, og að Kjartan Ólafsson hafi þá komið utan af Íslandi. Hann telur Hallfreð á meðal þeirra, er áttu fyrir skipi að ráða, og enn fremur Þórarinn Nefjólfsson og Þorleik Brandsson, en þeir eru eigi nefndir í Laxdælu. Aptur á móti getur hann eigi um Bjarna og Þórhall Breiðár-Skeggjasyni. Snorri hefur farið eptir Ólafs sögu Odds munks, því að hann telur sömu skipseigendur sem hann, nema Oddur kveður Kjartan

[1]) Lax. 40/150, 40/152, 41/153, 41/155, 43/158–160. [2]) Lax. 40/143, 40/149, 41/153–155. Hið sama segir í Ólafs sögu Tryggvasonar hinni löngu, því að þessi kafli úr Laxdælu og meira til er tekið upp í Ólafs sögu, Fms. II, 159/24–26, 217/206; Flat. I, 259/310, 338/426. Um Ólafs sögu Tryggvasonar og Laxdælu sbr. F. Jónsson, Litteraturhist. II, 772; Kålund, Lax. bls. XXX; Björn M. Ólsen, Árb. f. n. Oldkh. 1894, bls. 289 o. ef.

eiga skip með Þórarni Nefjólfssyni, en það er rangt. Þórarinn mun einn hafa átt fyrir skipi að ráða, en Kjartan var í fjelagi með Kálfi Ásgeirssyni eins og segir í Laxdælu. Oddur munkur segir og, að þetta hafi verið í þann tíma sem Þangbrandur kom af Íslandi.[1])

Í Kristni sögu segir einnig, að margir íslenskir menn hafi verið í Niðarósi það haust, sem Ólafur konungur kom þangað norðan af Hálogalandi. Þar stýrðu einu skipi Kjartan Ólafsson og Kálfur Ásgeirsson og Bolli Þorleiksson. „Þar stýrði ok Halldór sínu skipi, son Guðmundar hins ríka, ok Kolbeinn, son Þórðar Freysgoða, ok Svertingr, son Runólfs goða, Hallfreðr Óttarsson ok Þórarinn Nefjólfsson: þessir voru allir heiðnir“.[2]) Þetta var sama haustið sem þeir Þangbrandur prestur, Gissur hvíti og Hjalti Skeggjason komu af Íslandi (999). Þannig fer aðallega tvennum sögum um þetta, og er eigi ólíklegt að þeir Kjartan og Bolli hafi komið þá um haustið til Noregs, eins og Snorri Sturluson segir og fleiri heimildarrit benda á, en að í Laxdælu sje þetta rangt og að Kjartan hafi verið skemur utan en þar segir.[3]) Aptur á móti er eigi efi á því, að Hallfreður kom fyr á fund Ólafs konungs en 999 og tók skírn; hefur það líklega verið 996; er því blandað málum, þar sem sagt er að hann hafi verið skírður um leið og þeir Íslendingar, sem voru skírðir haustið 999 í Niðarósi. Hins vegar mun það vera rjett, að Hallfreður hafi þá verið staddur í Niðarósi ásamt þeim mönnum, sem eru þar nefndir, því að þetta sumar mun Hallfreður hafa komið austan af Gautlandi á fund konungs, og mun hann hafa verið í Niðarósi um veturinn. Sumarið eptir fór Hallfreður til Íslands.[4]) Samvist hans við Íslendinga þann vetur í Niðarósi mun að líkindum hafa valdið því, að sagt var síðar að hann hafi komið þá frá Íslandi eins og þeir.

---

[1]) Hkr. I, 81/402—403; Oddr 36/294, 37/297. [2]) Krist. 10/18.
[3]) Sbr. Björn M. Ólsen, Kronologiske Bemærkninger om Olaf Tryggvasons Regeringshistorie i Árb. f. n. Oldkh. 1878, bls. 44—55, og Kalund, Lax. LVI o. ef. Það fellur að vísu eigi vel heim við ýmsar sagnir að Kjartan hafi fyrst komið til Noregs 999, en á þær skal drepið síðar.
[4]) Hallfr. 9/104.

Í Laxdælu er sagt, að Ólafur konungur hafi látið Kjartan velja um, annaðhvort að fara til Íslands og „brjóta þar menn til kristni“ eða vera kyr hjá sjer, og hafi Kjartan kosið að vera hjá konungi; á hann að hafa svarað, að hann vildi eigi deila ofurkappi við frændur sína. Þetta á að hafa verið áður en konungur sendi Þangbrand til Íslands. Það segir sig sjálft að það getur eigi verið rjett, ef Kjartan hefur eigi verið kominn þá til Noregs.[1])

Hinir heiðnu Íslendingar, sem voru í Niðarósi haustið 999 vildu helst forðast konungs fund, því að þeim var sagt að konungur neyddi alla menn til kristni. Þeir hafa líka spurt að engum dygði að ganga á móti vilja konungs. Hann píndi menn eða refsaði þeim þá grimmlega. Einn Íslendingur hafði einnig þá nýlega (998) fengið að kenna á því, hve grimmur konungur gat orðið, er hann reiddist. Sá hjet Sigurður. Hann hafði að eggjan Þorkels trefils drepið mann einn á alþingi, er Grímur hjet. Hann var íslenskur, en hafði um hríð verið hirðmaður og stafnbúi Ólafs konungs. Sigurður var þegar gerður sekur skógarmaður á alþingi og flýði hann til Noregs. Ólafur konungur spurði víg Gríms og það með að vegandinn væri þar kominn. Hann gekk þá þegar með sveit manna til kaupskipsins og ljet grípa Sigurð og setja í fjötra. Því næst stefndi konungur þing og þar ljet hann slá stóran mannhring um Sigurð og fletta hann klæðum; sagði hann þá að beita skyldi hann hundum til bana. Einn hirðmaður bað manninum lífs og að hann mætti koma bótum fyrir sig, en engar bænir tjáðu hið minsta, því að konungur kvaðst vilja hræða menn frá að drepa hirðmenn sína. Er eigi heldur ólíklegt, að hann hafi einnig viljað skjóta Íslendingum skelk í bringu. Sigurður var bundinn á höndum, en svo hafði hann snör augu að hundarnir þorðu eigi á hann að ráða, fyr en konungur sjálfur atti hund sínum Víga á hann. Hann hljóp þá til og beit Sigurð í kviðinn. En er Sigurður kendi sárs-

---

[1]) Lax. 41/153; Fms. II, 174/78—79.

aukans, spratt hann upp og hljóp út yfir mannhringinn og fjell dauður niður.[1])

Þetta hafði gerst sumarið áður og höfðu Íslendingar spurt það, þeir sem þá voru í Noregi. Þeir fóru einnig nærri um, hvernig Þangbrandi mundi hafa gengið á Íslandi og gátu ímyndað sjer að konungur mundi reiðast, er hann heyrði það. Fyrir því ætluðu allir hinir heiðnu Íslendingar að fara burtu úr Þrándheimi, áður en konungur kæmi þangað norðan af Hálogalandi, þar sem hann hafði verið um hríð að brjóta menn til kristni. Þeir vildu sigla suður með landi, en þeim gaf eigi burtu, og lágu þeir undir Niðarhólma, þá er konungur kom til bæjarins.[2]) Hann fjekk skjótt vitneskju um, að heiðnir Íslendingar væru þar á nokkrum skipum og vildu flýja fund hans. Hann sendi því menn til þeirra og bannaði þeim að halda burtu og bað þá leggja inn til bæjarins. Þeim þótti ráðlegast að hlýða og gerðu það.

Þetta var rjett fyrir Mikjálsmessu og ljet konungur þá halda hana helga og syngja messu mjög hátíðlega. Íslendingar gengu þá til að sjá guðsdýrkan kristinna manna, og urðu deildar meiningar þeirra um hana. Kjartan ljet vel yfir henni en fáir aðrir. Þetta frjetti konungur daginn eptir og sendi þegar eptir honum. Var Kjartan þá fús á að taka við kristni, ef hann fengi vináttu konungs. Hann hjet Kjartani henni og var hann og Bolli Þorleiksson, frændi hans, og föruneyti þeirra alt skírt daginn eptir (1. oktbr. 999).[3])

---

[1]) Oddr 53/325—327; Fms. II, 208/172—174; Flat. I, 312/386—387. [2]) Krist. 10/18; Oddr 36/294; Hkr. I, 81/403. [3]) Krist. 10/18—19; Hkr. I, 82/404. Önnur sögn er sú, að þeir Kjartan hafi tekið skírn annan dag jóla (26. desbr.). Oddr 36/296; Lax. 40/151; Fms. II, 164/38. Ef svo hefur verið, hefur Kjartan komið fyr til Noregs en 999, því að öllum ber saman um að Kjartan hafi verið skírður, áður en Þangbrandur kom á fund konungs úr kristniboðsferð sinni, og er það líklega rjett. Um þetta alt eru ýmsar smáar missagnir í sögunum, sem eigi er rúm til að fara hjer nánar út í.

## Kristniboð Gissurar hvíta og Hjalta Skeggjasonar. Kristni lögtekin.

Skömmu eptir að Ólafur konungur var kominn norðan af Hálogalandi til Niðaróss, kom þangað Þangbrandur prestur úr kristniboðsferð sinni á Íslandi. Kjartan Ólafsson, Bolli Þorleiksson og föruneyti þeirra höfðu þá nýlega tekið skírn, en flestir þeir Íslendingar, sem voru í Niðarósi, voru heiðnir og hafði konungur eigi fengið enn ráðrúm til þess að kristna þá. Hann vildi helst vinna þá með góðu, og öllu var líka óhætt, því að hann hafði bannað þeim að fara burtu. Konungur var líka glaður, því að nú hafði hann kristnað Háleygi og fengið kristni viðurkenda eða tekna í lög um endilangan Noreg. Hann gat því vel sýnt Íslendingum nokkra þolinmæði, þótt hann hafi aldrei verið fastráðnari í því en rjett þá, að hætta eigi fyr en hann hefði líka komið kristni á Ísland.

En þá kom Þangbrandur á konungs fund og sagði sínar farir eigi sljettar. Hann skýrði frá öllu því, sem yfir hann hafði gengið. Menn hefðu ort níð um hann, setið um líf hans og reynt með gjörningum að sökkva honum í jörð niður; en er það hafði mistekist, hefðu Íslendingar ætlað að svelta hann í hel. Að lokum kvað Þangbrandur enga von um að Ísland myndi kristið verða. Þá varð konungur svo óður og reiður, að hann ætlaði að láta meiða eða drepa þá hina heiðnu Íslendinga, sem voru í Niðarósi.[1]) Hann ljet þegar setja marga þeirra í járn og sumir þeirra voru ræntir.[2]) Það vildi þá Íslendingum til lífs, að Gissur hvíti og Hjalti Skeggjason[3]) voru með konungi og komnir þegar í vináttu við hann. Þeir gengu þá fyrir konung, ásamt Kjartani og öllum þeim Íslendingum, sem við kristni höfðu

---

[1]) Íslb. 7/9—10; Hkr. I, 84/407. [2]) Krist. 10/19; Oddr 37/297; Nj. 104/545. [3]) Ari telur Gissur fyrst, en Kristni saga og Oddur Hjalta. Snorri nefnir Kjartan fyrst og þá Gissur og Hjalta.

tekið, og báðu Íslendingum friðar. Þeir mintu konung á að hann hefði sagt, að enginn maður skyldi hafa gjört svo mikið til saka, að eigi vildi hann það upp gefa þeim, er skírast vilja og láta af heiðni. Því næst sögðu þeir konungi að allir þeir Íslendingar, er hjer væru, vildu láta skírast, og þeir kváðust hafa góða von um að kristni mundi við gangast á Íslandi, ef með ráðum væri að farið. Þangbrandur hefði vingast við fáa menn og farið óspaklega: hann hefði drepið nokkra menn og það hafi landsmönnum þótt hart að þola. Sjálfir kváðust þeir mundu finna ráð til að Ísland yrði kristið. Konungur sefaðist við umræðu þeirra og kvað alla menn skyldu hafa frið, ef þeir Gissur og Hjalti byndust fyrir að kristni yrði í lög tekin á Íslandi. Þeir játtu því.[1])

Nú voru Íslendingar leystir og skírðir og Ólafur konungur leyfði þeim að fara burtu í friði, er þeir höfðu fengið þá litlu fræðslu, sem var samfara skírninni. Þó hjelt hann þremur þeirra, er honum þótti mest verðir, eptir í gislingu hjá sjer ásamt Kjartani Ólafssyni. Þeir skyldu vera trygging fyrir því, að þeir Gissur og Hjalti rækju erindi konungs, kristniboðið, með allri alúð, en þó einkum og sjer í lagi fyrir því, að það næði fram að ganga.[2]) Skýrir Snorri svo frá sem íslensku höfðingjarnir hafi minst á það við konunginn, að margir ríkra manna synir af Íslandi væru í Niðarósi og að feður þeirra mundu veita máli þessu mikið liðsinni.[3]) En hvort sem þeir liðsintu kristninni eða eigi, var það þó auðsætt að íslenskir höfðingjar, sem ættu syni sína í gislingu hjá konungi, mundu tæplega ganga mjög í berhögg á móti kristninni og hætta með því lífi sona sinna. Til þess að veikja mótstöðu höfðingjanna sem mest, reið á að velja þá menn sem gisla, er voru nákomnir ríkustu höfðingjunum og þeim, sem voru mest andvígir kristninni. Það vildi svo heppilega til fyrir konung, að um töluvert mannval

[1]) Íslb. 7/10; Krist. 10 19; Oddr 37/298; Hkr. I. 84,407—408; Fms. II. 218,209. [2]) Oddr 37 298; Fms. II. 218,211. [3]) Hkr. I. 84 408, sbr. Lax. 41/153.

var þá að ræða á meðal Íslendinga í Niðarósi. En til þess að geta valið vel, þurfti konungur að hafa vitneskju um veldi einstakra höfðingja á Íslandi og um hug þeirra til kristninnar. Það má því nærri geta að hann hefur haft þá Gissur í ráðum með sjer um það, hverja velja skyldi, þótt eigi sje frá því skýrt í neinum sögum, og að þeir hafa talað nákvæmlega um, hvernig auðveldast mundi vera að fá Íslendinga til þess að taka kristni.

Konungur tók sinn gisla úr hverjum landsfjórðungi. Úr Vestfirðingafjórðungi kaus hann Kjartan, son Ólafs pá, sem þá var virðulegastur höfðingi í Dölunum og þótt víðar væri leitað um Vesturland. Hann var mágur Þorsteins Egilssonar og í frændsemi við marga menn. Ósvífrssynir, sem voru æstastir á móti kristniboði Stefnis, voru sveitungar hans, og var líklegt að þeim myndi nú þykja sjer vandfarið sökum Kjartans. Úr Norðlendingafjórðungi valdi konungur Halldór son Guðmundar Eyjólfssonar á Möðruvöllum, er þá var í mesta uppgangi og þótti ríkastur höfðingi á Norðurlandi. Úr Austfirðingafjórðungi tók konungur Kolbein son Þórðar Össurarsonar, er Freysgyðlingar eru frá komnir. Þórður var þá fallinn úr sögunni, og Flosi sonur hans hafði tekið við goðorðinu; var ætt Kolbeins einhver hin mesta í þeim fjórðungi, og hann var einnig náfrændi Esphælinga í Eyjafirði. Af Sunnlendingum hjelt konungur eptir Svertingi, syni Runólfs goða Úlfssonar; þótti það góður fengur og maklegur, því að faðir hans var einhver hinn ríkasti og einbeittasti mótstöðumaður kristninnar, og ættmenn hans áttu tvö goðorð í Rangárþingi.[1])

Gissur og Hjalti voru með konungi um veturinn og sat Gissur fyrir ádrykkju konungs, innar en lendir menn; ljet konungur hann njóta frændsemi, er hann sýndi honum svo mikla virðingu. Með konungi voru og gislarnir í góðu yfirlæti.[2])

Þá er vora tók bjuggu þeir Gissur og Hjalti skip sitt

---

[1]) Krist. 10/19; Oddr 37/298; Hkr. I, 95/427; Fms. II, 218/210—211.
[2]) Krist. 10/19.

til Íslands, því að þeir vildu koma þangað fyrir alþingi. Margir menn löttu þó Hjalta fararinnar, eflaust af því að hann var sekur, en hann hafði meiri áhuga á kristniboðinu en svo, að hann ljeti telja sjer hughvarf.[1]) Konungur fjekk þeim kennimenn til aðstoðar, líklega sjö að tölu.[2]) Fyrir þeim var prestur, er Þormóður hjet, og hafði hann komið með Ólafi konungi vestan um haf.[3]) Hann hafði að líkindum lært til prests á Englandi og virðist hafa verið spektarmaður, því af honum fara engar sögur; um ætt hans og uppruna er eigi heldur neitt kunnugt. Enn fremur fjekk konungur þeim Gissuri kirkjuvið, er hann hafði látið höggva,[4]) og mikið fje til að vingast við höfðingja.[5]) Þeir Gissur urðu snemmbúnir[6]) og ljetu þá í haf. Þeir fengu góða ferð en hægan byr og voru því lengi á leiðinni, því að þeir komu í Vestmannaeyjar, þá er tíu vikur voru af sumri.[7]) Alþingi átti þá að byrja hinn næsta dag, fimtudaginn í 11. viku sumars, því að sumarið áður hafði sú breyting verið gjörð á alþingi, að menn skyldu koma þangað, þá er tíu vikur væru af sumri, eða viku síðar en áður hafði tíðkast. Árið 1000 bar því setningardag alþingis upp á 20. júní.

Nú fer tvennum sögum af ferð þeirra Gissurar og Hjalta, er þeir komu til Íslands. Ari segir að þeir hafi farið þegar úr Vestmannaeyjum inn til meginlands, og síðan til alþingis,[8]) en þær sögur, sem skýra frá að Ólafur konungur hafi fengið þeim kirkjuvið, segja, að þeir hafi dvalið tvo daga í Vestmannaeyjum til þess að velja stað handa kirkjunni og láta reisa hana. Á konungur að hafa mælt svo fyrir, að kirkjuna skyldi þar reisa, sem þeir skyti bryggjum á land. Þótt þetta kunni vel að vera satt, og síst þurfi að efa að konungur hafi fengið þeim kirkjuvið, er þó mjög ólíklegt, að þeir Gissur hafi þá farið að tefja sig á því að reisa kirkjuna, eins og þeir voru orðnir naumt fyrir með að koma á alþingi í tæka tið, en á því reið þeim þó mest. Sögurnar segja einnig,

---

[1]) Krist. 11/20. [2]) S. st. 11/21. [3]) Theodric kallar hann Thermo, Theodr. 12/21. [4]) Krist. 11/20; Fms. II. 228/233. [5]) Oddr 37/298. [6]) Nj. 104/546. [7]) Íslb. 7/10; Fms. II. 228/233. [8]) Íslb. 7/10.

að þeir hafi áður en þeir komu í eyjarnar haft tal af nokkrum landsmönnum, er reru til þeirra þann dag, er þeir voru fyrir utan Dyrhólmaós. Þann sama dag reið Flosi Þórðarson um Arnarstakksheiði á leið til alþingis, og spurði hann af mönnum þessum, að Kolbeinn bróðir hans var tekinn í gisling og þrír menn aðrir og alt um erindi þeirra Gissurar og Hjalta. Sagði hann síðan til alþingis útkomu þeirra, og þau tíðindi, er hann hafði spurt.

Hinn sama dag sem landsmenn hittu þá Gissur fyrir Dyrhólmaós er sagt, að þeir hafi tekið Vestmannaeyjar og lagt skip sitt við Hörgaeyri, norðan til við höfnina, en sunnan undir Heimakletti.[1]) Verður á þann hátt tími fyrir þá að dvelja tvo daga í eyjunum, eins og sögur þessar segja,[2]) en frásögn Ara er á móti því.

Þeir Gissur fóru þegar úr eyjunum til Landeyja, en „þeir fengu engan farargreiða né reiðskjóta fyrir austan Rangá, því at þar sátu þingmenn Runólfs í hverju húsi.“ Líklega er þetta annaðhvort ónákvæmt eða eitthvað orðum aukið, því að ekkert er líklegra en að þeir hefðu fengið farargreiða á Bergþórshvoli, ef þeir hefðu leitað þangað, enda þótt Njáll hafi verið riðinn á þing og hestafátt væri heima. En annaðhvort munu þeir hafa lent svo vestarlega, að krókur hefur verið að koma þangað, eða þeir hafa spurt að Njáll var riðinn á þing með svo marga menn að þar væri eigi hægt að fá næga hesta Þeir gengu þar til þeir komu í Háf, til Skeggja Ásgautssonar. Hann fjekk þeim hesta til þings, en Þorvaldur son hans, er átti Koltorfu systur Hjalta, var áður riðinn til alþingis.[3]) Í Landnámu segir að þeir væru 12, er þeir komu í Háf, en í Njálu er sagt að þeir riðu þrír tigir manna til þings.[4]) Líklega er tala Landnámu rjettari en tala Njálu, því að þeir hafa orðið

[1]) Sjá Uppdrátt Herforingjaráðsins (Generalstabens) af Vestmannaeyjum. Kmhöfn 1905 Kålund, Isl. I, 279 segir að eyri þessi sje nú nefnd Klemenseyri. Í Nj. 104/546 er sagt að þeir Gissur tækju land á Eyrum, en það er rangt. [2]) Krist. 11/20; Fms. II, 228/233—234. Sbr. Björn M. Ólsen, Kristnitakan, bls. 74—75, nm. [3]) Krist. 11/20—21; Fms. II, 228/234. [4]) Ldn. 8/299; Nj. 104/546.

að skilja nokkra menn eptir við skipið; en annars er talan heldur lág, því að sjö útlendir kennimenn voru í ferðinni; er líklegt að Íslendingar hafi verið fleiri en fimm. Þá er þeir Gissur og Hjalti komu í átthaga sína, munu menn þeirra og vinir hafa slegist í för með þeim. Þeir hafa þá einnig hlotið að safna mönnum að sjer, eptir því sem þeir máttu koma því við á svo hraðri ferð.

Nú segir ekki af ferðum þeirra fyr en þeir komu í Laugardal. Þar fengu þeir Hjalta Skeggjason til þess að verða eptir með 12. mann, af því að hann var sekur fjörbaugsmaður og mátti alls eigi koma á friðhelgan stað sem alþingi. En þeir Gissur hjeldu áfram, uns þeir komu í stað þann við Þingvallavatn, sem heitir Vellan(d)katla. Það er rjett fyrir neðan Hrafnagjá.[1]) Þar námu þeir staðar og gerðu orð til alþingis vinum sínum, frændum og venslamönnum, að þeir skyldu koma á móti þeim með alt lið sitt. Þeir höfðu þá spurt, að óvinir þeirra ætluðu að verja þeim vígi þingvöllinn; höfðu heiðnir menn tekið það ráð, þá er þeir frjettu af Flosa Þórðarsyni og mönnum hans, að Gissurar og Hjalta væri von á alþingi til að boða þar kristni. En er kristnir menn eða vinir þeirra Gissurar og Hjalta urðu þess varir, munu þeir hafa gert mann á móti þeim með orð um þetta, og hitti hann þá einhvers staðar áður en þeir komu að Vellankötlu; má vera að hann hafi riðið alla leið austur í Laugardal og fundið þá þar, áður en þeir fengu Hjalta til þess að verða þar eptir, þótt þess sje eigi getið.

Þeir Gissur biðu við Vellankötlu þangað til kristnir menn og aðrir fulltingismenn þeirra komu á móti þeim frá

---

[1]) Svo er að sjá af Íslendingabók sem Vellankatla sje vík sú af Þingvallavatni, sem er fyrir neðan (norðvestan) Hrafnagjá, og lægðin þar umhverfis, sbr. Kålund, Isl. I, 155—156. Árni Magnússon (AM. 254 8vo, og afskrift AM. 411 fol. bls. 351 o. ef.) segir, að Vellankatla sje víkin norður úr Þingvallavatni, vestanvert við Hallinn eða neðri barm Hrafnagjár. Hún er nær 100 faðma löng og að því skapi breið. Sjera Símon Beck á Þingvöllum og fleiri kunnugir menn hafa sagt mjer, að svo væri nefnd uppspretta ein í flæðarmáli innst í víkinni, rjett þar hjá sem gatan að Vatnskoti liggur út af þjóðveginum. Vatnið vellur þar upp undan hrauninu.

Þingvöllum og var það fjöldi manns; en áður en þeir fóru þaðan, kom þar Hjalti ríðandi og þeir, sem eptir voru með honum. Þá er þeir Gissur voru farnir og hann fór að hugsa málefni þeirra betur, gat hann eigi setið kyr. Hann vildi eigi sýna heiðnum mönnum, að hann væri hræddur við þá,[1]) og hann vildi heldur leggja líf sitt í sölurnar en að vera fjarverandi, þá er gera átti um annað eins málefni og það, hvort Ísland skyldi komast í tölu kristinna landa eða eigi. Honum fanst einnig meiri þörf á liðveislu sinni nú, en nokkru sinni áður, og honum mun jafnvel hafa þótt tvísýnt, hvort þeir Gissur væru nógu áhugamiklir og einbeittir, ef hann væri hvergi nærri.

Þeir Gissur og Hjalti hjeldu síðan áfram ferðinni og riðu á Þingvöll með fylktu liði og til búðar Ásgríms Elliðagrímssonar, systursonar Gissurar. En hinir heiðnu menn hurfu saman með alvæpni „ok hafði svá nær, at þeir mundi berjask, at eigi of sá á milli“, „en þó voru þeir sumir, er skirra vildu vandræðum, þó at eigi væri kristnir“. Þeir fengu sefað menn svo að eigi varð af bardaga.[2]) Þetta mun hafa verið laugardagskveldið 22. júní[3]) árið 1000.

Þess er eigi getið í sögunum, að neinn almennur liðsafnaður hafi verið undir alþingi í þetta sinn, eins og stundum kom fyrir, nje að það hafi verið óvenjulega fjölment, svo að fádæmi þætti. Að líkindum hafa margir búist við einhverjum deilum á alþingi, líkt og árið áður á milli beggja trúarflokkanna, en fáir eða rjettara sagt líklega engir hjerlendir menn munu hafa átt von á því, að þar mundu gerast þau tíðindi, sem raun varð á; allra síst gátu heiðnir menn búist við því. Þeir höfðu enga vitneskju um að þeir Gissur og Hjalti mundu verða á þingi, fyr en þeir komu á Þingvöll og spurðu þar útkomu þeirra af Flosa Þórðarsyni, nema þeir, sem höfðu frjett til þeirra á Suðurlandi rjett

---

[1]) Nj. 104/547. [2]) Íslb. 7/10—11; Krist. 11/21; Oddr 37/298—299; Fms. II, 228/234—235; Nj. 104—105/546—548. Í Nj. segir að þeir Gissur og Hjalti hafi verið í Mosfellingabúð, en það er líklega rangt. [3]) Bps. I, 20, nm.

áður. Það var líka mjög ólíklegt að Hjalti mundi koma út fyr en eptir þrjá vetur, er hann væri kominn úr sekt. Hins vegar segir það sig þó sjálft, að alþingi hefur verið í fjölmennara lagi; sjerstaklega má telja víst að kristnir menn hafi fjölment, því að þeim mátti vera ljóst, hve mjög þeim reið á að hafa mikinn mannafla á þingi. Einnig var kominn alvarlegur áhugi í suma þeirra að efla kristnina, og er mjög líklegt, að þeir hafi árið áður gert ráð fyrir því sín á milli að fjölmenna til næsta alþingis, eins og fyr er sagt, hvort sem Gissur væri þá kominn út aptur eða eigi, en það hafa þeir látið fara leynt. Það sjest líka af því, sem gerðist á alþingi, að þar voru flestir hinir kristnu menn saman komnir, þeir er nafnkunnir voru, og að þeir höfðu mikið lið.[1]) Einnig má ætla að ýmsa heiðna menn hafi grunað

[1]) Sbr. Ól. s. Tr., Fms. II, 228,234, sem er að vísu heldur ungt heimildarrit. Þó segir Theodric munkur, Monum. hist. Norv. 21, að kristnir menn væru fáir, en það er orðum aukið. Dr. Björn M. Ólsen hefur ásamt prófessor Konrad Maurer mest skýrt hinn mikla æsing, sem varð á milli heiðinna og kristinna manna á alþingi þessu, og hina stjórnarfarslegu þýðingu, sem kristnitakan hafði í för með sjer. Hann ætlar að kristnum mönnum hafi eigi verið óhætt að ríða á alþingi og að þeir hafi því mælt sjer mót og beðið Gissurar hvíta við Vellankötlu, sbr. Um kristnitökuna bls. 76 o. ef. Jeg sje eigi fullnægjandi ástæðu til þess að ætla það. Kristnir menn og heiðnir höfðu þá eigi sagt sig úr lögum hvorir við aðra og kristnir menn höfðu hingað til mátt fara ferða sinna, er þeir ljetu heiðna helgidóma í friði. Það má nærri geta að öðrum eins höfðingjum og spektarmönnum eins og Síðu-Halli, Njáli, Gesti hinum spaka og Þorvarði Spakböðvarssyni hafi verið óhætt að ríða á þing með mönnum sínum, þótt Hjalti Skeggjason hafi verið gerður þar sekur fjörbaugsmaður árið áður fyrir guðlast, og kristnir menn, frændur hans og vinir verðu hann með kappi. Slikt kom eigi ósjaldan fyrir á alþingi, án þess þó að hafa þvílíkar afleiðingar; eptir þingið mun flestum hafa runnið reiðin nokkuð og fæstum heiðnum mönnum mun hafa dottið í hug að hreifa við þvílíkum mönnum sem þeim Síðu-Halli, þótt þeir riðu á þing. Öðru máli var að gegna, þá er þeir frjettu að Hjalti og Gissur mundu koma á þing til þess að boða þar kristni. Hins vegar gátu hinir kristnu menn, sem komu að norðan og vestan, eigi frjett neitt af ferðum þeirra Gissurar fyr en þeir komu á Þingvöll, og Síðu-Hallur og Njáll virðast hafa verið riðnir a þing, áður en landsmenn hittu þá Gissur og fregn kom af þeim. Annars er auðsætt að lögunum frá 997 gegn kristninni hefur eigi verið fylgt fast

kristna menn eptir síðasta alþingi, og að þeir, sem hjeldu fastast við heiðnina, hafi því fjölment í meira lagi til alþingis. Það hefur tæplega getað hjá því farið eptir deiluna á undanförnu þingi.

Fyrstu nóttina, sem þeir Gissur og Hjalti voru á Þingvöllum, varð ekkert til tíðinda svo getið sje. Daginn eptir var sunnudagur (23. júní) og gengu þá kristnir menn upp á Gjábakkann (austurbarm Almannagjár) upp frá búð Vestfirðinga og söng Þormóður prestur þar messu. Þaðan má sjá yfir allan Þingvöll, og þar er einnig hljóðglögt, því að af bakkanum sjálfum berst hljóðið niður yfir völlinn og vesturbakki Almannagjár gnæfir þar hátt að baki og kastar hljóðinu frá sjer. Allur þingheimur mátti því heyra sönginn og sjá guðsþjónustu kristinna manna. Þar voru sjö kennimenn skrýddir og gerðu þeir alla athöfnina svo hátíðlega sem föng voru á. Þetta var í fyrsta sinn að messa var sungin á Þingvöllum og má nærri geta að sumum heiðnum mönnum hafi brugðið í brún að sjá kristna menn, sem enga löghelgi áttu á trú sinni, halda guðsþjónustu innan þinghelgi og virða svo að vettugi hin fornu goð landsins, sem þingstaðurinn var helgaður. Þó má vera að sumum þeirra hafi þótt söngurinn fagur og athæfi kristinna manna merkilegt.

Hinir kristnu menn fóru að öllu einarðlega og djarflega. Foringjar þeirra voru öruggir í öllu, enda var flokkur þeirra eigi árennilegur, og þeir trúðu á sigur. Eptir messu gengu þeir allir til lögbergs og voru kennimennirnir í fararbroddi. Þeir báru fyrir sjer krossa tvo mikla; merkti annar hæð Ólafs Tryggvasonar, en hinn hæð Hjalta Skeggjasonar.[1])

---

fram gegn þeim kristnum mönnum, sem fóru að öllu spaklega og áreittu eigi goðin, enda hefði það verið erfitt eptir að kristnum mönnum fjölgaði 998 og 999. Dr. Björn M. Ólsen fer stundum of langt í getgátum sínum í hinni mikilsverðu bók sinni um kristnitökuna.

[1]) Krossar þessir voru í Skarði hinu eystra á Rangárvöllum, þá er Kristni saga var rituð (um 1200). Sá bær var sunnan undir Selsundsfjalli, en er fyrir löngu í eyði. Sbr. Jón Sigurðsson, Dipl. I, 351—352; Kálund, Ísl. I, 143, 222—223. Stað þennan í Kristni sögu hafa margir

Allur þingheimur var þá að lögbergi og mun mörgum hafa orðið starsýnt á kennimennina í skrúða þeirra. Þeir höfðu reykelsi á glóð og þóttust draumlyndir menn kristnir kenna reykelsisilminn jafnt á móti vindi sem með.[1]) En þó er líklegt að þetta hafi skapraunað mörgum heiðnum mönnum, því að klerkarnir komu vegsamandi þann guð, sem var eigi guð þeirra nje guð hins íslenska ríkis, og til þess að skora á þá að falla frá goðum forfeðranna. Í fararbroddi var einnig maður, sem árið áður var dæmdur fyrir guðlast. Alt var þó kyrt um hríð, og þeir Gissur og Hjalti báru upp erindi sín vel og skörulega: „en svá er sagt at þat bæri frá, hve vel þeir mæltu".[2]) Það er líklegt að Gissur hafi talað fyrst, en Hjalti á eptir, af því að hann var sekur. Þeir sögðu fyrst frá, hvað að hafði borist í ferðum þeirra, en síðan fluttu þeir erindi konungs um kristniboðið. Þeir munu hafa sagt frá, hve reiður Ólafur konungur varð Íslendingum, þá er Þangbrandur kom frá Íslandi, og hve hætt landar þeirra hinir heiðnu hafi þá verið komnir. Til þess að forða þeim frá dauða hefðu þeir tekið kristniboð þetta á hendur. Þeir munu hafa skýrt frá gíslunum, sem konungur hafði til tryggingar fyrir því að Íslendingar tækju nú kristna trú. Þeir fluttu erindi konungs um kristniboðið mjög djarflega og þeir munu því að líkindum hafa sagt, að Ólafur konungur ætlaði sjer eigi að hætta fyr en hann hefði komið kristni á Ísland, eins og hann hefði þegar kristnað endilangan Noreg, og að landsmönnum mundi eigi duga að etja kappi við konung. Þeir hafa bent á, hvaða vandræði mundu af því leiða. Þeir hafa einnig talað um hina kristnu trú, líklega einkum um almætti guðs, sem gæfi Ólafi konungi sigur, og hina eilífu sælu, sem vís

misskilið á seinni tímum og ætlað að krossarnir hafi staðið i klettaskarði í Almannagjárbarmi, sbr. t. a. m. Matthías Jochumsson, Andvari 1901 bls. 217 og Skírnir 1907 bls. 57.

[1]) Krist. 11/21—22; Fms. II, 228/235. [2]) Íslb. 7/11; Oddr 37/299, hefur haft fyrir sjer Íslendingabók, er hann ritaði um kristnitökuna og segir hann að „öllum þótti mikils umvert, hversu vel þeir töluðu", enda þýða orð Ara eigi annað, en að þeir hafi talað frábærlega vel, og ber öllum sögum saman um það.

væri öllum kristnum mönnum eptir dauðann, og þeir hafa einnig mint menn á vanmátt hinna heiðnu goða.

Í Ólafs sögu hinni löngu segir, að þeir hafi beðið alt fólk „með fögrum bænarorðum at snúa á svinn sínu ráði“ og taka við kristni og má vera að það sje rjett; en í Kristni sögu er sagt, að „svo mikil ógn fylgdi orðum þeirra, at engir óvinir þeirra þorðu at tala móti þeim“; verið getur að orð þessi bendi á, að þeir hafi ógnað með Ólafi konungi, en annars virðast þau eigi öfgalaus. Aptur á móti er það víst, að þeir hafa talað með mælsku og áhuga, eigi síst Hjalti, svo að þingheimur undraðist málsnild þeirra og hlýddi með spekt á þá. En er Hjalti lauk máli sínu, komu í ljós þær tilfinningar, sem ræða hans hafði vakið. Þá varð óhljóð mikið og háreysti, og svo að erfitt varð að kveðja sjer hljóðs, enda hjelt enginn heiðinna manna ræðu á móti þeim; hefur líklega enginn þeirra verið við því búinn, að halda uppi snjallri vörn fyrir goð þeirra og svo komst alt í uppnám. „En þat görðisk af því,“ segir Ari, „at þar nefndi annarr maðr at öðrum vátta, ok sögðusk hvárir úr lögum við aðra, enir kristnu menn ok enir heiðnu.“ Þá kom maður hlaupandi og sagði, að jarðeldur væri upp kominn í Ölfusi, og mundi hann hlaupa á bæ Þórodds goða.[1]) Þá tóku heiðnir menn til orðs og sögðu: „Eigi er undr í at guðin reiðist tölum slíkum,“ og benda þessi orð á að Þóroddur goði hafi verið kominn í tölu kristinna manna eða í lið með þeim. En Snorri goði var þar nærri og mælti: „Um hvat reiddust guðin þá, er hér brann hraunit, er nú stöndum vér á?“ Enginn varð til að svara því, en þó er líklegt að orð Snorra hafi vakið ýmsa menn til umhugsunar. Eptir þetta gengu menn frá lögbergi.[2])

Þannig lauk hinum fyrsta fundi, sem þeir Hjalti áttu á alþingi, að hinu íslenska þjóðfjelagi var slitið, þjóðinni skipt

---

[1]) Hann bjó að Hjalla í Ölfusi, Hungr. 2/60; Gunnl. 5/208; Reyk. 25/124; en eigi sjást þess menjar að eldhraun hafi ógnað þeim bæ, heldur Hrauni, sem er nokkru sunnar, sbr. Brynjólf Jónsson, Árbók 1895, bls. 24—29. [2]) Íslb. 7/11; Krist. 11/21—22; Oddr 37/299; Fms. II, 228/235—236; Nj. 105/548.

í tvent og eigi var annað sýnna en að kristið ríki yrði sett á stofn og tvö þjóðfjelög yrðu framvegis á landinu. Slíkur æsingur hafði aldrei komið fyr upp meðal landsmanna og þvílíkt voðaverk höfðu þeir aldrei áður unnið.

Og það voru trúarbragðadeilur, sem höfðu komið öllu þessu af stað. Menn voru því eigi orðnir alveg kærulausir um trú sína, eins og sumir á vorum tímum hafa ætlað. Hin fornu goð áttu enn marga vini á meðal Íslendinga.

En nú fóru heiðnir menn og kristnir hvorir fyrir sig að þinga um mál sín, og þá rann mörgum sú reiði, sem hafði hlaupið í þá að lögbergi. Hinir vitrari menn og gætnari komu nú fram með tillögur sínar og ráð, og ýmsir tóku að gefa þeim gaum og hugsa um þær.

Hinir heiðnu menn voru miklu fjölmennari en hinir kristnu og það segir sig sjálft, að þeir voru erfingjar og áframhald af ríki því eða þjóðfjelagi, sem hingað til hafði náð yfir alla landsmenn. Fyrir þá var engin ástæða að breyta þeim lögum, sem þeir höfðu, að öðru leyti en því, sem kynni að leiða af því, að nokkur hluti landsmanna hafði tekið nýja trú og gengið úr þjóðfjelaginu, en fyrst var að sjá hvað þeir gerðu. Hinir heiðnu menn gátu því beðið átekta. Flestir goðarnir voru einnig þeirra megin; sömuleiðis lögsögumaðurinn. Það var um þessar mundir Þorgeir Ljósvetningagoði Þorkelsson, sem fyr hefur verið frá sagt. Hann var nú orðinn gamall maður og gætinn og hann hafði fengið mikla reynslu bæði á alþingi og heima í hjeraði. Hann bar velferð þjóðfjelagsins fyrir brjóstinu, og til þess að vernda það, varð að halda uppi almennum friði í landinu. Hann sá að ríkið eða þjóðfjelagið þyrfti eigi að haggast í skorðum, þótt landsmenn tækju nýja trú; dæmi annara þjóða sýndi það best. En ef tvö þjóðfjelög yrðu innanlands, þá mundi eigi fara vel. Honum var því miklu annara um velferð landsmanna en um trú forfeðranna, þótt hann hefði ávalt haldið trygð við hin gömlu goð. Sama er að segja um Snorra goða, sem nú var orðinn hálffertugur að aldri og hafði fengið svo mikið álit fyrir vitsmuni sína, að hann var talinn vitrastur maður

meðal allra hinna yngri manna á Íslandi. Hann sá það jafnvel betur en Þorgeir, að það mundi eigi verða á neinn hátt skaði fyrir landsmenn að taka upp hinn nýja sið, því að honum skildist að guð kristinna manna mundi vera miklu betri og máttugri en Þór og önnur forn goð; fyrir því færi kristnin sigri hrósandi um öll lönd. Þegar heiðnum mönnum var bent á þetta, litu margir þeirra rólega og skynsamlega á trúarboðið. Þeir sáu að þeir gátu í raun rjettri alveg eins dýrkað Hvíta-Krist eins og Þór, og að það var útlit fyrir að hann mundi verða eins góður vinur þeirra eins og Þór. Satt að segja hafði Þór og hin önnur goð eigi reynst þeim ávalt vel, er þeir höfðu heitið á þau, þótt þeir hefðu komist af hingað til. En að liggja í einlægum ófriði og — það sem verst var af öllu — verða fyrir reiði og fjandskap Ólafs konungs Tryggvasonar, gat orðið mjög kostnaðarsamt og hættulegt fyrir þá alla. Konungur gat bannað aðflutninga til landsins og auðveldlega gert Íslendingum hinn mesta skaða. Af þessum ástæðum urðu þeir nú æði margir, sem fylgdu lögsögumanninum og Snorra goða í þessu máli og litu mest á hag landsins í heild sinni og sinn eigin hag.

Kristnir menn hjeldu á öðrum stað fund með sjer. Þeir sáu skjótt, að nú var eigi annað fyrir hendi en að setja nýtt ríki á stofn fyrir þá og alla kristna menn á Íslandi. Úr því svona var komið, gátu þeir eigi lengur búið saman við heiðna menn og fyrir þá var einungis um tvent að ræða, annaðhvort að allir landsmenn tækju kristna trú eða tvenn ríki yrðu í landinu. Þeir gerðu sjer líka örugga von um, að þeir mundu smátt og smátt geta fengið flesta landsmenn til þess að taka kristni, og þá var sigurinn unninn. En ef í hart færi, gátu þeir fengið hjálp hjá Ólafi konungi. Annars virtist þeim auðsætt, að margir hinir helstu heiðnu höfðingjar mundu hika við að beita miklu ofríki sökum gisla þeirra, er Ólafur konungur hjelt hjá sjer. Að setja ríki á stofn, var að ýmsu leyti auðvelt fyrir kristna flokkinn. Þeir gátu sniðið skipulag þess að öllu eptir því, sem þeir höfðu áður átt við að venjast, nema að því leyti sem

trúna snerti, en þar höfðu þeir kristin lög og venjur að fara eptir. Í öðrum greinum var engin ástæða fyrir þá að taka upp ný lög, og eigi heldur í svipinn auðvelt að benda á annað betra, sem ætti líka við íslenska hætti og landsvenju. Hið fyrsta, sem þeir þurftu að gjöra, var að kjósa sjer lögsögumann; það urðu þeir að gera þegar, til þess að hann segði þegar upp lög handa þeim og þeir gætu háð hið fyrsta alþingi sitt þegar, á meðan þeir væru á Þingvöllum, eins og ekkert hefði í skorist og tekið til starfa sem kristið ríki. Mörgum þeirra þótti að vísu ill sundrung sú, sem orðin var meðal landsmanna, en aðrir voru hins vegar svo öruggir og vissir um sigur, að þeir gerðu alla styrkari í huga. Kristnir menn voru einnig svo vel staddir, að eiga töluvert mannval og góða höfðingja í sínum hóp. En þegar um lögsögumanns kosningu var að ræða, leist þeim þó eigi ráðlegt að velja Gissur eða Hjalta til þess, af því að þeir höfðu flutt kristniboðið og gert marga landsmenn æfa á móti sjer, heldur báðu þeir Hall af Síðu, „at hann skyldi lög þeirra upp segja, þau er kristninni skyldi fylgja“.[1]) Hallur var bæði vitur maður og vel að sjer í landslögum, og einhver hinn allra mesti frömuður kristinnar trúar. Auk þess var hann þjóðkunnur fyrir góðgirni sína og hugljúfi allra góðra manna. Hann hafði í mörg ár setið í lögrjettu og tekið þátt í löggjöf landsins. Hann var þá hjer um bil hálfsextugur að aldri, og báru allir hið besta traust til hans. Hallur var friðsemdarmaður mikill og kristileg trú og kristilegur kærleikur virðist hafa haft dýpri og innilegri áhrif á hann, en flesta aðra samtíðarmenn hans. Hann vildi því fyrir hvern mun að landsmenn tækju kristni, en hann vildi líka halda uppi frið í landinu, því að hann sá glögt að hverju alt mundi stefna, ef tvö ríkisfjelög yrðu sett á stofn. Hallur var hvorttveggja í senn, sannur vinur kristninnar og einlægur mannvinur og ættjarðarvin: hann vildi því reyna að sameina sigur kristninnar og hag þjóðfjelagsins. Honum var það ljóst að hann mátti því eigi byrja lögsögumannsstörf sín með því, að fara að segja upp lög

[1]) Íslb. 7/11.

fyrir kristna menn, því að þá hafði sundrungin þegar fengið lagalega staðfestingu og annað ríki var þá komið á fót. Hann þurfti þvert á móti fyrst að leita til mótstöðumannanna og reyna að koma í veg fyrir tvískiptingu og ósætt landsmanna og allan þann ófrið, vandræði og óhamingju, sem af henni hlyti að leiða.

Hallur stóð vel að vígi til þess að semja við ýmsa hina helstu höfðingja í heiðna flokknum. Hann hafði í mörg ár kynst þeim á alþingi, og hann var vel þokkaðar af öllum. Hann þekti Þorgeir lögsögumann mætavel, og hann fór nú til hans og sagði honum frá, að hinir kristnu menn hefðu kosið sig fyrir lögsögumann, því að þeir ætluðu að setja annað ríki á stofn. Þeir lögsögumennirnir þurftu eigi lengi að ræða um þetta, því að þeir skildu báðir, hvað það hafði að þýða fyrir friðinn í landinu og fyrir alla hina heiðnu goða. Það var auðsætt að þeir, sem fengju mannaforráð eða ríki á meðal kristinna manna, mundu reyna að vinna þingmenn frá goðunum og að allir kristnir menn mundu leggjast á eitt um að gera það, sem í þeirra valdi stóð, til þess að fá alla alþýðu manna til að taka kristni, og eptir því sem menn snerust til kristninnar, var sjálfsagt úr því, sem þá væri komið, að þeir mundu segja sig úr þingi hjá hinum heiðnu goðum og ganga inn í hið kristna ríki. Það gat enginn efi leikið á því, hvernig fara mundi, þá er þess var gætt, hve veldi kristinna manna var orðið mikið eptir ein 19 ár, sem voru liðin frá því, að kristniboð var hafið á Íslandi, að kristni var þá einnig komin í Noreg, og að Ólafur konungur stóð á bak við kristniboð þeirra Gissurar og Hjalta og hafði íslenska gisla í haldi og ótal ráð og tæki í hendi til þess að ná sjer niðri á Íslendingum og vinna þeim mein, ef í ófrið væri farið. Hinir heiðnu goðar hlutu að missa þingmenn sína smátt og smátt, eða að verja bæði sig og þá með oddi og egg fyrir allri áleitni af hendi kristinna manna; en af því mundi leiða stöðugan ófrið og eyðileggingu fyrir land og lýð, og frelsi landsins gat beinlínis staðið hin mesta hætta af því, ef Ólafur konungur skærist í leikinn, eins og vænta mátti, þar sem hann

krafðist þess að landsmenn tækju kristni. Ómögulegt var það eigi heldur fyrir annan eins hreystimann og siglingamann sem konung að fara herferð til Íslands. Lögsögumennirnir sáu því, að það var í raun rjettri hið mesta snjallræði úr því, sem komið var, ef landsmenn ljetu skírast og björguðu þannig landinu undan allri þeirri hættu, sem yfir vofði, því að þá hlytu kristnir menn jafnframt að hverfa frá því að setja nokkuð ríki á stofn, og þá þyrfti engin önnur breyting að verða en sú, að landsmenn tækju hinn nýja sið. Alt annað gæti staðið við hið sama, sem áður hefði verið.

Hvort sem lögsögumennirnir töluðu um þetta lengur eða skemur, — um það er ekkert kunnugt, — varð þó sá endir á samtali þeirra, að Hallur „keypti at Þorgeiri lögsögumanni, at hann skyldi upp segja“ „lög, þau er kristninni skyldi fylgja“[1]) og „kristnum dómi væri haldandi“. Þorgeir átti því að segja upp lög fyrir báða flokka, kristna menn og heiðna; en af því að hann var heiðinn sjálfur og til þess að hafa vissu fyrir því að kristninni væri borgið, samdi Hallur við hann um þrjú aðalatriði í lögum þeim, sem hann skyldi upp segja um trúarbrögð landsmanna. Í Ólafs sögu Tryggvasonar er getið um þetta, og er þar sagt að fyrsta ákvæðið hafi verið, að allir menn skyldu kristnir vera á Íslandi og skírn taka, þeir er áður voru óskírðir, annað, að óheilög skyldu vera hof öll og skurðgoð, og hið þriðja, að fjörbaugsgarð skyldi varða blót öll, ef vottnæmd yrði. Fyrir það að Þorgeir tók að sjer lögsöguna með þessum skildögum, galt Hallur honum hálft hundrað silfurs, og var það jafnmikið og lögsögumannskaupið eða tvö hundruð vaðmála, að því er segir í fornlögum vorum.[2]) Það var þá alvenja að greiða mönnum fje fyrir liðveislu, og mun

---

[1]) Íslb. 7 11.  [2]) Krist. 11,22; Fms. II, 228,236; Flat. I, 350 443; Grág. I a, 209, sbr. I b. 192. Í Nj. 105 549 segir, að það væri þrjár merkur silfurs og í Ólafs sögu Odds munks, 37 299, hálf mörk silfurs, og er mikill munur þar á milli. Lögsögumannskaupið, tvö hundruð vaðmála, var jafnt að dýrleika sem 1¼ mörk silfurs (lögsilfurs) sbr. Arnljót Ólafsson í Tímariti Bókmfjel. 1904, bls. 5 o. ef. Er líklegt að Hallur hafi greitt Þorgeiri vanalegt lögsögumannskaup fyrir starf hans.

eflaust rjettast að skoða þetta annaðhvort svo eða sem lögsögumannskaup frá kristnum mönnum. Konungur hafði fengið þeim Hjalta fje til þess að vingast við höfðingja; er mjög líklegt, að þetta hafi verið greitt af því og eins að þeir mágar hafi notað það til þess að vinna einhverja höfðingja fyrir sitt mál, ef þeir hafa fengið því við komið, eða sjeð að það mundi bera árangur. Þó er þess hvergi getið, enda er auðsætt að slíkt hefur farið leynt, og mikil brögð hafi eigi heldur orðið af því.

Svo er að sjá af Ólafs sögu hinni löngu sem þeir Gissur og Hjalti hafi verið við kaup þeirra lögsögumannanna, enda er líklegt að það hafi verið vottfast. Samtal þeirra hefur þó eigi verið á vitorði margra manna í fyrstu, allra síst nokkurs heiðins manns, sem eigi mátti treysta. En svo virðist sem hinir kristnu menn, að minsta kosti allir þeir, sem nokkuð kvað að, hafi brátt fengið að vita það, því að Ari segir, að Hallur „leystist undan“ lögsögu „við þá“ á þann hátt, sem nú var sagt, og hafa þeir hlotið að fá að vita, hvernig á því stóð, að hann sagði eigi upp lög fyrir þá, og getið samþykki sitt til þess. Frásaga Odds munks bendir einnig ljóslega á, að kristnum mönnum hafi verið kunnugt um kaupmála þeirra Halls.[1])

En frá Þorgeiri er það að segja, að þá er hann kom í búð sína, lagðist hann niður í rúm sitt og breiddi feld sinn á sig, og kvað ekki orð. Hann vildi nú grandgæfilega og í góðu tómi hugsa um, hvernig hann fengi komið á sætt milli landsmanna og haldið orð sín við Hall, án þess þó að styggja heiðna menn. Margt var að íhuga og margt að varast. Hann fann svo glögt, hve mikill vandi hvíldi á sjer og hve afarþýðingarmikið mál þetta var; aldrei hafði neitt þvílíkt mál komið fyrir á Íslandi áður, og aldrei hafði nein slík hætta vofið yfir landinu sem nú, því að landsmenn voru tvískiptir og Noregs konungur stóð með öðrum flokknum. Hann þurfti að finna ráð til þess að vinna heiðna menn á sitt mál, þrátt fyrir það þótt hann byði þeim að skírast.

---

[1]) Íslb. 7 11; Oddr 37 300.

Hann varð að láta þá vinna sigur um leið og kristnin ynni sigur yfir þeim, svo að þeir fyndu eigi til neins ósigurs og hvorugur flokkurinn gæti yfir öðrum hælst. Hann þurfti að vega hvert orð í ræðu þeirri, sem hann ætlaði að halda, og hann þurfti að setja saman og koma vel orðum að þeim lögum, sem hann átti að segja upp. Fyrir því hvíldi hann allan daginn og nóttina eptir,[1] en enginn vissi hve hinn aldraði lögsögumaður hugsaði mikið og alvarlega um þetta undir feldi sínum.

En nú víkur sögunni aptur að þingheimi. Síðari hluta sunnudagsins höfðu heiðnir menn fjölmenna stefnu, og rjeðust um, hvað gjöra skyldi til þess að fá yfirunnið hið nýja kristniboð. Þeir tóku þá það ráð, að blóta tveimur mönnum úr hverjum fjórðungi, til þess að heiðin goð ljetu eigi kristni ganga yfir landið. En er þeir Gissur urðu þessa varir, stefndu þeir þegar saman kristnum mönnum til þess að sjá ráð við þessu. Hjalti tók þá til máls og skýrði frá heitum heiðinna manna; lagði hann til að kristnir menn veldu tvo menn fyrir hvern landsfjórðung sem sigurgjöf við drottinn, og skyldu þeir lifa betur og syndvarlegar en áður. Kvað hann þá Gissur sjálfa skyldu ganga undir þetta fyrir Sunnlendingafjórðung. Þessu var vel tekið og lofaði Hallur af Síðu og Þorleifur hinn kristni því fyrir Austfirðingafjórðung, Hlenni hinn gamli úr Saurbæ og Þorvarður Spakböðvarsson fyrir Norðlendingafjórðung, og Gestur Oddleifsson einn fyrir Vestfirðingafjórðung, því að þar var enginn annar til. Það líkaði þeim Hjalta illa. En þá bauð sig fram Ormur Koðránsson, bróðir Þorvalds víðförla, og var því tekið með þökkum. Hann var þá að vistum á Gilsbakka, því að Hermundur Illugason átti dóttur hans. Hann hafði eigi áður viljað taka kristni og var einungis primsigndur, en nú var hann þegar skírður.[2])

Daginn eptir (mánudaginn 24. júní?) settist Þorgeir

---

[1]) Í Krist. 11,23 segir að hann hvíldi „ok annan daginn til jafnlengdar“, eða sólarhringinn fullan; en Ari segir eins og hjer er sagt.
[2]) Krist. 11,23—24; Fms. II, 228,236—240; Flat. I, 350 443—445. Í Ól. s. Tr. segir að Gunnhildur, kona Hermundar, væri systir Orms.

lögsögumaður upp og gjörði orð í búðir, að menn skyldu ganga til lögbergs, bæði kristnir og heiðnir. En þá er allur þingheimur var þar saman kominn, hóf hann upp tölu sína og sagði, „at hánum þótti þá komið hag manna í ónýtt efni, ef menn skyldi eigi hafa allir lög ein á landi hér, ok taldi fyr mönnum á marga vega, at þat skyldi eigi láta verða, ok sagði, at þat mundi at því ósætti verða, er vísa ván var, at þær barsmíðir görðisk á milli manna, er landit eyddisk af. Hann sagði frá því, at konungar úr Norvegi ok úr Danmörku höfðu haft ófrið ok orrustur á milli sín langa tíð, til þess unz landsmenn gerðu frið á milli þeira, þótt þeir vildi eigi. En þat ráð görðisk svá, at af stundu sendusk þeir gersemar á milli, enda hélt friðr sá, meðan þeir lifðu. „En nú þykkir mér þat ráð", kvað hann, „at vér látim ok eigi þá ráða, er mest vilja í gegn gangask, ok miðlum svá mál á milli þeira, at hvárir tveggju hafi nokkut síns máls ok höfum allir ein lög ok einn sið. Þat mun verða satt, er vér slítum í sundr lögin, at vér munum slíta ok friðinn"." [1])

Þetta er einungis stutt inntak úr ræðu Þorgeirs lögsögumanns, sem Ari hinn fróði hefur fært í letur; ræða hans hefur verið miklu lengri; að eins síðustu orðin eru tilfærð sem orð Þorgeirs sjálfs. Þessi ræða hans hafði mikil áhrif, eins og sjá má best af því, að Þorgeir lauk svo máli sínu, að hvorirtveggju játtu því, að allir skyldu ein

---

[1]) Íslb. 7/11—12, sbr. Oddr 37/299—300; Krist. 11/24—25; Fms. II, 229,240—242. Í Krist. eru konungarnir nafngreindir, Dagur í Danmörku og Tryggvi í Noregi. Þeir eru hvorugur kunnir af neinum söguritum eða öðrum heimildum; er eflaust rjettast að skilja sögu þessa sem dæmisögu, er lögsögumaðurinn hefur notað til þess að sannfæra þingheim, sbr. Bps. I, 24 nm. Hinn frægi þýski sagnaritari F. Chr. Dahlmann hefur ætlað að þetta væri tilbúningur úr Ara fróða og hann hafi lagt Þorgeiri lögsögumanni í munn dæmi, er hann sjálfur hafi tekið af ófrið og sættargjörð höfðingjanna fyrir hönd þeirra Magnúss góða og Hörðaknúts í Brenneyjum 1038, Forschungen auf dem Gebiete der Geschichte I, 348—350 (Altona 1821). Síðan hafa ýmsir sagnfræðingar ætlað hið sama, en það er eflaust rangt. Ari var kunnari en svo tímatalinu í sögu Íslands og Noregs, að hann gæti vilst á þessu.

lög hafa, þau sem hann rjeði upp að segja. Að vísu segir Oddur munkur að þingheimur hafi gert þetta, af „því at hinir heiðnu menn væntu, at eptir þeirra vilja myndi gert vera, því at sá var heiðinn, er upp skyldi segja; en hinir kristnu hugðu, at hann myndi gera eptir kaupmála þeirra Halls“.[1]) Þótt þetta sje eflaust að miklu leyti rjett, leynir það sjer þó eigi, að ræðan hefur verið viturlega hugsuð og skýrt mjög málið fyrir mönnum og opnað augun á þeim. Í Njálu segir að Þorgeir hafi tekið „svardaga og festu“ af mönnum um að halda þau lög, er hann segði upp.[2]) Það er líklega eigi rjett, en ef svo hefur verið, mun Þorgeir að eins hafa tekið eiða af höfðingjunum.

Þorgeir sagði síðan upp þau lög „at allir menn skyldi kristnir vera ok skírn taka, þeir er áðr váru óskírðir á landi hér. En of barna útburð skyldu standa en fornu lög ok of hrossakjöts át. Skyldu menn blóta á laun, ef vildu, en varða fjörbaugsgarðr, ef váttum of kvæmi við.“ Meira greinir Ari eigi úr hinum merkilegu lögum, er buðu að kristni skyldi vera þjóðtrú Íslendinga. En í Ólafs sögu Tryggvasonar er að auki eitt ákvæði, sem segir að hof öll og skurðgoð skulu vera óheilög og niðurbrotin. Er það talið þar annað ákvæði í lögum Þorgeirs, eins og það er einnig nefnt þar sem annað skilyrðið í kaupmála þeirra Halls. Þótt Ari nefni eigi þetta ákvæði, mun eigi þurfa að efa að það hafi verið í lögum Þorgeirs, bæði af því að kristnir menn brutu venjulega niður öll heiðin hof á Norðurlöndum,[3]) að minsta kosti þar sem eigi var um veigameiri goðahús að ræða en á Íslandi, og af því að bannað var að blóta nema á laun. Með því ákvæði voru hofin dauðadæmd, jafnframt því að kristnin var í lög tekin.[4])

Það er mjög líklegt að mörgum heiðnum mönnum hafi

---

[1]) Oddr 37/300. [2]) Nj. 105/550. [3]) Sbr. atgjörðir Stefnis og Krist. 11/20; Fms. II. 228/233 sbr. 227/230—231. sbr. Harð. 19/59. Um Noreg sjá A. Taranger, Den angelsaksiske kirkes indflydelse, bls. 130—133. [4]) Íslb. 7/12, sbr. Oddr 37/300; Krist. 11/25; Fms. II. 229/242. Í Nj. 105/550—551, er sagt óskipulega frá þessum lagaákvæðum og eigi alls kostar rjett.

brugðið í brún, þá er þeir heyrðu hinn gamla lögsögumann sinn hefja lögsögu sína með því að bjóða, að allir skyldu vera kristnir og skírn taka. Í Njálu segir að heiðnir menn þættust mjög sviknir vera, og svo mun hafa verið í fyrstu með þá, sem voru ákafir trúmenn í heiðnum sið. En samt stóðu þau lög, sem Þorgeir sagði upp. Allir þeir heiðingjar, sem hugsuðu meira um hag þjóðfjelagsins og um hag sjálfs sín en trúarbrögðin, eða gátu hugsað rólega um þetta, tóku lögum Þorgeirs vel, og hið sama er að segja um kristna menn. Þeir, sem ofstækir voru á móti kristninni, máttu sín minna en þessir tveir flokkar til samans, og svo dró það úr mörgum þeirra, að Ólafur konungur hafði gisla hjá sjer, og að líf þeirra var í veði, ef heiðnir menn brytu niður kristniboðið. Runólfur goði hafði t. a. m. verið ákafasti og einbeittasti foringi heiðinna manna sumarið áður, en nú hafði hann sig svo lítið frammi á alþingi, af því að sonur hans sat í gislingu, að hans er þar að engu getið. Margir heiðnir höfðingjar vildu eigi heldur ganga hart fram á móti kristninni, sumir af því að þeir voru tengdir eða skyldir einhverjum kristnum mönnum, aðrir af því að þeir voru í vinfengi við ýmsa kristna menn. En auk þess varð það óðum fleiri og fleiri heiðnum mönnum ljóst, hvílíkur skaði og hætta bæði þeim og Íslandi gat verið búin af Ólafi Tryggvasyni, ef þeir ljetu eigi undan.

Þorgeir lögsögumaður var einnig svo hygginn, að slaka dálítið til við heiðna menn að því er trúna snerti. Hann leyfði mönnum að blóta á laun, og fyrir því gátu þeir, sem vildu og voru mjög fastheldnir við fornan átrúnað, haldið trú sinni á hin heiðnu goð; að eins áttu þeir að gæta þess að það yrði eigi vottfast, því að þá var það saknæmt. Þeim var gerð sú ívilnun um þetta að eigi skyldi duga, þótt sterkur grunur lægi á þeim og kviður bæri að þeir blótuðu. Það átti að sannast með vottum; var miklu hægra að varast þá en kvið. Önnur ívilnun við heiðna menn var það, að láta hin fornu lög halda sjer um útburð barna og um hrossakjötsát. Þessu hefur eflaust verið tekið vel af mörgum, því að það kemur sjer ávalt vel hjá almenningi

að íþyngja eigi með kostnað, og alþýðu var mikill styrkur að hrossakjöti. Þessi ívilnun var að öllu leyti opinber, og snerti hún fremur efnahag manna en trúarbrögð, en báðar gerðu þær heiðnum mönnum þó miklu minna fyrir að ganga undir lagaboð Þorgeirs, eigi síst þeim, sem voru miklir metnaðarmenn og ógjarnan vildu láta sig, nema þeir ynnu eitthvað. Hvorttveggja var þetta þó lítið í samanburði við það, að allir skyldu taka kristni, og er það ljóst, að kristnir menn báru sigur úr býtum að því er trúarmál og kristniboðið snerti; en jafnframt unnu heiðnir menn þann sigur yfir kristnum mönnum, að þeir hættu við að setja ríki á stofn og gengu aptur inn í hið forna þjóðfjelag og undir lög landsins. Þetta var mikill ávinningur fyrir alla úr því, sem komið var, en þó einkum fyrir hina heiðnu höfðingja. En hins vegar voru það engin útlát fyrir forvígismenn kristninnar, því að markmið þeirra var að kristna landið, en eigi að tvístra þjóðfjelaginu. Allir gátu því yfirleitt verið mjög vel ánægðir með gjörð Þorgeirs lögsögumanns, og hve vel henni var tekið, sýnir best, hve djúpt og spaklega hann hefur hugsað málið, þá er hann hvíldi undir feldinum. Sjaldan hefur á Íslandi meiri skarpskygni og stjórnspeki komið í ljós en í þessum lagaákvæðum hans.

Þannig lauk þessari miklu og merkilegu deilu, sem hafði slitið hin helgu ættarbönd og nærri eyðilagt hið íslenska þjóðfjelag, með úrskurði lögsögumanns að lögbergi. En nú tóku kennimennirnir til starfa. Þeir ætluðu að skíra þingheim á Þingvöllum, en margir tóku því mjög dauflega að fara í kalt vatn. Voru því fáir skírðir þar, en flestir munu hafa verið prímsigndir áður en þeir riðu af þingi. Eptir þinglausnir skiptu kennimennirnir sjer, og riðu flestir þeirra með þeim Hjalta og Gissuri og meiri hluta þingmanna austur í Laugardal. Þar skírðu þeir Austfirðinga, Norðlendinga og Sunnlendinga[1]) í Reykjalaugu. Þar var

---

[1]) Í Ól. s. Tr. Fms. II, 229,243 stendur Norðlendingar og Austfirðingar, en í Krist. 11 25 Norðlendingar og Sunnlendingar. Runólfur goði, sem var skírður þar, var Sunnlendingur og má nærri geta að

þá skírður Runólfur goði Úlfsson, og er sagt að Hjalti Skeggjason hafi veitt honum guðsifjar. Þá er hann var látinn bergja á saltinu, eins og venja var til á þeim tímum, til að minna á orð Krists: „Þjer eruð salt jarðar“, mælti Hjalti: „Gömlum kennum vér nú goðanum at geifla á saltinu.“ Runólfur hafði þá verið goði i mörg ár, og ögraði Hjalti honum, af því að hann hafði gert hann sekan sem fyr er sagt.

Einhverjir af kennimönnunum riðu af þingi með Vestanmönnum til Syðra-Reykjadals og skírðu þá flesta í Reykjalaugu þar í dalnum.[1]) Þá er þingheimur var skírður og menn komu heim af þingi, tóku kennimennirnir að skíra alþýðu; fóru þeir þá um alt landið og munu ýmsir þingmenn og kristnir menn hafa stutt þá að því verki. Er þess getið um Snorra goða, að hann hafi komið mestu á leið við Vestfirðinga. Annars er ekkert kunnugt um ferðir og störf kennimannanna, því að engar sögur fara af þeim. Bendir það á að alt hafi gengið með góðu, í friði og spekt.[2])

Rjett eptir þinglausnir gengu skip af Íslandi til Noregs, og spurðust þá þau tíðindi, að kristni var í lög tekin á Íslandi og allur þingheimur skírður. Ólafur konungur varð mjög glaður við það og gaf Íslendingum þeim, sem voru í gislingu hjá honum, leyfi til þess að fara til Íslands.[3]) Hann hafði nú komið því til vegar á Íslandi, sem hann hafði rjett áður fengið samþykkt á lögþingunum í Noregi, að kristnin var orðin hin löglega trú landsmanna; hafði hann með því unnið margar þúsundir manna undir kristilega kirkju og auk þess var þetta styrkur fyrir kristnina í Noregi. Það var eigi þýðingarlaust fyrir hina ungu kristni í Noregi, hvort

---

fleiri af þeim hafi verið skírðir þar, en hann einn. Eðlilega hafa Austfirðingar verið skírðir þar líka, því að Reykjalaug var í leiðinni fyrir þeim, þá er þeir riðu af þingi. Sama er að segja um þá Norðlendinga, sem fóru norður Kjalveg og fleiri fjallvegi. Engar laugar eru í Laugardalnum nema hjá Laugarvatni.

[1]) Sbr Kålund, Ísl. I, 312. [2]) Krist. 11/25; Hkr. I, 95/427; Fms. II. 229/243—244; Eg. 86/320, 87/321; Glúm. 28/87. [3]) Lax. 43/160; Fms. II, 233/253.

höfðingjar þeir og skáld, sem komu þangað af Íslandi, voru kristnir eða heiðnir, eða hvort goðin og vinir þeirra áttu athvarf á Íslandi eða þeim var þar eigi fritt.

Þá er Ólafur konungur fjekk þessi tiðindi, var hann búinn til Vindlands. Hann fjell í þeirri ferð við Svoldur eins og kunnugt er hinn 9. september þá um sumarið, og segir Oddur munkur, að menn hafi „þær minjar hans á Íslandi, at hann hefir kristnat landit“.[1]) En þegar kristnitökunnar er minst, má eigi gleyma því, að það var mest að þakka góðgirni Síðu-Halls og stjórnspeki Þorgeirs Ljósvetningagoða að alt fór vel og endaði friðsamlega. Þótt stundum liti ægilega út og lægi við bardaga, fjell þó fyrir tilstilli Þorgeirs alt að lokum í ljúfa löð, engu ofríki var beitt og þingheimur gekk af frjálsum vilja undir lög lögsögumannsins.

Ef kristniboðið á Íslandi er borið saman við samskonar siðaskipti í öðrum löndum, er auðsætt að það gekk fremur greitt að „koma kristni á Ísland“, eins og Ari fróði kveður að orði. Heiðingjarnir áttu enga öfluga og lærða prestastjett til þess að verja trú sína; þess vegna varð mótstaðan gegn kristninni miklu minni en ella mundi. Auk þess var íslenska þjóðfjelagið ungt og lítið. Í ungu þjóðfjelagi eru menn eigi svo fastheldnir sem í gömlu, og í litlu þjóðfjelagi er venjulega hægra að koma skjótt á miklum breytingum en í stóru. Enn fremur var góð samvinna við kristniboðið á meðal Íslendinga og ýmsra góðra og duglegra útlendra manna. Þorvaldur víðförli og Friðrik biskup lögðu í sameiningu hyrningarsteininn að kristilegri kirkju á Íslandi. Þangbrandur og Guðleifur, Hallur af Síðu, Hjalti og Gissur undirbjuggu úrslitin, og Íslendingar sjálfir tóku kristnina í lög fyrir atgjörðir Ólafs Tryggvasonar og með styrk hans.

---

[1]) Oddr 37/300, sbr. Íslb. 7/9. Um kristnitökuna sjá enn fremur Oddr[2] 30/33; Eyrb. 49/92; Gunnl. 5/209; Theodric bls. 20—21; Hist. Norv. bls. 116; Flat. I, 338—339/427—429, 349—351/441—447; Ann. I o. fl. árið 1000.

Það má nærri geta að þessi skjótu siðaskipti voru að eins á yfirborðinu hjá flestum. Heiðnar hugmyndir og heiðnir siðir ríktu í hugum manna og í daglegu lífi. Þótt menn hættu að dýrka Óðinn og Þór, lifði þó sálnatrúin, hin almenna þjóðtrú, eptir sem áður, og hún lifir enn þann dag í dag. En þó var sigur kristninnar svo mikill, að enginn mælti í móti henni eptir þetta, og síðan náði hún að festa nokkrar rætur í hjörtum landsmanna og eflast töluvert í friði og ró. Það sýndi sig þá, að það var rjett, sem allir kristniboðarnir höfðu barist fyrir, að mestu skipti að fá kristnina viðurkenda með lögum sem trú allra landsmanna; því að þá yrði hægt að veita almenningi nokkra kristilega fræðslu og reyna að hafa áhrif á hugarfar manna í kristilega stefnu, þótt það gengi seint og væri erfitt.

Rúmum hundrað árum síðar voru Íslendingar í heild sinni orðnir eins vel kristnir eins og sumar aðrar þjóðir voru á þeim tímum, þótt þær hefðu haft kristna trú svo öldum skipti. Alkristnir aptur á móti eru hvorki Íslendingar nje aðrar þjóðir orðnar enn þann dag í dag; það á enn mjög langt í land, að kristilegur kærleikur ráði hugsunum manna, orðum og gjörðum.

---

# VI. Löggjöf og stjórnarfar. Fimtardómur.

## Ný lög og lagaþekking. Stjórnarfarið; afbrigði við lögin.

Íslendingar unnu allmikið að lagasetningu á söguöldinni, þótt tiltölulega lítið sje af því sagt. Þó er nokkrum sinnum getið um ný lög, er þau stóðu í sambandi við þá atburði, sem sögurnar skýra frá. Þannig er sagt í Grettis sögu, að það hafi verið lögtekið eptir bardaga þeirra Þorgríms hærukolls og Flosa Eiríkssonar út af hvalrekanum að Rifskerjum, að hver maður skyldi eiga reka fyrir jörð sinni.[1]) Í Grágás eru samskonar lagaákvæði um reka.[2]) Það getur því verið rjett, sem segir í Grettlu, að bardagi þessi hafi valdið því, að ákvæði þessi voru lögtekin, þótt þar ægi ýmsu saman í frásögninni, bæði sönnu og ósönnu, sem eigi er hægt að greina fyllilega og áreiðanlega í sundur. Í sögunni segir að Þorkell máni hafi þá haft lögsögu, en það er rangt, því að bardaginn að Rifskerjum var nærri 30 árum áður en hann tók lögsögu.

Nokkru eptir að lög Þórðar gellis voru sett, er þess getið, að lögtekið hafi verið í hallæri einu (um 970), að hver sá skógarmaður, sem dræpi þrjá seka menn, skyldi fá frelsi.[3]) Eptir víg Arnkels goða voru konur vígsaðilar, og „var fyrir því eigi svá mikill reki gjörr um vígit, sem ván mundi þykkja um svá göfgan mann“. Þorleifur kimbi var

---

[1]) Grett. 12/33–34; sbr. að framan bls. 188. [2]) Grág. Ib. 123, II, 510, III, 379. [3]) Sbr. að framan bls. 208.

gerður utan þrjá vetur, því að honum var kent banasár Arnkels, en aðrar mannsektir urðu eigi. Þetta þótti eigi sæmilegt eptir slíkan höfðingja sem Arnkel. Sökum þess gerðu menn það að lögum að kona skyldi aldrei vera vígssakaraðili og eigi yngri karlmaður en 16 vetra.[1])

Í lok 10. aldar er getið um þrenn lög, sem sett voru á þeim árum, er landsmenn deildu um trúarbrögðin, og hefur þegar verið skýrt frá þeim. Í lögsögumannstíð Skapta Þóroddssonar (1004—1030) eru nefnd fern ný lög, sem þá voru sett. Ein þeirra voru hin nafnkunnu fimtardómslög, önnur um lýsingu víga,[2]) hin þriðju um að af taka skyldi hólmgöngur[3]) og hin fjórðu um afnám nokkurra heiðinna venja.[4])

Grágás, hin fornu lög sjálf, sýna það best, hve mikið Íslendingar hafa framan af öldum unnið að löggjöf, og að þeir hafa sett mörg lög eða lagaákvæði um margskonar einkamál, enn fremur um þing, dóma og málaflutning, víg og áverka, um afarmörg einstök atvik og afbrot og um sektir og útlegðir fyrir þau. Afarmörg lagaákvæði í Vígslóða, einum aðalbálkinum í Grágás, benda á að meginhlutinn af honum eigi uppruna sinn að telja til söguialdarinnar, þótt hann væri eigi ritaður upp fyr en 1117—1118.[5]) Grágás er áreiðanlegt vitni um að mikil löggjöf hefur blómgast á Íslandi fram undir miðja 12. öld; en ýmislegt bendir á að lagasetningin hafi jafnvel staðið í einna mestum blóma á söguöldinni, einkanlega á síðari hluta hennar. Þá er getið um marga lagamenn eða lögmenn[6]) og sýnir

---

[1]) Eyrb. 38/69. [2]) Íslb. 8/13. [3]) Gunnl. 11/258—259. [4]) Íslb. 7/12; Hkr. II, 60/87. [5]) Íslb. 10/16, sbr. Finsen, Fristat. Instit. bls. 164—171. [6]) Nj. 1/1, 21/80 (Mörður gígja), 20/79 (Njáll Þorgeirsson), 56/252 (Þóroddur goði og Skapti Þóroddsson), 109/570 (Þórhallur Ásgrímsson), 135/724, 138/733 (Eyjólfur Bölverksson), 138/735—736 (Þorkell Geitisson), 142/779, 142/783—785; Krist. 12/28; Gunnl. 4/205 (Þorstein Egilsson); Eyrb. 12/13 (Arnkell goði); Lax. 25/89, 57/212 (Þorgils Hölluson), 78/287 (Þórður Ingunnarson); Háv. 1/2 (Þorkell í Æðey); Glúm. 17/49 (Halli hinn hvíti Þorbjarnarson), 19/56 (Möðruvellingar og Esphælingar lögvitrir); Svarfd. 13/37—38 (Höskuldur lögmaður) 16/47—48; V.-Ljót. 1/155 (Halli Sigmundarson), 2/161, 3/167; Dropl.[2] 4/149 (Þorkell Geitisson, Helgi Droplaugarson), 3/146 (Össur í Ási); Hrafnk.[2] 3/97, 3/106, sbr. 4/115;

það, hve mikla stund einstakir menn lögðu þá á að kynna sjer landslögin. Á alþingi var ágætt færi til þess, þá er lögsögumaður sagði lögin upp. Einnig er þess getið að ungir menn námu lög af lögspökum mönnum, svo sem Gunnlaugur ormstunga af Þorsteini Egilssyni, Þórhallur Ásgrímsson af Njáli, Helgi Droplaugarson af Þorkeli Geitissyni, Þorleikur Bollason af Þorgilsi Höllusyni.[1]) „Pat er mannvit," sagði einn hinn spakasti maður í Noregi á 13. öld, „at kunna vel lög ok kunna á því góðar skilningar, hvat lög eru rétt eða hvat lög eru kölluð ok er þó ekki nema lögkrókar ok sleitur."[2]) Það var mjög nauðsynlegt að vera vel að sjer í lögum landsins til þess að geta gætt rjettar síns og haldið virðingu sinni. Fyrir því ljetu margir merkir menn syni sína nema lög, er þeir sáu að þeir höfðu hæfileika til þess. Margir ungir menn sáu einnig snemma hverja þýðingu það hafði að kunna rjett lög.[3]) Lagamennirnir voru líka mikils metnir, ef þeir voru eigi að öðru leyti rjett og sljett ómenni.

En Íslendingum var miklu sýnna um að setja lög en að hlýða lögum. Smátt og smátt með æfingu urðu þeir leiknir í þeirri list að setja lög um öll hugsanleg atvik, en það var þeim í sjálfs vald sett, hvort þeir hlýddu lögunum eða eigi, og hvernig þeir beittu þeim. Skapferli þeirra var svo ofsafengið og vanstilt, að þeir áttu mjög erfitt með að beygja sig undir landslögin, ef það á einhvern hátt kom í bága við tilfinningar þeirra eða geðþótta. Það voru auðvitað eigi skapmjúkustu mennirnir og hinir sveigjanlegustu, sem höfðu farið frá Noregi og setst að á Íslandi, þótt ýmsir friðsamir menn væru á meðal þeirra. Löghlýðni höfðu fæstir þeirra vanist á. Þeir höfðu margir í raun rjettri litla eða enga hugmynd um hana.

Það er eptirtektarvert hvernig kristnin var í lög tekin

---

Sbr. K. Maurer, Grágás (i Ersch og Grubers Encyklopädie, 1. Sect. 77. Bd.) bls. 40–41; V. Finsen, De isl. Love bls. 15–16, 146—148.

[1]) Gunnl. 4/205; Nj. 27/105; Dropl.[2] 4/149; Lax. 57/212. [2]) Kgsk. 40/93. [3]) Gunnl. 4/206–207.

á Íslandi. Lögrjetta, sem hafði löggjafarvaldið á hendi, setti eigi nje samþykti nein lög um þetta þýðingarmikla löggjafarmálefni, heldur var farið að rjett eins og ekkert löggjafarþing væri til. Það mun hafa komið af því, að landsmenn höfðu skiptst í tvo flokka og höfðu sagt sig úr lögum hvorir við aðra. Þeir gátu því eigi eins og þá var komið skipað lögrjettu í sameiningu, svo sem lög stóðu til, og samþykt lög handa öllum landsmönnum. Ef þeir hefðu átt að gera það, hefði fyrst orðið að koma á sættum með þeim. En það var mjög erfitt og engin útlit fyrir að það mundi takast í bráð, þótt einhverjir hefðu farið að leita um sættir á milli flokkanna. Þetta sá Hallur af Síðu og fyrir því fjekk hann hinn aldraða og spaka lögsögumann til þess að leysa úr vandræðunum. Hann var nógu hygginn og gætinn til þess að fá landsmenn til þess að lofa því fyrirfram að hlýða þeim lögum, sem hann segði upp. Hann skar síðan úr hinni miklu deilu um trúarbrögðin líkt og gjörðarmaður gerði um mál, þá er aðilar þess vildu eigi hlíta neinum dómi. Þótt sjötíu ára gamalt löggjafarþing væri til, sagði hann þó einn upp lögin um að allir landsmenn skyldu vera kristnir, líkt og Úlfljótur forðum, þá er hann setti í fyrstu landsmönnum lög.

Kristnitakan er eitthvert hið áþreifanlegasta og jafnframt hið stórkostlega dæmi upp á það, hve ofsafengnir og vanstiltir landsmenn voru, þá er þeir reiddust eða æsingur hljóp í þá. Þeir slitu ættarböndin, hin helgu friðarbönd blóðskyldunnar, þá er menn gengu undan merkjum hinna gömlu goða og boðuðu nýjan sið, og þeir sögðu sig úr lögum hvorir við aðra, þá er kristnin hjelt innreið sína á lögberg. Öll málaferlin og vígaferlin, sem sögurnar segja mikið af, benda á hið sama. Þótt landsmenn hefðu með lögum sett dóma á stofn til þess að dæma mál manna, kom það þó eigi sjaldan fyrir að mál væru lögð í gjörð,[1]) eða

---

[1]) Ldn. 19/123, 28/146, 10/200, 20/233; Eyrb. 10/11, 27/45, 31/56, 41/75, 46/89; Eg. 81—82/305—309; Lax. 50—51/195—196, 71/263—264; Vatn. 29/49, 44/74; Hallfr. 3/87, 4/90; 10/111; Glúm. 18/51; Ljósv. 12/153, 17/179—180,

menn meiri máttar gerðu af mótstöðumönnum sínum lönd þeirra og þá sjálfa burtu úr hjeraðinu eða jafnvel úr landsfjórðunginum. Stundum heimtuðu menn sjálfdæmi eða eindæmi, af því að þeir vildu eigi brjóta odd af oflæti sínu og hlíta dómi annara, eða þeir þóttust vera svo hátt upp hafnir yfir mótstöðumenn sína að annað þótti eigi fullsæmilegt.[1]) Var þá opt einskis annars kostur en að láta menn fá það, ef þeir vildu ná sáttum. Stundum buðu menn einnig að fyrra bragði sjálfdæmi til sátta, ef málstaðurinn var vondur eða ef mönnum þótti fyrir að hafa gjört á hluta annars. Menn áttu að hefna sín og reka rjettar síns sjálfir. Af því leiddi eðlilega að hver gerði það á þann hátt, sem hann átti hægast með og mátti best við koma; en það var opt eigi auðveldasti nje greiðasti vegurinn að fara eins að og lögin mæltu fyrir. Þvert á móti. Sögurnar lýsa því mjög opt, hve erfitt það var að sækja mál sitt fyrir dómi, hve flókinn málaflutningurinn var og hve lítið mátti bregða út af fyrirmælum laganna til þess að gott og rjett mál ónýttist eigi. Smávegis gleymska, lítill formgalli eða minstu afglöp við flutning málsins, gat eyðilagt hið rjettasta mál og hinn besta málstað En það var eigi nóg með þetta. Fyrir dómstólunum á hinum helguðu þingum, bæði á vorþingum og á alþingi, beittu menn á ýmsan hátt ofríki eða valdi. Stundum skoraði annar málsaðili mótstöðumann sinn á hólm, og reyndi þannig með ofbeldi að hindra að hann næði rjetti sínum. Einnig mátti ávalt vænta þess, að mótstöðumennirnir eða annar aðili málsins veitti dómendum atgöngu með liðsafla, ef hann sæi sjer það fært, og hleypti dómnum upp eða verði hinum málsaðila að koma svo nærri

27/234, 30/246: Reyk. 1/4—5, 6/31, 10/42, 11/50, 13/60, 13/65, 14/71, 16/83, 18/97, 24/122—123; V.-Ljót. 7/190—191; Dropl.[2] 5/152, 8/155; Nj. 51/233, 56/258, 66/308, 70/322—325, 74/343, 80/378, 93/487, 106/555, 122—123/632—638, 145/821—823; Bjarn. 34/74—75; Heið. 101—102.

[1]) Eyrb. 13/16, 62/113; Gísl. 34/99; Vatn. 29/49, 44/74; Glúm. 7/21, 18/51; Ljósv. 11/148, 17/179; Vápn.[2] 13/58; Hrafnk[2] 5/122; Dropl.[2] 5/152, 6/154, 8/155; Nj. 36/143, 37/154, 40/168, 43/179, 45/201, 49/221, 51/231—233, 79/377, 99/523; Bjarn. 34/74.

dómnum, að hann gæti flutt mál sitt fyrir honum. Þá er svo bar við, urðu menn að hafa nægan mannafla til þess að hindra slíkt; að öðrum kosti ónýttist málið. Af þessum ástæðum þurftu menn að ríða með fjölmenni á þing eða biðja sjer þar liðs, ef þeir áttu í málum.[1]) En er svona var að farið, komst venjulega alt í uppnám. Menn gripu til vopna og sló þá eigi sjaldan í bardaga með mönnum. Opt vildi þó svo vel til að einhverjir þingmenn, sem eigi voru við deilurnar riðnir, litu með stillingu og skynsemd á það, sem gerðist, og fóru þeir þá til að skilja menn og firra þá vandræðum, svo að menn börðust sjaldan mjög lengi. En stundum kom það fyrir að meiri hluti þingheims lenti í blóðugum bardaga og að barist var lengi, áður en hægt væri að skilja menn eða þeir hættu.[2])

En er slík afbrigði voru mjög tíð frá dómsköpunum, má líka nærri geta að eigi hefur heldur alt farið að lögum eða reglulega að því er goðorðaskipunina og þinghald snertir. Sögurnar segja þó miklu minna af því en af málaferlum og dómum, og liggur það í hlutarins eðli, því að slíkt varð sjaldnar söguefni. En er litið er á metnað og skapferli landsmanna, segir það sig nærri sjálft, að þeir höfðingjar hafa eigi allir orðið ánægðir, sem engin goðorð fengu til forráða, hvorki í upphafi, þá er ákveðið var í fyrstu, hverjir skyldu fá mannaforráð og löggjafarvald, nje síðar, þá er breyting var gerð á goðorða og þinga skipun Úlfljóts með lögum Þórðar gellis. Sögurnar geta að vísu eigi um neina óánægju út af þessu, en þær segja líka mjög lítið frá þessum þýðingarmiklu atburðum og löggjöf landsmanna yfirleitt; en metnaðinn má lesa út úr öllum Íslendinga sögum, og öfund var alls eigi fágætari á Íslandi í fornöld en á vorum dögum. Eptir Úlfljótslögum áttu, eptir því

[1]) Eyrb. 17/19, 56/104; Vatn. 37/61; Hrafnk.[2] 4/117; Krist. 9/17; Glúm. 24/74. [2]) Íslb. 5/8; Ldn. 12/98, 18/115; Hæns. 13—14/169—172; Eyrb. 9/10—11, 17/19, 41/75, 56/104; 56/103; Gísl. 6/12—13; Vatn. 37/61; Glúm. 24/74, 27/83—84, 9/28; Ljósv. 4/124—125, 10—11/145—149, 14/168—169, 26—27/226—234; 11—12/149—154; Vápn.[2] 6/40; Hrafnk[2]. 4/116—117; Nj. 145/805—816.

sem næst verður komist, að vera 36 goðorð (forráðsgoðorð) og 12 vorþing á öllu landinu, en einstaka menn, sem voru metnaðargjarnir, hafa orðið óánægðir með það, að minsta kosti þá er stundir liðu, því að fleiri urðu til þess en Hrafnkell Freysgoði að taka upp goðorð, sem hafa staðið fyrir utan hina almennu þingaskipun.[1]) Það sjest best af því að um 963 voru goðorðin orðin um 39 og þingin líklega 13; að minsta kosti voru þau orðin fjögur á Norðurlandi, og goðorðin munu þá hafa verið þar tólf að tölu.[2])

Eptir það er stjórnarskipunarlög Þórðar gellis voru komin á, var alt Ísland 39 smá ríki. Fyrir þeim rjeðu goðarnir, sem hjer hafa verið nefndir löggoðar, af því að þeir höfðu löggjafarvaldið á hendi, eða forráðsgoðar, af því að þeir áttu goðorð til forráða, forráðsgoðorð, mannaforráð. Goðar þessir höfðu hið æðsta vald á Íslandi. Þeir voru hinir einu menn, sem áttu að lögum fullveldi *(suverænitet)*, sem svo er nefnt á vorum dögum. En í fornöld var valdinu eigi skipt í þrent eins og nú er gert;[3]) verður jafnan að gæta að því, að hjer er um algjörlega aðrar ástæður og venjur að ræða en nú á tímum, bæði að því er snertir landsstjórn, hugsunarhátt manna og lífsskoðun. Goðarnir höfðu einir löggjafarvald og „hið opinbera“ framkvæmdarvald, ef svo má að orði kveða. Þeir nefndu einnig menn í dóma, líkt og konungar skipa dómara á vorum tímum. Framkvæmdarvald höfðu goðarnir hver í sínu ríki, og fór það í raun rjettri mjög eptir því, hve duglegir og framtakssamir menn þeir voru persónulega, því að þeir höfðu sjálfir framkvæmdina á hendi og fóru opt mjög mikið eptir eigin vild sinni. Aptur á móti var ekkert framkvæmdarvald sett fyrir alt landið í heild sinni og ástæðan til þess

---

[1]) Hrafnk.[2] 7/126. [2]) Sjá að framan bls. 68—71, 74—75 nm.
[3]) Þrískiptingu þá, sem nú er algeng á ríkisvaldinu, í löggjafarvald, framkvæmdarvald og dómsvald, fann upp hinn frakkneski rithöfundur Charles de Secondat, baron de la Brède et de Montesquieu. Hann ljet þessa kenningu sína í ljós í hinni frægu bók sinni *L'esprit des lois* (þ. e. Andi laganna), sem kom út 1748. Í lok 18. aldar tóku menn að framkvæma kenningar hans.

var eflaust sú, að Ísland var þá eigi skoðað sem eitt ríki, því að enginn einn höfðingi hafði tekið sjer vald eða náð valdi yfir því öllu. Goðarnir vildu auðvitað eigi heldur skipa neinn mann yfir landið, því að það hefði verið hið sama fyrir þá sem að selja honum hið æðsta vald þeirra í hendur; en það vildu þeir eigi fyrir neinn mun á söguöldinni. En Ísland var út í reginhafi fjarri öðrum löndum, og landsmönnum þótti því sjálfsagt, að þeir allir skyldu eiga ein lög til þess að komast hjá sífeldum vandræðum og deilum. Fyrir því skipuðu þeir menn, sem rjeðu ríkjum á Íslandi, goðarnir sjálfir, löggjafarsamkomu og settu öllu landinu lög með aðstoð umráðamanna sinna, líkt og konungar gerðu í ýmsum öðrum löndum. Þeir völdu einnig mann úr sínum hóp til þess að segja upp lögin og segja mönnum hvað lög væri. Lögsögumaðurinn var sem lifandi lögbók landsmanna, því að lögin voru eigi rituð upp. Af því að löggjafarvaldið var sameiginlegt fyrir alt landið, þurfti einnig alþingisvald eða allandsvald[1]) til þess að veita leyfi eða „lof" frá lögunum, náðanir og fleira; það hafði lögrjettan.[2]) Hún hafði hið litla framkvæmdarvald á hendi, sem þurfti beinlínis að vera sameiginlegt af því að landið átti ein lög, en það kom eigi til framkvæmda, nema þær tvær vikur, sem alþingi stóð.

Á þennan hátt stóðu öll ríkin á Íslandi í hinu nánasta sambandi hvert við annað. Alþingi var hin sameiginlega lífæð þeirra allra. Þar áttu þau einnig í fyrstu sameiginlegan dómstól, alþingisdóminn, en eptir það er landinu var skipt í fjórðunga og fjórðungsdómar voru komnir á fót, voru dómstólar einungis sameiginlegir fyrir hvern landsfjórðung, nema í einstaka málum, er nýr dómur var settur í byrjun 11. aldar. En allir fjórðungsdómarnir voru háðir á alþingi og fyrir því gætti þess minna en ella, að þeir voru eigi sameiginlegir fyrir land alt. Alþingi var því hvort-

---

[1]) Svo er hjer nefnt vald það, er náði yfir land alt og var andstætt framkvæmdarvaldi goðanna í hverju ríki. [2]) Grág. Ia, 95—96, 211—213.

tveggja í senn sambandsliður á milli allra ríkjanna og samkomustaður allra landsmanna.

Hver þrjú goðorð áttu vorþing og haustþing saman og þannig mynduðu öll forráðsgoðorðin 13 þing eða smá þingsambönd samkvæmt lögum Þórðar gellis. Það var eflaust ætlun þeirra laga að eigi væru fleiri goðorð en 39 á öllu Íslandi, en einstaka menn urðu brátt óánægðir með það. Þó er eigi sagt beinlínis neitt af því í sögunum, en verkin sýna merkin. Arnkell goði Þórólfsson tók upp goðorð (einhvern tíma á árunum milli 970—980), eins og fyr er sagt. Hann hefði eigi gert það, ef hann hefði verið ánægður með goðorð þau, sem voru til áður þar vestra og voru lögleg. Hann sótti Þórsnesþing til æfiloka eins og löggoðarnir í því þingi, en setti eigi neitt nýtt þing í goðorði sínu.

Nokkrir fleiri goðar eru nefndir, sem ætla má um að hafi eigi verið löggoðar, svo sem Snorri Hlíðmannagoði Eyvindarson norður í Eyjafirði,[1]) en það er opt mjög erfitt eða alveg ómögulegt að vita slíkt með vissu, því að um það vanta skírteini. Það er með öllu ókunnugt, hver sum hin löglegu goðorð voru í upphafi og hverjir fóru með þau kynslóð eptir kynslóð. Það nægir því eigi til þess að greiða algjörlega úr þessu máli, þótt sjá megi hverjir áttu mörg af goðorðum landsins um lengri eða skemri tíma. En þá er um goðorðaskipun landsins er að ræða, verður að gæta að því, hvernig goðorðin voru í eðli sínu. Þau hvíldu á frjálsu samkomulagi milli goðans annars vegar og þingmanna hans eða undirmanna hins vegar.[2]) Fyrir því gat lögrjetta eigi tekið þingmenn frá einum goða og látið annan fá þá. Löggjafarvaldið gat því eigi beinlínis sett goðorð á stofn, en það rjeð hverjir fengu löglega viðurkenningu sem löggoðar eða hvaða goðorð fengu einhver lögleg forráð eða völd, ef um slíkt var að ræða. Einstakir menn, goðorðslausir höfðingjar eða höfðingjaefni, hafa orðið að undirbúa stofnun nýrra goðorða með því að fá menn heima í hjeruðum til þess að ganga í lið með sjer og ger-

[1]) Ldn. 14,213; Ljósv. 4/126. [2]) Sjá að framan bls. 41—43.

ast þingmenn þeirra eða undirmenn og mynda þannig nýtt goðorð. Menn áttu á vorþingum að segjast úr þingi, ef menn fóru í þing þess goða, sem var samþingisgoði við þann, sem menn fóru frá, svo og ef menn fóru í þing hjá goða, sem átti þing í hinu sama þingmarki, það er að segja hjá goða, sem hjelt vorþing svo nærri hinum að það var innan þeirra þingmarka, sem sett voru um vorþingisvöll goða þess, er menn fóru frá, og samþingisgoða hans. Einnig var rjett að segja sig úr þingi á alþingi að lögbergi, þá er dómar voru háðir, ef goðinn heyrði það; að öðrum kosti skyldi þingmaðurinn segja honum það sjálfum. Enn fremur gátu menn sagt sig löglega úr þingi með því að segja goðanum það í votta viðurvist, en hinn sama dag áttu menn að segja sig í þing hjá öðrum goða. Jafnvel aðrir menn gátu sagt menn úr þingi, þótt þeir hefðu eigi fengið umboð til þess, því að það varð rjett, ef hlutaðeigandi þingmenn vildu það, en ef þeir vildu það eigi, varðaði það sekt („útlegð“).[1]) Goðarnir gátu einnig frá sinni hálfu sagt þingmönnum sínum á brott úr þingi við sig; þeir áttu að gera það að minsta kosti 14 nóttum fyrir vorþing, og mun svo hafa verið ákveðið til þess að tími væri fyrir þingmanninn að komast í þing hjá öðrum goða fyrir vorþing. Einnig áttu goðarnir rjett til að segja þingmanni á vorþingi úr þingi hjá sjer;[2]) mun þá hafa verið ætlast til að þingmaðurinn gæti verið kominn í þing hjá öðrum goða fyrir alþingi. Lögin sýna með ákvæðum þessum, hvernig menn gátu farið frá einum goða til annars innan sama landsfjórðungs, en það var hugsun laganna að menn skyldu fara úr einu löglegu goðorði í annað löglegt goðorð. En „víkingar fara eigi að lögum“. Víkingar þeir, sem bygðu Ísland, spurðu eigi ávalt að því, hvort þeir gengu í fjelag hjá löglegum goða eða eigi, allra síst er þeim rann í skap og úlfúð reis upp meðal þeirra, eða ef þeir vildu styrkja vin sinn og frænda til þess að taka upp goðorð. Persónuleg

[1]) Grág. I a, 83/140; II, 243/274, 245/277—278. [2]) Grág. I a, 83/141; II, 247/278—279.

geðþekkni rjeð opt mestu. Rjett eins og goðorðin voru eign einstakra manna, eins var það og verk einstakra manna að koma þeim á fót.

Það er einnig eptirtektavert og einkennilegt að enginn skyldi verða til þess, að minsta kosti eigi svo að getið sje, að hindra Hrafnkel Freysgoða frá að taka upp ólöglegt goðorð, þrátt fyrir það þótt þau goðorð, sem lögmæt voru samkvæmt Úlfljótslögum, væru áður þar í þinginu. Eigi er heldur getið um að neinn hafi reynt að banna Arnkatli goða að fara með ólöglegt goðorð eða Snorra Hlíðmannagoða. Þetta sýnir eins og svo margt annað, að menn fóru sínu fram, er menn gátu og enginn var til að hindra það. Stundum reis upp af því úlfúð og fjandskapur, ef einhver varð til að banna það, eða ef það kom svo í bága við hag annara manna, virðingu og tilfinningar, að þeir fengu eigi setið hjá kyrrir. En opt var slíkt látið óátalið, því að enginn vildi leggja neitt eða að minsta kosti eigi svo mikið í sölurnar sem þurfti til þess að lögunum væri hlýtt. Það var líka venjulega hættulegt að skipta sjer af slíku, því að þá mátti búast við að lenda í ófriði við þá, er lögin brutu. Það var því auðsjáanlega hægast, kostnaðarminst og áhættuminst að leiða lagabrotin hjá sjer, er þau snertu menn eigi persónulega og hægt var að komast hjá því að skerast í leikinn, án þess að vansemd væri að því eða „nauðsyn“ drægi menn til þess.

Eptir víg Arnkels goða er ekki sagt hvað orðið hafi af goðorði hans. Vera má að sumir þingmenn hans hafi gengið undir Snorra goða og sumir undir Hvammverja eða aðra goða þar í nágrenninu. En það getur líka verið að einhver duglegur maður og metnaðargjarn hafi risið upp og gerst höfðingi þeirra eða goði eptir Arnkel; enginn veit nú neitt um það með vissu. Hins vegar lætur að líkindum að þeim þingmönnum Arnkels, sem unnu honum mest, hafi eigi verið ljúft að segja sig í þing með Snorra goða, banamanni hans. Eigi er heldur kunnugt hvað varð um goðorð Snorra Hlíðmannagoða eptir hann látinn (líklega um eða rjett eptir 1000). Annars bendir ýmislegt á að fleiri goðorð en þrjú

hafi verið í Vaðlaþingi á þeim tíma, sem hjer ræðir um. Niðjar Helga hins magra virðast hafa átt þrjú goðorð, að minsta kosti stundum. Auk þess var goðorð Svarfdæla, og voru flestir þingmenn þeirra út með Eyjafirðinum að vestanverðu.[1])

Það er þannig auðsætt og orðið ljóst, að landsmenn hjeldu eigi goðorðaskipun þá, sem átti að vera samkvæmt lögum Þórðar gellis, og að fleiri ríki voru á Íslandi en hin löglegu ríki, þótt eigendur þeirra eða höfðingjar ættu eigi setu í lögrjettu og fengju eigi hlutdeild í yfirráðum landsins sem löggoðarnir. Hvílíkum ójöfnuði ráðríkir menn, ofsafengnir og metnaðargjarnir beittu stundum til þess að ná löglegu goðorði undir sig, sjest glögt af gjörðum þeirra Höskulds og bræðra hans gegn föður þeirra og Arnsteini goða og af nokkrum öðrum dæmum. Stundum vildu menn eigi heldur láta laus goðorð aptur, er þau voru fengin þeim til meðferðar.[2]) Þá er menn voru svo metnaðargjarnir og ójafnaðarfullir, var harðla eðlilegt að einstaka menn notuðu sjer það, að afla mátti þingmanna og taka upp ný goðorð, til þess að eignast ríki.

Það er eigi ólíklegt að vaxandi mannfjöldi á söguöldinni[3]) hafi meðal annars stutt eitthvað óbeinlínis að því að ný goðorð voru tekin upp; þó benda heimildarritin eigi neitt á það, enda segja þau eigi heldur að mannfjöldinn hafi vaxið á söguöldinni, þótt það sje auðsætt. En einhver hin helsta ástæða til þess að ný goðorð voru tekin upp í lok 10. aldar hefur kristniboðið og „hinn nýi siður“ verið. Margir menn á Norðurlandi höfnuðu blótum, er þeir Þorvaldur víðförli og Friðrik biskup boðuðu þar kristni, og sumir vildu eigi gjalda hoftolla. Er sagt að heiðingjar hafi

[1]) Ldn. 16/220–222, 15/321–323; Glúm. 1/1, 5/13, 5/15, 9/27, 9/29. 10/30, 19/56, 24/75–76, 26/78, 27/83; Reyk. 20/103—105, 10/41—42, 11/50, 12/55, 13/59—60, 13/65—66, 14/71, 16/83—86, 24/118—122; Ljósv. 2—4/117—125, 5–7/127–138, 10–12/145–154, 13–20/156—195; Nj. 113/581—583: V.-Ljót. 1/159–160, 1/155, 2/163. [2]) Ljósv. 4/123—126, sbr. hjer að framan bls. 218; Nj. 113/583; Þorst. Síð. 215, 219–220; Band. 10–11. [3]) Sjá að framan I, 243.

reiðst biskupi fyrir það og „lagt fjandskap á alla þá, er honum samþyktu".[1]) Þótt þetta sje sögn kristins manns, sem líklega hefur eigi verið alveg óvilhallur í þessu máli, má þó geta nærri að goðunum hefur eigi komið það vel, er menn hættu að gjalda þeim hoftoll. Í annan stað er það einnig kunnugt, að margir menn í fornöld, engu síður en á vorum dögum, vildu fegnir komast hjá skyldugjöldum, og að ýmsir reyndu að komast hjá að greiða skuldir sínar, er þeir sáu sjer það fært. Það má því nærri geta, að ýmsir hafa eptir að kristniboðið hófst færst undan að gjalda hoftolla, en vjer vitum eigi hve mikilli sundurþykkju það hefur valdið milli goðanna annars vegar og þingmanna þeirra hins vegar. Kristniboðið fór hægt af stað í fyrstu, þangað til í lok aldarinnar, en með því kom deiluefni inn í landið, sem skipti að lokum landsmönnum í tvo flokka og snerti sjerstaklega alla goðorðsmenn landsins. Hve mikil áhrif þetta hafði á sambandið og samkomulagið milli goðanna og þingmanna þeirra hefur farið eptir atvikum og lunderni þeirra, sem hlut áttu að máli. En eptir það er kristnum mönnum fjölgaði og þeir tóku að fylgjast vel að máli gegn heiðnum mönnum, segir það sig sjálft, að þeir hafa margir gengið úr þingi hjá heiðnum goðum, er þeir áttu annars kost. Einnig má vera að sumir goðar hafi vísað þeim þingmönnum sínum burtu úr þingi hjá sjer, sem vildu eigi greiða hoftoll; en það má líka gera ráð fyrir að sumir goðar hafi farið hægt í sakirnar, bæði af því að þeir vildu eigi missa þingmenn sína og af því að þeim hefur varla brugðið mjög í brún, þótt einhverjir hoftollar gyldust eigi, því að slíkt mun hafa komið fyrir þá áður. En þrátt fyrir alla varúð og framsýni frá hálfu goðanna er þó mjög líklegt, að einstaka menn kristnir, sem voru framtakssamir og höfðingjaefni eða duglegir og kappsfullir, hafi tekið upp ný goðorð eða safnað kristnum mönnum í flokk með sjer. Það liggur mjög nærri að ætla, að Þorvarður Spakböðvarsson hafi myndað kristinn söfnuð í Skagafirði og að hann hafi

[1]) Krist. 2/6; Þorv. þ. 4/13.

gerst foringi kristinna manna norður þar. Má vera að af því hafi orðið nýtt goðorð, þótt eigi sje þess getið. Þorvarður mun eigi hafa átt neitt goðorð áður en kristniboðið hófst, en hann er þó talinn með höfðingjum í Kristni sögu. Einnig er líklegt að einstaka menn, sem voru metnaðargjarnir og langaði til þess að eignast goðorð, hafi notað sjer ástand það og sundurlyndi, sem kristniboðið vakti, til þess að fá ýmsa menn til að ganga í þing með sjer og koma sjer upp goðorði.

Það er mjög líklegt að Höskuldur Hvítanesgoði hafi tekið upp goðorð sitt í lok 10. aldar eða þá um aldamótin, er hann og ýmsir aðrir í Rangárþingi höfðu tekið kristni. Einnig getur verið að forfeður hans hafi átt goðorð, eins og Konrad Maurer ætlar, en hafi mist það er lög Þórðar gellis komust á.[1]) Þó er eigi hægt að vita það með vissu, en ef svo hefur verið, hefur það að líkindum ýtt undir Höskuld til þess að reyna að eignast goðorð eða að taka upp nýtt goðorð. Höskuldur Þráinsson var í beinan karllegg fjórði maður frá Sighvati rauða, sem er talinn einn af þremur hinum göfgustu landnámsmönnum í Rangárþingi. Mörður gígja, sonarsonur hans, var afabróðir Höskulds og að sögn Landnámu einn af mestu höfðingjum landsins framan af söguöldinni.[2]) Maurer ætlar því að hann hafi verið goðorðsmaður og að hann hafi annaðhvort dáið fyr, en Guðbrandur Vigfússon hefur talið (971), eða að hann hafi eigi náð sæti í lögrjettu, sökum elli og þess, að hann var sonlaus, þá er lög Þórðar gellis gerðu breytingu á henni. Ef niðjar Sighvats rauða hafa mist goðorð við það tækifæri, mun Valgarður Jörundarson að Hofi, sem giptist Unni Marðardóttur, hafa náð í flesta þingmenn tengdaföður síns; hafa þá þeir ættmenn tekið snemma að elta grátt silfur um þingmenn í Rangárþingi.[3])

Melamannagoðorð í Miðfirði og Laufæsingagoðorð í Eyjafirði, sem Njála segir að hafi verið upp tekin á alþingi, þá

---

[1]) Maurer, Isl. bls. 64. [2]) Ldn. 15/320—321; Hksb. 354—355/124—125; Stb. 397—398/230. [3]) Sbr. Nj. 107/556—558.

er fimtardómur var í lög leiddur, hafa líklega einnig verið sett á stofn um aldamótin 1000.[1]) Að minsta kosti má telja víst, að allmörg ólögleg goðorð hafi verið til um það leyti sem Skapti Þóroddsson tók lögsögu, eða áður en fimtardómurinn var settur, því að fornlögin sýna, að ný goðorð hafa þá fengið rjett til þess að nefna tólf menn í hann,[2]) og að eigi hefur verið hægt að taka þau upp á alþingi, heldur hefur alþingi að eins getað veitt hinum nýju goðorðum, sem þá voru til, þetta vald og löglega viðurkenningu.

Í þeim þingum, þar sem einhver goðanna tók sjálfur snemma kristni, var eigi meiri ástæða fyrir kristna menn en aðra að mynda nýtt goðorð. Í Skaptafellsþingi og Árnesþingi t. a m. gátu kristnir menn sagt sig í þing hjá Síðu-Halli og Gissuri hvíta, ef þeir vildu. Líklegt er einnig að það hafi haft áhrif á ýmsa þingmenn, er goðar þeirra snerust til kristni og að þeir hafi fylgt dæmum þeirra. En í annan stað virðist eigi vera ástæða til þess að ætla, að þeir Síðu-Hallur og Gissur hvíti hafi orðið að láta af hendi goðorð sín, þótt þeir tækju kristni. Ef þeir fóru að með lagi og lempni, munu þeir hafa getað sjeð um og gegnt goðastörfum sínum fyrir því, eigi síður en Hákon Aðalsteinsfóstri konungsstörfum. Þótt Íslendingar gætu manna mest hangið í lagaákvæðum, er svo bar undir, sýna þó mörg verk þeirra, að þeir báru eigi mjög djúpa virðingu fyrir lögunum, og þeir breyttu eigi heldur svo rökrjett samkvæmt þeim nje anda kristinnar trúar, að goðarnir yrðu þess vegna að láta af hendi goðorð sín, þótt þeir væru skírðir. Hins vegar er það auðsætt, að þeir hafa eigi viljað selja af hendi veldi sitt góðfúslega, þá er þeim hlaut að vera stuðningur að því og þeir höfðu sjerstaklega gagn af því, er þeir töluðu máli kristninnar. Einnig er líklegt að þess hefði verið einhvers staðar getið, ef goðarnir hefðu mist goðorð sín af þeirri sök. Það virðist því alls eigi vera ástæða til

[1]) Nj. 97/505—506. Melamannagoðorð er nefnt á miðri 11. öld. Band. 7, 8, 10—11. [2]) Grág. I a, 77. Sbr. Maurer, Isl., bls. 66; B. M. Ólsen, Kristnitakan, bls. 44.

þess að ætla, að kristnir menn hafi staðið „alveg fyrir utan lands lög og rjett“.[1]) Það stóðu þeir fyrst, þá er þeir höfðu sagt sig úr lögum við heiðna menn á alþingi árið 1000, en það ástand stóð eigi lengi. En það er annað mál, að kristniboðið og siðaskiptin hafi haft nokkur, að líkindum eigi lítil áhrif á goðorðaskipun landsins.

Á þingaskipuninni urðu einnig afbrigði, þótt þau væru eigi eins mörg og á goðorðunum, af því að þingin voru miklu færri. Það varð lítið úr fjórðungsþingunum eins og fyr er sagt, þótt þau muni hafa verið lögboðin. Einnig er þess getið að menn tækju sig út úr þingi og settu sjerstakt þing, eða stofnuðu frá upphafi nýtt þing. Synir Þorgeirs Ljósvetningagoða fóru af vorþingi í Þingeyjarþingi og áttu þing í Fjósatungu í Fnjóskadal, af því að þeir komu eigi fram málum sínum á vorþingi. Þeir höfðu þá náð undir sig einu goðorði.[2]) Líklega hefur optar verið haldið þing að Fjósatungu eða þar í grend í Fnjóskadalnum. Búðatóttir benda á það. Er eigi ólíklegt að Laufæsingar hafi sótt þangað þing.[3])

Lögin leyfðu að breyta um þingstaði.[4]) Það er því stundum erfitt eða alveg ómögulegt að vita með vissu, hvort átt er við hin löglegu vorþing eða eigi, þá er getið er í sögunum um þing eða þingstaði. Þannig verður eigi sagt með vissu um þingin, sem háð voru í Dýrafirði, á Valseyri og Þingeyri, hvort þau voru hin lögboðnu vorþing goðanna í Þorskafjarðarþingi eða aukaþing og einungis „þing þeirra Dýrfirðinga“, eins og Valseyrarþing er nefnt í hinu lengra aðalhandriti af Gísla sögu Súrssonar.[5]) Líkt er þessu og farið með „þingstöð þeirra Borgfirðinga“ „upp undir Valfelli“, þar sem Borgfirðingar háðu þing fyrir og eptir 980.[6]) en langlíklegast er þó, að hið löglega vorþing þeirra hafi þá verið háð þar.

---

[1]) Sbr. Kristnitakan bls. 55. [2]) Ljósv. 4/126 sbr. 123 nm. og Ísl. (1830) II, 4–10. [3]) Sbr. Kalund, Isl. II, 146–148; Ljósv. 10–11/145–149; Nj. 97/506; sbr. Maurer, Isl. 102. [4]) Sjá að framan bls. 73. [5]) Gísl. II. 92, sbr. I, 9–10; Gísl.[2] 5–6/11–12; Hksb. 120/48, sbr. þó Stb. 149/173. [6]) Gunnl. 2/193; Eg. 81/301–306 sbr. 83/310.

Í Rangárþingi er getið um að þing hafi verið háð á Hvítanesi og setti það Höskuldur Hvítanesgoði, er hann hafði tekið upp nýtt goðorð, en þing hinna fornu löggoða var að Þingskálum.[1]) Eins mun hafa verið gert í Miðfirðinum, þá er þar var tekið upp nýtt goðorð, Melamannagoðorð (líklega um 1000); þar er getið um leiðarþing á miðri 11. öld.[2]) Aptur á móti má telja víst að blandað sje málum, þar sem talað er um Vallalaugarþing í Ljósvetninga sögu. Lýsingin af siglingu Skegg-Brodda Bjarnasonar, er hann kom á þingið, sýnir að átt er við vorþingisstaðinn hjá Garði í Hegranesi. Sagan sjálf er ógreinileg og úr lagi færð á þessum stað.[3]) Þeir Þorvarður munu hafa átt náttstað hjá Vallalaugu, svo að þeir kæmu „til þingstaðar fyrri“ en mótstöðumenn þeirra. En það mun hafa valdið því, að menn hafa blandað saman þingstaðnum og Vallalaugu.[4])

Hvort Lambanesþing í Austfirðingafjórðungi hefur verið aukaþing eða venjulegt vorþing er eigi hægt að segja með fullri vissu[5]) Það er ekkert nánar af því sagt, en Krakalækjarþing er beinlínis kallað vorþing.[6]) Austfirðingar hafa stundum skipt um þingstaði, eins og fyr er sagt.

Sams konar afbrigði og eigi minni áttu sjer stað um leiðarþingin. Þau átti að heyja á sama stað sem vorþingin. Þó er þess getið, að Eyfirðingaleið, Reykdælaleið og Ljósvetningaleið hafi eitt sinn í lok 10. aldar verið haldnar

---

[1]) Nj. 107/556, sbr. 97/506—507. Enginn veit nú hvar Hvítanes hefur verið; Árbók 1892, bls. 46, 1900 bls. 1—3, 1902 bls 15. Þing hefur varla verið háð lengi á Hvítanesi. [2]) Nj. 97/505—506; Band. 8—9, 10—11; Band[2] 3—4 [3]) Ljósv. 26/227. [4]) Afritari handritsins AM. 162 C í arkarbroti mun hafa ætlað að vorþing Skagfirðinga í fornöld hafi verið háð við Vallalaug, af því að á hans dögum (á 15. öld) var það orðin venja að halda þar fundi og þing. AM. 162 C í arkarbr. er elsta handritið, sem til er af þeim kafla Ljósvetninga sögu, sem hjer ræðir um. Frá því eru pappírshandrit þau komin, sem til eru af sögunni; hefur Vallalaugarþing verið sett í fyrirsögn 26 kapítula í sumum þeirra. Ljósv. 25—27/224—234; Sturl. II, 293/221, 294/225. Sbr. Kalund, Isl II, 66—68. [5]) Á Freysnesi við Lagarfljót eru nokkrar búða- eða húsa-tóttir, og getur verið að Lambanesþing hafi verið háð þar. Árbók 1896, bls. 26—27. [6]) Dropl.[2] 13/166, 4/149.

saman.[1]) Eyfirðingar áttu leið á Vöðlaþingi, en Reykdælir og Ljósvetningar voru í Þingeyjarþingi og áttu því báðir að eiga þar leið saman. En svo virðist sem Reykdælir hafi um tíma haldið leið fyrir sig og mun Leiðarhóll í Helgastaðalandi í Reykjadal vera til menja um það, en annars er Reykdælaleið að eins nefnd í þetta eina skipti.[2]) Ljósvetningaleið er aptur á móti nefnd optar[3]) og hefur hún venjulega verið haldin á Leiðarnesi í Hálslandi norðvestur frá bænum austan til við Fnjóská,[4]) þá er hún hefur verið háð ein fyrir sig. En annars má gjöra ráð fyrir að goðarnir í Þingeyjarþingi hafi um lengri og skemri tíma háð leiðarþing í sameiningu á vorþingisstaðnum þar í þinginu; en það hefur farið eptir atvikum, hve lengi þeir hafa verið saman í hvert sinn.

Í Vestur-Skaptafellssýslu er bær í Meðallandi, er Leiðvöllur heitir. Þar rjett hjá, við Kúðafljót, er forn þingstaður með mörgum búðatóttum; bendir nafnið á að þar hafi verið haldin leiðarþing;[5]) en þingstaður Skaptfellinga var í fornöld að Skaptafelli. Vera má að tvær leiðir hafi verið háðar þar í þinginu.

Við Laxá í Leirársveit hjá Grunnafirði, sem nú heitir Leirárvogar, er nefndur Leiðvöllur nokkur, sem bændur hjeldu fund á; þar var eigi vorþingisstaður Borgfirðinga, en nafnið bendir á að leiðarþing hafi einhvern tíma verið háð þar.[6]) Í Þórsnesþingi er og nefndur Leiðhólmur í Miðdölum um 960[7]) og virðist nafnið benda á að Dalamenn hafi um hríð háð þar leið, til þess að spara sjer ferð á Þórsnesþing. Auk þessa er til fáeinir fornir þingstaðir, sem annaðhvort hafa verið vorþingisstaðir um hríð, eða aukaþingstaðir, því að búðarústirnir á þeim eru eins fornar útlits eins og á vorþingisstöðum þeim, sem getið er um

[1]) Ljósv. 2/118. [2]) Sbr. Árbók 1901, bls. 13—14. [3]) Reyk. 12/51, 20/104; Ljósv. 2/118; Nj. 119/618. [4]) Sbr. Kålund, Isl. II, 141—143, 148; Árbók 1901 bls. 14—15. [5]) Kålund, Isl. II, 322—323; Brynjólfur Jónsson í Árbók 1904, bls. 16—19. [6]) Harð. 31/92, sbr. Kålund, Isl. I, 296, sbr. II, 412; Árbók 1886 bls. 44, 1908 bls. 15—16. [7]) Korm. 9/18, sbr. Sturl. I, 26/72, 133/359; Kålund, Isl. I, 463—464.

á söguöldinni; svo eru búðatóttirnar við Þingholt, fyrir vestan Flagbjarnarholt á Landi, skamt fyrir austan Þjórsá og kippkorn frá Árnesi og Búðafossi.[1]) Aptur á móti er enn óvíst hvort rústirnar í Laugartorfu skamt frá Helludal, næsta bæ við Haukadal í Biskupstungum, eru eptir fornan þingstað eða einhverjar aðrar húsabyggingar.[2]) Að vísu er nefnd „lögrjetta í Haukadal“ árið 1178,[3]) en ekkert er nánara af henni sagt. Þessi orð benda á að lögrjetta hafi verið haldin það ár í Haukadal en eigi á alþingi; en þau skýra lítið rústirnar í Laugartorfu, á meðan þær eru eigi rannsakaðar ítarlega.

---

## Fimtardómur settur. Hólmgöngur afteknar.

Ari hinn fróði getur þess að Skapti Þóroddsson „setti fimtardómslög“, en segir eigi meira af því. Frá stofnun fimtardómsins og ástæðunni til þess er einungis sagt í Njáls sögu; segir þar að bónorðsmál hafi valdið stofnun hans.

Njáll bað Hildigunnar Starkaðardóttur, bróðurdóttur Flosa Þórðarsonar, handa Höskuldi Þráinssyni fóstursyni sínum. Hildigunnur var stórlát og vildi eigi giptast Höskuldi, nema hann fengi mannaforráð. Njáll fjekk þau þá til að bíða sín um þetta mál þrjá vetur. Njáll reyndi síðan að fá goðorð handa Höskuldi, en enginn vildi selja. Um sumarið voru deilur miklar á alþingi, og leitaði þá margur ráða hjá Njáli. En hann lagði það til mála manna, að eyddust sóknir og varnir, og varð af því þræta mikil, er málin máttu eigi ljúkast. Á næsta alþingi ætluðu menn eigi að lýsa sökum

---

[1]) Kålund, Isl. I, 205—206; Árbók 1892 bls. 60—61, 1896 bls. 31, 1898 bls. 9 með mynd. [2]) Sbr. D. Bruun, Arkæologiske Undersøgelser paa Island. Kbhvn. 1899 (Fylgirit við Árbók það ár) bls. 36—37; Árbók 1894, bls. 8, 1905 bls. 51, 1908 bls. 38. Rústir þessar þyrfti að grafa upp og rannsaka nákvæmlega, Þær eru mjög óglöggar. [3]) Bps. I, 8/419; Ann. I, III; Flat. III, 518.

sínum, heldur heimta með oddi og eggju. Njáll kvað það eigi mega vera. Segir síðan að hann hafi talað um þetta í lögrjettu og lagt til að fimtardómur væri settur og ný goðorð tekin upp; hann á einnig að hafa sagt hvaða mál skyldu koma í fimtardóm og hvernig hann skyldi skipa. Enn fremur á hann að hafa borið upp tillögur um lögrjettu.

Síðan segir í Njálu að Skapti Þóroddsson hafi leitt í lög fimtardóm og það, er upp var talið. Eptir það hafi menn gengið til lögbergs og tekið upp ný goðorð; eru nafngreind Melamannagoðorð og Laufæsingagoðorð í Norðlendingafjórðungi og nýtt goðorð á Hvítanesi, sem Njáll „fjekk lof af öllum“ að taka upp handa Höskuldi fóstursyni sínum.

Eptir þetta var ekkert til fyrirstöðu af hendi Hildigunnar og giptust þau Höskuldur um haustið.[1])

Þessi frásögn Njálu er meira eða minna ólíkleg og ótrúleg, enda hafa vísindamenn á síðari árum tekið eptir því, og ritað töluvert um þennan kapítula og áreiðanleik Njálu yfirleitt, einkanlega að því leyti sem rjettarfarið snertir.[2]) Þótt skoðanir þeirra sjeu töluvert skiptar, er það þó augljóst, að eigi tjáir að taka frásögn Njálu um stofnun fimtardómsins og um breytingu á lögrjettu góða og gilda. Það er ólíklegt að jafnvandaður maður sem Njáll hafi komið á öllu ólaginu og síðan borið upp mikilvæg nýmæli einungis af eigingirni og ytri hvötum; einnig var það óvíst, hvort hann á þann hátt mundi fá nokkuð goðorð handa

---

[1]) Nj. 97/494–507; Nj.[2] 97/218—224. [2]) Maurer, Entstehung 179—196, 204—210, Upphaf 163—176, 185—190; Island 57—67. O. Brenner, Über die Kristni saga. München 1878 bls. 61—62. Karl Lehmann og Schnorr v. Carolsfeld, Die Njálssage, insbesondere in ihren juristischen Bestandtheilen. Berlin 1883. V. Finsen, Fristat. Institut. bls. 98—116. Finnur Jónsson, Litteraturhist. II, 224—233, 525—547, Om Njála i Aarb. f. n Oldkh. 1904 bls. 89—199 og í „Einleitung“ fyrir útgáfu af Njálu. Halle a. S. 1908. Karl Lehmann, Jurisprudensen i Njála i Tidsskrift for Retsvidenskab (udg. af Stangske stiftelse) 1905 bls. 183—199. Björn M. Ólsen, Um kristnitökuna bls. 43—56, Andvari 1901 bls. 152—158, Tímarit Bókmfjel. 1894 bls. 23—26, Tidsskrift for Retsvidenskab 1906, bls. 245—248. Hjer er eigi rúm til þess að tala nákvæmlega um einstök atriði, og að því er skoðanamun manna snertir, verður að vísa til þeirra rita, sem hjer eru nefnd.

Höskuldi, og lá beinna fyrir að láta hann taka það upp. Eigi er það heldur líklegt að löggoðarnir hafi viljað ganga að því að viðurkenna með lögum tólf ný goðorð, ef eigi hefði búið annað bak við en að útvega Höskuldi goðorð. Þá er það og algjörlega á móti eðli goðorðanna að þau hafi verið tekin upp á alþingi, eins og þegar er sagt. Sumstaðar er frásagan bersýnilega röng[1]) og söguritari sá, sem sett hefur Njálu í þann búning, sem hún hefur nú, hefur lagt Njáli ýms orð í munn, sem eigi eiga við og hann hefur aldrei sagt, t. a. m. „vér höfðingjar", „kemr það til vár, er lögin kunnum ok þeim skulum stýra". Einnig var hægt að nefna 48 menn í fimtardóminn, án þess að mynda nokkur ný goðorð, því að ekkert lá beinna við en að löggoðarnir allir og hinir níu fornþingismenn,[2]) allir hinir eiginlegu lögrjettumenn, nefndu sinn manninn hver í fimtardóminn, ef eigi hefði verið annað til fyrirstöðu. Tólf menn hefðu þá verið nefndir úr hverjum fjórðungi í fimtardóm, eins og gert var af hinum gömlu og nýju goðum. Hins vegar sjest það af Grágás að ný goðorð hafa fengið löglega viðurkenningu, þá er fimtardómurinn var settur, með því að þau áttu að nefna tólf menn í hann.[3]) Fyrir því eru öll líkindi til þess að goðorðin hafi þá verið til og að einhver innri ástæða hafi valdið því að fimtardómurinn var settur. Það vill svo vel til að hægt er að sjá af fornlögum landsins, hvað það muni hafa verið.

Á dómsköpum þeim, sem þá voru lög á Íslandi, var sá ókostur að stundum var ómögulegt að fá mál löglega dæmd. Á því stóð svo, að allir dómendurnir urðu að verða samdóma til þess að málum yrði löglega lokið í dómi. Þessi lagaákvæði munu hafa komið til Íslands frá Noregi og verið

---

[1]) Sbr. Finsen, Frist. Institut. bls. 111—112, aths. 2; B. M. Ólsen, Andvari 1901 bls. 153. [2]) Þessir menn eru hvergi nefndir neinu eiginnafni, svo jeg muni, heldur er sagt um þá í Grág. I a, 211, að hinir 9 goðar úr hverjum af hinum þremur fjórðungum landsins skyldu „allir hafa með sér mann einn úr þingi hverju inu forna" svo að 12 menn eignist lögrjettu setu úr fjórðungi hverjum. Af þessum orðum hef jeg gefið þeim nafnið fornþingismenn. [3]) Grág. I a, 43/77.

í Úlfljótslögum, því að þar voru þau forn lög.[1]) Ef allir dómendurnir gátu eigi orðið á eitt sáttir um það, hvernig þeir skyldu dæma eitthvert mál, var eigi hægt að fá það leitt til lykta, ef það var fyrir fjórðungsdómi, því að þaðan mátti eigi stefna því til neins dóms. En til þess að herða að dómendunum og fá þá til að íhuga dóma sína sem best, skyldu þeir ganga til vefangs[2]) og vefengja málið, það er að segja, kveða upp tvo andstæða dóma í málinu. Þetta var auðsjáanlega gert til þess að reyna að koma í veg fyrir að dómendurnir kæmu sjer eigi saman um dóminn. Þá er mál var vefengt, skiptu dómendurnir sjer fyrst í tvo flokka, svo að þeir sátu allir saman, sem voru samdóma, og var það kallað að „vera saman at vefangi.“ Flokkarnir áttu að sitja svo nærri hvor öðrum, að þeir mættu talast við. Sá dómflokkur eða þeir dómendur, sem fylgdu sækjanda, áttu þá að bjóða hinum til hlutfalls, að þeir hluti um, hvorir þeirra skuli fyrri mæla „vefangsmálum“, þ. e. lýsa yfir því, er vefangið snerti. Sá flokkur, sem hlaut, átti fyr að mæla. Hvorir um sig sögðu nú í votta viðurvist, hvern dóm þeir vildu dæma, og buðu hinum að ganga að honum og báðu þá um að verða sammála; einnig unnu þeir nú hinn svo nefnda vefangseið að því, að þeir mundu vefengja, þ. e. dæma það, sem þeir hugðu lög vera. Þeir áttu einnig að skýra frá, við hverjar ástæður þeir styddu dóma sína. Síðan kváðu þeir hvorirtveggju upp dóm þann, er þeir vilja dæmt hafa; urðu þá tveir andstæðir dómar um málið;[3]) var þá komið í óefni, er þetta gerðist í fjórðungsdómi. Það var því mikil þörf að ráða bót á þessu.

Þá er miklar deilur voru með mönnum, eins og einatt átti sjer stað um þessar mundir, gátu þau mál orðið mörg, sem dómendurnir urðu eigi ásáttir um. Það er því harðla

---

[1]) Frostaþingslög X, 30 í N. g. L. I, 224, sbr. Maurer, Entstehung 187, Upphaf 169; Finsen, Frist. Instit. 115. [2]) Vefang er samsett af neitunarorðinu „ve“ og „fang“ og þýðir árangursleysa. [3]) Grág. I a, 75—76.

eðlilegt að mörg mál hafi orðið vefangsmál, eða eyðst og eigi mátt ljúkast eins og segir í Njálu, þótt það hafi eigi gerst á einu þingi, eins og hún segir. Opt hefur því horft til vandræða með mönnum. Njáll Þorgeirsson var djúpvitur maður og einhver hinn ágætasti lagamaður á Íslandi á sinni tíð. Hann hafði í byrjun 11. aldar fengið mikla lífsreynslu og er því eigi óliklegt að hann hafi lagt það til að fimtardómurinn væri settur til þess að ráða bót á þessu, eða að hann hafi á einhvern þvílíkan hátt verið við stofnun hans riðinn.

Í fimtardóminn skyldu koma þær sakir, er nú skal greina: 1. ljúgkviðir, sem bornir eru á alþingi, ljúgvætti, eða það, ef maður leggur rangt undir þegnskap sinn. 2. mál þau er vefang verður í á alþingi. 3. fjeboð, fjetökur eða ef menn mæla sjer fje á alþingi, það er með öðrum orðum ef dómendurnir ljetu múta sjer. Öll þessi mál eru talin bæði í Grágás og Njálu, en auk þess er talin þingsafglöpun í Njálu, þá er hún verður á alþingi, að líkindum svo mikil að mál mætti eigi ljúkast við fjórðungsdóm.[1]) Þingsafglöpun er eigi nefnd í Grágás, en þar eru talin enn nokkur önnur mál, sem voru síðar lögð undir fimtardóminn, en eiga ekki skylt við setningu hans.[2])

Þótt vefangsmálin sjeu eigi talin fyrst, hvorki í Grágás nje í Njálu, hafa þau þó verið aðalástæðan til þess að fimtardómurinn var settur; að því leyti felst sögulegur sannleiki í frásögn Njálu, þar sem sagt er að Njáll hafi lagt til við setningu fimtardómsins að þar væru sótt þau mál, er eigi mættu ljúkast í fjórðungsdómi. Í Grágás er einnig boðið að sækja fyrst í fimtardómi sakir um vefang; þær áttu að ganga fyrir öðrum málum, ef þær voru eigi fleiri en fjórar, og sýnir það að þær hafa þótt helstar sakir fyrir fimtardómi.[3]) Í vefangsmálum var fimtardómurinn yfirdómur

---

[1]) Sbr. Finsen, Frist. Instit. bls. 105, aths. og bls 113; Maurer, Entstehung 190—192, Upphaf 171—173. Á annari skoðun er Lehmann, Die Njálssage bls. 133—134. [2]) Grág. I a, 44 77—78; Nj. 97 501—503. [3]) Grág. I a, 46/79.

og jafnframt æðsti dómur; gátu sum þeirra gengið alla leið til hans frá vorþingisdómi. Þá er vefang varð í fjórðungsdómi átti sakarsækjandi og sakarverjandi að ganga til lögbergs og nefna sjer votta og lýsa sök á hendur dómendunum um það að þeir hafi dæmt ólög. Þeir áttu að stefna dómum þeirra til rofs í fimtardómi og láta varða þriggja marka sekt (útlegð); sá hluti dómenda, sem bar lægra hlut fyrir fimtardómi, átti að greiða sektina.[1]) Í vorþingisdómum mátti einnig vefengja mál og var þá farið eins að því sem í fjórðungsdómi. Frá vorþingisdómi átti að stefna vefönguum til rofs til þess fjórðungsdóms, sem var fyrir þann fjórðung, er hlutaðeigandi þing var i. Ef málið laukst þar eigi og vefang varð, mátti skjóta því frá fjórðungsdómi til fimtardóms og ljúka því þar.[2])

Í hinum málunum, sem lögð voru undir fimtardóminn, var eigi nærri svo mikil þörf á sjerstökum dómi sem í vefangsmálum, enda munu flest þeirra hafa verið lögð undir hann, af því að þau hafa þótt þar best komin, úr því að nýr og fjölmennur dómur var stofnaður. Að einu leyti fylti þó fimtardómurinn autt skarð að því er mál þessi snerti. Það var þá er dómur hafði verið dæmdur í fjórðungsdómi og á eptir varð upp víst, að ljúgkviður eða ljúgvitni hafði verið borið fyrir dóminum, eða einhverjum dómenda mútað; virðist þá eigi hafa verið hægt að fá slíkan dóm dæmdan ómerkan, fyr en fimtardómurinn var settur.[3]) Aptur á móti mátti stefna slíkum dómi frá vorþingi til fjórðungsdóms.[4]) Annars var fimtardómurinn eigi yfirdómur í þessum málum, heldur æðsti og lægsti eða eini dómurinn, sem dæmdi um þau. Hann var æðsti dómur í öllum þeim málum, sem hann dæmdi, því að frá honum mátti engu máli skjóta. Fimtardómurinn var einnig sameiginlegur dómur fyrir alt landið.

Í fimtardóminum áttu 48 dómendur sæti og skyldi nefna i hann mann fyrir goðorð hvert hið forna, níu menn úr

---

[1]) Grág. I a, 42/77. [2]) Grág. I a, 58/101. [3]) Finsen, Fristat. Instit. 114—115. [4]) Grág. I a, 101.

fjórðungi hverjum. En „goðar þeir, er hin nýju goðorð hafa“, skyldu nefna eina tylftina í dóminn og urðu þá fernar tylftir í honum, tólf menn úr hverjum fjórðungi með þeim.[1]) Af þessari samsetningu ætlar B. M. Ólsen, að fimtardómurinn hafi fengið nafn sitt. Það er sett saman af fimt, sem þýðir fimm einingar, eins og t. a. m. tylft þýðir tólf einingar, og hinu alkunna orði dómur.[2]) Með því að hver fjórðungur var heild eða deild fyrir sig, ætlar hann að nýju goðorðin hafi verið skoðuð sem fimta deildin og dómendur hverrar deildar sem eining. Áður en hann kom fram með þessa þýðingu, var fimtardómur venjulega þýtt sem hinn fimti dómur og ætla margir enn að það sje rjett. Sú þýðing er miðuð við það, að fimtardómurinn var hinn fimti dómur, er settur var á alþingi, og einnig er kveðið svo að orði um hann í heimildarritunum.[3])

Til þess að fimtardómurinn yrði sem óhlutdrægastur, áttu málsaðilar að taka hvor sex menn úr dómi og einungis þrennar tylftir áttu að dæma.[4]) Var því hægt fyrir sækjanda og verjanda að nefna þá menn úr dómi, er þeir báru minst traust til. Enn fremur var ákveðið að allir eiðar í dómi þessum skyldu vera hinir styrkustu. Eiðstafurinn var dýrri en venja var annars og tveir menn áttu að vinna eið hvern með hvorum málsaðila, til þess að sanna að sókn þeirra og vörn væri að lögum og eiðar þeirra rjettir. Þessir menn eru nefndir sannaðarmenn eða sönnunarmenn;[5]) var þetta gert til þess að koma í veg fyrir brögð og lögkróka, mútur og meinsæri af hendi málsaðila.

Í fimtardómi rjeð afl atkvæða úrslitum og fyrir því máttu málin ljúkast þar.[6])

Í Njálu segir, að Njáll hafi einnig borið upp tillögur um skipun lögrjettu. Þær voru 1. að þeir, sem sitja á miðpöllunum í lögrjettu, skyldu ráða fyrir lögum og lofum; 2.

---

[1]) Grág. I a, 43/77. [2]) Björn M. Ólsen í Germanistische Abhandlungen zum LXX Geburtstag Konrad von Maurer, bls. 131—133. [3]) Grág. I a, 43/77 „Vér skulum eiga dóm inn fimta“; Nj. 97/501 „hinn fimti dómr“. [4]) Grág. I a, 47/82. [5]) Grág. I a, 45/78, 46/79—80, 47/80—82; Nj. 97/503, 144/797—798. [6]) Grág. I a, 47/83.

að til þess skyldi velja þá, er vitrastir eru og best að sjer; 3. að atkvæðafjöldi skyldi ráða, hvað lögrjettumenn vildu lofa eða leiða í lög; og 4. að sá, sem væri fyrir utan lögrjettu og næði eigi inn að ganga eða þættist borinn vera máli, skyldi verja lýriti[1]) svo að heyrði í lögrjettu; hefði hann þá ónýtt fyrir þeim öll lof og alt það, er þeir mæltu til lögskila í það sinn.

Grein þessi er í öllum hinum merkustu handritum af Njálu, nema einu,[2]) sem er þó eigi eldra en frá fyrsta fjórðungi 15. aldar. Konrad Maurer hefur í hinum fyrri ritum sínum tekið allmikið tillit til hennar og ætlað að hún benti á djúpsettar ráðagerðir hjá Njáli um að breyta stjórnarskipun landsins í þá átt að draga úr goðavaldinu, en það hafi mistekist.[3]) En er Vilhjálmur Finsen hafði bent á að annað, þriðja og fjórða ákvæðið að nokkru leyti væri rangt,[4]) fjellst Maurer á það að eigi bæri að taka mikið tillit til greinarinnar.[5]) Það er einnig auðsætt að grein þessi er öll meira eða minna röng að því er lögrjettuna snertir. Rjett til þess að ráða lögum og lofum munu goðarnir hafa fengið, er þeir fengu sæti í lögrjettu; að öðrum kosti gátu þeir orðið þar í minni hluta, ef umráðamenn þeirra hefðu haft atkvæði.[6]) Goðarnir áttu sæti á miðpöllum lögrjettu og voru engir menn valdir til þess að sitja þar.[7]) Einnig er líklegt að afl atkvæða hafi ráðið, þá er nýmæli voru í lög leidd;[8]) en lof varð að veita með samþykki allra.[9]) Þá er það eigi líklegt, að einn lögrjettumaður hafi getað hindrað samþykt laga með því að leggja bann við. Því hefði mátt misbeita mjög, ef það hefði verið lög. Er þarna líklega blandað málum við ákvæði laganna um sýknulof.[10]) Vil-

---

[1]) Lýritr er samdregið fyrir lýðréttr = landsrjettur, sbr. S. Bugge, Runeindskriften paa Ringen i Forsa Kirke bls. 54 o. ef. Verja lýðrjetti er að banna, setja forboð fyrir eitthvað. [2]) Gml. kgl. Saml. nr. 2868, 4to, í Kgl. bókasafninu í Kmhöfn. [3]) Entstehung 208—210; Upphaf 188—190; Island 63—64. [4]) De isl. Love (1873) bls. 57—58 mn. [5]) Die Rechtsrichtung des älteren isl. Rechtes (1887) bls. 133—134. [6]) Um umráðamennina, sbr. að framan bls. 38. [7]) Grág. I a, 211. [8]) Sbr. Finsen, Fristat. Instit. bls. 7—8. [9]) Grág. I a, 95—96, 212—213. [10]) Sbr. V. Finsen, Fristat. Instit. 106—111.

hjálmur Finsen ætlar líka að grein þessi sje seinni viðbót, sem eigi megi byggja neitt á, og Finnur Jónsson telur eflaust að hún sje innskotsgrein; báðir en þó einkum hinn síðarnefndi styðja þeir skoðun sína við það, að hana vantar í eitt handritið, sem er sumstaðar frábrugðið hinum handritunum.[1] Þetta getur verið rjett, því að frumritið af Njálu er eigi til, svo að eigi er hægt að segja um það með vissu. Grein þessi stendur í elstu handritunum og virðist helst hafa verið skrásett, þá er Njála var færð í þann búning, sem hún hefur nú. En í raun rjettri er þetta þýðingarminna en ýmsum kann að virðast í fyrstu, því að sá maður, sem hefur endursamið Njálu eða sett hana í hið núverandi form hennar, hefur sett sjer það mark að semja snjalla sögu með snildarlegum mannlýsingum og ítarlegum þingsögum eða lýsingum af málaferlum. En aptur á móti hefur hann farið einræðislega eða ónákvæmlega með efnið, og hugsað minna um að leita hins sögulega sannleika, eða hann hefur vantað tæki til þess. Hann hefur að líkindum stuðst við fornlög landsins og jafnvel við norsk-íslenska lagabók, er hann setti söguna saman, og eigi farið rjett með þau lög eða lagaákvæði, sem hann tók úr þeim og setti í söguna.[2]

Þessi grein í Njálu er því líklega sprottin af misskilningi á nokkrum ákvæðum í fornlögunum. En þó má vera að til grundvallar fyrir frásögn þessari hafi verið einhverjar óglöggar endurminningar eða sagnir um tilraun eða baráttu nokkurra goða, sem höfðu enga lagalega viðurkenningu, til þess að ná sæti í lögrjettu.

Eins og áður er sýnt, hafa ýms ný goðorð verið komin á fót, sem enga lagalega hlutdeild áttu í löggjöf og stjórn landsins, þá er fimtardómurinn var stofnaður. Sumir af eigendum þessara goðorða munu hafa fengið marga menn í

---

[1]) F. Jónsson, Litteraturhist. II, 535, 545; Nj.[2] 97 222—223 (þar er greininni slept úr sjálfum textanum). K. Gíslason og E. Jónsson, Nj. 97 505 nm., ætla að þessi grein hafi verið öðru vísi í upphafi og þar hafi verið sagt hvar fimtardóm skyldi halda, eins og segir í greininni.
[2]) Sbr. Maurer, Isl. bls. 59; Karl Lehmann, Die Njálssage, bls. 11 o. ef., 137; Tidsskr. for Retsvidenskab 1905, bls 191, 194—198.

lið með sjer eða til þess að gerast þingmenn sínir. Þeim, sem tókst að eignast eins marga þingmenn eins og löggoðarnir áttu venjulega, urðu í raun rjettri jafngildir þeim að styrk eða mannafla og hjeraðsríki. Slíkum mönnum hefur eðlilega sviðið að eiga enga hlutdeild í löggjöf landsins og allandsvaldi. Þótt ekkert sje af því sagt í heimildarritunum, verður þó að draga þá ályktun út af ákvæðum Grágásar um fimtardómsnefnuna, að þeir hafi reynt að fá dómnefnu og jafnframt sæti í lögrjettu eða jafnrjetti við löggoðana annaðhvort að fullu eða að nokkru leyti. Þetta urðu hinir nýju goðar að reyna að fá með lögum hjá lögrjettu. Fáum mönnum stóð það nær en Njáli, að veita þeim lið, þar sem fóstursonur hans átti hlut að máli. Það er því líklegt að hann hafi lagt eitthvað til þessara mála, og einhverjar sagnir hafi verið um það, þá er Njála var rituð í fyrstu; en þær hafa menn eigi skilið rjett nje kunnað að greiða úr þeim. Að eins vitum vjer það, að hinir nýju goðar fengu löglega viðurkenningu ásamt rjetti til þess að nefna fjórða hlutann af dómendum í fimtardóminn. En það er ólíklegt að þeir hafi eigi reynt að fá meiri völd; eins er það einnig mjög ólíklegt, að þeir hefðu fengið viðurkenningu og dómnefnu í fimtardóm, án þess að bera sig eptir henni eða rjettara sagt eptir þeim rjettindum sem goðar landsins höfðu. Og það má telja alveg víst, að hinir nýju goðar hefðu eigi fengið neinn dómnefnurjett, ef þeir hefðu eigi verið til, þá er fimtardómurinn var settur.

Það er mikill skaði að fornrit vor segja ekkert af þessum þýðingarmiklu atburðum; en svona er það opt. Þau þegja alveg um sumt, sem er þýðingarmest og merkast í sögu vorri eða drepa að eins á það. En af því, sem þegar er sagt, er það orðið augljóst, að gallar hafa verið á dómsköpum landsmanna og að ýmsir menn höfðu tekið upp ný goðorð og reynt að fá nokkur goðarjettindi Til þess að ráða bót á dómsköpunum og þeim vandræðum, sem hlutust af því, að allir dómendur í fjórðungsdómunum áttu að vera samdóma til þess að þeir gætu kveðið upp löglegan dóm, var fimtardómurinn settur; en til þess að friða hina nýju

goða, var þeim veitt lögleg viðurkenning og rjettur til dómnefnu í fimtardóm. Í málaleitun þeirri og samningum, deilu eða baráttu, sem hefur staðið um þetta, hafa löggoðarnir sigrað. Þeir hjeldu löggjafar- og allands-valdi sínu óskertu, en þó veikti það ríki þeirra og virðingu, að ný goðorð voru viðurkend.

Hinir nýju goðar áttu að nefna tólf menn í fimtardóm og munu því hafa verið tólf. Þeir fengu jafnmikinn rjett til fimtardómsnefnu sem goðar þeir, er fóru með forn goðorð og full, þau er óskerð voru að dómnefnu; en þeir fengu eigi heldur rjett til annara valda á alþingi. Það er eigi heldur líklegt að þeir hafi fengið að lögum sama rjett utan alþingis sem hinir fornu goðar. Þeir munu hafa staðið fyrir utan þrettán þinga skipun landsins, en það mun hafa farið mest eptir persónulegum dug þeirra, fylgi og kappi, hve miklu þeir rjeðu í hjeraði og hvort þeir í raun rjettri urðu þar jafnríkir og hver hinna fornu goða var venjulega.

Með stofnun fimtardómsins komst stjórnarskipun landsins í það horf, sem hún hafði síðan að því er hið veraldlega vald snerti, þangað til hún tók að færast úr lagi. En upp frá þessu voru tvenns konar lögmæt goðorð, önnur, sem samkvæmt hinum eldri lögum landsins áttu sæti í lögrjettu og dómnefnu í alla hina almennu dóma og nú fengu dómnefnu í fimtardóm með lögum þeirra Skapta (og Njáls?) um hann, hin, sem fengu fyrst löglegt gildi með fimtardómslögunum og dómnefnu í þann dóm. Á goðorðum þessum varð að gera greinarmun í lögum landsins. Hin fyrnefndu goðorð eru því nefnd þar „forn goðorð og full“ eða „goðorð full og forn“,[1]) af því að þau voru forn og höfðu full rjettindi. Hin síðarnefndu eru aptur á móti kölluð „hin nýju goðorð“ [2]) og um annan rjett þeim til handa á alþingi gat eigi verið að ræða en fimtardómsnefnu.

Hin nýju goðorð, fimtardómsgoðorðin, munu hafa verið tólf; alls hafa þá verið 51 goðorð á landinu. Það er auðsætt að um það leyti sem þessi tólf goðorð hafa verið sett

---

[1]) Grág. I a, 38, 77, 211. [2]) Grág. I a, 77.

á stofn eða tekin upp, hefur orðið töluverð breyting á goðorðunum. Margir þingmenn hafa hlotið að ganga úr goðorðum eða þingum „við“ hina fornu goða og í þing „við“ nýja goða. Löggoðarnir, sem áttu hin fornu goðorð og fullu, hafa mist svo marga þingmenn við þá breytingu, að mönnum hefur fundist sem goðorð þeirra og þing slitnuðu í sundur. Það er því mjög eðlilegt að sagt er í Grágás um tímann áður en þetta gerðist, að „þá voru þing óslitin“.[1]) Það virðist því varla geta leikið efi á því, að takmörkin á milli hinna fornu goðorða og hinna nýju, og einnig á milli óslitinna þinga og slitinna eru við setningu fimtardómsins.[2]) Aptur á móti virðist eigi vera gild ástæða til þess að segja, að þingin hafi slitnað í sundur við lög Þórðar gellis, þá er talað er um landið í heild sinni, þótt eitt þing, sem áður var komið á fót, hafi þá fengið löglega viðurkenningu, allra síst ef það hefur verið á útjaðri landsins, eins og Þingeyjarþing. „Forn goðorð og full“ eiga því eigi að eins við hin löglegu goðorð, sem til voru fyrir 963, heldur einnig við þau þrjú goðorð, sem löggild urðu með lögum Þórðar gellis, eða öll hin löglegu goðorð fyrir setning fimtardómsins.

Hvaða ár fimtardómslögin voru sett, vita menn eigi með vissu. Þau voru eigi sett fyr en sumarið 1004, þá er Skapti Þóroddsson sagði fyrst upp lög, því að hann „setti“ þau;[3]) en þau geta verið sett fáeinum árum síðar. Þó er líklegast að þau hafi verið sett á fyrstu lögsögumannsárum Skapta Þóroddssonar, en tæplega fyr en árið 1005, þá er hann var kosinn lögsögumaður. Þó hefur vanalega verið talið svo sem þau hafi verið sett 1004, en það sumar hafði Skapti lögsögu fyrir Grím móðurbróður sinn. Menn hafa tiltekið þetta ár eptir álitum, eins og optast verður að gera, þá er ársetja skal atburði frá söguöldinni. Guðbrandur

---

[1]) Grág. I a, 38, II, 382/402. [2]) Sbr. Guðbrandur Vigfússon, Icel.-Engl Dict. bls. 208 orðið goði; Maurer, Isl. 66, 99—103; Björn M. Ólsen, Tímarit Bókmfjel. 1894 bls. 131—132, Andvari 1901 bls. 144—152. Sbr. einnig V. Finsen, Fristat. Instit. einkum bls. 71—79. Hann ætlar að goðorðin væru forn og full og þingin óslitin einungis þangað til að lög Þórðar gellis voru sett. [3]) Íslb. 8/13; Nj. 97/505.

Vigfússon[1]) hefur reynt að styðja það með því „að telja árin eptir Njálu“ frá því að fimtardómur var settur og fram að Njálsbrennu, en á því er meðal annars sá hængur, að í Njálu er eigi sagt frá því, er gerðist árlega á þessum tíma; það er því eigi mikið að marka. Líklegast er að fimtardómurinn hafi verið settur árið 1005 eða jafnvel 1006. Að minsta kosti er eðlilegra að telja setningu hans árið 1005 en 1004, úr því að setja verður „um“ fyrir framan ártalið.

Fimtardómurinn var mikilvæg endurbót á dómaskipun landsins. Frá lagalegu sjónarmiði var honum mjög vel fyrir komið,[2]) en í stjórnarfarslegu tilliti var það mjög óheppilegt að viðurkenna þing, sem í raun rjettri stóðu fyrir utan hina gömlu vorþinga- eða samþinga-skipun landsins. Ef til vill hafa sumir hinna nýju goða háð þing með hinum fornu goðum, en bæði Njála og fleiri sögur benda á, að sumir þeirra settu sjerstök þing. Hagur hinna nýju goða og þinga var eigi hinn sami og hinna fornu. Slíkt hlaut að veikja samúð eða vekja sundrung milli höfðingja landsins. Hin nýju þing hlutu að veikja hina fornu vorþingaskipun, og smátt og smátt styðja að eyðileggingu hennar.

Það var freistandi eða lá nærri fyrir einstaka goða, sem urðu ósáttir við samþingisgoða sína, að nota sjer það, er það var orðið lög, að einstakir goðar voru löglegir höfðingjar, þótt þeir stæðu fyrir utan vorþingaskipunina. Það virðist eigi heldur hafa liðið á löngu, áður en einstaka goðar hafi gert það. Rjett eptir að fimtardómur var settur, er þess getið, að Þorsteinn Þorgilsson úr Hafsfjarðarey tæki Rauðmelingagoðorð úr Þórsnesþingi, af því að hann varð þar aflvani fyrir Snorrungum (um 1009). Hann tók þá með frændum sínum upp þing í Straumfirði og hjelt það lengi síðan.[3]) Hvort Rauðmelingagoðorð var eitt af hinum löglegu goðorðum í Þórsnesþingi vita menn eigi með vissu. Sumir ætla að það hafi verið nýtt goðorð,[4]) en líklegt er

---

[1]) Safn I, 435. [2]) Sbr. Maurer, Isl. 67. [3]) Eyrb. 56 105, sbr. Kålund, Isl. I, 407—408; Árbók 1893, bls. 66—67, 1897, bls. 12—13. [4]) Björn M. Ólsen, Kristnitakan bls. 47

að snemma hafi risið upp goðorð sunnan á Snæfellsnesinu innanverðu. Framan af söguöldinni var Þormóður goði á Rauðkollsstöðum. Hann mun hafa átt goðorð. Það er ókunnugt hvað orðið hefur af því; er eigi ólíklegt að Rauðmelingar hafi náð í það á síðari hluta 10. aldar. Straumfirðingar, sem bygðu þar sem Þorsteinn Þorgilsson kaus þingi sínu stað, voru komnir frá Þormóði goða.[1]) Er líklegt að mægðir og frændsemi hafi verið á milli þeirra og Þorsteins, því að í Eyrbyggju segir að „þeir frændr“ tækju þá upp þing í Straumfirði.

Um sama leyti sem fimtardómurinn var settur eða rjett á eptir, voru hólmgöngur afteknar með lögum. Sagan segir að hólmganga þeirra Gunnlaugs ormstungu og Hrafns Önundarsonar á alþingi hafi valdið því. Þeir börðust í Öxarárhólma og voru skildir af feðrum sínum, en Gunnlaugur var mjög æfur og ljet á sjer skilja að þeir mundu berjast síðar. Til þess að hindra það, var daginn eptir lögtekið í lögrjettu, að af skyldi taka hólmgöngur; segir sagan að það væri gjört að ráði allra vitrustu manna, er við voru staddir (líklega 1006).[2])

Konrad Maurer hefur ætlað að afnám hólmgangnanna hafi staðið í sambandi við setningu fimtardómsins, og að þær hafi verið notaðar til þess að skera úr málum manna, þá er engin málalok fengust með dómi.[3]) Vilhjálmur Finsen hefur leitt mikilvæg rök gegn þessari skoðun og virðist hann hafa rjett fyrir sjer, er hann ætlar að hún sje eigi rjett.[4])

Í mörgum fornum þýskum lögum eru hólmgöngur heimilaðar til þess að ljúka deilum, þá er erfitt var að fá þeim lokið, einkanlega þá er skýrar sannanir vantaði, eða ónýta átti sannanir eða ranga eiða. En hólmgangan var þá háð með leyfi dómstólsins eða eptir fyrirskipun hans, og samkvæmt ákveðnum lögum undir umsjón dómendanna. Með hólmgöngunni var þá málinu algjörlega lokið og ekkert

[1]) Ldn. 6/79—80. [2]) Gunnl. 11/258—259, sbr. V.-Ljót. 3/173 og Ljósv. 30/245. [3]) Maurer, Entstehung 195—204; Upphaf 176—185; Isl. 60—61. [4]) Finsen, Fristat. Instit. 116—131.

meira við það að gera frá hálfu dómendanna, nema ef nokkur ágreiningur gat orðið um það, hvor hefði sigrað. Þá dæmdu þeir um það. Hólmgöngur voru því einn liður í dómsköpum þýskra þjóðflokka, eins og nokkurs konar þrautaráð eða varadómur, sem gripið var til, þá er ekki var kostur annara úrræða. En þótt svo hafi verið hjá þýskum þjóðflokkum, er hæpið að leiða af því þá ályktun, að eins hafi verið gert á Íslandi.

Á Íslandi var öðru máli að gegna. Þar var kviður aðalsönnunargagn manna, og svo virðist sem hann hafi komist á með Úlfljótslögum[1]) Þar var því eigi þörf á hólmgöngum til sannana, enda virðast þær eigi hafa verið heimilaðar í fornlögunum, þótt þær flyttust til landsins með landnámsmönnum. Elstu sagnir benda á að hólmgöngur hafi tíðkast á Norðurlöndum, áður en sannar sögur hefjast þar. Þær voru hnefarjettur,[2]) sem opt var beitt, er menn áttu í deilum, eða þá er einhver sá hag sinn í því að beita ofríki og skora annan mann á hólm. Þetta kom stundum fyrir þegar á landnámsöldinni, áður en nokkur landslög voru sett. Maður setti manni tvo kosti, annaðhvort að berjast við sig eða að láta laust við sig það, sem hinn girntist. Svo gerði Hallkell, er hann skoraði á Grím landnámsmann til landa eða hólmgöngu,[3]) Þórólfur bægifótur, er hann tók lönd Úlfars kappa,[4]) og Guðlaugur hinn auðgi, er hann skoraði á Þorfinn á Rauðamel til landa.[5]) Allir þessir menn kusu heldur að berjast, en að láta lönd sín að óreyndu. Þeir tveir, sem fyrst eru nefndir, ljetu bæði lífið og lönd sín, en þeir Þorfinnur fjellu báðir af sárum, en voru græddir. Aptur á móti voru aðrir, sem vildu heldur láta lönd sín en hætta lífi sínu í hólmgöngu, eflaust vegna þess að þeir treystu sjer eigi fyllilega til þess að vinna sigur á mótstöðumönnum sínum. Með því að vilja eigi ganga á hólm, viðurkendu þeir að mótstöðumaðurinn væri sterkari. Fyrir það ljetu þeir af hendi lönd sín, sem þeir gátu eigi varið.[6])

---

1) Ldn. 7/258; Hksb. 268/96. 2) Sjá að framan I, 280 o. ef. 3) Ldn. 12/315; Nj. 47/203. 4) Ldn. 13/100; Eyrb. 8/9. 5) Ldn. 6/80. 6) Ldn. 12/269, 13/317, sbr. 7/192; sbr. að framan I, 194, 218, 159.

Sú rjettarskoðun gilti þá á Islandi, að sigurvegarinn hefði fengið löglegan rjett á því, sem hann tæki af þeim manni, er hann hafði yfirunnið. Er slíkt algild venja á meðan þjóðfjelög eru á lágu menningarstigi.[1])

Flestar þessar hólmgöngur gerðust áður en landslög voru sett; er því augljóst að þær gátu eigi verið rjettarstofnun, einn liður í dómaskipun landsins.[2]) Þær voru eigi annað en gamall víkingasiður, ofríkisháttur, hnefarjettur, sem landnámsmenn beittu, eins og þeir höfðu vanist við. Þá er landslög voru sett, voru hólmgöngur auðsjáanlega eigi bannaðar, og landsmenn hjeldu eðlilega áfram gömlum vana og gengu á hólm, þá er svo bar undir að einhverjum manni þótti það nauðsyn eða snjallræði að skora á mótstöðumann sinn til hólmgöngu. Í sögunum er nokkrum sinnum minst á hólmgöngur svo sem þær hafi verið löglegar,[3]) og hefur það gefið nokkra ástæðu til þess að ætla, að þær hafi verið rjettarstofnun. Sögustaðir þessir sýna þó eigi annað, en að það var forn venja að skora menn á hólm og að það var eigi bannað.[4]) Þó þótti það jafnvel vera hið sama sem að beita ofríki og „þola eigi lög“.[5]) Fæstar þær hólmgöngur, sem getið er um í sögunum, standa í neinu sambandi við dóma eða dómsgjörðir. Þær eru því eigi grein úr dómskapalöggjöfinni. Þó má geta þess, að það kemur fyrir í Njálu, að annar málsaðili skorar mótstöðumann sinn á hólm, af því að honum sjálfum hafði yfirsjest í málsókninni, og í annað sinn gerði sami maður það til að hjálpa málsaðila, er eins stóð á fyrir.[6]) Hann vildi því bjarga málunum við á þennan hátt, er hann sá að þau mundu ónýtast, ef þeim væri haldið áfram að lögum. En maður sá, sem þetta gerði,

---

[1]) Sbr. Brandt, Norsk Retshistorie II, 271. [2]) Hólmgöngur eru eigi nefndar á nafn í Grágás, sbr. Finsen, Fristat. Instit. 116, aths. 5. [3]) Gunnl. 7/225, 11/255; Ljósv. 16/176; Fló. 16/135. [4]) Sbr. Ldn. 11/268, 10/307—308; Nj. 8/36, 24/96, 60/274; Korm. 9/18, 10/20—21, 12/26—28, 14/30, 21/44—45, 22/47, 23/49; Vatn. 33—34/53—56, 46/76, 47/78; Hallfr. 4/90, 10/100; Glúm. 14/43; Ljósv. 30/245—246; Reyk. 1/7—8, 19/99—101; Gunnl. 11/262, 12/267—269; Fló. 15/134, 17/137, 31/157. [5]) Nj. 56/256. [6]) Nj. 24/96, 60/274.

var Gunnar á Hlíðarenda. Hann vissi að hann mátti treysta vígfimi sinni, og gerði því enda á málsókninni með því að bjóða að berjast. En aðferð hans var í raun rjettri ekkert annað en ofríki, sem hjelst uppi sökum þess að slíkt var samkvæmt tíðarandanum og gamalli venju. Á líkan hátt hindraði Hrútur Herjólfsson eitt sinn á alþingi Mörð gígju frá því að láta mál ganga til dóms, er hann hafði lýst því að lögbergi á hendur honum.[1]) Mörður gígja kaus heldur að láta hlut sinn en að ganga á hólm, en málið fjekk engin fullnaðarúrslit fyrir þessu, því að það mátti taka það upp síðar að lögum. Hólmgangan var því eigi dómsígildi.

Allar frásagnir í sögunum um hólmgöngur sýna það, að hver, sem vildi og var því vaxinn, gat hve nær sem hann vildi og hvernig sem á stóð skorað mann á hólm og sett honum með því sjálfur kosti, sem hinn varð að ganga að, ef hann vildi eigi berjast, nema því að eins að einhver annar maður yrði til þess að ganga á hólm fyrir hann, og leysa hann þannig undan hólmgöngunni. Þetta mátti gera alveg eins fyrir því, þótt menn ættu í máli; fyrir því mátti stöðva málið með hólmgöngu, að sínu leyti eins og þá er menn vörðu þingvöllinn eða hleyptu upp dómum eða stöðvuðu mál manna á annan hátt með ofríki.

En þótt hólmgöngurnar á Íslandi væru eigi rjettarstofnun og færu eigi fram eptir fyrirskipan dómendanna, nje undir umsjón þeirra, bendir þó ýmislegt í sögunum á, að þær hafi verið háðar eptir ákveðnum lögum, sem nefnd voru hólmgöngulög.[2])

Í Noregi var líkt háttað með hólmgöngurnar sem á Íslandi. Þær voru úrslit mála án dóms og laga, eignartökuaðferð, sem ójafnaðarmenn beittu, þá er þeir vildu kúga eitthvað af mönnum; en þær mátti einnig nota í málaferlum.[3]) Þær voru þó eigi rjettarstofnun, enda var enginn

---

[1]) Nj. 8/36. [2]) Eg. 64/238, 65/242; Korm. 10/20, 14/30; Gísl. 2/6; Glúm. 4/12; V.-Ljót. 3/173. [3]) Korm. 1/3—4; Gísl. 1/2—3, 2/5—7; Glúm. 4/10—12, 6/17; Dropl.[2] 15/174; Ldn. 11/269; Eg. 56/191, 64/234—240, 65/242—244; Grett. 40/151.

dómur settur í stað þeirra, þá er þær voru afnumdar (um 1012);[1]) þó áttu allir dómendur í hverjum dómi að verða á eitt sáttir, til þess að hægt væri að kveða upp löglegan dóm; og var það eins og í vorþingisdómum og fjórðungsdómum á Íslandi.

[1]) Grett. 19/68. Sbr. Hertzberg, Den norske Proces 269—270; Amira, Altnorwegische Vollstreckungsverfahren 291—300; Finsen, Fristat. Instit. 128—130.

## VII. Frá síðari hluta sögualdarinnar.

### Höfðingjatal á miðri söguöldinni. Lögsögumennirnir.

Í Kristni sögu er sagt frá því, hverjir voru stærstir höfðingjar á Íslandi, þá er þeir Þorvaldur víðförli og Friðrik biskup komu til landsins. Þá var fyrri helmingur sögualdarinnar liðinn og síðari helmingur hennar nýbyrjaður, ef henni er skipt eptir áratali í tvö jafnlöng tímabil. En slíkt er eigi hægt að gjöra, þá er segja skal frá hinum helstu almennu tíðindum, sem gerðust á söguöldinni og hinum merkustu mönnum, er þá voru uppi og sögur fara af. Almenn tíðindi á söguöldinni mega þeir atburðir heita, sem sögurnar skýra langmest frá, en það er ófriður milli einstaklinganna, eða deilur og bardagar, áverkar og víg milli Íslendinga sjálfra. Á þeim varð engin sjerstök breyting á miðri söguöldinni. Ófriður var þá ávalt einhvers staðar uppi meðal einhverra landsmanna. En þótt sögurnar segi margt af þess konar ófriði, segja þær þó auðvitað eigi af öllu því, sem þá gerðist. Það hafa eflaust verið töluð mörg fáryrði, staðið margar illdeilur, veittir margir áverkar og unnin mörg víg, sem engar sögur fara af; en þrátt fyrir þetta logaði þó aldrei landið alt í einu í ófriði, enda verður eigi hjá því komist að sinna öðru en vopnaburði og illdeilum.

Ef menn renna huganum yfir það, sem enn er kunnugt um söguöldina, er auðsætt, að í sumum hjeruðum landsins var hlje á ófriði milli einstaklinganna, þá er alt var í upp-

námi í sumum öðrum bygðum þess. Fyrir því hefur orðið að hætta sögunni í sveitum landsins á mismunandi tíma, og fara eptir því, hve nær ófriði þeim linnti eða málum þeim lauk, er frá er skýrt, og þeir menn fjellu frá eða hurfu úr sögunni, sem í ófriði áttu. Í sumum hjeruðum hefur því sögunni hjer að framan verið haldið fram til 990 eða lengur og í sumum alls eigi svo langt, áður en skýrt var frá hinum þýðingarmiklu atburðum, landafundunum, kristnitökunni og setningu fimtardómsins. Frá þeim verður að segja hverjum fyrir sig, þótt þeir gerist á síðari hluta sögualdarinnar, því að eigi er hægt að skipa þeim á bekk með hversdaglegum tíðindum. Þeir eru annars eðlis en þeir atburðir. sem nú verður sagt frá; flestir þeirra snerta einungis einstaka menn og einstakar ættir, en allir til samans mynda þeir meginþátt í sögu Íslendinga á þeim tíma, sem hjer ræðir um, og sýna hve rjettarfar manna og hugsunarháttur var gagnólíkt því, sem það er á vorum dögum.

Höfðingjatalið 981 sýnir það glögt, að fara verður eptir atvikum en eigi eptir neinu ákveðnu ári, þá er skýrt er frá almennum atburðum á söguöldinni og skipting er gerð á milli fyrri og síðari hluta hennar. Á Suðurlandi eru þeir Þorkell máni, Þóroddur goði, Gissur hinn hvíti, Ásgrímur Elliðagrímsson, Hjalti Skeggjason, Valgarður að Hofi, Runólfur Úlfsson og synir Örnólfs í Skógum taldir mestir höfðingjar; á Vesturlandi þeir Illugi hinn rauði, Þorsteinn Egilsson, Snorri goði, Víga-Styrr, Ólafur pái, Gestur hinn spaki, Ari Másson, Eyjólfur hinn grái og Ásgeir Knattarson; á Norðurlandi þeir Þorkell krafla, Starri Eiríksson og bræður hans í Goðdölum, Arnór kerlingarnef, Þorvarður Spakböðvarsson, Víga-Glúmur og Eyjólfur Valgerðarson, og á Austurlandi eru þeir Geitir Lýtingsson, Víga-Bjarni, Helgi Ásbjarnarson, Síðu-Hallur og synir Þórðar Freysgoða taldir mestir höfðingjar.[1])

Margir af mönnum þessum hafa verið nefndir áður og

---

[1]) Bps I, 1/4, sbr. Finn Jónsson, Hksb. bls LXVI.

af sumum þeirra hefur verið sagt til æfiloka. Þeir voru á mjög misjöfnum aldri, þótt allir væru þeir á lífi 981. Sumir þeirra voru þá komnir á fallanda fót, svo sem Þorkell máni og Eyjólfur Valgerðarson, en aðrir höfðu þá eigi náð tvítugs aldri, svo sem Snorri goði og Hjalti Skeggjason. Af sumum þeirra fara miklar sögur, en af öðrum engar. Sumir þeirra eru riðnir við mál annara manna og ýmsa atburði, og koma því við nokkrar sögur. Flestir þeirra eru synir eða niðjar þeirra manna, sem taldir eru mestir höfðingjar eptir landnámsöld, en einn þeirra, Eyjólfur Valgerðarson, er nefndur í báðum höfðingjatölunum.

Eptirtektavert er það að enginn höfðingi er nefndur fyrir norðan Vaðlaheiði í höfðingjatalinu 981, þar sem eigi eru færri en 28 höfðingjar taldir úr öllum öðrum þingum landsins. Þetta var þó að eins fjórum árum áður en lögsögumaður var tekinn norðan úr Þingeyjarþingi, eins og fyr er sagt.

Þorgeir Ljósvetningagoði hafði lögsögu að eins eitt ár, eptir að kristni var í lög leidd. Hann mun þá hafa fallið frá eða gerst svo hrumur af elli, að hann gat eigi sótt alþingi lengur. Eptir hann tók Grímur Svertingsson lögsögu (1002). Hann var sonarsonur Hrolleifs landnámsmanns í Kvíguvogum og bjó að Mosfelli í Mosfellssveit. Hann er kallaður auðugur og ættstór í Egils sögu, en við aðrar sögur kemur hann eigi. Grímur var þá orðinn gamall maður, því að þá var liðinn hálfur fjórði tugur ára eða meira síðan hann kvongaðist Þórdísi Þórólfsdóttur.[1]) Grímur var skírður, þá er kristni var í lög tekin. Hann ljet síðan gera kirkju að Mosfelli,[2]) en annars er lítið um hann kunnugt. Hann virðist hafa verið friðsamur og gætinn, ef marka má söguna af Egli Skallagrímssyni, er hann vildi sá silfrinu í fjölmenni að lögbergi.[3])

Síðustu ár Gríms virðist Önundur mágur hans hafa búið með honum að Mosfelli, en eigi er getið um annan

---

[1]) Ldn. 13/317; Eg. 77/282. [2]) Eg. 86/320, sbr. Safn II. 255 o. ef.
[3]) Sbr. Eg. 85/318—319.

þónda í Gunnlaugs sögu að Mosfelli en Önund. Eptir fráfall Gríms mun hann hafa tekið alla jörðina og búið þar síðan. Önundur var goðorðsmaður að sögn Gunnlaugs sögu, og hefur hann líklega tekið ríki eptir Grím mág sinn, því að hann mun hafa átt goðorð, þótt þess sje eigi getið.[1])

Grímur var að eins lögsögumaður í tvö sumur (1002—1003). Þá fjekk hann lof til þess að Skapti Þóroddsson systurson hans hefði lögsögu, af því að hann var hásmæltur sjálfur.[2])

Skapti var sonur Þórodds goða Eyvindarsonar á Hjalla í Ölfusi og Rannveigar Gnúpsdóttur, sammæðra systur Gríms lögsögumanns. Þóroddur lifði fram yfir kristnitöku,[3]) en Skapti bjó á Hjalla eptir föður sinn.[4]) Þóroddur var merkur höfðingi, og er eigi ólíklegt að goðorð hans hafi vaxið, þá er Grímkell goði Bjarnarson að Ölfusvatni fjell frá (um 970), því að goðorð hans gekk úr ætt.[5]) Þóroddur er og sagður lögmaður mikill og mun sonur hans hafa numið lög bæði af honum og á alþingi.[6]) Með leyfi lögrjettu sagði Skapti upp lög fyrir Grím móðurbróður sinn sumarið 1004, en síðan var hann valinn lögsögumaður. Þarf varla að efa að lögsaga hans hefur þegar þótt takast vel, því að hann varð brátt mikils metinn fyrir lögsögumannsstörf sín og hann hjelt þeim til dauðadags, í 27 ár, lengur en nokkur annar maður.

Um yngri ár Skapta er ekkert kunnugt, nema að Njála bendir á að hann hafi þá farið utan, eins og títt var um unga menn, og vegið víg eitt í Noregi.[7]) Hann kemur fyrst til sögunnar um það leyti sem hann varð lögsögumaður; er líklegt að hann hafi þá verið búinn að taka við goðorði föður síns.

Skapti var mikill vitsmunamaður og einhver hinn merk-

---

[1]) Gunnl. 5/207, 10/244—245, 13/273; Hallfr. 11/113. [2]) Íslb. 8/13; Ldn. 8/298; Safn II, 15—16. [3]) Sbr. Safn I, 422—423. [4]) Gunnl. 5/208; Grett. 53/195, 54/198. [5]) Hvernig Þóroddur fjekk goðorð í fyrstu er ókunnugt, en ýmsum getum hefur verið um það leitt, sbr. Gísli Brynjólfsson, Goðorð, Ný Fjelagsrit XIII, 47—60; Safn I, 309, 311. [6]) Hkr. I, 33/318; Krist. 1/4; Nj. 56/252—253. [7]) Nj. 119/609, 139/747.

asti lögsögumaður, sem verið hefur. Lagaþekkingu hans er við brugðið í sögunum, og er hann sökum hennar stundum nefndur Lög-Skapti.[1]) En svo er að sjá sem hann hafi eigi verið neinn sjerlegur hreystimaður. Hann kemur við nokkrar sögur. Í Njálu er honum borin sagan heldur illa, af því að hann vildi eigi veita Njálssonum lið nje sakaraðilum eptir Njálsbrennu.[2]) Þó kannast sagan fyllilega við hina miklu lagaþekkingu hans, og telur hann mestan lögmann á Íslandi eptir Njál. Einnig kannast hún við að hann hafi verið höfðingi mikill.[3]) Í Grettis sögu er Skapta borin vel sagan, enda var hann Gretti góðviljaður.[4]) En merkast er það, sem Ari greinir af Skapta. Hann segir, að á hans dögum hafi margir höfðingjar og ríkismenn orðið sekir eða landflótta of víg eða barsmíðir af ríkis sökum hans og landstjórn.[5]) Þetta bendir á að Skapti hafi verið bæði stjórnsamur og atkvæðamikill, en annars er lítið um landstjórn hans kunnugt. Þótt margir heldri menn yrðu sekir eða yrðu að fara utan í lögsögumannstíð hans, er þó hæpið að þeir hafi verið fleiri en stundum áður. Hins vegar virðist sem slíkum ójafnaðarmönnum hafi heldur fækkað á síðustu árum Skapta, og mun mega þakka það bæði landstjórn hans og áhrifum kristninnar. Sumar þær sagnir, sem til eru af Skapta, benda á að hann hafi verið gætinn og viljað stilla til friðar, en ófús á að gefa sig í ófrið að óþörfu. Hann sætti þá Valla-Ljót og Guðmund hinn ríka.[6]) Hann hefur eflaust gert um ýms önnur mál, þótt fátt af því sje kunnugt. Lög þau, sem hann setti um lýsingu víga og sögðu, að vegandinn skyldi sjálfur lýsa vígi á hendur sjer, til þess að það væri eigi morð, hafa að líkindum átt að miða að því að draga úr vígaferlunum, jafnframt því sem þau áttu að vernda menn gegn rangri sakargift. Með lögum þessum var veganda bannað að lýsa vígi á hendur öðrum manni.

---

[1]) Krist. 12/28; Grett. 32/121; Ldn. 11/309; Ann. III. 1003. [2]) Nj. 119/607—609, 139/746—748. [3]) Nj. 142/781. 785. 56/252—253. [4]) Grett. 27/105, 32/121—122. 46/165. 51/183—185. 53/198—199. [5]) Íslb. 8 13. [6]) V.-Ljót. 4/175, 6—7/188—190.

Af Heimskringlu má sjá að Ólafur konungur Haraldsson hefur talið Skapta einn hinn helsta höfðingja Íslands á sinni tíð.

Skapti andaðist haustið 1030.[1])

---

## Skógarmenn, útilegumenn og ránsmenn. Hólmverjar.

Ófriður sá, sem Íslendingar háðu innbyrðis á söguöldinni, reis optast af því, að einstaklingarnir áttu sjálfir að halda uppi rjetti sínum. En stundum var þó ófriðurinn atvinna einstakra manna, er þeir leituðu sjer bjargar með ránum. Slíkt bar miklu sjaldnar við, en að menn gripu til vopna til þess að reka rjettar síns; þó kom það töluvert opt fyrir, þá er þrengdi að mönnum og menn urðu að vinna það sjer til lífs eða þá er ójafnaðarmenn áttu hlut að máli.[2]) Einhver helsta ástæðan til þess að menn gerðu ófrið sjer að atvinnu var hegningaraðferð sú, sem beitt var gegn afbrotamönnum.

Þyngsta hegningin var skóggangur. Hver sá, sem varð sekur skógarmaður, varð rækur úr mannlegu fjelagi. Allir áttu að rísa upp á móti skógarmanninum. Hann átti hvergi fritt. Hann var rjettdræpur hverjum manni. Hann var óæll, því enginn mátti fæða hann nje klæða. Hann var óferjandi, því enginn mátti flytja hann til annara landa.

---

[1]) Íslb. 8/13, sbr. Grett. 76/268; Ann. I, III, IV. Um Skapta og ætt hans sjá enn fremur Ldn. 5/251 (= Hksb. 250/93), 13/274, 8/298, 13/318; Mb., Ísl. I, 337; Eg. 77/282; Gunnl. 9/238—241, 11/255—256; Hkr. II, 58/83, 60/87, 85/159, 126/276, 129/281, 138/311; Fló. 30/155—156, 33/159, 35/160—161, sbr. 33/183, 34/184. Sbr. Gunnlaugs sögu ormstungu, Havniæ 1775; bls. 56—63, 315; Safn II, 16—17. [2]) Eyrb. 57/106—107, 58/108, 59/109—110, 60/110; Fóst. 1/3, 4—5/15—16, 7/23—24; Grett. 25/99—100; Vatn. 41/65; Reyk. 1/4, 11/46, 14/67—71; Vápn.[2] 2/25; Þorst. Síð. 218—219; Hæns. 6/140—142; Bjarn. 7/18; sbr. Eg. 57/206—208; Gunnl. 7/225; Glúm. 11/33; Lax. 19/54—57; Dropl.[2] 1/142; Krist. 6/9.

Honum voru óráðandi öll bjargráð, því enginn mátti gefa honum ráð, er honum gæti orðið að björg. Ef hann komst af landi brott, átti hann eigi útkvæmt, og var rjettdræpur erlendis hverjum Íslendingi. Skóggangur var æfilangur og áttu skógarmenn varla vægðar von að lögum. Þó máttu þeir vega aðra skógarmenn til sýknu sjer, ef þeir höfðu eigi orðið sekir um þjófnað, eða vígsakir, eða þær sakir, sem eigi mátti sættast á nema með leyfi lögrjettu. Ef þeir vágu þrjá skógarmenn, urðu þeir sýknir, en fjörbaugsmenn, ef þeir drápu tvo, og ferjandi, ef þeir vágu einn. Aðrir menn máttu einnig vega skógarmenn til sýknu skógarmanni. Menn fengu kaup fyrir að vega skógarmenn, því að fje var lagt til höfuðs hverjum skógarmanni, þrjár merkur, ef hann hafði orðið sekur fyrir miklar sakir, en annars ein mörk.[1]) Stundum virðist að því er sögurnar segja hafa verið vikið töluvert frá lagaákvæðunum um skóggang, og gefið fje til þess að þeir menn, sem sekir urðu, skyldu vera ferjandi af landi brott, eða þeim var leyft að fara, þótt þeir ættu eigi útkvæmt.[2])

Þessi hegningaraðferð hafði eigi lítil áhrif á frið og örygð manna á meðal. Það varð stundum eigi hættulaust fyrir skógarmönnum, eins og sjest best af því lagaákvæði, sem leyfði þeim að vega skógarmenn til sýknu sjer.[3]) Ef enginn vildi hætta sjer og brjóta lögin til þess að hjálpa skógarmönnum, áttu þeir venjulega eigi annars kostar en að leggjast út. Að eins einstaka menn, sem treystu hreysti sinni og vildu eigi láta hlut sinn fyrir óvinum sínum, sátu kyrrir heima og fóru ferða sinna, eins og ekkert hefði i skorist; en þeim hjelst slikt mjög sjaldan lengi uppi, áður en þeir væru af lífi teknir.[4])

---

[1] Grág. III, 672—673. [2]) Lax. 51/196; Ljósv. 27/234, 1/116, 14/169, 259; Reyk. 13/60; Hæns. 15/177—178; Glúm. 23 71; V.-Ljót. 5—6/185, 7/191; Oddr. 53/326; Fms. II, 208/172; Dropl.[2] 14/172—173; Nj. 145/822—823, 149/848 -850, 153 873. [3]) Sbr. að framan bls. 208. [4]) Nj. 75/352—355; Dropl.[2] 8/155—156. Mjög sjaldgæft mun hafa verið, að svo færi milli sakaraðila og skógarmanns hans sem milli Bjarna Brodd-Helgasonar og Þorsteins stangarhöggs, að fullar sættir kæmust á. Þorst. st. 78—84.

Ýmsir menn, sem sáu það sjálfir að sakir þeirra voru svo þungar að þeir mundu verða dæmdir í skóggang, forðuðu sjer af landi brott, áður en dómur fjell á þá, eða vinir þeirra, venslamenn eða verndarmenn skutu þeim undan og komu þeim í skip til Noregs eða annara landa.[1]) En þeir voru þó eflaust færri, sem gátu á þann hátt komist undan dómi og hegningu. Flestir, sem urðu sekir um skóggangssök, urðu að taka afleiðingunum.

Æfi skógarmannanna var hörð og þung, en hún hefði þó opt orðið verri og skemri, ef Íslendingar hefðu verið mjög löghlýðnir menn og allir hefðu haldið vel landslögin gagnvart þeim. Einstaka menn, einkanlega frændur og vinir skógarmannanna, urðu opt til þess að skjóta skjóli yfir þá eða halda þá á laun, þótt lögin bönnuðu alla hjálp og þótt þeir hættu sjer sjálfum fyrir hefnd sakaraðila.[2]) Sumir virðast jafnvel hafa gert það að atvinnu að halda skógarmenn á laun og hjálpa þeim á ýmsan hátt.[3]) En sumir tóku við sekum mönnum til þess að nota þá sem flugumenn gegn óvinum sínum. Þeir hjetu þeim hjálp, ef þeir færu til þess manns, sem þeir vildu feigan og dræpu hann. Við slík tækifæri var venjulega beitt verstu svikum, en opt mistókust þó sendiferðir flugumannanna.[4])

Þá er skógarmennirnir leituðust við að forða lífi sínu með því að leggjast út, urðu þeir að afla sjer vista með þjófnaði og ránum, ef þeir gátu eigi fæðst við veiðar, eins og sagt er að Grímur Helguson hafi gert og síðar Grettir Ásmundarson uppi við Fiskivötn á Tvídægru og Arnarvatnsheiði.[5]) Svartur skógarmaður lagðist á fje Hofverja og Grettir varð opt að taka sauðfje sjer til matar og ýms plögg af mönnum.[6]) En stundum lögðu margir skógarmenn lag

[1]) Fóst. 7—8/24—28, sbr. Grett. 25—27/100—105; Fóst. 10/34—36; Glúm. 14/42; Heið. 35—41; Gunnl. 3/199; Lax. 57—58/213—218; Eyrb. 21—22/34—36; Ldn. 9/90; Harð. 8/21, 17/51. [2]) Glúm. 23/68; Gísl. 23—25/64—69, 26/71—73; Lax. 62/230, 64/239; Dropl.[2] 14/172; Gunn. s. 6—7/209—211. [3]) Gísl. 22/60; Lax. 80/294. [4]) Eyrb. 36/64; Vatn. 39/62; Ldn. 4/181; Reyk. 21/106, 22/109, 26/127, 27/135. [5]) Lax. 57/213; Grett. 55—56/199—204. [6]) Vápn.[2] 2/25; Grett. 52/186—188, 54/195—198, 59/212—216, 60/217—219, 67/243.

sitt saman, og ýmsir óskilamenn og ójafnaðarmenn gengu í lið með þeim eða þeir lögðust út með heimamönnum sínum og fjelögum. Þeir gerðust þá hinir mestu vágestir fyrir hjeruð þau, sem þeir lögðust á; var þá eigi annað að gera fyrir bændur en að safna liði og fara að þeim.

Það kom eflaust fyrir hvað eptir annað alla söguöldina að menn urðu sekir skógarmenn og lögðust út, en rjett eptir 980 voru sjerstaklega mikil brögð að því. Þá voru tvennir miklir útilegumannaflokkar uppi, Hólmverjar og Hellismenn.

Hólmverjar fengu nafn sitt af hólma einum í Hvalfirði, skamt frá Þyrli, því að þar höfðust þeir við. Þeir eru nafnkunnir, af því að af foringja þeirra er sjerstök saga, Harðar saga Grímkelssonar.

Harðar saga er þó ein af hinum lakari Íslendinga sögum, enda er hún eigi til í hinni upphaflega mynd sinni, nema ef til vill dálítið brot, upphafið. Að minsta kosti er brot þetta miklu eldra og upphaflegra en sagan sjálf, eins og hún er nú, aukin og ýkt, eða endursamin einhvern tíma seint á 14. öld.[1])

Hörður var sonur Grímkels goða Bjarnarsonar, sem fyr hefur verið nefndur, og Signýjar Valbrandsdóttur, Valþjófssonar hins gamla. Grímkell „goði í Bláskógum“ bjó fyrst að Grímkelsstöðum við Ölfusvatn (Þingvallavatn), en flutti síðan bæ sinn að Ölfusvatni.[2]) Hörður fór utan á ungum aldri og var mörg ár erlendis, fyrst í Noregi og síðan á Gautlandi. Þar kvongaðist hann konu, sem Helga hjet Haraldsdóttir og sagan segir að hafi verið jarlsdóttir.[3]) Vetri eptir að Hörður kom út til Íslands, tók hann við búi að Breiðabólsstað í Reykholtsdal og bjó þar tvo vetur. Hörð-

---

[1]) Brot þetta er á skinnblaði einu í A.M. 564 a, 4to, frá hjer um bil 1400. Það er gefið út í Íslendinga sögum (1847) II, 476—480. Það er einnig prentað upp í alþýðuútgáfu Sigurðar Kristjánssonar. Um Harðar sögu sjá F. Jónsson, Litteraturhist. II, 429—431, III, 81. Um vísurnar sbr. Jón Þorkelsson, Skýringar (Reykjavík 1868), bls. 7—14; Janus Jónsson, Tímarit Bókmentafjelagsins 1892, XIII, 259—275 og F. Jónsson, Litteraturhist. III, 23. [2]) Harð., Ísl. II, 476—477; Ldn. 12/44, 19/58, 20/61; Hksb. 17/12 segir að Signý væri Valþjófsdóttir. [3]) Harð. 12/38, 14/42, 16/51.

ur var þá friðsamur maður, en út af vígi einu, er heima maður hans, Helgi Sigmundarson vann, komst hann í deilu við vondan mann, Auð bónda Rauðsson á Auðsstöðum. Hann vildi engum sáttum taka. Hörður vá hann þá í bræði sinni og brendi bæ hans. Fyrir það gjörði Torfi Valbrandsson þá Hörð og Helga seka.[1])

Hörður fór þá með fjölskyldu sína og heimamenn í Botn við Hvalfjörð, til Geirs Grímssonar fóstbróður síns.[2]) Þar var hann að eins eitt ár, því að Geir rænti mat frá bónda einum, er vistir þrutu, og af því hlutust nokkur víg. Nokkrir bændur tóku sig þá saman og ætluðu að fara að þeim fóstbræðrum. En er þeir urðu þess vísir, rjeðust þeir út í hólma þann í Hvalfirði, sem síðan er nefndur Geirshólmi. Þar höfðu þeir gott vígi. Sagan segir að menn hafi safnast til þeirra, svo að þeir hafi orðið um tvö hundruð manna, er þeir voru flestir, en aldrei færri en áttatíu.[3]) Þetta er eflaust allmikið orðum aukið eins og líka sagan sjálf bendir á, þar sem segir frá falli þeirra. En þó verður að gæta þess, að til voru ýmsir óeirðarmenn og umhleypingar, sem varla fengu lifað eins og aðrir menn og sem mönnum sæmdi. Slíkir menn lögðust stundum út[4]) og sumir þeirra hafa slegist í lið með sekum mönnum.

Hólmverjar fóru öðru hverju margir saman til lands og rændu fjenaði frá ýmsum bændum þar í næstu sveitum. Sagan segir að þeir hafi hafst svo við í tvö ár, en að sumum þeirra, eigi síst Herði, hafi þótt æfin ill, og hugðu þeir að ráðast af landi brott, ef hægt væri. En þá voru þeir unnir með svikum. Undir forustu Torfa Valbrandssonar tóku bændur sig saman og sendu mann út í hólmann til þess að bjóða þeim sættir. Hólmverjar voru þá fluttir í land í þremur ferðum og drepnir jafnóðum. Hörður var í síðasta bátnum og fjell hann eptir ágæta vörn. Að eins Þorgeir gyrðilskeggi, sem var sagður verstur af Hólmverjum, komst

[1]) Harð. 19/60—62, 20/63—66; Ldn. 21/62. [2]) Harð. 21/67. [3]) Harð. 23/75. [4]) Um Fjalla-Teit, sem lá á fjöllum úti, er sagt, að hann lifði því líkara sem hann væri dýr en maður. Heið. 34, 36—37.

undan með fáa menn, af því að hann var á landi, þá er bændur komu.[1])

Hvaða ár þetta var, vita menn eigi með vissu. Sagan segir að Hörður hafi verið 39 ára, er hann fjell; er líklegt að það hafi verið um 985.[2])

Um þetta leyti voru margir útilegumenn uppi á heiðunum milli Hvítársíðu og Vatnsdalsins. Þeirra er fyrst getið, þá er þeir rændu nótt eina að Haukagili mat miklum, og er sagt, að þeir hafi þá farið með ránum bæði suður og norður, svo að nálega mátti enginn á sínu halda. Ingólfur Þorsteinsson fór þá að leita þeirra og stökti þeim á flótta, en tók ránið og flutti það norður aptur (um 980). Í Landnámu eru útilegumenn þessir kallaðir Hellismenn og af Vatnsdælu má einnig sjá, að þeir höfðust við í helli nokkrum.[3])

Fáum árum síðar er getið um útilegumenn, sem höfðu aðsetur í Surtshelli og voru kallaðir Hellismenn. Fyrir þeim rjeðu þeir Þórarinn og Auðun Smiðkelssynir frá Þorvarðsstöðum (nú Þorvaldsstaðir) í Hvítársíðu. Hefur það að líkindum verið sami útilegumannaflokkurinn sem Ingólfur fagri barðist við; hafa þeir hafst þar við í mörg ár, og sekir menn og umhleypingar slegist í flokk þeirra. Þeir þóttu óvinnandi í helli þeirra, því að þar höfðu þeir vígi gott og var myrkt að þeim að sækja.[4]) Þeir munu hafa lagst á fje bænda, og gert mönnum fyrir sunnan heiði, bæði í Hvítársíðunni og öðrum nærsveitum, allmikinn skaða, áður en þeir voru drepnir á Hellisfitjum (nú Fugleyrar) við Norðlendingafljót. Fyrir drápi þeirra stóð Torfi Valbrandsson, Illugi hinn svarti og Sturla goði, og fjellu þar 18 Hellismenn. Auðun Smiðkelsson var eigi einn af þeim, en hann brendu þeir inni á Þorvarðsstöðum.[5]) Þetta virðist

---

[1]) Ldn. 19/58, 20/61; Harð. 23—35/73—105. [2]) Harð. 38/117. Safn I, 309—311. [3]) Vatn. 41/65—67; Ldn. 4/182. [4]) Vatn. 41/66. [5]) Ldn. 20/61, 1/67. Um Surtshelli sjá Kålund, Isl. I, 338—343, og Þ. Thoroddsen, Lýsing Íslands II, 89—91. Elsta ítarleg lýsing á Surtshelli er eptir Eggert Ólafsson, sjá Ferðabók þeirra Eggerts og Bjarna I, 238—253. Af Hellismönnum þessum hefur síðar myndast þjóðsaga, Íslenskar þjóðsögur og æfintýri II, 300—304.

hafa verið litlu eptir fall Harðar Grímkelssonar og Hólmverja, því að þá er bændur fóru að þeim, komst Þorgeir gyrðilskeggi undan við sjöunda mann og flýði hann upp á Arnarvatnsheiði. Þar lagðist hann í helli á Fitjum; segir Harðar saga að hann safnaði liði að sjer og væri þar þangað til Borgfirðingar gjörðu atför að þeim. Þá stökk hann norður á Strandir og var þar drepinn.[1]) Líklega er þetta svo að skilja, að Þorgeir hafi ásamt nokkrum mönnum komist undan og flúið á náðir Hellismanna; hafi hann síðan verið með þeim þangað til Borgfirðingar gerðu herför að þeim, en þá hafi hann aptur komist undan og hlaupið norður á Strandir. Frásögn Landnámu virðist einnig benda á að atförin að Hellismönnum hafi verið síðar en víg Hólmverja. En sigurinn yfir þeim hefur ýtt undir höfðingjana í Hvítársíðu og Reykholtsdalnum að þola eigi Hellismenn lengur.

Nálega 25 árum síðar var ræningjaflokkur einn uppi norður í Bitrufirði. Fyrir honum var sá maður, er Óspakur hjet og var Kjallaksson, frá Kjallaksá norðan til við Bitrufjörðinn.[2]) Hann bjó á Eyri í Bitrufirði, sem eptir honum er nefnd Óspakseyri. Hann gerði virki á bæ sínum, og hafði um sig margt karla. Óspakur var ójafnaðarmaður hinn mesti og rændi nágranna sína. Hann tók hval frá Snorra goða og rænti þingmenn hans. Fyrir það gjörði Snorri hann sekan og menn hans. Óspakur fór þá norður á Strandir og hafðist þar við um hríð. Þá kom til hans víkingur einn og illgjörðamaður, er Hrafn hjet. Hann hafði legið úti á Norðurströndum. Þeir lögðu nú lag sitt saman og lifðu á ránum fram til veturnótta. Þá tóku Strandamenn sig saman og fóru að þeim og fengu þá til þess að hverfa burt. Þeir fóru þá inn á Eyri, settust þar í virkið og rændu menn og drápu, þangað til Snorri goði og Sturla Þjóðreksson á Staðarhóli settust um virkið með 80 manna. Í þeirri umsát fjellu þeir Óspakur og Hrafn. Vík-

---

[1]) Harð. 31—32/95—97. Harðar saga vitnar í Álfgeirsþátt um dráp Þorgeirs gyrðilskeggja, en sá þáttur er eigi til. [2]) Sbr. Kålund, Isl. I, 631.

ingarnir gáfu þá upp virkið móti því að þeir fengu lífs grið og lima, og dreifðu þeir Snorri svo óaldarflokki þessum (um 1010—1012).[1])

Í hinum fornu lögum er gert ráð fyrir því að skógarmenn leggi lag sitt saman, eins og hjer hefur verið skýrt frá. Ef þeir hlupu í auð hús eða óbygð sel, mátti brjóta þau til þess að vinna þá. Það var einnig leyft að brenna þau, ef eigi mátti sækja þá á annan veg, en þá átti að bæta eigendanum skaðann.[2])

Auk þess, sem nú er frá sagt, höfðu einstaka Íslendingar nokkra atvinnu af ófriði og ránum, þá er þeir fóru til Noregs eða annara landa og rjeðust þar í víking með mönnum og öfluðu sjer fjár með hernaði og ránum Slíkt var alls eigi fátíð atvinna á allri 10. öldinni og lengur fram eptir.

---

## Borgfirðingar.

Sveitirnar sunnanvert við Faxaflóa eru eigi sögurikar. Af niðjum Ingólfs, göfugustu ættinni, er engin saga. Höfðingi hennar var um þetta leyti Þormóður Þorkelsson, en af honum segir ekkert, nema að hann hafi verið allsherjargoði, þá er kristni kom á Ísland. Má af því ráða að hann hafi tekið við goðorði eptir fráfall föður síns og farið með það eitthvað fram á fyrsta þriðjung 11. aldar. Sonur Þormóðs hjet Hamall, en af honum segir ekki annað en það, að hann hjelt ættinni uppi.[3])

Öðru máli er að skipta þá er kemur norður fyrir Skarðsheiði. Þar tekur við sögurikt hjerað, Borgarfjörðurinn. Þaðan eru sögur bæði af einstökum ættum, mönnum og merkum atburðum.

---

[1]) Eyrb. 57—62/105—114. [2]) Grág. II. 398—399, sbr. I a, 186.
[3]) Kjalnesinga saga er alls eigi sannsöguleg og kemur því eigi hjer til greina.

Um eða rjett eptir miðja söguöldina (um 980) hverfur Tungu-Oddur Önundarson úr sögunni, og mun hann hafa fallið frá litlu síðar eða um sama leyti sem Egill Skallagrímsson. Hann hafði þá nálega í þriðjung aldar verið atkvæðamestur höfðingi í Borgarfirði sunnan Hvítár, enda segir í Egils sögu, að hann hafi ráðið fyrir hofi því, „er allir menn guldu hoftoll til fyrir innan Skarðsheiði".[1]) Þetta er þó orðum aukið, því að bæði er líklegt, að annað hof hafi þá verið í sveitunum fyrir sunnan Hvítá,[2]) og Geitlendingar, niðjar Úlfs Grímssonar í Geitlandi, áttu að minsta kosti á efri árum Tungu-Odds að halda uppi hofi á Hofstöðum í Reykholtsdal að helmingi við hann. Fyrir því flutti þangað búferlum Illugi hinn rauði Hrólfsson, Hróaldssonar, Úlfssonar í Geitlandi. Geitlendingar voru náskyldir Tungu-Oddi.[3]) Þeir voru kynsælir, og þótt Illugi flytti síðar að Innra Hólmi á Akranesi, af því að hann „keypti við Hólm-Starra bæði löndum og konum og fje öllu", mun þó goðorðið varla hafa verið með í kaupinu, því að Tungu-Oddur mun optast hafa farið með það, og auk þess gat eigi verið um meira en helming þess að ræða. Tungu-Oddur misti báða syni sína, áður en hann fjell frá,[4]) en goðorðið virðist hafa verið í ætt Geitlendinga. Að minsta kosti átti Páll prestur Sölvason í Reykholti goðorð þetta seint á 12. öld, en hann var af þeirri ætt.[5]) Hafi því goðorðið einhvern tíma gengið

---

[1]) Eg. 84/316. Einhver síðasta deila Odds mun hafa verið við Þorstein Egilsson um Grímar á Grímarsstöðum Eg. 28/91. Víg Hallgerðar dóttur Tungu-Odds var um 978 og vildi Oddur þá eigi veita Hallbirni eptirreið, Ldn. 30/151—153; sjá að framan bls. 260—261. [2]) Að Lundi í Lundareykjadal er forn tótt, sem munnmælin segja að sje hoftótt, sbr. Kålund, Isl. I, 311. 1884 gróf Sigurður Vigfússon út tótt þessa og ætlar hann að hún sje hoftótt. Árbók 1885 bls. 97—100. Snemma á 13. öld er getið um Lundarmannagoðorð, sem dregur nafn sitt af þessum bæ. Sturl. I, 210; Bps. I, 486. Kjallakur Hrólfsson, bróðir Illuga rauða, bjó að Lundi, og niðjar hans eptir hann, Kollur Kjallaksson og Bergþór Kollsson. Ldn. 21/63; Harð. 477, 2/7, 31/93. Sbr. Björn M. Ólsen, Aarb. f. nord. Oldkh. 1904 bls. 197—199. [3]) Ldn. 20/60—61, 21/63—64. [4]) Hæns. 15/177, 17/185. [5]) Sturl. I, 32/82. Um ættina sjá Ldn. 21/63, 20/126, sbr. bls. 487 og ættartölu-töflu 1; Hksb. 29/17, 87/40; Stb. 41/141; Harð. 11/30, sem sleppir einum lið; Sturl. I, 5/4, 17/25, 30/78, 1/190, 21/211; Band.[2] 17. Sbr. E. Briem, Arkiv f. nord. fil. VIII, 325.

úr ætt Geitlendinga að öllu leyti, hefur það horfið í hana aptur.

Í Harðar sögu[1]) segir að þeir feðgar Valbrandur Valþjófsson og Torfi Valbrandsson hafi haft goðorð, en þess er eigi getið í brotinu af hinni eldri sögu Harðar, sem nær um þann hluta hennar, þar sem þetta er sagt. Harðar sögu má því eigi marka. En í Melabók og Hauksbók er sagt, að þeir feðgar, Valbrandur og Torfi, hafi gert fjelag við Tungu-Odd og flutt að Breiðabólsstað í Reykholtsdal, þar sem Oddur bjó. Þá tókust tengdir með þeim, en þrennar sagnir fara af þeim. Eptir tímatalinu að dæma er líklegast að Torfi hafi fengið Þuríðar, eldri dóttur Odds, en þó er eigi hægt að segja með vissu, hver sagan er sönn.[2]) Torfi var maður harðúðugur og mikils megandi. Hann virðist hafa verið atkvæðamestur höfðingi í Borgarfirðinum sunnan Hvítár á árunum 980—990, og má vera að hann hafi um hríð farið með eða átt helming goðorðsins eptir Tungu-Odd. Torfi drap Kroppsmenn tólf saman og stóð í stórræðum á þessum árum eins og þegar er sagt.[3])

Í byrjun 11. aldar kemur Þorsteinn Gíslason í Bæ í Borgarfirði töluvert við Víga-Styrs sögu og Eyrbyggju, sem síðar mun sagt verða; en annars fara litlar sögur af þeim mönnum, sem uppi voru á síðari hluta sögualdarinnar í Borgarfirðinum fyrir sunnan Hvítá, þótt nöfn ýmsra þeirra sjeu kunn. Á Mýrunum og í Hvítársíðu gerðust aptur á móti miklar sögur. Þá er Egils saga þrýtur af langfeðgunum að Borg, tekur Gunnlaugs saga ormstungu við að segja af Þorsteini Egilssyni. En að Gilsbakka í Hvítársíðu

---

[1]) Harð. 2/6. [2]) Hksb. 17/12; Ldn. 13/46. Í Sturlubók segir að Torfi hafi átt Þóroddu systur Tungu-Odds. Ldn. 20/61; Stb. 37/140. Í Gunnl. 11/248 segir að hún væri móðir Torfa, og í Hæns. 1/122 segir að Torfi hafi átt Þuríði Tungu-Oddsdóttur. Um tímatalið sbr. Safn I, 306—307. 324. Eptir flutning þeirra Torfa að Breiðabólsstað voru bæirnir þar tveir; sbr. Kålund, Isl. I, 319—320. [3]) Ldn. 20/61. Í Ólafs sögu Tryggvasonar hinni stærstu segir að Torfi Valbrandsson hafi verið með Eiríki jarli á Barðanum í Svoldarorustu. Fms. II, 251/320. Ef nokkuð er hæft í því, hefur það verið annar maður en Torfi á Breiðabólsstað.

bjó Illugi hinn svarti Hallkelsson,[1]) faðir Gunnlaugs ormstungu, sem sagan er af. Auk þessa eru fleiri sögur, sem gerðust í sveitunum fyrir vestan eða norðan Hvítá.

Illugi hinn svarti kemur til sögunnar á miðri söguöldinni. Þá átti hann í deilu við Þorgrím goða Kjallaksson og syni hans vestur á Þórsnesþingi um „mund og heimanfylgju“ Ingibjargar Ásbjarnardóttur hins auðga, konu sinnar. Hún var dótturdóttir Miðfjarðar-Skeggja.[2]) Illugi hafði hundrað manna og fjekk því náð hlut sínum, enda gátu þeir Kjalleklingar, sem áttu heima á Fellsströndinni, eigi komið á þing í tæka tíð sökum storma. Annars hefði dómnum verið hleypt upp og Illugi borinn ofurefli liðs, því að Þorgrímur goði veitti honum atgöngu, þá er frændur hans komu á þingið. Fjellu þar sjö menn, áður en Snorri goði fjekk stöðvað bardagann (um 980).[3])

Illugi var talinn annar mestur höfðingi í Borgarfirði en Þorsteinn Egilsson. Hann er kallaður „stóreignamaður“ og harðlyndur í skapi. Kom það lunderni fram hjá Gunnlaugi ormstungu syni hans, því að hann var bæði óvæginn og harður, framgjarn og hávaðamaður. Gunnlaugur var snemma bráðgjör, mikill og sterkur. Hann var líka skáld eins og ýmsir í ættinni, og þótti heldur níðskár. Tindur skáld Hallkelsson var föðurbróðir hans, og er ætt þeirra frænda rakin til hinna elstu norsku skálda, Braga hins gamla og Erps lútanda.[4]) Annan son átti Illugi, sem einnig kemur við sögur. Hann hjet Hermundur og bjó að Gilsbakka eptir föður sinn.

Þá er Gunnlaugur var fimtán vetra,[5]) vildi hann fara

---

[1]) Sjá að framan I, 119—120. [2]) Ldn. 2/67, 17/111—112, 1/170; Lax. 6/10—11. [3]) Eyrb. 17/19—20; Gunnl. 5,215. Tinforni sá, er hjelt arfinum, mun hafa verið af ætt Kjalleklinga, líklega Tinforni Æsuson, dótturson Barna-Kjallaks; Ldn. 19/117; Stb. 111/160. Áður en þetta var, mun Illugi hafa hefnt Þórarins bróður síns, sem Músa-Bölverkur í Hraunsási vá. Þeir Illugi og Tindur sóttu Bölverk í virki, sem hann hafði gert á bæ sínum. Ldn. 2/67. [4]) Ldn. 1/66. Auknefni sitt mun Gunnlaugur ormstunga Illugason hafa fengið eptir langafa sinn Gunnlaug ormstungu úr Þverárhlíð, sem hann var heitinn eptir. Ldn. 2/68. [5]) Sbr. Safn I, 438.

utan og bað föður sinn fararefna. En Illuga þótti hann svo óstýrilátur að hann leyfði honum eigi að fara. Þá stökk Gunnlaugur á brott og reið niður að Borg. Þorsteinn Egilsson bauð honum að vera og var hann þar þau missiri og nam lögspeki af Þorsteini. En þar komst hann líka í kynni við Helgu hina fögru, dóttur Þorsteins, sem var á sama aldri sem hann og allra kvenna fríðust. Gunnlaugur gerðist brátt þýðlyndari við hana en föður sinn, og fjell þeim vel saman. Hann var líka karlmannlegur í vexti og vel á sig kominn, þótt sagan segi að hann væri „nokkut nefljótr“.[1])

Á milli þeirra Gunnlaugs og Helgu kviknaði ást svo einlæg og sterk, að dauðinn gerði fyrst enda á henni, þótt þau fengi eigi að njótast. Gunnlaugs saga segir af því og æfi þeirra. Hún er hin fegursta ástasaga, sem á íslensku er ritin. Fáar af fornsögum vorum eru jafnvel sagðar sem hún. Alt miðar að því að draumur sá rætist, sem Þorstein dreymdi fyrir Helgu dóttur sinni. Sagan bregður jafnframt upp ljósi yfir líf og skapferli nokkurra hinna heldri manna á Íslandi,[2]) svo að skýra verður nokkuð nánar frá elskhugum þessum og efni sögunnar.

Gunnlaugur var nú ýmist að Borg eða með föður sínum og samdist þá mikið með þeim feðgum. Þá er Gunnlaugur var 18 vetra, bað hann föður sinn aptur fararefna. Illugi tók því vel. En áður en Gunnlaugur færi utan, vildi hann festa sjer Helgu og fjekk því föður sinn að biðja hennar. Þorsteini þótti hann eigi vera ráðsettur, en fyrir fylgi Illuga lofaði hann, að Helga skyldi vera heitkona Gunnlaugs og bíða hans þrjá vetur.[3])

Gunnlaugur fór síðan til Noregs með kaupmanni einum, er Auðun hjet og kallaður var festargarmur, en þar var hann svo ósvífinn í orðum við Eirík jarl Hákonarson, að

---

[1]) Gunnl. 4/202—206. [2]) Samtal þeirra Þorsteins Egilssonar og Gunnlaugs er snildarlegt, er Gunnlaugur biður Helgu. Gunnl. 5/214—215. En líklega er það að mestu leyti tilbúningur höfundar sögunnar. Hann hefur eigi heldur gætt þess að láta Þorstein nefna Önund á Mosfelli ásamt Þorfinni á Rauðamel, áður en Gunnlaugur nefnir hann. [3]) Gunnl. 5/215—217.

jarl hefði látið refsa honum harðlega, ef Skúli Þorsteinsson, Egilssonar á Borg, hefði eigi verið með jarli og fengið grið handa honum til þess að fara þegar af landi brott (1001).

Gunnlaugur fór þá til Englands á fund Aðalráðs konungs. Hann flutti honum kvæði og konungur gaf honum skarlatsskikkju fyrir. Gunnlaugur var með konungi um veturinn, en síðan fór hann til Írlands og Orkneyja og þaðan til Konungahellu og til Skara á Gautlandi. Þar var hann, segir sagan, með jarli nokkrum, er Sigurður hjet. Til hans komu á jólum sendimenn Eiríks jarls og færðu gjafir. Ræddu þá eitt sinn sendimenn og Gautar um jarlana, og báðu þeir Gunnlaug skera úr hvor þeirra væri fremri. Hann kvað þá vísu, og lauk lofsyrði á Sigurð jarl, en benti á að Eiríkur jarl hefði verið í meiri mannraunum á sjó. Hvorirtveggju undu vel við úrskurðinn, en Norðmenn betur, og sögðu þeir Eiríki jarl. Honum þótti Gunnlaugur hafa sýnt einurð og vináttu við sig og kvað hann skyldu hafa friðland í ríki sínu.[1])

Um vorið fór Gunnlaugur á fund Ólafs konungs hins sænska í Uppsölum. Þar var fyrir Íslendingur einn, sem Hrafn hjet, sonur Önundar á Mosfelli, sem fyr er nefndur. Hrafn var hraustur maður og skáld gott. Hann var einnig af góðu bergi brotinn. Móðir hans var Geirný Gnúpsdóttir, hálfsystir Gríms Svertingssonar, alsystir Rannveigar, móður Skapta lögsögumanns.[2]) Gunnlaugi var skipað sæti hjá Hrafni og samdi þeim vel í fyrstu. En seinna urðu þeir ósáttir af því að báðir vildu þeir fyr flytja konungi kvæði sitt, er þeir höfðu ort um hann. Gunnlaugur var þá óvæginn og kunni miklu ver stjórn á metnaðargirnd sinni en Hrafn. Hann brá Hrafni í áheyrn konungs um að hann hefði ort flokk um konunginn en eigi drápu, sem var meira verð. Sagan segir að Hrafn hafi svarað: „tölum þetta eigi lengr, til mun verða tekit, þótt síðar sé“.

Hrafn fór til Noregs og þaðan til Íslands um sumarið

---

[1]) Gunnl. 6—8/218—234. [2]) Gunnl. 5/207—208, sbr. hjer að framan bls. 437—438.

(1003); en áður en hann fór frá Uppsölum, sagði hann við Gunnlaug, að vináttu þeirra skyldi lokið fyrir það, að hann vildi hrópa sig fyrir konungi; fór þá í heitingar með þeim.[1])

Sumarið eptir reið Hrafn til alþingis. Þar fjekk hann Skapta lögsögumann frænda sinn til þess að biðja handa sjer Helgu hinnar fögru, heitkonu Gunnlaugs. Það tjáði eigi að tala um það í það sinn, því að Þorsteinn Egilsson kvaðst halda vilja öll mál við Gunnlaug, en hann kom eigi út um sumarið og voru þá þrjú ár liðin frá utanferð hans. Fyrir því samdist svo um með þeim Þorsteini og Skapta á alþingi sumarið eptir, að Hrafn skyldi fá Helgu að veturnóttum, ef Gunnlaugur kæmi eigi út um sumarið; en ef hann kæmi og vitjaði ráðsins, skyldi Þorsteinn vera laus allra mála við Hrafn.[2])

Sagan segir að Gunnlaugur hafi gerst hirðmaður hjá Aðalráði Englandskonungi fyrsta árið, er hann var með honum og heitið konungi að koma aptur til hans haustið eptir.[3]) Gunnlaugur fór því til Englands hið sama sumar sem Hrafn fór til Íslands, og var með Aðalráði konungi um veturinn (1003—1004). Sumarið eptir ætlaði hann til Íslands, en fjekk eigi orlof af því að konungur átti þá von ófriðar af hendi Sveins konungs tjúguskeggs. Danir komu þó eigi og á miðju sumri árið eptir (1005) fjekk Gunnlaugur fararleyfi. Hann fór þá til Noregs og komst þar í skip hjá Hallfreði vandræðaskáld, er einn var eptir af Íslandsförum. Af honum frjetti Gunnlaugur hið sanna um bónorð Hrafns. Þeir Hallfreður tóku land norður á Melrakkasljettu hálfum mánuði fyrir vetur og skipuðu þar upp. Þar varð Gunnlaugur fyrir því óhappi að fara úr liði á öðrum fæti, og seinkaði það eitthvað ferð hans. Þó riðu þeir Hallfreður að norðan og komu að Gilsbakka það laugardagskveld, er brúðkaup Hrafns og Helgu var að Borg. Gunnlaugur vildi þegar ríða ofan til Borgar, en föður hans sýndist það óráð og öllum.

---

[1]) Gunnl. 9/234—238. [2]) Gunnl. 9/238—241. [3]) Gunnl. 7/223, 7/228.

nema Gunnlaugi; en hann var þá eigi fær sökum fótarins, og því varð eigi af ferðinni.[1])

Þetta kveld var brúðurin að Borg döpur mjög. Faðir hennar hafði eigi spurt hana um giptingu hennar, en hún unni Gunnlaugi og vildi engan annan eiga en hann. Hún hafði nú ekkert af honum frjett og mátti við því búast að hann væri orðinn sjer afhuga með öllu eða jafnvel fallinn í víking. Það var því vonlaust fyrir hana að óhlýðnast föður sínum og lögum landsins, þótt hún hafði viljað, enda var það eigi siður kvenna á þeim tímum. Faðir Helgu hafði líka eflaust verið henni góður frá því að hún mundi eptir. Hann var vitur maður, hógvær og gætinn og svo ólíkur Gunnlaugi í skapi að hann gat varla borið fult traust til hans. Honum var því eigi með öllu ljúft að gefa honum dóttur sína, þótt hann vissi um vináttu þeirra. Hrafn aptur á móti var miklu stiltari maður en Gunnlaugur og einnig mikill atgjörvismaður; hafði Þorsteinn því ástæðu til þess að bera gott traust til hans og ætla, að dóttir sín mundi vel gefin, ef hún ætti hann. Auk þess höfðu áður verið tengdir á milli ættmanna þeirra og farið vel.[2])

Helga hin fagra varð að fara með Hrafni til Mosfells. Þar fjekk hún brátt grun um að Gunnlaugur væri kominn heim og sagði hún þá við Hrafn, að hann hefði svikið sig illa, og grjet mjög. Litlu síðar spurðist útkoma Gunnlaugs; gerðist Helga þá mjög stirð við Hrafn, og varð hann að fara með henni til Borgar. Um veturinn giptist Húngerður, hálfsystir Helgu.[3]) Í brúðkaupinu, sem stóð að Skáney hjá Þorkeli syni Torfa Valbrandssonar, voru þeir feðgar frá Gilsbakka, og rendi Helga hin fagra opt augum til Gunnlaugs. Eptir boðið gekk Gunnlaugur til tals við hana, töluðust þau þá lengi við og gaf Gunnlaugur henni skikkju þá, er Aðalráður konungur hafði gefið honum. Gunnlaugur átti síðan tal við Hrafn og kvað hann vita til hvers hann

---

[1]) Gunnl. 10/241—247. [2]) Grímur móðurbróðir Hrafns hafði átt Þórdísi frá Borg, sem fyr er sagt. [3]) Ldn. 19/116, 12/272, 20/61; Gunnl. 1/191—192; Hæns. 16—17/178—186.

hefði unnið, en þeir áttust lítið við, því að þeir Illugi og Þorsteinn vildu það ekki. En eptir þetta vildi Helga ekki vera með Hrafni.[1])

Um sumarið á alþingi skoraði Gunnlaugur Hrafn á hólm. En hólmganga þeirra fór svo, að eigi varð fullreynt með þeim, af því að sverð Hrafns brast í fyrsta höggi í sundur undir hjöltunum, og feður þeirra hlupu þegar á milli þeirra og skildu þá (1006).[2])

Þau Gunnlaugur og Helga fundust á þessu þingi og var það í síðasta sinni, sem þau sáust, svo getið sje. Segir sagan að Helga hafi staðið og starað á Gunnlaug lengi eptir, er þau skildu. Er Gunnlaugur þá látinn líta aptur og kveða vísu um augu Helgu, sem skinu á hann „af ljósum brúna himni"; en vísa þessi er eptir Kormák Ögmundarson, hið mesta ástaskáld á söguöldinni.[3]) En atvik þetta sýnir hvernig sögusögnin eða ef til vill sögumeistarinn hefur lagað efnið í hendi sjer, til þess að gjöra það áhrifamikið; er því opt eigi auðið að segja hvað er sögulega rjett eða rangt, því að venjulega vantar aðrar heimildir til samanburðar.

Það er þó næsta líklegt að Gunnlaugur hafi komið að Borg, áður en hann fór utan um sumarið, því að vinátta hjelst með þeim Illuga og Þorsteini, en Hrafn mun þá hafa verið að Mosfelli eða farinn utan.

Nokkru eptir alþingi hafði Hrafn einn morgun komið að Gilsbakka og boðið Gunnlaugi að þeir báðir færu utan og gengju á hólm í Noregi. Gunnlaugur tók þessu mjög vel, og fóru þeir báðir utan um sumarið. Þeir munu hafa fundið það báðir, að annarhvor þeirra varð að deyja úr því sem komið var.

Tveimur vetrum síðar (líklega vorið 1008) fundust þeir fyrir ofan bygðir í Þrándheimi á leið til Svíþjóðar við vötn nokkur. Þeir börðust þar með mönnum sínum í nesi einu, er Dinganes heitir, en tveir leiðtogar Gunnlaugs frá Eiríki jarli voru til frásagnar. Svo lauk að Gunnlaugur bar hærra

---

[1]) Gunnl. 11/248—254. [2]) Gunnl. 11/258. [3]) Korm 3,5; Gunnl. 11/259—261.

hlut og hjó annan fótinn undan Hrafni. Segir þá sagan að hann hafi eigi fallið, en stutt stúfinn að stofni einum. Eptir bæn hans færði Gunnlaugur honum vatn í hjálmi sínum, en þá hjó Hrafn hann í höfuðið. Þá mælti Gunnlaugur: „Illa sveikstu mik nú, ok údrengiliga fór þér, þar sem ek trúða þér“. Hrafn svarar: „satt er þat, en þat gekk mér til þess, at ek ann þér eigi faðmlagsins Helgu innar fögru“. Þeir börðust þá enn uns Hrafn ljet líf sitt. En leiðtogar jarls bundu um sár Gunnlaugs og komst hann með þeim ofan í Lifangur og andaðist þar að eins 25 ára að aldri (1008).[1])

Þá er stundir liðu fram gipti Þorsteinn Egilsson Helgu dóttur sína Þorkeli Hallkelssyni í Hraundal. Hann var vaskur maður og vel fjáður og skáld. Þau áttu nokkur börn, en Helga varð honum lítt unnandi, því að hún varð aldrei afhuga Gunnlaugi. Helsta gaman hennar var, að rekja sundur skikkjuna Gunnlaugsnaut og horfa á hana; andaðist hún að lokum með skikkjuna í höndunum.[2])

Bæði Illugi og Hermundur son hans hefndu Gunnlaugs.[3]) Eptir það koma þeir feðgar við Heiðarvíg og Hermundur við Bandamanna sögu.

Af Þorsteini Egilssyni segir lítið eptir þetta og vita menn eigi með vissu, hve nær hann hefur dáið, en líklega hefur það verið um 1015.[4]) Í Fóstbræðra sögu greinir af deilu hans um Gufufitjar við Helga hinn hvíta á Hvítstöðum, en óvíst er hve nær það hefur verið, ef það á annað borð er rjett hermt.[5]) Þáu Þorsteinn og Jófríður áttu margt barna. Elstur sona þeirra, er upp komust, var Skúli. Hann var skáld, og er nefndur í nokkrum sögum. Hann var lengi í víking, líklega með Eiríki jarli, því að hann barðist með honum á Járnbarðanum móti Ólafi Tryggvasyni. Síðan var hann um hríð með jarli í Noregi, áður en hann fór til Íslands. Skúli var manna mestur vexti eins og sumir

---

[1]) Gunnl. 11—12/261—270; sbr. Eg. 79/294—295, 87/321. [2]) Gunnl. 13/274—275. [3]) Gunnl, 13/272—274. [4]) Sbr. Safn I, 320, 458, 499. [5]) Fóst. 12/43, sbr. Safn I, 467.

í ætt hans. Hann bjó að Borg eptir föður sinn, og mun þá hafa verið mestur höfðingi í ættinni um hríð. En þó er engin saga af honum sem forfeðrum hans.[1])

---

## Björn Hítdælakappi.

Litlu eptir að Gunnlaugur ormstunga fór frá Borg og Helga hin fagra var orðin heitkona hans, kom þangað drengur einn tólf eða þrettán vetra. Hann hjet Björn og var sonur Arngeirs bónda að Hólmi í Hitárdal. Drengur þessi var náskyldur Þorsteini Egilssyni, því að móðir hans var Þórdis Þorfinnsdóttir, dótturdóttir Skallagríms. Hann óx upp að Borg með Þorsteini[2]) og var snemma „mikill vexti og rammur að afli“. Þá er hann var 18 vetra, fór hann utan með kaupmönnum, en áður bað hann Oddnýjar eykyndils Þorkelsdóttur í Hjörsey og var hún fest honum; átti hún að sitja þrjá vetur í festum.

En konu þessa tók með svikum Þórður skáld Kolbeinsson í Hitárnesi frá Birni og segir Bjarnar saga Hitdælakappa af viðskiptum þeirra; gerist hún mest á árunum 1019—1024. Efnið í henni er líkt og í Gunnlaugs sögu, en hvorki er hún eins vel sögð nje nærri eins fögur, enda lýsir hún eigi svo hreinlyndum mönnum sem Gunnlaugs saga. Þórður skáld var óvandaður maður, undirförull og flærðarfullur, og beitti svikum og brögðum, er hann mátti því við koma. Björn var að vísu afbragð annara manna

---

[1]) Eg. 79/295, 87/322; Gunnl. 1/192, 6/218; Oddr. 64/351, 68/356, 70/356; Hkr. I. 105/442; Fms. II. 250/310, 251/320. III 256/6—7; Flat. I. 378/482, 386/495; sbr. F. Jónsson, Litteraturhist. I. 567—569. [2]) Í Bjarnar sögu 1—3/4—7, 7/17, er sagt að Skúli Þorsteinsson hafi þá verið bóndi að Borg, en það er rangt, því að þar bjó þá faðir hans. Hitt er aptur á móti líklegt, að Skúli hafi verið kominn heim áður en Björn fór utan.

að hreysti og hugprýði, og að mörgu leyti góður drengur, en það var óhamingja hans að verða á vegi manns sem Þórðar Kolbeinssonar og einkanlega að þiggja veturvist hjá honum, er hann kom til Íslands eptir tólf ára brottveru að sögn sögunnar.

Ferð Bjarnar austur í Garðaríki og sár, sem hann fjekk þar, ollu því að hann komst eigi til Íslands á þriðja sumri eptir burtför sína. Þá er hann kom aptur til Noregs (líkl. 1010), voru skip gengin þaðan til Íslands.[1]) Sumarið eptir, er hann var albúinn til heimferðar, spurði hann giptingu Oddnýjar, og hvarf hann þá frá því að fara til Íslands, en hafðist við erlendis og var lengi í víking.

Oddný eykyndill segir sagan að væri kvenna fríðust og skörungur mikill, en hún hafði verið gipt nálegu í níu ár, er Björn kom út, og var þá margra barna móðir. Hún reiddist svikum Þórðar, en yfir ást þeirra Bjarnar hvílir enginn fegurðar og hreinleika blær sem yfir ást Helgu til Gunnlaugs. Þau sluppu eigi við ummæli, þá er Björn var í Hitárnesi, hvort sem ástæða var til þess eða eigi. Sagan gefur í skyn að Kolli Þórðarson hafi verið sonur þeirra Bjarnar, en það er algjörlega rangt; er þar blandað málum við Björn Breiðvíkingakappa og Þuríði að Fróðá, og tekin sögn og vísa úr Eyrbyggju um Kjartan son þeirra. Kolli er í Bjarnar sögu látinn sækja harðast að Birni Hitdælakappa, er hann var feldur, en það var fimm vetrum eptir að hann kom til Íslands og fjórum árum eptir að hann fór frá Hitárnesi.

Ólafur konungur Haraldsson gerði um mál þeirra Bjarnar og Þórðar, og sætti þá (1016 eða 1017)[2]). En er Björn kom út (líkl. 1019), fjekk Þórður hann þvert á móti vilja Oddnýjar konu sinnar til þess að vera hjá þeim um veturinn. Eitt sinn er þau hjónin urðu sundurorða, drap Þórður hendi á kinn Oddnýjar. Björn heyrði það og kvað vísu; var það upphafið að flími þeirra. Um vorið skildu þeir í styttingi.[3])

---

[1]) Bjarn. 4/10—11. [2]) Bjarn. 8/20. [3]) Bjarn. 11—14/25—34.

Litlu síðar kvongaðist Björn og fór að búa á Völlum i Hitárdal.[1]) En af honum og Þórði er það að segja, að þeir áttu í einlægum fjandskap. Þeir svívirtu hvor annan á allar lundir, og Þórður gerði Birni hverja fyrirsátina á fætur annari og sendi flugumenn til höfuðs honum. Björn drap þá alla og bar jafnan hærra hlut úr býtum. Að lokum tókst þó Þórði að standa yfir höfuðsvörðum Bjarnar. Hann fór að honum með 24 menn, er hann vissi að hann var einn heima vígra manna, og feldi hann eptir fræga vörn (líkl. 1024).[2])

En sagan segir að Oddnýju brygði svo við, er Þórður sagði henni fall Bjarnar, að hún hnje í ómegin og tók vanheilsu mikla og varð aldrei heil aptur. Vígsmál Bjarnar varð einnig óvenjulega erfitt fyrir Þórð. Það var sótt á alþingi árið eptir; segir sagan að Þórður yrði að greiða níu hundruð silfurs í bætur fyrir Björn og til sýknu sjer, en að tólf menn væru gerðir af landi brott sem fjörbaugsmenn.[3])

---

## Fall Víga-Styrs og Heiðarvíg.

Um það leyti sem þeir Gunnlaugur ormstunga og Hrafn Önundarson bárust á banaspjót og nokkru síðar, urðu önnur hin mestu tíðindi í Borgarfirðinum á söguöldinni. Þau byrjuðu með vígi Víga-Styrs og þeim lauk hjer um bil átta árum síðar, þá er gjört var um Heiðarvíg. Í tíðindum þessum áttu bæði Breiðfirðingar og Norðlendingar mikinn hlut auk Borgfirðinga sjálfra, svo að þau náðu langt út fyrir hjeraðið.

Víga-Styr Þorgrímsson að Hrauni á Snæfellsnesi var einhver hinn mesti ofstopamaður og ójafnaðarmaður, sem

[1]) Hjer vantar í söguna, en sbr. Bjarn. 15/35, 34/75. [2]) Bjarn. 32/66—69. [3]) Bjarn. 33—34/71—75.

sögur fara af á Íslandi. Hann vá mörg víg en bætti engin þeirra. Hann kvað hafa hrósað sjer af því að hafa vegið 33 menn, sem hann hefði engum fjebótum bætt. Hann átti því sökótt við marga menn, en hann var vitur maður og var um sig, og hafði því fjölment um sig til þess að geta varist óvinum sínum, er á þurfti að halda, og til þess að geta beitt sjer í hjeraði, því að hann var hjeraðsríkur.[1])

Ef það er satt sem segir í Heiðarvíga sögu, að Styr hafi vegið á fjórða tug manna og engan þeirra bætt, gegnir það furðu, hve lengi honum hafa haldist vígaferlin uppi. Hann var frændmargur og það var honum mikill styrkur, en aðalástæðan til þess að eigi var gerð atför að honum, svo að til skarar skriði, mun hafa verið sú, að hann var vinur og tengdafaðir ríkasta mannsins í Þórsnesþingi, Snorra goða, og þeir fylgdust venjulega að málum. Er þetta einkennilegt fyrir þann ójafnaðartíma, sem þeir voru uppi á, söguöldina.

Síðasta víg Styrs, er sögur eru af, var víg Þórhalla bónda á Jörfa í Kolbeinsstaðahreppi. Styr vá hann fyrir litlar eða engar sakir; segir sagan, að það hafi verið í þann tíma sem kristni var upp tekin á Íslandi. Styr hefur þá verið nærri sextugu, því að 983 átti hann gjafvaxta dóttur, sem Snorri goði fjekk. Þórhalli á Jörfa var hraustur maður og var í mægðum og í ætt við merka höfðingja í Borgarfirðinum, Þorstein Gíslason í Bæ, Kleppjárn hinn gamla Þórólfsson úr Flókadal, er bjó að Reykjum (nú líklega Kleppjárnsreykir í Reykholtsdal)[2]) og Illuga svarta á Gilsbakka, Þórhalli átti son, er Gestur hjet.[3]) Hann var lítill vexti en frár. Hann óx upp á Jörfa hjá Þorleiki bónda, sem tók þar við búi eptir föður hans. Eitt haust, er Styr gisti að Jörfa á leið til Borgarfjarðar, bað Þorleikur hann bóta handa Gesti. Víga-Styr bað að sjá sveininn, og þótti honum hann smár og óvænlegur til hefnda.

---

[1]) Eyrb. 12/14, 18/21; Heið. 16; sjá að framan bls. 182. [2]) Eyrb. 56/103; Hksb. 16/12; Heið. 33. [3]) Í AM. 445 b, 4to, Börn Snorra ok æfital, Eyrb. 125, er hann nefndur Þorgestur.

Hann gerði þá sveininum þá háðung að bjóða honum óþrifalamb eitt grátt í föðurbætur. Á heimleiðinni gisti Styr aptur að Jörfa. Gestur sætti þá færi og hjó öxi í höfuð Styrs svo í heila stóð, og mælti um leið: „þar launaði eg þjer lambið gráa“ (líkl. 1007);[1]) er það haft að orðtaki síðan.

Gestur hljóp þegar burtu og fjekk forðað sjer undan Þorsteini Styrssyni og fylgdarmönnum þeirra feðga suður yfir Hítá. Síðan fór hann til Borgarfjarðar á fund þeirra frænda sinna, sem fyr eru nefndir, og fjekk hjálp hjá þeim, einkum Þorsteini í Bæ.

Vorið eptir safnaði Snorri goði liði og fór með 480 manna suður í Borgarfjörð; voru í för með honum Vermundur hinn mjóvi, bróðir Styrs, vestan af Ísafirði, og Steinþór Þorláksson af Eyri og fleiri virðingamenn. En Borgfirðingar höfðu njósnir af ferðum hans og sátu með 600 manna fyrir sunnan Hvítá, þá er Snorri kom þar að Haugsvaði gegnt Bæ. Rjeðu þar fyrir liði Illugi hinn svarti, Kleppjárn hinn gamli og Þorsteinn Gíslason. Með þeim var einnig Þorsteinn Þorgilsson úr Hafsfjarðarey með mönnum sínum, því að hann átti Vigdísi dóttur Illuga svarta.[2]) Þetta var hinn mesti liðsafnaður, sem getið er um á söguöldinni.[3]) Snorri goði komst eigi lengra en að Hvítá. Hann stefndi þar Gesti um víg Styrs, og fór málið til alþingis um sumarið, en þar ónýtti Þorsteinn Gíslason það fyrir Snorra. Má nærri geta að Borgfirðingar hafa verið mjög fjölmennir á þingi, er þeir báru slíkan sigur úr býtum. Þá er leið á

---

[1]) Heið. 23—25; Eyrb. 56/103. [2]) I Eyrb. 56/103 er Gunnlaugur ormstunga talinn í liði þeirra; af því hefur Guðbrandur Vigfússon dregið þá ályktun að þetta hafi verið 1006, er Gunnlaugur var hjer á landi. Í Eyrbyggju segir að þetta hafi verið 1008 og er ekkert sannara um það kunnugt. Af því að Gunnlaugur var nafnkendur maður er eðlilegt að höfundur Eyrbyggju hafi talið hann með fyrirliðunum, og vilst á því þótt hann hafi eigi verið þar viðstaddur, og það því fremur sem Hermundur bróðir hans mun hafa verið einn af hinum helstu mönnum í þessum liðsafnaði; lá því nærri að blanda nöfnum þeirra bræðra saman. En Gunnlaugur fjell um þetta leyti. [3]) Í Heið. 34. ágripi Jóns Ólafssonar, segir að Snorri hafi haft átta hundruð (960) manna, en Borgfirðingar tólf hundruð (1440); slíkt nær engri átt.

sumarið, sendi Snorri njósnarmenn suður í Borgarfjörð, og er hann varð þess var að Þorsteinn Gíslason var fámennur heima, reið hann suður í Bæ við 15. mann og kom að honum óvörum á næturþeli og drap hann og Gunnar son hans (1008).[1])

Áður en þetta var, hafði Kleppjárn snemma um sumarið sent Gest á laun austur í Reyðarfjörð og komið honum þar utan. Þá er það spurðist, fór Þorsteinn Styrsson utan sumarið eptir til þess að leita hans og hefna föður síns. Honum heppnaðist það þó eigi. Sagan segir, að Gestur hafi bjargað Þorsteini af skipsbroti í fyrsta sinn, er þeir fundust í Noregi, og síðan beðið honum tvisvar sinnum griða, í síðara sinnið út í Miklagarði, því að þangað á Þorsteinn að hafa elt Gest. Að lokum hætti Þorsteinn að sitja um líf hans og hvarf aptur til Íslands eptir þriggja ára brottveru (1009—1012).[2])

Sumarið eptir vígin í Bæ sættist Snorri á þau á alþingi (1009). Víg þeirra Styrs og Þorsteins voru látin falla í faðma, en Gunnar Þorsteinsson var bættur. Þeir menn, sem höfðu farið með Snorra til víganna og mest voru sekir, urðu að fara af landi brott og vera utan þrjá vetur.[3])

Nú hefði mátt búast við að deilum þessum mundi vera lokið, en það varð eigi því að heilsa. Kleppjárn hinn gamli átti bróður, er Hárekur hjet, og hann átti uppkomna syni, er voru í siglingum um þessar mundir. Þeir urðu í Noregi varir við einn af þeim mönnum, sem verið hafði með Snorra goða að vígi Þorsteins, og vildu drepa hann til hefnda. Hann komst þó sjálfur undan, en þeir fengu náð fje hans svo að hann stóð fjelaus uppi. Þá varð það hon-

---

[1]) Eyrb. 56/103, 56/105; Eyrb.[2] 56/198—201, 56/205; Heið. 34—35, 41—48. Í Heið. segir að Snorri hafi fyrst farið suður til Borgarfjarðar, er Þorsteinn Styrsson var kominn úr utanferð sinni og útsjeð var um að hann kæmi hefndum fram á Gesti, en það var fjórum árum síðar (1012); er það rangt. Jón Ólafsson mundi eigi með vissu hvort Snorri drap fleiri en einn af sonum Þorsteins, en Þormóður Trefilsson segir í Hrafnsmálum, að Snorri goði dræpi tvo menn fyrir sunnan á.
[2]) Heið. 34, 35—41. [3]) Eyrb. 56/105; Heið. 48—49.

um til bjargar að hann hitti Hall Guðmundsson frá Ásbjarnarnesi í Vesturhópi og gaf hann honum far og fje, svo að hann komst til Englands. Fyrir það svikust Hárekssynir að Halli og vógu hann (líklega 1011). Síðan sigldu þeir suður til Danmerkur, en brutu skip sitt við Jótlandssíðu og týndust þar.[1])

Hallur Guðmundsson var af góðu bergi brotinn. Föðurætt hans var hin fjölmenna Skíðungaætt, en móðir hans var Þuríður dóttir Ólafs pá og Þorgerðar Egilsdóttur.[2]) Sjálfur var Hallur mjög efnilegur maður, vaskur og vinsæll að því er sögurnar segja; er honum þar borið gott orð.[3]) Þá er hann var veginn, var hann í brottbúningi til Íslands og hafði keypt í skipi af manni nokkrum, sem Þorgils hjet. Hann sigldi til Austfjarða um haustið, og segir sagan að hann segði eigi fyr frá vígi Halls en í þinglok á alþingi sumarið eptir, er hann færði þeim feðgum Guðmundi Sölmundarsyni og Barða, syni hans, fjárhlut Halls. Tíðindi þessi fengu svo mikið á Guðmund gamla, föður Halls, að hann andaðist nokkru síðar, en Þuríður ekkja hans fylltist hefndarhug og eggjaði hún óspart syni sína, Barða, Stein og Steingrím. Barði var þeirra elstur og fyrir þeim í öllu.

En nú var erfitt að koma fram mannhefndum, því að vegendurnir voru dauðir. Það var því eigi annað ráð fyrir hendi en að snúa sjer til ættmanna þeirra suður í Borgarfirði, en þó var óvíst hvar hefndin skyldi niður koma. Hárekur, faðir vegandanna, var orðinn gamall maður og hrumur, svo eigi hæfði að snúa hefndum að honum. Einnig hafði hann brugðið búi og fengið bróður sínum fjárráð öll. Barði átti fóstra, Þórarin goða hinn spaka Þorgils-

---

[1]) Heið. 42, 50–52. [2]) Ldn. 6/188; Lax. 24/83, 31/104—105. Í Vatn. 27/44 er skýrt rangt frá frændsemi Þuríðar gyðu, konu Þorsteins Ingimundarsonar og Barða Guðmundssonar. Sölmundur var son Eilífs arnar (ekki Guðmundarson sem segir í Vatn.), en faðir Guðmundar, föður Víga-Barða, sbr. Forns. bls. 191 (Mb.). [3]) Lax. 45/167—168, 45/171, 50/195, 53/202; Heið. 49–51.

son, er bjó að Lækjamóti.[1]) Hann sótti Barði að ráðum og kvað hann best að biðja frændur Hárekssona bóta á alþingi fyrir Hall og fara að öllu með þolinmæði. Sagan segir að Barði hafi gert það á þremur þingum og þingheimur lofað, hve spaklega hann fór að. Á hinu þriðja þingi varð maður einn til svars af hendi þeirra Háreksfrænda, sem Gísli hjet og var sonur Þorgauts bónda, er bjó á Þorgautsstöðum í Hvítársíðu. Hann átti þrjá uppkomna syni, Gisla, Ketil og Þormóð. Gísli var oflátungi allmikill og nýkominn frá útlöndum. Hann svaraði Barða óviturlega og með skætingi; hann vísaði honum á fje í bróðurbætur, sem hann hafði mist á Englandi. Mörgum þingmönnum þótti þetta illa svarað og ómaklega, enda snerist nú álit almennings algjörlega með Barða.[2])

Þórarni spaka þótti nú vandalaust að sjá, hvar hefndin skyldi niður koma. En það var eigi hættulítið að fara með ófrið á hendur Borgfirðingum um þessar mundir, því að þeir höfðu komið sjer saman um að hver maður skyldi leita þegar landeign sína og ríða eptir veganda, ef einhver tíðindi yrðu í hjeraðinu af mannavöldum.[3]) Borgfirðingar höfðu gert samþykt þessa af því að Snorri goði hafði legið í heimahögum þeirra eptir víg Þorsteins i Bæ, á meðan þeir leituðu hans á vegum vestur á Snæfellsnes, og komst hann þannig undan.

Eptir alþingi sendi Þórarinn spaki njósnarmenn hvað eptir annað suður í Borgarfjörð til þess að fá vitneskju um, hve nær færi mundi verða til þess að fara að Gísla og bræðrum hans, án þess að mæta ofurefli liðs. Þá er leið á sumarið ljet hann Barða fá hina hraustustu menn þar nyrðra til fylgdar við sig suður í Borgarfjörð. Þeir lögðu af stað þá er fimm vikur voru til vetrar og voru átján

---

[1]) Ldn. 1/171, 4/182, sbr. Bárð. 12/25; Heið. 54—55; sbr. Tímarit Bókmfjel. II, 24, 27. [2]) Heið. 54—59. Jón Ólafsson segir, Heið. 56, að sig minni að Gísli hafi verið Þorsteinsson, en það er misminni. Hann mun eflaust hafa verið Þorgautsson og sá hinn sami Gísli, sem Barði sneri hefnd sinni að eptir þetta og drap um haustið. Heið. 84—86. [3]) Heið. 48, 78, 87.

saman. Þeir fóru suður Tvídægru, sem þá fjekk nafn sitt af því að þeir höfðu náttstað á heiðinni. Barði hagaði ferðinni eptir því, sem Þórarinn hafði fyrir hann lagt. Þá er hann kom ofan í Kjarradal, sendi hann tvo menn ofan í bygð til þess að njósna. Síðan ljet hann eptir tvo þriðjunga liðs síns fyrir ofan bygð, en hjelt við sjötta mann ofan í Hvítársíðu, til þess að Síðumenn skyldu ætla að þeir væru svo fámennir og riðu eigi eptir þeim með fjölmenni. Hann kom að þeim Þorgautssonum óvörum eins og til stóð, þar sem þeir voru að slætti á teig nokkrum, er Gullteigur hjet, og fengu þeir bræður eigi náð vopnum sínum, er þeir höfðu lagt frá sjer við teiginn. Þeir hlupu því undan og hinir á eptir. Þeir Gísli og Ketill runnu heim að Þorgautsstöðum, en Þormóður niður að Hvítá og fjekk forðað sjer yfir ána. En er Gísli vildi hlaupa yfir túngarðinn, skriðnaði hann Í því kom Barði að honum og hjó hann banahögg. Síðan hvarf hann aptur, þótt fjelögum hans þætti lítið að gjört. Þó rjeð hann því að þeir námu eigi staðar fyr en upp á heiði við vatn eitt í nesi nokkru, þar sem eigi mátti ganga að þeim, nema á einn veg. Þar biðu þeir Borgfirðinga.[1])

Ef Þorgautur bóndi hefði fengið að ráða, hefði ekkert orðið af eptirreið, en Ketill sonur hans, sem var kappi mikill, og Þorbjörn Brúnason frá Veggjum, sem var staddur á Þorgautsstöðum, vildu eigi annað en að safnað væri liði og þeim Barða veitt eptirför. Einnig safnaði Þormóður mönnum fyrir sunnan ána. En liðsafnaðurinn gekk seint, því að margir voru að kaupstefnu niður á Hvítárvöllum og aðrir á engjum; einnig hugðu Borgfirðingar að þeir Barði væru miklu færri en raun varð á. Þeir, sem fremstir voru í eptirreiðinni, voru því miklu liðfærri en Norðlendingar. Það voru þeir feðgar frá Þorgautsstöðum og vildi Þorgautur bíða þess að fleiri kæmu til liðs við þá, en í stað þess að gera það, stóðust sumir þeirra eigi eggjunarorð þeirra Barða og tókst þá bardaginn. Þá er fjórir Borgfirðingar voru

---

[1]) Heið. 75—87, 88—89.

fallnir og iðrin lágu úti á einum Norðlending, varð nokkur hvíld. En þá komu sex og nokkru síðar fjórir Borgfirðingur til bardagans og urðu því enn tvær hríðir. Alls fjellu þar að því er virðist átta menn af Borgfirðingum og þrír af Norðlendingum. Þó ber heimildunum eigi saman um það.[1]) En þá er gert var um málið, er sagt að níu menn að sunnan með Gísla og fjórir að norðan með Halli hefðu farist alls.[2])

Bardagi þessi var þegar í fornöld nefndur Heiðarvíg og hefur sagan nafn sitt af honum.[3]) Hann var í september, í 22. viku sumars, og segja elstu annálar að hann hafi verið árið 1014. Heiðarvíga saga segir að hann hafi verið fjórum árum síðar, en það er rangt.[4])

Þá er bardaganum var lokið, sáu þeir Barði lið mikið fara að sunnan, og hjeldu þeir þá undan. Illugi hinn svarti kom þar með hundrað manna á vjettvanginn, en er hann vildi veita þeim Barða eptirför, laust á myrkri og þoku, svo hann varð að hverfa aptur.[5])

---

[1]) Í Heið. 95 segir að átta menn hafi fallið að sunnan en þrír að norðan, sbr. Heið. 101—102. Tindur Hallkelsson segir í vísu að níu hafi fallið en Eiríkur viðsjá ellefu og Gísli að auk; enn fremur segir Eiríkur í annari vísu að þrír hafi fallið af Norðanmönnum, en níu að sunnan. Heið. 95, 104; Ldn. 2/69, 3/70, Hksb. 35/19, 40/20; Stb. 47/140, 52/140, sbr. Kålund, Heið. Fortale XVI. [2]) Heið. 87—88, 89—95, 101—102. [3]) Heið. 102; Ldn. 2/69, 3/70; Eyrb. 65/122. [4]) Ann. I, III. Eptir Heiðarvíga sögu á víg Halls Guðmundssonar að hafa verið 1014, en að því er segir í elstu annálum, Ann. I, III og V, var það þremur árum fyr. Til samanburðar við tímatalið í Heið. er frásögn Eyrb. 56/103—105, sbr. 125, af vígi Styrs og hefndum Snorra goða. Munurinn er aðallega fólginn í því, að Heið. segir að Snorri hafi drepið Þorstein Gíslason eptir að Þorsteinn Styrsson var kominn frá útlöndum og hafði eigi getað náð lífi Gests. Eyrb. setur víg Styrs veturinn 1007—1008, og víg Þorsteins Gíslasonar haustið 1008. Resensannál (Ann. I) setur víg Styrs 1008 og víg Þorsteins 1009; mun það vera af því að annálaritarinn hefur eigi athugað eða vitað að víg Styrs var fyrri hluta vetrar og því árið 1007, en eigi 1008. Heimild hans mun Eyrb. hafa verið. Um tímatalið sjá Safn I, 459—462 og Kålund, Heið. Fortale XVIII—XIX. [5]) Heið. 96—97; áður nefnir sagan að eins Hermund Illugason, þá er safnað var liði til eptirreiðar, og segir að hann væri í kaupstefnu á Völlum (Hvítárvöllum). Heið. 78, 88—89.

Árið eptir fjölmentu bæði Borgfirðingar og Norðlendingar, Þórsnesingar og Reyknesingar svo mjög til alþingis, að sagt er að það sumar hafi verið eitt af þremur hinum fjölmennustu þingum á söguöldinni.[1]) Þó er eigi nánar um það kunnugt nje um málatilbúnaðinn, því að skinnblað það, sem var um þetta, vantar í Heiðarvíga sögu. Þá er sagan tekur til aptur, er öldungurinn Eiður Skeggjason í Ási að stilla til friðar; má ráða af því að eigi hefur horft friðvænlega út í fyrstu. Af Eyrbyggja sögu sjest, að Guðmundur ríki og Snorri goði veittu Barða mest lið. Málin voru að lokum lögð í gjörð og gerðu þeir Guðmundur og Snorri um þau af hendi Barða, en Illugi hinn svarti og Þorgils Arason af hendi sunnanmanna. Þeir jöfnuðu saman vígum, en með því að Barði átti eigi fje til þess að bæta þá, sem um fram voru, var hann ásamt förunautum sínum gerður utan þrjá vetur.[2])

Barði var hraustmenni mikið og hafði gengið manna best fram í Heiðarvígum. Hann feldi þar flesta menn. Af því var nafn hans lengt og hann kallaður Víga-Barði.[3]) Þau urðu æfilok Barða, að því er sagan segir, að hann fjell í liði Væringja.[4])

---

## Snorri goði og Eyrbyggjar.

Eptir víg Arnkels goða varð Snorri goði Þorgrímsson mestur höfðingi á Snæfellsnesinu. Hann var þá þrítugur að aldri og má nærri geta að ýmsum hafi leikið öfund á um ríki hans.[5]) Vinir Arnkels áttu einnig um sárt að binda, en á milli hinna helstu ætta norðan á Snæfellsnesi hafði lengi

---

[1]) Gunnl. 11/259. [2]) Heið. 100—102; Eyrb. 65/122. [3]) Vatn. 27/44; Hksb. 154/63; Stb. 187/186; Mb. 245; Ól. Trygg. 270, 273; Fms. I 123/249, 130/255. [4]) Heið. 107—108. [5]) Sbr. Eyrb. 15/17.

verið metnaður og rígur; stóðu Þórsnesingar og Álptfirðingar annars vegar, en Kjalleklingar og Eyrbyggjar hins vegar.

Helstir af Kjalleklingum um þessar mundir voru þeir bræður frá Bjarnarhöfn, Víga-Styr og Vermundur hinn mjóvi. Vermundur var friðsemdarmaður og flutti nokkru eptir aldamótin vestur í Ísafjörð, en Víga-Styr var tengdafaðir Snorra, svo að honum varð stundum eflaust mikill styrkur að fylgd hans.[1]) Snorri átti því eiginlega í litlum deilum við Kjallekling, en þeim mun meira kvað að deilum hans og Eyrbyggja í lok aldarinnar.

Eyrbyggjar voru niðjar Ásgeirs Vestarssonar á Eyri og konu hans, Helgu Kjallaksdóttur frá Bjarnarhöfn. Þau áttu son, er Þorlákur hjet. Hann giptist Þuríði Auðunardóttur stota og voru þeirra synir Steinþórr, Þórður blígur, Þormóður og Bergþórr.[2]) Steinþór var fyrir þeim bræðrum. Hann var hinn mesti atgervismaður, mikill og sterkur og talinn einhver hinn vígfimasti maður á Íslandi. Hinir fyrri frændur hans höfðu átt í deilum við Þórsnesinga og mun hafa verið töluverður metnaður á milli ættanna.

Steinþór bjó á Eyri (nú Hallbjarnareyri) í Eyrarsveit, en Þórður blígur á Knerri í Breiðuvík og Þormóður á Bakka í Helgafellssveit. Steinþór kemur lítið við söguna fyr en 997, en hans er fyrst getið 980. Hann var þá frumvaxta og hafði eigi átt hlut í neinum málaferlum, er mál varð um

---

[1]) Sbr. Eyrb. 28/49. [2]) Eyrb. 7/8, 12/14; Ldn. 9/91—92, 10/94; Hksb. 69/29—30; Stb. 81/151, sbr. Sturl. I, 1/88, Sturl.[3] I, 123. Í Mb. 21/238 (Ldn.[2]) er ætt þeirra talin öðru vísi; sonur Vestars og maður Helgu Kjallaksdóttur er nefndur Þorleikr geir. Þeirra sonur Þorleikur var giptur Þuríði Auðunardóttur og átti fjóra syni; en í stað Steinþórs er einn þeirra nefndur Þorleikur. Af þessu og því litla, sem segir í Lax. 3/6 um ættina, hefur Björn M. Ólsen getið til að Steinþór á Eyri hafi verið föðurbróðir þeirra Þórðar blígs og bræðra hans, en bróðir Þorláks Þorleikssonar (eða Ásgeirssonar eptir Eyrb. 12/14), en móðir Steinþórs hafi verið Helga Kjallaksdóttir, sbr. Aarb. f. n. Oldkh. 1905, bls. 87—93; en hann hefur nú fallið frá þessari tilgátu, Aarb. f. n. Oldkh. 1908, bls. 206.

víg Vigfúss í Drápuhlíð (983). Litlu síðar veittu Þorlákssynir Breiðvíkingum að máli.[1])

Vorið 997 bað Þorleifur kimbi Þorbrandsson úr Álptafirði á Þórsnesþingi Helgu Þorláksdóttur á Eyri. Þórður blígur bróðir hennar tók því svo, að hann brá Þorleifi um högg af grautarþvöru, sem hann hafði fengið þremur árum áður í Noregi og enn var óhefnt. Daginn eptir hefndi Þorleifur sín á Þórði með því að kasta sandtorfu í hnakkann á honum svo fast að hann fjell. Þorlákssynir brugðu sverðum og vildu hefna sín, en þeir voru brátt skildir. Steinþór var eigi viðstaddur, er þetta bar við, en hann og Snorri goði gerðu síðar um mál þetta.[2])

Um þetta leyti voru uppi í Breiðuvík bræður tveir, sem koma við sögu þessa. Annar þeirra hjet Björn og var kallaður Breiðvíkingakappi, en hinn Arnbjörn hinn sterki. Þeir voru Ásbrandssynir. Arnbjörn hafði lostið Þorleif kimba högg það, sem Þórður blígur brá honum um, og nú ætlaði hann að hefna sín fyrir höggið. Hann reið því með bræðrum sínum að Bakka í Hraunhöfn, þar sem Arnbjörn hafði reist bú, en Snorri goði var þar á ferð og reið eptir þeim. Þá er hann kom á Bakka, voru þeir Þorleifur að rjúfa húsin að Arnbirni, en hann bað þá frá að hverfa.[3])

Um haustið sendu Þorbrandssynir Egil þræl sinn fluguferð til Ásbrandssona og Þórðar blígs; þeir voru þá að knattleik að Leikskálavöllum í Breiðuvík; skyldi þrællinn vinna það til frelsis sjer að drepa einhvern þeirra. En þrælnum vildi slys til, og þeir Björn tóku hann höndum, höfðu af honum sannar sögur og drápu síðan.

Þá voru það lög, ef maður drap þræl fyrir manni, að færa skyldi eigandanum heim þrælsgjöldin, tólf aura silfurs og hefja ferð sína fyrir hina þriðju sól eptir víg þrælsins. Ef þessu boði var fullnægt, mátti eigi hefja málsókn um víg þrælsins.[4])

---

[1]) Eyrb. 18/21, 27/43—44, 29/51, 40/71, 43/79. [2]) Eyrb. 41/74—75. [3]) Eyrb. 39/70, 42/75—76; um Björn sjá Eyrb. 22/35, 29/50—52. [4]) Eyrb. 43/79. Þetta hafa verið eldri lög. Þau eru eigi til í Grágás, en ákvæðin

Breiðvíkingar tóku því það ráð að færa Þorbrandssonum þegar þrælsgjöldin. Þeir fóru saman 30 frá leiknum norður um Breiðuvíkurheiði og gistu að Eyri. Þaðan fór Steinþór með þeim með 30 manna og urðu þeir alls 80 manna, er þeir Víga-Styr og Vermundur hinn mjóvi höfðu komið til liðs við þá. Steinþór sendi þá mann til Helgafells, til að vita hvað Snorri goði tæki til ráða, en hann sat í öndvegi eins og um ekkert væri að vera. Steinþór hugði þá að hann ætlaði eigi að skipta sjer af ferð þeirra og ljet þá bræður, Björn Breiðvíkingakappa og Arnbjörn, vera eptir með fjórðung liðsins.

En er Steinþór kom á Kársstaði í Álptafirði var Snorri goði þar fyrir. Hann hafði sent nábúum sínum orð, er hann frjetti til ferða Steinþórs, og farið með lið sitt sjóleið inn Álptafjörð, er sendimaður Steinþórs var farinn; hafði hann og Þorbrandssynir 80 manna. Snorri vildi lofa Steinþóri að ná lögum, og gekk því inn með alt liðið, svo að eigi yrðu vandræði af vanstillingu manna. Steinþór festi þrælsgjöldin á hurðarklofann og nefndi votta að þau væru færð að lögum. Heimakona ein heyrði það og gekk í stofu og sagði hve vel honum hefði mælst. En þá fjekk Þorleifur kimbi eigi stilt sig og hljóp út og lagði spjóti til Þórðar blígs og særði hann í öxlina. Bræður Þorleifs og menn þeirra hlupu út á eptir honum, og hófst þá bardagi í túninu. Snorri goði fjekk þó stöðvað hann bráðlega og riðu þeir Steinþór burt. En í bardaga þessum varð Þóroddur Snorrason sár; hann var þá tólf vetra og hafði Steinþór sært hann. Þá er Snorri varð þess vís, veitti hann Steinþóri eptirför og börðust þeir þar skamt frá í skriðu nokkurri, er Geirvör heitir. Víga-Styr vann þar fyrst víg og vá mann einn úr flokki Snorra. En er Snorri sá það, brá hann honum um að hann skyldi hefna svo dóttursonar síns. Styr skipti þá um skildi sínum og gekk í lið með Snorra goða og drap annan mann úr liði Steinþórs.

---

i Grág. II. 379.395. um að bjóða gjöld fyrir þræls víg á hálfum mánuði hinum næsta, minna á þetta og ganga í líka átt.

Bardagi þessi var harður en eigi langur, því að þeir feðgar úr Langadal, Áslákur og Illugi hinn rammi komu með 30 manna og skildu þá með aðstoð Vermundar hins mjóva. Steinþór hafði barist í öndverðum flokki og sótt þar mest að sem Snorri var fyrir. Hann var auðsjáanlega mjög reiður Snorra, því að honum mun hafa þótt hann hafa beitt sig brögðum. Þá er Snorri rjetti fram höndina til griðasölu, er sagt að hann hafi höggið á hana, en höggið kom í stallahringinn, svo Snorri varð eigi sár. Þá kallaði Þóroddur Þorbrandsson að þeir skyldu eigi ljetta fyr en allir Þorlákssynir væru drepnir; en Snorri goði kvað grið skyldu haldast, ef Steinþór vildi; voru þá sett grið með mönnum þangað til hver kæmi heim til sín.

En nú er að segja frá Breiðvíkingum, að þeir spurðu brátt að Snorri goði hefði farið með fjölmenni til Álptafjarðar. Þeir riðu þá eptir Steinþóri sem ákafast og voru þeir á Úlfarsfellshálsi, þá er bardaginn var í skriðunni; var það sumra sögn að Snorri goði hafi sjeð þá Björn koma og fyrir því verið svo auðveldur í griðasölunni við Steinþór; en landslagið virðist benda á að svo hafi varla getað verið.[1]) Breiðvíkingar mættu þeim Steinþóri á Örlygsstöðum. Sagan segir að Björn hafi þá viljað að snúið væri aptur á móti þeim Snorra, en Steinþór rjeð að griðin voru haldin.

Bardagi þessi er kendur við Álptafjörð. Í honum fjellu fimm menn af Steinþóri og tveir af Snorra goða; en margir urðu sárir af hvorumtveggjum.[2])

Griðin stóðu eigi lengur en þangað til menn voru komnir heim frá fundinum, og voru því dylgjur miklar með mönnum. Um veturinn fyrir jól ætlaði Steinþór að sækja teinæring, sem hann átti í Þingskálanesi.[3]) Þeir voru alls níu saman og gengu Vigrafjörð á ís. Þar mættu þeir Þorbrandssonum við sjötta mann á leið til Helgafells. Þeir hlupu þar í sker eitt og höfðu þar vígi gott. Þá er

---

[1]) Kålund, Isl. 1, 453. [2]) Eyrb. 43—44/76—84. [3]) Það er austan á Þórsnesi, vestan til við mynni Álptafjarðar, sbr. W. G. Collingwood and Jón Stefánsson, Saga-steads of Iceland, bls. 83.

Þorlákssynir fóru fram hjá, skaut Þorleifur kimbi þegar spjóti í flokk þeirra og kom það á Bergþór Þorláksson miðjan. Eyrbyggjar sóttu nú að og hjó Steinþór fót undan Þorleifi kimba en vá Freystein bófa, fóstbróður þeirra Þorbrandssona,[1]) og svo lauk að þeir bræður fjellu þar allir af sárum. Steinþór vildi eigi vega að liggjandi mönnum og hjelt burt.

Sauðamaður Snorra hafði sjeð bardagann og sagði honum. Snorri brá við skjótt og flutti Þorbrandssyni heim að Helgafelli og græddi þá alla.[2])

Eptir þetta var atfaralaust með mönnum um veturinn, en það horfði til vandræða, ef þeir menn væru ósáttir, sem göfgastir voru þar á nesinu. Um vorið er leið að stefnudögum, mátti vænta þess að ófriðurinn mundi byrja að nýju. En þá gekst Vermundur hinn mjóvi fyrir því og ýmsir góðgjarnir menn með honum að grið væru sett og að sættir kæmust á. Málin voru lögð í gjörð og var Vermundur fyrir henni, og lauk hann upp gjörðinni á Þórsnesþingi um vorið (998). Mannalátum var jafnað saman og sömuleiðis sárum og atferðum, en skakki sá bættur, sem þótti á vera. Svo virðist sem Vermundi hafi tekist vel að gera um mál þessi, því að sætt þessi hjelst meðan þeir Steinþór og Snorri lifðu.[3]) Nokkru eptir þessa sætt fór Þorleifur kimbi, sem verið hafði hinn mesti ófriðarseggur, og Snorri bróðir hans til Grænlands.[4])

Hið sama sumar sem Eyrbyggjar og Álptfirðingar sættust, fór Snorri goði að Birni Breiðvíkingakappa að Kambi og ætlaði að taka hann af lífi fyrir það, að hann átti óhæfilegt vinfengi við Þuríði húsfreyju að Fróða, hálfsystur Snorra goða. Björn var að smíðum, er Snorra bar þar að garði. Hann hafði eigi vopn hjá sjer nema litla öxi og tálguknif mikinn. Þá er hann sá þá Snorra, gekk hann snúðugt á móti þeim. Hann tók annari hendi í kápuermi Snorra, en hinni hendi hnefaði hann knífinn sem honum

---

[1]) Eyrb. 31/54. [2]) Eyrb. 45/84—88. [3]) Eyrb. 46/88—89. [4]) Sjá að framan bls. 267, 278 o. ef.

var hægast að leggja fyrir brjóst Snorra, ef honum sýndist það ráð. Már Hallvarðsson var ætlaður til áverka við Björn, en honum fjellust hendur, er hann sá hve skjótlegur Björn var til meins við Snorra. Björn sneri á leið með þeim, en slepti eigi tökum fyr en Snorri hafði heitið honum griðum. Snorri bað hann að glepja eigi systur sína. Björn tók því vel, og til þess að vera viss um að freistast eigi til að finna hana, tók hann sjer far í Hraunhöfn um sumarið (998). Þeir urðu síðbúnir og fengu landnyrðing; spurðist því aldrei til þeirra austan hafs. En löngu síðar myndaðist sú sögusögn, að Guðleifur Guðlaugsson úr Straumfirði hefði ofarlega á dögum Ólafs hins helga hrakist á siglingu frá Írlandi langt vestur í haf og í útsuður, og komið þá til ókunnugs lands; þar hafi hann hitt gamlan mann, sem sagan segir að hafi verið Björn Breiðvíkingur, og hafi hann bjargað lífi þeirra Guðleifs.[1]) Sögusögn þessi er ein af sögnum þeim, sem mynduðust á miðöldunum um ókunnugt írskt land vestur af Írlandi.[2])

Snorri goði naut nú friðar við nágranna sína á meðan hann bjó að Helgafelli, en þaðan flutti hann búferlum hjer um bil tíu árum síðar að Tungu í Sælingsdal (líklega vorið 1008). Þá er kristni var í lög tekin vakti hann almenna athygli á alþingi sökum hins viturlega svars síns um reiði goðanna, og hann gerðist þá hinn helsti stuðningsmaður kristninnar á Vesturlandi. Í þjóðsögunni um Fróðárundur er hann líka látinn leggja á ráðin til þess að koma af reimleikunum að Fróðá.[3])

Eins og fyr er sagt komst Snorri goði í deilur við Borgfirðinga og var Þorsteinn Þorgilsson úr Hafsfjarðarey í liði með Illuga svarta tengdaföður sínum. Fyrir það reiddist Snorri honum. Þorsteinn var af ætt Rauðmelinga, fjórði maður frá Selþóri, og einn af þeim goðum, sem áttu að sækja Þórsnesþing. Vorið eptir fundust þeir Snorri á Þórsnesþingi og hafði Þorsteinn búið nokkur mál til þings. Synir

---

[1]) Eyrb. 47/88—91, 64/119—122. [2]) Sbr. að framan bls. 285—286.
[3]) Eyrb. 55/101—102.

Snorra og frændur Víga-Styrs eggjuðu hann þá á að eyða málum fyrir honum og gjalda honum fyrir þá svívirðingu, sem þeir Illugi höfðu gjört Snorra sumarið áður. Þá er Þorsteinn vildi flytja mál sín og ganga að vorþingisdóminum, gekk Snorri með mönnum sínum alvopnuðum fram á milli dómsins og Rauðmelinga, svo að þeir náðu eigi að komast að dómnum. Þá tókst bardagi með þeim, og fjellu sjö menn af Þorsteini og margir urðu sárir af hvorumtveggjum, áður en vinir þeirra gátu skilið þá og komið á griðum. Á mál þessi var sætst þegar á þinginu, og var Snorri „ósmár í öllum sáttmálum", því að hann vildi eigi að mál þessi kæmu til alþingis. Hann átti þá að svara þar fyrir víg Þorsteins Gíslasonar og sonar hans og þótti það nóg.

Þorsteinn Þorgilsson hafði að vísu fram öll mál sín á Þórsnesþingi, því að svo var til skilið í sætt þeirra Snorra, en hann fann til þess að hann hafði orðið aflvani fyrir Snorrungum og vildi eigi framvegis eiga hlut sinn undir þeim. Fyrir því tók hann um sumarið „Rauðmelinga goðorð úr Þórsnesþingi" og tók upp með frændum sínum þing í Straumfirði eins og fyr er sagt.[1])

Snorri goði kemur allopt við mál manna eptir þetta, bæði í hjeraði og á alþingi, eins og enn mun verða minst nokkuð á, að því leyti sem þess hefur eigi þegar verið getið. Hann bjó 23 vetur í Tungu eða til dauðadags,[2]) og segir sagan að hann hefði „fyrst heldr öfundsamt setr, meðan þeir lifðu stórbokkarnir, Þorsteinn Kuggason ok Þorgils Hölluson, ok enn fleiri hinir stærri menn, þeir er úvinir hans voru". Snorri varð ráðbani Þorgils Höllusonar líklega rjett eptir að hann flutti að Tungu,[3]) en Þorsteinn Kuggason fjell frá að eins fjórum eða fimm vetrum fyr en Snorri. Það getur verið að þeir hafi átt í deilum, þótt sögurnar greini eigi af þeim; orð Grettlu benda á, að eigi hafi ávalt verið vel með þeim.[4])

---

[1]) Eyrb. 56 103—105; sbr. að framan bls. 429—430. [2]) Í Eyrb. 65 122, 125 segir að hann hafi búið þar 20 vetur, en hann bjó þar lengur. [3]) Lax. 67 246—248. [4]) Grett. 49 178—179, 67 243, 68 244; Ann I, III, IV (1027).

Hins vegar má ætla að orð Eyrbyggju um, að óvinsældir Snorra hafi minkað, þá er hann tók að eldast, sjeu rjett. Öfundarmenn hans fækkuðu; og er börn hans uxu upp, batt hann tengdir við hina helstu menn í Breiðafirði og víðar, því að hann átti fjölda barna, eigi minna en níu dætur, er giptust, og tíu syni, er upp komust. Er þeirra vensla getið víða í Landnámu og einnig í Eyrbyggju. En þess ber þó að gæta að mörg af börnum Snorra urðu fyrst uppkomin, þá er hann var fallinn frá.

Snorri andaðist í Sælingsdalstungu vorið 1031 og var hann þá hjer um bil 67 ára.[1])

---

## Niðjar Þórðar gellis. Laxdælir og Guðrún Ósvífrsdóttir.

Laxdæla saga er sú af hinum fornu ættarsögum, sem nær um lengst skeið á Íslandi. Eins og Egils saga og Eyrbyggja hefst hún fyrir landnám, en Egils sögu lýkur um árið 1000 og úr Eyrbyggju dettur botninn nokkru eptir að Snorri goði flutti að Sælingsdalstungu; þó er þar skýrt frá andláti hans og börnum og giptingu þeirra. En Laxdæla saga þrýtur eigi fyr en við lok söguaidarinnar, og hún segir allítarlega af fjórum ættliðum í þeirri kynkvísl Ketils flatnefs, sem staðfestist í Dölunum, þótt flest greini hún af Kjartani Ólafssyni og Guðrúnu Ósvífrsdóttur. Fyrir því eru Dalirnir alla söguöldina eitt af hinum sögurikustu hjeruðum landsins, einkum Hvammssveitin og Laxárdalurinn. Eptir daga Þórðar gellis var þó enginn höfðingi í Dölunum, er hefði jafn-

---

[1]) Eyrb. 65/122—124, sbr. 125—126 (Mb.); Lax. 78/286; Grett 76/268; Ann. I, III, IV.

mikil áhrif á stjórnarskipun landsins sem hann; en höfðingahjón sem Ólafur pái og Þorgerður kona hans, fóstbræður sem Kjartan og Bolli og hin hörmulegu forlög þeirra, og eigi síst kona sem Guðrún Ósvífrsdóttir eru öll einkennileg og merkileg hver á sinn hátt.

Eptir fráfall Þórðar gellis virðist ríki hans hafa hnignað. Hann ljet eptir sig þrjá syni, Eyjólf hinn gráa, Þórarin fylsenni[1]) og Þorkel kugga. Af þeim var Eyjólfur mestur atkvæðamaður og er hann talinn með helstu höfðingjum landsins 981; en hann fór vestur í Arnarfjörð og reisti bú í Otrardal um 960. Hann kemur bæði við Gísla sögu Súrssonar og fáeinar aðrar sögur, en við sögu Dalamanna er hans eigi getið. Hann átti þrjá syni, og var Þorkell þeirra merkastur. Annar sonur hans var Bölverkur, faðir Eyjólfs, málaflutningsmanns brennumanna, og Gellis lögsögumanns. Eyjólfur grái varð gamall maður og var hann skírður í elli, þá er kristni kom á Ísland.[2]) Þórarinn fylsenni bjó í Hvammi eptir föður sinn og erfði þar hof eptir hann og að líkindum goðorð hans einnig, en hans er þó eigi getið að neinu sem yfirmanns þeirra Dalamanna; heldur telur Laxdæla Ólaf pá mest fyrir Dalamönnum í þá tíð. Eptir Þórarin bjó Skeggi sonur hans í Hvammi, og er hans þar getið um 1014.[3]) Þorkell kuggi Þórðarson átti Þuríði Ásgeirsdóttur æðikolls, en annars fara engar sögur af honum. Hann varð eigi gamall maður. Hann mun hafa búið í Ljárskógum, rjett við Hvammsfjörðinn, að norðanverðu við Laxárdalsmynni. Þar bjó Þorsteinn sonur hans, og hafði hann tekið við búi, þá er Kjartan Ólafsson

---

[1]) Finnur Jónsson leiðir auknefni þetta af fyl, folald. Årb. f. nord. Oldkh. 1907, bls. 198. Björn M. Ólsen ætlar það dregið af fýll, sæfuglsheiti. Årb. f. n. Oldkh. 1908, bls. 187. Í orðabókum yfir fornamálið er fýll eigi talinn, en fýlingr kemur fyrir í fornum kveðskap. Upp í sveitum eru folöld algeng en fýlar eigi. Þeir eru í eyjum og fuglabjörgum. Svo var einnig í fornöld. [2]) Íslb. 19; Ldn. 17/113, 25/138. 28/147; Lax. 7/15; Eyrb. 13/15, 125. [3]) Krist. 2/6. sbr. að framan bls. 324; Lax. 37/132—134; Korm. 12/26; Grett. 26/102.

var veginn; mun Þorkell þá hafa verið fallinn frá, því að litlu síðar giptist Steingrímur Ólafsson Þuríði ekkju hans [1])

Aptur á móti virðist vegur Laxdæla hafa verið mestur á síðasta fjórðungi 10. aldar, og framan af 11. öld, einkum á meðan Ólafs Höskuldssonar naut við. Hann var mikill rausnarmaður. Erfi það, sem hann gerði með bræðrum sínum eptir föður þeirra, var orðlagt og einnig hve vel hann húsaði bæ sinn. [2]) Hann mun hafa verið einhver hinn glæsilegasti höfðingi á Íslandi í sinni tíð; hann virðist einnig hafa verið stjórnsamur maður og reynt að eyða vandræðum og stilla til friðar með mönnum. Í fyrstu var nokkur fæð með honum og Þorleiki bróður hans út af dýrgripum, sem faðir þeirra gaf Ólafi á deyjanda degi. En Ólafur bætti úr því með því að taka Bolla son Þorleiks til fósturs. [3])

Þau Ólafur og Þorgerður Egilsdóttir áttu mörg börn, en frægastur sona þeirra var Kjartan. [4]) Hann var snemma afbragð annara manna að fríðleik og vexti, íþróttum og styrkleik, en næstur honum þótti Bolli frændi hans vera þar í sveitinni. Þeir fóstbræður unnust mikið. [5])

Um þetta leyti bjó Ósvífur hinn spaki Helgason að Laugum í Sælingsdal. Hann var þriðji maður frá Birni austræna og voru þeir Ólafur pái báðir komnir af Katli flatnef, svo að þeir voru fjórða og fimta að frændsemi. Ósvífur átti marga syni; [6]) var nafnkendastur þeirra Óspakur,

---

[1]) Lax. 40/140, 50/196, 52/200. [2]) Lax. 29/98—99. [3]) Lax. 26—27/90—94. [4]) Lax. 24/83, 28/94 telur börn þeirra Ólafs níu: Kjartan, Steinþór, Halldór, Helgi, Höskuldur, Þuríður, Bergþóra, Þorgerður og Þorbjörg digra. Í Ldn. 18/114 er Helgi og Höskuldur eigi nefndir, en fjórði sonurinn nefndur Þorbergur. Af dætrunum er Þorgerður eigi nefnd. Í Eg. 78/283 eru börn þeirra einnig talin sjö. Í Ól. Trygg. 270 (= Fms. I, 123/249; Flat. I. 219/266) er einn sonur þeirra nefndur Egill. Í Ldn. s. st. er sagt að Höskuldur ætti tvo syni með Melkorku, Ólaf pá og Helga. [5]) Lax. 28/95—96. Gunnl. 1/191. [6]) Í Lax. 32/107, 48/187 eru Ósvífrssynir taldir fimm: Óspakur, Helgi, Vandráður, Torráður og Þorólfur, og eins er gert í Krist. 6/11, en þar er einn þeirra nefndur Áskell en Helga slept. Í Ldn. 11/95 eru Ósvífrssynir taldir sex: Ospakur, Þórólfur og Torráður sem í Lax. og Krist., en hinir þrír eru nefndir Einar, Þorbjörn og Þorkell, sbr. Hksb. 72/31; Stb. 84/152. Ósvífur er eigi talinn með höfðingjum og hefur varla verið eins merkur

af því að af honum voru komnir hinir merkustu menn í Noregi, Úlfur stallari og niðjar hans.

Ósvífur átti einnig eina dóttur, er Guðrún hjet. Hún er einhver hin nafnkunnasta og merkilegasta kona, sem uppi var á söguöldinni. Hún var fjórgipt og mjög reynd. Hún lifði fjórða mann sinn lengi og varð háöldruð. Frá öllum giptingum hennar segir í Laxdælu. Skapi hennar er lýst, ást, öfund, hatri og hefnd; sömuleiðis elliárum hennar, iðrun og bænum, trú og huggun. Fyrir því er fleira kunnugt um hana en flestar aðrar fornkonur vorar, enda þótt Laxdæla sje miklu fremur söguleg skáldsaga, en sönn saga, eigi síst eptir að þau Kjartan og Guðrún koma bæði til sögunnar.

Guðrún Ósvífrsdóttir var óvenjulega miklum og mörgum hæfileikum búin, bæði andlegum og líkamlegum. Hún var fríð sýnum og sómdi sjer kvenna best. Hún var skapmikil, örlynd og tilfinningarík. Hún var sköpuð til að elska; hún var aðlaðandi og gat verið mjög yndisleg og jafnvel tignarleg, en hún var líka kæn, heiptúðug og hefndargjörn og vann því ýms mjög ill verk. Hún kunni líka að stilla sig, jafnvel svo undrun sætir, þá er henni var mikið niðri fyrir og hún vildi ná sjer niðri á mönnum. Hún var vitsmunakona, en hún notaði eiginlega eigi vel vit sitt fyr en á efriárum, þá er lífsreynslan hafði kent henni það; hins vegar komu vitsmunir hennar fram þegar á yngri árum, svo að vitrum mönnum þótti snemma ánægja að tala við hana, enda var hún líka vel orði farin.[1])

Guðrún var fædd um 974. Þá er hún var tvítug, var hún orðin ekkja í annað sinn. Faðir hennar hafði gipt hana til fjár fimtán vetra gamla auðugum manni, Þorvaldi Halldórssyni í Garpsdal. Guðrún unni honum ekki og var honum mjög erfið. Sagan segir að hún hafi viljað láta hann eyða ógrynni fjár til þess að kaupa gripi fyrir og

---

maður eins og sumir hafa ætlað eptir sögn Laxdælu. Hann virðist eigi hafa verið neinn friðsemdarmaður nje sjerlegt göfugmenni. Hann gipti dóttur sína til fjár og hann hjelt eigi sonum sínum frá vandræðum. En hann þótti stundum forspár og hann var kallaður hinn spaki.

[1]) Sbr. Lax. 32/107.

gersemar handa sjer. Eptir tvö ár skildi hún við hann og giptist Þórði Ingunnarsyni, sem hún fjekk til þess að skilja við konu sína. Þórður var sonur Glúms skálds Geirasonar. Hann var vaskur maður og vel að sjer gjör. Sambúð þeirra hjóna var góð, en skammvinn, því að tveimur árum síðar druknaði Þórður.[1])

Guðrúnu varð eðlilega mikið um lát manns síns. Hún var þá eigi heil og var komin að því að ala annað barn sitt. Það var sveinn, sem var nefndur Þórður eptir föður sínum. Snorri goði bauð henni til sæmdar og huggunar að fóstra barn þetta og þá hún það.

Guðrún var að Laugum, þá er þetta var. Hún hafði farið heim til föður síns, er hún fór úr Garpsdal, og þangað hafði Þórður flutt, er hann gekk að eiga hana, og bjó hann þar með föður hennar. En nú segir eigi af Guðrúnu um hríð, eigi fyr en sorg hennar var yfirunnin, nýir menn komnir til sögunnar og nýjar vonir og ný ást vöknuð hjá henni.

Um þetta leyti voru synir Ólafs Höskuldssonar í Hjarðarholti og Bolli fóstbróðir þeirra allir uppkomnir menn eða frumvaxta. Sagan segir að þeir Kjartan og Bolli hafi opt farið til Sælingsdalslaugar[2]) og hitt þar Guðrúnu. Kjartani þótti gott að tala við hana og henni mun eigi heldur hafa þótt minna varið í að tala við hann, sem var þá hinn fríðasti og glæsilegasti maður á meðal ungra manna á Íslandi. Segir sagan að svo hafi hittst á að Guðrún hafi jafnan verið við laugina, þá er Kjartan kom þangað, og sýnir það, ef það er rjett, hve gjarnan hún hefur viljað að fundum þeirra bæri saman. Annars mun þeim hafa verið kunnugt hvort um annað og þau munu að líkindum hafa sjest einhvern tíma áður en fundum þeirra bar saman við laugina, því að

---

[1]) Lax. 34/115—117, 32/108, 35—36/119—125; Ldn. 21/128, 11/95—96, 17/113, 20/234. Í Ldn. eru bæði börn þeirra nefnd, Arnkatla og Þórður köttur, en Lax. getur að eins um Þórð. [2]) Um laugina sjá Kålund. Isl. I, 479.

vinátta var með frændsemi á milli feðra þeirra, og þeir skiptust árlega á heimboðum.[1])

Þau Kjartan og Guðrún urðu brátt ástfangin hvort af öðru, en annaðhvort var hann eigi eins ákveðinn í tilfinningum sínum og hún, eða honum var eigi enn eins ljóst um ást sína sem henni, því hann bað hennar eigi. Hjá honum kviknaði líka löngun til þess að fara utan og framast, áður en hann bætti ráð sitt. Hann fór því suður í Borgarfjörð og heimsótti Þorstein Egilsson móðurbróður sinn; þar tók hann sjer far með íslenskum farmanni, er Kálfur hjet og var sonur Ásgeirs æðikolls[2]) Laxdæla segir að Kjartan hafi keypt hálft skip af Kálfi og að hann hafi ákveðið utanferð sína án vitundar föður síns; er það að líkindum sagt

[1]) Lax. 39/138—139, sbr. 46/172. [2]) Í Ldn. 32/157—158; Hksb. 130/52; Stb. 161/176 segir að Ásgeir æðikollur væri sonur Önundar trjefóts og bróðir Grettis, Þorgeirs flöskubaks og Þorgríms hærukolls, afa Grettis hins sterka. Þar eru börn Ásgeirs æðikolls talin þrjú, Kálfur, Hrefna, er Kjartan átti, og Þuríður, er Þorkell kuggi átti og síðar Steinþór Ólafsson. Í Lax. 40/140, (Fms. II, 158/23—24, Flat. I, 258/309), sbr. Biskupa ættir, Isl. I, 357—358, er sagt, að Ásgeir æðikollur hafi búið að Ásgeirsá í Víðidal og að hann væri sonur Auðunar skökuls. Rit þessi blanda saman tveimur mönnum, Ásgeiri æðikoll Önundarsyni og Ásgeiri að Ásgeirsá, syni Auðunar skökuls, sem nefndur er í Ldn. 1/171—172; Hksb. 143/58; Stb. 177/181 og er einn maður gerður úr þeim og börn þeirra beggja talin börn Ásgeirs að Ásgeirsá. Hann átti Jórunni Ingimundardóttur hins gamla. Börn þeirra eru talin þrjú í Ldn.: Þorvaldur, faðir Döllu, konu Ísleifs biskups, Auðun, faðir Ásgeirs, föður Auðunar, föður Egils, tengdasonar Eyjólfs Guðmundssonar á Möðruvöllum, og Þorbjörg bekkjarbót eða bæjarbót. Í Vatn. 29/49 er Jórunn Ingimundardóttir sögð móðir Kálfs og Hrefnu og Þorbjargar. Í Grett. 11/26—27 er ættum þessum blandað saman á þann hátt, að Auðun skökull er látinn eiga ekkju Önundar trjefóts, sem er þar sagður tvígiptur og þriggja sona faðir. Á síðari kona hans að hafa verið móðir Þorgríms hærukolls, en með Auðuni skökli á hún að hafa eignast Ásgeir að Ásgeirsá. Þetta hefur vilt ýmsa vísindamenn, en það er engin sönnun fyrir því, að þetta sje rjett, og það er á móti frásögn Ldn., sem greinir rjett ættir þessar í sundur. Í þætti af Þorsteini skelk, Fms. III, 199, Flat. I, 416, er Ásgeirunum einnig blandað saman á þann hátt að Ásgeir Auðunarson að Ásgeirsá er kallaður æðikollur, en það var auknefni Ásgeirs Önundarsonar. Um ættir þessar sjá Björn M. Ólsen, Årb. f. nord. Oldkh. 1908, bls. 211—221.

til þess að gera sem mest úr Kjartani, því að eigi er líklegt, að hann hafi sjálfur haft fje til þess að kaupa hálft skip. Sagan segir einnig að bæði föður hans og Guðrúnu þætti hann hafa ráðið skjótt ferð sína. Faðir hans kvaðst þó eigi mundu bregða henni og má vera að söguritarinn eigi þar sjerstaklega við skipskaupið. Kjartan bað Guðrúnu að láta sjer þetta eigi mislíka og lofaði henni að gjöra annan hlut, svo að henni þætti vel. Guðrún bað hann þá um að hún mætti fara utan með honum, „því at ekki ann ek Íslandi“. En Kjartan vildi það eigi, og bar því við að sögn Laxdælu, að bræður hennar væru óráðnir og faðir hennar gamall, og að þeir væru allir forsjá sviptir, ef hún færi af landi brott. Það er auðsætt að þetta er rangt, því að bræður hennar voru orðnir svo þroskaðir 997, að þeir sóttu þá Stefni Þorgilsson til sektar á alþingi, og þó tók Óspakur, sem var þeirra elstur, eigi þátt í því. Sagan segir einnig að Kjartan hafi beðið Guðrúnu að bíða sín þrjá vetur og að hún hafi engu heitið um það. Síðan skildu þau svo, að sinn veg þótti hvoru þeirra.[1])

Þeir Kjartan og Kálfur Ásgeirsson fóru utan um sumarið, og var Bolli með Kjartani og tíu menn aðrir að sögn Laxdælu. Þeir komu til Niðaróss og voru þar um veturinn. Þar tóku þeir kristni og komust eptir það í viðkynningu við Ólaf konung Tryggvason.[2])

Laxdæla saga segir að Bolli hafi farið út til Íslands með þeim Gissuri hvíta og Hjalta Skeggjasyni, en annars staðar greinir eigi af útkomu hans.[3]) Laxdæla setur utanferð Kjartans árið 996, en útkomu Bolla 999; hún lætur Kjartan sitja veturinn eptir í gíslingu hjá Ólafi konungi og frjettina um kristnitökuna koma vorið eptir til Noregs; hafi þá allir gíslarnir fengið heimfararleyfi. En utanferð Kjartans var eptir

---

[1]) Lax. 40/140—142, sbr. útdráttinn úr Lax. i Fms. II, 159 24—25. [2]) Sjá að framan bls. 369 o. ef. [3]) Ef svo hefur verið er það þó næsta undarlegt, að Bolli skyldi eigi bjóða sig fram af hendi kristinna manna með Gesti Oddleifssyni fyrir Vestfirðingafjórðung; en vera kann að frásögn Kristni sögu og Ólafs sögu hinnar meiri um blót heiðinna manna og sigurgjöf kristinna manna sje eigi áreiðanleg.

sögn Odds munks 998 og eptir sögn Kristni sögu og Snorra Sturlusonar 999; svo framarlega sem það er rjett að Ólafur Tryggvason hafi tekið Íslendinga í gíslingu eins og fyr er sagt og að Kjartan hafi verið einn af þeim, þá hefur hann farið utan annaðhvort 998 eða 999, en eigi þá er Laxdæla segir[1])

Laxdæla gefur einnig í skyn, að Ingibjörgu Tryggvadóttur systur konungs hafi litist vel á Kjartan og segir að vinátta hafi verið á milli þeirra; hafi konungur eigi heldur ætlast til að Kjartan færi til Íslands, en látið hann skilja að hann mundi gefa honum systur sína. Enn fremur lýsir sagan skilnaði þeirra Kjartans og Ingibjargar; á konungsdóttir þá að hafa látið í ljós óánægju sína við Kjartan yfir því að hann færi á brott, líkt og Guðrún gerði, en á miklu hóglegri hátt og þýðari. Segir sagan, að hún hafi gefið honum hvítan motur gullofinn og guðvefjarpoka að geyma hann í með þeim orðum, að hann mundi gefa Guðrúnu Ósvífrsdóttur moturinn að bekkjargjöf. Sagan lætur þau skilja með söknuði og blíðu.[2])

Laxdæla segir að þetta hafi verið vorið eptir að kristni var í lög tekin, en af því að hún segir eigi neitt af Ólafi Tryggvasyni eptir þetta, er eigi hægt að vita með vissu, hvort höfundurinn hefur ætlað að þetta hafi verið síðasta vorið, sem Ólafur konungur lifði. Þó er það líklegt.

Veturinn 999—1000, sem þeir Gissur og Hjalti, Kjartan og að sögn Laxdælu einnig Bolli Þorleiksson, voru hjá Ólafi Tryggvasyni, komu sendimenn frá Rögnvaldi jarli Úlfssyni á Vestra Gautlandi til Ólafs konungs að biðja Ingibjargar systur hans. Konungur tók vel erindi þeirra, og ljet Rögnvald jarl koma til móts við sig sumarið eptir. Jarl tók þá

---

[1]) Tímatal Laxdælu er mjög rangt, sbr. einkum formála Kr. Kålunds fyrir fyrri útgáfu hans af Lax. (Kbh. 1889—1891) og Safn I, 340—351, 442—444, 450—456. Líklega þarf eigi að efast um það, að Ólafur Tryggvason hafi tekið nokkra Íslendinga í gíslingu. Um Lax. sjá F. Jónsson, Litteraturhist. II, 444—453 og A. U. Bååth, Studier öfver kompositionen i några isländska ättsagor. Lund 1885, bls. 42—88. [2]) Lax. 40—41/142—155, 43/159—162.

kristni, og konungur gipti honum Ingibjörgu systur sína, eins og Sighvatur skáld getur um í flokki þeim, er hann orti um Erling Skjálgsson.[1]) Það eru því engin líkindi til að frásaga Laxdælu um samdrátt milli konungsdóttur og Kjartans og væntanlega giptingu þeirra sje sönn; er enda mjög efasamt að hún hafi gefið honum moturinn, en ef svo hefur verið, þá hefur hún gefið honum hann á annan hátt en Laxdæla segir. Aptur á móti er miklu líklegra, að Kjartan hafi sjálfur keypt motur mjög dýrmætan og ætlað að gefa Guðrúnu hann, er hann kæmi aptur til Íslands, og gera þá „hlut, svá at henni þætti vel“; má slíkt ásamt söguburði Bolla hafa gefið tilefni til þess að sögusögnin um moturinn myndaðist.

Það er auðsætt að Bolli hefur orðið ástfanginn af Guðrúnu, þá er hann kom til Lauga. Sökum þess hefur hann, sem ávalt var vanur að fylgja Kjartani, notað tækifærið til þess að fara á undan honum út til Íslands, þá er Kjartan var tekinn í gislingu. Skömmu eptir að hann var kominn heim í Hjarðarholt, reið hann til Lauga til þess að heilsa þar og finna Guðrúnu. Hann segir henni þá hve mikils Kjartan sje metinn í hirð konungs og að vinátta sje milli hans og Ingibjargar konungssystur. Hann lætur á sjer skilja að Kjartan muni staðfestast í Noregi og „kvað þat nær sinni ætlan at konungr mundi heldr gipta honum Ingibjörgu en láta hann lausan, ef því væri að skipta“. Þótt Bolla hafi eigi farist orð eins og sagan segir, er þó auðsætt, að hann hefur sagt Guðrúnu ósatt af Kjartani, til þess að geta fengið hennar sjálfur; er því líklegt að hann hafi sagt henni að hann ætti að fá systur konungs, og að sagan um Kjartan og konungsdóttur hafi myndast af orðum hans á Íslandi. Eptir þetta kom Bolli opt til Lauga að tala við Guðrúnu og síðar um sumarið tók hann að biðja hennar. Guðrúnu þótti tíðindi þau ill, sem Bolli sagði henni af Kjartani, þótt hún ljeti lítið á því bera, en bónorði Bolla svaraði hún svo í fyrstu, að hann þyrfti eigi að ræða um giptingu við sig, því

[1]) Hkr. II. 22/29 sbr. 28 nm., 67/100—101; Fms. II. 224 221. 241/284.

að hún mundi engum manni giptast meðan hún spyrði Kjartan á lífi. Síðar um sumarið kom þó Bolli með miklu föruneyti að biðja hennar, og fjekk hennar fyrir fylgi föður hennar og bræðra; en Guðrún var þó mjög treg til þess segir sagan. Hvað sem satt er í frásögn þessari, má þó nærri geta að Guðrúnu hefur runnið í skap við Kjartan; er því eigi ólíklegt að hefndargirnd hennar hafi ráðið nokkru, ef til vill miklu, er hún tók Bolla. Hún var ekkja og átti sjálf að ráða sjer. Hún var einnig svo mikil fyrir sjer að hún hefði getað fengið vilja sínum framgengt, ef reiðin og hefndarhugurinn hefði eigi gjört hana veikari fyrir. Hins vegar mátti hún vita að Kjartan sat eptir í gislingu, því að það fór eigi leynt.

Þau Bolli og Guðrún giptust litlu síðar um veturnáttaskeið að Laugum og flutti hann þá þangað.

Í Laxdælu segir, að ekki væri margt í samförum þeirra af hendi Guðrúnar, en það er eigi alls kostar rjett. Guðrún hefur að líkindum verið stirð við Bolla stundum, þá er hún fjekk eigi ráðið við skap sitt, harm sinn eptir Kjartan og afbrýðissemi. En Bolli elskaði Guðrúnu og var henni eptirlátur, og sjálf var hún ástrík að eðlisfari. Laxdæla segir að þau ættu tvo syni, en af Landnámu sjest að þau áttu sex börn, fjóra syni og tvær dætur, og þau voru eigi gipt lengur en sjö ár, og ef til vill eigi svo lengi.[1])

Á milli útkomu Bolla og Kjartans hefur liðið einn vetur eins og segir í Laxdælu; að öðrum kosti hefði Kjartan komið í tæka tíð til að fá Guðrúnar. Þótt það frjettist til Noregs sumarið 1000 að kristni væri í lög tekin á Íslandi, er ólíklegt að þeir Kjartan og Kálfur hafi verið undir það búnir að fara þegar til Íslands um haustið, enda var það eigi siður að leggja um haustíma í haf til Íslands. Það er líklega rjett sem segir í Laxdælu að þeir Kjartan og Kálfur hafi komið út saman, og það virðist hafa verið um hásumarskeið 1001. Á meðan Kjartan var í Noregi, fór Kálfur kaupferð til Englands og mun hann ekki hafa lagt fyr af stað

---

[1]) Lax. 42—43/156—159, 52/198, 56/211; Ldn. 17/113.

frá Noregi í ferð þá, en hann hafði tekið kristni, eða líklega um sama leyti, sem Bolli fór til Íslands.[1]) Kjartan hefur því verið utan tvo vetur (999—1001) eða í mesta lagi þrjá (998—1001), en þó líklega að eins tvo.

Þá er Kjartan kom til Íslands, spurði hann gjaforð Guðrúnar og brá hann sjer eigi við það, segir sagan, því að slíkt þótti eigi karlmannlegt. En það kom þó brátt í ljós, að hann tók sjer missi hennar nærri. Guðrúnu þótti eigi heldur minna fyrir að missa hann og mælti um við Bolla, að hann hefði eigi sagt sjer alt satt um útkomu Kjartans. Um haustið var heimboð að Laugum og fór Kjartan þangað fyrir bænastað föður síns. Bolli tók honum með blíðu og vildi halda vináttu við hann og bæta það eptir föngum, sem hann hafði brotið við hann, því að í raun rjettri unni hann Kjartani sem bróður sínum, þótt ást hans til Guðrúnar væri ríkari. Bolli vildi gefa Kjartani ágæt stóðhross, og þótti slík gjöf mjög virðuleg í þá daga, en Kjartan var eigi slíkt mikilmenni, að hann gæti tekið mótgjörð Bolla með fullkominni rósemi og fyrirgefið honum. Hann var því afundinn við hann og vildi eigi þiggja gjafir af honum. Um veturinn var Kjartan fár, þangað til Þuríður systir hans talaði um fyrir honum og fjekk hann til að biðja Hrefnu Ásgeirsdóttur, systur Kálfs, og giptust þau um vorið.[2])

Kvonfang Kjartans hafði afarmikil áhrif á skap og atferli Guðrúnar. Hún unni Kjartani og var ef til vill eigi enn vonlaus um að fá að njóta hans þótt seinna væri. Hún var of eigingjörn og metnaðarfull til þess að geta tekið giptingu Kjartans rjettilega; þetta kom fram um haustið í heimboði að Hjarðarholti. Þar heyrði hún Kjartan segja, að Hrefna skyldi sitja í öndvegi og vera mest metin. Guðrún hafði áður skipað þar öndvegi, og nú leit hún til Kjartans og brá lit. Ástatilfinningar hennar snerust upp í afbrýði og öfund, heipt og hefndargirni; nú tók hún að beita brögðum og undirferli gegn Hrefnu og Kjartani. Í veislu

[1]) Lax. 41/152. 43/160. [2]) Lax. 44/163. 44/165. 44/166—167. 45/167—171.

þessari stal Þórólfur, yngsti bróðir hennar, hinu góða sverði Kjartans, sem Ólafur Tryggvason hafði gefið honum; er mjög líklegt að það hafi verið að ráði Guðrúnar eða að minsta kosti að vitund hennar og vilja. Sverðið fanst, en umgjörð þess eigi, og gat Kjartan því eigi borið það. Litlu síðar um haustið hvarf af völdum Guðrúnar motur Hrefnu í heimboði að Laugum, því að hún gat eigi þolað að Hrefna skartaði með honum. Kjartan talaði þá um hvörf þessi, áður en hann fór heim, og veik máli sínu að Bolla að sögn sögunnar. Hann var eflaust saklaus, en varð nú að halda uppi svörum fyrir sig og heimili sitt. Guðrún svaraði þá Kjartani þrungin af reiði, og gaf í skyn, að hún hefði sett ráð til að moturinn skyldi hverfa; einnig kvað hún að sögn Laxdælu, að sjer þætti eigi illa, þótt Hrefna hefði litla búningsbót af motrinum.[1])

Eptir þetta fyltist Kjartan svo mikilli heipt í garð þeirra Laugamanna, að hann fjekk eigi stilt sig nje gætt hófs. Um veturinn eptir jól fór hann með 60 manna til Lauga, tók allar dyr á húsum og sat um bæinn og dreitti menn inni í þrjár nætur. Þetta var hin mesta svívirðing. Nokkru síðar bannaði Kjartan Þórarni Þórissyni í Sælingsdalstungu að selja Bolla land sitt, en keypti það sjálfur svo að Þórarinn biði engan skaða. Fyrir þetta hvorttveggja ljet Guðrún bræður sína og Bolla sitja fyrir Kjartani við níunda mann í Hafragili í Svínadal, þá er hann kom við þriðja mann vestan úr Saurbæ. Bolli hafði eigi gleymt frændsemi við Kjartan nje ástúð föður hans við sig og vildi eigi fara að Kjartani. En Guðrún neyddi hann til þess með því að hóta honum skilnaði að öðrum kosti. Hann vildi eigi heldur vega að frænda sínum og stóð hjá á meðan þeir börðust. En er Óspakur sá að þeir bræður mundu eigi bera af Kjartani, eggjaði hann Bolla. Hann brá þá sverði og veitti Kjartani banasár. En hann iðraðist þess þegar og settist undir herðar honum og andaðist hann í knjám Bolla. Hann færði síðan lík Kjartans og Áns fylgdarmanns hans heim í

---

[1]) Lax. 46/171—179.

Tungu. Sagan segir að þetta hafi verið á fimtudegi í páskaviku og bar þann dag árið 1003 upp á 1. apríl. en það ár mun víg Kjartans hafa verið.[1])

Guðrún ljet vel yfir vígi Kjartans, en mest þótti henni vert, „at Hrefna mundi eigi ganga hlæjandi at sænginni í kveld“. Þá segir sagan að Bolli hafi reiðst og sagt: „Ósýnt þykki mér, at hún fölni meir við þessi tíðindi en þú, ok þat grunar mik, at þú brygðir þér minnr við, þó at vér lægim eptir á vígvellinum, en Kjartan segði frá tíðindum“. Guðrún þakkaði þá Bolla verkið og sefaði reiði hans.[2])

Ólafi Höskuldssyni varð mikið um víg sonar síns, en þó tók hann því með slíkri stillingu, að hann bannaði sonum sínum að fara að Bolla; „er mér ekki sonr minn at bættri, þó at Bolli sé drepinn“. Aptur á móti ljet hann þá fara til móts við Þórhöllu syni, sem voru að vígi Kjartans og sendir voru til Snorra goða að biðja hann liðs. Ólafssynir drápu þá.

Ólafur rjeð einn öllu um fje og mannsektir fyrir víg Kjartans og gerði hann Ósvífrssyni seka á Þórsnesþingi. Til þess að þeir væru ferjandi af landi brott var gefið fje, og máttu þeir eigi koma út aptur á meðan nokkur bræðra Kjartans væri á lífi eða Á s g e i r sonur hans [3]) Ólafur vildi eigi dæma Bolla sekan og ljet hann koma fje fyrir sig. Einnig leyfði hann honum að kaupa Tungu, en sonum hans líkaði illa hlífð hans við Bolla.[4])

Ólafur pái lifði einungis þrjá vetur eptir þetta. og gerð-

[1]) Lax. 47—49/179—191: Fms. II. 233/256—257. Elstu annálar setja víg Kjartans árið 1003. Ann. I, III, IV, einnig IX. en Ann. V og VIII 1004. [2]) Lax. 49/192. [3]) Í Lax. 47/180, 50—51/196 er þess að eins getið að Kjartan ætti einn son, Ásgeir. en í Ldn. 18/114. Stb. 105/159, sbr. Ól. Trygg. 270 (= Fms. I. 123/249) er sagt, að þau Kjartan og Hrefna ættu tvo syni. Ásgeir og Skúm, sbr. einnig ættartölur, Ísl. I. 358. Þetta bendir á að þau hafi verið lengur gipt en segir í Lax., nema að þeir Ásgeir og Skúmur hafi verið tvíburar eða að Skúmur hafi fæðst sjö til átta mánuðum eptir víg föður síns. Guðbr. Vigfússon ætlar að Skúmur hafi verið auknefni Ásgeirs og að Kjartan hafi einungis átt einn son. Ástæðan, sem hann færir fyrir því, er röng. Safn I. 443. [4]) Lax. 49—51/193—197.

ist Halldór sonur hans þá bóndi í Hjarðarholti. Hann virðist einnig hafa fengið goðorð eptir föður sinn, en goðorðin verða heldur mörg í Þórsnesþingi um þetta leyti, ef marka má það, sem sögurnar segja um þau; hefur þar eigi alt farið að lögum.[1]) Þorgerður Egilsdóttir lifði mann sinn og bar hún þungan heiptarhug til Bolla, enda var hún skaphörð.[2]) Veturinn eptir andlát Ólafs reið hún með sonum sínum á móts við Sælingsdalstungu, sneri hesti sínum upp að bænum og spurði þá hvað sá bær hjeti og hver þar byggi; eggjaði hún þá síðan svo alvarlega, að þeir fóru að Bolla um sumarið og vógu hann (líkl. 1007 eða jafnvel 1006).[3])

Guðrún sendi menn til Snorra goða og kom hann með 60 manna í Tungu. Hann bauðst til að leita um sættir, en Guðrún vildi það eigi. Aptur á móti bað hún Snorra um að skipta bústöðum við sig, svo að hún sæti eigi samtýnis við þá Hjarðhyltinga. Snorri goði tók því vel og einu eða jafnvel tveimur árum síðar flutti Guðrún og Ósvífur faðir hennar að Helgafelli en Snorri að Sælingsdalstungu (um 1008).[4])

Guðrún var þunguð þá er Bolli var veginn og ól nokkru síðar sveinbarn, sem var nefnt Bolli eptir föður sínum.

---

[1]) Lax. 71/263. 53/202. Að Ólafur pái hafi verið goði bendir Korm. á, 12/26; Lax. 37/133—134, sbr. 132. Auk Snorra goða, Þorsteins Þorgilssonar úr Hafsfjarðarey og þeirra feðga Ólafs og Halldórs er um þessar mundir í Þórsnesþingi getið um Þórarin goða úr Langadal, Lax. 67/246. Enn fremur munu niðjar Þórðar gellis hafa átt goðorð, og er svo að sjá af Laxdælu sem Þorkell Eyjólfsson hafi haft goðorð nokkru síðar en hjer ræðir um. Um 980 var Helgi Hofgarðagoði uppi og bjó hann í Hofgörðum sunnan á Snæfellsnesi og sótti Þórsnesþing. Hann var faðir Bjarnar, föður Gests, föður Skáld-Refs (Hofgarða-Refs). Þeir feðgar Björn og Gestur bjuggu að Hofgörðum um 1000. Þeir hafa líklega átt goðorð Helga, nema það hafi verið komið í hendur Þorsteins í Hafsfjarðarey; Eyrb. 16/19, 42/76; Ldn. 7/82, sbr. 6/79. Þorbjörn Vífilsson á Hellisvöllum, utarlega á sunnanverðu Snæfellsnesi, er kallaður goðorðsmaður, en hann fór í lok 10. aldar til Grænlands, og er eigi sagt hvað varð af goðorði hans, ef það er rjett hermt, að hann hafi átt nokkuð goðorð sem vel má vera. Eir. r. 3/10. [2]) Sbr. Lax. 52/199, er hún ljet drepa Þorkel á Hafratindum. [3]) Lax. 53—55/200—209. [4]) Lax. 56/210—211; Eyrb. 56/103.

Nú segir í Laxdælu að Guðrún biði tólf ár með hefndir eptir Bolla, þangað til Bolli sonur hennar, sem sagan gumar mest af, væri orðinn svo þroskaður að hann gæti tekið þátt í hefndinni, en við það kemst sagan í bága við rjett tímatal og við giptingu Guðrúnar og Þorkels Eyjólfssonar og barneign þeirra. Frásögn Laxdælu af þessu getur eigi verið rjett og er eigi heldur annað en tilbúningur eða skáldskapur um sögulega atburði.[1])

Guðrún Ósvífrsdóttir hugði þegar á hefnd eptir Bolla; fyrir því fylgdi hún þeim Halldóri á leið, er þeir höfðu vegið hann, og fyrir því vildi hún eigi að Snorri leitaði um sættir og fengi bætur fyrir víg Bolla. En hún sá að hættulegt mundi vera fyrir sig að sitja í nágrenni við Ólafssyni, ef hún kæmi fram mannhefndum. Sökum þess mun hún hafa beðið með hefndirnar þau missiri, sem hún bjó í Tungu eptir víg Bolla. En er hún hafði komið sjer fyrir á Helgafelli, tók hún þegar að hugsa um hefnd og ráðfærði sig um það við Snorra goða. Guðrún vildi helst láta hefndina koma niður á einhverjum Ólafssonum, en Snorri bannaði það og kvað mál að ættvíg þessi tækjust af. Hann sneri hefndinni að Helga Harðbeinssyni, sem veitt hafði Bolla banasár, og lagði á ráðin.

Guðrún var enn eigi nema hjer um bil 34 ára er hún flutti að Helgafelli og þótti hinn besti kvennkostur. Það var því eigi ólíklegt að menn mundi verða til að biðja hennar. Um þetta leyti bjó Þorgils Hölluson í Tungu í Hörðudal fyrir sunnan Hvammsfjörð. Hann var son Snorra Álfssonar úr Dölum, en var kendur við móður sína Höllu Gestsdóttur hins spaka, af því að hún lifði lengur en faðir hans.[2]) Þorgils var mikill maður og fríður, en framgjarn og enginn jafnaðarmaður. Hann tók brátt að hugsa

---

[1]) Þótt Lax. skýri rangt frá þessum atburðnm og mörgum einstökum atriðum, lýsir hún þó rjett hefndarhug íslenskra kvenna í fornöld og því er þetta nefnt hjer að framan, bls. 134, sem dæmi upp á hefndargirnd þeirra. [2]) Lax. 57,212, sbr. Fms. II, 157/21 og Glúm. 10,30; Ldn. 18/115, 25/137; Eyrb. 56/103–104.

um Guðrúnu, er hún var orðin ekkja; segir sagan að hann vendi komur sínar að Helgafelli og byði sig til umsýslu með henni, en hún tók því hóglega og gaf honum lítið út á það. Með þeim Snorra og Þorgilsi var heldur fátt, og gaf Snorri Guðrúnu það ráð að nota Þorgils til hefnda og heita honum að giptast engum manni samlendum öðrum en honum. Þótt Þorgils væri dótturson Gests Oddleifssonar, aldavinar Ósvífrs Helgasonar, fjellst Guðrún samt þegar á þessi svikræði og fjekk Þorgils til þess að fara að Helga Harðbeinssyni með nokkra menn og fella hann. En er hann kom úr þeirri ferð að vitja ráðahags við Guðrúnu, kvaðst hún ætla að giptast Þorkeli Eyjólfssyni, sem var þá erlendis. Síðan var Þorgils Hölluson veginn á alþingi að ráðum Snorra goða.[1])

Þorkell Eyjólfsson hins gráa hafði lengi verið í förum og grætt mikið fje; gumar Laxdæla allmikið af rausn hans og auðlegð. Þá er hann kom út sama sumar sem Þorgils Hölluson var veginn, giptist hann Guðrúnu Ósvífrsdóttur að ráðum Snorra goða (líkl. 1008 eða 1009) og var þeirra sonur Gellir.[2])

Þorkell var vinur Snorra goða og einnig var ástúð mikil með þeim frændum, Þorkeli og Þorsteini Kuggasyni í Ljárskógum. Á meðan þeir voru báðir uppi, hófst aptur vegur niðja Þorsteins rauðs; er sagt að Þorkell hafi verið annar „ríkastr maðr“ í Breiðafirði en Snorri. Svo er að sjá

---

[1]) Lax. 59/218—222, 60—65/222—244, 67/246—248. Eyrb. 65/122.
[2]) Lax. 57—58/212—218, 68—69/248—255. Eptir Lax. hefði gipting þeirra átt að vera 1020, en þá var Guðrún eigi yngri en 46 ára. Þau Þorkel áttu tvö börn, Gelli og Rjúpu, Ldn. 17/113. Í Lax. 70/255 er Gellir að eins nefndur. Í Annálum segir að hann andaðist 1073 og í Ann. IV að ár hans væru 65. Eptir því á hann að vera fæddur 1008 eða jafnvel snemma á ári 1009. Það gæti verið að hjer munaði einu ári og að hann hafi að eins verið komið á 65. árið, en hins vegar sýnir Heimskringla, Ól. s. h., að hann getur eigi verið fæddur síðar en 1010. Ef það er satt, að Gunnar Þiðrandabani hafi verið að Helgafelli, þá er þau Þorkell giptust, bendir það á að brúðkaup þeirra hefur eigi verið síðar en 1008; Lax. 69/252—255; Gunn. s. 6—7/209—211. Áreiðanlega vissu um þetta er eigi hægt að fá.

af Laxdælu, sem hann hafi átt goðorð, því að um Gelli son hans segir, að hann tæki mannaforráð eptir föður sinn. Mun Þorkell því hafa eignast goðorð forfeðra sinna, Hvammverja. Einnig segir Laxdæla að hann hafi verið hjeraðsríkur.[1])

Fyrir víg Bolla höfðu engar bætur komið og eigi hafði heldur verið á það sætst. Sökum þess tóku þeir bræður Þorleikur og Bolli, er þeir voru frumvaxta, að hugsa um að fara að Ólafssonum og hefna föður síns. Snorri goði komst að því, og er hann fjekk eigi talið þeim hughvarf, bauðst hann til að leita um sættir, heldur en að manndráp tækjust. Snorri reið þá í Hjarðarholt að tala við Halldór, og játaði hann að gjalda fje fyrir víg Bolla, eins og gjörðarmenn dæmdu rjett. Þeir Snorri goði og Steinþór Þorláksson á Eyri voru teknir til gjörðar og guldu Ólafssynir á Þórsnesþingi fje það, sem þeir gerðu á hendur þeim, og sættust heilum sáttum við syni Bolla Þorleikssonar.[2])

Þorkell Eyjólfsson varð eigi gamall maður. Laxdæla segir að hann færi til Noregs og Gellir sonur hans með honum að sækja kirkjuvið og að hann fengi hann hjá Ólafi konungi Haraldssyni. Sagan segir að hann væri með konungi um veturinn og hafi verið svo stórhuga, að hann hafi viljað reisa jafnmikið guðshús sem kirkju þá, er konungur ljet í þann tíma gera í Niðarósi. Eptir sögn Laxdælu á Þorkell að hafa komið út með viðinn í Hrútafjörð. En öll sagan um þessa utanferð hans er tilbúningur. Af Heimskringlu sjest að Þorkell Eyjólfsson hefur setið kyr á Íslandi árin 1024—1026, en að Gellir son hans fór utan 1025, eins og síðar mun sagt.[3]) Þorkell hefur líklega keypt við af kaupmönnum, sem út hafa komið í Hrútafjörð, og var hann eigi meiri en svo, að Þorkell flutti hann veturinn eptir á rúmum tuttugu hestum á Ljáeyri við Hvammsfjörð.[4]) Þaðan ætlaði Þorkell að flytja viðinn á ferju að Helgafelli, en á

[1]) Lax. 76/283, 70/255. [2]) Lax. 71/260—264. [3]) Hkr. II, 125—126/273—277, 129/281. [4]) Lax. 75/276. Af þessu er auðsætt að um mikla kirkju eða stórhýsi hefur eigi verið að ræða.

þeirri ferð hrepti hann storm og druknaði. Það var á skírdag, 7. april 1026, og var Þorkell þá 48 ára gamall.[1]) Litlu síðar (haustið 1026 eða 1027) var Þorsteinn Kuggason veginn, og var þá enginn atkvæðamaður í ættinni, fyr en Gellir Þorkelsson hafði náð þroska. Eptir að hann kom heim aptur úr sendiferð Ólafs konungs Haraldssonar, tók hann við búsumsýslu með móður sinni og við goðorði föður síns, en það hefur varla verið fyr en 1028.[2])

Guðrún Ósvífrsdóttir hafði hjer um bil tvo um fimtugt, þá er hún varð ekkja í fjórða sinn. Þau Þorkell höfðu verið gipt í kring um 17 eða 18 ár, og þótti henni mikið um fráfall hans; þó bar hún sig vel, því að kjarkur hennar var mikill. En nú var hún búin að reyna mikið og tók að hugsa um liðna æfi og gera upp reikningsskap við sjálfa sig. Þá fann hún hvernig hún hafði breytt við Kjartan og hve hefndargirnin og afbrýðissemin hafði leitt hana langt afvega. Hún tók þá að leita huggunar með því að snúa huganum til guðs, og hún gerðist trúkona mikil og bænrækin. Eptir það var það eitt sinn að Bolli sonur hennar leitaði eptir við hana, hverjum hún hefði mest unt. Hún vildi í fyrstu eigi segja það, en að lokum mælti hún þó: „Þeim var ek verst, er ek unna mest“. Þetta svar skýrir mjög skap hennar og breytni gegn Kjartani.

Sagan segir að Guðrún væri fyrst „nunna á Íslandi og einsetukona“. Hún andaðist í hárri elli að Helgafelli.[3])

[1]) Í Ann. segir að Þorkell hafi verið fæddur 979, en eptir þessu hefur hann fæðst 978. [2]) Lax. 74—76/271—283. Ann. I, III, IV 1027. Grett. 67/243 bendir á að víg Þorsteins hafi verið haustið 1026, sbr. Safn I, 480; Hkr. II. 136/308—309, 159/379. [3]) Lax. 76—78/283—288.

## Vestfirðingar.

Af norðvesturkjálka landsins eru eigi miklar sögur, en þar eru þó taldir fjórir höfðingjar 981, þrír í sveitum þeim, sem nú liggja undir Barðastrandarsýslu, og einn við Ísafjarðardjúp. Þeir eru allir nafngreindir áður (bls. 436); en ef farið var úr Dölunum inn fyrir Gilsfjörð og vestur eptir sveitum, þá var Ari Másson fyrstur á leið manna. Hann bjó á hinu þjóðkunna höfuðbýli Reykjahólum (nú Reykhólar) á Reykjanesi og var þriðji maður frá Úlfi hinum skjálga og Björgu systur Helga hins magra. Ari fjell einnig fyrstur úr sögunni af höfðingjum þessum, því að hann týndist í utanferð fám árum eptir útkomu Friðriks biskups, og var sagt að hann hafi orðið sæhafi til Hvítramannalands (um 983). Ari er talinn ættfaðir Reyknesinga. Hann átti Þorgerði Álfsdóttur úr Dölum og með henni þrjá syni, sem upp komust, Þorgils, Guðleif og Illuga.[1])

Þorgils bjó á Reykhólum eptir fráfall föður síns í rúm 40 ár og hjelt uppi höfðingsskap ættmanna sinna, en bræður hans voru farmenn. Þorgils kvongaðist snemma og átti fyrst Grímu Hallkelsdóttur, systur Illuga hins svarta. Hún var þá ekkja eptir Þorkel Lón-Einarsson. Þorgils átti með henni dóttur, er Þuríður hjet, og varð hún kona Steinþórs á Eyri.[2]) Gríma hefur að líkindum verið töluvert eldri en Þorgils og mun hafa andast löngu fyr en hann. Sama ár sem Heiðarvíg urðu, kvongaðist Þorgils aptur; stóð brúðkaupið norður að Þverá í Eyjafirði og gekk Þorgils þá að eiga Vígdísi dóttur Einars Eyjólfssonar;[3]) hefur hann þá eigi verið yngri en um fimmtugt. Þorgils átti son, er Ari hjet. Fóstbræðra saga telur hann á reki við Þorgeir Hávarsson eða nokkru yngri, en ættartölur benda á, að

---

[1]) Ldn. 22/129—130; Fóst. 2/5; Flat. II. 75/92—93; Grett. 27/102—103.
[2]) Ldn. 1/67. 7/86. 9/92; Heið. 100. [3]) Heið. 71, 98. 101. sbr. Eyrb. 125; Mb. 253; Þórð. s. hr. 9/104—105.

hann hafi verið miklu yngri en Þuríður systir hans; má vera að þau hafi verið hálfsystkini.[1])

Þorgils Arason kemur við þrjár Íslendinga sögur og Ólafs sögu Haraldssonar. Hann var einn af þeim, sem gerði um Heiðarvíg, og hann hjelt Gretti einn vetur (líkl. 1016—1017), ef marka má frásögn Grettlu um það. Aptur á móti er það eflaust þjóðsaga eða marklaus sögusögn, að þeir fóstbræður, Þorgeir Hávarsson og Þormóður kolbrúnarskáld, hafi haft veturvist á Reykhólum ásamt Gretti, enda er þess eigi getið í Fóstbræðra sögu, nema í afskrift þeirri, sem er í Flateyjarbók, og þar er einungis sagt, að það hafi verið sögn manna.[2]) Af Fóstbræðra sögu má hins vegar sjá, að þeir fóstbræður voru skildir, áður en Grettir varð sekur skógarmaður, og að Þormóður hafði aldrei veturvist á Reykhólum heldur hjá föður sínum. Sögusögn þessi hefur myndast af því að Þorgeir hafði veturvist á Reykhólum og menn hafa fundið upp á því sjer til skemtunar að bera þá Gretti saman.

Þorgils Arason hjelt Hrærek konung einn vetur (1019—1020), að orðsendingu Ólafs konungs Haraldssonar.[3]) Annars kemur Þorgils langmest við Fóstbræðra sögu. Þeir Þorgeir Hávarsson voru systrasynir, því að Þórelfur, kona Hávars en móðir Þorgeirs, var dóttir Álfs úr Dölum.[4]) Fyrir því hjelt Þorgils hlífiskildi yfir Þorgeiri frænda sínum og var hann löngum á vetrum að Reykhólum. Þá er hann varð sekur, kom Þorgils honum utan (um 1014), og þá er Þorgeir var veginn (um 1024), segir sagan að Þorgils hafi gert banamenn hans, Þórarin ofsa og fjelaga hans, seka á alþingi. Dauðaár Þorgils er ókunnugt, en hann hefur eigi dáið fyrir 1025.[5])

Samtíða þeim Reykhólafeðgum, Ara og Þorgilsi, bjó

---

[1]) Sbr. Ættartölur Sturl. I, 1/87; Bps. I, 407. Hallbera sonardóttir Ara var gipt Þorgeiri Hallssyni á 12. öld. Fóst. 2/7, 15/51 er eigi mikið að marka um þetta. [2]) Grett. 49—51/178—183; Flat. II, 121/159. [3]) Hkr. II, 85/159—160. [4]) Ldn. 18/115; Fóst. 2/5; Grett. 27/102. [5]) Fóst. 2/7, 8/25—29, 15/50—51, 16—17/54—57, 5/78—79; Hksb. (Fóst.[2]) 13/375—376, 16/381, 19/386.

frændi þeirra Gestur hinn spaki Oddleifsson í Haga á Barðaströnd. Þeir Ari voru rjettir fjórmenningar í beinan karllegg frá Högna hinum hvíta, er var forfaðir margra höfðingja á Íslandi.[1]) Gestur var einhver hinn merkasti maður í Vestfjörðum á allri söguöldinni, því að hann varði opt vitsmunum sínum og dug öðrum til góðs og til að firra menn vandræðum. Eins og kenningarnafn hans bendir á, þótti hann vera mjög vitur maður. Sögurnar segja einnig að hann hafi verið mjög forspár.[2]) Hann kemur fyrst við sögu Gísla Súrssonar um 960 (líkl. 959), og mörgum árum seinna lagði hann á ráðin með Vjesteinssonum, er þeir hefndu föður síns og vógu Þorkel Súrsson (um 776), og síðan kom hann þeim utan.[3]) Gestur kemur einnig við Kristni sögu, Landnámu og Laxdælu. Hann var eflaust friðsamur maður, en komst þó eigi hjá öllum deilum.[4]) Gestur andaðist í hárri elli einhvern tíma á árunum kringum 1010 og var grafinn að Helgafelli.[5])

Samtíða Gesti var uppi Ljótur hinn spaki Þorgrímsson. Hann átti heima á Ingjaldssandi og segja munnmæli að hann hafi búið á bæ þeim, sem Álfadalur heitir. Hann var náskyldur Hlaðajörlum, því að Rannveig móðir hans var dóttir Grjótgarðs jarls Hákonarsonar. Ljótur hefur eflaust þótt merkur maður, þótt hann sje eigi talinn með höfðingjum og hafi eigi verið goðorðsmaður. Hann var í vinfengi við Gest hinn spaka, og auknefni hans bendir einnig á, að hann hafi verið talinn vitsmunamaður. Ljótur átti systur tvær; hjet önnur þeirra Halldís og var gipt Þorbirni Þjóðrekssyni, en hin Ásdís. Hana átti Þórður örvöndur Þorvaldsson og var Otkatla, kona Sturlu Þjóðrekssonar, dóttir þeirra. Óspakur Ósvífsson nam Ásdísi á burt og átti með henni son, er Úlfur hjet og síðar varð

[1]) Ldn. 25/137. [2]) Gísl. 6/13; Ldn. 28/146—147; Lax. 33/108, 33/113—115, 66/245; Nj. 103/540. Í Mb. (Ldn.[2]) 42/241 er Gestur nefndur hinn fróði. [3]) Gísl. 6/12—13, 22/60, 27/73—74, 28/76—77, 37/99. [4]) Ldn. 30/154—155. [5]) Lax. 66/245—246. Dauðaár hans er ókunnugt, en Guðbrandur Vigfússon hefur sett það annaðhvort 1006 eða 1015. Safn I, 463, 499.

frægur maður. Ljótur tók sveininn að sjer, en sótti Óspak til sektar (um 1000).[1])

Ljótur varð ósáttur við nágranna sinn Grím kögur, er bjó á Brekku á Ingjaldssandi.[2]) Deiluefni þeirra var lækur, er fjell á meðal landa þeirra og Ósómi hjet. Grímur hafði keypt hann af Ljóti og veitti honum á engjar sínar, og hann gróf land Ljóts. Hann gaf Grími sök á því og varð þá fátt með þeim. Grímur átti tvo syni, Sigurð og Þorkel. Þeir voru litlir vexti og mat Ljótur þá eigi mikils. En Gestur Oddleifsson varaði hann þó við þeim, er hann var að boði hjá honum síðasta haustið. sem hann lifði. Vorið eptir sat Ljótur eitt sinn að þrælum sínum á hæð einni. En er minst varði, hlupu Grímssynir á hæðina og hjuggu til hans báðir í senn. Ljótur fjekk engri vörn komið fyrir sig og ljet hann þar líf sitt. Þeir Grímssynir fóru síðan til Hávarðar halta, sem hafði vegið Þorbjörn mág Ljóts sumarið eða haustið áður.[3])

Við Ísafjarðardjúpið er getið um eina höfðingjaætt um þessar mundir. Það voru niðjar Þjóðreks Sleitu- eða Sljettu-Bjarnarsonar. Hann hafði sest að við Ísafjarðardjúp með þremur sonum sínum, Knött, Þorbirni og Þjóðreki, en Sturla son hans var eptir kyr í Saurbænum; hann reisti bæinn á Staðarhóli og bjó þar lengi.[4])

Sonur Knattar var Ásgeir, sem talinn er með höfðingjum 981. Hann átti Þorbjörgu digru Ólafsdóttur, frá Hjarðarholti, en annars fara engar sögur af honum. Þeir frændur munu þó hafa verið mestu ráðandi við Ísafjarðardjúp á síðari hluta 10. aldar. Þjóðrekur hefur að líkindum tekið þar upp goðorð eða eignast það á annan hátt, og mun Knöttur hafa fengið það að erfðum og eptir hann Ásgeir

---

[1]) Ldn, 27/144. 28/145; Lax. 50/194 segir að Ásdís væri dóttir Hólmgöngu-Ljóts af Ingjaldssandi. Ef Ásdís hefur verið systir Ljóts hins spaka eins og Ldn. segir og líklegt er. er auðsætt að hún hefur giptst Þórði og átt Otkötlu löngu áður en Óspakur nam hana. [2]) Um Brekku og Álfadal á Ingjaldssandi sjá Kålund, Isl. I, 579—580. [3]) Ldn. 28/145—147, sbr. Háv. 54—55. [4]) Sjá að framan I, 136. Ldn. 21/127.

sonur hans; engar heimildir greina þó neitt um þetta. Hins vegar er auðsætt að Ásgeir Knattarson hefur eigi orðið gamall höfðingi, allra síst ef marka má nokkuð Hávarðar sögu Ísfirðings um það, að Þorbjörn föðurbróðir hans hafi átt goðorð um Ísafjörð, þá er sú saga hefst í lok 10. aldar. En saga þessi er svo full af vitleysum að lítið í henni er rjett.[1]) Þorbjörn Þjóðreksson bjó á Laugabóli (nú Laugarból) í Laugardal, sunnanvert við Djúpið milli Skötufjarðar og Mjóvafjarðar.[2]) Hann hefur eflaust verið mikill ójafnaðarmaður, þótt hann hafi ef til vill eigi verið eins illur og segir í Hávarðar sögu, því að sagan er auðsjáanlega hlutdræg.

Þorbjörn drap Ólaf son Hávarðar halta nágranna síns, bónda á Blámýri (nú Blámýrar) í Laugardal, og Bjargeyjar Valbrandsdóttur, fyrir litlar eða engar sakir. Ólafur var þá um tvítugt og óvenjulega efnilegur maður og vinsæll. Hávarði fjell víg hans mjög nærri, en hefndi hans þó um síðir fyrir tilstyrk konu sinnar, og fór að Þorbirni og drap hann og nokkra menn með honum. Síðan leitaði Hávarður liðveislu hjá Eyjólfi gráa í Otrardal og veitti hann honum og Grímssonum og Steingrímur son hans.[3]) Þeir munu hafa fengið málið lagt í gjörð og komið á sáttum. Hávarður var gerður burtu úr Vestfirðingafjórðungi og rjeðst hann þá norður í Svarfaðardal og settist þar að.[4])

Víg Þorbjarnar Þjóðrekssonar mun hafa verið seinni hluta sumars eða um haust í byrjun 11. aldar (um 1002).

---

[1]) Hávarðar saga Ísfirðings er um víg Ólafs Hávarðarsonar og hefndir föður hans eptir hann. Efnið í henni er sögulegt, en meðferð þess og frásögnin er röng. Menn, sem komu þar hvergi nærri, svo sem Steinþór á Eyri og Gestur hinn spaki, eru látnir eiga mikinn þátt í sögunni. Sbr. Safn I, 365–367; F. Jónsson, Litteraturhist. II, 752—754, sbr. I, 519. Líklega er Hávarðar saga rituð norður í Eyjafirði eptir sögusögnum, sem hafa gengið þar meðal manna, einkum í Svarfaðardalnum, eins og F. Jónsson hefur bent á. Höfundur hennar hefur verið algjörlega ókunnugur á Vestfjörðum, sbr. Kålund, Isl. I, 554, 557—558, 561—562, 582, 588—593, 602—607 o. fl. [2]) Ldn. 29/150, sbr. Kålund, Isl. I, 590—591. [3]) Ldn. 28/147, 29/148—149, 29/150. [4]) Háv. 22—24/49—53.

Í Hávarðar sögu segir að það hafi verið á dögum Hákonar Hlaðajarls, en það er rangt.[1])

Ef það er rjett hermt að Þorbjörn hafi átt goðorð, er það þó auðsætt að Ásgeir Knattarson hefur eigi fallið fyr frá en rjett fyrir eða um aldamótin 1000, því að litlu eptir þau giptist Þorbjörg digra ekkja hans aptur og eignaðist Vermund hinn mjóva Þorgrímsson frá Bjarnarhöfn. Hann flutti þá vestur og tók við búi í Vatnsfirði. Vermundur hafði fyrst átt Guðnýju Þórólfsdóttur, systur Þórarins í Mávahlíð,[2]) en nú var hann orðinn ekkjumaður. Hvaða ár þetta var er ókunnugt, en líklega hefur það eigi verið fyr en eptir fall Þorbjarnar; hefur Ásgeir þá einnig verið dáinn. Svo mikið er víst að Vermundur bjó enn í Bjarnarhöfn, er hann kom á sættum milli Eyrbyggja og Þórsnesinga 998, og að hann var kominn í Vatnsfjörð, þá er Víga-Styr bróðir hans var veginn. Um sama leyti eða litlu síðar getur einnig hjeraðsstjórnar hans þar vestra, því að hann fjekk mannaforráð eptir Ásgeir eða þá frændur. Hann vísaði þá Hávari, föður Þorgeirs, burtu úr bygðinni sökum óspekta sonar hans (um 1009). Hann var ættaður sunnan af Akranesi og hvarf hann þá suður til átthaga sinna.[3]) Þorgeir var þó kyr í Vestfjörðum og hjer um bil tveim árum síðar drap hann og Þormóður fóstbróðir hans tvo þingmenn Vermundar. Árið eptir drap Þorgeir einnig mann einn, Butralda að nafni, sem Fóstbræðra saga segir að hafi verið í frændsemi við Vermund.[4]) Síðast getur Vermundar, þá er Þorbjörg kona hans bjargaði Gretti Ásmundarsyni úr höndum Ísfirðinga (um 1017).[5])

Þeir fóstbræður Þorgeir Hávarsson og Þormóður

---

[1]) Sbr. Safn I. 366. [2]) Lax. 31/105; Eyrb. 56/103; Ldn. 9/91; Eyrb. 8/9, 15/18. [3]) Fóst. 2/6—7; Flat. II, 75/93. Hávarr var kominn af Jörundi kristna Ketilssyni. Hann er í Ldn. 15/49, 18/115, sbr. Stb. 107/160 kallaður son Einars Kleppssonar, en í Fóst. 2/4 (= Flat. II, 75/92) og Hksb. 21/13 er hann talinn sonur Klepps eða sonarson Jörundar. Í Fóst. 2/4 segir að Hávarr væri ættaður af Álptanesi, en það er rangt, sbr. Ldn. 15/49. Flat. II, 75/92 segir rjett frá þessu. [4]) Fóst. 3—6/13—22; Flat. II, 79—82/98—103. [5]) Fóst. 1/3—4; Grett. 52/187—193.

Bersason, sem Fóstbræðra saga er af. voru miklir vígamenn, einkum Þorgeir. Hann var hinn mesti fullhugi og hreystimaður. óvæginn og harður. Hann vann hvert vígið á fætur öðru. opt af litlum ástæðum. Að lokum drap hann Þorgils Máksson. merkan bónda frá Lækjamóti í Víðidal. Árið eptir gerðu þeir Ásmundur hærulangur og Þorsteinn Kuggason hann sekan á alþingi. en Þorgils Arason kom honum þegar utan (um 1014).[1] Þorgeir var síðan í siglingum og segir sagan að hann væri jafnan annan vetur með Ólafi konungi í Noregi en hinn á Íslandi með Þorgilsi Arasyni. Hann gerðist handgenginn Ólafi konungi Haraldssyni,[2] en hann var of mikill ofsamaður og vígamaður til þess að geta kembt hærurnar. Eitt sinn er hann hafði haft veturvist á Reykhólum og ætlaði utan með Illuga Arasyni, vá hann mann einn. sem hjet Gautur Sleituson. Þeir Þorgeir voru þá við skip. en Illugi á alþingi. en sögunum ber eigi saman um hvar það hafi verið. Segir Fóstbræðra saga að það hafi verið í Hraunhöfn norður á Melrakkasljettu. en Ljósvetninga saga að það hafi verið í Hrútafirði.[3]

Rjett eptir þetta kom kaupskip eitt af hafi og rjeð fyrir því grænlenskur maður. Þorgrímur trölli Einarsson. og Þórarinn ofsi Þórðarson frá Stokkahlöðum í Eyjafirði.[4] Þórarinn var í ætt við Gaut og er hann spurði víg hans, veitti hann Þorgeiri atgöngu með skipverjum sínum og feldi hann eptir hrausta vörn, er hann hafði vegið marga menn. Þetta var eigi síðar en árið 1024.[5]

Þormóður fóstbróðir Þorgeirs var upprunninn við Ísa-

---

[1]) Fóst. 7–8 23–28. Grett. 25–27 99–106. Í Fóst. 8.28 segir að Þorgils hafi sætst fyrir hönd Þorgeirs. en það er mótsögn við það sem segir áður á bls. 24. Aptur á móti var sætst fyrir hönd Þormóðar og komið fjebótum fyrir hann. Um tímatalið sbr. Safn I. 463 o. ef. [2]) Hkr. II. 124/272; Fóst. 8/28–29. [3]) Fóst. 14 48. 15–17/50–57, 3–4/71–72: Hksb. 14 378. 16,381, 19,386: Ljósv. 32 251. [4]) Í Fóst. 16/52 og Flat. II. 123 163 er Þórarinn kallaður Þorvaldsson. en hitt mun rjettara sem segir í Ljósv... sbr. Tímarit Bókmfjel. III. 107 nm. Í Hksb. er eigi sagt hvers son Þórarinn hafi verið. [5]) Fóst. 15–17 50–57: Hksb. 15–17/378–384; Ljósv. 32 250–253. Gautur var einnig sagður skyldur Þorgilsi Mákssyni. Fóst. 8,27: Flat. II. 87 108: Grett. 27,105–106.

fjarðardjúp. Hann var sonur Bersa Halldórssonar, Gunnbjarnarsonar, er skerin eru kend við. Fóstbræðra saga segir að faðir hans byggi fyrst á Dyrðilmýri (nú Mýri) á Snæfjallaströnd, en færi síðan búferlum á Laugaból í Laugardal, af því að Vermundur hinn mjóvi vildi eigi að þeir fóstbræður væru svo nærri sjer. Ef þetta er rjett, hefur Bersi eigi búið á Dyrðilmýri, enda er líka ólíklegt, að hann hafi búið annarsstaðar en í landnámi föður síns sunnan við djúpið. Hann hefur að líkindum búið fyrst í Mjóvafirðinum á næsta bæ við Keldu eða Jöklakeldu, þar sem Hávarr bjó og Þorgeir óx fyrst upp.[1])

Þormóður var hvatur maður og hugprúður, en meðalmaður að vexti og afli. Hann var miklu friðsamari en Þorgeir og skildi við hann sökum metnaðar hans og ofsa (líklega haustið 1013).[2]) Þormóður var síðan með föður sínum í mörg ár og hugsaði hann þá meira um konur en vígaferli. Á þeim árum kyntist hann Þordísi Grímudóttur í Ögri og Þorbjörgu kolbrún Kötludóttur í Arnardal. Um hana orti Þormóður lofkvæði og gaf Katla honum þá kenningarnafnið kolbrúnarskáld.[3])

Eptir fall Þorgeirs fór Þormóður þegar til Noregs um sumarið og var með Ólafi konungi Haraldssyni um veturinn (líkl. 1024—1025).[4]) Þaðan fór hann til Grænlands að hefna fóstbróður síns. Hann dvaldi þar þrjá vetur og drap fyrst Þorgrím trölla og síðan fjóra systursyni hans. Eptir það fór hann aptur til Noregs, á fund Ólafs konungs og fjell með honum á Stiklastöðum (1030).[5])

---

[1]) Fóst. 2/5, 5/19. Sbr. Kålund, Isl. I, 595—597, 605. [2]) Sagan segir að Þorgeir hafi spurt Þormóð, hvor þeirra mundi af öðrum bera, ef þeir reyndu með sjer; en í erfidrápu eptir Þorgeir víkur Þormóður að því, að menn hafi spilt á milli þeirra, en hann vill eigi annars minnast en hins góða á milli þeirra. Fóst. 7/24—25. [3]) Fóst. 11/37. 63; Hksb. 11/370. [4]) Fóst. 18/58—59, 5/77; Hksb. 19/385; Hkr. II, 124/272; Ól. s. s. 113/125; Fms. IV, 121/280, V, 234; Flat. II, 179/239. III, 9/244. [5]) Fóst. 6—10/80—112; Hksb. 20—24/387—416; Ól. s. m. 57/43—45, 75/59, 83/63, 87—90/66—67, 95—97/71—73; Hkr. II, 206—208/459—464, 233—234/499—504; Ól. s. s. 203/206, 205/207—208, 233—234/221—223; Fms. V, 172/25, 192—194/56—61, 218/89—93; Flat. II, 148—

Fóstbræðra saga er helsta sagan af Vestfjörðum á síðari hluta söguldarinnar, en hjer um bil þriðjungur hennar gerist í Noregi og á Grænlandi. Hún kemur við Hornstrandir (í Ísafjarðarsýslu) og Strandir (í Ísafjarðar- og Strandasýslu) eins og nokkrar aðrar sögur, en þaðan er engin sjerstök saga.[1])

## Húnvetningar. Grettir Ásmundarson.

Eptir kristniboð þeirra Þorvalds víðförla og Friðriks biskups fara eigi eins miklar sögur af höfðingjum Húnvetninga eins og fyr á söguöldinni. Um vestustu goðana í Húnavatnsþingi er mjög lítið kunnugt eptir að Miðfjarðar-Skeggi fjell úr sögunni. Hann mun hafa átt vestasta goðorðið í hjer um bil 30 ár (um 930—960).[2]) en hvað af því varð, þá er hann flutti suður í Borgarfjörð til Eiðs sonar síns í Ási (Stóraási), er ókunnugt. Hann átti að vísu annan son, er Kollur hjet og var kvongaður maður; hefði því mátt ætla að hann hefði fengið mannaforráð eptir föður sinn. En Kollur þessi bjó að Kollslæk og enginn bær með því nafni er kunnur nema í Hálsasveit, svo að líklega hefur hann flutt suður þangað með föður sínum. Kollur átti son, er Halldór hjet og er getið um tvær dætur hans uppkomnar, en annað er eigi um hann kunnugt.[3]) Það er því

168, 199—226. 245 315, 267 336—337, 271 340—341, 273 342—343, 288—290 358—360. Sbr. F. Jónsson, Litteraturhist. I, 581—587.

[1]) Um Fóstbræðra sögu sjá F. Jónsson, Litteraturhist. II, 465—471.
[2]) Miðfjarðar-Skeggi er að vísu eigi nefndur goði í hinum bestu heimildum um hann, en þær benda þó á að hann hafi verið það, af því að þær geta dálítið um hjeraðsstjórn hans. Í Þórðar sögu hreðu bls. 8 er sagt að hann væri goðorðsmaður yfir Miðfirði og víða annars staðar.
[3]) Ldn. 1/170, 21/62, sbr. Þórð. 58.

eigi ólíklegt að goðorð Miðfjarðar-Skeggja hafi gengið úr ætt hans. Í byrjun 11. aldar bjó Þórarinn goði hinn spaki að Lækjamóti. Hann var orðinn aldraður maður 1014, þá er Heiðarvíg urðu: má því vera að hann hafi flutt að Lækjamóti, þá er þeir Þorvaldur víðförli fóru þaðan (986), en hann var ættaður frá Svínavatni í Svínadal. Eins og nafnið bendir á hefur hann átt goðorð eða hlut í goðorði og getur það varla annað goðorð verið en vestasta goðorðið í Húnavatnsþingi.[1]) Um það leyti sem fimtardómurinn var settur, er sagt að Melmannagoðorð hafi verið tekið upp, en um það er ekkert kunnugt fyr en á miðri 11. öld, er Oddur Ófeigsson átti það. En þá er þess getið að Styrmir Þorgeirsson að Ásgeirsá í Víðidal hafi átt þingmenn í Miðfirðinum og honum hafi leikið öfund á uppgangi Odds.[2]) Styrmir þessi hefur verið goði og átt að líkindum goðorð það, sem Miðfjarðar-Skeggi átti upphaflega. Hann var af Skíðungaætt, fjórði maður frá Þorkeli vingni Skíðasyni.[3])

Í Vatnsdælagoðorði voru einkanlega menn úr miðsveitunum í Húnavatnsþingi og átti það Þorkell krafla frá því um miðja söguöldina (980) og til dauðadags (um 1012—1013).[4]) Hann var vinsæll maður og merkastur höfðingi í Húnavatnsþingi á sínum tíma. Sagan segir að „öllum málum væri til hans skotit um heraðit, því at hann þótti mestrar náttúru í Vatnsdæla kyni, annarr en Þorsteinn Ingimundarson".[5]) Hver goðorðið fjekk eptir hann segir ekki. En þá er skýrt hefur verið frá andláti hans í Grettlu, segir að Þorvaldur Ásgeirsson hafi þá búið í Ási í Vatnsdal og gerðst höfðingi mikill. Hann var að sögn Landnámu dótturson Ingimundar gamla, og er því alllíklegt, að hann hafi fengið goðorðið eptir Þorkel og orð Grettlu lúti að því.[6]) Þorvaldur veitti þeim Ásmundi hærulang og Þorsteini Kuggasyni í

---

[1]) Sbr. Björn M. Ólsen, Tímarit Bókmfjel. II, 27. [2]) Nj. 97/505—506; Band. 7, 8, 10—11, 3, 15. [3]) Ldn. 6/189, sbr. Safn I, 389. [4]) Grett. 25/98; Vatn. 47/80. [5]) Vatn. 45/76. [6]) Grett. 25/98—99, 35/138; Hungr., Bps. I, 2/61 (athugasemd 2 er röng). Í Ísleifs þætti, Flat. II. 141, Bps. I. 54 er sagt að Þorvaldur hafi búið að Ásgeirsá, en það er rangt og sprottið af því, að hann var ættaður þaðan.

vígsmáli eptir Þorgils Máksson. Hann var einnig gjörðarmaður í máli einu fyrir Atla Ásmundarson. Eptir víg Atla veitti hann Ásdísi móður hans lið (um 1017) og aptur eptir dráp þeirra Grettis og Illuga; sýnir það að mikil frændsemi hefur verið með þeim, eins og segir í Landnámu: en ætt Þorvaldar gekk seint fram og hann varð gamall maður. Hans er síðast getið þá er Ísleifur Gissurarson fjekk Döllu dóttur hans, en það var einhvern tíma á árunum 1035—1040.[1])

Nyrðsta og austasta goðorðið í Húnavatnsþingi mun hafa átt hofsókn að Hofi á Skagaströnd. Guðbrandur Vigfússon hefur nefnt það Langdælagoðorð, líklega af því að Þórarinn hinn spaki Þorvaldsson, sem var upprunninn úr Langadalnum og átti goðorð þetta á miðri 11. öld, er nefndur Langdælagoði. Goðorð þetta var upphaflega eign Skíðunga. Þjóðólfur sonur Eilífs arnar og bróðir Koðráns að Gilja var goði að Hofi á Skagaströnd á fyrri hluta söguaIdarinnar og líklega fram yfir hana miðja.[2]) En á síðari hluta söguaIdarinnar (um 1014) er getið um Höskuld goða á Höskuldsstöðum á Skagaströnd og Eilíf nokkurn, sem átti goðorð með honum. Það er eigi sagt hvers son Eilífur hafi verið, en eigi er ólíklegt að hann hafi verið sonur Þjóðólfs goða og búið að Hofi og borið nafn afa síns. Frá ætt Höskulds er eigi heldur greint, en þeir Eilífur hafa eflaust verið skyldir og báðir Skíðungar og ef til vill bræður.[3])

Um þetta leyti mun þó goðorð Skíðunga hafa verið skipt milli fleiri manna, því að um aldamótin 1000 er þess getið, að Grís Sæmingsson, bóndi að Geitaskarði í Langadal, hafi verið þingmaður Húnröðar Vjefröðarsonar að Móbergi.[4]) Húnröður mun því hafa átt nokkuð í goðorðinu. Hann hefur þá líklega verið á miðjum aldri, því að hann fór utan hjer um bil tveimur árum síðar, ef marka má

---

[1]) Grett. 26/102, 44/160—161, 51/185, 83/290, 84/291; Bps. I, 54 (= Flat. II, 110—141), 2/61. [2]) Ldn. 6/187. [3]) Heið. 63, 67, 96—97. Þingmaður þeirra Höskulds og Eilífs var að Klifum rjett hjá Blönduós, Kålund, Isl. II, 52—53. [4]) Hallfr. 10/109; Vatn. 47/77—80; Fms. III, 264/20—23.

sögusögn eina í Flateyjarbók.[1]) Þá er þess er gætt að niðjar hans voru mikilsmegandi menn og sumir þeirra goðorðsmenn, er líklegt að hann hafi átt hlut í goðorðinu eptir það, er hann kom út aptur. Dauðaár Húnröðar er ókunnugt, en aldur niðja hans bendir á að hann hafi lifað töluvert fram yfir 1014, er þeir Höskuldur og Eilífur eru nefndir. Hafliði sonarsonur hans dó 1130.

Um aldamótin 1000 voru nokkur vígaferli í Langadalnum og Vatnsdalnum. Vjefröður Ævarsson á Móbergi átti Gunnhildi dóttur Eiríks úr Goðdölum og með henni þrjá syni, Úlfhjeðin, Skarphjeðin og Húnröð, sem fyr er nefndur. Skarphjeðinn var veginn í Vatnsskarði af Digur-Ormi og bræðrum hans, sonum Þorgils gjallanda að Svínavatni.[2]) Þeir bræður munu að líkindum hafa setið þar fyrir honum, er hann var á ferð, en annars er ekkert um það kunnugt. Úlfhjeðinn var vinsæll maður, en þó varð hann eigi sóttdauður. Honum urðu að bana bræður tveir, Föstólfur og Þróttólfur, sem bjuggu fyrst í Engihlíð í Langadal en síðan í Holti á Kólkumýrum (nú Ásunum). Þeir tóku við sekum manni til ásjár og leyndu honum fram á Kili á meðan þeir riðu til alþingis. En rjett á eptir hittu þeir Húnröður og Þórólfur leikgoði mann þennan, er þeir voru á leið til þings. Þeir hugðu að hann væri illmenni og að hann mundi hafa tekið hross, sem hlaupið höfðu frá þeim. Þeir vógu hann því þegar, án þess að spyrjast fyrir, hver hann væri. Til hefnda fyrir hann særðu þeir Föstólfur eitt sinn Úlfhjeðin til ólífis. En áður en hann ljest, bað hann Húnröð bróður sinn að sættast á málið eptir sig, en hann vildi það eigi og stefndi því til alþingis og gerði þá bræður seka. Þeir gerðu þá virki á bæ sínum í Holti og bjuggu þar um sig, svo að Húnröður fjekk engum hefndum fram komið, en hann hafði eytt öllu fje sínu í málsóknina og var kominn í mikil vandræði. Hann leitaði þá liðs hjá Þorkeli kröflu og fyrir hans orð fóru þeir Föstólfur og Þróttólfur

---

[1]) Flat. I. 514; Fms. III. 169—170. [2]) Ldn. 4/182, 5/186; Vatn. 44/71.

utan. En er þeir komu út aptur sætti Þorkell þá alla heilum sáttum.[1])

Hallfreður vandræðaskáld Óttarsson var fæddur og alinn upp í Vatnsdalnum, og gerði þar nokkrar óspektir (um 988). Hann fór þá utan og var í förum. Þá er hann kom út árið 1000, náttaði hann í seljum í Laxárdal hjá Kolfinnu Ávaldadóttur, sem hann hafði lagt hug á í æsku. Hún var þá fyrir löngu gipt Grísi Sæmingssyni. Hann veitti því Hallfreði eptirför og hlutust af þessu tvö víg: varð annað þeirra á Húnavatnsþingi vorið eptir, því að Brandur Ávaldason, bróðir Kolfinnu, hjó þar Galta Óttarsson, bróður Hallfreðar, banahögg til hefnda fyrir þetta. Hallfreður ætlaði þá að ganga á hólm við Grís, en um morguninn, er hólmgangan átti að verða, frjetti hann fall Ólafs Tryggvasonar; varð honum svo mikið um það að hann hætti við hólmgönguna, en Þorkell krafla gerði um málið þar á þinginu og kom sættum á.[2])

Eptir þetta er eigi getið um víg eða róstur í Húnavatnsþingi, fyr en Barði Guðmundsson hefndi bróður síns og Heiðarvíg urðu, sem fyr er frá sagt, og Grettir Ásmundarson kom til sögunnar. Hann var þriðji maður frá Önundi trjefót,[3]) og hafði Þorgrímur hærukollur afi hans flutt sig búferlum norðan af Ströndum og keypt land að Bjargi í Miðfirði.[4]) Sonur hans, Ásmundur hærulangur, var siglingamaður mikill á fyrri árum. Hann bjó síðan að Bjargi eptir föður sinn og fjekk Ásdísar Bárðardóttur Jökulssonar, af kyni Vatnsdæla. Hún var kvennskörungur mikill og var Grettir einn af sonum þeirra.[5])

Grettir var hið mesta hraustmenni og yngstur allra hinna miklu kappa á söguöldinni, því að hann var fæddur í lok 10. aldar (um 996). En um hann hafa myndast fleiri sagnir, þjóðsögur og munnmæli en nokkurn annan íslenskan kappa. Að Bjargi, þar sem hann var borinn og barnfæddur, eru margir stórir hnullungssteinar, og hefur jökull sá, sem

[1]) Vatn. 47/77—80; Ldn. 5/187. [2]) Hallfr. 9—10/104—111; Vatn. 45/75—76. [3]) Ldn. 32/157—158. [4]) Grett. 13/35. [5]) Grett. 13/35—38.

gekk yfir landið á ísöldinni, borið þá þangað. Munnmælin segja að þrjá af steinum þessum, þar á meðal tvo hina mestu, hafi Grettir tekið upp, og eru þeir því nefndir Grettistök eða Grettishöf. Slíkir hnullungssteinar eru víða á Íslandi; ef svo hefur viljað til að þeir hafa staðnæmst á öðrum steinum, þá á Grettir að hafa sett þá á hlóðir. Í Grettis sögu er getið um nokkra slíka steina. Þá er Grettir reið til alþingis fimtán vetra gamall, á hann að hafa hafið upp stein einn undir Sleðaási i Þingvallasveit, sem síðan heitir Grettishaf. Annað Grettishaf er á Hrútafjarðarhálsi, hið þriðja undir Fagraskógarfjalli og hið fjórða á Skjaldbreið.[1]) En sagnir þessar eru eigi sannsögulegar. Flest Grettistökin eru svo stór björg, að hvorki Grettir nje nokkur annar maður hefur getað tekið þau upp.[2])

Grettir var mikill ógæfumaður, af því að hann kunni eigi að stjórna sjálfum sjer. Hann var óstýrilátur og þykkjumikill eins og sagan segir að faðir hans hafi sagt um hann við Þorkel kröflu; hann var vanstiltur, eins og Hafliði á Reyðarfelli kvað sjer sagt. Fyrir því var hann mjög slysinn. Sökum slysni varð hann skógarmaður og varð að þola allar þær raunir, sem skógganginum fylgdu, og að lokum var hann drepinn dauðvona, svo að víg hans var talið níðingsverk. Þá snerust hugir manna og almenningsálitið gegn banamönnum hans; menn taka að tala um afl Grettis og hreystiverk, og minnast þess einnig að hann hjálpaði ýmsum og að ofsi hans kom mest niður á ójafnaðarmönnum og oflátungum. Atgervi hans varð öllum ljós og þá fanst mönnum að hann hefði orðið að þola of mikið ilt, svo að sögusögnin tekur að hreinsa hann. Slysni hans og óhamingja verður álög.[3]) Vættasögur, tröllasögur og draugasögur eru settar í samband við hann, og hann verður fremur en nokkur annar maður sagnhetja Íslendinga, átta manna maki að burðum,

[1]) Grett. 16/53, 30/115, 59/214, 61/223. [2]) Um Grettistök sjá Kålund, Isl. I, 83, 150—152, 167, 192, 212, 271, 389, 399, 434, 517, 523, 539, 568, 581, 598, 601, 634, II, 3—4, 10, 35, 57, 83, 89, 108, 113, 252, 256, 261, 269, 274, 289, 317, 344; Árbók 1893, 71, 78; 1895, 14—15. [3]) Grett. 35/136, 35/138—139.

þótt hann fengi eigi nema helming þess afls, er honum var ætlað.[1]) bjargvættur þeirra, sem ásóttir voru af apturgöngum og meinvættum, og svo vitur, að spakmæli fjúka af vörum hans.[2]) Hann verður „ágætismaður“ í hugmynd manna[3]) og sigrar alt, nema myrkrið og glámskygnina.

Þótt löng saga sje til af Gretti, er þó eigi hægt að segja nákvæmlega af æfi hans svo að sú saga verði áreiðanleg og sönn: það hefur líklega aldrei neinn maður kunnað að segja hið sanna af sektarárum hans og einveru, en sögusögnin hefur fylt upp í eyðurnar. Saga Grettis hefur líklega verið rituð á Þingeyrum eða þar um slóðir, því að sá, sem það hefur gert, hefur eigi haft sagnir af Suður- og Austur-landinu.[4])

Grettir ólst upp hjá foreldrum sínum að Bjargi. Hann var snemma ódæll og hrekkjóttur. Þó unni móðir hans honum mikið og hann hefur eflaust verið þægari við hana en aðra. Faðir hans var búhöldur og vildi venja drenginn á vinnu eins og Atla eldri bróður hans, en Grettir var latur og óbilgjarn og beitti margs konar brögðum við föður sinn. Fyrir því samdi þeim illa.[5])

Grettir var ekki „bráðgörr“ í bernsku, en er hann var tíu vetra, tók hann að þroskast betur. Þá er hann var fimtán vetra, ljet faðir hans hann ríða til alþingis með Þorkeli kröflu, og í þeirri ferð vann hann hið fyrsta víg sitt. Fyrir það varð hann sekur fjörbaugsmaður.[6]) Faðir hans kom honum þá utan og var hann þrjú ár í Noregi (um 1011—1014). Þar vann hann hið mesta frægðarverk, er hann drap Þóri þömb og fjelaga hans tólf saman alla hina verstu illvirkja, og frelsaði húsfreyju og dóttur Þorfinns Kárssonar, lendsmanns í Háramsey frá hinni mestu

---

[1]) Grett. 35 136, 82 284. [2]) Um spakmæli og málshætti í Grett. sjá R. C. Boer, Zur Grettissaga í Zeitschr f. deut. philologie (1898), XXX. 35–38. [3]) Sbr. Grett. 65 238, 93/315. [4]) Um Grettis sögu sja einkum R. C. Boer, Zeitsch, f. deut. philol. XXX, 1–71, XXXI, 40–60 og „Einleitung“ fyrir útgáfu hans af Grettis sögu; enn fremur F. Jónsson, Litteraturhist. II. 748–752, sbr. I. 521–524 og III. 82–83. [5]) Grett. 14/38–46. [6]) Grett. 15/51—53.

svívirðingu.[1]) Þorfinnur launaði Gretti vel hjálpina og gaf honum sax eitt ágætt, sem Grettir bar á meðan hann lifði; einnig veitti hann honum lið, þá er hann komst í háska sökum víga, sem hann vann á meðan hann var í Noregi.

Þá er Grettir kom aptur til Íslands, var hann svo frægur fyrir afls sakir og hreysti, að enginn þótti þá slíkur af ungum mönnum. En sagan segir líka að ofsi hans gerðist þá svo mikill að honum þótti sjer ekkert ófært.[2]) Hún segir að hann færi þá á Þórhallsstaði í Forsæludal, suður af Vatnsdal, og glímdi þar við Glám, hina römmustu og verstu aptur-göngu, til þess að reyna afl sitt. Grettir feldi hann, en var þá svo að þrotum kominn, að hann fjekk eigi brugðið saxinu og höggið af honum höfuðið, fyr en Glámur hafði mælt um og lagt á hann, að flestöll verk hans skyldu snúast honum til ógæfu og hamingjuleysis, og að augu Gláms skyldu jafnan vera honum fyrir sjónum, svo að honum yrði erfitt einum að vera í útlegð þeirri, sem hann mundi verða dæmdur í.

Sagan segir að svo hafi brugðið um lyndisbragð Grettis eptir þetta, að hann hafi orðið ver stiltur en áður og þótt allar mótgjörðir verri. Einnig varð hann nú myrkfælinn og glámsýnn, en svo er sá nefndur, sem sjer hvers kyns skrípi eða missýningar í myrkri; er orðið dregið af glámur.[3])

[1]) Af þessu er þjóðsaga í Háramsey; þó er Grettir eigi nafngreindur í henni, sjá (Norsk) Hist. Tidsskr. I, 498 500. Önnur þjóðsaga af Gretti hefur verið sögð í Seljadalnum (*Sætersdalen*) í Noregi, (Norsk) Hist. Tidsskr. 2. R. II, 377—385, og er það sama þjóðsagan sem er í Grett. 65—66/235 -241, af viðureign Grettis og tröllkonunnar að Sandhaugum í Bárðardal. Eins og Gustav Storm hefur sýnt á hún upphaf sitt að telja til „Norrigia illustrata" og var sú bók töluvert lesin af lærðum mönnum í Noregi á 17. og 18. öld. Ef til vill er sagan af drápi illvirkjanna í Háramsey líka lærðra manna sögn og komin fyrst upp eptir að sagan um það í Grettlu varð þar kunn. [2]) Grett. 28/106. [3]) Grett. 31/120, 32/122, 34—35/131—139. Glámur er skáldskapar heiti á tunglinu Sn.-e. 53/128. Af því hefur Guðbr. Vigfússon ætlað að sagan um Glám væri goðsöguleg, sbr. Sturl. I, Prolegomena bls. xlix, og Icel.-engl. dictionary, glámr, glámblesóttr, sbr. einnig Boer, Zeitschr. f. deut. philol. XXX, 56 o. ef., sem ætlar að sagan um Glám væri upphaflega goðsögn um tunglið. Glámur er líka jötunsheiti SnE. I, 554 = ESn. 270.

Vorið 1016 komu þau tíðindi af Noregi, að þar væri orðið höfðingjaskipti og Ólafur Haraldsson kominn til ríkis, en Sveinn jarl Hákonarson stokkinn úr landi. Ólafur konungur hafði þá nýlega unnið sigur í Nesjaorustu og frægðarorð fór af honum. Einnig var sagt að hann tæki mjög vel við þeim mönnum, er væru atgervismenn, og gerði þá sjer handgengna. Gretti fýsti því að fara utan sem ýmsa aðra unga menn; vænti hann sjer sæmdar af konungi, og það því fremur, sem þeir voru fjórmenningar að frændsemi.[1]) En er hann kom til Noregs, varð hann fyrir því slysi að sæluhús nokkuð á vesturströndinni brann með mönnum þeim, sem í því voru staddir; á meðal þeirra voru tveir synir Þóris Skeggjasonar úr Garði í Kelduhverfi. Þetta var nóttina eptir að þeir Grettir komu til Noregs og hafði hann sótt eld í sæluhúsið um kveldið, til þess að hjálpa skipverjum sínum, og lent þar í einhverjum ryskingum. Nánara er eigi um það kunnugt. Sagan segir, að kaupmennirnir hafi launað Gretti illa hjálpina, afflutt hann og kent honum brunann. Hann vildi þá hreinsa sig af illmæli þessu, en hafði eigi stillingu til þess að bera skírslu. Ólafur konungur vildi því eigi taka við honum.[2])

Sumarið eptir varð Grettir að hverfa aptur til Íslands, en þar biðu hans þung tíðindi: andlát föður hans, víg Atla bróður hans og sekt sjálfs hans. Þórir í Garði hafði á alþingi gert hann sekan skógarmann þá um sumarið.[3])

Ásdís móðir Grettis varð honum fegin. Hann hefndi Atla bróður sins og vá Þorbjörn öxnamegin Arnórsson, banamann hans;[4]) að öðru leyti gat hann eigi orðið móður sinni að liði, því að hann varð að lifa í sekt það sem eptir var æfinnar; en hann gætti þess að hún hefði eigi vandræði af honum og fór burtu. Sagan segir að hann væri 19 vetur í sekt, en það er rangt og einnig orð hennar um úrskurð Steins lögsögumanns Þorgestssonar, „at

---

[1]) Ldn. 32/157—158; Grett. 1/1. [2]) Grett. 37/140. 38/143—147. 39/148—150. Kalund, Isl. II, 179—181. [3]) Grett. 42/156. 45/164. 46–47/164—165; Ldn. 19/230—231. [4]) Ldn. 1/168; Grett. 48/174—175.

engi skyldi lengr í sekt vera en tuttugu vetr alls, þó at hann gerði útlegðarverk á þeim tímum".[1]) Lögsögumaðurinn hafði eigi vald til þess að kveða upp slíkan úrskurð, og í Grágás er ekkert, sem bendir á að menn hafi komist úr sekt eptir ákveðinn árafjölda [2])

Sagan telur einungis 14 sektarvetur Grettis. Þeir munu eigi heldur hafa verið fleiri, því að Grettir fjell í sekt sumarið 1017 að því sem næst verður komist og var drepinn haustið 1031. Aptur á móti er eigi líklegt að sagan segi rjett frá því, hvar Grettir hefur verið alla þessa vetur; eru sjerstaklega litlar líkur til þess að það geti verið rjett, sem hún segir um veru Grettis í Fagraskógarfjalli og Þórisdal. Björn Hitdælakappi mun hafa fallið 1024 eða á meðan Grettir á að hafa verið þar.[3]) Fyrsta sektar veturinn á Grettir að hafa verið á Reykhólum (1017—1018), og annan í Ljárskógum (1018—1019). Síðan varð hann að leggjast út. Er þá sagt að hann væri þrjá vetur á Arnarvatnsheiði (1019—1022), þrjá í Fagraskógarfjalli (1022—1025) og einn vetur í Þórisdal (1025—1026). Sagan segir að hann færi síðan suður um land og til Austfjarða, og á hann að hafa verið tíunda sektarvetur sinn í þeirri ferð (1026—1027). Ellefta veturinn á hann að hafa verið að Sandhaugum í Bárðardal (1027—1028) og haustið eptir fór hann út í Drangey og var þar til dauðadags (1028—1031).[4])

Frá Gretti eru ýmsar sögur á sektarárum hans, nema því ári, er hann fór um Suðurland og Austfjörðu. Þá segir ekki af honum og sagan tekur þar til aptur, er hann kom norður í Þingeyjarþing. Grettir komst opt í miklar mannraunir og var eitt sinn tekinn höndum vestur við Ísafjarðardjúp. Bændur svikust að honum sofandi í Vatnsfjarðardal

---

[1]) Grett. 76—77/268—269. [2]) Sbr. V. Finsen, Retshistorie § 132. [3]) Guðbr. Vigfússon hefur sett upphaf sektar Grettis 1016, en það getur varla verið rjett eptir sögunni sjálfri að dæma. Nesjaorusta mun hafa verið 1016, en eigi 1015 eins og hann ætlar, Safn I, 474 o. ef. Bjarn. 19/42 segir, að Grettir væri einn vetur með Birni og mun það vera rjett. [4]) Grett. 50/179—183, sbr. Flat. II, 121/159, Grett. 53/194, 54—57/199—207, 58/208—210, 60/217, 61/221—224, 63/229, 64—67/233—242, 69/249—250.

og ætluðu að hengja hann, en þá kom þar að Þorbjörg hin digra, húsfreyja í Vatnsfirði, sem var í tengdum við Gretti, og bauð að láta hann lausan.[1])

Af öllum óvinum Grettis var Þórir í Garði hinn harðsnúnasti. Hann sendi flugumann til þess að drepa Gretti og fór að honum sjálfur við fjölmenni, er flugumaðurinn var fallinn. En Grettir sigraði eða komst undan öllum óvinum sínum, uns hann að lokum var unninn á ódrengilegan hátt og drepinn í Drangey, er hann lá þar dauðveikur. Fyrir drápi hans stóð Þorbjörn öngull Þórðarson og segir sagan, að hann hafi unnið Gretti með göldrum og fjölkyngi.[2])

Grettir var lengur í sekt en nokkur annar Íslendingur svo kunnugt sje; sýnir það bert hvílíkt mikilmenni hann hefur verið. Hann varð opt að ræna og taka sauðfje sjer til viðurværis, og átti hann fyrir það sökótt um alt landið.[3]) en annars fengu ofstopamennirnir og oflátungarnir og að því er sagan segir einnig illvættirnar mest að kenna á kröptum Grettis og ofsa. Hann sættist fullum sáttum við Auðun Ásgeirsson á Auðunarstöðum, enda var hann gæfur maður og gegn.[4]) Stundum var Grettir gamansamur og glettinn, og fjekk Gísli Þorsteinsson, oflátungur mikill frá Bæ í Borgarfirði, að kenna harðast á glettni hans.[5]) Sagan segir að Grettir hefði opt gamanyrði á vörum, er því var að skipta, og eru mörg orðtæki og spakmæli kend við hann í sögunni.

Þá er Grettir hafði farið um land alt, kom hann að Bjargi til móður sinnar. Sagan segir að þá gerðist svo mikið bragð að myrkfælni hans, að hann vildi eigi lengur vinna sjer það til lífs að vera einn, og bendir það á, hvaða áhrif það hefur haft á hann, að hafa eigi átt frítt í ellefu ár, svo að hann hafði orðið að fara huldu höfði og verið

---

[1]) Grett. 52/186—193;. Fóst. 1/3—4. Hrefna og Þuríður Ásgeirsdætur, mágkonur Þorbjargar, voru náskyldar Gretti. [2]) Grett. 79—82/274—286. [3]) Sbr. Grett. 69/246. [4]) Grett. 34/130, sbr. 15/46—48, 28/106. [5]) Grett. 59/210—217.

umsetinn af óvinum sínum, hvar sem hann var. **Illugi** bróðir hans var þá, segir sagan, fimtán vetra gamall og allra manna gervilegastur. Hann bauð þá Gretti fylgd sína og fór með honum út í Drangey, og fylgdi honum vel og trúlega; ljet hann þar líf sitt með honum eptir ágæta vörn. En er þeir bræður fóru frá Bjargi, leiddi móðir þeirra þá frá garði; hún bjóst varla við að sjá þá aptur og varð mikið um að skilja við þá. Þá segir sagan, að Grettir hafi mælt: „Grát þú eigi, móðir! þat skal sagt, at þú hafir sonu átt en eigi dætr, ef vit erum með vápnum sóttir; ok lif vel ok heil“.[1])

Hann hjet því að verða móður sinni til sóma á þann hátt, sem þá þótti mest um vert. Hann veitti henni þá huggun, sem hann mátti með vissu veita.

Þorbjörn öngull varð óþokkaður af vígi Grettis, er menn vissu hvernig hann hafði unnið hann. Hann fjekk eigi heldur það fje, sem Þórir í Garði hafði lagt til höfuðs Gretti. Sagan segir að Þorbjörn hafi skapraunað ekkjunni að Bjargi og að þá hafi jafnvel gamlir óvinir Grettis gengið í lið með henni. Þorbjörn var síðan gerður sekur á alþingi um sumarið og fór til Noregs um haustið (1032). Þaðan hjelt hann alla leið út í Miklagarð og þar var hann drepinn af **Þorsteini drómund**, hálfbróður Grettis.[2])

---

## Skagfirðingar.

Nokkrir Skagfirðingar koma við kristniboðs sögu landsins, eins og fyr er sagt, og er einn þeirra, Þorvarður Spakböðvarsson, talinn með höfðingjum 981. Hann var foringi kristinna manna í Skagafirðinum, og má vera að hann hafi

[1]) Grett. 69/246—248. [2]) Grett. 82—85/287—294, 86/296.

tekið upp nýtt goðorð með þeim. Nyrðsta goðorðið í Hegranesþingi áttu niðjar Þórðar í Höfða á Höfðaströnd og var hofsókn þeirra að Hofi þar á ströndinni, en ættin er kend við Höfða (Höfðaætt). Af þeirri ætt var Arnór kerlingarnef Bjarnarson, sem talinn er með höfðingjum 981. Hann bjó á Miklabæ í Óslandshlíð og mun hann þá hafa átt goðorðið; á það bendir einnig þáttur sá, sem af honum er, því að í honum er minst á þingmenn hans. Þótt þátturinn sje helgisögukendur og eigi sannsögulegur, mun það þó líklega rjett hermt, að hann hafi átt þingmenn. Í þættinum segir að Arnór hafi fyrir eggjan móður sinnar bjargað gamalmennum og örvasa mönnum í sveit sinni frá hungurdauða í hallæri einu miklu, þá er samþykt hafði verið at veita þeim enga björg. Veðráttu brá þá til bata, og Arnór og þingmenn hans ljetu feginsamlega skírast, þá er kristni var í lög tekin.[1])

Aðrir nafnkunnir menn af Höfðaætt á síðara hluta sögualdarinnar voru þeir Halldór Þorgeirsson að Hofi á Höfðaströnd, Þórður hesthöfði Snorrason í Reynisnesi og Þorfinnur karlsefni sonur hans.[2])

Annars er alls eigi kunnugt hverjir hafi átt goðorð í Hegranesþingi, en líklega hafa niðjar Hjalta Þórðarsonar að Hofi í Hjaltadal átt mannaforráð austan til í Skagafirðinum og um hann miðjan; hafa þingmenn þeirra átt hof að sækja að Hofi í Hjaltadal. Í Landnámu segir að mikil ætt og göfug sje komin frá sonum Hjalta, en hún er eigi rakin. Fyrir því er eigi annað kunnugt um syni Þórðar Hjaltasonar en það, sem segir í Grettis sögu. Þórður mun hafa lifað fram um aldamótin 1000, því að hann varð gamall; var hann höfðingi ættmanna sinna á síðara hluta 10. aldar. Hann átti tvo syni, Hjalta og Þorbjörn öngul; telur Grettis saga Hjalta einn af hjeraðshöfðingjum í Skagafirði, þá er Grettir kom í Drangey. Hann var vinsæll maður og er

---

[1]) Flat. I, 346/437—439; Fms. II, 226/225—228, sbr. að framan bls. 213. Arnór var tengdasonur Víga-Glúms, Reyk. 24/123; Glúm. 16/44, sbr. 28/237, 20/57, 21/59. [2]) Ldn. 10/198—199; Grett. 70/251, 72/258, 81/280; Eir. r. 7/27, 14/47.

honum borin vel sagan í Grettlu, en öðru máli er að gegna um Þorbjörn bróður hans, banamann Grettis. Hann er bæði kallaður uppvöðslumikill, ódæll og ófyrirleitinn.[1])

Syðst um Skagafjörðinn hafa Goðdælir, synir og niðjar Eiríks að Hofi í Goðdölum, eflaust átt goðorð; er Starri Eiríksson og bræður hans Þorkell, Þorgeir og Hróaldur, taldir með höfðingjum 981. Líklega hefur Starri átt opt í hólmgöngum, eins og venjulegt var um þá menn, sem fengu kenningarnafn sitt af þeim, en af þeim er ekkert kunnugt, nema einni, og þó greinir eigi hvernig hún fór. Maður nokkur, sem Þórarinn hjet og kallaður var hinn illi, skoraði Starra á hólm, og fór systurson hans Úlfhjeðinn Vjefröðarson með honum til hólmgöngunnar.[2]) Hver þessi Þórarinn illi var er óvíst. Í Landnámu eru tveir menn nefndir með því nafni, og er annar þeirra Þórarinn illi, tengdafaðir Illuga hins rauða að Hofstöðum í Reykholtsdal, en hinn Þórarinn illi Steinólfsson, frændi Víga-Glúms, og má vera að það hafi verið hann, þótt þess sje eigi getið; hann mun hafa verið uppi samtíða Starra, þótt hann hafi verið eitthvað eldri, en Þórarinn tengdafaðir Illuga mun hafa verið töluvert eldri, og svo var hann í öðrum landsfjórðungi.

Um niðja þeirra Eiríkssona er lítið kunnugt. Á alþingi 1011 er getið um Hafur hinn auðga Þorkelsson úr Goðdölum og sagt að hann hafi átt búð Skagfirðinga. Ef það er rjett, hefur hann þá verið fyrir Goðdælum Í lok söguraldarinnar er sagt að Eiríkur Starrason hafi búið að Hofi í Goðdölum, og er hann þá talinn einn af helstu höfðingjum Skagfirðinga.[3])

Ýmsir aðrir menn eru nafngreindir í Skagafirði um þessar mundir, sem eigi er þörf að greina hjer. Þótt bæði Hlíðverjar og Skíðungar þeir, er bjuggu í Skagafirði, væru

---

[1]) Ldn. 10/198; Grett. 70/250—251, 72/254, 72/258—259. [2]) Vatn. 47/78. sbr. Ísl. dr. bls 8, 52. Hvaða ár hólmganga þessi hefur verið er ókunnugt, en ætla má að hún verið um 980 eða nokkru síðar. [3]) Ldn. 7/190, 21/64, 16/222; Olk. þ. bls. 20 (= 40 Ísl. þ. 7/534); Nj. 119/612—614; Grett. 70/252.

i tengdum við jafnríka ætt sem Möðruvellinga i Eyjafirði, virðast þeir þó eigi hafa verið yfirmenn Skagfirðinga.

---

## Eyfirðingar, Guðmundur hinn ríki og Einar Þveræingur. Svarfdælir.

Þá er Eyjólfur Valgerðarson fjell frá, var Guðmundur hinn ríki sonur hans með honum og tók hann við búi á Möðruvöllum í Eyjafirði og goðorði föður síns (um 985). Hann var þá um þrítugt. Hann hafði eitt sinn farið utan og gerst handgenginn Hákoni jarli Sigurðssyni.[1]) Einar bróðir hans bjó þá í Saurbæ, skamt frá Möðruvöllum, en hjer um bil ári síðar komst hann að Þverá hinni efri, er Víga-Glúmur varð að fara þaðan sem fyr er sagt. Hann flutti þá út í Hörgárdalinn, en þremur árum síðar keypti hann land að Þverbrekku í Öxnadal og bjó þar til æfiloka (um 1003)[2]). Þótt Glúmur hjeldi goðorði sínu, minkaði þó veldi hans, efni og virðing eigi lítið við það að verða að hrekjast frá föðurleifð sinni,[3]) en að sama skapi óx veldi Guðmundar og vegur og virðing beggja þeirra bræðra. Þverá (nú Munka-Þverá) er vel í sveit komið og Víga-Glúmur var hinn eini maður í Eyjafirðinum, sem hefði getað staðið þeim bræðrum á sporði, en þá var hann flæmdur burt úr bygðinni í heldur fjarlægan dal. Það lætur að líkindum að ýmsir þeir menn, sem höfðu hingað til verið í goðorði með honum, muni þá hafa gerst þingmenn Guðmundar Eyjólfssonar, þótt sögurnar segi ekki af því. Á næstu árum eptir brottför hans hefur uppgangur Guðmundar verið einna mestur; þó er tiltölulega lítið af því kunn-

---

[1]) V.-Ljót. 1/155, 2/161; Ljósv. 2/117. [2]) Glúm. 26/79—81. [3]) Glúm. 27/83, sbr. 9. vísu Glúms, Skjalded. B bls. 114.

ugt; en svo mikið má þó telja víst að hann hafi um aldamótin 1000 verið orðinn langríkastur og fjölmennastur goði fyrir norðan Öxnadalsheiði; í byrjun 11. aldar átti hann marga þingmenn norður í Reykjahverfi og á Tjörnesi í Þingeyjarsýslu. Í Reykjadalnum hefur hann einnig átt þingmenn. Þar bjó Einar Konálsson besti vinur hans og frændi; hefur hann eflaust stutt að því að sveitungar hans gerðust þingmenn Guðmundar og jafnvel hjálpað honum til þess að ná þar goðorði undir sig eða hluta úr goðorði.[1])

Guðmundur var goði í hjer um bil 40 ár (985—1025). Þegar á 10. öld voru goðorðin i Vaðlaþingi fleiri en lög stóðu til.[2]) Eptir setningu fimtardómsins máttu þau vera fjögur. Snemma á 11. öld er líka getið um tvö goðorð i Eyjafirðinum, auk goðorðs Guðmundar hins ríka, og áttu þau niðjar Helga hins magra. Annað þeirra áttu bræður tveir, Brúni í Gnúpufelli og Eilífur skyti. Þeir voru komnir frá Helga hinum magra, líklega frá einhverjum sona Hrólfs í Gnúpufelli, því að þeir voru eigi færri en sjö. Hitt átti Þórir Helgason, sem var fjórði maður frá Helga hinum magra, og var faðir hans sonur Valþjófs Hrólfssonar í Gnúpufelli. Þórir bjó að Laugalandi í Hörgárdal.[3]) Hvað þá var orðið af goðorði Ingjalds Helgasonar eptir fráfall Víga-Glúms, er ókunnugt. Már sonur hans bjó í Fornhaga í Hörgárdal og ljet gera þar kirkju. Hann var „hljóðr ok spakr“ og ef til vill miklu betur til höfðingja fallinn en Vigfús bróðir hans; má vera að hann hafi fengið goðorð föður síns, en um það er ekkert kunnugt; líklegra virðist því að Þórir Helgason, sem var nágranni hans og garpur mikill, hafi þegar fengið goðorðið hjá Má eptir andlát föður hans, af því að hann hafi treyst honum betur en sjálfum sjer til þess að halda því uppi gegn ríki Guðmundar. Þeir Már og Þórir voru fjórmenningar að frændsemi.[4])

---

[1]) Ljósv. 67/132—138, 9—12/144—154, sbr. 21/195, 13/160—161. [2]) Sbr. að framan bls, 409—410. [3]) Ljósv. 13/155—156; Ldn. 16/221. Ljósv. sleppir úr einum lið í ætt Þóris Helgasonar, Hrólfi i Gnúpufelli, eins og sjá má af Ldn. [4]) Glúm. 17/38, sbr. 102. 21/60—62.

Auk þessara þriggja goðorða, sem nú voru nefnd, var Svarfdæla goðorð í Vaðlaþingi.

Guðmundur hinn ríki kemur við fleiri sögur en aðrir höfðingjar á söguöldinni að Snorra goða einum undanteknum. Ljósvetninga saga segir langmest af honum, enda er hann aðalmaðurinn í henni. Guðmundur hefur eflaust verið duglegur maður og hann hefur hlotið að hafa einhverja þá eiginleika, sem höfðingjar þurfa að hafa og almenningi finst mikið um, því að öllum sögum ber saman um það að hann hafi verið mikill höfðingi, þótt honum að öðru leyti sje borin eitthvað misjöfn sagan. Í Njáls sögu er honum lýst glæsilegast. Hann er þar nefndur höfðingi mikill og sagt að hann hafi setið yfir virðingu allra höfðingja fyrir norðan Öxnadalsheiði, svo að sumir ljetu bústaði sína, en suma tók hann af lífi, en sumir ljetu goðorð sín fyrir honum. Þar er einnig skýrt frá auðlegð hans og sagt að hann hefði hundrað hjóna, eins og segir í þættinum um kvonfang Sörla Brodd-Helgasonar, en þar er einnig bætt við að hann hefði hundrað kúa. Sögn þessi er ung og eigi áreiðanleg. Í Njálu er einnig sagt frá kynsæld Guðmundar og kveðið svo sterkt að orði, að frá honum sje komið alt hið mesta mannval á landinu: Oddaverjar og Sturlungar og Hvannverjar og Fljótamenn og Ketill biskup og margir hinir bestu menn.[1]) En á Íslandi var þá meira mannval en þetta.

Guðmundur var vinur Ásgríms Elliðagrímssonar. Hann tók vel liðsbón hans og Njálssona, og eptir Njálsbrennu veitti hann þeim Ásgrími og Kára lið með öllum styrk sínum. Meðfram sökum þess er honum borin sagan svo ágætlega í Njálu.[2])

Þótt lýsing Guðmundar í Njálu sje fegruð og sumstaðar orðum aukin, eins og sjá má af orðum hennar um niðja hans, eru þó kunn nokkur rök og atvik að allri lýsingunni, nema að því, að sumir höfðingjar hafi látið goðorð sín fyrir honum. Þess finst eigi getið, en þó má það vera rjett, því að vel getur verið að Guðmundur hafi eignast svo marga þing-

[1]) Nj. 113/583; Ljósv. 5/127. [2]) Nj. 119/614—616. 120/626—627. 122—123/634—636. 123/640. 134/707. 140/752—754. 145/808—824.

menn fyrir norðan Vaðlaheiði á þann hátt, að einhver hafi látið þar goðorð sitt fyrir honum. Hins vegar gátu Þingeyingar gengið í goðorð með honum, ef þeir vildu, án þess þó að nokkur goði ljeti þar goðorð sitt, nema ef allir þingmenn hans segðu sig úr þingi við hann. En ef þessi orð Njálu eru rjett, þá hefur Guðmundur Eyjólfsson verið hinn fyrsti goði, sem átt hefur fleiri goðorð en eitt, svo getið sje; er þá eigi furða, þótt hann hafi verið kallaður hinn ríki.

Í Ljósvetninga sögu kemur stundum fram nokkur kali gegn Guðmundi ríka, einkum í þáttum þeim, sem skotið er inn í söguna um viðureign hans við Austfirðinga og Reykdæli, 5.—12. kapítula.[1]) Það er sagt, að honum þætti lofið gott.[2]) Hann var rausnarmaður, ríkur og fjölmennur. Stórmenska hans og metnaður kemur opt í ljós og þess er getið optar en einu sinni að hann hafi setið yfir metorðum manna þar nyrðra eða í hjeraðinu.[3]) Bæði af því og af því að hann var vel fjáður og honum gekk vel, átti hann ýmsa öfundarmenn, sem reyndu að vanvirða hann, er þeir sáu sjer færi til þess; en þá vildi Guðmundur síst láta sinn hlut, er hann þóttist eiga að gæta virðingar sinnar, enda segir ein sagan, að Guðmundur hjeldi virðingu sinni alt til dauðadags.[4])

Í raun rjettri hefur Guðmundur verið heldur friðsamur maður, tryggur við vini sína og að ýmsu leyti göfugur maður. Hann var eigi svo mikill vitsmunamaður sem Einar bróðir hans, en hann var sagður forspár.[5]) Einar er aptur á móti í Ljósvetninga sögu kallaður spekingur. Hann var hygginn maður og gætinn, kænn og sjeður, tortryggur og mjög athugull; er sagt að hann gengi opt úti um nætur og hugði að stjörnum og himintunglum.[6]) Heldur fátt var með þeim bræðrum, en þó fylgdust þeir venjulega að málum.

---

[1]) Um Ljósvetninga sögu sjá A. U. Bååth, Studier öfver kompositionen i några isländska ättsagor, Lund 1885, bls. 1—19, og F. Jónsson, Litteraturhist. II, 498—505. [2]) Ljósv. 5/130—131, sbr. 13/157. [3]) Hkr. II, 85/160; Ljósv. 5/127, 6/132, 5/128—131, 7/135, 10/145, 11/148—149, 12/153, 13/156, 14/167, 14/168—171, 20/193—194; 13/155, 20/194; sbr. V.-Ljót. 2/162. [4]) V.-Ljót. 7/194. [5]) Ljósv. 7/137, 11/151, 11/153; V.-Ljót. 2/163. [6]) Ljósv. 13/155, 14/165, 17/178—179; Glúm. 28/86.

Sagan segir að Einar hafi gletst eitt sinn illa til við bróður sinn, er þeir voru ungir, og talið hann á að höggva öxi í skalla fóstra síns, til þess að verja hann mýbiti. Guðmundur fann þegar á eptir að ráð þetta var eigi af heilu við sig og gat seint gleymt því.[1] Hann hjelt að sögn Einari bróður sínum litið til virðingar,[2] og hefur eigi alt verið metnaðarlaust með þeim. Einar var talinn vel fjáður maður og hann var líka mikils metinn sökum ættgöfgi og vitsmuna. Hann fjekk snemma göfugt gjaforð, Guðrúnu Kleppsdóttur, hersis í Noregi, og áttu þau eigi minna en tíu börn, sex dætur og fjóra syni, sem upp komust. Þorkell Geitisson, Ljótur Síðu-Hallsson, Þórarinn sælingur Þórisson, Snorri goði, Þorgils Arason og Grímur Oddason urðu allir tengdasynir hans snemma á 11. öld (líklega flestir á árunum 1003—1014).[3] Virðing Einars fór vaxandi með aldrinum, og var mest er hann hafði bundið tengdir við svo marga höfðingja. Á alþingi 1024 kom það í ljós, hve ráð hans voru mikils metin í vandamálum.

Slíkur höfðingi sem Guðmundur hinn ríki hlaut eðlilega að verða riðinn við ýms mál, bæði í hjeraði og á alþingi. Fyrstu málaferlin, sem sagt er að hann hafi átt í, voru við Þorkel kröflu. Hann vá Glæði systurson Guðmundar, en bróðurson Þorgils gjallanda að Svínavatni. Hvaða ár þetta var, er ókunnugt, en sagan bendir á að það hafi verið um eða rjett eptir 975. eða nokkru áður en Þorkell fjekk goðorð og því töluvert fyr en Guðmundur tók við ríki. Sagan af þessu er sagnkend og óáreiðanleg; segir hún að Þórdís frá Spákonufelli hafi með fjölkyngi fengið Guðmund til þess að falla frá hjeraðssektum og utanferðum og taka fjebótum. En ef Guðmundur hefur verið aðili í þessu máli, hefur hann verið það fyrir hönd föður síns.[4]

---

[1] Ljósv. 14/164, 15/172—173, 16/173—174 sbr. 12/153. [2] Ljósv. 11/151. [3] Ljósv. 11—12/150—152, 12/154; Vápn.[2] 13/70—71; Dropl.[2] 12/166, 13/169—170; Ísl. I, 361; Þorst. S. 231; Ldn. 1/240, 12/314, Ljósv. 25/224; Eyrb. 125; Mb. 253; Heið. 101, 71, 90; Þórð. 65, 66; Þórð. s. hr. 9/104—105; sbr. Ldn. 17/224, 1/239. [4] Vatn. 44/71—75, sbr. útdr. Mb., Ldn. 4/182—183.

Í hinum miklu deilum við Víga-Glúm veitti Guðmundur Einari bróður sínum lið. Í lok aldarinnar komst hann aptur í deilur við Glúm út af vígsmáli nokkru, og veitti Guðmundur honum þá einnig lið; varð þá bardagi á milli þeirra á haustþingi og fjekk Guðmundur þar áverka. Menn Einars og Esphælingar voru þá fjölmennir og áttu þeir upptökin að bardaganum, en Glúmur átti að helga þingið og hafði einungis 30 manna; fjellu þar tveir menn af honum, áður en menn fengu gengið á milli og skilið þá. Annar þeirra var Grímur eyrarleggur, bróðir konu Glúms. En svo var gjört um mál þessi, að víg hans var látið jafnt og áverki sá, er Guðmundur fjekk. Glúmur undi því illa og kvartar hann undan því í síðustu vísu sinni að hann megi eigi hefna mágs síns sökum aldurs. Nokkru eptir þetta varð Glúmur sjónlaus, og segir það síðast af viðskiptum þeirra, að Glúmur hafi eitt sinn látið bjóða þeim bræðrum, Einari og Guðmundi, heim til sín, er þeir riðu af alþingi, en sökum varkárni Einars þágu þeir eigi boðið. Glúmur hafði þá brugðið sax undir skikkju sinni og ætlaði að drepa annan hvorn þeirra.[1])

Um það leyti sem Víga-Glúmur dó, átti Guðmundur í allsnarpri deilu við Þorkel Geitisson út af áverka, sem Vöðu-Brandur Þorkelsson veitti einum þingmanni hans norður í Reykjahverfi.[2]) Guðmundur vildi eigi taka fjebætur, þótt Þorkell byði þær, en bjó málið til Vaðlaþings og ætlaði að gera

---

[1]) Glúm. 27—28,81—87; Skjalded. B. bls, 114. 11. vísa; Ldn. 13/209 210; Mb. 252. 253. Sbr. F. Jónsson, Litteraturhist. II, 494—495; Eggert Ó. Briem, Tímarit Bókmfjel. III, 100—112. Briem segir bls. 109, „að vegandinn hafi verið sekur gjörr á alþingi svo sem í Glúmu segir frá", en það er rangt. Í Glúmu 27 82 stendur að eins þing, „þessi mál komu til þings .... fóru fram á þingi". Bæði alþingi og vorþingin eru í sögunum opt nefnd að eins þing, þá er um saksóknir er að ræða og verður í hvert sinn að ráða af sambandinu við hvaða þing er átt. Hjer virðist beinast liggja við að ætla að átt sje við vorþing í Vaðlaþingi. Báðir málsaðilar áttu þingsókn þangað og var engin ástæða fyrir Esphælinga og Einar að stefna málinu til alþingis. Melabók yngri, sem hefur útdrátt um þetta, bendir á vorþingið; þó er þar blandað saman vígsmálinu á vorþingi og viðureign þeirra Glúms og Einars á haustþinginu.

[2]) Ljósv. 9—10/144—45.

Brand sekan. Þorkell fjekk þó með brögðum eytt þar málinu og fór það síðan til alþingis; en þar varð Guðmundur að sætta sig við að taka fjebótum fyrir áverkann, því að Síðu-Hallur mun hafa veitt Þorkeli lið og hann fjekk Ófeig Járngerðarson til að miðla málum með sjer. Þeir fengu þá Einar þveræing til þess að festa Jórunni dóttur sína á alþingi og varð honum þá mest um það hugað að koma á sáttum. Guðmundur fjekk sjálfdæmi um fjebæturnar, en þó þótti virðing hans hallast í máli þessu fyrir Þorkeli Geitissyni, af því að hann hafði eigi komið vilja sínum fram. Segir sagan að Bjarni Brodd-Helgason hafi brugðið honum um það þar á þinginu, af því að Guðmundur hafði eigi viljað sætta þá frændur, er Bjarni bað hann þess, en aptur á móti gefið þá í skyn, að Þorkell væri eigi mikill fyrir sjer. Mál þetta stóð að eins eitt ár og var um 1003.[1])

Nú liðu svo nokkur ár að Guðmundur og Eyfirðingar áttu eigi í málaferlum, en um 1008 komst hann í deilur við Valla-Ljót og Svarfdæli út af vígi Halla Sigmundarsonar, er kallaður var Hreðu-Halli eða Eyglu-Halli.[2])

Svarfaðardalurinn, sem gengur upp af vík einni að vestanverðu við Eyjafjörð, er einhver hinn fegursti dalur á Norðurlandi. Hann er breiður og grösugur neðan til, einkum frá Grund og niður um Tjörn og Velli. Dalur þessi var viðburðaríkur meiri hluta söguøldarinnar. Höfðingjarnir lágu þar lengi í innbyrðis deilum; voru þar annars vegar Þorsteinn svarfaður (eða svörfuður) og niðjar hans, en hins vegar Ljótólfur goði og afkomendur hans og frændur. Nú er lítið kunnugt um deilur þeirra á fyrri helming söguøldarinnar annað en það, sem segir í Landnámu.[3]) því að Svarfdæla saga, sem segir mest af þeim, er svo óáreiðanleg að mjög lítið er á henni að græða.[4])

Ljótólfur eða Álfur goði var sonur Álreks land-

[1]) Ljósv. 10—12, 145—154. Þorsteinn Síðu-Hallsson, sem Ljósv. nefnir, var þá barn. [2]) V.-Ljót. 2, 161; Svarfd. 32, 111. [3]) Ldn. 13, 208. [4]) Um Svarfdælu sjá formála F. Jónssonar fyrir útgáfu hans, bls. XXVIII o. ef., ritgjörð hans „Om Svarfdæla Saga“ í Aarb. f. n. Oldkh. 1884, bls. 120—142 og Litteraturhist. II, 754—756.

námsmanns[1]) og bjó hann að Hofi í Svarfaðardal. Eins og bæjarnafnið bendir á, reisti hann þar hof og sóttu flestir Svarfdælir þangað. Hann fjekk því náð mestum yfirráðum þar í dalnum og gerðust flestir dalbúar þingmenn hans, en niðjar Þorsteins svarfaðar fengu þar eigi mannaforráð og urðu að lúta í lægra haldi, þótt þeir væru hraustir.

Sonur Ljótólfs (eða Álfs) goða var Ljótur goði, sem kendur er við bæinn Velli í Svarfaðardal og Valla-Ljóts saga er af. Hann var samtíða Guðmundi hinum ríka og mun varla hafa tekið við goðorði fyr en eptir 980. Ljótur var vel gefinn, stiltur og óhlutdeilinn, en ef hann var áreittur, var hann þykkjuþungur. Hann var tregur til stórvirkja, eins og sagan segir að hann hafi sagt um sjálfan sig, en þó þótti honum ilt að láta hlut sinn fyrir nokkrum manni.[2])

Halli Sigmundarson var sonarsonur Karls hins rauða Þorsteinssonar svarfaðar, en móðir Halla var dóttir Ingjalds Hrólfssonar í Gnúpufelli. Hann var lengi með Guðmundi hinum ríka og var „grjótpáll fyrir málum hans“, því að hann var lögkænn og fór mjög með sakir.[3]) Um 1007 flutti Halli á móti ráðum Guðmundar hins ríka út í Svarfaðardal, því að hann hugði að hann mætti verða þar mestur maður. Hann bað eigi bygðarleyfis og þegar um haustið óvingaðist hann við Ljót goða með því að taka af honum fje fyrir litla sök, helgibrigði á Mikjálsmessu.[4]) Hann fór eigi heldur vingjarnlegum orðum um Ljót, svo að hann sannfærðist um að þetta var eigi af góðvilja gert, og drap hann því Halla um veturinn. Guðmundur ríki bjó þá eptirmál til alþingis og galt Ljótur þar fyrir vígið svo að þeir sættust, en þó hlautst mikið ilt af vígi þessu.[5])

Halli átti tvo bræður og hjet hinn eldri Hrólfur, en hinn yngri Böðvar. Hann var kaupmaður, góðlyndur og vel látinn, en Hrólfur var uppivöðslusamur og ágjarn, og bendir auknefni hans gípur á að hann hafi eigi verið vel

---

[1]) Ldn. 1/238; V.-Ljót. 2/164. [2]) V.-Ljót. 2/164–166. 5/185, 6/187. [3]) V.-Ljót. 1/155, 2/161, 3/167. [4]) V.-Ljót. 3/164–168. [5]) V.-Ljót. 3–4/173–174.

þokkaður.[1]) Eitt sinn um sumarið, þá er menn voru að kaupstefnu í Eyjafirði sætti hann færi og drap með svikum Þorvarð Þorgrímsson systurson Ljóts goða. Guðmundi ríka líkaði verk þetta illa og sendi Ljóti orð að hann vildi sættast, og bætti hann síðan vígið á alþingi (um 1009).[2]) Það var hvorttveggja að víg þetta var ilt, enda kom það hart niður á saklausum mönnum. Böðvar Sigmundarson og sonur Halla, er Bessi hjet, höfðu verið í kaupferðum og komu út um sumarið. Um veturinn fóru þeir sjóleið út í Ólafsfjörð að heimta inn verð fyrir vöru sína. Þeir hreptu þá óveður og frost, svo að þeir urðu að fara heimleiðis um Svarfaðardalinn. Frændur Þorvarðs urðu þeirra þá varir og þótt Ljótur vildi eigi rjúfa gjörðar sættir, voru þó sumir þeirra svo æstir, að þeir fóru með ofurefli liðs og sátu fyrir þeim. Fundur þeirra varð „á Hrísum upp frá Dalsbæ, milli bæjanna og Hellu“, og fjell þar Böðvar og Bessi og tveir menn með þeim, en tveir af Svarfdælum (snemma á ári, líklega 1010).[3])

Svarfdælir leituðu nú liðs hjá Ljóti og tók hann við frændum sínum, en sendi burtu þá menn, sem sekastir voru af vígunum, og kom þeim utan. Guðmundi ríka þótti þetta alt ill tíðindi og fór út í Svarfaðardal, ef hann fengi náð Ljóti á sitt vald, en það mistókst. Segir sagan að Guðmundur skyti spjóti á eptir honum og tók Ljótur það og varðveitti. Þá er á alþingi var komið, færði hann Guðmundi spjótið og fór að öllu svo vel og hóflega, að hann náði sáttum og Guðmundur mátti vel við una. Þótt Hrólfur gípur ryfi sætt þessa, hafði það nú engin ill áhrif á mál þessi, því að þeir Guðmundur og Ljótur jöfnuðu það á milli sín.[4])

Á tveimur hinum næstu alþingum er Guðmundar getið í Njálu, en er brennumálinu var lokið eða um það leyti komst hann í harða deilu við Þóri Helgason og tók síðan af lífi Þorkel hák. Hann átti þá illmælis að hefna; tók

[1]) Gípur þýðir líklega gap, kjaptur, sbr. F. Jónsson. Aarb. f. n. Oldkh. 1908, bls. 326. [2]) V.-Ljót. 1/155, 4/174—176. [3]) V.-Ljót. 5/176—183. [4]) V.-Ljót. 6—7/185—194.

hann engu máli með meiri þykkju og ósveigjanlegu fylgi en því, enda var þar mannorð hans og virðing í veði.

Í brúðkaupi einu að Bægisá í Hörgárdal bar svo við, að Geirlaug kona Þóris Helgasonar móðgaði mjög Þorlaugu konu Guðmundar hins ríka.[1]) Það var auðsjáanlega töluverður metnaður á milli þeirra og sagði Geirlaug við Þorlaugu, að það væri eigi einmælt að bóndi hennar væri vel hugaður eða snjallur, og bar hún sjerstaklega Þorkel hák og bónda sinn fyrir því. Þorlaug tók sjer þetta svo nærri að hún mataðist eigi og vildi eigi sitja brúðkaupið. Guðmundur varð því að fara heim með henni og sagði hún honum á leiðinni hið sanna af samtali þeirra Geirlaugar.[2])

Guðmundur tók þessu stillilega en ásetti sjer þó að hefna þess alvarlega. Hann ráðfærði sig fyrst við Einar Konálsson fóstra sinn og gaf hann honum að sögn það ráð, að taka sakir þær, er hann fengi, á hendur þingmönnum Þóris Helgasonar, og gera af þeim fje og fá það Einari til varðveislu; mætti hann á þann hátt láta þá Þóri bæta Þorkel hák, því að honum var ætlaður dauði.

Nú fer nokkuð tvennum sögum um hefndina í þeim handritum, sem til eru af Ljósvetninga sögu. Er svo að sjá af öðru þeirra (AM 561, C, 4to) sem Guðmundur hafi fengið margar sakir á hendur þingmönnum Þóris, áður en hann háði mál á móti Þóri Akrakarli, og gert fje af þeim, en Þórir Helgason fengið ósæmd af, er hann gat eigi haldið þingmenn sína. Líklega er þetta orðum aukið, og hefur Guðmundur tæplega átt önnur mál við Þóri Helgason, en þau, sem hlutust af vörusvikum Akrakarlsins.

Af þeim sökum segir ítarlega í báðum handritunum, en töluverðar missagnir eru þar um einstök atriði.

Þórir (eða Þorgils) frá Ökrum[3]), sem kallaður var Akrakarl, keypti vörur af Austmanni nokkrum[4]) og galt

[1]) Þorlaug var dóttir Atla hins ramma Eilífssonar og konu hans Herdísar Þórðardóttur frá Höfða. Ldn. 6/188. [2]) Ljósv. 13/156—160. [3]) Akrar þessir voru í Hörgárdal, en eru fyrir löngu komnir í eyði, Kålund, Isl. II, 107. [4]) Hann er nefndur Helgi Arnsteinsson í þeim handritum, sem sagan er prentuð eptir, en Ingjaldur í AM 561 C, 4to.

honum fyrir sviknar vörur. Austmaðurinn seldi Guðmundi ríka sök þessa í hendur og fylgdi hann henni svo fast, að Akra-Þórir varð sekur, og fór hann þá utan með lausafé sitt.[1])

Enn er fjeránsdómur var háður, fann Guðmundur nokkra hafra (10 eða 30), sem Akra-Þórir hafði átt, en Þórir Helgason hafði markað sér; kvað hann Akra-Þóri hafa gefið sjer þá til liðveislu. Guðmundur kvað gjöfina ólöglega og stefndi Þóri Helgasyni til alþingis fyrir að hafa markað og vilt heimildir á fje, sem Akra-Þórir hafði átt, síðan sök var hafin á móti honum.

Þórir Helgason fann nú að Guðmundur mundi ætla að hefna illmælisins og að sjer mundi engrar vægðar von. Hann fór því að finna Einar á Þverá, sem var gamall vinur hans og bað hann liðs. Hann var vant við kominn sökum frændsemi og af því að hann hafði rjett áður þegið dýrgrip af bróður sínum, en hann hjet þó að slíta eigi vináttu við Þóri og að reyna að koma á sáttum. En það var mjög erfitt, því að Guðmundur ljet sjer eigi annað líka, en sjálfdæmi sitt og að Þórir yrði sekur fjörbaugsmaður. Hann var og miklu fjölmennari á alþingi en þeir og hafði þar meira fylgi. Hann vildi því eigi þiggja gjörð Einars bróður síns, en þá segir sagan að Þórir Helgason hafi tekið það ráð að kveða upp úr með það, hvers vegna Guðmundi þætti svo mjög við sig; ástæðan til þess væri sú að hann hefði sagt að hann væri ragur; nú vildi hann reyna hvort það væri satt, „því at ek vil skora á þik til hólmgöngu" að þriggja nátta fresti. Hólmgöngur voru þá afteknar, en löghlýðni landsmanna var eigi meiri en svo, að þetta getur verið satt. Sagan segir, að Guðmundur hafi ætlað að ganga á hólm, þótt hann væri enginn garpur, en Vigfús Víga-Glúmsson, sem þá var með honum á þingi, sá að það var óráð og bauð honum að bjarga við málinu með því að skora á Einar bróður hans til hólmgöngu. Af þessu varð þó eigi, því að Einar fann feginleik á Guðmundi og að þeir mundu

---

[1]) Ljósv. 13—14/161—169, 257—259.

hafa hitt nokkuð ráð, er mundi gegna þeim illa, ef það kæmi fram. Hann fjekk því Þóri til þess að ganga að því, að Guðmundur fengi sjálfdæmi til þess að hann gæti komið á sættum. Guðmundur tók því og gerði Þóri sekan fjörbaugsmann og af honum hundrað silfurs. Þórir var síðan utan þrjá vetur, en kom út á sumrin til að líta eptir búi sínu. Eptir það bjó hann kyr á Laugalandi til elli og þótti skörungur, þótt Guðmundur hefði haft sæmdarhlut af málum þeirra.[1])

Því næst sneri Guðmundur hinn ríki hefndum móti Þorkeli hák Þorgeirssyni og tók um sumarið mann einn austfirskan eða sunnlenskan, sem Þorbjörn hjet (eða Þorsteinn) og kallaður var rindill[2]), til þess að nota hann sem flugumann. Eptir bardagann á Ljósvetningaleið og deilurnar um 994 hefur líklega aldrei gróið um heilt með Guðmundi og þeim Þorgeirssonum; þó er þess eigi getið að þeir hafi átt í deilum eptir það, fyr en Þorkell gerði illmæli um Guðmund, og var það fyrir 1011, ef marka má Njálu.[3]) Um haustið bjó Guðmundur Rindil út sem langferðamann og sendi hann til Þorkels háks á heimili hans að Öxará til þess

[1]) Ljósv. 14—18/169—181, sbr. 259—267. [2]) Handritunum af Ljósv. ber hvorki saman um nafn hans nje átthaga. [3]) Guðbrandur Vigfússon, Safn I, 487, 489, ætlar að orð Nj. 119/618 um að Þorkell hafi „barist á Ljósvetningaleið við Guðmund hinn ríka með bræðrum sínum“ bendi á, að þeir hafi átt þar bardaga við hann, sem sje annars með öllu ókunnur og ætlar hann að það hafi verið um 1008. En í Njálu er auðsjáanlega átt við bardaga þeirra bræðra við Guðmund og Þorgeir föður þeirra um 994, Ljósv. 2/120, eins og sjá má af Nj. 120/623, þar sem segir að Þorkell hafi kúgað föður sinn og barist við hann. Guðbr. Vigfússon segir einnig, Safn I, 487, að „Þorkell hákr hafi skrifað þá orustu á skjöld sinn“, en fyrir því finst engin heimild. Í Nj. 119/618 segir að Þorkell hafi látið gera „þrekvirki“ nokkur, er hann vann þá er hann herjaði í Austurveg, „yfir lokhvílu sinni og á stóli fyrir hásæti sínu“ og mun það hafa gefið tilefni til að Guðbr. Vigfússon segir þetta. Hann ritaði hina nafnkunnu ritgjörð sína „Um tímatal í Íslendinga sögum í fornöld“ mjög mikið eptir minni, en gaf sjer eigi tíma til þess að líta eptir ýmsum einstökum atriðum í sögunum. Fyrir því hefur margt orðið skakt og ónákvæmt í þessari merkilegu ritgjörð. Þó hafði Guðbrandur Vigfússon ágætt minni.

að njósna og taka þar lokur frá hurðum á næturþeli, svo að Guðmundur gæti gengið þar inn, er hann kæmi. Hann ljet Rindil sæta lagi að koma að Öxará illa til reika í vondu veðri, svo að Þorkell úthýsti honum eigi. Um nóttina kom Guðmundur með tuttugu manna, gekk inn í bæinn og feldi Þorkel eptir hrausta vörn.[1])

Guðmundur bauð bræðrum Þorkels, Tjörva og Höskuldi, bætur fyrir víg hans, og tóku þeir við þeim og voru sáttir að kalla. En þó kom mannhefnd fyrir Þorkel. Þeir bræður Brúni og Eilífur í Gnúpufelli voru tengdir Þorkeli og fyrir því vá Eilífur Rindil fyrir svik hans. Guðmundur vildi þegar hefna hans og var svo reiður að hann ætlaði, að því er sagan segir, að láta brenna bæinn á Gnúpufelli, af því að Brúni vildi eigi selja fram bróður sinn. Þorlaug kona Guðmundar var þar þá stödd hjá frændkonu sinni, Álfdísi Koðránsdóttur konu Brúna, og fjekk hún eigi sefað mann sinn. Þá segir sagan að ungur maður gengi fram í dyrnir og var það Koðrán sonur Guðmundar, sem var þar með móður sinni.[2]) Hann hjet því að vera föður sínum verri en nokkur annar maður, ef móðir hans brynni þar inni; þá ljet Guðmundur undan og fór brott.

Líklega hefur sögusögnin lagað þetta í hendi sjer til þess að gera söguna áhrifamikla og Guðmund sem skapstærstan. Það er heldur ólíklegt að eins ráðsettur höfðingi og Guðmundur ríki hafi sótt svo fast að hefna manns, er var svo lítils verður sem Rindill, að hann hafi viljað hætta lífi konu sinnar.[3])

Eigi er hægt að segja með vissu hvaða ár deilur þessar við Þóri Helgason voru nje víg Þorkels háks; en ef marka

---

[1]) Ljósv. 18—19/181—187, 267, 268—272. [2]) Ljósv. 20/193 segir að það væri Halldór sonur Guðmundar, en það er rangt. Hann var þá farinn utan og líklega fallinn. Af Ljósv. 22/199 má sjá að hjer hefur átt að standa Koðrán. Hann óx upp með Hlenna í Saurbæ, sem hjálpaði Eilífi undan Guðmundi ríka, Ljósv. 20/191—192. Hefur hann líklega fengið þau mæðgin til að fara í Saurbæ. [3]) Ljósv. 20/188—194.

má Njálu, hefur þetta verið eptir Njálsbrennu, líklega um 1012—1015.

Eptir þetta er þess eigi getið að Guðmundur hinn ríki ætti í miklum deilum. Hann kemur við Ölkofra þátt og þeir bræður báðir. Hann fjekk tvisvar orðsendingar frá Ólafi konungi Haraldssyni og hjelt fyrir hann Hrærek konung einn vetur (1020—1021). Sumarið 1024 var Guðmundur síðast á alþingi, eins og enn mun sagt verða. Veturinn eptir andaðist hann hjer um bil sjötugur að aldri, og tóku þá synir hans, Eyjólfur og Koðrán, við fje hans og ríki. Frá dauða Guðmundar segir ítarlega í Ljósvetninga sögu.

Einar lifði bróður sinn, en dauðaár hans er ókunnugt.[1])

---

## Þingeyingar.

Á síðasta þriðjung söguialdarinnar koma Þingeyingar svo lítið við sögur, að varla er hægt að segja, hverjir voru helstir höfðingjar og áttu þá goðorð í Þingeyjarþingi.

Goðorð Þorgeirs Ljósvetningagoða gekk til sona hans og var lengi í ætt hans. Er svo að sjá af Njálu sem Þorkell hákur hafi verið fyrir Ljósvetningum á alþingi 1011 og farið þá með goðorðið. Hann var hraustmenni mikið, en einlyndur og geðstirður; er sagt að hann væri kallaður hákur, af því að „hann eirði hvárki í orðum né verkum við hvern sem hann átti.“ Fyrir því átti hann sökótt, en hafði þó fátt hjóna að heimili sínu Öxará, skamt frá Ljósavatni.[2])
Þorkell hafði verið utan og fengið þar frama í hernaði;

---

[1]) Ljósv. 21—22/194—199; Hkr. II, 85/159—160, 129/281. [2]) Í Ljósv. 13/155 er sagt „Öxará í Ljósavatnsskarði“, en Öxará er fyrir suðaustan Ljósavatn við mynni Bárðardalsins, Kålund, Isl. II, 150. „At Öxará í fásinninu“ Nj. 120/623, þ. e. Að Öxará í fámenninu; Jón Þorkelsson rektor, Íslendingur 1861, II, 39.

hefur það líklega verið á síðasta tug 10. aldar. Eptir víg hans munu bræður hans Höskuldur og Tjörvi hafa farið með goðorð, því að þeir voru mest fyrir þeim bræðrum. Höskuldur var uppivöðslumaður og voru sumir Ljósvetningar misjafnlega þokkaðir.[1])

Einhverjir hinir göfugustu menn í Þingeyjarþingi voru sumir niðjar þeirra Þorsteinssona, Eyvindar og Ketils hörðska, í Reykjadalnum. Merkastur þeirra á síðara hluta söguald-arinnar var Einar Konálsson Ketilssonar. Hann bjó lengi á föðurleifð sinni Einarsstöðum. Hann var systurson Eyjólfs Valgerðarsonar, og er í Reykdælu kallaður fóstri hans, en í Ljósvetninga sögu og Njálu fóstri Guðmundar hins ríka; mun Eyjólfur hafa alið hann upp. Ljósvetninga saga segir einnig að hann hafi verið besti vinur Guðmundar, og hann hafi sótt Einar að ráðum, því að hann var „spekingur mikill“. Hann var eldri en Guðmundur og kemur fyrst við mál manna um 970; hann átti þá góðan hlut í að koma á sáttum eptir víg Áskels goða frænda síns. Síðan átti hann optar góðan þátt í málum manna og ýmsir leituðu hjálpar hjá honum. Hans getur á alþingi 1012. Eptir víg Þorkels háks bauð hann bræðrum hans bætur af hendi Guðmundar og kom á sáttum, þótt eigi greri þar um heilt. Eptir það er hann eigi nefndur, enda hefur hann þá verið kominn undir sjötugt. Tengdasonur Einars var Þorsteinn goði úr Ásbjarnarvík, en um hann er ekkert kunnugt og eigi heldur um bæ hans; má vera að hann hafi verið goði í Þingeyjarþingi.

Í Njálu er getið um einn höfðingja úr Reykjadalnum á alþingi 1012, Áskel goða Þórketilsson eða Eyvind Þorkelsson. Hann hefur verið af þessari ætt, og bræðra-barn við Kol Víga-Skútuson, sem þar er einnig talinn með höfðingjum.[2])

---

[1]) Ljósv. 13/155—156, sbr. 22/200, 25/223, 30/244; Nj. 119—120/616—625, 138/737—738. [2]) Ldn. 19/229; Reyk. 1/2. 16/84, 23/116. 24/121—122; Glúm. 14/41—42; Ljósv. 13/160—161. 14/171. 19/188; Nj. 140/752. 141/761, 138/737, 143/790.

Þá var einn nafnkendur maður um þessar mundir norður í Reykjahverfi. Það var Ófeigur Járngerðarson í Skörðum, sem fyr er nefndur. Um ætt hans er litið kunnugt. Faðir hans hjet Önundur og hefur Ófeigur líklega verið kominn af Hróaldi Höskuldssyni landnámsmanns í Skörðuvík og Ægileifu dóttur Hrólfs Helgasonar í Gnúpufelli.[1])

Ófeigur var á líku reki sem Einar Konálsson. Hans getur fyrst þá er sagan segir að hann væri átján vetra og hjelt hann þá skildi fyrir Þorkeli Geirasyni í hólmgöngu einni; síðan reyndi hann sig við skjaldbera mótstöðumanns hans og feldi hann, Þetta á að hafa verið nokkru eptir 960. Síðast er Ófeigur nefndur á efstu árum Guðmundar hins ríka, og hefur hann orðið háaldraður maður, ef sögurnar herma rjett frá honum.[2])

Ófeigur var höfðingi og hraustmenni mikið.[3]) Hann kemur töluvert við Ljósvetninga sögu; hann er beðinn liðveislu og miðlar málum og leitar um sættir. Hann var fyrir bændum í Reykjahverfi, en hann átti þó eigi goðorð, nema ef til vill hlut í því, heldur virðist hann hafa verið þingmaður Guðmundar hins ríka; hann átti búð á Vaðlaþingi og einnig á alþingi. Sagan segir að hann væri vinur þeirra bræðra, Guðmundar og Einars, en honum ljek þó nokkur öfund á ríki Guðmundar, eða þótti hann berast of mikið á; kemur metnaður Ófeigs mest fram gegn honum. Má vera að Guðmundur hafi náð goðorði þar nyrðra, sem Ófeigur hafi annars talið sig líklegastan til að fara með, eða honum hafi fundist hann vilja sitja yfir sæmd sinni.[4])

Jafnaldri Ófeigs var Þorfinnur Arnórsson í Reykjahlíð, hraustmenni mikið, en af honum er engin saga, þótt hann færi utan og sje nokkrum sinnum nefndur.[5])

Norður í Kelduhverfi bjó Þórir Skeggjason í Garði

---

[1]) Ljósv. 6/132; Ldn. 18/227—228. [2]) Reyk. 19/98, 100—101; Ljósv. 21/195—196. [3]) Ljósv. 1/113, 1/115, 6/133; Vápn. 12/51. [4]) Ljósv. 3—4/122—125, 11—12/149—152, 10/147, 11/149, 6—7/132—138, 21/195—196. [5]) Reyk. 17/88, 18/96; Ljósv. 1/113, 2/118; sbr. Grett. bls. 318.

hinn fyrsta þriðjung 11. aldar. Hann var í siglingum um aldamótin 1000, en er annars helst kunnur af Grettis sögu.[1]) Á alþingi 1012 er getið um þrjá Öxfirðinga, Lýting, Blæing og Hróa Arnsteinsson, som voru beðnir liðs. Hrói hefur líklega verið sonur Arnsteins goða Reistarsonar frá Ærlæk í Öxarfirði, sem þeir Höskuldur Þorgeirsson frá Ljósavatni tóku af goðorðsþriðjung, en annars eru engar sögur af þessum mönnum.[2])

---

## Austfirðingar.

Í lok 10. aldar voru þeir Bjarni Brodd-Helgason,[3]) Þorkell Geitisson, Ketill þrymur í Njarðvík og Helgi Ásbjarnarson merkastir höfðingjar og goðar í Austfjörðum. Helgi bjó fyrst á Oddsstöðum eða Ormsstöðum, eins og bærinn nú er nefndur, skamt frá Hallormsstað;[4]) en er kona hans Droplaug Spakbessadóttir druknaði í Lagarfljóti, í vík einni, sem heitir Þrælavík, kippkorn frá bænum, seldi hann Ormsstaði, og keypti Mjóvanes og flutti þangað. Nokkru síðar bað hann Þordísar toddu, dóttur Brodd-Helga, og fjekk hennar (um 985). Helgi átti goðorð Hrafnkels Freysgoða afa síns ásamt Hrafnkeli Þórissyni bræðrung sínum, en Helgi fór einn með það og hjelt því fyrir Hrafnkeli. Helgi mun hafa komist til mannvirðingar um 975.[5])

Ketill þrymur í Njarðvík var sonur Þiðranda hins

---

[1]) Ldn. 19/230—231. [2]) Nj. 138/737; Ldn. 20/235, sbr. Ljósv. 4/123—124, 126. [3]) Hann er talinn í höfðingjatalinu 981, þótt hann væri þá eigi kominn í höfðingjatölu og faðir hans væri þá enn á lífi. [4]) Sbr. Safn II. 461—462; Kalund. Isl. II. 237. [5]) Drop.[2] 3/145—146; Safn I. 408. Í Brandkr. þ. bls. 183—186 er sagt frá ætt og yngri árum Helga Ásbjarnarsonar, og segir þar að móðir hans hafi verið Hallbera dóttir Hrollaugs Rögnvaldssonar Mærajarls. Það er rangt. Þátturinn er æfintýri.

spaka á Arneiðarstöðum, Ketilssonar þryms landnámsmanns, og fjekk hann goðorð eptir föður sinn. Þiðrandi átti margt barna og var kynsæll maður. Þorvaldur sonur hans bjó á Arneiðarstöðum eptir hann og fjekk konu þeirrar úr Jökuldalnum, er Droplaug hjet Þorgrímsdóttir. Þau áttu tvo sonu, Helga og Grím, sem urðu nafnkunnir menn og saga er af; voru þeir kendir við móður sína og kallaðir Droplaugarsynir. Af dætrum Þiðranda eru tvær einkum kunnar, Jóreiður kona Halls á Síðu og Hallkatla kona Geitis Lýtingssonar í Krossavík. Voru það alt systkinabörn synir Ketils í Njarðvík, Geitis í Krossavík, Droplaugarsynir og börn Síðu-Halls.[1])

Þorvaldur Þiðrandason varð eigi gamall og bjó þá Droplaug með sonum sínum á Arneiðarstöðum. Þeir urðu snemma miklir vexti og sterkir. Gerðist Helgi hávaðamaður og gleðimaður, en Grímur var hljóðlátur og stiltur og gefinn fyrir búskap. Báðir vöndu þeir sig við alls kyns íþróttir, og var Helgi einkum nafnkunnur fyrir vígfimi.[2]) Sagan segir að hann væri að eins þrettán vetra, er hann vann hið fyrsta víg sitt (um 980); fóru þeir bræður þá að hefna illmælis um móður sína og var Grímur ári yngri en Helgi. Eptir það fóru þeir til Geitis í Krossavík að leita liðveislu hans; fór Þorkell sonur hans með þeim á Krakalækjarþing og sættist á vígið við Helga Ásbjarnarson og galt bætur. Helga Droplaugarsyni líkaði það illa og kvað illmælisins óhefnt, er vígið var bætt; hefur hann að líkindum fengið þá þungan hug til nafna síns.

Þeir bræður voru í Krossavík um hríð og nam Helgi lög af Þorkeli. Síðan fóru þeir aptur til móður sinnar og segir sagan að Helgi færi eptir þetta að taka að sjer mál til flutnings; tók hann einkum sakir á hendur þingmönnum Helga Ásbjarnarsonar og lenti þeim nöfnum því opt saman. Um þetta leyti misti Hallsteinn hinn breiðdælski bóndi

---

[1]) Ldn. 2/243, 7/256. 9/262; Hksb. 266/95, 270/97; Stb. 305/209, 310/211; Mb. 255; Þorst. hv. 19; Dropl.[2] 2/143—144; Gunn. s. 1/195; Þorst. S. 231; Nj. 96/493—494. [2]) Eyrb. 12/14; Drop[2]. 2/145.

á Víðivöllum hinum nyrðri í Fljótsdal konu sína og bað hann þá Droplaugar á Arneiðarstöðum og fjekk hennar. Hún fór á Víðivelli með Hallsteini, en Grímur sonur hennar kvongaðist Helgu Ingjaldsdóttur frá Tungu; keypti tengdafaðir hans þá hálfa Arneiðarstaði og bjuggu þeir Grímur þar báðir saman, en Helgi bróðir hans var ýmist með honum eða í Krossavík.[1])

Eptir þetta hófust málaferli og deilur á milli þeirra Helga Droplaugarsonar og Helga Ásbjarnarsonar, og eru þær kjarninn í Droplaugarsona sögu. Þær stóðu á árunum hjer um bil 990—998 og byrjuðu með því að Hrafnkell Þórisson bað Helga Droplaugarson um að hjálpa sjer að ná goðorðshelmingi sínum af Helga Ásbjarnarsyni. Hann lagði á ráðin hvernig ginna skyldi Helga Ásbjarnarson til þess að gera þá lögleysu að nefna eigi rjettmætan mann, Án trúð, í vorþingsdóm, og ljet hann síðan Hrafnkel stefna Helga af goðorðinu. Þá lá við bardaga, en Hólmsteinn goði Spakbessason á Víðivöllum hinum syðri, mágur þeirra frændanna og sameignargoðanna, gekk á milli og leitaði um sættir. Sættust þeir á það, að Hrafnkell skyldi hafa goðorðið jafnlengi sem Helgi Ásbjarnarson hefði þá haft það, en eptir það skyldu þeir hafa það báðir saman.[2])

Tveimur árum síðar fjekk Helgi Droplaugarson sjálfdæmi í máli nokkru, sem hann sótti á alþingi gegn barnsfóstra Helga Ásbjarnarsonar, og árið eptir ónýtti hann annað mál fyrir Helga Ásbjarnarsyni á alþingi.[3]) Helgi Droplaugarson var lögkænn og ráðugur, og auk þess hafði hann mikinn frændastyrk þar sem Þorkell Geitisson var og Ketill í Njarðvík. Hann hafði ekki vondan málstað í málum þessum og margir veittu honum lið; fylgdi hann þeim fast fram og varð Helgi Ásbjarnarson hart úti. Í næsta máli hans við Helga Ásbjarnarson var aptur á móti málstaður hans illur. Helga Droplaugarsyni var eigi vel við að móðir hans giptist og kom eigi árum saman til hennar að Víðivöllum, þang-

---

[1]) Dropl.[2] 3—4/147—149. [2]) Dropl.[2] 4/149—151. [3]) Dropl.[2] 5—6/151—154.

að til eitt sumar nokkru eptir þetta. Eptir bæn og eggjan móður hans bauð Hallsteinn honum að vera þar um veturinn. Nokkru síðar leit Hallsteinn eptir heyi sínu og fje og hjó þræll hans hann þá banahögg. Helgi Droplaugarson kom þar fyrstur að og drap hann þegar þrælinn.

Eptir víg þetta spratt það upp meðal heimamanna á Víðivöllum að þau Helgi og Droplaug og þrællinn hefðu verið á einmæli nokkru áður en Hallsteinn var veginn og varð víg þetta óvinsælt. Synir Hallsteins af fyrra hjónabandi voru þá erlendis, og tók því Helgi Ásbjarnarson mál þetta að sjer og stefndi Helga og Droplaugu til alþingis um fjörráð við Hallstein. En er menn fóru til þings, rjeðst Droplaug með ungan son sinn og lausafje sitt í skip til Færeyja og settist þar að. Á alþingi var Helgi Ásbjarnarson miklu fjölmennari en nafni hans og rjeði einn málalokum; gerði hann miklar bætur fyrir víg Hallsteins og Helga Droplaugarson af landi brott í þrjá vetur. Ef hann færi eigi utan skyldi hann falla óhelgur fyrir Helga Ásbjarnarsyni milli Smjörvatnsheiðar og Lónsheiðar.[1])

Helgi Droplaugarson hjelt eigi sætt þessa og varð því sekur. Hann var á vetrum með Þorkeli í Krossavík og fór Grímur bróðir hans þangað til styrktar við hann. Þeir fóru á þing og mannfundi svo sem Helgi væri ósekur og hann mælti jafnvel lögskil á haustþingi, en þá fór í heitingar með þeim Helga Ásbjarnarsyni. Sumarið eptir fór Helgi Droplaugarson að gjöra fjárskipti með einni frændkonu sinni og manni hennar Þorgrími skinnhúfu á Miðbæ í Norðfirði. Þorgrímur hljóp þá til Helga Ásbjarnarsonar og bað hann hjálpar. Hann safnaði mönnum og fór við átjánda mann upp í Eyvindardal og sat þar fyrir Helga Droplaugarsyni. Hann var við níunda mann og varð fundur þeirra við Eyrargilsá. Svo var atgangur þeirra harður að allir urðu sárir, nema tveir menn, sem börðust eigi, og fimm fjellu af hvorum, þar á meðal báðir Droplaugarsynir, en með Grími

---

[1]) Dropl.[2] 7—8, 154—155.

leyndist líf og var hann græddur. Sagan segir að þetta væri vetri síðar en Þangbrandur prestur kom til Íslands (998).[1]) Þá er Grímur var heill orðinn hugði hann jafnan á hefndir og var aldrei kátur. Að lokum tókst honum að laumast á næturþeli inn í bæ Helga Ásbjarnarsonar og myrða hann (um 1005). Síðan varð hann að flýja til Noregs. Þar dó hann ári síðar af sári, sem hann fjekk í hólmgöngu við víking einn.[2])

En nú víkur sögunni til Ketils þryms Þiðrandasonar, goða í Njarðvík. Hann var um aldamótin 1000 orðinn gamall maður. Hann hafði fóstrað systurson sinn Þiðranda Geitisson og var hann þá uppkominn. Hann var talinn hinn efnilegasti maður af ungum mönnum á Austfjörðum. Litlu eptir aldamótin tók Ketill þrymur við manni nokkrum á heimili sitt, er nefndist Ásbjörn vegghamar. Hann var verkmaður góður, en óreiðumaður og ólánsmaður. Hann hafði byrjað búskap, en hlaupið frá öllu saman sökum skulda. Björn bóndi Kóreksson í Skriðdal og bræður hans höfðu lánað honum mikið fje, og einnig hafði farmaður einn, Þórir Englandsfari, selt honum varning, sem hann hafði eigi borgað. Kórekssynir töluðu um þetta við Ketil í Njarðvík, og kvaðst hann eigi vilja gjalda fje fyrir Ásbjörn, en leyfa að þeir stefndu honum við fáa menn. Ketill var mjög skapbráður maður. Það var hættulegt að fara stefnuför til slíkra manna. Þeir bræður höfðu vingast við Þiðranda; hugðu þeir að betur mundi fara, ef hann væri í för þeirra og að hann mundi fá sefað fóstra sinn, ef hann reiddist. Þiðrandi var þetta sumar í Krossavík. Þeir sættu því lagi að fara stefnuför til Njarðvíkur, er hann fór þangað í kynnisleit. En svo illa vildi til, er þeir komu í skóg skamt frá Njarðvík, að þeir sáu Ásbjörn hlaupa heim að bænum. Þeir höfðu að gamni sínu skotið skógvöndum á milli sín. Einn þeirra Kórekssona skaut þá skógvendi til Ásbjarnar og kom á kviðinn. En hann hljóp heim og eggjaði Ketil á að hefna sín. Ketill reiddist, þreif spjót og hljóp

---

[1]) Dropl.[2] 8—11/156—164. 15/175. [2]) Dropl.[2] 12—15 165—175.

út. Þeir Þiðrandi voru þá komnir í túnið. Ketill hljóp þegar að Birni Kórekssyni, því að hann var honum næstur, og lagði spjóti í gegnum hann. Þá hljóp Þórir Englandsfari að Katli og hjó hann banahögg; jókst þá högg af höggi og fjell Þórir þar og tveir heimamenn Ketils.

Tveir Norðmenn voru þá á vist með Katli; hjet annar þeirra Gunnar, en hinn Þormóður. Kona ein hljóp inn og sagði þeim, hvað við hefði borið og eggjaði þá að hefna húsbónda síns. Gunnar var vaskur maður og sterkur. Hann hljóp út og voru þeir Þiðrandi þá að ríða burt. Eptir tilvísun konunnar skaut Gunnar spjóti á Þiðranda; fló það í gegnum hann og fjell hann dauður af hestinum (um 1004). Þetta var hið mesta óhappaverk, og hörmuðu margir Þiðranda.[1])

Þorkell Geitisson átti að mæla eptir bróður sinn eða hefna hans, og fór hann þegar að leita Norðmannanna, en fann þá eigi. Um veturinn fjekk hann felt Þormóð, en Gunnar, sem nú var nefndur Þiðrandabani, komst undan, og gerði Þorkell hann sekan um sumarið. Sveinki eða Sveinungi Þórisson bóndi á Bakka í Borgarfirði, hjálpaði Gunnari og síðan Helgi Ásbjarnarson. Eptir fall hans kom Þórdís kona hans honum undan; segir sagan að hún hafi sent hann Guðrúnu Ósvífrsdóttur og að hún hafi hjálpað honum. Komst Gunnar að lokum til Noregs.[2])

Eptir þetta fara engar sögur af Austfirðingum fyr en Flosi Þórðarson bað þá liðs í brennumálinu. Hann fór þá um Austurland og heimsótti þar alla hina helstu höfðingja. Þá bjó Hallbjörn hinn sterki í Heydölum í Breiðdal, tengdasonur Brodd-Helga, en Hrafnkell Þórisson á Hrafn-

---

[1]) Gunn. s. 1—3/195—201. Í Gunn. s. 1/195, sbr. 197, er sagt að Þórir Englandsfari hafi verið á vist með Brodd-Helga, en það er rangt, því að hann var þá fallinn fyrir löngu; mun það eiga að vera Bjarni sonur hans. Einnig er þar sagt 4/204, að Helgi Droplaugarson hafi verið með Þorkeli Geitissyni, er hann leitaði Gunnars hjá Sveinka á Bakka. Helgi var vinur Sveinka og var með honum um tíma, Dropl.[2] 6/152—154, en hann var fallinn, þá er þetta var. [2]) Gunn. s. 3—7/201 211; Dropl.[2] 14/173; Lax. 69/252—255. Frásögnin af Gunnari hjá Guðrúnu mun eigi vera rjett.

kelsstöðum. Hann hafði áður búið að Hafursá.[1] en átti nú uppkominn son, Þóri, er hann sendi með þingmenn sína á alþingi. Hólmsteinn Spakbessason var þá fluttur frá Víðivöllum hinum syðri að föðurleifð sinni Bessastöðum í Fljótsdal. Hann var einn af goðorðsmönnunum á Austurlandi og hefur hann líklega tekið goðorð eptir Spakbessa föður sinn, því að hann mun hafa verið goðorðsmaður; að minsta kosti er getið um goðahús hans.[2] Á Valþjófsstað bjó þá Sörli Brodd-Helgason, bróðir Bjarna, en tengdasonur Guðmundar hins ríka.[3] Í Njarðvík bjuggu tveir synir Ketils þryms, Þorkell fullspakur og Þorvaldur,[4] og að Hofi og í Krossavík hinir þjóðkunnu höfðingjar Bjarni Brodd-Helgason og Þorkell Geitisson. Allir þessir menn, nema Sörli Brodd-Helgason, veittu Flosa lið á þinginu mikla og kvað einkum mikið að liðveislu þeirra mágaanna Bjarna Brodd-Helgasonar og Hallbjarnar hins sterka. Þorvaldur Ketilsson fjell í bardaganum á alþingi; hefur því Þorkell bróðir hans farið einn með goðorð þeirra frænda um hríð.[5]

---

## Njálsbrenna. Síðumenn, Rangæingar og Árnesingar.

Flestir hinir helstu höfðingjar í Skaptafellsþingi. Rangárþingi og Árnesþingi. sem uppi voru á síðari hluta sögu-

[1]) Dropl.[2] 3 145. [2]) Dropl.[2] 3 145--146. 4 148. 4 150. sbr. 177—179. [3]) Ljósv. 5 127—131, sbr. Vápn.[2] 10 48—49. [4]) Móðir þeirra er í Nj. 134 708 kölluð Yngvildur Þorkelsdóttir, en svo hjet amma þeirra, móðir Ketils. Ldn. 4/248 Í Gunn. s. 1/195. 3 200—201 er sagt að kona Ketils hjeti Þorgerður. en synir þeirra eru þar nefndir Þorkell og Eyjólfur: þó má vera að þau hafi átt þriðja soninn. sem hafi heitið Þorvaldur. [5]) Nj. 134/704—712: um æfilok Bjarna Brodd-Helgasonar. sjá Þorst. st. bls. 86. Guðbr. Vigfússon, Safn I, 410. fullyrðir að frá Þorkeli fullspak sjeu síðan komnir Njarðvíkingagoðar. en hann færir engin rök fyrir því. Það mun að eins vera getgáta, en líkleg.

aldarinnar, hafa þegar verið nefndir, einkum þá er skýrt var frá því, er kristni kom á Ísland. Með því að alþingi var háð á Suðurlandi, áttu Sunnlendingar hægast með að sækja það og þeir rjeðu þar opt mestu. Höfðingjar þeirra komu því mjög við hina merkustu atburði, er þar gerðust, og lögsögumennirnir á söguöldinni voru venjulega af Suðurlandi.

Eptir að fimtardómslög voru sett, var Njálsbrenna langmerkastur atburður á Suðurlandi á síðasta fjórðungi söguialdarinnar. Þótt deilurnar byrjuðu í Rangárþingi, komst þó Flosi Þórðarson brátt í þær og allir Síðumenn með honum; en helstu höfðingjarnir úr Árnesþingi sóttu brennumálið með þeim Þorgeiri skorargeir og Kára. Brennan er því kjarninn eða miðdepillinn í þeim frásögum og sögnum, sem kunnar eru frá þeim árum úr Skaptafellsþingi og tveimur hinum austustu þingum í Sunnlendingafjórðungi. Saga þessara þriggja þinga fer því saman um þennan tíma.

Sagan segir að Njáll hafi sagt við Gunnar á Hlíðarenda, þá er hann bauð honum syni sína, Skarphjeðin og Höskuld, til fylgdar, að vandræðunum mundi snúið þangað sem synir hans væru, þá er hann væri látinn.[1]) Hvað sem hæft er í þessu, komust þó Njálssynir nokkrum árum síðar í deilur og vígaferli. Og þótt nokkuð hlje yrði á þeim um tíma, lauk þeim þó eigi fyr en gengið var af þeim bræðrum dauðum og mörgum mönnum öðrum, og bætur og mannhefndir voru komnar fyrir þá. Málaferlin um þetta alt urðu svo mikil og harðsnúin, að liðs var beðið úr öllum þingum landsins svo kunnugt sje, nema úr Húnavatnsþingi og Þverárþingi.

Deilurnar hófust á milli Njálssona og **Þráins Sigfússonar** og varð atvik eitt í Noregi upptök þeirra. Þráinn Sigfússon bjó að Grjótá í Fljótshlíð og voru þeir bræður sjö; var Þráinn fyrir þeim og talinn höfðingi ættmanna sinna eptir að hann kom úr utanför sinni. Hann var náfrændi Gunnars á Hlíðarenda, því að þeir voru systkinasynir. Þeir

[1]) Nj. 75/354—355.

voru einnig á líkum aldri. Þráinn var kvongaður Þorgerði dóttur Glúms og Hallgerðar langbrókar og hafði hann fengið hennar í brúðkaupi þeirra Gunnars að Hlíðarenda (um 974).[1])

Sama sumarið sem Gunnar var gerður utan, tók Þráinn sjer far til Noregs og var þar þrjá vetur hjá Hákoni Sigurðssyni Hlaðajarli. Það sumar fóru einnig utan þeir bræður frá Bergþórshvoli, Grímur og Helgi. Þeir komu til Orkneyja og voru þrjá vetur með Sigurði jarli Hlöðvissyni. Síðan fóru þeir til Noregs, en er þeir komu til Hlaða, lá Þráinn þar ferðbúinn til Íslands. Litlu síðar kom maður einn hlaupandi til Njálssona og bað þá taka við sjer. Þeim leitst illa á hann og neituðu honum viðtöku. Hann hljóp þá til Þráins og tók hann við honum. Maður þessi var íslenskur og hjet Hrappur; var hann hinn mesti illvirki og hafði gert mikinn skaða í Noregi. Rjett á eptir kom Hákon jarl til Njálssona og spurði að Hrappi, en þeir vildu eigi segja að hann hefði farið til Þráins „þar er líf hans lá við“. En þótt jarlinn leitaði hjá Þráni, fann hann eigi sakadólg sinn, og ljet Þráinn síðan í haf með hann.[2]) En þá sneri jarlinn reiði sinni og hefndum að Njálssonum og lá nærri að þeir ljetu líf sitt fyrir honum. Þó komust þeir heilu og höldnu aptur til Orkneyja á fund Sigurðar jarls, og segir sagan að það væri mest Kára Sölmundarsyni að þakka. Hann hafði áður veitt þeim lið við Skotlandsstrendur móti víkingum nokkrum, sem rjeðust þar á þá, er þeir komu frá Íslandi. Eptir það bundu þeir vináttu við hann og fóru með honum til Sigurðar jarls og gerðust hirðmenn hans. Alls voru þeir, segir sagan, fimm vetur með jarli. Á sumrin fóru þeir í hernað, stundum með jarli en optast með Kára

---

[1]) Nj. 34,129—134, 88,444; Ldn. 3,284. [2]) Mörg einstök atriði í frásögn Njálu af Hrappi eru auðsjáanlega röng, en það mun þó eigi vera ástæða til þess að hafna sögunni af honum; og meginþráðurinn í henni mun vera rjettur. Hrappur á að hafa reist bú á Hrappsstöðum, er hann kom út með Þráni. Sá bær var fyrir norðaustan Þríhyrning í austur frá Reynifelli; sjer þar enn til bæjarrústa. Sbr. þó Kalund. Isl. I, 234.

og fór hann síðan með þeim til Íslands (um 994) og fjekk Helgu systur þeirra sumarið eptir.[1])

Kári Sölmundarson var ættaður úr Hreppunum að því leyti sem afi hans hafði numið þar land,[2]) en annars er ekkert kunnugt um æfi hans, áður en hann gerðist hirðmaður Sigurðar jarls. Eptir giptingu sína var hann að Bergþórshvoli með tengdaforeldrum sínum. Þó keypti hann land að Dyrhólmum (nú Dyrhólar) austur í Mýrdal og gerði þar bú, en hann fjekk ráðsmann og ráðskonu fyrir það. Um þetta leyti munu þeir Grímur og Helgi einnig hafa kvongast, en Skarphjeðinn mun hafa verið giptur áður. Helgi fjekk Þórhöllu dóttur Ásgríms Elliðagrímssonar, og var hann jafnan mikill vinur Njáls og sona hans eptir það. Þótt Njálssynir giptust og ættu bú annars staðar, voru þeir þó vistum með föður sínum að Bergþórshvoli.[3])

Njálssynir höfðu þolað svo miklar hrakningar sökum Þráins, að þeir vildu fá bætur hjá honum fyrir það. Slíkt var samkvæmt hugsunarhætti manna á þeim tímum og það hefði jafnvel verið talin lítilmennska, ef þeir hefðu eigi heimt bætur, einkum af því að engin vinátta var á milli þeirra og Þráins. Njálssynir höfðu drepið Sigmund Lambason, sem var bræðrungur Sigfússona, og Þráni hafði eflaust mislíkað það, þótt hann væri eigi saklaus. En þá er Þráinn kom úr utanferð sinni (um 992), var Hallgerður langbrók að Grjótá. Hún hafði farið þangað til dóttur sinnar eptir víg Gunnars, því að hún hjelst eigi við á Hlíðarenda sökum

---

[1]) Nj. 75/346—348; 82—90/381—457. [2]) Sjá að framan I, 210. 283—284. [3]) Nj. 25/102, 26—27/103—105. Í Nj. segir miklu fyr frá kvonfangi Njálssona, jafnskjótt og þeir eru nefndir. Börn Njáls og Bergþóru munu hafa verið fædd á árunum um 960—974. Sagan segir að Skarphjeðinn væri elstur þeirra bræðra og mun hann eigi vera fæddur fyr en 960. Hann bar nafn móðurföður síns; hefur hann líklega verið kvongaður, er bræður hans fóru utan. Þeir hafa þá verið um tvítugt eða rúmlega það, einkum hinir eldri. Þeir bræður komu fyrst til sögunnar, er þeir vágu Sigmund Lambason, Nj. 45/192—201. Höskuldur hálfbróðir þeirra hefur ef til vill verið elstur barna Njáls, því að hann átti frumvaxta son, er hann var veginn um 1006; mun Njáll þá hafa átt hann, áður en hann fjekk Bergþóru. Sbr. Nj. 45/193, 98/510, 106/552.

Rannveigar gömlu tengdamóður sinnar.[1]) Hallgerður hataði Bergþóru og syni hennar. Það má því nærri geta að hún gerði alt sem hún mátti til þess að espa Þráin á móti þeim. Hið sama gerði Hrappur einnig, er hann mátti því við koma.

Til þess að fara sem best i málið, fengu Njálssynir Ketil í Mörk, bróður Þráins, sem átti Þorgerði systur þeirra, til þess að tala um þetta við Þráin, en hann vildi þeim enga sæmd gera, og fór á sömu leið, er Kári ræddi um það við hann. Að lokum fóru Njálssynir sjálfir að Grjótá og báðust bóta, en fengu ekkert nema smánaryrði af Hallgerði og fleiri heimamönnum Þráins.[2]) Þótt Þráinn fyndi að því, varð hann þó að sæta ábyrgð fyrir heimamenn sína. Í byrjun nóvembermánaðar sótti hann við áttunda mann heimboð austur undir Eyjafjöll í Dal til Runólfs goða Úlfssonar. Bæði hann og Ketill í Mörk báðu þá Þráin um að semja við Njálssyni, en hann vildi eigi sinna því og þóttist hvergi vera varbúinn við þeim. En er Þráinn fór að austan, sátu Njálssynir og Kári fyrir þeim átta við Markarfljót, því að þeir höfðu frjett af ferðum hans. Skarphjeðinn vá þá Þráin sem frægt er orðið, því að hann hljóp yfir fljótið milli höfuðísa í sömu svipan, en þeir Grímur og Helgi feldu Hrapp og Kári einn af fylgdarmönnum Þráins. Hinum gáfu þeir grið (um 995).[3])

Ketill í Mörk leitaði um sættir og greiddi Njáll full manngjöld fyrir víg Þráins. Litlu síðar tók Njáll Höskuld son Þráins og Þorgerðar til fósturs, til þess að tryggja sættirnar sem best, og var hann honum mjög góður.[4]) Hve gamall Höskuldur var, er hann kom til Njáls, segir ekki, en þá voru rúm tuttugu ár síðan foreldrar hans giptust. Fyrir því mætti ætla að hann hafi verið 15 til 17 vetra, og

---

[1]) Nj. 78/370. [2]) Það er hvorttveggja að Hallgerður langbrók hafði farið illa að ráði sínu, enda er henni borin sagan illa i Nj. 88/443, 91/465, líklega ver en hún hefur átt skylið, enda gefur Njála sjálf í skyn að þetta hafi verið sögn sumra manna, en hreint eigi áreiðanlegt. Þá er Hrappur kom að Grjótá, hafði hún þrjá um fimmtugt. [3]) Nj. 91—92/457—486. [4]) Nj. 93—94/486—491, sbr. 34/130—134.

á það bendir bæði samtal hans við Njál og kvonfang hans síðar.

Sagan segir að Höskuldur væri mjög efnilegur maður bæði að ytri ásýnd og hreysti. Hann var einnig vandaður maður, orðgóður til allra og vinsæll. Þá er hann var frumvaxta, bað Njáll handa honum Hildigunnar Starkaðsdóttur, bróðurdóttur Flosa Þórðarsonar að Svínafelli. Hún var stórlát og metnaðarfull og mikið í hana spunnið, en hún var líka hefndargjörn og mjög skaphörð.[1]) Sagan segir að hún vildi eigi giptast neinum goðorðslausum manni, og að Njáll hafi þá komið fimtardóminum á stofn og tekið upp nýtt goðorð á Hvítanesi handa Höskuldi; en eins og fyr er sagt, er það líklega eigi rjett. Eptir ferð Þangbrands um Suðurland í lok aldarinnar urðu meiri deilur um hinn nýja sið í Rangárþingi en víða annarsstaðar. Runólfur goði og Mörður Valgarðsson, sem fór þá með goðorð föður síns, hjeldu fast við hinn forna sið og stóðu á móti kristninni;[2]) en þeir sem kristni tóku, leituðu þar ráða og forustu sem Njáll var, og þá mun hafa verið lagður grundvöllurinn að goðorði því, sem sagan segir að Njáll hafi tekið upp á Hvítanesi til handa Höskuldi; mun Njáll hafa gefið honum það, er hann kvongaðist, og er eigi ólíklegt að sumum Njálssonum, einkum Skarphjeðni, hafi líkað það miður. En af þessu segir eigi; að eins vita menn það með vissu, að goðorð það, sem myndaðist í Landeyjunum og fjekk mikið fylgi í Rangárþingi, fjekk löglega viðurkenningu, þá er fimtardómslög voru sett. Einnig giptust þau Höskuldur og Hildigunnur í byrjun 11. aldar og fóru þau fyrst til Bergþórshvols og voru þar þau missiri. Vorið eptir keypti Njáll land í Vörsabæ (eða í Ossabæ) í Austur-Landeyjum handa Höskuldi og flutti hann þá þangað; segir sagan að hann byggi þar lengi.[3])

Hvernig sem upptök Hvítanesgoðorðs hafa verið, má þó telja víst að stofnun þess hafi verið aðalorsökin til hinnar

---

[1]) Nj. 97/494—498, 95/493. [2]) Nj. 102/534; sjá að framan bls 362 o. ef. [3]) Nj. 97/507—508, sbr. 93/489. Kålund, Isl. I, 254.

miklu óhamingju, sem kom nokkru síðar yfir öldunginn að Bergþórshvoli og fjölskyldu hans. Að vísu gleymdu eigi allir venslamenn Þráins vígi hans; en á það hafði verið sætst og bræðrum hans datt eigi í hug að rjúfa þá sætt. Lýtingur mágur þeirra á Sámsstöðum hafði hins vegar skapraun af því að Höskuldur sonur Njáls og Hróðnýjar í Holti[1]) reið þar opt um garð, er hann fór milli bús síns og Bergþórshvols. Honum datt því eitt sinn í hug að hefna Þráins á Höskuldi og sat því fyrir honum með bræðrum sínum og húskörlum og feldi hann. En Njálssynir hefndu hans þegar, og Höskuldur Þráinsson, sem nú var nefndur Hvítanesgoði, kom á sættum. Þremur árum síðar vá Ámundi hinn blindi Höskuldsson Lýting á Þingskálaþingi, en á víg hans var þegar sætst, og virtust þá öll líkindi vera til þess að um heilt mundi gróa með mönnum út af vígum þessum. Að minsta kosti var engra stórra tíðinda að vænta af þeim.[2])

Öðru máli var að gegna með goðorð Höskulds og þingið á Hvítanesi. Það var þyrnir í augum hins gamla bragðarefs Valgarðar hins gráa og Marðar sonar hans, því að það hafði veikt mjög veldi þeirra feðga. Þeir voru báðir slægvitrir og illgjarnir, og kunnu að leggja djúp ráð til þess að svala heipt sinni og eigingirnd. Þeir voru því hættulegir og erfitt að varast þá, og það segir sig sjálft, að reiði þeirra hlaut að koma niður á Njáli eða sonum hans, af því að hann hafði átt mestan þátt í því, að nýtt goðorð komst á fót, og á Höskuldi, af því að hann átti goðorðið og hafði sökum góðgirni og vinsælda sinna dregið margan mann til sín úr goðorði þeirra. Auk þess hataði Valgarður Skarphjeðin, frá því að hann hafði hefnt Gunnars og tekið sjálfdæmi af þeim feðgum handa Högna, sem mun hafa gert af þeim mikið fje.

Í Njálu segir að Valgarður hinn grái væri lengi utan og kæmi út nokkrum árum eptir að Hvítanesgoðorð var

---

[1]) Sá bær er nú eigi til. En eptir afstöðunni að dæma hafa menn ætlað að það hafi verið Reynifell eða þar í grend, sbr. Kalund. Isl. I, 233 o. ef. Suðvestan undir Reynifellsöldu eru óglöggar bæjarrústir. Árbók 1896, bls. 32. [2]) Nj. 98,509—513, 99,518—526, 106,552—555.

upp tekið og kristni í lög leidd. Hann var þá enn heiðinn og hataði kristnina. Mörður hafði þá orðið að taka kristni eins og aðrir, er hún var í lög tekin, en hins vegar er líklegt að honum hafi eigi verið vel við hana, og að hann hafi gengið undir hana fremur af nauðsyn en af ljúfu geði. Þó má vera, að á þetta hafi komið nokkur breyting, því að Mörður kvongaðist Þórhöllu dóttur Gissurar hins hvíta einhvern tíma um þetta leyti[1]) og er eigi ólíklegt að hún eða faðir hennar hafi haft einhver áhrif á hann gagnvart kristninni. Sagan segir líka að hann vildi að faðir hans tæki kristni, af því að hann væri gamall; bendir það á að hann hafi þá álitið hana betri en heiðnina. En Valgarður vildi það eigi, heldur bað hann son sinn um að kasta trúnni. Það vildi Mörður eigi.

Valgarður var að Hofi hjá Merði syni sínum um veturinn. Sagan segir að hann hafi riðið um bygðina og komið á Hvítanes og sjeð þar búðartóptir margar, og á Þingskálaþing, hinn forna þingstað Rangæinga, og sjeð þar ofanbrotna búð þeirra feðga. Hann á að hafa spurt Mörð, hvernig á þessu stæði og hafi hann þá svarað, að ný goðorð væru upp tekin og fimtardómslög sett „ok hafa menn sagt sik ór þingi frá mér ok í þing með Höskuldi“. Valgarður kvað hann hafa launað sjer goðorðið illa, að fara svo ómannlega með það; „vil ek nú, at þú launir þeim því, at þeim dragi öllum til bana“.

Þótt samtal þetta sje eigi rjett hermt, má þó ætla að það sýni að mestu leyti rjettilega, hvernig þeim feðgum hefur verið við nýja goðorðið. Sagan segir því næst að Valgarður hafi gefið Merði það ráð, að rægja Njálssyni og Höskuld saman, svo að þeir dræpu hann; væru margir til eptirmáls eptir hann og mundu þeir hefna hans og drepa Njálssyni. Hann rjeð einnig syni sínum að koma sjer fyrst í vináttu við Njálssyni, til þess að geta gjört þetta; hann skyldi bjóða

[1]) Í Nj. 65/299—300 segir að Mörður hafi fengið Þorkötlu miklu fyr (um 986), en Gissur var eigi svo gamall, að hann gæti átt þá nokkra dóttur gjafvaxta, og Mörður sjálfur var þá heldur ungur til að giptast.

þeim heim og gefa þeim gjafir, og er hann hefði unnið trúnað þeirra, skyldi hann byrja róginn. „Munt þú svá fremi taka höfðingskap, er þessir eru allir dauðir“.

Sagan segir að þeir feðgar festu þessa ráðagjörð með sjer, að hún skyldi fram koma. En Valgarður lifði það samt eigi, því að hann andaðist nokkru síðar (um 1009).[1])

Mörður fór að öllu eins og faðir hans hafði lagt fyrir hann. Hann kom sjer í vináttu við Njálssyni og Kára, þó einkum við Skarphjeðin, og gekk það furðu greitt. Síðan tók hann að rægja Höskuld við þá, og þótt þeir mæltu fyrst á móti því sem hann sagði, fór þó svo að þeir trúðu og gerðust þá fáleikar af þeirra hendi til Höskulds.

Mörður reyndi einnig að rægja Njálssyni við Höskuld, en það tókst eigi. Þó gaf hann sig lítið að þeim, er þeir gerðust fáir við hann.

Annars er frásaga Njálu[2]) eflaust eitthvað röng eða ófullkomin um þetta, því að það er ótrúlegt, að svo stiltir menn og greindir sem t. a. m. Helgi Njálsson og Kári Sölmundarson skyldu láta Mörð rægja Höskuld svo við sig sem raun varð á, ef engar greinir hefðu verið á milli þeirra, eða að faðir þeirra skyldi eigi láta til sín taka um þetta, þar sem hann varð var við komur og áhrif Marðar. Þó má eigi gleyma því, hve undarlega auðtrúa menn gátu opt verið á það, sem ilt er, og hve hugsunarlausir menn geta verið, að rannsaka eigi sjálfir, en hlaupa eptir sögusögn annara. En þó er líklegt, að undir niðri hafi verið einhver ágreiningur milli þeirra út af goðorðinu, eins og fyr er á vikið, enda er það eitt af því, sem Mörður gerir að rógsefni.

Að lokum tókst Merði að fá Njálssyni og Kára til þess að fara að Höskuldi og drepa hann með því móti að hann færi og væri í verki með þeim. Þeir fóru síðan vornótt eina í Vörsabæ og biðu þar Höskuldar hjá garði nokkrum. Sól var komin upp og veður var gott. Eptir litla stund kom Höskuldur þangað og ætlaði að sá korni í gerðið. Þá spratt Skarphjeðinn upp undan garðinum og hljóp að honum og

---

[1]) Nj. 107,555—559. [2]) Nj. 108—109/559—570.

hjó hann í höfuðið. Segir sagan að Höskuldur hafi við höggið fallið á knjen og mælt um leið: „Guð hjálpi mjer en fyrirgefi yður“. En þeir hlupu þá allir að honum og unnu á honum.[1])

Litlu síðar saknaði Hildigunnur Höskulds. Hún fann hann veginn í gerðinu og frjetti af smalamanni sínum hverjir hefðu orðið honum að bana. Hann hafði haft yfir sjer skikkju, sem Flosi hafði gefið honum. Hún tók hana og þerði með blóðið alt og ljet innan í hana blóðlifrarnar og braut svo saman og lagði niður í kistu sína.

Víg Höskulds var hið versta verk og mæltist alls staðar illa fyrir. Hann var harmdauði mörgum mönnum, og Njáli fjell víg hans svo nærri, að hann gat aldrei óklökkvandi um það talað.[2])

Það var auðsætt að eptirmálið mundi verða mikið. Ketill Sigfússon hafði heitið Þorgerði, móður Höskulds, að hefna hans, er hann fjekk hann til fósturs, ef hann væri með vopnum veginn.[3]) Þó gerðist hvorki Ketill nje bræður hans aðalforingi þessa máls, heldur Flosi Þórðarson. Hann var goði og höfðingi mikill og þá helstur maður í ætt Hildigunnar. Hann átti einnig mikinn styrk vísan, þar sem Hallur af Síðu var, því að hann var tengdafaðir hans.[4]) Hallur var goði, en hverjir þá voru fleiri goðorðsmenn í Skaptafellsþingi er varla hægt að segja með vissu. Það eru taldir upp hinir helstu menn og höfðingjar, sem voru með Flosa, en eigi er greint, hvort nokkur þeirra væri goði. Á alþingi nefndi hann í gjörðardóm úr Skaptafellsþingi auk Síðu-Halls frænda hans, Össur Hróaldsson frá Breiðá, Surt Ásbjarnarson úr Kirkjubæ og Móðólf Ketilsson í Ásum[5]) Ef nokkur af mönnum þessum hefur átt fornt goðorð mætti helst ætla að það hafi verið Móðólfur Ketilsson; en eigi er þar annar maður kunnur, sem líklegri er til að hafa átt þar fimtardómsgoðorð en Surtur Ásbjarnarson.

Flosi brá skjótt við, er hann frjetti víg Höskulds, og

---

[1]) Nj. 110—111/570—573. [2]) Nj. 111—112/574—577, 112/580. [3]) Nj. 93/489. [4]) Nj. 95—96/491—494. [5]) Nj. 122/633.

ljet safna liði til alþingis. Hann sendi Halli af Síðu og Ljóti syni hans, sem þá var talinn hið besta höfðingjaefni, orð um að þeir fjölmentu mjög til þings. Einnig sendi hann orð Kol Þorsteinssyni á Kálfafelli, bróðursyni Halls, Glúmi Hildissyni í Borgarhöfn og ýmsum helstu mönnum í Skaptafellsþingi, en suma fjekk hann til fylgis við sig, er hann reið til alþingis.[1]) Á leiðinni kom hann einnig í Vörsabæ að finna Hildigunni. En á meðan hann stóð þar við, lagði hún yfir hann skikkju Höskulds með blóðinu og særði hann til þess að hefna allra þeirra sára, sem hann hafði á sjer dauðum, eða heita hvers manns níðingur ella. Flosa brá mjög við þetta og brást við reiður, en það fjekk þó mjög á hann,[2]) því að það var trú manna á þeim tímum, að slíkt yrði að áhrinsorði, ef særingunni væri eigi fullnægt.

Úr Rangárþingi komu Sigfússynir og fleiri menn til móts við Flosa og riðu með honum á þing. Á meðal þeirra var Mörður Valgarðsson. Hann hafði lýst vígi Höskulds og búið málið til alþingis.[3])

Njáll reið með sonum sínum til alþingis og með þeim frændur þeirra undan Eyjafjöllum, Þorleifur krákur og að því er virðist Þorgeir skorargeir, synir Holta-Þóris, föðurbróður Njáls. Njála nefnir að vísu eigi Þorgeir í þetta sinn, heldur Þorgrím hinn mikla, sem hún segir að væri sonur Holta-Þóris, í stað þess að hann var bróðir hans, eins og í Landnámu segir, og líklega eldri en hann. Þorgrímur hefur því að öllum líkindum verið fallinn frá eins og Holta-Þórir, eða verið orðinn fjörgamall, þá er hingað er komið sögunni. Fyrir því má sleppa honum, þá er sagt er frá vígsmáli Höskulds og Njálsbrennu.[4]) En þótt þeir Njáll, Þorleifur krákur og Þorgeir skorargeir væru bræðrasynir, voru þeir Þórissynir þó miklu yngri en hann.

Úr Árnesþingi fóru þeir Hjalti Skeggjason og Ásgrímur

---

[1]) Nj. 115/585—590, 124/643. [2]) Nj. 116/590—595. [3]) Nj. 116 117/595—599. [4]) Ldn. 2/278—279; Nj. 20/78, 96/494, 118/600—601; sjá að framan I, 198—199. Í Ldn. er Þorgeir að eins nefndur Skorargeir.

Elliðagrímsson með Njáli til alþingis. Hann var goðorðsmaður,[1]) og sömuleiðis Gissur hinn hvíti, móðurbróðir hans, en eigendur eins hins forna goðorðs voru venjulega búsettir í Flóanum. Þá er á þing var komið, gekk Ásgrímur með Njálssonum og frændum þeirra og mágum til ýmsra höfðingja, að biðja þá liðs, en mál þeirra var óvinsælt og var enginn vandalaus maður fús á að veita þeim lið. Þó tók Guðmundur hinn ríki og Snorri goði mjög vel liðsbón þeirra; sendi Guðmundur þeim síðar að sögn Einar bróður sinn til liðveislu, en Snorri hjet þeim að vera hvergi á móti þeim. Hins vegar kvað Gissur hvíti sjer skylt að veita Ásgrími systursyni sínum.[2])

En um vígsmálið fór svo á alþingi að það ónýttist, vegna þess að það var rangt tilbúið af Merði. Hann hafði eigi segir sagan lýst því sári, sem hann hafði sært Höskuld, á hendur neinum manni.[3]) Fyrir bænastað Njáls og flutning Síðu-Halls og stuðning góðra manna ljet þó Flosi leiðast til þess að leggja málið í tólf manna gjörð, sex af hendi hvors. Þeir gerðu það, að Höskuld skyldi bæta þrennum manngjöldum og skyldu þau greidd þegar á þingi. En þá er fjeð var borið saman í lögrjettu, og grið og trygðir skyldi veita, vildi Flosi engin grið selja eða taka. Sagan segir að lent hafi í brigslum milli hans og Skarphjeðins og af því hafi eigi orðið af sáttum; en líklega hafa ummæli og særing Hildigunnar haft mest áhrif á Flosa, og hann því sjeð sig um hönd, er engar sektir eða utanferðir voru gerðar fyrir vígið.[4])

Flosi stefndi mönnum sínum upp í Almannagjá og voru það 100 manna. Þar ljet hann þá sverja sjer eiða að enginn skærist úr þessu máli, fyr en Höskulds væri hefnt eða aðrir hvorir hnignir að velli; einnig rjeð hann af að fara að Njálssonum þá um sumarið; mæltu þeir sjer mót á ákveðnum tíma á Þríhyrningshálsum.

---

[1]) Nj. 118/603, sbr. Fló. 19/139. [2]) Nj. 118/601—604, 119—120/605—627. [3]) Nj. 111/574, 112/578—579, 121/627—630. [4]) Nj. 122—123/630—642.

Á drottinsdag, segir sagan, þá er átta vikur voru til vetrar,[1]) fór Flosi að austan og reið með menn sína alla nóttina. Hann fór upp úr Skaptártungu Fjallabaksveg hinn syðri og kom til Bergþórshvols, segir sagan, daginn eptir fyrir náttmál. Njáll stóð úti og synir hans og heimamenn; höfðu þeir nær 30 vígra manna, því að þeir áttu af Flosa ófriðar von um sumarið og höfðu fjölment. Það leit út í fyrsta sem þar mundi verða blóðugur bardagi, því að eigi var að tala um fyrir Flosa að hverfa frá. En hann staðnæmdist, af því að honum þótti þeir eigi árennilegir og vildi sjá, hvað þeir tækju til ráðs. Eptir vilja Njáls gengu þá menn hans inn og skipuðust í dyrnar; hugði Njáll að þeim Flosa mundi ganga ver að sækja þá inni, því húsin voru rammleg, og mannskaðinn mundi þá einnig verða minni.

Flosi fór nú með liði sínu sem skjótast heim að bænum og skipuðust þeir fyrir dyrnar og umhverfis húsin og hófu atsóknina. En þeir bræður og Kári vörðust svo vel, að Flosi þóttist sjá, að eigi væri nema um tvent at velja, annaðhvort að hverfa frá, eða bera að eld og brenna þá inni, og það ráð tóku þeir. Þeir gerðu eld bæði fyrir dyrum og í lopti á þvertrjám í skálanum. Konur heltu þá sýru og vatni í eldinn fyrir dyrunum og slöktu hann í fyrstu, en eldurinn í loptinu læsti sig um það og þekjuna; vissu heimamenn eigi fyr en logaði allur skálinn yfir þeim. Njáll gekk þá til dyra og talaði við Flosa, en hann vildi engum sáttum taka við sonu hans, en konum, börnum og húskörlum leyfði hann útgöngu, og gekk þá út það fólk, sem leyft var. Ástríður af Djúpárbakka, kona Gríms, og Þórhildur Hrafnsdóttir, kona Skarphjeðins, fengu þá Helga Njálsson til þess að ganga út með sjer og lögðu yfir hann kvennbúnað. Flosa þótti sú kona há og mikil um herðar og bað að halda henni. En er Helgi heyrði það, kastaði hann skikkjunni og hjó með sverði fót af manni, en Flosi hjó þegar á háls honum svo að tók af höfuðið.

---

[1]) Ef þetta hefur verið árið 1011, eins og líklegast er, hefur Flosi farið að heiman sunnudaginn 19. ágúst eptir gamla stíl.

Flosi bauð þá Njáli útgöngu, en hann vildi eigi þiggja, af því að hann var gamall og lítt til búinn að hefna sona sinna, „en ek vil eigi lifa við skömm“. Bergþóra gekk eigi út heldur, en mælti: „ek var ung gefin Njáli; hefi ek því heitit honum, at eitt skyldi ganga yfir okkr bæði“. Hún vildi þá láta bera út dótturson sinn, Þórð Kárason, en sveinninn vildi eigi skilja við ömmu sína og sagði: „Hinu hefir þú mér heitit, amma! at vit skyldim aldri skilja, ok skal svá vera. En mér þykkir miklu betra at deyja með ykkr en lifa eptir“. Þau Njáll gengu þá til hvílu sinnar og lögðu sveininn á milli sín. Þá signdu þau sig og sveininn og fálu önd sína guði og mæltu það síðast svo að menn heyrðu. En bryti þeirra tók eptir boði Njáls uxahúð hráblauta og breiddi yfir þau.

Þá er skálinn tók að loga, fjellu viðirnir ofan úr ræfrinu og þvertrje eitt brunnið í miðju. Kári hljóp eptir því og tókst honum að komast upp og út af þekjunni, og burtu með reyknum svo að enginn tók eptir því, uns hann fjekk slökt á sjer eldinn í læk einum. Skarphjeðinn vildi hlaupa á eptir honum, en þá segir sagan að þvertrjeð brysti undir honum, þar sem það var mest brunnið. Litlu síðar reið öll þekjan ofan svo að engrar undankomu var að vænta.

Þeir Flosi voru við eldana þar til er morgnað var mjög. Þá kom þar maður einn ríðandi og sagði þeim, að hann hefði fundið Kára Sölmundarson. Við þau tiðindi brá þeim mjög, „því at sá maðr hefir nú á braut komiz, er næst gengr Gunnari at Hlíðarenda í öllum hlutum“. Þeir gengu þá allir til hesta sinna og riðu braut.[1])

Kári, sem eptir þetta var stundum kendur við brennuna,[2]) fjekk sjer brátt hest og fór til Marðar Valgarðssonar og bað hann safna liði. Síðan reið hann í Þjórsárdal til Hjalta Skeggjasonar og kvaddi hann upp almenning. Riðu þeir Kári við lið það til móts við Mörð, sem var með miklu

---

[1]) Nj. 124—130/642—681. [2]) Í Stb. 381/227 er hann nefndur Sviðu-Kári, en Brennu-Kári í Hksb. 336/120.

liði við Holtsvað.[1] Þeir skiptu síðan liðinu og leituðu Flosa en fundu hann eigi, því að hann leyndist að því er sagan segir uppi í Flosadal í Þríhyrningi á meðan leitin stóð yfir.[2])

Því næst fór Hjalti Skeggjason með Kára við marga menn að Bergþórshvoli að leita beina Njáls og þeirra, sem inni höfðu brunnið. Þeir fundu bæði hjónin óbrunnin undir húðinni, sem var skorpnuð, og sveininn, en af honum var brunninn einn fingur, er hann hafði rjett upp undan húðinni. Skarphjeðin fundu þeir í skálanum milli þekjunnar og gaflhlaðsins. Hann hafði staðið upp við það og voru brunnir fætur af honum mjög fyrir neðan knjen, en alt annað var óbrunnið á honum. Hann hafði rekið öxi sína í gaflhlaðið, sem var úr torfi, svo fast, að gengið hafði alt upp á miðjan fetann, og var hún ekki dignuð. Bein Gríms fundu þeir í miðjum skálanum og þar gegnt honum undir hliðvegginum Þórð Leysingjason, en í vefjarstofunni fundu þeir fjóra menn. Alls fundu þeir bein af ellefu mönnuna, segir Njála, en í Hauksbók segir, að Njáll væri brendur inni með átta mönnum. Sumurin 1883 og 1885 gróf Sigurður Vigfússon í bæjarrústir að Bergþórshvoli og fann þar hvítt efni. Við efnafræðislegar rannsóknir reyndist nokkuð af efni þessu að vera leifar af skyri, en nokkuð af líkum mjólkurmat sem skyri, en þó ef til vill eigi eins súrum.[3])

Tíðindin að Bergþórshvoli flugu út um alt land og þótti flestum þau bæði mikil og ill, en verst fjellu þau vinum Njáls; brá sumum þeirra mjög við þau, eins og Þórhalli

---

[1]) Holtsvað mun hafa verið Nautavað á Þjórsá, skamt frá Þjórsárholti, sbr. Kålund, Nj. II, 832, en eigi er óliklegt að annað vað með því nafni hafi verið á Fiskiá skamt frá Holti, bæ Höskulds Njálssonar, og virðist það stundum eiga betur við sögn Njálu. Árbók 1896, bls. 30—33. [2]) Nj. 130—131 681—688. [3]) Nj. 132 689—693; Hksb. 300 105; V. Storch, Efnafræðislegar rannsóknir með viðhöfðum sjónauka á einkennilegu efni, fundnu á Bergþórshvoli. Viðbætir við Árbók 1887. Einnig gefið út á dönsku, Kemiske og mikroskopiske Undersøgelser af et ejendommeligt Stof, fundet ved Udgravninger af Sigurd Vigfússon paa Bergthorshvol i Island. Kbhavn 1887.

Ásgrímssyni.[1]) Njáll hafði fóstrað hann og kent honum lög svo vel að hann var einhver hinn mesti lagamaður á Íslandi. Bæði hann og aðrir vinir og vandamenn Njáls hugðu nú á hefndir og eptirmál.

Það var auðsætt að næsta alþingi mundi verða sögulegt. Brennumálið átti að fara þangað, af því að aðilar þess voru sinn úr hvorum landsfjórðungi.

Kári Sölmundarson átti aðild eptir son sinn, en nánustu ættingjar Njáls, þeir sem sakaraðild máttu taka, voru bróðursynir hans, Þorgeir skorargeir og Þorleifur krákur. En þeim og Kára fylgdu þrír hinir helstu höfðingjar úr Árnesþingi, Ásgrímur Elliðagrímsson, Hjalti Skeggjason og Gissur hinn hvíti. Úr Rangárþingi var Mörður Valgarðsson með þeim og kvaðst hann að sögn Njálu vera Kára trúr í öllum ráðum, „því at ek á fyrir sjálfan mik at svara“. Þeir ákváðu þá að hann skyldi sækja Flosa sjálfan um víg Helga Njálssonar, því að það þótti erfiðast að sögn sögunnar.[2])

Flosa var hins vegar ljóst að eptirmálið eptir brennuna mundi verða sótt með miklu kappi, og að eigi var annað ráð en að reyna að sjá við því í tíma, að hann yrði eigi ofurliði borinn. Eptir jól lagði hann því af stað og fór um Austfirðingafjórðung allan norður í Vopnafjörð að biðja sjer liðs; hjetu allir höfðingjar honum þar liðveislu, nema Sörli Brodd-Helgason, enda bar hann fje á þá suma. Á alþingi fjekk Flosi Öxfirðinga, Reykdæli og Ljósvetninga í lið með sjer.[3])

Þingreið varð nú svo mikil úr öllum hjeruðum landsins, að alþingi var óvenjulega fjölment,[4]) og hefur það á síðari tímum verið nefnt þingið mikla. Má ætla að þar hafi verið hátt á annað þúsund vopnfærra manna.

Af engu alþingi á söguöldinni er heldur sagt svo mikið. Eigi minna en átta kapítular (kap. 138—145) í Njálu eru um það og af þeim eru sumir lengstu kapítularnir í sögunni. Málarekstrinum er lýst þar ítarlega, en eins og eðlilegt er

---

[1]) Nj. 132/694—695. [2]) Nj. 131/686—687, 132/695—697. [3]) Nj. 133—134/701—713, 135/723, 138/737—738. [4]) Gunnl. 11/259; Nj. 137/733.

eptir svo langan tíma, sem liðinn var frá því að málið var háð og þangað til sagan var rituð, er sú lýsing eigi áreiðanleg að öllu leyti [1]) Flosi fjekk ungan mann og efnilegan, Eyjólf Bölverksson, sonarson Eyjólfs hins gráa í Otrardal, til þess að verja málið með lögum. Það var hættulegt eins og á stóð, og vildi því Bjarni Brodd-Helgason eigi að Þorkell Geitisson frændi sinn gerði það, en hann var hinn eini maður í liði þeirra, sem var svo lögkænn, að hann væri því vaxinn. Eyjólfur var lagamaður mikill, virðingamaður og gott höfðingjaefni, en hann var fjegjarn og gaf Flosi honum gullhring mikinn og góðan til þess að fá hann til að taka að sjer vörn málsins.[2])

Þeir Ásgrímur Elliðagrímsson fóru í liðsbón til Skapta Þóroddssonar, en hann tók því illa, þótt Gissur mágur hans flytti það við hann. Þá fóru þeir til Snorra goða og hjet hann að veita þeim lið, ef til bardaga kæmi. Hann átti búð upp við Almannagjá, þar sem gamli vegurinn liggur niður úr gjánni, og ætlaði hann að fylkja þar liði sínu og verja Flosa og liðsmönnum hans vígi í Almannagjá, ef þeir vildu sækja þangað. En ef þeir Ásgrímur kynnu að hrökkva fyrir brennumönnum, skyldu þeir leita til Snorra, og ætlaði hann þá að veita þeim greiðan aðgang til vígis og berjast með þeim. Því næst gengu þeir til Guðmundar hins ríka og hjet hann að ganga til dóma með þeim með alla þingmenn sína og veita þeim um alt og berjast með þeim, ef þess þyrfti við; kvað hann Þorsteinn holmunn, son Skapta lögsögumanns, tengdason sinn, skyldu vera í bardaganum með þeim, og þá mundi Skapti reyna að skilja þá. Hann bað þá Ásgrím ganga ekki fyrir fleiri höfðingja, heldur hætta á með lið það, er þeir nú hefðu.[3])

Sökum var síðar lýst að lögbergi, og lýsti Mörður fyrst vígsökinni á hendur Flosa, en Þorgeir skorargeir og þeir fjelagar öðrum sökum á hendur öðrum brennumönnum.[4])

---

[1]) Sjá rit þau, sem eru nefnd hjer að framan, bls. 418, nm. [2]) Nj. 138/733—736, 138/738—744, 139/745. [3]) Nj. 139—140/744—754. [4]) Nj. 141/755—760.

Þá er dómar skyldu út fara, bjuggust hvorirtveggju og vopnuðust. Þeir gerðu herkuml á hjálmum sínum, svo að allir skyldu sjá hverjir saman væru.[1]) Þórhallur Ásgrímsson hafði tekið fótarmein svo mikið fyrir þing, að hann mátti hvergi fara úr búðinni; var þeim Ásgrími það mikið mein, því að hann var langmestur lögmaður í liði þeirra. Mörður Valgarðsson sótti fyrst Flosa, en Eyjólfur Bölverksson beitti öllum lögkrókum til varnar og fjekk ónýtt málið hvað eptir annað. Var þá jafnan sent til Þórhalls og lagði hann ráð til svo borgið var málinu. En af því að Þórhallur var fjarri, fór svo að lokum að Eyjólfur fjekk ónýtt vígsmálið á hendur Flosa fyrir Merði, en hin málin um brennuna gengu fram. Til þess að bjarga við sökinni á hendur Flosa, ljet Þórhallur Mörð þegar stefna þeim Flosa og Eyjólfi fyrir fimtardóm um fjemútur og um þingsafglöpun; hefði Mörður unnið það mál og þeir Flosi orðið sekir, ef honum að lokum hefði eigi sjest yfir að nefna sex menn úr fimtardómi. er þeir Flosi vildu eigi nefna úr, Eyjólfur ónýtti þá dóm þeirra, af því að hálf fjórða tylft hafði dæmt, og ætlaði hann að sækja þá Mörð um þingsafglöpun fyrir fimtardómi.[2])

Ásgrímur sendi enn mann til Þórhalls sonar síns, að sækja ráð að honum. En honum brá svo, er hann heyrði þetta, að hann mátti eigi orði upp koma Hann spratt þá upp úr rúminu, þreif spjót eitt, er Skarphjeðinn hafði gefið honum, og rak í gegnum fótinn á sjer og skar út úr fótarmeininu, en blóðfossinn fjell sem lækur eptir gólfinu. Hann gekk síðan hratt út úr búðinni og til fimtardóms. Þar mætti hann Grími hinum rauða, frænda Flosa, og lagði spjótinu í gegnum hann og kastaði honum dauðum af því. Þetta sá Kári Sölmundarson og sagði Ásgrími, að Þórhallur son hans væri þar kominn og hefði þegar vegið víg; „er þetta skömm mikil, ef hann einn skal hug til hafa at hefna brennunnar.“ „Þat skal ok eigi vera,“ segir Ásgrímur, „ok

---

[1]) Nj. 142/762. [2]) Nj. 142—144/764—804.

snúm vér nú at þeim.“ Var þá kall mikið um allan herinn og síðan var æpt heróp. Vá þá Kári skjótt víg og tókst þá harður bardagi.

Ásgrímur Elliðagrímsson. Þórhallur son hans. Hjalti Skeggjason og Gissur hvíti sóttu að, þar sem fyrir var Flosi og Sigfússynir og aðrir brennumenn; gengu þeir að svo fast, að þeir Flosi hrukku undan. Kári Sölmundarson, Þorgeir skorargeir, Guðmundur hinn ríki og Mörður Valgarðsson sóttu þar að, er fyrir voru Austfirðingar, Öxfirðingar og Reykdælir, og var þar harður aðgangur. Flosi hafði sagt mönnum sínum, að þeir skyldi leita til vígis í Almannagjá, ef þeir yrði forviða. Nú brast flótti í alt lið Flosa og flýðu þeir vestur um Öxará, en þeir Ásgrímur gengu eptir og allur herinn. Þeir Flosi hörfuðu neðan milli Virkisbúðar og Hlaðbúðar, en Snorri goði hafði þegar, er hann spurði að málin voru ónýtt fyrir þeim Merði, tekið að fylkja liði sínu fyrir neðan Almannagjá við Hlaðbúð, og stóðu þeir nú svo þykt þar fyrir, að þeim Flosa gekk eigi þar að fara, enda bauð Snorri mönnum sínum að höggva og leggja til þeirra og keyra þá í braut. Hallur af Síðu hafði beðið sjer liðs til þess að skilja menn, og gekk hann og Ljótur sonur hans austan yfir á með flokk sinn allan, en er þeir komu á hraunið, var skotið spjóti úr liði Guðmundar hins ríka og kom það á Ljót miðjan og fjell hann dauður niður. Þeir Flosi hörfuðu nú upp um Vatnsfirðingabúð; þá sá Kári Eyjólf Bölverksson og skaut spjóti í gegnum hann og fjell hann þegar dauður til jarðar. Þá varð hvíld nokkur á bardaganum. Snorra goða þótti nú nóg að gert og kom þar að með flokk sinn; var þá Skapti lögsögumaður í liði með honum, og hlupu þeir þegar í milli. Einnig gekk Hallur í lið með þeim til þess að skilja. Þá voru grið sett og skyldu þau haldast um þingið.[1])

Slíkur bardagi hafði aldrei orðið áður á friðhelgu alþingi. Meiri hluti alls þingheims barðist. Sýnir það best hvílíkur ofsi og reiði var kominn í menn.

---

[1]) Nj. 145/805—816.

Daginn eptir reyndi Hallur af Síðu að koma á sættum og tókst það með tilstyrk Snorra goða, enda sýndi Hallur hina mestu góðgirnd og bauð til sátta að leggja Ljót son sinn ógildan, en þingheimi fanst svo mjög til um það, að hann bætti honum það í þinglok.

Tólf menn gerðu um brennumálin og vígin á alþingi; var Snorri fyrir gerðinni. Víg Skarphjeðins skyldi jafnt og víg Höskulds Hvítanesgoða, en Njáll og aðrir, sem inni höfðu brunnið, voru bættir. Flosi var gerður utan og allir brennumenn; skyldu þeir vera utan þrjá vetur, nema fjórir hinir sekustu. Þeir skyldu aldrei eiga útkvæmt. Á víg Þórðar Kárasonar var eigi sætst.[1])

Kári Sölmundarson sættist eigi, af því að hann vildi hefna Þórðar sonar síns og þeirra Skarphjeðins. Þorgeir skorargeir tók eigi heldur sáttum, því hann vildi eigi skilja við Kára. En er þeir höfðu drepið fimm af brennumönnum,[2]) fjekk Hallur Þorgeir til þess að taka sáttum. Þó vildi hann eigi sættast fyr en Kári bað hann þess. Kvað Kári þá hafa hefnt brennunnar, en sonar síns ætlaði hann einn að hefna.[3]) Hann vá síðan tíu brennumenn til hefnda; af þeim fjellu tveir fyrir honum erlendis.

Að lokum sættist Kári þó heilum sáttum við Flosa, er hann kom aptur úr utanferð sinni. Helga Njálsdóttir hafði andast veturinn áður en Kári kom út, og gipti Flosi honum þá Hildigunni bróðurdóttur sína, ekkju Höskulds Hvítanesgoða.

Flosi hafði haldið sættina vel og farið utan með brennumönnum. Fimtán þeirra fjellu í Brjánsbardaga, á Clontarfvöllum á Írlandi (23. apríl 1014). Þar fjell einnig Halldór Guðmundarson hins ríka, sem verið hafði í bardaganum á alþingi.

Af Flosa sjálfum segir það síðast, að hann fór til Noregs, er hann var orðinn gamall, að sækja húsavið, og druknaði hann á heimleiðinni.[4])

---

[1]) Nj. 145/817–825. [2]) Nj. 145–146/826–834. [3]) Nj. 146–147/835–843. [4]) Nj. 149–151/851–868, 155/880–883, 158/904–907; 157/891–898, 903, sbr. 145/810; 159/909–910.

Margir menn höfðu nærri oftekið sig á deilum þessum og vígaferlum, og nú komst friður á aptur sunnanlands; er þar eigi getið um neinar stórar nje langvinnar deilur eptir þetta á söguöldinni, en þó má sjá að þar hafa orðið einstaka víg. Af flestum höfðingjum þeim, sem mestan þátt höfðu tekið í brennumálinu, segir lítið eða ekki eptir þetta. Sumir þeirra voru orðnir aldraðir menn, eins og öðlingurinn Hallur af Síðu. Hann hefur varla lifað mörg ár eptir þetta. Þorsteinn sonur hans tók við goðorði hans eptir hann, og var hann orðinn kunnur í Noregi 1024 sem einn af helstu höfðingjum landsins. Þorsteinn var í Brjánsbardaga og þá þar grið. Þá var hann tvítugur, svo það getur eigi rjett verið, sem segir í Ljósvetninga sögu, að hann hafi hjálpað Þorkeli Geitissyni í máli hans við Guðmund ríka um 1003,[1]) heldur hefur Hallur faðir hans gjört það.

Af Rangæingum fara engar sögur eptir að brennumálinu lauk, en Gissurar hvíta er getið hjer um bil tíu árum síðar, þá er hann fylgdi utan Ísleifi syni sínum,[2]) og Hjalta Skeggjasonar, er hann fór á fund Ólafs konungs Haraldssonar eins og enn mun sagt verða.

Flóamenn höfðu eigi komið við brennumálið svo getið sje, og er lítið merkilegt af þeim að segja á síðari hluta aldarinnar. Þorgils örrabeinsstjúpur settist að í Traðarholti eptir að hann kom heim úr Grænlandsferð sinni. Hann er aðalmaðurinn í Flóamanna sögu, en hún er mjög óáreiðanleg[3]) og segir eigi heldur frá neinum merkum tíðindum á þessum tíma, heldur frá smádeilum og illindum, kvonfangi Þorgils og Helgu Þóroddsdóttur goða frá Hjalla, og tveimur eða þremur vígum, sem Þorgils vann. Hann var garpur til elliára, en hann var aldrei fyrir Flóamönnum.[4])

Í lok 10. aldar var uppi Þorsteinn goði, dóttursonur Þormóðar skapta; hann var samtíða Þóroddi goða Eyvindarsyni systrung sínum. Með Þorsteini munu að líkindum margir Flóamenn og ýmsir Skeiðamenn hafa verið í goðorði.

---

[1]) Nj. 157 895—896; Þorst. S. 216—218. [2]) Hungr., Bps. I. 2 60; Krist. 12 27. [3]) sbr. F. Jónsson, Litteraturhist. II. 756—758. Safn I. 421—423. [4]) Fló. 29—35 154—161.

Hann mun hafa búið í Gröf, sem er í Villingaholtshreppi að austanverðu í Flóanum. Þar bjó Bjarni hinn spaki, sonur hans, er mun hafa verið merkastur maður í Flóanum á síðasta þriðjung söguualdarinnar. Hann hefur að líkindum átt goðorð og fengið það eptir föður sinn. Hans getur eitt sinn á Árnesþingi. Bjarni átti Þórnýju dóttur Þorgils örrabeinsstjúps og sonur hans var Skeggi, faðir Markús hins fræga lögsögumanns.[1])

---

## Aðstaða Íslands. Ólafur Haraldsson og Íslendingar.

Nú hefur verið skýrt frá hinum helstu viðburðum og mönnum í ýmsum af hinum mörgu ríkjum eða goðorðum, sem voru á Íslandi um þessar mundir. Einnig hefur töluvert verið sagt frá hverjir ríki þessi áttu, en þess verður að gæta, að mörg ríki (eða goðorð) voru á Íslandi, sem hvergi eru nefnd, og eru því alveg gleymd, svo að enginn veit nú neitt um þau eða eigendur þeirra. Í raun rjettri hafa ríki þessi eigi heldur verið merkileg, og það er eigi heldur hægt að segja með sanni um margt af því, sem hjer hefur verið nefnt og skýrt frá. En svona var líf forfeðra vorra á söguöldinni; það var hvorki fagurt nje merkilegt að ýmsu leyti. En líkt því, sem vjer þekkjum, hefur það verið í þeim ríkjum, sem nú eru gleymd, og þó heldur ómerkara, því að stærstu og merkustu atburðirnir geymast venjulega lengst, því að þeim er mest haldið á lopti.

En hjer skal nú víkið frá þessu og að stöðu Íslands gagnvart öðrum löndum og hinum helstu stjórnarfarslegu viðskiptum Íslendinga og Noregs konungs.

---

[1]) Ldn. 5/291, 7/296, 11/309; Fló. 24/148, 30/154—155. 32/158.

Á síðari hluta söguhaldarinnar voru samgöngurnar við önnur lönd heldur meiri en á fyrri hluta hennar. Í fornöld er aldrei getið fleiri Íslendinga í útlöndum en einmitt þá. Þó má eigi dæma eingöngu eptir því, vegna þess að heimildarritin eru fleiri um þennan tíma en endrarnær.

Mjög margir Íslendingar fóru til Noregs og annara Norðurlanda og einnig vestur um haf til Írlands og Skotlands og eyjanna þar við land, enn fremur til Englands. Það var hinn mesti hagur fyrir Íslendinga að sama tunga gekk yfir öll Norðurlönd og í norskum og dönskum nýbygðum fyrir vestan haf, þótt nokkur munur væri á henni. Jafnvel austur í Garðaríki, í nýbygðum Svía, gátu Íslendingar gert sig skiljanlega. Af þessu leiddi að Íslendingar gátu miklu auðveldlegar en ella fengið vist og komist áfram eða haft ofan af fyrir sjer í löndum þessum. Þeir fengu opt hirðvist hjá Noregskonungum og ýmsum öðrum höfðingjum á Norðurlöndum eða af norrænni ætt: þeir gengu í herþjónustu hjá þeim eða fóru í hernað, víking með ýmsum útlendum höfðingjum eða höfðingjasonum, og íslensk skáld gátu aflað sjer fjár og frama hjá konungum og öðrum stórhöfðingjum alls staðar þar sem menn skildu „danska tungu“.

Sökum þess að tungan var sameiginleg, voru öll Norðurlönd ásamt hinum norrænu nýlendum eins og eitt stórt land í andlegu tilliti, og Ísland var einn hluti af því. Eins og samgöngurnar voru á þeim tímum, voru þær opt seinni og ógreiðari á landi en á sjó, og Ísland var því framan af miklu betur sett í andlegu tilliti í samanburði við sinn tíma en það var nokkru sinni síðar. Þess vegna gat skáldskapur blómgast betur á meðal íslenskra skálda en annars staðar á Norðurlöndum á þessum tíma, og sagnaritunin síðar á 12. og 13. öld. Íslendingar höfðu þá öll Norðurlönd að yrkja og rita fyrir, og slíkt hvatti þá til starfa. Hins vegar gátu þeir haft meira næði en flestir aðrir, því að bæði er veturinn langur á Íslandi og svo voru landsmenn lausir við hinar miklu og þungbæru styrjaldir við önnur lönd. Það gott höfðu þeir af því að landið lá út í hafi og var eigi á alfara vegi.

Hins vegar hlaut landið og náttúra þess að hafa áhrif á landsmenn, og því lengur sem þeir bjuggu á Íslandi, því ljósara varð það þeim að þeir voru sjerstök íslensk þjóð og eigi neitt annað. Frá þessum tíma er hinn fyrsti samtíða vitnisburður um að Íslendingar skoðuðu sig sjálfir íslenska menn, eins og opt kemur í ljós í sögunum, en eigi norræna, eins og flestir forfeður þeirra höfðu verið. En eigi síst í því efni er vitnisburður úr Íslendinga sögum eigi svo góður og gildur sem æskilegt væri, því að höfundar þeirra kváðu eðlilega svo að orði sem þeir eða samtíða menn þeirra voru vanir að gjöra; en mismunurinn og aðgreiningin fór vaxandi á milli Íslendinga og Norðmanna eptir því sem stundir liðu fram.

Árið 1019 fór Sighvatur skáld Þórðarson fyrir Ólaf konung Haraldsson með Norðmönnum nokkrum austur til Svíþjóðar á fund Rögnvalds jarls á Gautlandi hinu vestra. Þá er hann kom þangað og sagði frá ferðinni, mælti þar kona ein, að hann hefði gengið til nokkurs með þau hin svörtu augu. Þá kvað Sighvatur:

Oss hafa augu þessi
íslenzk, kona, vísat
brattan stíg at baugi
björtum langt en svörtu;
sjá hefr, mjöðnanna, manni
mínn ókunnar þínum
fótr á fornar brautir
fulldrengila gengit.[1])

Hjer tekur Sighvatur það fram að augun sín sjeu íslensk, en eigi norsk eins og konan mun hafa ætlað, þar sem

[1]) Vísan er tekin upp þannig: Þessi en svörtu augu íslenzk hafa vísat oss, kona, brattan stíg langt at björtum baugi,[a]) sjá fótr minn hefr gengit fulldrengila á fornar brautir, ókunnar þínum manni, mjöðnanna.
[a]) lýtur að gullhring þeim, sem Rögnvaldur jarl gaf Sighvati. Hkr. II, 91/173, IV, 135.

sendimennirnir voru frá Noregskonungi: hafa þeir á Gautlandi allir verið taldir norskir, áður en Sighvatur kvað þetta.

Íslendingar fóru miklu optar til Noregs en annara landa. Eins og fyr er sagt voru margir Íslendingar með Ólafi konungi Tryggvasyni, en hann fjell svo fljótt úr sögunni, er hann hafði kristnað Noreg og látið kristna Ísland, að hann fjekk eigi færi á að sýna fyllilega, hvað í honum bjó gagnvart Íslandi. En það hafði hann sýnt, að hann horfði eigi í að beita valdi og harðneskju við Íslendinga fremur en við aðra til þess að koma vilja sínum fram. Á ríkisárum Eiríks jarls og Sveins bróður hans skipti um í Noregi. Þeir ljetu hvern gjöra sem vildi um kristnihaldið, en forn lög hjeldu þeir vel og voru menn vinsælir.[1]) Þeir sýndu eigi heldur Íslendingum neinn ágang eða ofríki að ástæðulausu

En er Ólafur Haraldsson varð konungur í Noregi skipti um aptur. Hann var einbeittur maður og stjórnsamur og hinn ákafasti kristindómsvinur. Hann tók af heiðni og fornar venjur, er honum þótti kristnispell í, og gerði alt, er hann mátti, til þess að efla og útbreiða kristna trú í Noregi og þeim löndum, er þaðan höfðu bygst. Hann spurði vendilega Íslendinga, þá er voru með honum, hvernig kristindómur væri haldinn á Íslandi, og þótti honum mikilla muna ávant, að vel væri, því að þeir sögðu konungi frá kristnihaldinu, að það væri lofað í lögum, að eta hrossakjöt og bera út börn, sem heiðnir menn gerðu, og enn fleiri hlutir, þeir er kristnispell var í.[2])

Vorið 1017 sendi Ólafur konungur með Íslandsfari einu orð og jarteinir Hjalta Skeggjasyni og stefndi honum á fund sinn. Einnig sendi hann orð Skapta lögsögumanni og öðrum þeim mönnum, er mest rjeðu lögum á Íslandi, að þeir skyldu taka það úr lögum, er honum þótti mest í móti kristnum dómi. Þar með sendi hann öllum landsmönnum vinsamleg orð. Skapti lögsögumaður og aðrir höfðingjar landsins tóku þessari orðsendingu vel, því að nú voru margir farnir að sætta sig betur við kristindóminn en í fyrstu. Þeir afnámu

[1]) Fsk. 24/137--138; Hkr. I, 113 459; Theodric 25. [2]) Hkr. II, 58/82–83; Ól. s. s. 44/44.

hin fornu lög um hrossakjötsát og útburð barna, og einnig lögin um að menn mættu blóta á laun, en hvort þeir gerðu það þegar sumarið eptir eða fyrst þá er Hjalti Skeggjason kom úr utanferð sinni, er óvíst.[1])

Sighvatur Þórðarson var eflaust einhver hinn langmerkasti Íslendingur, sem nokkru sinni var með Ólafi konungi Haraldssyni. Hann var frá Apavatni í Grímsnesi og fór utan sumarið 1015, er hann var rjett fyrir innan tvítugt. Hann fór þá á fund Ólafs konungs og fjekk konungur skjótt mætur á honum, því að hann var lipur og háttlaginn og ágætt skáld. Hann var einn af þeim Íslendingum, sem konungur spurði mest af Íslandi og talaði mest við. Þeir sögðu honum frá hinum helstu höfðingjum, er þá voru á Íslandi; er varla efi á því, að Sighvati hefur verið kunnugt um Hjalta Skeggjason og ráðið konungi að snúa sjer til hans.[2]) Enn fremur mundu ýmsir menn í Noregi eptir Hjalta, síðan hann var þar með Ólafi Tryggvasyni, og fylgi hans við kristnina var þá mörgum kunnugt.

Það segir eigi hvers vegna konungur boðaði Hjalta á fund sinn, en aðalerindið hefur eflaust verið að ræða við hann um kristnihaldið á Íslandi. Hjalti fór utan 1018 að orðsendingu konungs og tók konungur vel við honum; bauð hann honum að vera með sjer og vísaði honum til sætis hjá Birni stallara. Gerðist brátt góður fjelagsskapur á milli þeirra, og fór Hjalti um haustið með honum til Svíþjóðar til þess að leita um sættir við Ólaf Eiríksson, Svía konung. Það var hættuför mikil, því að Ólafur sænski var svo reiður nafna sínum, að hann mátti eigi heyra hann nefndan, og því síður að hann vildi viðurkenna hann sem konung í Noregi. Þeir Björn og Hjalti fóru því fyrst á fund Rögnvalds jarls Úlfssonar á vestra Gautlandi og Ingibjargar Tryggvadóttur og báru þeim jarteinir konungs. Ingibjörg þekti Hjalta síðan hann var með bróður hennar og tók hún honum mjög vel og studdi erindi þeirra sem best við jarlinn.

---

[1]) Íslb. 7,12; Hkr. II, 60/87; Ól. s. s. 46/46. [2]) Hkr. II, 43/61—64, 58/82.

Um veturinn bauðst Hjalti til þess að fara á fund Svía konungs, því að „ek em ekki norrænn maðr: munu Svíar mér engar sakir gefa". Með Svía konungi voru þá tveir íslenskir menn í góðu yfirlæti, skáldin Gissur svarti og Óttar svarti. Þeir voru kunningjar Hjalta. Hjalti fór líka með orð og jarteinir frá Ingibjörgu til Ingigerðar konungsdóttur um að hún skyldi leggja allan hug á um erindi hans og að greiða fyrir honum. Þá er Hjalti kom til Upsala, fann hann brátt skáldin, og urðu þau honum fegin. Þeir Gissur svarti gengu með honum fyrir konung og sögðu honum hver Hjalti var og báðu hann fagna honum. Konungur bað þá hafa Hjalta í sveit með sjer og gerðist hann þá brátt málkunnugur konungi, því að skáldin sátu opt frammi fyrir honum og Hjalti með þeim.

Til þess að vinna hylli konungs færði Hjalti honum að sögn Snorra Sturlusonar landaura frá sjer og öllum skipverjum sínum, er hann kvaðst hafa tekið við, þá er hann hefði komið yfir hafið. Minnti hann konung á að það væru lög milli Íslands og Noregs, að íslenskir menn skyldu gjalda landaura, þá er þeir kæmu til Noregs: kvaðst hann hafa farið á fund konungs að færa honum þá, af því að hann hefði vitað að hann ætti rjettast veldi í Noregi. Hjalti helti þá tíu mörkum silfurs í skaut Gissuri svarta, en konungur þakkaði honum fyrir og bað hann þiggja fje þetta.

Á þennan hátt kom Hjalti sjer í kærleik við konung, en hann gat þó engu á orkað um sættir milli hans og Ólafs Haraldssonar, þótt Ingigerður konungsdóttir styddi mál hans eptir mætti, og feldi þá ást til Noregs konungs.

Það snertir eigi Ísland hvernig sendiferð þessari reiddi af, nema að þeir Björn og Hjalti komu heilir aptur til Noregs, þá er leið á veturinn: hafði Hjalti sæmd af ferðinni, því að hann kom vel fram og viturlega. Hjalti fór til Íslands um sumarið (1019) og leiddi konungur hann í brott með vingjöfum.[1]) en þess getur eigi hvað konungur talaði

[1]) Hkr. II. 68/103—105, 69—72/106—122, 78—80/135—145, 85/160: Ól. s. m. 42—44/29—32: Ól. s. s. 46/46, 51—52/51—55, 54—55/56—59, 62—65/64—69, 70/76.

við hann um kristnina á Íslandi nje annað, er landið snerti. Á þessum árum sendi Ólafur konungur Bjarnharð biskup hinn bókvísa til Íslands, og er eðlilegast að ætla að hann hafi látið hann fara með Hjalta [1])

En Ólafur konungur Haraldsson var óþreytandi og hann hugsaði um margt annað en kristnina. Hann gerði Orkneyjajarla sjer skattskylda, en þeir höfðu eigi greitt skatt um hríð. Hann sendi orð til Færeyja, Íslands og Grænlands og gjörði sjer marga vinveitta í eylöndum þessum.

Þá er Íslendingar höfðu breytt lögum sínum og sett kristinn rjett, eptir því sem Ólafur konungur hafði sent þeim orð um, sendi hann kirkjuvið til Íslands og var af honum gjörð kirkja á Þingvelli; var það fyrsta kirkjan á alþingisstaðnum. Einnig sendi hann með kirkjuklukku mikla og var hún enn í Þingvallakirkju á 13. öld. Þá er landsmenn urðu þess varir, hve konungur var þeim vinveittur, fóru ýmsir metorðamenn af Íslandi á fund hans og gerðust honum handgengnir. Einn þeirra var Þorkell Eyjólfsson. Ólafur konungur sendi einnig ýmsum höfðingjum á Íslandi vingjafir, en þeir sendu honum þá hluti, er fengust á Íslandi og þeir væntu. að honum mundi helst þykja sending í.[2])

Viðskipti Íslendinga og Noregs konungs og Norðmanna voru þá svo mikil að konungi þótti nauðsyn á að ákveða nákvæmlega um rjett Íslendinga í Noregi og skyldur, og um rjett konungs og þegna hans á Íslandi. Hvort nokkur lagaákvæði hafa verið til um þetta áður, er nú eigi fullkunnugt. En Íslendingar áttu að gjalda landaura í Noregi, en þar galst sundum meira en stundum minna.[3]) Einnig kom stundum upp ágreiningur um, hvort gjalda skyldi landaura eða eigi.[4]) Þetta vildi Ólafur konungur kveða skýrt á um og einnig um rjett Íslendinga í Noregi. Hann gerði því tilskipan um, hvaða rjett þeir skyldu hafa þar í landi. og hann mun einnig

---

[1]) Íslb. 8/12; Hungr. 3/65; Ísl. I, 332 (Skarðsárb.). [2]) Hkr. II, 124/272; Ól. s. s. 113/125. [3]) Íslb. 1/5. [4]) Sbr. Hkr. II, 43/63; Fms. VI, 45/98.

hafa komið því til vegar, að alþingi setti lög um rjett Noregs konungs og þegna hans á Íslandi (um 1022).

Rjettur sá sem konungur gaf Íslendingum var eigi lítill, því að þeir áttu að hafa þar höldsrjett, það er rjett óðalsborinna manna; höldar áttu rjett næst lendum mönnum, en miklu meiri rjett en ættbornir eða árbornir bændur. Íslendingar fengu líka að taka arf eptir frændur sína, sem önduðust í Noregi. Þá áttu þeir að njóta vatns og viðar í Noregi, en þeir máttu þó að eins höggva við þann allan, er þeir vildu, í mörk konungs. Enn fremur fengu Íslendingar rjett til þess að fara til Íslands, nema ef her rjeðist inn í Noreg, og hver karlmaður, heill og hraustur, mátti fara af Íslandi til Noregs, er átti nóg fje til þess að gjalda landaurana. Þeir máttu einnig taka búsetu í Noregi, ef þeir gátu annast ómaga sína og int þá herþjónustu af hendi, sem þeim bar að landslögum, er þeir höfðu sest þar að.

Í stað fyrir rjettindi þessi átti hver frjáls karlmaður íslenskur að gjalda konungi landaura, er hann kom til Noregs, en enga aðra tolla átti hann að gjalda þar, nema varðmönnum í kaupangum. Landauragjaldið var nú ákveðið hálf mörk silfurs, átta lóð, eða sex feldir og sex álnir vaðmála. Konur áttu eigi að gjalda landaura og eigi þeir menn, er konungur tæki undan. Ef Íslendingar greiddu landaura í Orkneyjum eða á Hjaltlandi á leiðinni til Noregs, þurftu þeir eigi að gjalda landaura, er þeir komu til Noregs, nema þeir færu til Íslands á milli. Menn voru eigi heldur skyldir að gjalda landaura, ef þeir urðu fyrir fjártjóni svo þeir áttu eigi nóg fyrir þeim öllum, nje heldur ef menn urðu sæhafa til Noregs, er þeir ætluðu til Grænlands eða í landaleitan, eða hafna í milli á Íslandi.

Enn fremur áttu Íslendingar, er þeir voru í Noregi, að fara í ófrið með konungi, þá er óvinaher rjeðst inn í landið og „almenningur var úti,“ en svo var það kallað, er varnarskyldir menn voru af konungs hálfu kvaddir til vopna og landvarnar. Þó voru eigi allir Íslendingar skyldir að fara, heldur skyldi „eptir sitja hinn þriðji hver, en tveir fara,“ og mun eiga að skilja þetta svo, að tveir af

hverjum þremur skyldu fara með konungi, en þriðji hver þeirra vera laus við herþjónustu, svo að hann gæti farið ferða sinna óhindraður og annast skip þeirra og vörur, eða siglt til Íslands. Einnig er það tekið fram, að Íslendingar voru skyldir að verja Noreg með konungi, en eigi að fara til lengri herferða. Ef konungur ætlaði í leiðangur til annara landa, voru Íslendingar eigi skyldir að fara með honum.

Rjettur Noregs konungs á Íslandi var ákveðinn sá, að sökum hans skyldi vera sjálfstefnt; þær skyldi sækja að lögum landsmanna. Menn hans skyldu hafa sömu lög og rjett sem landsmenn. Arf eptir Norðmenn átti að taka á Íslandi frændi hans eða fjelagi. En ef þeir voru eigi til, átti að bíða eptir erfingja og afhenda arfinn, er hann kæmi.[1])

Því miður segir eigi hvernig lög þessi eru til orðin, en þau eru nokkurs konar samningur milli Noregs konungs og Íslendinga. Líklega hefur konungur eigi verið ánægður með að fá þessu miklu rjettindi af hendi Íslendinga, því að hann vildi fá þá til þess að játast undir yfirráð sín.

Með Ólafi konungi var stundum Íslendingur einn af Norðurlandi, sem hjet Þórarinn Nefjólfsson. Hann var farmaður. Hann var vel viti borinn og mjög orðspakur, og einnig var hann djarfmæltur við tigna menn. Þennan mann bað konungur um að flytja Hrærek konung af Upplöndum til Grænlands eða Íslands og selja þar í hendur höfðingja einhverjum til varðveislu, en Þórarinn bað konung hirðvistar, og gerði konungur hann þá að hirðmanni sínum (1019). Þórarinn tók land það sumar í Breiðafirði, og seldi hann Þorgilsi Arasyni Hrærek í hendur og var hann með honum um veturinn (1019—1020). En Hrærekur konungur undi þar eigi og ljet Þorgils þá fylgja honum að bæn hans til Guð-

[1]) Grág.b I, 195—197, sbr. III, 463—466; Dipl. I, 53—54, 64—70. Sbr. B M. Ólsen, Runerne i den oldisl. literatur, bls. 129—140, og B. Th. Melsteð, Þættir úr Íslendínga sögu, bls. 122—26; K. Maurer, Altnorwegisches Staatsrecht, bls. 366 o. ef.

mundar hins ríka. Þar var hann einn vetur, en undi eigi lengur. Þá fjekk Guðmundur honum vist á litlum bæ, Kálfskinni á Árskógsströnd í Eyjafirði, og var þar fátt hjóna. Þar undi Hrærekur vel, því að þar var hann af öllum mest metinn. Hann andaðist sumarið eptir (1022).[1]

Ólafur konungur fjekk síðan svo mikið traust til Þórarins Nefjólfssonar, að hann sendi hann sumarið 1024 til Íslands með erindum sínum. Konungur var þá í Þrándheimi og urðu þeir Þórarinn samferða þaðan suður á Mæri, nokkru fyrir sunnan Þrándheimsfjörð. Þaðan sigldi Þórarinn á haf og fjekk svo mikið hraðbyri, að hann sigldi á átta dægrum til þess, er hann tók Eyrar á Íslandi. Hann fór þegar til alþingis og kom þar, er menn voru að Lögbergi. Hann gekk þegar þangað, og er menn höfðu mælt þar lögskil, tók Þórarinn til máls:

„Ek skildumk fyrir fjórum nóttum við Ólaf konung Haraldsson; sendi hann kveðju hingat til lands öllum höfðingjum ok landsstjórnarmönnum ok þar með allri alþýðu karla ok kvenna, ungum manni ok gömlum, sælum ok veslum, guðs ok sína ok þat með, at hann vill vera yðarr dróttinn, ef þér vilið vera hans þegnar, en hvárir annarra vinir ok fulltingismenn til allra góðra hluta".

Menn svöruðu vel máli hans; kváðust allir það fegnir vilja, að vera vinir konungs, ef hann væri vinur landsmanna. Þá tók Þórarinn til máls:

„Þat fylgir kveðjusending konungs, at hann vill þess beiðask í vináttu af Norðlendingum, at þeir gefi honum ey eða útsker, er liggr fyrir Eyjafirði, er menn kalla Grímsey; vill þar í móti leggja þau gæði af sínu landi, er menn kunna honum til at segja; en sendi orð Guðmundi á Möðruvöllum til at flytja þetta mál, því at hann hefir þat spurt, at Guðmundr ræðr þar mestu".

Guðmundur svaraði: „Fúss em ek til vináttu Ólafs kon-

---

[1]) Hkr. II, 85/156—160, sbr. 118/253 og 119/254—257 um Þórarin Nefjólfsson.

ungs, ok ætla ek mér þat til gagns miklu meira en útsker þat, er hann beiðisk til; en þó hefir konungr þat eigi rétt spurt, at ek eiga meira vald á því en aðrir, þviat þat er nú at almenning gört Nú munu vér eiga stefnu at vár á milli, þeir menn, er mest hafa gagn af eyjunni".

Eptir það gengu þeir til búða, og Norðlendingar áttu stefnu milli sín og ræddu þetta mál. Lagði þá hver til slíkt, er sýndist. Guðmundur var flytjandi þessa máls, og sneru þar margir aðrir eptir því. Þá spurðu menn, hví Einar bróðir hans ræddi ekki um; „þykkir oss hann kunna flest glöggst at sjá". Einar svaraði:

„Því em ek fáræðinn um þetta mál, at engi hefir mik at kvatt; en ef ek skal segja mína ætlan, þá hygg ek, at sá myni til vera hérlandsmönnum, at ganga ekki undir skattgjafar við Óláf konung ok allar álögur hér þvílíkar, sem hann hefir við menn í Nóregi; ok munu vér eigi þat ófrelsi gera einum oss til handa, heldr bæði oss ok sonum várum ok allri ætt várri, þeiri er þetta land byggir; ok mun ánauð sú aldrigi ganga eða hverfa af þessu landi; en þótt konungr sjá sé góðr maðr, sem ek trúi vel at sé, þá mun þat fara heðan frá sem hingat til, þá er konungaskipti verðr, at þeir eru ójafnir, sumir góðir, en sumir illir. En ef landsmenn vilja halda frelsi sínu, því er þeir hafa haft, síðan er land þetta byggðisk, þá mun sá til vera, at ljá konungi enskis fangstaðar á, hvárki um landaeign hér né um þat, at gjalda heðan ákveðnar skuldir, þær er til lýðskyldu mega metask; en hitt kalla ek vel fallit, at menn sendi konungi vingjafir, þeir er þat vilja, hauka eða hesta, tjöld eða segl, eða aðra þá hluti, er sendiligir eru; er því þá vel varit, ef vinátta kemr í mót. En um Grímsey er þat at ræða, ef þaðan er engi hlutr fluttr, sá er til matfanga er, þá má þar fæða her manns, ok ef þar er útlendr herr ok fari þeir með langskipum þaðan, þá ætla ek mörgum kotbóndunum munu þykkja verða þröngt fyrir durum".

Þegar er Einar hafði þetta mælt og int allan útveg þennan, þá var öll alþýða snúin með einu samþykki, að

þetta skyldi eigi fást. Og Þórarinn sá þá erindislok sín um þetta mál.

Daginn eptir gekk Þórarinn til Lögbergs og bar helstu höfðingjum landsins, Guðmundi Eyjólfssyni, Snorra goða, Þorkeli Eyjólfssyni, Skapta lögsögumanni og Þorsteini Hallssyni, orð konungs um að þeir færu á fund hans og sæktu þangað vináttuboð; „mælti hann þat, at þér skylduð þessa ferð eigi undir höfuð leggjask, ef yðr þætti nokkuru varða um hans vináttu“. Þeir þökkuðu boð konungs og kváðust mundu segja Þórarni síðar um ferðir sínar, er þeir hefðu ráðið fyrir sjer um þær og við vini sína.

En er höfðingjarnir ræddu þetta, latti Snorri goði og Skapti þess, að leggja á þá hættu við Noregsmenn, að allir þeir menn, er mest rjeðu fyrir landinu, færu í einu af Íslandi til Noregs; sögðu þeir þetta grunsamlegt. Guðmundur ríki og Þorkell Eyjólfsson fýstu mjög að skipast við orðsending konungs og kölluðu það sæmdarferð mikla mundu. En það staðfestist helst með þeim, að þeir sjálfir skyldu eigi fara, en hver þeirra skyldi gera mann af sinni hendi, þann er þeim þætti best til fallinn.

Þórarinn fór utan um sumarið og kom um haustið á fund Ólafs konungs og sagði honum sitt erindi, slíkt er orðið var, og að höfðingjar eða synir þeirra mundu koma af Íslandi.[1])

Það var vel ráðið og viturlega af Snorra goða og Skapta, að fara eigi á fund Ólafs konungs, því að varla getur efi leikið á því, að þeir hefðu orðið að sæta hörðum kostum af honum, ef þeir hefðu eigi viljað gangast undir skattskyldu við hann. En sumarið eptir sendu höfðingjar þessir menn til konungs og þá kom í ljós, hvað hann vildi.

Skapti ljet Stein son sinn fara, Snorri Þórodd son sinn, Þorkell Gelli son sinn og Þorsteinn Síðu-Hallsson Egil bróður sinn. Af hendi Guðmundar kom enginn, því að hann hafði andast um veturinn.

Konungur tók vel við Íslendingum þessum og voru þeir

---

[1]) Hkr. II. 125—126/273—287.

allir með honum um veturinn.[1]) Sumarið eptir báðu þeir konung um heimfararleyfi, en hann sendi þá Gelli til Íslands með erindi sín (1026), en hinum bannaði hann að fara fyr en hann spyrði, hvernig þeim málum yrði tekið, er Gellir skyldi bera upp.

Gellir fór síðan til Íslands um sumarið og flutti orðsendingar konungs á alþingi árið eptir (1027). En orðsending konungs var sú, að hann bað Íslendinga, að þeir skyldu taka við þeim lögum, sem hann hafði sett í Noregi, en veita honum af landinu þegngildi og nefgildi, penning fyrir nef hvert, þann er tíu væri fyrir alin vaðmáls. Það fylgdi þessu, að hann hjet mönnum vináttu sinni, ef þeir vildu játa þessu, en ella afarkostum, er hann mætti því við koma. Yfir þessu tali sátu menn lengi og rjeðu um sín í milli. Að lyktum urðu allir á það sáttir, að neita skattgjöfum og öllum álögum, þeim er krafið var.

Eptir þing fór Gellir utan um sumarið á fund Ólafs konungs; hitti hann konung um haustið austur í Vík og sagði honum, hvernig farið hefði um erindið.[2])

Ólafur konungur Haraldsson varð að láta sjer lynda svar alþingis, því að hann fjekk nú annað við að eiga, og fjekk hann eigi komið vilja sínum fram á Íslandi. En Íslendingum, einkum þeim Steini Skaptasyni og Þóroddi Snorrasyni, þótti ill seta sín og ófrelsi í Noregi. Þeir voru óvarmæltir og ámælti Steinn konungi bæði í sundurlausum orðum og samföstum. Það barst konungi til eyrna og reiddist hann. Steinn var metnaðarfullur, og vel að sjer gjör um íþróttir; en svo lauk veru hans hjá konungi, að hann hljóp á brott og drap einn ármann konungs; komst hann vestur til Englands og á fund Knúts hins ríka.[3]) Þóroddur Snorrason tókst á hendur fyrir konung að fara austur á Jamtaland og heimta skatt (veturinn 1026—1027). Það var hin mesta hættuför, því að Jamtar voru vanir að drepa slíka sendi-

[1]) Hkr. II, 129/281. [2]) Hkr. II, 136/307—309, 159/379. [3]) Hkr. II, 138/311—320.

menn konungs. Þóroddur fór við tólfta mann, en komst af með annan mann aptur til Noregs og var með konungi það sem eptir var vetrar. Um sumarið fjekk hann að fara til Íslands og skildu þeir konungur þá með vináttu (1027). Aptur á móti var Egill Hallsson með konungi í leiðangrinum móti Knúti hinum ríka og kom hann miklu síðar til Íslands.[1])

[1]) Hkr. II, 141/328—337, 155/374—375.

# MANNANÖFN.

## Skammstafanir

(sjá I, 333—335).

— —

Ágr.[2] = Ágrip af Noregs konunga sögum. Kbhvn. 1880.
Alv. = Alvíssmál.
Atlm. = Atlamál in grænlensku.
Baldrs dr. = Baldurs draumar.
Band. = Bandamanna saga. Kbhavn. 1850.
Band.[2] = Bandamanna saga. Lund 1874.
Bárð. = Bárðar saga Snæfells áss, Víglundar saga og Þórðar saga. Kbhavn. 1860.
Bjarn. (eða Bj. Hít.) = Bjarnar saga Hítdælakappa. Halle a. S. 1893.
Bj. r. = Bjarka rímur. Kbhavn. 1904, sjá Hr. kr.
Brandkr.[2] = Brandkrossa þáttur (í Austfirðinga sögum. Kbhvn. 1902—1903).
Dropl.[2] = Droplaugarsona saga (Austfirðinga sögur. Kbhvn. 1902—1903).
Dr. Þorst. = Draumur Þorsteins Síðu-Hallssonar (Austfirðinga sögur. Kbhavn. 1902—1903).
Eirsp. = Eirspennill = Konunga sögur. Sagaer om Sverre og hans Efterfölgere. Christiania 1873.
E Sn. = Edda Snorra Sturlusonar. Reykjavík 1907.
Fáfn. = Fáfnismál.
Fjölsvm. = Fjölsvinnsmál.
40 Ísl þ. = Fjörutíu Íslendinga þættir. Reykjavík 1904.
Frís. = Codex Frisianus. Christiania 1871.
Fsk.[2] = Fagrskinna. Nóregs konungatal. Kbhavn. 1902—1903.
Gísl. I (eða Gísl. m.) = Gísla saga Súrssonar, skemri sagan.
Gísl. II (eða Gísl. st.) = Gísla saga Súrssonar, meiri sagan (= Tvær sögur af Gísla Súrssyni).
Gísl.[2] (eða' Gísl.) = Gísla saga Súrssonar. Halle a, d. S. 1903.
Grím. = Grímnismál.
Gunnl. = Gunnlaugs saga ormstungu (Íslendinga sögur. Kbhavn. 1847).
Gunn. s. = Gunnars saga Þiðrandabana (Austfirðinga sögur. Kbhavn. 1902—1903).
Gþl. = Gulaþingslög (Norges gamle Love).
Háv. = Hávamál.

Háv. (Ísf.) = Hávarðar saga Ísfirðings. Kbhavn. 1860.
Hákm. = Hákonarmál í Hkr. I, 219—222.
Hárb. = Hárbarðsljóð.
Heið. = Heiðarvíga saga. Kbhavn. 1904.
Helr. Br. = Helreið Brynhildar.
Hist. Norv. = Historia Norwegiæ (í Monumenta historica Norvegiæ. Christiania 1880).
H. Hund. = Helgakviða Hundingsbana.
Hr. kr. = Hrólfs saga kraka og Bjarkarímur. Kbhavn. 1904.
Hrafnk.[3] = Hrafnkels saga (Austfirðinga sögur. Kbhavn. 1902—1903).
Hyndl. = Hyndluljóð.
Ísl. dr. = Íslendinga drápa Hauks Valdísarsonar. Kiel 1874.
Járn. = Járnsíða eðr Hákonarbók. Havniæ 1847.
Jb. = Jónsbók ok réttarbætr. Kbhavn. 1904.
Jómsv. = Jómsvíkinga saga (Fornmanna sögur XI.)
Jómsv.[2] = Jómsvíkinga saga AM. 291, 4to. Kbhavn. 1882.
Kgsk. = Konungs skuggsjá. Christiania 1848.
Lokas. = Lokasenna.
Oddr = Saga Ólafs konungs Tryggvasonar (AM 310 4to: Fornmanna sögur X).
Oddr[2] = Saga Ólafs konungs Tryggvasonar (Handrit í Stokkhólmi og Uppsölum). Christiania 1853.
Oddr[3] = Saga Ólafs konungs Tryggvasonar (AM. 310, 4to). Christiania 1895.
Ól. s. m. = Ólafs saga hins helga. Christiania 1849.
Olk. þ. = Olkofra þáttr. Halle a. S. 1880.
Reg. = Reginsmál.
Rímnas. = Rímnasafn. Kbhavn 1905.
Rs. = Rafns saga (Sturlunga saga II.).
Saxo = Saxonis Grammatici Historia Danica. Havniæ 1839.
Sigkv. sk. (eða Sig. sk.) = Sigurðarkviða hin skamma.
Sigrdr. = Sigrdrífumál.
Skírn. = Skírnismál.
Skjalded. = Den norsk-islandske skjaldedigtning ved Finnur Jónsson. Kbhavn 1908 o. ef.
Sæm.-e. = Sæmundar edda hins fróða. Udg. af Sophus Bugge. Christiania 1867. Í Eddukvæðin er vitnað eptir þessari útgáfu: vísutala og blaðsíðu
SnE. = Edda Snorra Sturlusonar I—II. Havniæ 1848—1887.
Sn.-e. = Snorri Sturluson, Edda. Kbhavn 1900.
Sturl.[1] = Sturlunga saga eðr Íslendinga saga hin mikla. Kmhöfn 1817—20.
Sturl.[3] = Sturlunga saga. Kbhavn 1906.
Theodric. = Theodricus monachus. Historia de antiquitate regum Norwagiensium (Monum. hist. Norv.).
Vafþr. = Vafþrúðnismál.
Vápn.[2] = Vápnfirðinga saga (Austfirðinga sögur. Kbhavn 1902—3).

Vegt. = Vegtamskviða.
Vsp. = Völuspá.
Vsp. in sk. = Völuspá hin skamma.
Þórð. = Sagan af Þórði hreðu. Kmhöfn 1848.
Þórð. s. hr. = Þórðar saga hreðu (útg. með Bárðarsögu Snæfellsáss). Kbhavn 1860.
Þorst. bm. = Saga af Þorsteini bæjarmagn (Fornmanna sögur III).
Þorst. hv.[2] = Þorsteins saga hvíta (Austfirðinga sögur. Kbhavn 1902—3).
Þorst. Síð. (eða Þorst. S.) = Þorsteins saga Síðu-Hallssonar (Austfirðinga sögur. Kbhavn 1902—3).
Þorst. st. = Þorsteins saga stangarhöggs (Austfirðinga sögur. Kbhavn 1902—3).
Þrkv. = Þrymskviða.

# Prentvillur.

Bls. 18, lín. 6, landsmönnum, les: landsmenn.
— 86, — 8, mynduðust eða geymdust eigi, les: mynduðust eigi eða geymdust.
— 87, — 19, Kumbralandi, les: Kumralandi.
— 89, — 3, þeirri, les: þeirra.
— 93, — 22, æst, les: æðst; sömuleiðis bls. 100, lín. 7.
— 94, — 3, les: Þórr átti hafra tvo, er hjetu.
— 108, — 1 a. n. 183, les: 182.
— 138, — 21—22, les: voru því í fyrstu allar skyldur og rjettindi hjá ættinni eins og áður.
— 139, — 4, ættaus, les: ættlaus.
— 148, — 17, vetrin, les: vetrum.
— 163, — 4 a. n., fyrir, les: af.
— 204, — 4 - -, hundrað, les: hundruð.
— 238, — 22, sínum þeir;, les: sínum; þeir.
— 253, — 6, varð, les: verið.
— 269, — 17, þefta, les: þetta.
— 287, — 20, Vínlendingar, les: Vínlendingur.
— 299, — 13 a. n., vetrar, les: vetur.
— —, — 12 a. n., vetursins, les: vetrarins.
— 370, — 3, Fljótshlíðinni, les: Fellshverfi.
— 477, — 2, Steingrímur, les: Steinþór.